3. Eptir þetta géngu þeir til hesta sinna, ok bundu fjárluti [sína á hest[1] Basins, en Magnús reið jarls hesti, ok Basin þeim sem Karl hafði riðit áðr. Þeir fóru nú til húsa fátœka manns, er þeir höfðu fyrr með verit, ok dvöldust þar um hríð. Geymdi fátœki maðr hesta þeirra ok þinga. Ok er þeir váru mettir, fóru þeir at sofa; fátœki maðr lauk aptr dyrum.[2] [Ok enn[3] vitraðist Magnúsi guðs engill ok mælti viðr hann: Farðu sem skjótast ok hugga móður þína ok systr, þvíat þær eru mjök hryggvar af þínu brotthvarfi. En móðir þín er með barni, þvíat hon varð hafandi[4] nökkuru áðr en faðir þinn andaðist, ok man hon meybarn fœða, ok skal hon Adaliz heita. Ok eptir þat vaknaði hann ok þakkaði guði vitran þessa, ok vakti Basin ok bað þá búast. En hann spurði, hvert þeir skyldu þá fara. Til Peituborgar[5] til móður minnar. Síðan fóru þeir þaðan, ok gáfu fátœka manni mikit af fjárlutunum, ok fóru alla þá nótt. Ok at miðjum degi kómu þeir til borgarinnar ok riðu fram fyrir hallardyrr móður hans, ok stigu þar af hestum sínum. Ok stóð Basin úti ok hélt hestum þeirra, en Magnús gékk inn í höllina til dróttningar, þar sem hon lá. En henni þótti kynligt,[6] hví hann fór einnsaman, ok stóð upp í móti honum ok kysti hann. Síðan settust þau niðr í hvíluna, ok bað hon hann fara af klæðum sínum. Hann bað fyrst láta hesta þeirra á stall ok ganga eptir félaga sínum. En hon bauð Berarði[7] hestasveini sínum geyma hestanna ok varðveita vel. Þá vildi Karl ganga eptir Basin, en dróttning spurði, hverr Basin sá væri. En hann sagði, at hann væri hinn bezti vinr hans. Dróttning bað Huga þjonostumann sinn ganga eptir honum. Ok þá er Basin kom inn, stóð Karl upp í móti honum ok bað hann sitja hjá sér í hvílunni. Dróttning mælti: Er þessi félagi þinn? sagði hon. Já, sagði hann, þessi er minn bezti kumpán ok vinr. Basin mælti: Magnús, sagði hann, skulum vit hér dveljast í nótt? Seg vinr, kvað [hon, gefr þú[8] Karli þetta auknefni? En hann svaraði: Þessa nafns[9] hefir hann allmjök þurft fyrir úvinum sínum, er hann vilja svíkja. En hon spurði hann þá sjálfan, hversu hann yrði þess víss? En hann svaraði: Með guðs miskunn, þvíat engill hans bauð mér at stela með Basin þjóf. En hon varð felmsfull viðr þetta, ok spurði, ef hann væri kristinn. En hann kvazt vera skírðr en eigi byskupaðr. Ok er hon heyrði þat, þá sendi hon þegar menn til Trevisborgar[10] eptir Rozeri erkibyskupi, at hann skyldi koma til móts viðr hana. Ok þá er erkibyskupinn kom, varð hann feginn aptrkvámu Karls. Dróttning mælti við erkibyskup: Því senda ek eptir yðr, herra, at ek vilda,

[1]) [á bak *b.* [2]) durum *b.* [3]) [þá *b.* [4]) at því *tilf. b.* [5]) *saal. b;* Pettisborgar *B.* [6]) undarligt *b.* [7]) Berarin *b.* [8]) [dróttning, gaftu *b.* [9]) þetta nafn *b.* [10]) Triverisborgar *b.*

at þér fermdit Karl son minn ok snerit nafni hans. Erkibyskupinn sagði svá vera skyldu með guðs vilja. Skrýddist hann þá þegar svá sem til messu, ok spurði síðan, ef hann skyldi Karl heita. Hon sagði hann með því skírðan hafa verit, en þeir Basin hafa nú snúit nafni hans ok segja hann nú Magnús heita. Erkibyskup mælti: Vel má hann nú[1] Karlamagnús heita. Ok fermdi hann síðan meðr þessu nafni ok blezaði.

4. Nú eptir þessa luti fylda géngu þau á eintal Rozer erkibyskup ok dróttning ok Karlamagnús, ok þá mælti dróttning: Ljúfi son, sagði hon, nú heitir þú með guðs vilja Karlamagnús; seg nú mér ok herra erkibyskupi, hvar þu hefir verit um hríð. Hann hóf þá upp alla sögu ok segir alt um sína farlengd, svá sem verit hafði. En dróttning bað hann senda eptir Namlun. En hann svaraði því, at hann vildi engan mann láta þat vita, at hann var þar kominn. En erkibyskup sagði, [at hann skyldi[2] þar at sinni á laun vera, ok skal dróttning senda eptir Namlun. Kallar hon[3] þá til sín Jadunet rennara ok bað hann fara meðr bréfi Karlamagnús. En erkibyskup skrifaði bréfit ok setti þar á nöfn allra svikaranna [: Renfrei ok Heldri, Andeals ok Jsinbarðr félagi hans, Segbert, Tankemar ok Tranr, Jugilrafn ok Rozer, Folkvarðr, Rezer ok Vadalin.[4] Karlamagnús spurði, ef Jaduneth væri tryggr, en móðir hans sagði, at eigi mundi annarr maðr[5] tryggvari. Þá tók Karlamagnús bréfit ok innsiglaði meðr fingrgulli Namluns, ok fékk síðan rennaranum bréfit. En hann fœrði[6] Namluni ok Drefiu, ok bað þá fara sem tíðast á fund erkibyskups ok dróttningar. En þá er Namlun sá ritit, kendi hann innsiglit ok braut síðan upp bréfit. Ok er hann sá nöfn svikaranna, þótti honum mjök undarligt, at þeir skyldu vilja svíkja hann, sem[7] faðir hans hafði gert ríka menn.

5. Ríða þeir síðan til Peituborgar ok fundu þar Karlamagnús, ok géngu þeir þegar á einmæli, ok Rozer erkibyskup ok dróttning, ok spurði Karlamagnús þá þau öll samt,[8] hversu hann skyldi þá breyta um ríkisstjórn eptir föður sinn. Þá mælti erkibyskup, at hann skyldi senda eptir Videlun af Bealfer föður Namluns ok jarlinum Hatun, þeir eru œztir höfðingjar af Almannia, vitrir menn ok heilráðir. Bauð erkibyskup[9] Karlamagnúsi at fara þessa ferð, en hann sagðist þat gjarna vilja, ok bjóst erkibyskup í stað ok reið síðan til Prumensborgar. Ok váru þeir þar báðir fyrir hertoginn ok jarlinn, [ok váru báðir[10] hugsjúkir um Karl lávarð sinn ok systr hans ok dœtr sínar meðr þeim, er þeir þóttust þá náliga tapat hafa. En meðan

[1]) ok *tilf.* *b.* [2]) [hann skyldu *b.* [3]) *saal.* *b*; hann *B.* [4]) [þeirra sem fyrr váru nefndir *b.* [5]) vera *tilf.* *b.* [6]) þat *tilf.* *b.* [7]) er *b.* [8]) saman *b.* [9]) hann þá *b.* [10]) [mjök *b.*

þeir rœddust þetta við, kom Rozer erkibyskup, ok var þeim mikill fagnaðr í hans þarkvámu, ok stóðu upp í móti honum ok mintust við hann; [settust síðan niðr allir saman, ok spurði[1] Hatun jarl, hvaðan kómu þér til, herra? sagði hann. Erkibyskup svaraði: Ek kom af Peituborg frá dróttningu Bertu ok Karli syni hennar, ok þau sendu yðr guðs kveðju ok sína, ok báðu þess, at þit[2] skyldut til þeirra koma sem skjótast. Þeir urðu þessum tiðendum fegnir ok fóru í stað ok kómu á fund Karlamagnús, ok varð þar mikill fagnafundr meðr þeim, mintust þeir [ok báðir við Basin eptir boði Karlamagnús.[3]

6. Síðan géngu þau öll í eitt herbergi, þá mælti Karlamagnús: Ek em nú vel kristinn ok heiti ek Karlamagnús, þvíat ek var meðr því byskupaðr, ok vil ek at þér vitit þat. En nú bið ek yðr, at þér séð vinir Basins. Ok þeir hétu því allir. Þá tók Namlun bréfit ok fékk erkibyskupi, ok bað hann lesa. Ok hann gerði svá, ok nefndi þá alla á nafn er svíkja vildu Karlamagnús, ok svá hversu þeir ætluðu hann af [lífi at taka.[4] Öllum þeim þótti þetta undarligt, er þessir menn vildu svíkja hann, er honum áttu beztir at vera. Hatun jarl spurði, hversu hann varð þessa víss. En hann svaraði: Með guðs miskunn, kvað hann, ok meðr brögðum Basins. Ok sagði þá allan atburð, hversu[5] þeir fóru at stela, ok hversu þeir urðu vísir, at þeir höfðu látit gera 12 knífa at drepa hann með, Renfrei skyldi vera konungr yfir Vallandi. Þá spurði Videlun: Munu þeir nökkurn kost eiga undan at fœrast. Karlamagnús kvað þá engan kost eiga[6] á því, þvíat sjálfir dœmdu þeir sik. Lávarðr, sagði hann, hversu vartu þessa víss? Af konu Renfrei, kvað hann, hon mælti móti, en hann varð reiðr ok laust hana hnefa sínum á tenn henni,[7] svá at blœddi, en ek tók blóðit ok lét ek í glófa minn af hœgri hendi. En þá er ek fór brott, tók ek hest hans, svá at hann sá á sjálfr, en þat vissi hann eigi, hverr tók. Þá spurði Namlun, hvárt þeir mundu í gegn ganga. Karlamagnús kvað þá eigi dylja mega, fyrir því, sagði hann, at þá er ek kem í Eiss at láta kóróna mik, ok lið mitt er þar komit, ok ek sit í hásæti í höll minni, þá koma þeir allir til mín sem í hlýðni, svá sem við föður minn, ok ætla þá til mín at ráða, er ek em einnsaman ok lið mitt er brottu frá mér, en þeir hafa lið mikit meðr sér. Namlun mælti: Ráð verðu vér hér móti[8] setja. Basin mælti: Ek man ráða yðr heilt, gerit eptir öllum höfðingjum þeim sem í yðru ríki eru, ok látit þá hér koma með miklu liði hvern þeirra, ok gerit síðan[9] ráð allir saman.

1) [þá mælti *b*. 2) þér *b*. 3) [báðir við Karlamagnús eptir boði hans *b*. 4) [*saal. b*; lifa *B*. 5) þá er *b*. 6) skyldu *tilf. b*. 7) hennar *b*. 8) at *tilf. b*. 9) yðart *b*.

Namlun sagði þat gott ráð, ok er [gott um örugt at búa. Karlamagnús spurði, hverjum fyrst skyldi bjóða.[1] En erkibyskup nefndi þar til Milonem páfa ok rómverskan lýð með honum. Namlun spurði: Nær vili þér [láta vígjast,[2] herra? sagði hann. Karlamagnús svaraði: Á[3] þriggja missara fresti, sagði hann, á hvítasunnudegi, ef guð lofar ok yðr þikkir þat fallit vera, þvíat þá er [nóg stund[4] eptir liði at senda, eða hvern skal ek senda til Rómaborgar at kalla til vár[5] páfann ok Rómverja? Rozer erkibyskup bauzt til þeirrar ferðar. Karlamagnús þakkaði honum, ok bað hann bjóða öllum lendum mönnum sínum þangat at fara, bið koma Ranzeon af Vizstur,[6] hann er ágæztr[7] af mínum vinum, Huga af Langbarðalandi, Peuin[8] ok Marter af Bonifatius borg ok Huga af Moren, ok Milon hertoga af Pul, ok Maurum af Mundio, Gimen ok Toteam,[9] Drefi[10] konung af Petturs[11] borg, Herburt sterka af Burgoins[12] ok Vildimer[13] bróður hans, Bjarnarð[14] jarl af Markun[15] ok Huga bróðurson hans, Vilhjálm jarl af Clerimunt[16] ok Estvendil[17] jarl. Bið þá [svá koma[18] með liði ok vápnum, sem þeir skuli 7 vetr[19] samt berjast. Erkibyskup [spurði, hvert þeir skyldu koma? Til Eiss segir hann. Þá[20] spurði Karlamagnús, hvern hann skyldi senda til Bretlands. En Basin bauzt[21] at fara. Þá nefnir Karlamagnús höfðingja til ferðarinnar: fyrstan Geddon af Brettollia, ok Jui[22] son hans, ok Theobaldus brœðrungr[23] hans, ok Hoel jarl af Hontes,[24] [Heimir hertogi[25] af Angels, Jofreyr jarl af Suz ok Valtir jarl af Beis[26] borg, Rozer jarl af Andror,[27] [Bernarðr af Gunels[28] bœ, Tebun af Mansel, ok Balduini frændi[29] hans, Roser af Orliens, Vaduin af Beðuers, Guazer af Terus ok Venelun, Hugi hertogi,[30] Folkvarðr[31] af Pirapont, Rozer af Nido, Sebert af Brittollia, Rozalin af Bialfer ok Rikarðr gamli[32] af Norðmandis ok jarl af Akrsborg, Saer hertogi[33] af Romenia ok Konstantinus af Dullo, Varin af Poer ok Beluin jarl af Flæmingjalandi, Jngelrafn af Rodenborg, Tankemar Veisus[34] ok Tanier bróðir hans, ok Vazier af Holandi, Reimbaldr fríski ok Löðver af Uterkr,[35] Folkuini[36] af Testanbrand, Geirarðr af Homedia, Rozer jarl ok Geirarðr jarl af Drefia, Rensalin jarl af Rasel[37] ok Herfi hertogi af Kolni,

1) [um örugt bezt at binda(!) *b.* 2) [kórónast láta *b.* 3) At *b.* 4) [nógr tími *b.* 5) mín *b.* 6) Vizir *b.* 7) ágætastr *b.* 8) Peum *b.* 9) Roceam *b.* 10) Drefa *b.* 11) Petra *b.* 12) Burgonia *b.* 13) Vallimar *b.* 14) Bjarna *b.* 15) Malkun *b.* 16) Olerimunt *b.* 17) Ostoendis *b.* 18) [hér koma *b.* 19) ár í *b.* 20) [*tilf. b.* 21) bauð *b.* 22) Jun *b.* 23) Theobaldum brœðrung *b.* 24) Hantes *b.* 25) [Hænin hertoga *b.* 26) Boris *b.* 27) Andros *b.* 28) [Bernard af Gimels *b.* 29) Baldvina frænda *b.* 30) Huga hertoga *b.* 31) Folkvarð *b.* 32) Richarð gamla *b.* 33) hertoga *b.* 34) Veisu *b.* 35) Utrekt *b.* 36) Folkvarð *b.* 37) Tasel *b.*

Hollonin[1] jarl af Jmlla,[2] ok Bartholemeus jarl ok Gillibert jarl af Kasena, Vazalin jarl af Trekt, ok Herman jarl af Los, Renfrei af Tunger ok Helldri bróðir hans, Reiner jarl af [Brusalz af Lofagio, hertoginn[3] af Lens, Friðmundr[4] ok Talmer bróðir[5] hans, Markis[6] af Tabar, Vazalin af Flecken[7] ok Folkvin jarl af Kretest, Jofreyr jarl af Thuns[8] ok Vigardr jarl af Dyrbo, Reinir af Fialli ok Erpes[9] jarl af Eysu,[10] Balduini[11] jarl af Vino, Arnulfus af Blancea, Sæuini[12] jarl af Dara[13] ok Fulbert jarl af Tangber,[14] Philippus af Misera [frændi hans, Roðbert[15] af Klerimunt ok Lambert af Munfort, Reimundr[16] af Tolosa, Rikarðr[17] jarl af Provinzia, Geirarðr gamli af Rosilia ok Fremund gamli af Rauðafjalli, Engiler af Gastun,[18] [Jfori ok Jvi, Boui hinn skegglausi[19] ok Landres hertogi af Anzeis, Varun jarl af Means, Segbert af Salernisborg ok Anzeals af Hoenborg, Jsenbarðr[20] af Trifers.[21]

7. Karlamagnús bað nú erkibyskup gera bréf ok nefna alla þessa menn, ok svá at Milon páfi skyldi erkibyskupa ok ljóðbyskupa[22] láta þangat koma ok alla Rómverja sterkliga búna, þvíat ek þarf nú liðveizlu þeirra, ok ef guð vill mik hefja, þá skal ek hefja helga kristni ok efla fátœka byskupstóla, ok klerka hans [þá er hann vill[23] skal ek gera kappa mína ok kapalína í Vallandi. Karlamagnús bað[24] setja kveðju á öll bréfin ok vináttumál[25] mikil, ok bið [at þeir komi allir[26] til mín at öðrum hvítasunnudegi, svá búinn hverr sem bezt má at liði, vápnum ok klæðum, ok vil ek þá vera kórónaðr [til konungs.[27] En erkibyskup gerði bréfin svá sem hann bað, ok setti nöfnin öll á. En þá er ger váru bréfin, bað erkibyskup hann innsigla, ok váru innsigluð öll með innsigli dróttningar ok fingrgulli Namluns. Tók erkibyskup síðan þau er hann skyldi hafa með sér ok geymdi, en Basin þau sem honum heyrðu til. Þá bauzt[28] Namlun at fara til Saxlands, en Karlamagnús vildi þat eigi. Þa bauð [Drefja at fara,[29] en hann kvað þá heima skyldu vera báða at varðveita systr hans, en [ek veit[30] eigi, sagði hann, hvern ek skal þangat senda. En Hatun bað hann senda eptir Gerarði af Numaia, hann er góðr riddari ok vitr[31] maðr ok vin þinn. En Namlun kvað því[32] vel ráðit, ok svá var gert, ok kom hann. Eptir þat sendi dróttning Jadunech

1) Hervin *b.* 2) Juilla *b.* 3) [Brusial, hertogann *b.* 4) Fridmund *b.* 5) bróður *b.* 6) Marskes *b.* 7) Fleskin *b.* 8) Chims *b.* 9) Apes *b.* 10) Eisu *b.* 11) Baldvina *b.* 12) Sævina *b.* 13) Vara *b.* 14) Langber *b.* 15) [ok Rodbert frænda hans *b.* 16) Reimund *b.* 17) Rikarð *b.* 18) Gaskun *b.* 19) [Jva ok Jvore, Bova hinn skegglausa *b.* 20) Jsenbarð *b.* 21) Trivers *b.* 22) lýðbyskupa *b.* 23) [*mgl. b.* 24) hann *tilf. b.* 25) vináttuorð *b.* 26) [þá koma alla *b.* 27) [ok til konungs vígðr *b.* 28) bauð *b.* 29) [*saal. b*; Dref *B.* 30) [þó veit ek *b.* 31) trúr *b.* 32) þat *b.*

rennara til Puleis[1] borgar með bréfum. Fór hann ok fram kom, fann [hertogann heima[2] ok fékk honum bréfit. En hann lét[3] Vilbald kapalín sinn ráða. En þat hljóðaði svá: Karl Pippins son ok Berta dróttning senda kveðju guðs ok sína Frera erkibyskupi ok Herfa[4] bróður hans frændum sínum með vináttu. Sú er bœn vár, at þér komit sem skjótast á várn fund [ok verit oss at liði meðr 2 þúsundum, ok svá búnum sem móti heiðnum lýð skuli berjast.[5] Lifit í guðs friði. Hertoginn tók þessu vel, en Freri erkibyskup talaði svá: [Senniliga eigu vér koma,[6] sem Karl beiðir; hann sendir oss orð um 2 þúsundir manna, en vér skulum koma með þremr. En jarlinn sagði, at hann skyldi hafa 40 manna lendra vel búna;[7] hverr þeirra skal hafa annat tveggja val á hendi eða gáshauk eða sparhauk eða af beztum fuglum[8] þrímutaðum, otrhunda fagra, smárakka ok fljóta[9] villisvína hunda. Þá mælti erkibyskup: Ek skal hafa[10] meðr mér 2 byskupa ok 5 ábóta, 15 klerka, ok skulu allir vera fríðir menn ok fagrir, ok halft annat þúshundrat riddara ok alla þjóna þeirra, ok alla hestasveina mína ok [fjóra tigi[11] kertisveina, ok skutilsveina ok[12] vínbyrla ok garðvörðu, ok skal ek hafa allan kostnað sjálfr, svá at Karl skal eigi kosta eitt[13] hestverð. En hertoginn sagði: Vel hefir þú til fundit, ek skal ok hafa hálft annat þúshundrat riddara með alvæpni ok hestum, ok alla þjóna þeirra ok hestasveina ok byrla ok constafla ok bogmenn 10 ok alla veiðimenn mína ok öll kyn af hundum mínum, ok fim leikara þá sem skemta skulu hirðinni ok oss. Ok eptir þetta bjoggu þeir ferð sína, eptir því sem þeir höfðu[14] nú ráð fyrir gert, báðu síðan lifa í guðs friði húsfrúr sínar ok heimamenn, lyptu síðan ferð sinni í veg ok riðu brott, létu nú þeyta lúðra sína, ok fylgðu þeim á leiðina 10 þúsundir riddarar, en af ábótum ok munkum, klerkum ok ungum mönnum ok gömlum kunni engi at telja. En þá er þeir váru komnir fjórar mílur brott af[15] borginni, stöðvaði hertoginn hestana ok bað lýðinn[16] aptr snúa, en sendi hestasveina þeirra[17] at taka þeim herbergi. Erkibyskup sté niðr af sínum hesti ok tók stolam ok kross ok blezaði lýðinn áðr aptr hyrfi, en þeir herbergðu[18] í Mystrs borg. En snemma um morgininn eptir söng erkibyskup messu ok fór síðan til Peituborgar, ok var þar fyrir Karlamagnús ok móðir hans ok alt lið þeirra. En þá var Rozer[19] erkibyskup farinn til Rómam, Basin til Bretlands, en Geirarðr[20] til Saxlands ok Flæmingjalands.

[1]) Paleis *b.* [2]) [*saal. b*; hann *B.* [3]) hét *b.* [4]) hertoga *tilf. b.* [5]) [með tvær þúsundir riddara ok verðit oss at liði, ok verit svá búnir sem berjast skuli móti heiðnum lýð *b.* [6]) [Sannliga eigum vér gera *b.* [7]) [bu(i)nna *b.* [8]) haukum *b.* [9]) fleiri *b.* [10]) *tilf. b.* [11]) [*mgl. b.* [12]) 40 *tilf. b.* [13]) einn(!) *b.* [14]) hafa *b.* [15]) frá *b.* [16]) þá *b.* [17]) sína fyrir *b.* [18]) herbergjuðust *b.* [19]) *tilf. b.* [20]) Girarð *b.*

8. Herfi hertogi ok erkibyskup herbergðust[1] sœmiliga í Peituborg um náttina, ok alt lið þeirra. En um morgininn eptir hlýddu þeir messu, ok bauð hertoginn ok erkibyskupinn öllum sínum mönnum, at þeir skyldu sœmiliga þjóna Karlamagnúsi, ok géngu síðan til þeirrar hallar, sem[2] hann sat í ok Berta dróttning móðir hans ok fjöldi liðs þeirra, kvöddu þeir[3] hertoginn ok erkibyskupinn Karlamagnús sœmiliga ok[4] dróttningina, ok varð þar meðr þeim mikill fagnafundr. En dróttning tók í hönd erkibyskupi, en Karlamagnús[5] í hönd hertoganum, ok settust niðr í svefnhöllinni. En Hatun ok Videlun, Namlun ok Drefia ok byskup af Mystr ok herra Valtir byskup af Jutreitt,[6] ok þeir sem kómu af Saxlandi með erkibyskupi af Kolni, 5 ábótar ok 15 klerkar, géngu allir inn í höllina meðr þeim. Þá mælti erkibyskup: Karlamagnús ok dróttning hafa sent orð, at vér skylim honum at liði verða með 2 þúsundir manna, en vér erum nú komnir með þrjár yðr til sœmdar, ok viljum vér yðr þjóna með öllum várum styrk, fyrir því at þú ert réttr konungr[7] yfir þínum lýð. En dróttning þakkaði honum alla þá sœmd ok virðing, sem þeir veittu Karlamagnúsi hennar syni: En sú er bœn mín til yðar, segir hon, at þér séð honum heilráðir, þvíat þess þarf hann mest. Þá stóðu þeir upp báðir Herfi hertogi ok erkibyskup ok géngu til handa Karlamagnúsi, ok allir þeir menn er inni váru gerðust hans menn, en síðan géngu þeir út í höllina, þar sem riddararnir váru. Ok stóð Karlamagnús upp[8] á einu borði ok fagnaði öllum lýð, er þar var kominn, ok þakkaði þeim öllum góðvilja, er honum sýndu hann. En síðan mælti hann við þá alla saman: Ek vil at þér vitið, at ek em bæði skírðr ok byskupaðr, ok heiti ek nú Karlamagnús; nú vil ek at þér gangit allir senn til handa mér. Ok svá gerðu þeir. Hét hann þeim [þar í móti[9] sínu trausti ok vináttu, meðan hans ríki stœði. Síðan bað hann þá ganga til herbergja sinna, er þeir váru móðir. En Herfi hertogi ok erkibyskup, Videlun ok Hatun, Namlun ok Drefia, Vilhjálmr byskup, ok Valter byskup af Nasten dvöldust eptir meðr Karlamagnúsi. Dróttning Berta tók þá í hönd Karlamagnúsi ok leiddi hann á eintal, ok mælti síðan við hann: Ek veit eigi, kvað hon, hví þat sætir; [þat var nú fyrir hálfum mánaði, at faðir þinn andaðist Pippin konungr, ok síðan[10] hefir mér verit ekki létt, stundum varmt, stundum kalt, neytt lítt matar ok mungáts, hvárt sem þat er sakir andláts hans ok [harma þeirra[11] er ek hefi af brotthvarfi þínu eða af öðru. Karlamagnús svaraði: Móðir mín, sagði hann, ver eigi úglöð, þvíat engill guðs kom til mín, sá

[1]) herbergjuðust *b.* [2]) er *b.* [3]) *saal. b*; hann *B.* [4]) svá *tilf. b.* [5]) konungrinn *b.* [6]) Jntrent *b.* [7]) keisari *b.* [8]) uppi *b.* [9]) *tilf. b.* [10]) [at þenna hálfan mánað, síðan Pppin konungr faðir þinn andaðist *b.* [11]) [harms þess *b.*

er mér sagði, at þú mundir meybarn fœða, ok sagði hann, at sú mær skyldi Adaliz heita, ok man þat vera[1] þér sýn huggan, ok vil ek, at vit segim þat vinum okkrum. Ok svá gerði hann, en þeir þökkuðu guði.

9. Eptir þetta leitaði hann ráðs við þá, hversu hann skyldi breyta sínu ráði, ok sagði þeim sín vandræði, þau er hann átti viðr at sjá. Erkibyskup spurði, hvaðan hann frétti[2] þessa luti. En hann svaraði, at Reinfrei sagði honum sjálfr. Þá spurði Valtir byskup, hvar hann sagði honum. J höll sinni, sagði hann, um nótt er ek var genginn at stela ok vit[3] Basin; hann tók byrði af fé hans, en ek tók hest hans ok blóð er rann af nefi konu hans ok munni; en[4] hann laust hana fyrir þat at[5] hon tók[6] orðum fyrir mik, ok hefi ek hér glófann, [sem í fór[7] blóðit. Ok [er ek fór brott, sá hann á, þó[8] at hann vissi eigi, hverr væri.[9] Erkibyskup spurði,[10] ef hann hefði [at geyma hestinn. Já, sagði hann, geymdr er hann; Drefia konungr lét taka hann[11] í sína varðveizlu, en Herfi hertogi bað Karlamagnús senda eptir liði, en hann kvazt svá gert hafa, ok sagði honum, at Rozer[12] erkibyskup fór til Róms eptir páfanum ok Rómverjum, en Basin[13] til Bretlands, en Geirarðr til Saxlands ok Flæmingjalands eptir höfðingjum mínum,[14] er ek ætla at hér skyli[15] koma á[16] hvítasunnudegi. En Freri[17] erkibyskup spurði, hví hann trúði Basin svá vel þjóf þeim. En Namlun sagði hann vera kurteisan mann ok mikinn skörung, ok með [hans viti ok ráði með guðs miskunn er hann[18] þessa víss orðinn, ok [hann er[19] hans maðr.

10. Þat var einn dag, at Herfi hertogi talar við Karlamagnús: Vér skulum[20] til Eiss ok styrkja hana með kastalum ok torghúsum ok borgarveggium, ok erum vér[21] þá nær Rómaborg at fregna hvat títt er, þvíat eigi er betra lið í ríki þínu, ok munu þá landsmenn flytja þann veg vín ok mat ok [alt þat[22] er nauðsynligt er. En Karlamagnús bað móður sína fara meðr sér. Ok bjoggust þau ok fóru á þriðja deginum með öllu.[23] Dróttning bauð Bartholomeo greifa at varðveita borg sína eptir. En Drefia fór með hestinn leyniliga um náttina til borgarinnar Prumeth, ok bað Roðbert bróður sinn svá geyma hestinn,[24] at engi yrði varr við. En Hatun jarl fór heim ok Videlun at varðveita turna sína ok aðra fjárluti, ok bjoggu ferð sína í tíma til

¹) verða *b.* ²) *saal. b;* spyrði *B.* ³) *saal. b;* vitar (? vit tveir) *B.* ⁴) þá er *b.* ⁵) er *b.* ⁶) svaraði *b.* ⁷) [ok í *b.* ⁸) *rett. f.* þatt *B.* ⁹) [sá hann á, er ek fór brott, ok vissi þó eigi hverr var *b.* ¹⁰) þá *tilf. b.* ¹¹) [*saal. b;* blóðit at geyma. Já, sagði hann; Drefia konungr lét tak(a) hestinn *B.* ¹²) *tilf. b.* ¹³) fór *tilf. b.* ¹⁴) í mínu ríki *b.* ¹⁵) skulu *b.* ¹⁶) at öðrum *b.* ¹⁷) *tilf. b.* ¹⁸) [guðs miskunn er hann fyrir hans vit ok ráð *b.* ¹⁹) [er nú *b.* ²⁰) fara *tilf. b.* ²¹) *tilf. b.* ²²) [*saal. b;* í öllu því *B.* ²³) liði sínu *tilf. b.* ²⁴) hann *b.*

Karlamagnús bæði með riddarum ok bogmönnum ok þjónostumönnum, [trésmiðum ok járnsmiðum, flytjandi spjót[1] ok sverð, brynjur ok hjálma ok skjöldu, korn ok kjöt, vín ok klæði, ok þá reiðu aðra er þeir þurftu at hafa. Síðan sendu þeir eptir riddarum sínum, svá at þeir höfðu nær þremr hundruðum báðir. Þá báðu þeir konur sínar varðveita jörðum sínum ok svá öðrum fjárlutum með umsjón[2] vina sinna þeirra sem heima váru.[3] Ok blésu [jarls menn[4] í horn sín ok lúðra, ok léttu eigi fyrr en þeir kómu á fund Karlamagnús, en borgarmenn fylgðu þeim á leið til vatns þess er Ermasteis[5] heitir, ok fóru yfir vatnit ok svá um mitt landit til Ardens[6] borgar ok sendu Gothsvin fyrir at búa[7] þeim herbergi. En sem þeir kómu til borgarinnar, þá váru þar[8] Karlamagnús ok dróttning fyrir ok lið þeirra. Lét [Karlamagnús þá senda eptir systrum hans. Fór þá Namlun ok 50 riddara með honum ok sótti jungfrúrnar, ok fóru þær[9] til fundar við móður sína ok bróður, ok varð meðr þeim mikill fagnafundr, [svá at Karlamagnús ok móðir hans géngu út á móti[10] þeim ok kystu þær meðr miklum fagnaði, ok dvöldust[11] þar öll samt um náttina. Karlamagnús mælti við Gilem systur sína, at hon skyldi varðveita glófann hans, ok hon tók við[12] ok hélt í hendi sinni, ok spurði hvat í væri, [ok þótti henni þetta vera kynligt.[13] En hann kvað hana vísa mundu verða þess síðar; ok hon læsti hann í silfrkistli sínum, ok fékk dóttur Videluns jarls at varðveita lykilinn, ok bað hana fá sér, þá er þær kœmi til Eiss. Um morguninn eptir, er þau váru klædd, géngu þau til kirkju, ok söng erkibyskup sjálfr messu ok[14] tók kross sinn ok blezaði alt fólkit. Karlamagnús kallaði þá til sín Namlun ok Drefiu ok alla þjónostumenn, ok bað þá fara fyrir í Eiss at búa þeim tjöld ok herbergi ok [mæla við Macharium[15] brytja ok Vinant, at þeir búi œrnar vistir liðinu.[16] Ok þeir fóru fyrir með 300 manna, ok gerðu alt sem þeim var boðit.

11. Um morguninn kom Karlamagnús í Eiss meðr lið sitt alt, en þat váru 10 þúsundir riddara, var þar vel fyrir búizt ok ríkuliga; [átta daga bjoggu þeir til[17] herbergi sín. En Karlamagnús fór á veiðar ok reið um heraðit at sjást um, ok sýndist mjök skemtiligt ok kvazt þar skyldu opt[18] vera. Síðan sendi hann eptir trésmiðum ok steinsmiðum þeim er hagir[19] váru, ok þar kómu 300 smiða meðr öllum sínum smíðartólum.[20] Þá mælti Karlamagnús við Vinant ok Macharium,

[1]) [*saal. b;* trésmiða ok járnsmiða flytjandi þar með *B.* [2]) umsjó *b.* [3]) eptir *tilf. b.* [4]) [þeir nú *b.* [5]) Mustela *b.* [6]) Ardenam *b.* [7]) taka *b.* [8]) þau *b.* [9]) [hann þá Namlun sœkja systr sínar, ok 200 riddara með þeim. Kómu þá jungfrúrnar *b.* [10]) [géngu þau Karlamagnús ok dróttning út í móti *b.* [11]) þau *tilf. b.* [12]) með *b.* [13]) [*mgl. b.* [14]) hann *b.* [15]) [segja svá Machario *b.* [16]) lýðnum *b.* [17]) [*saal. b*; Um morguninn bjoggu þeir *B.* [18]) jafnan *b.* [19]) hagastir *b.* [20]) *saal. b;* smiðatólum *B.*

at þeir skyldu láta höggva perutré þau öll, er þeir fundu,[1] ok flytja þangat öll í vögnum, ok allan þann [bezta við er vér fám[2] flytit til vár; ek skal láta reisa eina stóra höll. Síðan spurði hann ráðgjafa sína, hvar höllin skyldi standa. En Namlun bað setja[3] við vatnit, kvað þar vænst[4] at gera[5] herbergi upp með berginu ok ánni, en kirkjuna í skóginum, en á hœgra veg borg mikla, en á vinstra veg herbergi þau er ríkir menn skulu[6] í vera,[7] er jafnan váru með honum. Ok svá lét hann gera. Ok þá er kirkjan var alger, fór erkibyskupinn til með kennimönnum ok vígði hana til dýrðar heilagri Maríu, ok hann fyrirgaf af guðs hálfu öllum þeim mönnum er at kirkjuvígslunni váru, ok hverr[8] þar kœmi meðr trú innan næstu 12 mánaða, allar syndir [er þeir hefði[9] gert síðan þeir váru skírðir. En hverr sá klerkr er þar var skyldi syngja hvern dag öllu kristnu fólki til hjálpar á þeim 12 mánaðum Credo ok Pater noster ok 7 psálma, ok sungu Tedeum. En síðan fal hann á hendi Karlamagnúsi ok dróttningu kirkjustöðuna, at þau haldi uppi[10] ok bœti; síðan kallaði hann þá sjálfsetta í bann er þangat kœmi með svikum. Eptir þat fóru þeir þangat sem höllin skyldi standa, ok blezaði erkibyskup hallarstaðinn ok garðsefnit ok skóginn ok vatnit.

12. Svá er sagt at nú væri saman komit[11] í Eiss svá mikit grjót ok viðr, at smiðir ok verkmenn allir hefði[12] (í) nóg at[13] gera. Karlamagnús skipaði þeim öllum starfa; stóðu þá menn í miklu starfi. Svá er sagt at kirkjan væri af engu öðru ger en marmaragrjóti, þökt með mersing ok silfr ok blý, víða gylt þar er bœta þótti. Karlamagnús sá á, ok þótti kirkjan lítil ístöðu, ok bað til guðs at hann léti vaxa, svá at hirð hans öll mætti rúmliga inni vera at biðja sér miskunnar, ok svá varð með guðs vilja. Síðan héldu þeir á smíð sinni, ok lét Karlamagnús gera 12 herbergi harðla sœmilig. Svá er sagt, at þar væri einn harðla vænn grasdalr, ok þar lét hann gera laug, svá at vera mátti hvárt sem vildi köld eða heit, ok um marmaraveggi. Hann bað smiðina vel gera ok sagðist þeim lúka mundu leiguna því betri.

13. Þá er Reinfreir ok bróðir hans Heldri spurðu, at Karlamagnús lét svá sœmiliga húsa í Eiss, fóru þeir þangat með 100 manna at sjást um, ok riðu til landtjalds Karlamagnús ok heilsuðu honum. En hann bað hjálpa þeim guð, eptir því sem þeir væri hans trúir vinir, ok spurði ef þeir væri hans menn. En þeir sögðu svá vera. Hann mælti þá: Ek skal vígjast undir kórónu hér í Eiss at hvítasunnudegi,

[1]) fyndi *b.* [2]) [við sem beztan kann fá, ok *b.* [3]) standa *b.* [4]) gott vera *b.* [5]) önnur *tilf. b.* [6]) skyldu *b.* [7]) þeir *tilf. b.* [8]) þeim er *b.* [9]) [þær sem þeir höfðu *b.* [10]) upp *b.* [11]) *saal. b;* komnir *B.* [12]) höfðu *b.* [13]) *Her indfalder en större Lacune i B, der er udfyldt efter b.*

ok vil ek at þit séð hér þá báðir, þvíat engir menn eru ríkari en þit í mínu ríki. Reinfreir stóð þá, hugsaði sik ok svaraði engu. En Namlun[1] leit til Herfa hertoga, ok hvárr til annars. Karlamagnús mælti: Hafit enga öfund til mín, þvíat allan yðarn illvilja má ek ambana. En Heldri svaraði: Herra, koma skulum vit ok gera svá alla luti sem þér bjóðit. Síðan tóku þeir orlof ok fóru í brott.

14. Nú er komit at þeim tíma, er dróttningin skyldi barn fæða, ok með guðs vilja fæddi hon meybarn vænt. Þat var sagt Karlamagnúsi, kom hann til at sjá barnit, ok með honum erkibyskupinn ok Herfi hertogi ok öll hirðin. Þökkuðu nú allir samt mjúkliga guði. Erkibyskup skírði barnit, en Videlun jarl ok ein harðla sœmilig frú veittu því guðsifjar, ok var sú mær nefnd Adaliz.

15. Rozer erkibyskup er nú kominn til Rómaborgar til páfans, ok bar honum kveðju Karlamagnús ok dróttningar. Hann segir honum alla atburði, þá sem fram fóru um háttu Karlamagnús, ok fékk honum bréfit, en páfinn las ok kvazt svá mundu gera sem þau beiddu. Hann sendi bréf sín 12 lendum mönnum í Rómaborg ok bað þá búast vel ok tigulega með honum at fara at kóróna Karlamagnús í Eiss á hvítasunnudag, ok þar til nefndi hann 6 þúsundir riddara, legata, lýðbyskupa, ábóta ok einkannliga cardinales ok erkibyskupa, ok biðr þá komna vera alla í Eiss áðr hann kemr þar. Þeir gerðu allir svá sem páfinn bauð. Tók þá Rozer erkibyskup orlof af páfanum í brott at fara; en páfinn tók stólam ok kross ok blezaði hann með guðs blezan ok heilags Petri postola, en erkibyskup kysti hönd hans ok fór til herbergis ok bjóst síðan brott.

16. Nú er at segja af ferðum Basin. Hann kom til Bretlands ok fann þar Geddonem mikinn höfðingja ok fékk honum bréf ok innsigli konungs ok dróttningar, en hann fékk til ferðarinnar 6 jarla ok sik hinn 7da. Erkibyskup fór einn með honum ok 12 aðrir byskupar, eptir því sem páfinn hafði skipat, ok 15 þúsundir riddara, sem Karlamagnús hafði boðit í bréfum sínum með Basin. Síðan tók hann leyfi ok fór þaðan til Gajadum ok fann Godfrei meistara í Vallandi; hann afhendi bréfin öllum höfðingjum sem honum var boðit. Ok svá bjoggust þeir hverr eptir sínum mætti, nema Varner af Pirapunt, hann brást sjúkr af ráðum Folkvarðs, ok Rozer af Rikon ok Vazalin af Brettollia.

17. Geirarðr af Numaïa er nú kominn til Flæmingjalands [2]til Baldvina [Serens i Arraz borg, ok fann hann þar,[3] ok bar honum kveðju Karlamagnús ok dróttningar, [svá sem vin sínum skyldi,[4] at

[1]) *Dette Navn skrives overalt* Naflun *i B og b, men er rettet overensstemmende med Skrivemaaden i A og a.* [2]) *Her begynder A, som nu lægges til Grund.* [3]) [*mgl. b.* [4]) [ok bað *b.*

hann skyldi koma þangat til vígslu hans með þeirri ást sem hann hafði [við Pippin konung[1] föður hans, [er honum gipti systur sína. Ok fékk honum ritit, en Fremundr kapalín hans réð. Hann svaraði, at hann skyldi fara, en fjölmennari en honum var boðit, ok kvezt mundu[2] hafa 3 byskupa ok 10 ábóta eptir boði páfans ok 50[3] þúsunda riddara: Karlamagnús er bróðurson konu minnar, ok vil ek [honum feginn[4] þjóna. Ek á tvá sonu hans frændr, Örnolf[5] ok Baldvina, [þeir skulu mér fylgja ok honum þjóna, ok af hans valdi munu þeir ríkir verða.[6] Sendi síðan 2 riddara með riti ok innsigli sínu til jarlsins af [Buluina, ok jarlsins af Gines ok jarlsins af Palsborg,[7] ok Roðbert af Perun ok Bertrams[8] af Henaug[9] [ok til[10] byskupa ok ábóta af sínu ríki, at þeir fari ríkuliga, sem Karlamagnús hefir þeim boð sent. Geirarðr tók leyfi ok fór til Saxlands eptir öðrum höfðingjum, svá sem honum var boðit, ok fékk sitt rit[11] hverjum. Ok [var þá er saman kom í Eiss alt liðit 400 þúsunda riddara[12] fyrir utan lið páfans. En Geirarðr fór heim til [Numaia ok bjóst þaðan kurteisliga[13] ok fékk 20 þúsundir riddara ok fór til Eiss ok kom mánaði fyrr en[14] annat liðit.

18.[15] Maðr er nefndr Eim af Galiz, einn góðr maðr, hann fór á fund Karlamagnús, þegar hann frá at hann skyldi vera kórónaðr. Hann fór til Eiss með 60 riddara. Moysa heitir á su er á veg hans var, þar var ekki vað á ok engi brú ok engi farkostr; þá urðu þeir

[1]) [til Pippins konungs *b.* [2]) [þá er hann gipti honum systur sína ok fékk honum ríki. Geirarðr fékk honum bréfit, en hann lét kapalín sinn lesa. Ok þá er hann vissi hvat á bréfinu var, þá sagði hann svá: Guð veit, at ek skal koma fjölmennari en hann hefir orð til sent, ek skal *b.* [3]) 4 *b.* [4]) [gjarna honum *b.* [5]) Arnulf *b.* [6]) [*saal. b*; ok verða þeir ríkir af hans valdi *A.* [7]) [Pulsborg *b.* [8]) Bertum *b.* [9]) Henog *b.* [10]) [*tilf. b.* [11]) bréf *b.* [12]) [váru þá er allir kvámu saman í Eirs talit 6 þúsundir 100 ok 10 riddarar *b.* [13]) [Numas eptir sínu liði *b.* [14]) alt *tilf. b.* [15]) ***Da dette Capitel lyder noget afvigende i b, trykkes det fuldstændig nedenunder efter denne Codex.***

---

18. Reimbaldr fríski tók sér 40 riddara ok fór til Karlamagnús í Eirs. En Heimar af Galizu einn góðr maðr bjóst með gáshauka ok sparhauka rétta götu í Eirs. Moisa heitir á ein mikil, á henni var engi brú ok ekki vað ok engi farskostr, því urðu þeir at fara af leið sinni, ok mættust þeir Reimbaldr ok Heimar, þar sem þeir skyldu yfir fara ána. Þá mælti Heimar við Reimbald: Þú maðr, lát mik fyrri yfir fara ána. Reimbaldr svarar: Hvat manni ertu þess, at ek muna þik láta fyrri yfir fara? Sá maðr er ek, segir Eimar, at ek man ráða hálfri stöngu við þik. Reimbaldr segir at hann mundi eigi fara at öllu úreyndu. En Eimar bað hann víkja aptr nökkut með lið sitt, ok ek man svá gera, ok gefum rúm gott, ok sé riddarar okkrir kyrrir, en vit ríðumst at tveir. Reimbaldr snöri þá aptr hesti sínum um tvau ördrög. Báðir

at fara langt af leið sinni it ytra. Þar mœttu þeir þeim manni er Reinbaldr fríski hét. En er þeir fundust, spurði Reinbaldr formann þeirra at nafni. Eim svaraði: Sá einn em ek, at ek mun ráða hálfri stöngu við þik. Reinbaldr kvað hann eigi mundu fyrr ríða sína leið en þeir hefði áðr reynt með sér, hvárr annan bæri afli. Þá mælti Eim at hann skyldi ríða aptr nakkvat með lið sitt, ok ek mun ok svá gera, ok gefum rúm, ok sé riddarar okkrir kyrrir, en vit ríðumst at ok freistum hvárr okkarr meira má, eignist sá okkarr annan sem meira má. Reinbaldr hvarf aptr um tvau örskot, báðir váru þeir vel vápnaðir ok lustu hesta sína sporum ok riðust at, lagði hvárr í annars skjöld, svá sköptin géngu í sundr; þá drógu þeir sverðin or slíðrum, ok hjó hvárr í höfuð öðrum, svá í hjálmunum nam staðar. Þá er Reinbaldr sá at Eim var slíkr riddari, þá gerðist honum vingan við hann, ok dróst á bak aptr fjóra tigi feta, ok spurði hvat hann hét. Hann svarar: Ek heiti Eim af Galiza, ok lát mik ríða yfir ána, ek vil vera þinn vin ok mínir riddarar, þvíat ek vil fara á fund Karlamagnús til Eiss. Reinbaldr svarar: Ek vil ok þangat fara. Eim mælti, at þeir skyldu sverjast í brœðralag; þeir gerðu svá, lögðu niðr vápn sín ok settust niðr ok rœddust við. Síðan fóru þeir til Eis, ok sendu tvá riddara fyrir til Karlamagnús at taka þeim herbergi. Hann sendi þá til Namluns ok Drefiu til herbergis, ok þeir herbergðu þá vel ok tiguliga. Síðan fóru þeir á fund Karlamagnús ok fylgði Namlun þeim til landtjalda hans, ok bað at hann skyldi taka við þeim ok tigna þá. Hann gerði svá, en þeir géngu til handa honum, hann kvezt slíka sœmd þeirra gera skyldu, sem hann féngi ráðgjafa sinna ráð til. Síðan tóku þeir leyfi ok fóru til herbergis síns.

19. Milun páfi sendi [fyrir menn sína á fund Karlamagnús[1] at taka sér herbergi, en [hann vísaði þeim til Namluns ok Drefiu. Þeir tóku honum fagran völl til herbergis ok Dreia konungi af Peitrs þar

[1]) [2 byskupa fyrir til Eirs *b*.

váru þeir vápnaðir vel. Lustu þeir síðan hesta sína sporum ok riðust at, lagði hvárr til annars, svá at spjótsköptin géngu í sundr. En er Reimbaldr sá, at Eimar var slíkr riddari, þá mælti hann vináttuliga með hann ok spurði hvat hann héti. Hann sagðist heita Eimar af Galizuborg, ok spurði í móti hvat hann héti. Ek heitir Reimbaldr hinn fríski, sagði hann. Þá mælti Eimar, at þeir skyldu gerast félagar ok sverjast í fóstbrœðralag, ok svá gerðu þeir. Fóru síðan til Eirs ok sendu vini sína 2 at taka þeim herbergi. En Karlamagnús sendi þá til Nafluns ok Drefiu til herbergis, ok þeir herbergðu þá vel ok tiguliga. Síðan fóru þeir til Karlamagnús ok Naflun með þeim ok gerðust hans menn. Síðan tóku þeir leyfi ok géngu aptr til herbergis síns.

í hjá, ok nú ferr páfinn með honum ok þeir af Veskunia[1] ok alt lið þat er af þeirri hálfu[2] kom: [þar næst[3] Geddon af Brettania ok [hans liði, þá Baldvina Serins ok öllum Flæmingium ok Söxum ok þeirra liði, þá Rikarðr gamli af Norðmandi ok öllu hans liði.[4] En Namlun vísaði [hverjum í sinn stað sem vera skyldi.[5] Þá kom Renfrei ok Heldri[6] ok þeir tólf félagar[7] ok 100 þúsunda riddara.[8] Namlun skipaði þeim öllum í miðjan völlinn,[9] en þeir héldu [sinni ætlan, at þeir skyldu því fram koma sem þeir vildu.[10]

20. Nú er öllu liðinu skipat ok [er æfar mart.[11] Þar kómu landsmenn til markaðar[12] með allskonar vistum, svá at eigi skorti. Um[13] nóttina hvíldi Karlamagnús alt til dags, þá stóð hann upp ok fór til hallar sinnar, hon var þá fullger, ok lét setja ara á höllina mikinn með þeirri jarteign, at Valland er hæst í keisara ríki. Ok þau tólf hús eru öll ger er hann bauð: í einu er dróttningar herbergi, í öðru er Herfi hertugi af Kolne, í þriðja Videlun af Bealver, í fjórða Hatun[14] af Alimania, í fimta Balduini Serins, í sétta Dreia konungr af Peites, í 7da Geddon af Brettania, í átta Geofrey af Aldegio, í níunda Rikarðr gamli af Norðmandi, í 10da Rozer erkibyskup, í 11ta Milun páfi; en Karlamagnús[15] sjálfr í höllinni miklu, ok með honum Namlun ok Drefia, Reinbaldr fríski, Eim af Galiza, Geirarðr af Numaia. Um aptan kom Basin ok fór til Karlamagnús, þvíat hann var hans maðr. Þá bauð Karlamagnús öllum járnsmiðum sínum, at þeir skyldu gera haug af stáli, at sveinar skyldi reyna sverð sín í. Þeir fœrðu þangat tvá stafi af marmarasteini ok lögðu umhverfis, tóku síðan stál ok báru þar á ok brutu smátt ok lögðu milli stafanna. Síðan fœrðu þeir þangat vagna 10 hlaðna af kolum ok tóku eldingarsteina ok lögðu umhverfis ok báru til eld ok lögðu í, tóku síðan 20 blástrbelgi ok lögðu umhverfis ok blésu, ok varð þar mikill eldr, ok tók alt stálit at vella ok rann í einn haug fyrir garðinum sem inn skyldi ganga í höllina. Þá mælti hann við menn sína, at þeir skyldi varðveita höllina, svá at engi kœmi inn fyrir utan hans leyfi. Síðan sendi hann eptir pávanum ok öllum hinum mestum höfðingium, ok bað þá koma til heilræðis við sik ok móður sína.

[1]) [Karlamagnús bauð Naflun ok Drefiu at taka pávanum ok hans hoffólki vænan herbergisstað. Þeir gerðu svá, ok völdu þar til einn fagran völl, ok þar í hjá var Drefi konungr af Pells ok þeir af Valkuma *b.* [2]) *saal. b;* álfu *A.* [3]) [Þá kom *b.* [4]) [alt lið af þeirri hálfu, Rikarðr gamli af Norðmandi ok alt hans lið, síðan Baldvini ok allir Flæmingjar ok Saxar allir *b.* [5]) [þeim öllum í þá staði sem þeim váru fyrirbúnir *b.* [6]) bróðir hans *tilf. b.* [7]) kompánar *b.* [8]) með þeim *tilf. b.* [9]) herinn *b.* [10]) [hinni sömu sinni ætlan at svíkja konunginn *b.* [11]) [var harðla mikit *b.* [12]) marknaðar *b.* [13]) *Her indfat er en Lacune i b.* [14]) Otun *A, her og senere.* [15]) *saal. rett.;* kom *A.*

Ok þá er þeir kómu þar, kystust þau öll, ok varð þar fagnafundr mikill.

21. Þá mælti Karlamagnús: Góðir vinir, segir hann, mikla sœmd hafit þér mína gerva í hingatkvámu yðvarri. Nú vil ek segja yðr leynda hluti: hér eru þeir menn komnir er líf mitt vilja hafa á morgin, þeir er ríkir eru af föður míns veldi. Páfinn spurði, hverir þeir væri. En hann nefndi þá alla. Þá signdi páfinn sik ok spurði, hversu hann yrði þess víss. Hann sagði honum, at þeir höfðu svarizt saman, ok skyldi hverr þeirra hafa tvíeggjaðan kníf af stáli gervan í ermi sinni, er þeir kœmi þar at drepa mik með; nú vil ek at þér ráðit mér heilt. Geofrey af Andegio mælti, at Namlun skyldi taka þá alla í þá höndina, er knífrinn var í, ok leiða í klefa einn, ok beri knífana fram fyrir þik, síðan haf við ráð vina þinna, hversu þú skalt gera. Þetta var svá gert sem hann réð. Síðan sendi hann menn at segja öllum lýð, at hann skyldi til konungs vígja um morguninn eptir, ok lét frið setja allra manna millum; en ef nökkurr stæli þar eða gerði aðra illsku, þá væri hann aldri svá ríkr, at hann skyldi eigi uppi hanga eða höfuð af höggva. Þá svarðu allir eiða, at þeir skyldi þenna frið vel at öllum hlutum halda.

22. Um morguninn eptir var Karlamagnús dubbaðr til riddara. Páfinn skrýddi hann með góðum klæðum, sem bezt samdi; Dreia konungr af Peitrs dubbaði hann til riddara ok fœrði hann í brynju ok setti hjálm á höfuð honum ok gyrði hann sverði, ok hengdi skjöld blán á háls honum. Þá tók hann hest einn mikinn rabít ok setti hann þar á, ok sýndist hann öllum mikill á hestinum, ok þökkuðu guði, at svá lítill maðr sem Pippin konungr var skyldi eiga svá mikinn son sem Karlamagnús var. Þá mælti Dreia konungr: Nú ertu riddari, sagði hann, guð haldi þik nú vel. Síðan gerði (hann) 100 riddara annarra ungra með honum. Síðan skrýddist páfinn til messu ok allir lærðir menn hans; síðan tók hann kross sinn ok signdi alla riddarana með vápnum á hestum sínum ok mælti við Karlamagnús, at hann skyldi halda vel guðs lög. Karlamagnús tók spjót sitt ok skaut í brott ok mælti við Geofrey af Andegio, at hann skyldi varðveita merkisburð hans jafnan í móti heiðingjum ok styðja kristindóm. Geddeon af Bretolia fékk hann skjöld sinn, Hatun jarl tók brynju hans, Baldvini Serius tók sverð hans, Videlun af Bealver fékk hann hjálm sinn. Dróttning gerði Namlun ríkan jarl með lofi Karlamagnús. Þá vígði páfinn konungsklæðin ok kórónu af Franz, ok fœrðu Karlamagnús í. Rikarðr gamli af Norðmandi ok Hugi hertogi af Paris géngu á sína hönd honum hvárr. Karlamagnús offraði 40 þorpa inni helgu Maríu til upphalds kapellu sinni í Eiss.

Síðan offraði hann páfanum höfuð sitt ok hyggju ok allan sik ok þar með helgum anda at halda kristindóm ok guðs lög. Síðan leiddu þeir hann til sætis. Dreia konungr sat fyrir honum ok Herfi hertogi af Kolne, en páfinn sjálfr söng messu, Rozer erkibyskup af Triuers las pistil, Freri erkibyskup las guðspjall, ok váru báðir skrýddir, ok Bjarnarðr af Romeis ok erkibyskup af Reins báru kertistikur, en erkibyskupar ok ljóðbyskupar, kardinálar, legátar, ábótar ok allir klerkar sungu vel ok tiguliga. Konungrinn offraði ok 7 hundruð þúsunda riddara hans, ok var allmikil offerenda at messu páfans. J messunni gékk páfinn á kór upp ok fjórir tigir af lærðum mönnum hans hinum ágætustum, en allir menn aðrir þeir sem inni váru sátu hljóðsamir. Páfinn mælti þetta ok mart annat vitrliga: Ek býð yðr öllum í guðs nafni ok heilags anda ok sancte Marie,[1] at þér [séð hlýðnir Karlamagnúsi konungi ok haldit hann vel,[2] þvíat hann er réttr keisari um allan heim. [Ok blezaði þá alla[3] ok fyrirgaf þeim allar syndir er þeir höfðu[4] gert síðan þeir váru skírðir, ok[5] með réttri trú váru þangat komnir, ok öllum þeim er þar kœmi fyrir trú sakir innan tólf mánaða. Síðan [bannsetti hann alla þá er með illum vilja eða svikum váru þangat komnir ok eigi vildu Karlamagnúsi konungi tryggir vera, ok kastaði þrysvar kertina or hendi sér loganda, gékk síðan til altaris ok söng messu þar til er lokit var. Síðan fór hann or messufötum ok tók í hönd Karlamagnúsi konungi ok leiddi hann til altaris.[6] Freri erkibyskup af Kolne tók kórónu af höfði honum ok hirði ok öll kórónuklæði, [ok lagði yfir hann hvít skinn;[7] géngu síðan [inn í höllina ok stigu upp yfir borð til matar síns. Páfinn signdi matinn. Síðan gékk konungr í hvíluhöllina, er hann var mettr, ok ríkismenn hans með, ok lét varðveita höllina.[8]

23. Nú váru menn greiddir[9] til at taka þá svikarana [æ sem þeir kœmi inn.[10] [Fyrst kom[11] Renfrei ok Heldri, Namlun ok Makarias tóku þá báða ok knífa þeirra: þá kom Jsinbarðr ok Askalin,[12] þá tók[13] Drefia ok Basin. [Síðan váru menn til fengnir at taka þá

[1]) *Her begynder atter B.* [2]) [haldit hlýðni við Karlamagnús konung *B.* [3]) [Síðan blezaði hann allan lýð *B.* [4]) hefði *B.* [5]) öllum þeim er *B.* [6]) [var sungin út messa, ok eptir þat afklæðist herra páfinn messuklæðum, ok allir aðrir hans þjónostumenn, ok var Karlamagnús þá leiddr til sætis af sjálfum páfanum *B.* [7]) [*mgl. B.* [8]) [til borða. Páfinn sjálfr blezaði mat ok drykk, átu síðan ok drukku með mikilli skemtan. Ok er borð váru upptekin, þá gékk Karlamagnús konungr ok páfinn ok allir aðrir í svefnhöllina *B.* [9]) fengnir *B.* [10]) [svá hvern sem inn kœmi *B; her begynder atter b.* [11]) [Fyrstir af svikarum géngu inn *B, b.* [12]) Andeals *B;* Anzeals *b.* [13]) tóku þeir *B, b.*

höndum alla,[1] ok leiddu þá fyrir konung[2] ok lið hans ok tóku or ermum þeirra knífa tvíeggjaða ok sýndu, ok [vissu eigi[3] hverju svara skyldu. Þá mælti Namlun: Hér megit þér sjá svikarana ok knífa þeirra [með þeim,[4] er þeir vildu drepa Karlamagnús konung með. Renfrei kvað hann ljúga. Karlamagnús svarar: Ek skal reyna yðr, sagði hann, ok lét kalla systur sína Gelem.[5] Hon fékk honum glófann með blóðinu. Þá spurði [Karlamagnús Renfrei[6] ef[7] hann kendi blóðit. Renfrei kvað hann undarliga mæla. Karlamagnús svarar: Undarligar hefir þú gert, þetta er blóð konu þinnar. Hann kvazt aldri hafa sét blóð hennar. Karlamagnús mælti: Renfrei, sagði hann, [kemr þér eigi í hug þá[8] er þú látt heima í hvílu þinni í Tungr, er þú kvezt[9] skyldu drepa mik at jólum með þessum knífum, ok bróðir þinn[10] Heldri ok þessir 10, er hér [eru með[11] þér, ok alla hirð mína, ok fara síðan [til Tungrs ok vera þar vígðr til konungs; ok skyldir þú vera keisari,[12] en Heldri bróðir þinn[13] hertugi í Megenz[14] ok Bealver. En konu þinni þótti illa ok bað þik nefna þá félaga þína, er þér réðu þetta, en þú nefndir þá alla sem nú eru hér. Hon [bað þik hætta þeirri[15] illsku, en þú vart reiðr ok laust hana, svá blœddi, [en ek var þar ok[16] lét ek blóðit í glófa minn. En Renfrei kvað konu sína hafa svikit sik. En Karlamagnús sór, at hann laug,[17] þvíat ek var þar, þá er Basin tók fé þitt ok sverð, en ek tók [blóðit ok[18] hest þinn. Renfrei svaraði: Skömm hugða ek [at þér mundi[19] þikkja at stela. Karlamagnús bað Drefiu taka[20] hestinn. Hann gerði svá. Þá spurði Karlamagnús, ef Renfrei kendi hestinn. Hann gékk þá í gegn öllu. [Herfi hertugi bað kasta þeim í myrkvastofu ok hengja um morguninn. Namlun kvað þá hafa mikit lið í hirðinni, ok sagði þá eigi lausa skyldu fara. Karlamagnús spurði, hverr þeim vildi varðveita. En Baldvini Serius ok Dreia konungr af Peitrs ok Geddeon af Brettannia kváðust mundu taka þá á sitt vald. Eptir þat fór Herfi hertugi til með lið þeirra allra[21]

[1]) [Þá kom Segbert ok Tankimar, þá tók Reinbaldr ok Eimar; þá kom Tanir ok Jngilrafn, þá tók Videlun ok Hatun; en Rozer af Jrikuń ok Folkvarð þá tók Herfi hertogi ok Geirarðr; þá kom Rozer af Orlanæis ok Vadalin, þá tók Baldvini ok Vinant *B, b.* [2]) keisarann *b.* [3]) [vissi engi þeirra *B, b.* [4]) [*mgl. b.* [5]) Gilem *B, b.* [6]) [*tilf. B, b.* [7]) hvárt *B, b.* [8]) [mantu nökkut til þess *B, b.* [9]) sagðist *B, b.* [10]) *saal. B, b;* hans *A.* [11]) [standa nú hjá *B, b.* [12]) [heim í Tungr ok láta taka þik til keisara *B, b.* [13]) skyldi vera *tilf. B, b.* [14]) Meginzu *B.* [15]) [latti þik slíkrar *B, b.* [16]) [ok laut hon fram af hvílunni meðan, en ek *B, b.* [17]) eigi *tilf. B;* þat *tilf. b.* [18]) [*mgl. B, b.* [19]) [þér mundu *B* [20]) leiða fram *B, b.* [21]) [Var þeim þá öllum kastat í myrkvastofu. Naflun kvað þá hafa mikit lið í hirðinni, ok bað hann Karlamagnús, at því mundi eigi lausu slegit. En Karlamagnús bað þá Baldvina ok Drefiu konung ok Geddon taka þá með sínu liði, ok Herfi hertogi fór með þeim *B, b.*

ok tók hvern þeirra í sínu herbergi,[1] þvíat þá kendi hann þá alla. En þeir hugðu at þeim væri leiks, ok spurðu hví þeir tœki þá. Herfi sagði, [at lávarðr þeirra var tekinn, sakir þess at þér hafit svikit[2] Karlamagnús konung. En þeim þótti illa at þeir vissu þat eigi fyrr, ok mundu þeir þá eigi láta takast.

24. Um morguninn gékk[3] páfinn ok Karlamagnús konungr til kirkju ok lið þeirra, ok [lét hann legáta sinn syngja messu, góðan mann ok trúfastan, er hét Gilia ok var fœðingi í Provincia.[4] En páfinn gaf þeim[5] blezan, ok géngu síðan [inn í höllina.[6] Þá gaf Karlamagnús konungr höfðingjum sínum jarðir ok aðra fjárhluti ok þakkaði þeim sinn góðvilja. Páfinn [mælti mörg vináttumál[7] við Karlamagnús konung ok setti hann í hásæti[8] sitt ok bað hann vel varðveita kristin lög. [Síðan talaði Karlamagnús konungr eintal við páfann ok alla aðra ina stœrstu höfðingja, þá er þar váru komnir, ok bað þá heilræðis, hversu hann skyldi fara við þá svikarana, sagðist þá sét hafa alla, at þeir höfðu hér knífana er þeir vildu hann af lífi taka með, heyrðut ér at þeir géngu í móti illsku sinni, ok megu þér sjá hér nú knífana, dœmit þeim nú af því réttan dóm. En allir svaruðu, at þeir vildu at hann sjálfr dœmdi, eptir því sem þín eru sannendi til. Þá nefndi hann til einn höfðingja af liði sínu med 400 riddara at hengja þá tólf. Þeir bundu hendr þeirra á bak aptr með hjartarleðrs þveng ok leiddu þá sem þjófa,[9] at þeir skyldu eigi í braut hlaupa. Þá kom Karlamagnúsi konungi í hug, at konu Reinfreis þótti illa ráð þeirra, ok [bað þá hálshöggva en eigi[10] hengja. Þeir gerðu svá, ok létu þá liggja þar alla eptir, géngu í brott síðan ok aptr til konungs.[11] Þá spurði Karlamagnús[12] hvat gera skyldi við [þá er þeim hefði fylgt.[13] Namlun[14] mælti, at hann skyldi láta varðveita þá.[15]

[1]) rúmi *B, b.* [2]) [lávarða þeirra tekna fyrir svik við *B, b.* [3]) eptir géngu Naflun *B, b.* [4]) [söng legátinn messu, góðr maðr ok trúfastr *B, b.* [5]) lýðnum *B, b.* [6]) [heim til hallar *B, b.* [7]) [talaði mörgum sœmdarorðum *B, b.* [8]) sæti *B, b.* [9]) [En Karlamagnús þakkaði herra Miloni páfa ok öllum öðrum höfðingjum sína þangatkomu, ok bað menn ráð til gefa, hversu gera skyldi við svikarana. En jarlinn af Flæmingjalandi svaraði, at fyrir þat at allir höfðu sét knífana, þá er þeir vildu svíkja Karlamagnús með, ok svá heyrðu allir, at þeir géngu með illsku sinni, ok dœmit nú rett af þeim (þá dœmit þeim nú réttan dóm *b*). En þá œptu allir senn á Karlamagnús konung, at hann skyldi dœma réttiliga (dœma þá eptir maklegleikum *b*). En hann bað leyfis til, ok því játuðu allir. Karlamagnús nefndi þá til fjóra höfðingja með fjórum hundraðum riddara at hengja þá 12 svikara, ok váru þá bundnar hendr þeirra á bak aptr ok leiddir sem þjófar *B, b.* [10]) *saal. rett.;* einn *A.* [11]) [fyrir hennar sakir bað hann hálshöggva þá, ok var svá gert *B.* [12]) Naflun *b.* [13]) [lið þeirra *B.* [14]) Karlamagnús *b.* [15]) ok svá var gert *tilf. B, b.*

25. Karlamagnús kallaði Basin ok fékk honum glófa sinn af hœgri hendi ok mælti: þú skalt hafa Tungrs[1] ok konu Renfreis ok jarldom ok fé hans alt. Basin gékk fram ok tók glófann[2] ok kysti fót[3] hans. Rozeri erkibyskupi gaf hann Triversborg. en páfinn [sjálfr þakkaði honum ölmosu þá er hann gerði kristninni.[4] Namlun gaf hann Ozborg[5] ok Salenborg[6] ok alt fylkit með ok [20 þúsundir riddara í sínu veldi. Hann tók gjöfina ok gékk til fótar hans, ok Videlun faðir hans ok jarlinn af Alimania, Reinbaldr fríski, Eim af Galiza, Basin jarl, Dreia prófastr, ok 300 riddara, allir[7] fyrir ástar sakir við Namlun, ok gerðist konungr glaðr við. Namlun bað konunginn gefa sér fjallit milli Muso[8] ok Sambr at gera kastala í, ok er Franz at ríkari. Hann gaf honum ok skóginn með, ok [hann gaf honum Foma ok skóginn allan ok Faumana með. Ek skal gera þér, sagði Karlamagnús, 3 kastala í millum Moysa ok Ardena. Namlun gaf þeim nafn sitt með leyfi Karlamagnús Namluni til virðingar. Karlamagnús gaf honum spjót ok hvít merki ok með jarlsdóm, ok kallaði kastalann Namrus. Þá mælti Karlamagnús: Sér þú nú at mér er ást á þér? Hann þakkaði honum, ok bað hann gefa sér þá menn er hann hélt í prísund af hans landi, þvíat þeir eru enskis verðir af illráðum. Hann gerði svá. Basin gaf hann sína menn, Rozere erkibyskupi gaf hann sína menn. Þeir þökkuðu honum ok tóku þá út or myrkvastofunni ok létu þá sverja eiða Karlamagnúsi konungi. Eim af Galiza gerði hann konstabl sinn ok lét hann varðveita knífa þeirra svikaranna. hann lét ok alla aðra ganga or myrkvastofunni á sitt vald.[9]

26.[10] Reinbaldr fríski hóf bónorð sitt ok bað Gelem systur Karlamagnús konungs. En sakir þess at konungi var áðr kunnikt bæði ætt hans ok atferð, þá var þat af tekit, at hon var honum gift með miklu landi er Veisa heitir, þat hafði átt Tangemar, ok

[1]) Tungrborg *B*, *b*. [2]) með glófanum *b*. [3]) hönd *B*, *b*. [4]) [þakkaði honum vel ok allir aðrir *B*, *b*. [5]) Orzborg *B*; Oezborg *b*. [6]) Salenamborg *B*, *b*. [7]) [skaltu hafa, kvað hann, 20 þúsundir riddara í þínu valdi. En hann gékk til ok kysti hönd hans ok þakkaði honum gjöfina, ok þar með Videlun hertogi faðir hans ok allr lyðr af Allimania ok Reinaldr fríski ok Eimir (Eimar *b*) af Galizu ok Basin jarl af Tungrs ok 300 riddarar *B*, *b*. [8]) Musus *B*; Musu *b*. [9]) [bað hann gera kastala 3 millum Moia ok Ardenam, ok síðan gerði Naflun kastala þann er Nafrus er nefndr. Þá bað Naflun Karlamagnús gefa sér þá menn, er hann hafði í prísund, ef þeir eru engis af valdir svikræðum við yðr. En hann gaf honum þegar, ok svá gaf hann Basin þá menn, er Reinfrei höfðu þjónat. Þökkuðu þeir honum báðir ok leystu þá af myrkvastofu, ok sóru konungi eið, at þeir höfðu í engum svikræðum verit við hann *B*, *b*. [10]) *Da Capp. 26—30 lyde noget afvigende i B og b, gives de nedenfor fuldstændig efter disse.*

alla hans eigu ok eigu bróður hans Tamers, ok fjóra jarldóma með öllu ríki ok alt Lingeraf, ok alt landit frá Flæmingjalandi til Danmerkr, ok þrjá spjót með hvítum merkjum. Karlamagnús bað páfann fá sér klerka sína nökkura til kapalína. Hann gaf honum Gilliam góðan mann ok trúfastan, hann var legatus af Rómaborg, annan Turpin bróður Hatuns jarls, hann skyldi vera kanziler konungs; tvá menn gaf (hann) til at þjóna at kapellu hans, annarr hét Vibald, en annarr Balduini. Ok þakkaði Karlamagnús konungr honum vel. Þá mælti hann við Freri erkibyskup, at hann skyldi setja kanunka til kapellu hans svá marga sem þarf. Hann skipaði þar til 40 kanunka ok fjóra presta. Karlamagnús konungr gerði munklífi ok nunnusetr, ok hvártveggja auðigt at fé. Síðan dubbaði hann til riddara 80 sveina, þá sem farit höfðu með Freri erkibyskupi ok Herfa hertuga. Þá kaus Karlamagnús konungr eptir hjá sér Bofa inn skegglausa, Jforia ok Jvin, Engeler af Vaskunia, Bæring af Hatun, Gelin ok Gerer, Samson ok Anselin,

---

26. Karlamagnús keisari kallaði þá enn til sín alla höfðingja sína ok hóf svá sína rœðu: Góðir herrar, sagði hann, ek á tvær systr fyrir at sjá, ok nú vil ek gipta aðra með yðru ráði röskum manni Reinaldi[1] fríska. Öllum þeim þótti þetta vel ráðit. Síðan gipti hann Belisem systur sína Reinaldi fríska með miklu ríki ok eignum, þvíat þau skyldu eignast öll þau ríki sem Tankemar ok Tamar[2] bróðir hans höfðu átt ok 4 jarldóma með öllu ríkinu ok allt Lingerafn. En þetta ríki var alt af Flæmingjalandi til Danmerkr. Ok hér meðr gaf hann honum 3 spjót með hvítum merkjum. Ok þá gerði (hann) Eimi af Galizu constafl sinn, ok lét hann geyma knífa þeirra svikaranna. Síðan váru þeir allir leystir af myrkvastofunni sem meðr svikarum höfðu verit, ok sóru þeir allir Karlamagnúsi eiða, at þeir skyldu honum vera dyggir[3] ok trúir.

Herra Millon páfi fékk nökkura klerka sína Karlamagnúsi til fylgdar ok sœmiligrar þjónustu: var einn af þeim Gileas góðr maðr ok réttlátr, hann var legatus af Rómaborg, skyldi hann vera kapalín keisarans; annarr var Turpin bróðir Hatuns jarls, hann skyldi geyma innsigli hans ok hafa bréfagerðir, ok því má vel nefna hann konungsins kanceler. Tvá aðra klerka gaf pávinn honum at þjóna í kapellu hans. Síðan skipaði Karlamagnús með herra páfans ráði ok erkibyskupa samþykki fjóra tigi kanunka til kapellunnar, þvíat þat sýndist þeim vel nœgjast. Svá lét hann ok setja svartmunkaklaustr í öðrum stað ok nunnuklaustr í þriðja stað. Sveina þá alla sem kómu af Kolni með hertoganum ok erkibyskupinum gerði hann at riddarum, en þeir váru nær 80. En þessa kjöri hann meðr sér at hafa: Bofa hinn skegglausa, Jvora ok Jva, Engiler af Gastun,[4] Bæring ok[5] Hatun, Gerin ok[5] Geres, Samson ok[5] Anzilin, Valltara af Akarð ok Hoel, Geofrey ok Hatun, Guenelun af Kastalundum ok Arnald ok Berarð, Oduin ok Vasker. Tólf riddara af þessum hafði hann jafnan með sér, þvíat þeir váru góðir drengir. En Videlun ok Natlun, Hatun ok Reinald fríska. Turpin ok Giliam hafði hann sér at ráðgjöfum. 7 hundruð riddara hafði hann dagliga með sér ok umfram þjónastumenn í sínum herbergjum. Ok nú hefir hann sýst[6] sér lið, sem hann vill hafa.

1) Reimbaldi *b.* 2) Tanir *b.* 3) hollir *b.* 4) Gascun *b.* 5) af *b.* 6) valit *b.*

Valter af Terins, Akarð af Mesines, Hoel af Naanaz, Geofrey af Orliens, Hatun af Kampaneis, Venelun af Kastalandum, Arned af Bollandi, Beirarðr af Peduers, Odun af Marke, Vaker af Kornelia. Þessa 20 riddara hafði hann jafnan með sér, þvíat þeir váru góðir drengir. Videlun, Namlun, Hatun, Reinbald fríska, Turpin, Gilliam, þá hafði hann sér at ráðgjöfum. Sjau hundruð riddara hafði hann með sér hvern dag, þá tók hann sér þjónustumenn at hafa í herbergjum sínum. Roðbert bróður Dreiu gerði hann meistara yfir hestasveina sína. Nú hefir hann sýst sér alt lið sem hann þarf.

27. Síðan bauð hann öllum höfðingjum, er þar váru komnir, at halda frið í landi hans; þar með bað hann páfann ok alt lið hans, at þeir skyldu vera í Rómaborg á tólf mánaða fresti ok sagðist þá vildu vera vígðr til keisara. Hann hét því þegar. Síðan þakkaði hann þeim öllum þangatkvámu sína, ok gaf þeim leyfi at fara heim hverjum til síns ríkis. Páfinn tók þá stólu sína ok fingrgull ok kross ok blezaði þá alla ok bað þá alla vera hlýðna Karlamagnúsi konungi, ok fór brott eptir þat hverr til síns lands. En Karlamagnús konungr dvaldist eptir ok fyldi kirkjugerð sína til þess er lokit var. Namlun fór heim at styrkja kastala sína ok varðveita land sitt. Eim af Galiza fór í Jrikun með 300 riddara at varðveita kastalann ok alt fylkit, ok Hugi hertugi af Paris fór með honum aptr í sitt land, en Eim fór til Jrikun með liði sínu.

28. Nú hefir Varner af Pirafunt fregit, at Karlamagnús var til konungs tekinn ok hann hafði drepa látit þá er mót honum váru, þá kom honum í hug, at hann þóttist mikit mega ok vera sterkr maðr ok eiga marga kastala ok sterka ok þrjár borgir Reins ok Loun ok Anuens, ok hann var höfðingi af öllum þeim löndum, er um þær borgir eru. Hann heyrði sagt, at konungr hefði tekit Jrikun, ok

---

27. Öllum sínum höfðingjum bauð hann frið at halda hverjum við annan um alt sitt ríki. Síðan birti hann herra páfanum, at á 12 mánaða fresti ætlaði hann sér til Rómaborgar at vígjast[1] þar til keisara, ok herra páfinn hét honum þar at vera meðr allan sinn skara. Ok eptir þat þakkaði hann mikiliga páfanum ok öllum öðrum sína þangatkvámu ok gaf þeim öllum leyfi at fara í sitt ríki. En herra páfinn stóð upp ok blezaði [þá alla[2] ok bað þá hlýðna vera Karlamagnúsi konungi. Fóru síðan heim í sitt ríki. En Karlamagnús dvaldist eptir ok lét gera kirkjuna til fulls; en Naflun fór heim at styrkja kastala sína ok geyma ríki sín,[3] en Eimir[4] af Galizu fór í Jrikun með 300 riddara ok með honum Hugi hertogi.

28. Nú hefir Varner af Pirapont fregit, at Karlamagnús er vígðr ok hann hefir drepit þá alla sem í móti honum stóðu, ok þóttist hann vera gildr fyrir sér ok mikill kappi, þvíat hann átti marga kastala sterka ok þrjár borgir mjök fjölmennar. Hann heyrði þá sagt, at Karlamagnús hafði látið taka Jrikun

[1]) láta taka sik *b*. [2]) [allan lýð *b*. [3]) sitt *b*. [4]) Eimar *b*.

þótti honum þat illa. Hann stóð upp einn morgin ok fór með 100 riddara til Pirafunt ok tók kastalann ok setti lið sitt í, ok sendi síðan eptir liði í land sitt ok fékk tvær þúsundir riddara: fór síðan til Orliens ok bygði kastalann ok tók borgina ok styrkti,[1] ok lét borgarmenn sverja sér eiða ok allan landslýðinn ok lét gæta kastalans. Síðan fór hann til Brettolia ok gerði slíkt it sama ok svá í Jrikun, ok ætlaði at standa móti Karlamagnúsi konungi, sagðist hann fyrr skyldu hafa þessar borgir allar ok landit með, en hann skyldi honum til handa ganga.

29. Eim af Galiza spyrr, at þat land var alt tekit er hann hét konstabl (yfir). Hann sendi þá menn til Varnis, at hann skyldi ganga til handa Karlamagnúsi konungi ok hafa síðan land sitt. Varner varð reiðr við þat, ok sendi Eim rit sitt ok innsigli, ok sagði at Karlamagnús var rangliga til konungs tekinn, þvíat (hann) var þjófr, ok skal ek ganga með því sannmæli á hólm móti Eim eða Reinhaldi fríska. Eim tók rit þetta ok færði Karlamagnúsi konungi. Hann spurði: Býðr Varner mér þetta ok kallar mik þjóf, illa gerir hann þat. Reinbaldr spurði, hver orð Varner hefði sent. Hann hefir tekit borgir mínar ok kallar mik þjóf ok rangtekinn til konungs, ok vill þar fyrir bjóða mér hólmgöngu eða mönnum mínum. Reinbaldr mælti: Gef mér eina gjöf! Konungr spurði, hvat gjöf þat væri. Reinbaldr svaraði: Lát mik ganga í mót honum. En Karlamagnús

[1]) *r. f.* styrgdi.

---

ok líkaði honum þat illa, ok fór þegar um morgininn til Pirapont meðr hundraði riddara ok setti lið sitt í kastalann, en samnaði síðan at sér liði ok fékk sér tvær þúsundir riddara, fóru síðan til Orliens ok tóku borgina ok bygðu kastalann ok styrktu, létu síðan borgarmenn sverja sér eiða ok allan landslýð; slíkt hit sama fór hann til Brettolliam ok tók hana á sama hátt, ok svá Jrikun, ok sagðist skyldu standa á móti Karlamagnúsi með allan sinn styrk ok afla, en aldri honum á hönd ganga, meðan líf væri með honum.

29. Þetta fréttir Eimir at Varnir hefir undir sik tekit öll þau lönd sem hann var constafl yfir, ok sendi hann menn sína til hans ok bað hann ganga á hönd Karlamagnúsi konungi ok hafa síðan lönd sín í friði En hann varð mjök reiðr við ok sendi Eimi bréf sitt ok kvað Karlamagnús rangtekinn til konungs, því at hann er þjófr, ok skal ek þat sanna meðr minni hólmgöngu viðr þik Eimir eðr Reinald fríska. En Eimir tók þessi bréf ok færði Karlamagnúsi konungi, ok er hann sá bréfit,[1] mælti hann: Býðr Varnir þetta ok kallar mik þjóf, illa gerir hann þat. En Reinbaldr spurði, hver orð hann hefði send. Karlamagnús svaraði: Hann hefir tekit borgir mínar ok ríki mitt, en kallar mik þjóf ok segir mik rangliga tekinn til konungs, ok býðr mér eðr mínum mönnum hólmgöngu. Reinbaldr sagði: Gef mér herra eina gjöf! Konungrinn spurði, hver sú væri. Látið mik ganga á hólm við hann.

[1]) þau *b*.

lofaði honum at vinna þat sœmdarverk, ok bað guð at hann skyldi hef(j)a hann til þess. Síðan fór Reinbaldr til fundar við Eim, ok fóru báðir saman með 400 riddara, ok Turpin með þeim, til Namluns ok sögðu honum at Reinbaldr skyldi ganga á hólm við Varni. En Namlun lét kynliga yfir, ok spurði ef tekin væri hólmgangan með þeim. Reinbaldr sagði, at mælt var til. Þeir tóku leyfi ok vildu fara. Namlun svaraði: Ek skal fara með ýðr með 7 þúsundir riddara, at hann svíki yðr eigi. Þaðan fóru þeir allir saman til Jrikun ok váru þar um nóttina.

30. Um morguninn sendi Namlun menn til Luon á fund Varnis, at hann skyldi fara til Eiss ok ganga til handa konungi, en ef hann vill þat eigi, þá skal hann lífit láta. Þá er Varner heyrði, þá varð hann reiðr ok sór við krapt guðs, ef hann sendi optar nökkura menn slíkra eyrenda, þá skyldi út stinga bæði augu þeirra. Sendimenn spurðu, ef hann vildi ganga á hólm á móti Reinbaldi fríska um þat at konungr væri rangvígðr eða þjófr. Hann gékk í gegn, at hann kallaði hann þjóf. En Geirarðr af Numaia var sendimaðr; þá er hann heyrði þetta, þótti honum svá illa, at hann fýsti at bregða sverði sínu, en hann vildi þat eigi, fyrir því at þat mundi kallat heimskuverk, ok tók með þeim hólmgönguna. Geirarðr spurði, nær þeir skyldu saman ríða. Varner svarar: Á týsdaginn undir Pirafunt, ok einn í mót einum. Hann sagði þeim, er hann kom aptr.

31. Reinbaldr stóð upp snemma um morguninn á týsdaginn ok bjóst vel, gékk til skripta ok tók húsl[1] ok blezan, en Turpin

[1]) guðs líkama *B*, *b*.

Já, sagði konungrinn, guð styrki þik til at vinna þat sœmdarverk. Þeir Reinaldr ok Eimir fóru síðan meðr 6 hundrað manna, ok Turpin meðr þeim, til Nafluns, ok sögðu honum at Reinaldr skyldi ganga á hólm við Varner, en Naflun lét kynliga[1] yfir því, ok spurði ef tekin væri hólmgangan með þeim. En Reinaldr kvað [mælt til.[2] Þeir tóku þá orlof ok vildu fara, en Naflun sagði: Ek skal fara meðr yðr með 7 þúsundir riddara, at hann svíki yðr eigi. Nú fóru þeir til Jrekun ok váru þar um náttina.

30. En Namlun sendi mann til Varners á laun ok bað hann fara til Eirs ok ganga á hönd Karlamagnúsi konungi, en ef hann vill þat eigi, þá skal hann lífit láta. Ok er Varner heyrði þetta, sór hann við guðs krapt, at ef sendir verða fleiri menn þessa örendis, skal þeim augun út stinga. En sendimaðr spurði, hvárt hann vildi á hólm ganga móti Reinaldi fríska um þat at konungrinn væri rangtekinn eðr þjófr. En hann gékk með því, at hann kallaði hann þjóf. En Geirarðr af Numax var sendimaðr, ok er hann heyrði þetta, þótti honum illa ok réð at bregða sverði, en því [gerði hann þat[3] eigi, at þat mundi kallat heimskuverk, ok tók hann með þeim hólmgöngu á týsdag undir Pirapont, einn einum móti. Ríðr hann aptr ok sagði at tekin var hólmgangan.

[1]) undarliga *b*. [2]) [vera mælt til með þeim *b*. [3]) [hjó hann hann *b*.

bauð honum af guðs hálfu[1] at ganga á hólm fyrir Karlamagnús konung. Síðan [veitti hann tíðir sínar ok kysti[2] Reinbald í [þá minning[3] er guð kysti postula sína, er hann hafði sigrat helvíti. Síðan blésu þeir í lúðra sína ok fóru í brott af Jrikun fjórar mílur um skóg þann er Eisa[4] heitir, [ok þar[5] fór Reinbaldr í brynju sína. Turpin setti hjálm á höfuð honum, Namlun gyrði hann með sverði, en Eim[6] hengði skjöld á háls[7] honum, Geirarðr fékk honum spjót. Ljóp hann þá á hest sinn, [Turpin hélt ístigi hans,[8] hestr hans var hvítr ok öll hans vápn, sjálfr hann var ok hvítr, mikill ok styrkr. Geirarðr tók skjöld hans ok spjót ok gékk[9] til staðarins, þar sem þeir skyldu berjast. [Namlun hafði vápnat hest sinn ok reið í skóginn, svá at engi maðr mátti sjá hann, sem hann mætti næst komast.[10]

32. [Varner er í Pirapunt ok hafði heyrt messu ok tekit skript ok húsl. Hann er svartr, ok svá hestr hans ok öll vápn hans ok klæði ok merki,[11] ok reið móti Reinbaldi fríska, ok spurði ef hann vildi sættast við hann af hendi Karlamagnús konungs at þeim kosti, at hann hefði allar eigur sínar ok[12] Pirapunt ok Orliens ok Brettoliam, [ok hæddi at.[13] Reinbaldr svaraði: Þú hefir talat heimsliga,[14] segir hann, þú kallaðir konunginn þjóf,[15] ok er af því nefnd hólmganga með okkr, [ek skal vera verndarmaðr lávarðs míns Karlamagnús konungs[16] með guðs miskunn; ella far þú til Eiss [ok gerst maðr Karlamagnús konungs ok þigg hans miskunn. En Varner svarar því háðuliga ok kvezt aldri hans maðr vera skyldu. Eptir þat tóku þeir til vápna sinna ok riðust at, ok lagði Varner hann af hestinum þegar ok mælti við hann, at hann skyldi gefast upp ok segjast yfirkominn. Reinbaldr sagðist þat eigi gera mundu. Síðan lagði Reinbaldr spjótinu í lær Varni svá fast, at stóð í, ok brá síðan sverði sínu. En Varnir laut niðr ok tók spjót sitt ok laust Reinbald á hœgri hönd. Reinbaldr tók til ok laust í höfuð honum, svá at hann féll af hesti sínum í svima. Síðan lagði hann sverðinu undir brynju Varnis til hjartans,

1) *saal. B, b;* álfu *A.* 2) [sungu þeir tíðir allar, eptir þat kysti hann *B, b.* 3) [minning þess *b.* 4) Frisant *B, b.* 5) [þeir tóku hvíld ok stigu niðr af hestum sínum, ok síðan *B, b.* 6) Eimir *B;* Eimar *b.* 7) hlið *B, b.* 8) [*mgl. B, b.* 9) bar *B, b.* 10) [Naflun var ok á hest kominn með 7 hundrat (6 þúsundir *b*) riddara, ok riðu í skóginn sem næst hólmgöngunni, ok leyndust þar *B, b.* 11) [Þá er Varnir í (af *b*) Pirapont hafði hlýtt messu ok tekit húsl, herklæddist hann með öllum svörtum herfórum, ok svá var hans hestr ok hann sjálfr svartr á hár ok hörund, hljóp hann nú á hest sinn *B, b.* 12) *mgl. b.* 13) [*mgl. B, b.* 14) heimsku *B, b.* 15) ok sagðir hann rangliga tekinn til konungs *tilf. B, b.* 16) [at ek skal verja lávarð minn *B, b.*

ok hafði hann bana.[1] En Geirarðr tók spjót hans ok skjöld ok hest ok fór brott með, en Namlun tók líkit með [vápnum ok öllum klæðum til Karlamagnús konungs[2] í Eiss, ok báru inn fyrir konung. Þá er Karlamagnús konungr sá þá, þakkaði hann guði.[3] Um morguninn snemma stóð Reinbaldr upp ok 10 þúsundir riddara, ok fóru[4] til Leunz ok [sögðu Manases[5] jarli föður konu Varnes, at hann skyldi [taka dóttur sína Acin ok fara með[6] til Karlamagnús konungs. Hann gerði svá. [En Karlamagnús tók í hönd Acin ok gaf hana Eim af Galiza ok allar eigur Varnes, Jrikun ok Pirapunt ok land sitt sjálft Galiza, ok hann fékk hennar þar í Eiss. En Karlamagnús konungr fór til Orliens ok bar þar kórónu, en sendi Namlun til Ammiensborgar at taka hana, ok lét þá alla sverja sér eiða, at þeir skyldu **vera konungi hlýðnir. En Karlamagnús fór aptr til Eiss.**[7]

33. [Þá er Karlamagnús kom í Eiss, þá var dróttning sjúk ok lifði átta nætr síðan. En er Namlun kom heim, þá þótti honum mikit andlát dróttningar. Karlamagnús konungr varð ok úglaðr, ok lögðu líkit á börur ok bjuggu vel um ok báru til Arieborgar ok jörðuðu á miðju kirkjugólfinu hjá legi Pippins konungs.[8] Karlamagnús konungr setti til 30 kanoka[9] ok fjóra presta at veita sálutíðir fyrir sálum þeirra, ok fór aptr til Eiss síðan. Reinbaldr tók konu **sína Belisent ok fór til Fríslands með.**[10]

34.[11] J þetta mund kom Bofi hinn skegglausi[12] af Viana til hirðar Karlamagnús konungs, ok son hans með honum, við 100 riddara

[1]) [ok sættizt þit Karlamagnús, ok legg alt þitt mál á hans vald, sá man þér beztr kostr. Varner svarar hæðiliga ok sór um, at sín mál skyldi hann aldri undir Karlamagnús leggja ok aldri honum þjóna. Þá reiddist Reinaldr, ok riðust at djarfliga, ok lagði Reinaldr spjóti sínu í lær Varners, svá at fast stóð. En síðan brá hann sverðinu ok lagði undir brynjuna til hjartans, ok lét Varner þá líf sitt með litlum orðstír. *B*, *b*. [2]) [öllum herklæðum (herfórum *b*) ok færði Karlamagnúsi konungi *B*, *b*. [3]) ok Pétri postula *tilf. B*, *b*. [4]) fór *B*, *b*. [5]) [bauð Manase *B*, *b*. [6]) [fara með dóttur sinni *B*, *b*. [7]) [Gaf hon (hann *b*) sik ok sitt góðz í vald konungsins. En hann tók því harðla vel ok gipti hana Eimi af Galizu, ok lét henni fylgja allar eigur, þær sem Varner hafði átt, Jrikun, Pirapunt ok margar aðrar eignir. En lið þat sem Varnir hafði fylgt sór Karlamagnúsi eiða *B*, *b*. [8]) [Brátt eptir þetta tekr Berta dróttning sótt, ok lifði 7 nætr upp frá því ok andaðist síðan. En Karlamagnús konungr ógladdist mjök við þat, ok bjuggu um líkit sem prýðiligast ok báru til Ariesborgar, ok var hon (þar *tilf. b*) jörðuð á miðju kirkjugólfi hjá Pippin konungi *B*, *b*. [9]) kanunka *B*, *b*. [10]) hana *tilf. B*, *b*. [11]) *Dette Capitel anföres fuldstændig nedenfor efter B og b.* [12]) *Dette Ord er i A underprikket, og i Margen skrevet:* skeggmikli.

---

34. Bovi hinn skegglausi af Viana, kom til hirðar Karlamagnús konungs með hundraði riddara ok son sinn ok hundrað sveina með honum; hann var

ok hundrað sveina, ok bað konung at hann skyldi gera son hans riddara. Karlamagnús gerði svá, ok alla sveinana með honum fyrir hans sakir. Þá bað Karlamagnús Bofa hertuga, at fara til Rómaborgar ok biðja Hatun konung af Spolia at fara með sér at hvítasunnudegi, ok sagðist þá skyldu vera kórónaðr. En Bofi hertugi fór þegar sem konungr bauð, en Geirarðr son hans var eptir meðan. Bofi hertugi kom til fundar við Hatun konung ok sagði honum orðsending Karlamagnús konungs. En Hatun konungr hét ferðinni. En er Bofi hertugi var aptr á leið, þá tók hann sótt, þá er hann leiddi til bana. En Karlamagnús konungr bað Umant af Lamburg, at hann skyldi fóstra vel Adaliz systur hans, en hann fékk Gelem systur sína í hendr Makario, at hann skyldi hana vel varðveita.

35. [Eptir þat bjó Karlamagnús konungr ferð sína til Róms ok hafði af Saxlandi[1] 100 þúsunda riddara ok hirð sína,[2] ok[3] kómu til Rómaborgar með öllum höfðingjum af Saxlandi. [Roðbert erkibyskup af Reins ok byskupinn af Miliens önduðust í þessi ferð.[4] En Karlamagnús konungr var[5] með hirð sína til Pétrs kirkju ok lét sik þar króna. Páfinn var skrýddr ok tók kórónu ok setti á höfuð honum ok blezaði hann, Hatun[6] konungr af Spolia bar sverð hans, Dreia konungr af Peitrs[7] bar spjót hans, hertuginn af Brettania ok hertuginn af Bealver géngu á tvær hendr honum, er hann gékk til altaris at offra guði sjálfan sik. Síðan leiddu þeir hann til sætis síns, ok sitr hann í sæti Pétrs postula. En páfinn gékk á kór upp ok predikaði, ok þakkaði þeim[8] þangatkvámu ok bauð þeim í guðs hlýðni[9] ok sancte Marie ok Pétrs postula, at þeir skyldu halda vel frið [ok kristni[10] við Karlamagnús keisara af Rómaborg. [Síðan gékk hann til altaris ok söng messu,[11] þá tók hann kórónu af höfði Karl-

[1]) [Karlamagnús konungr bjóst þá til Rómaborgar af Saxlandi ok hafði *B, b.* [2]) umfram *tilf. B, b.* [3]) þeir *b.* [4]) [ok með honum var i ferð Roðbert erkibyskup af Reins ok annarr byskup af Reinssand *B, b.* [5]) gékk *B, b.* [6]) *saal. B, b;* Otun, *A her og overalt.* [7]) Petinsborg *B,* Petrsborg *b.* [8]) fólkinu *B, b.* [9]) nafni *B, b.* [10]) [ *mgl. B, b.* [11]) [ok söng síðan út messuna til lykta, en *B, b.*

---

hertogi, ok bað son sinn gerast riddara ok alla sveina hans með honum fyrir ástar sakir viðr hann. Ok þetta veitti Karlamagnús honum, at hann dubbaði þá alla til riddara. Karlamagnús bað Bova fara til Spoliamborgar til Hatuns konungs, ok bað þá koma báða saman til Rómaborgar at hvítasunnudegi: Ek skal þá vera kórónaðr.[1] Ok hann fór ok fann Hatun konung, ok hét hann ferðinni; Geirarðr son Bova var eptir með Karlamagnúsi. Ok í þessi ferð andaðist Bovi, en Karlamagnús bauð Vinant af Landber[2] fóstra son hans.

[1]) til konungs tekinn *b.* [2]) Lamber *b.*

amagnúsi keisara ok öll kórónuklæði ok hirði,[1] en spjótit ok sverðit geymdi[2] Namlun. Géngu síðan allir inn í höllina. En er þeir höfðu af sér lagt klæði sín, þá kom maðr ok sagði andlát Bofa hertuga ok þeirra byskupanna.[3] En Karlamagnúsi konungi þótti þat mikill skaði, ok gaf þá Geirarði syni hans Vianam[4] eptir [hann ok hertugaríkit ok jarldóm með tveim sveitum ok hvítum merkjum.[5] Síðan gipti hann honum Ermengerði dóttur Varnes af Muntasaragia. Síðan gékk hann til Karlamagnús konungs, ok Hatun konungr með honum ok Dreia konungr af Peitrs,[6] ok [kystu hönd konungs ok þökkuðu honum þá sœmd, sem hann hafði honum gert.[7] Síðan fór Geirarðr til Muntasaragiam ok tók konu sína[8] ok fór til Vianam[9] með hana.

36. Síðan kallaði Karlamagnús konungr til sín Turpin kapalín sinn[10] ok gaf honum erkibyskupsstólinn í Reins, en Rikarði ritara sínum byskupsstólinn í Miliens.[11] Páfinn vígði þá báða, ok tóku síðan allir leyfi ok fóru heim. Karlamagnús konungr fór til Eiss ok fann þar Gelem[12] systur sína ok leiddi hana [í svefnhöll sína, ok svaf hann hjá henni, svá at hann lagði ást við hana, til þess er lag þeirra varð.[13] Síðan gékk hann til kirkju ok [gékk til skripta við Egidium fyrir allar syndir sínar[14] nema þessa. En Egidius blezaði hann ok fór til messu. En er hann söng lága messu, kom Gabriel engill guðs ok lagði rit[15] á patenuna. En þat [var á ritinu,[16] at Karlamagnús konungr hafði[17] eigi til skripta gengit fyrir allar syndir sínar: hann hefir legit með[18] systur sinni, ok mun hon fœða son er heita skal Rollant. Ok skal hann gipta hana Miluni af Angrs,[19] en eptir sjau[20] mánaði skal hon verða léttari síðan þau kómu bæði í eina hvílu, ok skal [hann þat[21] vita, at hann er hans sun, [ok þó systur sinnar,[22] ok láti hann vel varðveita sveininn, því(at) hann mun hans þurfa. Egidius tók ritit af patenunni ok gékk þegar skrýddr[23] til Karlamagnús konungs ok las fyrir honum. Hann gékk við því[24] ok féll til fóta honum ok bað fyrirgefningar[25] ok hét því, at hann skyldi aldri optar þá synd gera, ok tók skript ok gerði alt

[1]) váru þau geymd *B, b.* [2]) varðveitti *B, b.* [3]) Roðberts af Reins ok byskups af Reinssand *tilf. B, b.* [4]) Viennam *b.* [5]) [föður sinn ok hertogadóm meðr tveim merkjum hvítum *B, b.* [6]) Petrs *b.* [7]) [60 hertoga ok 200 jarla fyrir elsku sakir við Geirarð, ok þakkaðu Karlamagnúsi keisara þessa gjöf ok allan heiðr, er hann veitti Geirarði *B, b.* [8]) Ermingerði *tilf. B, b.* [9]) Viennam *b.* [10]) bróðir(!) Hatuns jarls af Alemannia *tilf. B.* [11]) Nilenis *B, b.* [12]) Gilem *B, b.* [13]) [til herbergis síns ok lagði ást viðr hana til lags ok samvistu *B, b.* [14]) [játaði syndir sínar fyrir Egidio ábóta allar *B, g.* [15]) bréf *B, b.* [16]) [stóð þar á *B, b.* [17]) hefði *B, b.* [18]) Gilem *tilf. B, b.* [19]) Angres *B, b.* [20]) *saal. B, b;* tólf *A.* [21]) [hon *B, b.* [22]) [*mgl. B.* [23]) með *tilf. B, b.* [24]) öllu *tilf. B.* [25]) hann fyrirgefa sér *B, b.*

sem ritit bauð honum, gipti systur sína Miluni ok gerði hann hertuga yfir Brettanna.[1] En sveinninn var fœddr 7 mánuðum síðar. Karlamagnús sendi Namlun ok Giliam eptir sveininum[2] ok báru til kirkju í Eiss. En [Ligger ábóti skírði ok kallaði Rollant ok fékk kanunkum at fœða hann upp, ok bað ábóta guðföður hans, at hann skyldi vel varðveita hann ok kenna honum á bók. Abótinn tók við ok fékk honum 4 fóstrur.[3] En er hann var 7 vetra gamall, þá fœrði ábóti hann Karlamagnúsi. Konungrinn[4] sá, at hann var vænn ok mikill, ok gladdist hann mjök við, ok kallar Rollant til sín ok spurði hann: kennir þú mik, sagði hann. Sveinninn svaraði: Kenni ek þik, lávarðr, segir hann, þú ert móðurbróðir minn. Þá er Karlamagnús heyrði, þá hló hann at [ok mælti til Dreiu[5] prófasts ok Geirarðs af Numaia,[6] at þeir [skyldu varðveita hann.[7] En Namlun bað þá koma opt með sveininn til herbergja hans, því(at) ek em fóstrmeistari[8] hans.

37. Eptir þat fór Karlamagnús konungr til Orliens [ok með honum jungherra Rollant ok varnaðarmenn sveinsins báðir.[9] En síðan lét konungr senda eptir Miluni mági sínum ok Gelem[10] systur sinni, at þau skyldu koma til hirðar, en þau kómu [með 7 þúsundum[11] riddara, ok fundu þar Rollant, er þau lönguðu mest eptir,[12] þvíat þau áttu [ekki barn nema hann.[13] Karlamagnús konungr kystu[14] þau bæði ok setti þau [í hásæti[15] hjá sér ok lét kalla til sín Rollant. Þeir fóstrar hans leiddu hann þangat [vel klæddan í kyrtli, var af kviðhlutum góðum, ok í skyrtu undir af inum bezta líndúki, ok kordúnaskúar mærðir[16] með dýrinu úarga. Geirarðr ok Dreia leiddu hann milli sín, en 40 ríkra manna sonu lét Karlamagnús konungr ganga með honum til skemtanar ok virðingar; þessi eru nöfn þeirra:[17] Balduini ok Aurnolfr[18] systrungar[19] Karlamagnús konungs, Vilhjálmr son Dreia[20] konungs af Peitrs,[21] ok [Estant son Hatuns, ok Anherri af Burgunía,[22] Reinar son hertuga af Paris, Hugi son [Valtirs af

[1]) Brittannia *B, b.* [2]) barninu *B, b.* [3]) [ábóti einn skírði hann ok kallaði Rollant ok fékk kanunkum at varðveita; en Varin ábóti tók vel við sveininum ok lét kenna honum á bók ok fékk honum fjórar fóstrur. *B, b.* [4]) fagnaði vel sveininum ok *tilf. B, b.* [5]) [kallandi sveininn (Rollant *b*) til sín ok mælti við Drefion *B, b.* [6]) Numax *B,* Numas *b.* [7]) [varðveitti sveininn *B, b.* [8]) hinn fyrsti meistari *B, b.* [9]) [borgar ok Drefion prófastr ok Geirarðr af Numax ok höfðu sveininn með sér *B, b.* [10]) Gilem *B, b her og fremdeles.* [11]) [ok með þeim 7 hundrůt *B, b.* [12]) til *B.* [13]) [þá engi börn fleiri *B, b.* [14]) mintist við *B, b.* [15]) [niðr *B, b.* [16]) m⁷der *A.* [17]) [Geirarðr ok Drefion vel klæddan ok gékk undir sína hönd honum hvárr þeirra, ok 40 ríkra manna synir (með *tilf. B*) honum til virðingar *B, b.* [18]) Arnulfr *B, b.* [19]) systursynir *B, b.* [20]) Dregvi *B,* Drefiu *b.* [21]) Pettes *B,* Petrs *b.* [22]) [son Hatuns ok *B, b.*

Ternis ok Valtir bróðir hans, Bertram ok Eimund af Burdelia, Aumeri af Berin ok Lambert[1] bróðir hans, Manaser[2] son jarls af [Deremunt, Veler[3] af Bealfer bróðir Namluns, Pippin ok Karl bróðir hans synir hertugans af Kolne, Jozelin af Provencia, Baldvini af Blesborg, Bernarðr[4] son [Otram af Pursals, Joceram son Ralfs af Vtrefs.[5] Rikarðr son Rikarðar gamla af Norðmandi, Benzalin son Huga af Puntis[6] ok [Todbertr bróðir hans, Thedbaldr son Segrins af Aspremunt, Roðbert son Roðberts af Angeo, Hugi son Huga af Nenzu ok Reinar bróðir hans, Vazer son Geofrey af Korlin, Makin son hertuga af Ansers, Geirarðr ok Teorfi bróðir hans, Aurnolfr son Geirarðar af Defa, Ornolfr son jarlsins af Los ok Lödfer broðir hans, Gudifrey son jarlsins af Brusela, Fromundr son Aflens, Pétr son Roðberts af Seruni, Segun son jarls af Vegia,[7] Folkvini son konungs af Spolia.[8] þessir allir fylgðu Rollant [fyrir Karlamagnús konung.[9] Milun stóð upp í móti honum ok tók hann í fang sér ok kysti hann, ok bar til Gilem ok [setti hann niðr á milli þeirra, ok sátu svá meðan veizlan stóð. En at veizlu liðinni bað Gilem konung, at hann mundi leyfa at Rollant fœri með þeim í Brittaniam ok láta menn þar ná at kennast við hann. En hann veitti henni þegar þat er hon bað. Síðan tóku þau heimleyfi ok fóru síðan heim, ok allir þessir 40 hinir ríkustu manna synir með Rollant í Vallandi. En er Milun kom heim til Anglers ok Gilem, ok Rollant með þeim, þá var þar skemtan mikil, ok létu varðveita hann ok alt lið hans með inni mestu sœmd er til mátti fást.[10] En Karlamagnús konungr fór aptr til Eiss.

38. Nú tekr Geirarðr af Viana [mikil úskil til, ok tók hvervetna at gera í mót Karlamagnúsi konungi lávarði sínum ok hans mönnum. En er Karlamagnús konungr varð þessa varr, þá sendi hann honum

¹) [Valteris ok Bertram ok Eimund Amon af Bern ok Landbert *B*, *b*. ²) Manases *B*, *b*. ³) [Slaremont, Vildri *B*; Klaremunt, Veldre *b*. ⁴) Bjarnarðr *B*, *b*. ⁵) [Otrams ok Jozdram (Jozaram *b*) son Rolfs jarls *B*, *b*. ⁶) Puntif *B*, *b*. ⁷) [Theobaldus bróðir hans ok Theobaldus son Segnis af Fenizu ok Reinir bróðurson hans, Gerpes af Gimunar fjalli, Vallter son Geofreis (Gudefreis *b*) af Torlin (Korlin *b*), ok Makin sonr hertogans af Anteis (Anzeis *b*), Geirarðr ok bróðir hans, Arnulfr sonr Geirarðar ok Arnulfr son jarls af Clos ok Lödver bróðir hans, Gudifreyr son jarls af Brusela ok Fromundr Fromundar son ok Petr Roðberts son, Segun jarls son af Fria *B*, *b*. ⁸) Sublia *b*. ⁹) [*mgl. B*, *b*. ¹⁰) [settu þau hann niðr millum sín; bað hon þá Karlamagnús at sveinninn fœri með þeim ok kendist þar með fólk, ok munu menn at betr unna honum. Hann lofaði þat þegar, ok tóku þau síðan orlof ok fóru heim allir þessir 40 hinna ríkastu manna synir í Valland með honum. En er Milon kom heim til Angvers (Angres *b*) ok Gilem frú hans ok Rollant meðr þeim, þá mátti þar sjá mikla gleði í heimligri mekt *B*, *b*.

orð, at hann skyldi koma á hans[1] fund til Eiss eða Leons eða Orliens, ef hann vill hafa Vianam eða fé sitt eða líf. En er þessi orð kómu til Geirarðs, þá svaraði hann: Faðir minn átti Vianam ok tók[2] eptir Gundeblif[3] bróður sinn, en[4] hann vann af heiðnum mönnum ok kom[5] aldri í konungs eign, ok eigi mun ek[6] koma, [höfum vér[7] kynsmenn átt vel 30 vetra.[8] En Karlamagnús varð reiðr mjök[9] ok samnaði liði ok fór til Vianam ok hafði [7 þúsundir[10] riddara, ok sátu um borgina, svá at [komast mátti engi maðr or borginni,[11] ok hann lét kalla ok blása um allan herinn, at engi fœri brott fyrr en hann hefði tekit Vianam,[12] ok bauð öllum [at varðveita boðorð sín[13] ok gæta vápna sinna ok sjálfra sinna, svá at engum stœði mein af, nema hann mælti[14] þat ok sór at skeggi sínu, at sá skyldi dýrt kaupa, ef[15] eigi héldi þat,[16] ok setti grið síðan allra[17] manna í millum. [En Milun hertugi gerir nú Rollant son sinn riddara ok 40 riddara með honum, ok vápnaði þá vel alla ok gyrði sverði. En Rollant var svá ungr ok lítill, at hann hengdi sverðit á háls honum. Hann fékk þeim 4 meistara yfir þjóna sína: einn varðveitti[18] mungát, annan hússýslumann, 3 búsýslumann, fjórða konstabl;[19] ok fékk þeim mikit fé ok sendi þá til Karlamagnús konungs ok bað þá herbergjast[20] hjá landtjaldi Namluns ok enga sýslu aðra hafa[21] en þá er hann réði þeim, ok hafa[22] hann at ráðgjafa. Síðan bundu þeir klæði sín, ok kysti Rollant föður sinn ok móður, ok blésu síðan í lúðra sína ok hljópu á hesta sína, ok tóku leyfi ok fóru brott af Angler ok kómu til Viane at miðjum degi.[23]

[1]) [at gera úskil mikil Karlamagnúsi konungi ok mönnum hans ok ofbeldist nú svá móti herra sínum. Ok er Karlamagnús spyrr þat býðr hann honum á sinn *B.* [2]) hana *tilf. B, b.* [3]) Gundilibolf *B, b.* [4]) [*her begynder 1ste Blad af a.* [5]) hon *tilf. a, B, b.* [6]) hon enn *B, b.* [7]) ok várir *tilf. a.* [8]) [*mgl. B, b.* [9]) er hann spurði þat *tilf. B, b.* [10]) [*saal. a, B, b*; 700 þúsunda *A.* [11]) [engi maðr mátti út komast-né inn *a, B, b.* [12]) borgina *a.* [13]) sitt *a.* [14]) lofaði *a.* [15]) er *a.* [16]) [sínum mönnum, at þeir gerði engum manni mein fyrr en hann byði þat, ok sór við skegg sitt, ef þeir héldi þat eigi, at sá skyldi líf láta *B.* [17]) allra sinna *a;* sinna *B, b.* [18]) at varðveita *a.* [19]) constabulum *a.* [20]) herbergja sik *a.* [21]) með honum *tilf. a.* [22]) hafit *a.* [23]) [Milon hertogi gerir nú Rollant son sinn út af ríkinu til fundar viðr Karlamagnús keisara, ok þá 40 sveina meðr honum, sem honum höfðu þangat fylgt. Hann fékk þeim öllum sœmilig vápn. Þó var Rollant þá svá ungr, at hann fékk varla vápn borit; fjóra röska menn fékk hann til fylgdar við þá, einn at geyma drykk, annan geyma (at fara með *b*) kost, þriðja at taka þeim herbergi, fjórða constafl. Hann fékk þeim mikit fé ok bað þá taka herbergi hjá landtjaldi Nafluns. Síðan kysti Rollant föður sinn ok móður, ok tóku leyfi blásandi í lúðra sína, komandi at kveldi dags til Vianam *B, b.*

39. [Á þeirri tíð[1] kom riddari einn[2] ok reið [yfir Peitenam[3] á mót þeim, ok sá Rollant at hann [herbergðist[4] með öðrum riddurum.[5] Rollant bað fá sér vápn sín, hann vápnaðist skjótt, tók skjöld sinn ok spjót sitt ok merki ok sté á hest sinn ok [reið or borginni[6] at sjást um.[7] Hann spurði hvers þessi riddari leitaði eða hvat hann heitir.[8] Hann kvezt heita Bernarðr af Averna[9] frændi Geirarðs hertuga, [eða hvert er þitt heiti.[10] Hann svaraði: Ek heiti Rollant systurson Karlamagnús konungs, [ok gerum svá vel, at kostgæfum at sætta[11] þá Karlamagnús ok Geirarð, ok gefi hann[12] upp Vianam. Bernarðr[13] svaraði: Mæl eigi þat, sagði hann, því at Geirarði er [engi tíðkan á at sættast,[14] eða komtu [til þess hingat?[15] Nei, segir Rollant, ek kom til þess at vita, hvat ek má. Bernarðr svarar: [Þú mátt nú reyna þik.[16] Rollant hafði numit [í Brettania[17] at skylmast. Þeir hjuggu[18] síðan hesta sína sporum ok hleyptust at, ok lagði hvárr [til annars,[19] svá at spjótsköptin brotnuðu, ok [féll hvárgi[20] af hestinum. Rollant tók þá sverð af hálsi sér ok brá. Bernarðr brá ok sínu sverði, er hann var gyrðr með. En[21] Rollant laust [hann í höfuðit, svá at Bernarðr[22] féll af hestinum ok vissi ekki til sín. [Síðan ljóp Rollant af baki ok laust hann svá annat sinn, at hann vissi lítið í þenna heim, ok gaf[23] upp sverð sitt ok gékk til handa Rollant ok bað [sér grið(a). Rollant hét því ok sté á hest sinn, en Bernarði gaf hann grið.[24] En allir Valirnir[25] [undruðust, hvat manna sjá mundi vera, er með Rollant reið til tjalds. Þeir stigu þá af hestum sínum. Rollant bað Bernarð fara af brynju sinni. Litlu síðar kom Namlun á fund Rollants ok heilsaði honum ok bað hann vel kominn. En svá er háttat, góði félagi, segir hann, at þú hefir brotit boðorð Karlamagnús konungs frænda þíns, þau sem hann hefir sett ok svarit við skegg sitt, at ef nökkurr maðr yrði svá djarfr, at hann misþyrmdi nökkurum manni fyrr en hans boð kœmi til, at hann skyldi engu fyrir týna nema lífinu; þikki mér ván, at hann sé þér

1) [þessu jafnfram *a*. 2) or kastala (borginni *B*, *b*) *a*, *B*, *b*. 3) [*mgl.* *B*, *b*. 4) ekki *tilf.* *a*. 5) [var herklæddr *b*. 6) tjaldbúðunum *a*. 7) [mœtti riddaranum *B*, *b*. 8) héti *a*, *B*, *b*. 9) Auverna *a*. 10) [en hvat heitir þú, segir hann *a*; ok spurði Rollant á móti at nafni *B*, *b*. 11) [kostum ok gerum svá vel, at vér sættum *a*; ok viltu prófa, at mit sættim (fáim sætt *b*) *B*, *b*. 12) Geirarðr *B*, *b*. 13) Riddarinn *B*, *b*. 14) [þat engi sœmd *B*, *b*. 15) [fyrir þat hingat at leita þessa *B*, *b*. 16) [Reynum at því *B*, *b*. 17) [*mgl.* *B*, *b*. 18) lustu *B*, *b*. 19) [í annars skjöld, *a*, *B*, *b*. 20) [*saal a;* féllu báðir *A*. 21) [brugðu þeir þá sverðum sínum *B*, *b*. 22) [í höfuð riddaranum, svá at hann *B*, *b*. 23) [Ok er hann vitkaðist, gaf hann *B*, *b*. 24) [hann eigi drepa sik. Rollant sagðist eigi mundu drepa hann ok sté á hest sinn ok fékk Bernarði sinn hest *a*, *B*, *b*. 25) [*saal ogs. a*; *mgl.* *B*, *b*.

reiðr vorðinn. Nú skulum vit fara á fund Karlamagnús konungs ok freista at þit sættizt. Eptir þat gékk Namlun á fund Karlamagnús konungs ok bað hann gefa sér gjöf eina. Konungr spurði, hver sú var. Namlun svaraði: Fyrirgef Rollant frænda yðrum ina fyrstu sök, er hann braut boð yðvart; hann hefir unnit Bernarð af Aferna. Karlamagnús bað hann ganga eptir honum sem skjótast. Síðan gékk Namlun ok leiddi þá alla á konungs fund. Rollant hafði Bernarð með sér. Namlun leiddi Rollant fyrir konung ok mælti: Sé hér nú systurson þinn, tak nú við honum ok fyrirgef honum þetta verk. Karlamagnús kysti hann ok varð feginn ok mælti: Ek fyrirgef þér, góði systurson, þessa sök.[1] Síðan setti hann þá alla hjá sér, ok spurði hvárt[2] þeir væri herbergðir. Rollant sagði, at þeir væri herbergðir hjá Namlun. Karlamagnús bað Namlun [sjá til hags þeirra.[3] Rollant tók Bernarð ok fékk[4] konungi, ok bað hann þó[5] eigi drepa hann. Karlamagnús mælti: Bernarðr skal vera með [mér ok eigi drepinn,[6] þvíat [þú hefir unnit hann,[7] heldr skal ek gefa honum

[1]) [undruðu hvat manni (hvat manna *B*) þetta mundi vera. Síðan riðu þeir til tjalds ok lögðu niðr vápn sín, ok bað Rollant Bernarð fara af brynju sinni. Þá kom Namulun (Naflun *B*, *b*) hleypandi til Rollants ok spurði, hvat hann héti. Hann kvazt heita Rollant systurson Karlamagnús. Namulun bað hann fara með sér til tjalds. Hann gerði svá. Namulun ávítaði Rollant mjök, at hann hefði brotit boðorð Karlamagnús, hann hefir svarit við skeggit hvíta (skegg sitt *B*, *b*), ef nökkurr riddari tœki vápn sín, at hann sjálfr skal (þat *tilf. B*, *b*) rétta, ok mun ek nú skapa þér víti fyrir, ek skal nú hýða þik. Hann fór or fötum (klæðum *B*, *b*) sínum ok lagðist í hvílu hans (ok hann barði hann *tilf. B*. *b*). En Namulun gékk til Karlamagnús ok bað hann gefa sér gjöf eina. Konungr spurði, hver sú var (væri *B*, *b*). Hann mælti: Fyrirgef þeim manni er braut boðorð þitt (grið yður *B*, *b*). Konungrinn fyrirgaf (gerði þat *B*, *b*) þegar. Þá sagði Namulun, at þat var systurson hans Rollant (hann tók Bernarð til sín *tilf. a*); ok þó skal hann eigi vítislauss undanganga (vera *B*, *b*), lát skera negl hans (eptir dómi þínum *tilf. a*). Konungr kvað því vel ráðit, (þá sagði Karlamagnús: vel hefir þú or ráðit ok þat skal vera *B*, *b*) ok gakk þegar eptir honum. Namulun leiddi hann þangat ok alla þá (hans *B*, *b*) félaga. Rollant hafði Bernarð með sér. Namulun leiddi hann fyrir Karlamagnús ok mælti: Sé hér nú frænda þinn, konungr. Karlamagnús kallaði sveininn til sín ok kysti hann, ok varð feginn ok mælti við Namulun: Nú er Rollant dœmdr, ger nú sem þú dœmdir. Namulun skar af nöglum (negl *B*, *b*) hans ok mælti svá: Nú er dómrinn gjörr (goldinn *B*, *b*), kalla nú systurson þinn ok fyrirgef honum (gef honum upp þessa sök *B*, *b*). Konungr mælti: Góði systurson, ek fyrirgef þér þessa sök (gef þetta upp *B*, *b*) ok ek tek af þér reiði mína. *a*, *B*, *b*. [2]) ef *a*; hvar *b*. [3]) [hugsa til þeirra hags *a*; sjá um þeirra hag *B*, *b*. [4]) gaf *a*, *B*. *b*. [5]) *mgl. a*, *B*, *b*. [6]) [oss velkominn *B*, *b*. [7]) [minn systurson vann hann yfirkominn mér til handa *B*, *b*.

Aufernam ok þar með jarldóm. Síðan gékk Bernarðr á hönd Karlamagnúsi konungi, ok gaf konungr honum hvítt merki ok spjót ok jarldóm með Jdremunt[1] ok alt Auernaland, ok bað hann[2] vera með Rollant ok styrkja lið hans.

40. [Um morguninn eptir gékk Rollant á fund Karlamagnús konungs frænda síns ok mælti: Gerum svá vel ok förum at herklæða lið várt, ok förum til Vianeborgar, ok freistum at vér megim vinna hana. Konungr segir svá vera skulu. Eptir þat var blásit í lúðra ok sótti liðit at borginni. En hon var svá sterk, at þeir sátu um hana 7 vetr í bili, ok gékk engi sá dagr, er þeir berðist eigi.[3] Rollant gerði einn leik, hann reisti upp eitt[4] tré ok hengdi þar á [einn skjöld,[5] ok lét lið sitt ríða at með spjótum [at skildinum.[6] Geirarðr ok Oliver [systurson hans sátu í borginni með miklu liði. Einn tíma riðu þeir út af[7] borginni með 10 þúsundum riddara [at sjá leikinn. Rollant hafði skipat undir borgarveggjunum[8] með alvæpni 10 þúsundum riddara. Geirarðr ríðr nú til með alvæpni ok höggr ofan[9] leikinn fyrir háðungar sakir. Rollant ríðr [nú til með sitt lið ok slær þegar í hinn mesta bardaga.[10] Oliver ríðr at þeim manni er Lambertr hét ok feldi hann af hesti sínum til jarðar.[11] Geirarðr var góðr riddari ok brá sverði sínu ok [drap margan mann en elti suma.[12] En Rollant tók þá at [kalla úskjálfandi röddu ok styrkti síðan liðit, ok riðust þeir at ok gerðu mikla orrostu[13] Rollant hjó þann mann er bar merki Geirarðs á hjálminn aptan í[14] hnakkann með sverði, svá at staðar nam[15] í nösum. Þá vápnaðist Karlamagnús konungr ok allr herrinn ok [ætluðu til at ríða.[16] En er Geirarðr sá þat, ríðr hann aptr í borgina, [ok féllu 19 riddarar af liði hans

[1]) *saal. ogs. a;* Klarimont *B, b.* [2]) jafnan síðan *tilf. B, b.* [3]) [Rollant bað konung veita sér eina bœn. Hann játaði því. Lát lið þitt alt vápnast, ok föru(m) til borgarinnar, ok vitum ef vér megum taka Vianam. Síðan fóru þeir til borgarinnar ok váru um hana 7 vetr, ok gékk engi dagr svá, at þeir börðust eigi *a;* [Rollant mælti: Látið vápnast lið yðvart, herra, ok göngum fast at borginni, ok vitum ef vér getum unnit. Karlamagnús sagði, at svá skyldi vera; ok svá er sagt, at Karlamagnús konungr berðist með liði sínu á þessa borg sjau vetr í samt, ok gékk (kom *b*) engi sá dagr, at þeir berðist eigi *B, b.* [4]) stórt *B, b.* [5]) [skjöldu *a;* skjöld sinn *B.* [6]) [*saal. B, b,* at skjöldunum *A;* ok skjöldum *a.* [7]) [váru í Viana ok riðu út or *a;* frændi hans í Viana riðu út dagliga af *B, b.* [8]) borgarvegginn *a.* [9]) [alvápnaðra. Þeir hjuggu niðr *B, b.* [10]) [á mót með lið sitt ok barðist við þá *a, B, b.* [11]) ok tók hann síðan ok leiddi hann inn í borgina *tilf. a, B.* [12]) [elti þá marga Valina (hina völsku *b*) *a, B, b.* [13]) [*saal. a;* á nýja leik ok gerðu miklo(!) orrosto *A;* œpa hárri röddu ok styrkti liðit, ok riðust þeir at allsnarpliga *B, b.* [14]) *saal. a;* á *B;* ok *A, b.* [15]) gaf *B, b.* [16]) [riðu til *a, B, b.*

6. Nú viðr þessi orð svikarans vaknar frúin Olif viðr, þrjá illa atburði sjándi ok hina verstu er vera máttu: [þat hit[1] fyrsta, at hon sá sín sængrklæði öll af blóði roðin; [þat annat,[2] at hon sá blámanninn liggja dauðan í sinni sæng ok afhöfðaðan meðr lítilli prýði; [þat þriðja,[3] at hon sá sinn herra ok húsbónda standa yfir sér meðr brugðnu sverði ok búinn at höggva hana; eðr hverr mætti hann um þat ávíta? En nú munu þér heyra orð dróttningar hin fyrstu er hon vaknaði: Kristr Jesus blezi oss ok hjálpi! eðr hví er þessi blámaðr hér í minni sæng? Þat veit guð, segir Milon, vánd púta, at þessi er þinn brúðgumi, ok þú hefir langan tíma minn herra konunginn svikit. Dróttningin svarar: Þat veit guð herra himinríkis,[4] fyrir hverjum ekki leynist, at þú segir á mik mikinn hégóma. Eru hér ok sett lög í landi, at konur skulu til skírslu ganga ok undanfœrslu, ef á þær verðr logit. Herra konungr, segir hon, ek man gera þá undanfœrslu, [at Milon hefir logit á mik: látit[5] gera mikit bál ok heitt af kopar þeim heitasta sem verit hefir, en ek skal vera nökkvið sem móðir bar mik í heim; látit mik sitja þat bál, svá djúpt at taki undir höku mér, ok eigi fyrri þaðan ganga en sá málmr er kaldr allt[6] um mik. Nú ef ek komumst or því báli úbrend ok minn líkami[7] úskemdr, þá megi þér sjá, herra, at logit er á mik ok ek er trygg kona. Konungrinn var optast vanr at játta því sem dróttning bað, en þetta vildi hann þó með engu móti göra eptir vilja hennar sakir hins vánda Milons. Ok er dróttning sá, at hon kom eigi þessu fram, mælti hon: Herra minn, segir hon, nú hefir ek boðit eina undanfœrslu, ok þér vilit hana eigi taka, en nú vil ek aðra bjóða. Yðrir hallarturnar eru mjök háfir, látit þagat bera eina digra valslöngu, en út á völlinn í frá látit setja niðr sem þykkvast sverð ok spjót, ok horfi upp oddarnir; síðan látit kasta mér niðr[8] af þessum turn á þann sama völl yfir þau sverð ok spjót. Má ek svá fara á grasit, at mik saki ekki ok minn [líkama þessi vápn, ok rísa ek heil upp,[9] þá megi þér sjá, herra minn, at ek er trygg kona ok á mik er logit. Ok enn fór svá at konungr vill með engu móti sakir hins vánda Milons, er hann aftaldi. Ok er dróttning sá þetta, vildi hon [með engu móti[10] upp gefast. Hon mælir: Herra konungr, segir hon, nú hefir ek tvennar undanfœrslur boðit, ok vili þér hváriga taka, en nú býð ek yðr hina þriðju, þá at[11] engri hœverskri konu var nökkurn tíma boðin at gera þvílíka. Látit taka bát einn góðan ok fáit þar menn til, kastit

[1]) [þann hinn *b.* [2]) [þann annan *b.* [3]) [ok hinn þriðja *b.* [4]) himnaríkis *b.* [5]) [fyrir þat er Milon hefir logit á mik, at þér látit *b.* [6]) allr *b.* [7]) sé *tilf. b.* [8]) út *b.* [9]) [líkamr sé heill *b.* [10]) [þó eigi *b.* [11]) er *b.*

mér á þenna bát ok látit róa með mik langt á haf út, svá at hvergi megi til landa[1] sjá. Síðan sé mér kastat í þann salta sjá, en þeir rói aptr til lands frá mér á þeim sama báti. Ok ef ek má heil til lands komast or þessu hafi utan nökkurs farkostar, þá megi þér sjá fyrir guðs miskunn, at ek hefi yðr trúliga elskat ok Milon hefir á mik logit sem leiðr svikari. Konungrinn vildi þetta með engu móti heyra, at hon væri trygg. Þá mælti hinn illi Milon: Hlýðit ekki á, herra,[2] at hon geri slíka undanfœrslu; ek vil segja yðr, at hon er hin mesta görningakona, svá at hon flýgr í lopti utan nökkurra fjaðra, ok þó með engri dvöl at fara svá skjótt[3] sem [hon vill.[4] Þá hljóp upp einn riddari sem hét Engilbert af Dynhart, hann var dróttningarinnar hinn œzti vörðr; hann slær Milon fúlan níðing við augat svá hart, at hann féll [á miðjan eldinn,[5] ok var því verr at hann komst upp, ok mælti: Þú vándr níðingr, segir hann, þú lýgr á mína frú sem leiðr háls, hon er eigi görningakona, sem þú segir, ok þar til býðr ek mik at gera þessa undanfœrslu fyrir mína frú[6] nú í stað. Milon, segir Jngelbert, [gakk nú beint ok[7] bú þik sem bezt með járni ok stáli ok öllum hinum beztum herklæðum, stíg upp á þinn bezta hest, at því djarfligar megir þú at ríða.[8] En ek skal koma þar í móti á einum múl utan allra herklæða, ok vil ek hvárki hafa hosur né[9] skúa, ok er þat þó hugkvæmligt einum riddara. Ek vil ok á mínum líkama ekki hafa nema skyrtu ok brœkr, ok eigi húfu á höfði nema með lausu hári. Ek skal engan lut í hendi hafa utan einnsaman [vaxinn teinvönd[10] af viði. Ok ef mit[11] komum saman ok má ek fella þik af þínum hesti, svá at minn herra ok hans riddarar megi þat sjá, þá má hverr maðr þat vita, at mín frú er frjáls af þessarri lygi. Ok er konungrinn heyrði þetta, mælti hann: Þenna leik vil ek sjá, ok skulu þit reyna.

7. Nú fara þessir tveir riddarar ok búa sína burtreið eptir því sem áðr var fyrir sagt. Ok er þeir koma út á völlinn undir kastalann, ríðr Hugon konungr út til þeirra ok hans riddarar, en annat fólk gengr í turna ok í vígskörð at sjá þessa atreið. Milon [hyggst nú skjótt munu[12] sinn vilja gera ok setr fast spora [at hestinum[13] ok ríðr fram sem harðligast, en herra Jngelbert [móti staðfastliga[14] á guð trúandi. Ok svá varð hér sem í öllum[15] stöðum, at sá sem á guð trúir[16] öruggliga ok rétt fær jafnan sigr; því at í fyrstu samkvámu er þessir riddarar kómu saman, görði guð svá [með sinni[17] miskunn, at Milon varð at steypast til jarðar af sínum

[1]) lands *b.* [2]) þetta *b.* [3]) snart *b.* [4]) *saal. b*; ek vil *B.* [5]) [við *b.* [6]) ok *tilf. b.* [7]) [*mgl. b.* [8]) ráða *b.* [9]) *saal. b;* ok *B.* [10] [teinvönd vaxinn *b.* [11]) við *b.* [12]) [hyggr nú skjótt *b.* [13]) [hesti sínum *b.* [14]) [ríðr stöðugliga *b.* [15]) öðrum *b.* [16]) treystir *b.* [17]) [mikla *b.*

hesti, sneyptr ok svívirðr af öllum mönnum. Ok er hann stóð upp, gékk hann [til konungs[1] ok mælti til hans: Herra, segir hann, nú megi þér sjá þat er ek sagða yðr, hversu mikil görningakona hon er, þar sem ek gat eigi einn tíma mínu sverði út brugðit at höggva þenna níðing, ok varð ek niðr falla á jörð, þar sem ek hefig[2] opt mik reynt millum röskra riddara ok sigr haft, sem þér hafit optliga sét ok sögn [haft til.[3] Svá getr sjá hinn vándi níðingr af talt fyrir konunginum [meðr svikum þeim sem hann hafði áðr[4] gört, at þenna góða riddara Jngelbert [gerir hann[5] útlægjan ok fyrirbauð honum at koma í augsýn sér. Nú lætr konungr til sín kalla hina beztu menn er þá váru í staðnum, ok biðr þá alla um dœma, hvern dauða dróttningin skyldi hafa,[6] því at konungrinn vill þat alt fyrir satt hafa er bannsettr Milon hafði sagt. Ok sakir hræzlu[7] við konunginn þorði engi annat dœma né mæla [en hann vildi,[8] báðu nú sumir brenna hana á báli, sumir hálshöggva, sumir báðu draga hana kvika sundr; sitt lagði hverr til, en fáir gott. Þá stóð upp hinn illi Milon, er guð gefi bæði[9] skömm ok svívirðing, ok mælti svá: Engan þenna dóm skal hon hafa, er þér hafit nú nefnt, heldr biðr ek, konungr, at þér látit gera steinhús eitt með [lími ok grjóti,[10] svá rúmt ok mikit ok hátt, at hon megi vel bæði sitja ok standa, lát[11] hana síðan þar í, ok leiðum[12] svá öðrum frúm at svíkja sína herra. Þá stóð upp einn riddari konungsins, sá er Arneis hét, hann var vitr[13] ok hraustr til allra luta, hann mælti til konungs: Ek er skyldugr, herra, at ráða yðr heil ráð, sakir þess at ek er yðarr riddari. Drepi þér eigi dróttningu daglangt með þessum ráðum sem nú [er til lagit,[14] hyggit [görla, at[15] hon er komin af mikilli ætt, Pippin konungr er hennar faðir, er bæði er gildr ok ríkr, en Berta dróttning er hennar móðir, Magnús er hennar bróðir, ok margir aðrir góðir menn eru henni skyldir mágar ok vinir. Nú ræð ek yðr þat, herra konungr, at þér, [segir Arneis[16], sendit[17] eptir þeim öllum ok biðit þá koma til yðvar sakir vináttu ok hœversku, ok fáit þar til góða sendiboða at gera þetta erendi. Ok ef þeir koma allir saman í yðra[18] höll, látit þá framfara [eptir því sem þessir góðu menn leggja til ráðs.[19] En ef þér drepit dróttningu, þá hafi þér úvináttu af þessum öllum hennar frændum. Nú sem konungrinn heyrði orð riddarans, tekr hann þat til ráðs, sem sjá tryggi maðr [réð honum,[20] ok lét þegar

1) [fyrir konung *b*. 2) hefir *b*. 3) [til heyrt *b*. 4) [ok með svikum sínum *b*. 5) [*tilf*. *b*. 6) þola *b*. 7) ótta *b*. 8) [*tilf*. *b*. 9) at hafi *b*. 10) [lím ok grjót *b*. 11) látit *b*. 12) leiðit *b*. 13) maðr *tilf*. *b*. 14) [eru til lögð *b*. 15) [at görla, *b*. 16) [*mgl*. *b*. 17) *saal*. *b*; sendir *B*. 18) eina *b*. 19) [sem þeir góðir menn gefa ráð til *b*. 20) [lagði til *b*.

bréf skrifa til Pippins konungs ok allra þeirra er nefndir váru, ok biðr þá fagrliga með blíðum orðum til sín koma ok segist mikiliga þurfandi þeirra tilkvámu, en um hvat þat var vildi hann þeim eigi [birta fyrr en þeir kœmi sjálfir.[1] Með þessum orðum gerir hann sína sendiboða, ok gátu þeir allan sinn vilja sýslat í þessarri ferð.

8. **Hertugi Hugon lætr nú búa til mikillar veizlu móti öllu** þessu liði ok stórmenni. Ok er sá tími kom er þessir allir váru[2] komnir, ríðr konungrinn út í móti þeim með öllum sínum mönnum, ok leiddi hann Pippin konung ok alt hans föruneyti[3] sœmiliga í sinn garð. Ok er þeir váru þar komnir, var höllin sœmiliga skipuð, borð sett ok allr matr til reiðu. Þar næst tók konungarnir handlaugar ok settust upp[4] yfir borðin, var þá höllin skipuð sem þröngast mátti af hinum ríkastum mönnum. Þar var inn borinn [alls kyns drykkr skenktr[5] í stórum gullkerum ok dýrir réttir [framsettir af[6] sœmiligum þjónostumönnum, piment ok clare [ok hit bezta vín[7] skorti þar eigi, ok af fyrsta rétti [af mat[8] er þeir átu, görði sjá hinn vándi Milon svá, at allir gleymdu sínum vinskap er þeir höfðu haft til dróttningar Olif. Ok er konungarnir[9] váru mjök svá mettir, [ok allir aðrir er í váru höllinni,[10] þá mælti konungr Pippin: Hvar er vár dóttir frú Olif, hví kemr hon eigi inn í höllina at tjá sik ok gleðja þetta fólk, er hér er komit? Ok er hinn illi Milon heyrði þessi orð, gékk hann út um dyrr ok dvelst um stund. Ok er Pippin konungr vænti at frú Olif mundi koma með sœmiliga[11] meyjaskara, þá kom hon í höllina einsaman, [nú megi þér hlýða hvat ek segir yðr, hon kom vist einsaman inn, svá[12] sem hon væri sprungin út or steini. Hon var í einum þunnum kyrtli af kamelet,[13] at menn mætti[14] kenna at þat var einnar hœverskrar konu líkami, hon var berfœtt [á því sama grjóti sem höllin var þilin með,[15] hennar hár var vafit um höfuð utan skaut eða húfu. Frú Olif stóð á hallargólfinu svá sem hon væri til þess rekin[16] at vera[17] fól öllum[18] til hlátrs. Milon trúðr vaktar enn sína illsku,[19] ok gengr þar til sem hann vissi blámannsins líkam liggja, tekr hann upp ok berr[20] inn í höllina, þar sem frúin stóð, ok kastar niðr fyrir fœtr henni svá hart, at allar æðarnar brustu upp með blóðrás. Þá mælti sá útryggi háls Milon, [sem guð gefi sköinm:[21] Þat veit guð, segir hann, vánd púta, at þessi var þinn brúðgumi, ok leyndir þú lengi minn herra konunginn þessu úráði. Ok er þetta heyrðist í höllinni, þögnuðu

1) [at sinni birta *b.* 2) at *tilf. b.* 3) fólk *b.* 4) *mgl. b.* 5) [hinn bezti drykkr ok skenkt *b.* 6) [*saal. b*; með *B.* 7) [*mgl. b.* 8) [matar *b.* 9) menn *b.* 10) [*mgl. b.* 11) sœmiligum *b.* 12) [*mgl. b.* 13) kalamet *b.* 14) máttu *b.* 15) [*mgl. b.* 16) tekin *b.* 17) eitt *tilf. b.* 18) mönnum *tilf. b.* 19) þjónustu illskufullrar undirhyggju *b.* 20) hann *tilf. b.* 21) [*mgl. b.*

allir menn ok hugðu þetta satt vera. Þá mælti Hugon konungr: Hér er mörgum góðum mönnum skipat í þessa höll ok hingat komnir eptir mínu boði. [1]Segir ek yðr þat með sannindum, at þenna blámann fann ek liggjanda í sæng hjá Olif yðvarri dóttur, Pippin konungr, ok vil ek yður ráð við[2] hafa ok allra annarra góðra manna, hvern dóm hon skal hafa. ⌊Betr hefir sá, segir bókin, er gott efni kann til handa bera ok eigi verðr fyrir lognu af vándum mönnum; en þó er sá sæll er rétta sök hefir at verja ok guð er með, því at æ kemr upp um síðir, hvat sem maðr gerir gott eðr ilt, þó at nökkura stund þolist. Nú[3] þeir frændr ⌊sem Olif[4] sá hötuðu hana allir, ok sá er áðr var hennar faðir vildi nú eigi vera hennar frændi, ok allir hennar náskyldir frændr kallast nú enga ætt ⌊við hana[5] eiga at telja. Svá var hon nú öllum leið, at engi maðr vildi henni nökkura huggan gera. Þessi trygga kona frú Olif sá nú görla, at allir hennar frændr ok vinir hötuðu hana, ok vissi hon eigi hvat hon skyldi at hafast. Gengr hon þó innar ok sezt niðr fyrir fœtr föður síns Pippins konungs. Ok er hann sá þat, varð hann svá reiðr, at hann skaut henni með sínum fœti svá hart á hallargólfit, at sundr géngu tvau rif í hennar síðu. Landres son hennar var þá ok inni í höllinni ok lék sér á gólfinu. Milon sá hvat Pippin konungr görði, at hann skaut Olif hart frá sér á gólfit, hann vildi eigi þá sína illsku hepta, ok gengr at sveininum Landresi ok sló með einu refði[6] á brún honum, svá at hon sprakk í sundr, ok ætinliga mátti sjá þat örr[7] meðan hann lifði. Nú biðr enn Hugon konungr, at allir[8] skuli hér um dœma, hvern dauða hon skyldi hafa. En allir þögðu ok þótti[9] vant til at leggja.

9. Þá mælti Karl bróðir hennar, er síðan varð Karlamagnús keisari, hann var vitrastr allra þeirra: Þat ræð ek þér, Hugon konungr, at þú lát[10] flytja hana í þat sama steinhús, sem þit Milon hafit látit gera, 12 mílur brott af borginni. Ekki skal henni til fœðu fá utan einn sáðahleif ok eitt ker með[11] vatn, látit þetta vera mjök vánt hvártveggja. Síðan látit hana þar sitja eina samt sjau ár full eðr meir, ef guð vill at hon lifi, ok er þessi tími er út liðinn, ok sé hon þá lifandi ok vel fœr kona, þá veit þat guð ok góðir menn, at ek hygg ⌊yðr hafa[12] logit á hana. Þá segir hinn illi Milon: Þessa tillögu vilju vér hafa; en þó vantar enn nökkut, ⌊þagat skal samna til þessa húss öllum[13] ormum ok pöddum ok eitrkykvendum, ⌊ok skolu þau öll vera inni hjá henni, hvar sem þau finnast í holtum eðr skógum eðr

[1]) Nú *tilf. b.* [2]) til *b.* [3]) [*mgl. b.* [4]) [Olif sem hana *b.* [5]) [til hennar *b.* [6]) *saal. b*; refsi *B.* [7]) á honum *b.* [8]) menn *tilf. b.* [9]) hér *tilf. b.* [10]) látir *b.* [11]) *tilf. b.* [12]) *saal. b*; þá hafi þér *B.* [13]) [til þessa húss skal samna *b.*

hreysum.[1] Ok allir játtuðu, at svá skyldi vera, [ok síðan var til farit at gera húsit með sterkum steinum ok límí.[2] Ok er [þat var albúit[3] ok dróttning skyldi til vera leidd, þá mælti hon til konungs: Herra, segir hon, nú ætli þér mik til þessa húss at flytja, sem þér hafit gera látit, ok mik þar í setja, ok því biðr ek, at þér látit mik ná at kyssa Landres son minn. Konungrinn veitti henni þetta. Síðan kyssir hon son sinn ok mælti svá: Vei er mér, ljúfi son, at ek skal skilja við þik, ok[4] þat er mér nú mestr harmr. En ef svá má verða með guðs vilja, at ek sjái þik nökkurn tíma, þá má ek þik fullvel kenna, sakir þess at þitt brúnarbein er nú lamit, er mér er útkastat. Hinn illi Milon mælti við konunginn: Látit þessa konu eigi dvelja stundina ok tala við Landres son sinn í allan dag. Dróttning mælti: Nú hafa allir mínir frændr ok vinir mik fyrirlátit, hvert man ek flýja nema til þín, dróttinn Jesu Kristr, er engan fyrirlætr[5] þann er þik elskar; þér eru kunnigar mínar sakir, þær sem á mik eru bornar, dœm þú, dróttinn minn, alt mitt mál, ok lát hit sanna upp koma um minn hag fyrir þitt heilaga nafn, svá at ek megi[6] eigi undir fótum troðast þessa illa svikara Milons né mitt afspringi.[7] Lát hér svá fullan dóm á koma, at þitt hit dýra nafn lofist því öllu[8] meir, sem þetta [spyrst ok sannprófast[9] víðara um kristnina. Ok er hon hafði þetta mælt, var hon fœrð til hússins ok þar innsett í,[10] henni var fenginn einn hleifr af hinum verstum sáðum, ok eitt ker af vándu vatni fult.[11] Síðan var húsit aptr byrgt sem sterkligast, váru þar engar dyrr. Látum hana nú liggja þar sem dauða, meðan guð lofar, en víkjum rœðunni til Hugons konungs ok hins illa Milons.

10. Litlum tíma héðan frá liðnum lætr Hugon konungr til sín kalla alla mest háttar menn síns ríkis, ok sem þeir eru þar komnir, talar konungrinn við þá um lög ok landstjórn. En Milon hugsar nú enn meðan[12] sinn vándskap; hann kallar einn dag alla þessa ráðgjafa konungs er þar váru komnir í sitt herbergi, ok talaði svá við þá: Góðir herrar, kvað hann, [yðr er nú[13] kunnigt, at minn herra konungrinn er nú kvánlauss, ok er þat mitt ráð, at vér segim honum, at hann fái sér dróttningu sem fyrst, ella skiljumst vér við hann. Þetta ráð samþyktu þeir,[14] ok báðu þann illa svikara fram bera af þeirra hálfu. Ok einn dag er konungrinn hafði kallat þá í eina stofu, stendr Milon upp ok mælti til konungs: Herra, segir hann, þessir góðir menn, sem hér sitja, hafa beðit mik tala sitt

1) [hvar sem finnast kunna í holtum, skógum eða hreysum, ok skulu þau öll vera inni hjá henni *b.* 2) [*mgl. b.* 3) [þetta var svá gört *b.* 4) þvíat *b.* 5) fyrirlítr *b.* 6) mega *b.* 7) afsprengi *b.* 8) *mgl. b.* 9) [birtist framar ok þat spyrst *b.* 10) *mgl. b.* 11) *mgl. b.* 12) um *tilf. b.* 13) [þat er yðr *b.* 14) allir *tilf. b.*

erendi ok segja svá, at þeir vilja við yðr skiljast utan þér fáit yðr dróttningu sem fyrst, því at landit stendr erfingjalaust, ef þér kunnit frá at falla. Þá svarar konungrinn Hugon: Ek mundi víst þat ráð taka, ef ek vissi at[1] frú Olif væri dauð. Svikarinn sór um at hon var löngu dauð. En ek vil at þér vitit, at ek á eina dóttur, hon hefir ágætt fóstr, [hon er harðla fögr[2] jungfrú er nökkurn tíma var sköpuð af holdi ok blóði, hon heitir Aglavia; gefi guð henni skömm, segir bókin; ek hefi undir minni hendi 15 [riddara land,[3] ok svá mikit gull ok silfr at ek veit eigi sjálfr.[4] Vil ek, minn herra, þetta gefa alt með minni dóttur. Svá gat hinn illi Milon um talit[5] fyrir konunginum, at hann hlýðir á ok samþykkir [þessu úráði,[6] festir hana ok heim leiðir úforsynju. Allir þeir er við hana töluðu géngu með illum orskurð frá henni, ok er hon[7] kom til staðarins, lögðu allir illa blessan á hana. Nú lætr Milon búa til bruðlaups[8] þess hins versta, er frá hefir verit sagt, því at allir þeir er þangat kómu váru mikiliga skemdir, ok er at kveldi kom géngu konungr ok dróttning í sína sæng, ekki eptir því sem guðs lög buðu heldr eptir ráðum hins illa Milons. Þar þóttust allir oflengi dveljast at því brúðkaupi, ok varð því hverr feginn,[9] er fyrr kom heim til sinna heimkynna.

11. Konungr ok dróttning váru litla stund [áðr ásamt[10] en þeim varð sonar auðit, ok var sá engi [at þat lofaði eða vel þætti[11] í konungs húsi. Sjá sveinn var til kirkju borinn ok skírðr ok kallaðr Malalandres at nafni. Þat þótti öllum skaði, at sú skrœfa vóx skjótt ok þróaðist, ok er hann var missaris[12] gamall, görðist hann undarliga kyndugr, hann skreið aptr ok fram með stokkum ok beit í fœtr mönnum ok leggi, ok svá sem hann var ellri, var hann æ því verri, við ríkra manna sonu vildi hann eigi dagliga berjast, en við fátœkra manna sonu vildi hann jafnan ilt eiga, ef hann mætti[13] því fram[14] koma. Jafnan kunni hann at klóast[15] um ok svá at bíta, alt þat er hann sá með sínum augum þá vildi hann[16] eiga, svá vandist [sjá skrœfa[17] lítt í öllum lutum. Nú vaxa þeir báðir upp konungs synir í hans garði Landres ok Malalandres, ok líðr svá fram nökkura tíma.[18] Ok þat bar til einn dag, sem opt kunni til bera, at Hugon konungr sat í höllinni[19] með sínum riddarum, en Milon trúðr gengr aptr ok fram at gleðja fólkit, ok var hann spurðr, hvárr af konungs sonum væri röskari eða ellri. Milon segir Landres ellra en Malalandres sinn dótturson röskara. Milon heyrir at Landres

[1]) *tilf. b.* [2]) [ok er hin fegrsta *b.* [3]) [hundruð riddara *b.* [4]) markatal á *tilf. b.* [5]) talat *b.* [6]) [þetta úráði(!) *b.* [7]) hann(!) *b.* [8]) brúðkaups *b.* [9]) fegnari *b.* [10]) [saman áðr *b.* [11]) [er þat kallaði vel eðr lofaði *b.* [12]) misseris *b.* [13]) mátti *b.* [14]) við *b.* [15]) klórast *b.* [16]) sjá skrœfa *b.* [17]) [hann *b.* [18]) nökkurn *b.* [19]) höll sinni *b.*

er meir lofaðr í öllum lutum en hans dóttursou, ok eirir honum þat illa. Ok einn dag gengr hann til konungs ok mælir: Hversu lengi vili þér þenna blámanns son uppfœða á yðrum garði? Svá hjálpi mér guð, at hann var aldri af yðr getinn, ok ræð ek af því at þér látit hann brott frá yðr, [1]þér megit vel glaðir vera, meðan Malalandres yðvarr son lifir. Svá gat sá hinn vándi níðingr talat fyrir konunginum, at hann biðr Landres son sinn í brott verða or sinni augsýn ok eigi aptr koma. Ok er hann heyrir þessi orð föður síns, varð hann mjök hryggr ok gengr út af höllinni, hugsandi hvert[2] hann skyldi fara. Hann minnist nú á sína fóstrmóður, þá er hann hafði fóstrat fyrr. Hon var ein gömul kona vitr ok margkunnig, hon [var kölluð[3] Siliven at nafni, átti hon einn garð ok gótz mikit, var sá garðr nálægr konungs hallinni. Hann snýr þangat nú ferðinni ok fram komandi til sinnar fóstrmóður heilsar hann upp á hana með þessum orðum: Guð geymi yðvar, Siliven mín fóstrmóðir. Ek vil yðr kunnigt gera, at konungrinn faðir minn hefir mik frá sér rekit ok fyrirboðit mér optar í sína augsýn at koma. Ok er hon heyrði þetta, mælti hon: Þú ert velkominn Landres, segir hon, minn fóstrson, ok alt þat gott sem ek má, skal ek þér veita, ok því yrðag[4] fegnust, at þinn þroski yrði sem mestr ok þik mætti margt gott henda. Landres dvaldist þar nú um 7 ár full,[5] ok görði Siliven alla luti [eptir því,[6] sem honum mátti bezt líka. Ok einn morgin er Landres snemma uppi ok ætlaði at skemta sér at riddaraskap, því at hann kunni hann[7] harðla vel, ok er hann var út kominn, mœtti honum Siliven hans fóstrmóðir. Hon heilsaði honum[8] fagrliga ok mælti: Ljúfi fóstrson Landres, þú ert fagr maðr ungr[9] ok vitr ok hinn fríðasti, er [nökkut sinn[10] sá manns auga, gjarna vilda ek gott til þín vita [ok hvat manna þú mant verða.[11] Ek man segja þér tíðendi: á morgun skal vera leikr undir kastala föður þíns, þar skulu[12] saman koma margir ungir menn. Þeir hafa einn svöpp[13] at leika með, ok sá sem rekit[14] fær þrysvar í samt þenna svöpp,[15] svá at engi nái í milli, hann berr prís ok heiðr af öllum. Ok þar skaltu Landres[16] til fara ok reyna, hvert hjarta þú hefir eðr hraustleik. Ok er Landres heyrði þetta, mælti hann [svá: Hjálpi[17] mér guð, fóstrmóðir, at ek skal á morgin koma til þessa leiks ok reyna mik.

12. Nú leið dagr, en nóttin kom, ok ferr hann í sína sæng at sofa. Ok er dagrinn kom, reis hann upp í sín klæði ok býr sik

1) þvíat *tilf. b.* 2) *saal. b*; hvart *B.* 3) [hét *b.* 4) yrða ek *b.* 5) *mgl. b.* 6) [*mgl. b.* 7) þat *b.* 8) hann *b.* 9) *saal. b;* iungr *B.* 10) [nökkurn tíma *b.* 11) [*mgl. b.* 12) munu *b.* 13) böll *b.* 14) tekit *b.* 15) böll *b.* 16) *mgl. b.* 17) [: Svá hjálpi *b.*

til leiksins. Ok er hann var búinn, gengr hann til sinnar fóstrmóður ok gaf henni góðan dag, ok mælti síðan: Kæra fóstrmóðir, segir hann, ek vil nú fara til leiks þess er þér sögðut mér frá í gær, man ek koma þegar aptr er ek má. Hon gékk þá brott frá honum litla stund, ok [þegar kom hon[1] aptr ok bað hann bíða sín. Hann snerist[2] þá við henni. Hon mælti þá: Svá vil ek þrífast, Landres, segir hon, at þú skalt hafa erendi mitt til leiks þessa. Hon hefir þá upp sína hœgri hönd ok setr þann pústr undir hans vanga,[3] at hann hugði sín bæði[4] augu út mundu springa, svá var hann mikill. Hon mælti: Til þess gaf ek þér, Landres, segir hon, þessa minning, at ek býðr þér í nafni guðs ok frú sancte Marie, at þú takir aldri pústr af karlmanni né konu, utan föður þínum ok móður. En ef nökkurr annarr[5] dirfist þvílíks[6] at gera, þá gjalt[7] grimliga ok gör þat í mína minning. Landres ferr nú heiman frá sinni fóstrmóður ok léttir eigi fyrr en hann kemr undir kastala föður síns á þá völlu sem þar váru. Hann sér þar fyrir sér marga sveina leikandi meðr [einum digrum sveppi.[8] Landres stígr niðr af sínum hesti ok bindr hann viðr eitt tré, gengr síðan fram til leiksins ok þröngvist fram á meðal[9] manna, ok kemr þar nú sem mest var þröngin um svöppinn,[10] ok eigi léttir Landres fyrr en hann kemr höndum á svöpp[11] þenna ok berr út frá þeim. Ok er hann hafði þetta gört, kastar hann annan tíma inn í miðja þröngina ok hleypr eptir sjálfr ok getr enn náð [annat sinn.[12] Þá mælti Landres: Hefða ek brott haft svöppinn[13] fyrsta sinn,[14] er ek fékk hann, mætti þér hafa sagt, at ek hefða rangliga unnit þenna leik, því at ek er úkunnigr yðr flestum öllum, en nu hefir ek unnit leikinn tveim sinnum; því vil ek honum enn inn[15] kasta millum allra yðvar, ok ef ek fær hann [fengit hit[16] þriðja sinn hér út frá yðr, þá viti þér allir, at ek hefir unnit leikinn meðr réttu en eigi með falsi. Nú kastar Landres þriðja sinn inn þessum sveppi,[17] þar sem mest var þröngin, ok á lítilli stundu getr hann honum náð ok út borit frá þeim, ok varð nú harðla glaðr. Ok svá sem Landres er útkominn af mannþrönginni, mœtir honum Malalandres bróðir hans ok þótti illa er[18] hann gat tekit böllinn, [ok hefir[19] upp sína hœgri hönd ok slær Landres bróður sinn svá gildan pústr, at honum þótti syngja at eyrunum. Hann mintist þá hvat fóstrmóðir hans hafði mælt við hann ok gört, áðr hann fór heiman, ok nú hefir Landres upp sína

[1]) [kom skjótt *b.* [2]) mintist *b.* [3]) kinnbein *b.* [4]) *mgl. b.* [5]) *tilf. b.* [6]) slíkt *b.* [7]) þat *tilf. b.* [8]) *rett. for* svöppi *B*; [einn digran böll *b.* [9]) milli *b.* [10]) böllinn *b.* [11]) böll *b.* [12]) [annan tíma *b.* [13]) böllinn *b.* [14]) tíma *b.* [15]) *saal. b*; nú *B.* [16]) [unnit í *b.* [17]) *rett. for* svoppi *B*; bolli *b.* [18]) vera at *b.* [19]) [hann hefr *b.*

hœgri hönd ok slær Malalandres svá hart, at [alt hans kinnarbein[1] klofnar í sundr, ok svá sterkr var sá pústr, at mestr þori tannanna er í hans höfði váru, féllu niðr á jörðina. Ok þá mælti Landres: Þat veit guð, bróðir, segir hann, at þessi pústr er ek gaf þér, er verðr við hina þrjá er þú gaft mér.

13. Konungrinn ok hans riddarar stóðu upp í kastalanum ok sá ofan til leiksins, ok þótti vera hin mesta skemtan. Þar var ok hinn bannsetti Milon hjá konunginum ok sér á þeirra viðrskipti brœðranna, ok hann mælti[2] til konungs: Herra, segir hann, sjái þér, at yðvarr hjákonuson sló yðvarn eiginkonuson, nú látit kalla þá báða fyrir yðr sveinana, síðan látit taka þann vánda mann, er yðvarn son sló, ok setja í myrkvastofu. Konungrinn lætr kalla Landres ok með honum aðra sveina,[3] ok er hann kom inn, mælti konungrinn til sveina sinna: Upp skjótt, segir hann, ok takit þenna níðing ok leggit í bönd, síðan kastit honum í myrkvastofu. Þá mæltu sumir, at hann skyldi taka, en sumir mæltu í móti, at hann skyldi pína. Landres mælti þá, er bæði var vitr ok fagr: Þat veit guð Maríu son, ef þér talit þat lengr faðir, segir hann, at ek skuli fara í myrkvastofu, at fyrr skal ek taka þér í skegg svá hart, at í minni hendi skal þat eptir dveljast ok [í brott[4] fylgja svörðrinn. Ok því næst gengr Landres út um dyrr, svá at engi maðr þorði hendr á honum at festa. Lét þá faðir hans segja honum [annat sinn,[5] at hann skyldi eigi optar í hans augsýn koma. Ferr nú Landres brot þaðan ok til sinnar fóstrmóður, heilsar henni vel ok sagði: Eigi þori ek lengr hér at vera, því at faðir minn er mér reiðr, ok vil ek eigi at þú verðir þess gjaldandi, ef hann spyrr at ek dveljumst hér. Sveinninn tekr nú boga sinn ok örvar í hönd sér ok kyssir síðan fóstru sína. En hon var mikiliga harmandi hans vesöld ok biðr hann nú vel fara, iðugliga grátandi ok dróttin biðjandi, at hann vísaði honum þangat sem honum væri mestr fagnaðr í. Sveinninn gengr nú brott á skóg ok ferr nú aptr ok fram um skóginn ok finnr engan mann ok enga bygð, ok í þeim klæðum sem hann gékk á daginn í þeim lá hann á nóttina. [Eina íþrótt hafði þessi ungi maðr, þá sem ek vil nökkut af segja, hann[6] kunni vel skjóta fugla til matar sér. En þá er hann skyldi þessa matar neyta, þá hafði hann engan eld at steikja fyrir sik. Nú þó at hungrinn gengr fast at honum, þá vildi hann þó eigi hrátt eta, því at hann hafði því eigi vanizt. Hann mæltist þá við einnsaman: Hvat skal ek nú at hafast, ljúfari væri mér nú ein fylli[7] matar ok drykkjar en alt þat gull sem liggr í míns feðr garði. Heyr mik nú, dróttinn

1) [hans kinnbein *b.* 2) þá *tilf. b.* 3) sveinana *b.* 4) [þar með skal *b.*
5) [*mgl. b.* 6) [þessi ungi maðr *b.* 7) fyllr *b.*

minn almáttigr, ok leys mik af þessum vanda, ok lát mik eigi lengr pínast, heldr vísaðu[1] mér í nökkurn þann stað, at ek megi hjálpast af þessum hungri. Sveinninn gengr nú [brott ok[2] fram í skóginn. Hann kemr þá fram í[3] háfan skóg, ok mátti þar sjá langt ífrá sér, því at þar var einn sléttr völlr undir niðri. Ok er hann kemr undir eitt hátt tré, heldr hann upp hœgri hendi fyrir augu sér, því at sólin skein [á móti[4] honum. Hann sér þá fram á völlinn fyrir sik, hvar sátu fjórir dvergar ok mötuðust, [ok er hann hafði þat sét,[5] varð hann harðla glaðr, því at hann vænti sér þar af nökkurs bata. Stillir nú fram sem hógligast [tré undan tré,[6] ok nemr stað skamt frá þeim. Hann heyrir þá einn dverginn mæla til annarra kompána sinna: Etit fast, mínir vinir, því at af þessu handklæði má ek gefa oss allan þann bezta kost er vér kunnum beiðast,[7] ok or várum potti allan þann drykk sem vér viljum beztan hafa. Landres mælti þá: Þessir lutir eru mér nú allnytsamligir, dróttinn minn, segir hann, at hafa ok eiga. Hugsar nú, at annathvárt skal hann hafa nógan mat eðr skjótan dauða fyrir þessum dvergum. Herðir nú hug sinn ok hleypr sem harðast fram[. Sem hann kemr[8] at dvergunum, grípr hann sinni hendi hvárt handklæðit ok pottinn. Ok er dvergarnir líta hann þar kominn [svá skjótt[9] sér á úvart, urðu þeir svá hræddir, at hverr hljóp í sína holu, ok flýðu brott af augliti Landres.

14. Svá sem Landres hafði náð sögðum potti ok handklæði, þá vissi hann görla hvat hann skyldi at hafast. Settist hann þá niðr[10] ok lagði fram fyrir sik handklæðit; [allr sá matr[11] er hann vildi hafa ok hann til lysti var honum[12] til reiðu á því handklæði, svá ok eigi síðr [allr sá drykkr er[13] hann vildi hafa var honum til reiðu í þeim potti. Þikkist hann nú hafa vel sýst[14] ok er harðla glaðr í hjartanu. Ok er hann er vel mettr ok drykkjaðr, brýtr hann saman handklæðit sem bezt ok knýtir í skyrtublaði sínu, en pottinn bindr hann undir belti sér, fyrir því at hann man hans optar þurfa. Ok er hann ætlaði brott at ganga, kómu út af sínu inni tveir dvergar ok œptu á hann: Heyrðu Landres, fagr maðr ok vitr, gef oss aptr handklæði várt ok pott, fyrir því at þú ert nú fullvel mettr ok drykkjaðr. Nei, segir Landres, [viti guð,[15] at þér fáit hvárki af mér þetta handklæði né pott, ef ek má ráða. Þá segir annarr dvergrinn til annars: Ljúfi bróðir, segir hann, látum hann fara veg sinn, því at ek hefir enn önnur 2 handklæði ok aðra tvá potta. En ek veit, segir dvergrinn, at hann kemr skjótt til þeirrar

[1]) vísa | ú *b.* [2]) [*mgl. b.* [3]) einn *tilf. b.* [4]) [í augu *b.* [5]) [við þat *b.* [6]) undan trénu *b.* [7]) beiða *b.* [8]) [*mgl. b.* [9]) [*mgl. b.* [10]) á völlinn *tilf. b.* [11]) [*saal. b*; allan þann mat *B.* [12]) *saal. b*; hann *B.* [13]) [*saal. b*; allan þann drykk sem *B.* [14]) sýslat *b.* [15]) [guð veit *b.*

5*

ljúfastu konu er nökkurn tíma var fœdd. Hver er sú? sagði annarr dvergr. Hon heitir frú Olif, segir hann, hin tryggasta kona ok er móðir Landres. Ok er sveinninn heyrði þetta nafn, vissi hann er hann vóx upp heima móður sína svá nefnda, en þat vissi hann aldri,[1] at hon sæti í styrkri[2] myrkvastofu. Landres mælti þá: Þér er kunnigt Jesu Kriste, at ek vissi þat eigi fyrr, at mín móðir [væri svá nauðugliga stödd, at hon [væri í nökkurri[3] myrkvastofu. Nú biðr ek þik, dróttinn minn, sakir þíns heilaga nafns, at þú vísir mér til hennar í dag ok til þess sama húss, er hon er í[4] sett. Landres gengr nú or þeim stað ok í þann mikla skóg, válkast þar nú aptr ok fram. Hann kom þar niðr[5] um síðir, sem hann leit einn myrkvan stað ok þar finnr hann eitt hús af steini gört ok límí, slíkt sá hann aldri fyrr jafnmyrkt.[6] Hann gengr umhverfis húsit ok hyggr görla at ok finnr engar dyrr á því, svá var þat sterkliga aptr byrgt. Hann sér at hér er ekki opit á utan einn lítill gluggr,[7] hann sér í þessum sama glugg sitja einn lítinn fugl ok syngja harðla fagrt, svá at lysti á at heyra. Þetta hafði verit öll hennar gleði [er hon hafði haft,[8] síðan hon var sett í þetta hús. Landres bendir nú boga sinn ok ætlar at slá fuglinn. Hann skýtr inn í glugginn, er á var húsinu, ok kom á brjóst móður hans kólfrinn svá hart, at hon kvað við ok œpti: [Jesus Kristr miskunna mér, segir hon,[9] eðr hverr er þessi er mik slær svá sárliga, at aldri fékk ek slíkt skot. Oflengi hefir ek nú verit í þessum skógi, at[10] maðr skal hafa mik fyrir skotspán, ok skýtr at mér með boga ok kólfi. Ok er Landres heyrði þessi orð, mælti hann til hennar: Hvat manna[11] ertu, er hér liggr inni? þú mant lifa hér við lítinn mat [bæði fœðslu ok drykkjar.[12] En ef þú ert kominn af nökkurri góðri ætt, þá kasta út kólfi mínum. Ok þá mælti frúin: Ek biðr at þú segir mér fyrir þína kurteisi, hverr þú ert eðr hverrar ættar, ok ef þu segir mér,[13] þá vil ek senda þér út kólfinn. Landres mælti þá: Þú biðr mik fyrir kurteisis sakir[14] segja þér hvaðan ek er, en ek vil[15] því eigi leyna. Ek er af húsi hertogans Hugons, er á dalinn Munon, ok af hans herskap flýða ek hingat. Ljúfi maðr, segir frúin, ef þú ert af þess hertoga húsi, þá bið ek, at þú segir mér, ef son hans lifir, sá er Landres heitir, ok at þú heilsir hann[16] fullkomliga af minni hálfu, því at hann er minn eiginn son, ok seg honum, ef ek mætti jafnvel frjáls vera ok liðug ganga sem hann, skyldag[17] sjá hann með mínum augum. Þá segir Landres: Svá vil ek vera utan allra

[1]) eigi *b.* [2]) *mgl. b.* [3]) [sæti í *b.* [4]) inn *b.* [5]) fram *b.* [6]) *saal. b*; jammikit *B.* [7]) ok *tilf. b.* [8]) [*mgl. b.* [9]) [ok mælti: Jesus Kristr miskunna þú mér *b.* [10]) er *b.* [11]) manni *b.* [12]) [ok drykk *b.* [13]) þat *tilf. b.* [14]) at *tilf. b.* [15]) þík *tilf. b.* [16]) honum *b.* [17]) skyldi ek *b.*

skemda, at ek vil eigi mínu nafni leyna fyrir þér. Menn kalla mik Landres son Hugons konungs. Frúin mælti: Fullvel mætta ek kenna þik, ef þú værir minn son, fyrir því at þá er mér var hér inn kastat, var lamit brúnarbein hans[1] af hinum vánda Miloni. Ok svá sem Landres heyrði þetta, [ok skildi at hon[2] var hans móðir, er þar var inni í þessu húsi, hugsar hann um hvat hann skal til taka eðr hversu hann skyldi[3] henni þaðan í brott koma; því at hann hafði hvárki járn né sleggju eðr þau önnur tól, at steinsmíði mætti fyrirkoma. Hann gengr þá út í skóginn ok leitast um, ef hann mætti finna þat tré er linore[4] kallast, en þat er svá hart sem [hit harðasta járn.[5] Gengr hann nú í einn myrkvan stað ok finnr skjótt þetta sama tré ok gerir þat til feginsamliga með sínum knífi, gengr síðan aptr til hússins er móðir hans sat í, ræðr þegar til ok pjakkar sem hann getr fastast vegginn, þar til er hann kemr or einum steini,[6] ok síðan hvern[7] eptir annan, þar til at hann gat sét móður sína ok í nóg var ljóst í myrkvastofunni. Ok nú er hann vildi inn ganga, sér hann marga orma ok pöddur ok önnur eitrkykvendi í húsinu hjá móður sinni, at[8] hann þorði at síðr inn at ganga, at hann [þorði varla[9] sjá sína móður sakir þessarra eitrkvikvenda, er umhverfis hana lágu. Hon mælti þá til Landres: Ljúfi son, ver ekki[10] hræddr fyrir þessum eitrkykvendum, [þau vilja[11] þér engan skaða gera, [því at þessir ormar er hér eru, bæði langir ok smáir,[12] ok önnur eitrkykvendi er hingat váru til mín send mér til skaða, þá er ek var í þetta hús sett,[13] nú [skaltu vita[14] fyrir víst, at guð hefir veitt mér svá mikla miskunn [af þessum kvikendum, at um daga hafa þau[15] kropit út í gras sér at mat, en um nætr hafa þau lagzt umhverfis mik ok hulit[16] minn líkama frá öllum kulda, ok ef þessir ormar hefði hér eigi verit, munda ek fyrir löngu dauð. Dróttningin stóð þá upp ok gengr til sonar síns ok kyssir hann ok mælti: Landres, segir hon, vel ertu kominn minn[17] son; hvat hefir þú hér gört í þessum[18] skógi, er þú ferr svá einnsaman utan [nökkurs sveins.[19] Landres svarar: Mín kæra móðir, ek vil eigi leyna þik, hvat því veldr. Faðir minn hefir útlægt mik af sinni augsýn, ok því þorig[20] eigi þar at vera. Frúin mælti: Ljúfi son, segir hon, gjarna vilda ek nú fá mat[21] ok drykk, ef til væri. Mín kæra móðir, segir hann, þat má ek[22] með guðs lofi veita þér, því at ek gat

[1]) *mgl. b.* [2]) [skildi hann at þessi *b.* [3]) mætti *b.* [4]) livore *b.* [5]) [stál *b.* [6]) steininum *b.* [7]) hverjum *b.* [8]) *mgl. b.* [9]) [treysti varla at *b.* [10]) eigi *b.* [11]) [þvíat þau munu *b.* [12]) *rett. f.* smare *B.* [13]) [ok þá er ek var í þetta hús sett, váru þau hingat send mér til meins *b.* [14]) [vit þat *b.* [15]) [at þessi kvikindi hafa um daga *b.* [16]) varðveitt *b.* [17]) eiginn *tilf. b.* [18]) þykka *tilf. b.* [19]) [nökkurn svein *b.* [20]) þorir ek *b.* [21]) vist *b.* [22]) nú *tilf. b.*

fengit í dag af dvergum nökkurum eitt handklæði ok þar meðr einn pott, er yðr skal[1] fullvel fœða. Leggr hann þá fram handklæðit ok svá pottinn fyrir sína móður frú Olif, ok[2] allra handa kostr meðr vænasta drykk [var þar[3] til reiðu, ok harðla sœmiliga matgört. Ok er frúin var vel mett ok drykkjuð, talar hon við Landres son sinn: Nú vantar mik klæði, sonr minn, segir hon. Móðir mín, segir hann, ek skal fá þér minn kyrtil ok syrkot, ok öll mín klæði önnur vil ek þér fá nema skyrtu ok [svá brœkr,[4] þat skal ek eptir hafa. Megi þér hér af gera yðr klæði, ok fá betri [þá er[5] guð vill. Ok er[6] frúin hafði meðr tekit[7] nefndum klæðum, þá mælti hon: Sonr minn, segir hon,[8] lifir Siliven þín fóstra? Já, guð veit, [segir hann,[9] hon lifir vist ok hefir gört mér margt gott, ok hjá henni hefir ek verit um mörg ár. Minn góði son, segir frúin, far nú aptr sem tíðast til þinnar fóstrmóður ok heilsa hana sem bezt minna vegna, ok seg henni at ek [em lifandi[10] ok bið hana kenna þér [nökkur góð[11] ráð af[12] þessi álygi, er vér erum í stödd. En ek man [hér við hafast,[13] meðan þú ferr sem verða má. Gjarna vil ek, segir Landres, alt þat gera eptir yðrum vilja. Hann leggr nú eptir hjá móður sinni hvártveggja handklæði ok pott, ok bað hana vel lifa. Síðan tekr hann boga sinn ok gengr brot ok léttir eigi fyrr en hann kemr aptr til sinnar fóstrmóður, heilsar henni[14] þegar með blíðum orðum. Ok er hon sá hann, varð hon harla fegin ok glöð við hans kvámu, ok þá mælti Landres: Olif mín sœta móðir bað mik heilsa þik mikiliga af sinni hálfu, svá bað hon ok at þú skyldir nökkut ráð á leggja, at hon mætti frelsast af þeirri ljótu lygi, er hon hefir fyrir vorðit, ok at þat[15] mætti af þvást um síðir. Kæri fóstrson, segir hon, þegi þú skjótt, ok ger þik eigi galinn, svá má ek heil vera, at þú minnir mik á þá sorg, sem ek hefir mesta beðit á mínum lífdögum, fyrir því at fyrir mörgum árum var hon dauð. Fóstrmóðir, segir Landres, ek segir þér með sannendum, at hon lifir ok er heil, en ef þú trúir mér eigi, far ok sjá hana með þínum augum. Fóstrson minn, segir Siliven, af því at þú segir þetta með svá miklum sannindum, þá vil ek trúa þér,[16] ok ek skal góð ráð á leggja[17] sem framast kann ek.

15. Nú skaltu búa þína ferð sem skjótast til Karlamagnúsar[18] konungs móðurbróður þíns, því at nú er dauðr[19] Pippin konungr móðurfaðir þinn, ok létt nú eigi fyrr en þú finnr Karlamagnús, ok seg honum at þín móðir frú Olif lifir ok þú hefir hana fundit, seg

1) kann *b.* 2) var þá *tilf. b.* 3) [þar þegar *b.* 4) [línbrœkr *b.* 5) [þegar *b.* 6) *saal. b;* ef *B.* 7) *tilf. b.* 8) hvárt *tilf. b.* 9) [*tilf. b.* 10) [lifi *b.* 11) [nökkut gott *b.* 12) móti *b.* 13) [*saal. b*; hefast *B.* 14) hana *b.* 15) *tilf. b.* 16) því *b.* 17) með þér *tilf. b.* 18) Karlam. *b.* 19) andaðr *b.*

honum ok grein á öllu hvat fram hefir farit síðan. Ek skal gefa þér eitt fagrt ers, þar til[1] góð klæði ok góð[2] vápn, at þú megir þitt erendi gera vel ok skjótt. Ok sem Landres er búinn, tekr hann sitt ers ok biðr vel lifa fóstrmóður sína, ok ríðr þar til er hann kemr í einn villiskóg syngjandi ok gleðjandi sik mikiliga. Ok er hann kom fram á eitt fagrt láð hjá einu stöðuvatni, sér hann [fram fyrir sik[3] sitja einn pílagrím, ok sýnist honum [at vera líkr Jórsalafara,[4] því at palmr[5] hans lá þar hjá honum. Pílagrímr sjá mataðist, ok er Landres kom fram at honum, mælti pílagrímrinn: Fagr sveinn, sagði hann, stíg niðr af þínu ersi ok sit hjá mér, ok snæðum báðir samt, en ers þitt má vel bíta meðan. Landres hugði alt þetta prettalaust[6] ok sté niðr af sínu ersi ok settist hjá pílagrímnum sakir þess at hann var ekki[7] mettr ok þó lystugr.[8] Nú er Landres skyldi til matar taka,[9] var þessi pílagrímr allr í brott af hans augsýn, svá[10] allr matrinn ok hans góða ers, er þar hafði staðit hjá honum. Eigi síðr var[11] í brottu öll hans klæði, ok svá nöktr sat hann eptir á vellinum sem móðir bar hann í heiminn. Þá mælti Landres: Nú hefir mik þá mestu skömm hent, sem nökkurn tíma hefir [mann hent,[12] ok ef nú kœmi til mín einn vændismaðr ok hefði lurk í hendi, [hann mætti[13] reka mik um alt land, fyrir því at ek hefir engi[14] klæði né vápn. Nú meðr[15] því at Landres hafði lítit til at taka, þá sneri hann aptr til fóstrmóður sinnar, því at þar af hafði hann jafnan huggan fengit. Hann [stendr þá upp ok snýr aptr ok kemr heim[16] til hennar nú nökkviðr, en áðr hafði hann riðit brott sœmiliga klæddr ok á fögrum hesti. Ok er hann ferr at garði, sitr Siliven úti í dyrum[17] ok sér Landres kominn sinn fóstrson. Hon talar til hans: Gef þér ekki um, fóstri minn, því ek veit þetta miklu gör en þú, hverr þik hefir gabbat, ok svá alla atburði.[18] Nú bið ek[19] þik eins hlutar ok haf þat jafnan í þínu minni, lát aldri vin þinn eðr frænda, ef þér þikkir hann góðr, fastandi frá þér fara, [fyrir því þat má þik eigi gabba þá.[20] En þessi fýla er þik gabbaði[21] var þín stjúpmóðir, sú er [í nóg kann mart[22] í kyndugskap, gefi guð henni skömm. Nú vil ek gefa þér eitt ers gott, þat sem þér skal vel duga í allar þrautir, ok þar með góð klæði ok góð vápn, sverð at gyrða þik meðr, er Mimungr heitir, en ersit heitir Klemingr. Nú ef þú ríðr á stræti eðr annan veg, ok

[1]) með *b.* [2]) sœmilig *b.* [3]) [*mgl. b.* [4]) [hann vera Jórsalafari *b.* [5]) *saal. b*; palmar *B.* [6]) vera *tilf. b.* [7]) eigi *b.* [8]) matlystugr *b.* [9]) fara *b.* [10]) ok *tilf. b.* [11]) váru ok *b.* [12]) [maðr fengit *b.* [13]) [þá mætti hann *b.* [14]) hvárki *b.* [15]) fyrir *b.* [16]) [kemr *b.* [17]) durum *b.* [18]) þar um *tilf. b.* [19]) *tilf. b.* [20]) [því at þá má hann eigi fyrir þat gabba *b.* [21]) dáraði *b.* [22]) [kann nógu margt *b.*

vill nökkurr léttr maðr [við þik tala eðr[1] þik dvelja, þá tak í beisl þitt ok snú ersi þínu, svá at þú megir sjá hvat[2] kyndugum meistaramanni [þat man vera,[3] ok ef ers vill gnaga beislit fast með sínum tönnum, gá þess sem bezt, ok lát þat hlaupa sem vill, en drag sverðit or skálpinum, ok ef sú vánda vættr sér þat. sú er þér vill mein gera, [allr hennar kraptr man[4] at engu verða. Nú tekr Landres með því góða ersi ok þeim fögrum klæðum, er fóstra hans gaf honum, ok ríðr brott annat sinn harla glaðr. Hann kemr um síðir fram á einn mó, þar var[5] eitt djúpt vatn, hann[6] sér standa eina kirkju litla hjá þessu vatni ok kór fagran af görfan, einn gamall karl gengr út af kirkju á móti honum í svörtum slagningi. Hann mælti til Landres: Viltu taka af ersi þínu ok létta þér svá at ganga í kirkju ok hafa[7] messu, ekki man þér at verr[8] til takast um þína ferð. Sem Landres hafði heyrt orð þess gamla manns, tekr hann í beisl sitt ok hleypir fram at kirkju sem hann gat mest, ok er hann hugðist at kirkju kominn á sínu góða ersi, var hann kominn heldr fram í einn stríðan straum ok djúpan, svá at þaðan hefði hann aldri til lands komizt, ef eigi hefði hans ers svá sterkt ok frækit verit. Ok er hann kom á land, er horfin kirkja ok svá karlinn, ok ekki sá hann þar, þá utan sléttan völl. Hann ríðr nú brott þaðan ok kemr um síðir á fagra völlu, hann mœtir flokki riddara ok finnr þar fagra skjöldu lagða niðr á völlinn. Riddararnir buðu honum[9] þar at vera, en þeir riðu at honum or öllum áttum, sumir fóru at honum austan,[10] sumir vestan, sumir norðan, ok um síðir kom einn gamall karl móti honum, ok var hann í svörtum búningi. Hann sat á hesti svörtum ok öll hans vápn váru svört, hann bar í sinni hendi eitt digrt tré ok langt. Sá gamli karl mælti til Landres: Svá séðu heill, turna þínu ersi til mín[11] ok halt eitt dust[12] með[13] mik, þá mantu[14] reyna hverr reystimaðr þú mant verða eptir okkart viðskipti.[15] Landres tekr nú þegar í sitt beisl ok snýr sínu ersi at þeim gamla karli at sjá hvat [kyndugum meistaramanni[16] hann væri. Ersit tekr nú þegar tönnum beislit, hleypr sem skjótast at karlinum gamla:[17] því at þessi skrœfa var yfrit klók ok kunni hölzti[18] mart, bregðst hon or þeirri mannligri líkneskju, er áðr var hon í, ok varð nú at einum digrum ormi, ok hafði svá ætlat at drepa Landrés. En[19] því at hans ers var svá gamalt í sínum vitrleik, ok guð hafði sent honum þat til hjálpar móti þessum görningum, steðjar ersit sem fastast á

1) [*mgl. b.* 2) *saal. b*; hvar *B.* 3) [sjá er *b.* 4) [þá mún(u) allir hennar kraptar *b.* 5) *saal. b*; fra *B.* 6) *saal. b*; hjá *B.* 7) hlýða *b.* 8) *tilf. b.* 9) allir *tilf. b.* 10) *saal. b*; útan *B.* 11) *saal. b*; þín *B.* 12) dyst *b.* 13) við *b.* 14) máttu *b.* 15) *tilf. b.* 16) [*saal. b*; kyndugr meistari at *B.* 17) ok af *tilf. b.* 18) hellzti *b.* 19) af *tilf. b.*

orminn ok lemr í sundr öll hans bein með sínum fótum. Ok þá hafði þessi bannsetta kona ekki annat efni en heim at krjúpa vesaliga, sem [verðugt var,[1] til sinna herbergja, ok[2] þá kallar hon á Milon föður sinn ok Malalandres son sinn ok mælti við þá: Ek hefir at segja ykkr mikil tíðendi ok ill, því at ek er svívirðliga[3] leikin af Landresi, sem nú megi þit[4] sjá, ok mikit ilt man hann oss gera öllum, ok hugsa um þat faðir, at þú megir halda lífinu, því at Landres er nú farinn at finna Karlamagnús konung frænda[5] sinn ok alla sína beztu frændr, at[6] því gerum ráð[7] at hann verði drepinn[8] þá er hann vitjar hingat, ok gangit báðir móti honum á stræti ok látit hann eigi fram komast. Gakk þú faðir þá framan at honum ok halt beislinu fast, ok lát sem þú vilir tala við hann, en Malalandres gangi at aptan ok höggi[9] svá snart, at Landres standi aldri síðan upp. Látum nu þessar skrœfur með talast þat er þeim líkar, en víkjum til Landres þar sem hann gerir sín erendi.

16. Nú ríðr Landres þar til er hann finnr Karlamagnús konung móðurbróður[10] sinn, ok tekr konungrinn sœmiliga við honum. Segir Landres frænda sínum Karlamagnúsi öll sín erendi. En hann kallar til sín marga góða menn ok mikils háttar, birtandi þeim þau tíðendi, sem Landres frændi hans hafði honum flutt,[11] at frú Olif lifir. Ok er menn heyrðu þetta, þökkuðu þeir mikiliga guði sína heilaga miskunn, ok báðu nú konunginn gott ráð á leggja með sínum frænda. Karlamagnús konungr játtaði því ok mælti svá: Landres frændi minn man eiga[12] litla dvöl hjá oss at sinni ok skal ríða snemma í morgin heim til föður síns ok birta honum mína þarkvámu, en vær skolum ríða litlu síðar allir samt til [Hugons konungs.[13] Þegar um morgininn er ljóst var, stóð Landres upp ok klæddist ok bjóst til brottreiðar. Ok þegar hann var mettr ok búinn at öllu tekr hann orlof af Karlamagnúsi keisara, þiggjandi af honum sœmiligar gjafar. Stígr hann síðan upp á sitt góða ers ok ríðr brott af garðinum, margir sœmiligir menn fylgdu honum í veg ok skildust svá með hann. En Landres ríðr nú sem fljótast má hann ok léttir eigi fyrr en hann kemr heim í staðinn, þar at ríðandi sem þeir standa fyrir frændr Milon ok Malalandres á stræti. Ok er Landres kom at þeim, gengr Milon fráðr at honum ok tekr í beisl hans ok segist vilja tala með hann, en Malalandres gengr at aptan með hvössu sverði ok ætlar at höggva hann. Nú var sem fyrr, at þat góða ers, er guð hafði sent honum, hóf upp sína báða fœtr eptri ok sló Malalandres

1) [var þó langt *b.* 2) er hon kom heim *tilf. b.* 3) svá sárliga *b.* 4) *saal. b*; þér *B.* 5) móðurbróður sinn *b.* 6) ok *b.* 7) um *tilf. b.* 8) *tilf. b.* 9) höggvi *b.* 10) frænda *b.* 11) sagt *b.* 12) hér *tilf. b.* 13) [mágs míns *b.*

20. Nú er at segja frá Karlot konungs syni, hann býst við[1] fimliga ok herklæðist.[2] En Nemes hertugi klæddi[3] Oddgeir danska, fyrst með tvefaldri brynju, en síðan setti hann hjálm á höfuð honum, þann er gerr var af inu beztu stáli, [umgjörðin er á var hjálminum var verð 10 punda[4] silfrs. Þá var fram leiddr hestr, sá var beztr í liði[5] Karlamagnús konungs. Oddgeir sté[6] á bak hestinum,[7] tók spjót sitt í hönd sér ok merki [sitt er Gafers het.[8] Nú er hann[9] vel vápnaðr, en Karlot [enn betr, ef þat mátti.[10] Síðan riðu þeir fram til Tifr ok stíga[11] á skip ok fluttust til eyjar þeirrar er hólmstefna var í lögð. Nú eru þessir fjórir kappar[12] komnir til vígvallar. En eigi var þó alt svikalaust með heiðingjum, en þat var at [úvitundum þeim Karvel ok Sodome.[13]

21. Nú er at segja frá Danamunt [konungs syni.[14] Hann gengr til [landtjalds síns[15] ok segir liði sínu ætlan sína: Misgert hefir Karvel við oss, er hann hefir flutt[16] með sér Gloriant systur mína til hólmstefnu at úleyfi mínu; en [þat veit ek[17] at þat er fyrir ástar sakir [þeirra, ok mér þikkir þat þó eigi allilla fyrir þess sakir,[18] at engan dreng höfum vér jafngóðan sem Karvel í öllu [Ammirals konungs ríki, ok vér höfum mikit í hættu, ef vér látum þá tvá berserki sem vaskastir eru, ok mun oss eigi hlýða at eiga bardaga við Karlamagnús konung síðan.[19] Nú er þat mitt ráð, at [vér hafim[20] lið várt í ey þá, er þeir eiga[21] hólmgöngu í, ok skulum vér leynast þar í skógi hjá; en ef vér sjám at várir menn [verði halloki,[22] þá skulum vér [verða þeim at liði,[23] ok munu várir andskotar brátt[24] yfirkomnir. Riddarar Danamunts játuðu [ráðum hans[25] ok fóru síðan til eyjarinnar ok leyndust þar í skógi hjá. En þat var skaði,[26] at þeir Oddgeir ok Karvel vissu þat eigi, [því at þeir mundu þeirra svika hefnt hafa.[27]

22. Nú eru þessir kappar 4 á vígvelli ok búnir til bardaga. Þá lýstr Karvel hest sinn sporum, [hann er fimari[28] en frá megi

1) um *B*, *b*. 2) herklæðir hann konungr einn. *B*, *b*. 3) herklæddi *B*, *b*. 4) [þenna hjálm kostaði 10 pund *B*, *b*. 5) öllum her *B*, *b*. 6) hljóp *B*, *b*. 7) svá at hann studdist hvárki við ístig (stigreip *b*) né söðulboga, ok *tilf*. *B*, *b*. 8) [þat er gört hafði dóttir Ginuers (Gimners *b*) konungs *B*. 9) Oddgeir *B*, *b*. 10) [sýnu betr, ef svá mátti vera *B*, *b*. 11) þar *tilf*. *B*, *b*. 12) riddarar *B*, *b*. 13) [óvilja Karvels ok Sadoma ok at þeim óvitandum *B*, *b*. 14) [syni Amirals konungs *B*, *b*. 15) [landtjalda sinna *B*. 16) fœrt *B*, *b*. 17) [ek veit *B*, *b*. 18) [*mgl*. *B*. 19) [ríki feðr míns, en vér höfum mikit í ábyrgð, ef týnast riddarar báðir, ok þá man oss illa hlýða síðan at halda orrostu móti Karlamagnúsi konungi. *B*, *b*. 20) [fœra *B*, *b*. 21) eigu *B*. 22) halloka *B*; [megi minna *b*. 23) [þeim við hjálpa *B*, *b*. 24) verða *tilf*. *B*, *b*. 25) [þessu *B*, *b*. 26) illa *B*, *b*. 27) [at þeim váru svik gör, fyrir því ef þeir hefði vitað, mundi lengi uppi vera, hversu þeir hefði þess hefnt. *B*, *b*. 28) [þann er fimari var *B*.

segja. Hann ríðr at Oddgeiri ok mælti við hann: Sýna skal ek þér unnustu mína, þá sömu er ek hefi hœlt fyrir þér. Sér þú [olifatré[1] eitt fagrt,[2] er hér er í skóginum, þar sitr hon undir. Nú ef þú vilt ganga af hendi guði þínum ok gerast maðr Ammirals konungs, segir hann, þá mun ek gefa þér land þat er [heitir Persia ok Choruskana[3] ok allar eigur þær er til liggja. Þá svarar Oddgeir: Nú hefir þú mælt mikla fólsku[4] ok údrengskap. Karlamagnús konungr sendi mik hingat af hendi sinni at halda upp lögum hans ok sœkja svá erfðalönd hans til handa honum ok at móti mæla yðru ranglæti ok ágirni. En unnasta þín sýnist mér einkar væn ok kurteis, sem ván er at konungs barn muni vera, ok skal ek fyrir hennar sakir í dag ganga litlu firr þér en brynja þín, ok skaltu nú verða varr við þat, at þú hefir eigi átt vápnaskipti við mik fyrr.[5] Nú [þreytir hvárr þeirra hest sinn sporum[6] ok eigast hart við langa stund, gefr hvárr öðrum stór högg á gylta[7] skjöldu. Svá lengi eiga þeir þetta viðskipti,[8] at hvártveggi verðr af hesti sínum at ganga, ok eru báðir á fœti staddir, ok léttu þeir[9] því sinni ok hvíldust.

23. Nú sá Sodome[10] konungr, at þeir Karvel ok Oddgeir áttust hart við. Hann laust hest sinn með sporum, er var kallaðr Bruant, reið [harðliga á fund Karlots,[11] en konungs son at móti frœknliga,[12] ok[13] lögðu nú með spjótum ok hjuggu með sverðum, ok var nú hart viðskipti þeirra. Nu mælti Sodome inn heiðni konungr við Karlot: Gef upp nú vápn þín, því at ek sé þik[14] yfirkominn, ok gerði faðir þinn [mikla fíflsku,[15] er hann sendi þik[16] til eyjar þessarar at berjast við mik; eptir hans daga er Frakkland erfingjalaust fyrir [þínar sakir,[17] því at svá skulum vit[18] okkrum leik lúka, at þú verðr aldri síðan [erfingi at löndum.[19] Þú [mælir hvassliga ok heimsliga,[20] segir Karlot, þú mælir þat er þú vildir at væri, en eigi þat er verða mun; þú hefir [lítt freistat[21] af höggum[22] Frankismanna. Sér þú Gloriant konungs dóttur, er hér sitr hjá okkr undir því inu fagra olifatré, hon er bæði fögr ok kurteis;[23] en svá góðr er riddaraskapr Oddgeirs, at hann man sótt fá hana [áðr en aptann[24] komi ok fulla ást af henni hafa. Svá [hefi ek treysta drauma mína ok af inum helga Petro postula,[25] at ek mun yfir þik stíga, ok munu

[1]) olifutré *B.* [2]) [þat fagra tré *b.* [3]) [Persida heitir ok þá borg er Choruscana heitir *B*, *b.* [4]) fíflsku *B*, *b.* [5]) en nú *tilf. B*, *b.* [6]) [þreyta þeir ákafliga *B*, *b.* [7]) gylda *B*, *b.* [8]) vápnaskipti *B*, *b.* [9]) þá af *B.* [10]) hinn heiðni *tilf. B*, *b.* [11]) *r. f.* Karvels *A.* [12]) [hart at Karlot, en Karlot í móti röskliga *B*, *b.* [13]) *her begynder atter a.* [14]) vera *tilf. a*, *B.* [15]) heimsku *a*; [undarliga *B*, *b.* [16]) hingat *tilf. a.* [17]) [þína skyld *a.* [18]) mit *B.* [19]) [arfi hans at löndum *a*; hans erfingi *B*, *b.* [20]) [talar sem ofdrukkinn maðr *B*, *b.* [21]) [lítið kent *B*, *b.* [22]) várum *tilf. B*, *b.* [23]) væn *B*, *b.* [24]) [um þat kveld *B*; áðr kveld *b.* [25]) [hefir mik ok dreymt *B*, *b.*

hót þín [þér fyrir ekki koma.[1] Þá svarar Sodome:[2] Verði sá níðingr, segir hann, er því vill trúa, at [þit skulit bera[3] af okkr,[4] fyrir því at Karvel er svá mikill skörungr ok góðr drengr, at hann hefir einn áðr yfirkomit 30 konunga allhrausta ok borit sigr af hólmi. En ek sé nú [at Karvel sitr[5] á hesti sínum vel ok fimliga,[6] ok óttast hann ekki at sér, nema [þat ef mér verðr nakkvat;[7] en ek skal honum við hjálpa, ef þörf gerist. Þá svaraði Karlot: [Ekki munt þú honum mega við hjálpa, því at þú mant eigi fá hólpit[8] sjálfum þér, ok ef ek felli eigi skjöld þinn á jörð áðr [aptann sé,[9] þá gef ek þér[10] 100 marka silfrs. Þá svarar Sodome: Hafa skalt þú áðr blóðga síðu[11] en ek láta [skjöld minn fyrir þér.[12]

24. Nú er at rœða um Oddgeir ok Karvel. Þeir taka nú í annat sinn at berjast, ok eru nú allir[13] á fœti staddir ok ganga í höggorrostu. Þar er hörð sókn ok áköf, ok veittar litlar hvíldir, sumir hlífa en sumir höggva. Oddgeir höggr til Karvels ofan í hjálminn,[14] ok festi eigi at sinni högg í[15] hjálmi hans, en þat nam þó staðar í skildi hans, ok klofnar ofan til mundriða, ok mundi ofar hafa fest, ef [eigi lyti Karvel[16] undan. Þá mælti Oddgeir: Heyrðu Karvel, nærri skaltu ganga ef þú vill hefna þín,[17] [eða þikki þér nökkurrar[18] hefndar vert vera þetta högg.[19] Þá mælti Karvel: Enn em ek heill ok herfœrr, ok at því skal þér verða áðr [lúki[20] leik okkrum[21]. Þá svaraði Oddgeir: Enn erum vit[22] eigi skildir, ok þat skaltu vita, at Gloriant konungs dóttir sendi mér [kveðju sína í dag, ok fyrir hennar sakir skaltu hljóta af mér enn gildara högg en áðr hefir þú fengit. En þat skaltu[23] vita, segir hann, at sýnt er á[24] hjálmi þínum, því at af hefi ek höggvit allan búnaðinn[25] er á var, bæði gull ok silfr ok gimsteina, ok ef hann væri eigi af [hörðu stáli,[26] þá munda ek nú hafa skilt höfuð þitt við[27] búk, ok mundir þú[28] lítt þurfa at hrósa[29] Gloriant konungs dóttur hvárki fyrir mér né

¹) [ok hégómi at engu verða *a*, *B*, *b*. ²) Sadomi *B overalt*. ³) sigr *tilf. a*. ⁴) [þú munir yfir mik stíga eðr Oddgeir muni af Karvel bera *B*, *b*. ⁵) [Karvel sitja *a*, *B*, *b*. ⁶) framaliga *a*; frœknliga *B*, *b*. ⁷) [mér verði nökkut (til meins *tilf. b*) *a*, *B*, *b*. ⁸) [Eigi trú ek at þú hjálpir honum mikit, er þú mant lítit hjálpa *B*. ⁹) [dagr er allr *B*, *b*. ¹⁰) *tilf. a*, *B*, *b*. ¹¹) liðu *b*. ¹²) [falla skjöld minn *a*; skjöld minn (falla í gras *tilf. B*) *B*, *b*. ¹³) fjórir *tilf. B*, *b*. ¹⁴) hjálm hans *a*, *B*, *b*. ¹⁵) á *a*, *B*, *b*. ¹⁶) [Karfel hefði eigi lotit *a*. ¹⁷) *tilf. a*, *B*, *b*. ¹⁸) nökkut *a*. ¹⁹) [*mgl. B*, *b*. ²⁰) vit (skiljum ok *tilf. B*) léttum *a*, *B*. ²¹) [við skiljum okkarn leik *b*. ²²) mið *B*. ²³) þó *tilf. a*. ²⁴) *saal. a*; af *A*. ²⁵) [í dag heilendis kveðju ok bað mik hlífa unnusta sínum fyrir hennar sakir, ok skaltu fyrir hennar skyld eigi hljóta stœrri högg af mér en nú hefir þú fengit. En auðsét er þat á hjálmi þínum, at hann hefir hörðu mœtt, því at af honum er höggvinn búnaðr allr sá *B*, *b*. ²⁶) [af harðasta stáli gerr *B*, *b*. ²⁷) frá *B*, *b*. ²⁸) þá *tilf. B*, *b*. ²⁹) fegrð *tilf. B*, *b*.

öðrum. Þá svarar Karvel: Mismælir[1] þú nú; úsynju skalt þú hœlzt hafa þessu höggvi, því at þér skal skamt vera til annars meira,[2] ef ek má nú því fram koma [sem mér býr í skapi.[3] Þá hjó Karvel til Oddgeirs [ok af flestan búnaðinn[4] skildi hans[5] ok klauf í því höggvi allan skjöldinn niðr í mundriða, ok nam sverðit [eigi fyrr staðar en í jörðu.[6] Þá mælti Karvel við Oddgeir: Ósynju komtu hingat, því at ek sé nú þat á þér, at þú munt nú eigi [undan komast, ok af því veit ek þat, at hverr er sárr hefir vorðit af sverði þessu, þá fylgir sú náttúra því, at eigi fást þeir menn er þat megi grœða.[7] Ek em konungr af Rabitalandi,[8] ok [segst yfirkominn, tak ráð af mér, gef upp vápn þín ok gakk á hönd mér, þigg þá af mér helming ríkis þess sem ek nefnda áðan. Jlt þikki mér at týna lífdögum þínum, jafngóðr drengr sem þú ert;[9] ok á þat ofan skaltu hafa Gloriant konungs dóttur með mikilli heimanfylgju. Þá svarar Oddgeir: [10]Ódrengsskap mælir þú nú, er þú biðr þess, at ek skula gerast dróttins sviki. Gloriant konungs dóttir er fögr ok mikill skörungr, ok [gerði faðir hennar mikla heimsku,[11] þá er hann fékk hana þér til varðveizlu, því at litla hjálp mantu henni veita mega, [þar sem þér mun ekki af ganga áðr skamt líði héðan. En fyrir hennar sakir mun ek gefa þér lítinn frið, gættu þín nú vel héðan í frá, því at þér mun skamt til gjalda.[12] Síðan hjó Oddgeir til Karvels með þvi inu góða sverði sem Nemes hertugi fékk honum, ok klauf hjálm hans í sundr, svá at staðar nam í herðarblaðinu, ok veitti honum mikit sár. Nú sá[13] njósnarmenninir er í skóginum váru, ok sóru við guð sitt[14] Maumet, at þá sá þeir fall Karvels. Nú lýsir allan vígvöllinn af gimsteinum þeim er [þeir hafa höggvit af[15] skjöldum ok hjálmum.

25. Nú verðr nakkvat at geta viðskipta þeirra Karlots ok Sodome. Þeir sœkjast at í öðrum stað. Nú höggr konungs son

1) mismæltir *a.* 2) ok skal þat vera sýnu gildara *tilf. a.* 3) [eptir vilja *B*, *b.* 4) af *tilf. a.* 5) [*mgl. B*, *b.* 6) [þá staðar (því at mundriðinn var af stáli görr, elligar hefði hann klofit skjöld hans allan *tilf. B*, *b*) *a*, *B*, *b.* 7) [á brott komast héðan, því at hverr sá er sárr verðr af sverði mínu, þá fær hann engan þann lækni at þat sár grœði. *B*, *b.* 8) *saal. a;* Tabitalandi *A;* Persidalandi *B*; *mgl. b.* 9) [tak ráð af mér, gef upp vápn þín ok gakk á hönd mér ok segst yfirkominn, ok þigg í gjöf at mér helming ríkis míns, því at mér þikkir ilt at týna lífi þínu, svá góðs drengs *B*, *b.* 10) ofmikinn *tilf. B*, *b.* 11) [sýndi faðir hennar mikla úvizku *B*, *b.* 12) [þar sem þér mun ekki af veita áðr en skamt líði héðan. En fyrir hennar sakir mun ek gefa þér lítinn frið. Gæt þín nú vel héðan í frá. En fyrir hennar sakir mun ek gefa þér lítit slag *a*; [því at þér man ekki af ganga er skamt líðr; en gættu þín nú vel, því at fyrir hennar sakir mun ek gefa þér lítinn frið. *B*, *b.* 13) þetta *tilf. B*, *b.* 14) sinn *a*, *B*, *b.* 15) [hrutu or *b.*

til[1] ins heiðna konungs ok[2] af honum [in(um) vinstra megin alt[3] ofan frá augunum,[4] svá at staðar nam í hökubeininu, ok mundi þá alt hafa af gengit, ef eigi hefði hann undan skotizt.[5] Nú mælti Karlot við Sodomam: Nú veitta ek þér þat [skamma stund,[6] er ek hét þér, ok tók ek nú erfiði[7] af mönnum þínum, at eigi þurfu þeir raka[8] skegg þitt inum vinstra megin [um alla daga lífs þíns,[9] ok muntu ferligr þikkja, ef þú kemr þvílíkr[10] fyrir [höfuðkonung yðvarn,[11] sem eigi mantu héðan koma áðr aptann sé.[12] Þá skript skal ek veita[13] þér, at lítið[14] skal þér at haldi koma ván sú, er þú segir at Maumet ok önnur skurguð yður munu duga þér. Þá mælti Sodome: Hrósa [eigi þú skilnaði okkrum enn, mun þat sýnast,[15] hvárr okkarr berr hærra skjöld.

26. Nú er þat at segja, at þeir Karvel ok Oddgeir taka[16] at berjast, ok var sjá [einna hörðust.[17] Þá mælti Karvel: Víst er þat, at þú ert fullhugi, því at ek hefi felt 30 konunga á hólmi, ok var hverr þeirra öðrum frœknari, ok skipta ek[18] vápnum þeirra [ok klæðum,[19] ok var engi þeirra þinn jafningi hvárki at hug né riddaraskap. Nú vil ek þess biðja þik,[20] at vit hættim aptanlangt[21] ok takim til snimma á morgin, ok muntu nálgast[22] vináttu Ammirals konungs, ef þú gerir[23] svá sem ek bið,[24] ok mun hann[25] gefa þér góðar gjafir. Oddgeir svaraði: Nú [it fyrsta heyri ek þik mæla údrengskap, því at ek kom hingat í embætti Pétrs postula ok Karlamagnús konungs, ok væra ek þá dróttins sviki, ef ek eirða þér nakkvat í því sem til riddaraskapar heyrir.[26] En ef þú játtar því, at þú sér yfirkominn, þá gef upp vápn þín ok [skaltu fylgja[27] mér [fyrir Karlamagnús konung.[28] Þá svarar Karvel: Aldri skal ek á hönd þér ganga, meðan ek má [anda ok[29] upp standa, ok engum öðrum. Hver er ætlan þín, segir Oddgeir, at vísu segi ek þér, at eigi skulum vit fyrr leik okkrum létta,[30] en annarr hvárr okkarr

[1]) Sodome (Sadome *B*) *tilf. a, B.* [2]) *tilf. a, B, b.* [3]) [andlitit alt (andlit hans alt hinum *b, B*) vinstra megin *a, B, b.* [4]) auganu *B, b.* [5]) skorizt *B.* [6]) [litla stund *a*; högg *B, b.* [7]) starf *B, b.* [8]) *saal. a, B, b*; taka *A.* [9]) [meðan þú lifir *B, b.* [10]) svá búinn *a.* [11]) [Ammiral konung *a, B, b.* [12]) komi *B, b.* [13]) setja *B, b.* [14]) lítt *a, B, b.* [15]) [þú eigi svá brátt okkrum skilnaði, þat man enn sýnast áðr kveld komi *B, b.* [16]) nú hit þriðja sinn *tilf. a, B, b.* [17]) [allra ákafastr *a*; samkoma þeirra allra áköfust *B, b.* [18]) *tilf. a, B, b.* [19]) [*tilf. a, B, b.* [20]) er okkr berr vel báðum *tilf. a, B, b.* [21]) kveldlangt *B, b.* [22]) eignast *B*; öðlast *b.* [23]) breytir *B, b.* [24]) vil *a, B, b.* [25]) ek *a.* [26]) [heyrir ek þik tala næsta æðru; ek em hér kominn at berjast sakir Karlamagnús konungs ok í hans þjónustu, ok er ek dróttins sviki, ef ek eiri þér nökkut í því sem riddaraskap okkrum til heyrir. *B, b.* [27]) [fylg *B, b.* [28]) [til Karlamagnús konungs *a, B, b.* [29]) [*mgl. B, b.* [30]) lúka *B, b.*

liggr eptir. Þá svarar Karvel: Tökum nú et þriðja[1] sinni til at berjast, því at ek em[2] fimari en hjörtr[3] ok grimmari en dýrit úarga. Nú berjast þeir ákafliga, ok eru högnar af þeim allar hlífar, hjálmar brynjur ok skildir. Síðan [höggvast þeir nú ok eru mjök sárir,[4] svá at skamt er benja á milli, ok [er nú lítið hvárum til úfœru.[5] En í því bili kom Danamund son Ammirals konungs fram or skógi ok 30 riddara með honum, ok sóttu [jafnskjótt á hönd Oddgeiri, ok er hann nú á fœti,[6] því at hann náði eigi hesti sínum. En jafnskjótt sem þeir sá þat Karvel ok Sodome, þá lögðu þeir vápn sín ok vildu eigi [sœkja á hendr þeim Karlot ok Oddgeiri,[7] því at þat var at úvilja þeirra gört, ok kunnu þeir þeim [illa aufúsu[8] fyrir þetta.

27. Karlot ok Oddgeir eru nú illa staddir, en þó verjast þeir vel [ok drengiliga[9] ok feldu mart [heiðingja um[10] sik, ok gerðu sér byrgi af þeim dauðum; ok eru nú fallnir flestir allir af þeim 30, en þeir sem eptir lifa eru mjök sárir. Þá kemr berserkr einn mjök svá inn bezti riddari[11] af heiðinna[12] manna liði, er Morlant[13] hét; hann sœkir Oddgeir ákafliga,[14] ok er nú [litla hóta[15] áfátt um viðskipti þeirra.[16] Svá gengr sjá fjándi nær honum,[17] at allr váði er at. Nú sér Karlot viðskipti þeirra ok ríðr nú fram at Morlant[18] ok skýtr til hans spjóti sínu ok[19] í gegnum hann miðjan ok höggr af honum höfuð síðan. Því næst koma ríðandi 40[20] riddara af heiðnum mönnum ok lögðu þegar at þeim harðliga.[21] Þá mælti [Oddgeir við Karlot:[22] Sœk undan við svá búit [á fund Karlamagnús konungs,[23] ok seg honum at mik mun ekki saka. Í því bili varð Karlot at flýja undan á ána Tifr, en hestr hans svam undir honum, en guð hlífði [ok sá hjálp koma at móti honum tvá menn af liði Karlamagnús konungs,[24] ok fluttu hann yfir ána.

28. Nú er at segja frá Oddgeiri. Hann er nauðuliga staddr á milli 40[25] heiðingja, ok höggr á báðar hendr[26] ok feldi [af þeim fleiri en hálfa, til þess at þar kemr, at hann er svá móðr, at hann

[1]) fjórða *a*, *B*, *b*. [2]) nú *tilf. a*, *B*, *b*. [3]) björn *B*, *b*. [4]) [særast þeir mjök *B*, *b*. [5]) [eru nú allmjök (gerast þeir fast *b*) mœddir *B*, *b*. [6]) [þegar at Oddgeiri ok þeim Karlot. En Oddgeir var á fœti staddr *B*, *b*. [7]) [berjast *B*, *b*. [8]) [*saal. a*; illa oaufuso *A*; enga þökk *B*, *b*. [9]) [*tilf. a*, *B*, *b*. [10]) [heiðinna manna umhverfis *a*, *B*, *b*. [11]) *tilf. a*, *B*, *b*. [12]) *saal. a*, *B*, *b*; heiðna *A*. [13]) Mordant *a*. [14]) í ákafa *B*. [15]) [littla bóta *a*. [16]) [lítilla bóta ávant um þeirra skipti *B*; þeirra viðskipti mjök hart *b*. [17]) Oddgeiri *a*, *B*, *b*. [18]) Mordant *a*. [19]) *tilf. a*, *B*, *b*. [20]) *saal. a*, *B*, *b*; 30 *A*. [21]) sem harðast *a*, *B*. *b*. [22]) [*saal. a*, *B*, *b*; Karvel *A*. [23]) [til fundar við föður þinn *B*, *b*. [24]) [honum, ok sá hann hjálp koma á móti sér, eintrjánung einn, ok váru á menn 2 af liði Karlamagnús *a*; [honum, svá at þá kom honum hjálp, eitt lítit skip ok á tveir menn, þeir váru af liði föður hans *B*, *b*. [25]) margra *B*. *b*. [26]) sér *tilf. a*.

varð at leggja vápn sín bæði af sárum ok mœði,[1] þótt honum þœtti mikit fyrir. En svá fór þar[2] sem mælt er, at engi má við margnum. En þat er sagt frá Danamund, at hann vildi eigi svá nær koma[3] Oddgeiri, meðan hann hafði vápn sín í hendi, at oddrinn af sverði hans tœki til hans. [Þá varð Oddgeir handtekinn ok er hann nú undir[4] valdi heiðinna manna.

29. [Nú er tveim sögum fram at fara.[5] Karlot [er nú kominn til föður síns,[6] ok segir honum[7] tíðendi er í höfðu gerzt, at heiðingjar hafa svikit þá í griðum ok [höndum tekit Oddgeir,[8] en ek kómumst undan með beggja okkarra ráðum at segja[9] þessi tíðendi. En [Karlamagnúsi konungi þótti mikill skaði at Oddgeiri,[10] ok mælti: Mikill missir[11] þikki mér vera [at Oddgeiri,[12] segir hann, því at engan [dreng höfum vér jafngóðan í öllu ríki váru,[13] ok eigi er þat sýnt at annarr fœðist upp jafngóðr riddari í Franz um aldr. Þá svarar Karlot: Ver eigi úglaðr, faðir, segir hann, vér skulum hefna hans, Nemes hertogi ok Tere af Vidon[14] ok enn þriði Videlon[15] jarl, en ek skal vera inn fjórði [til farar ok velja ina frœknustu menn til fararinnar, ok skulu vér eptir sœkja[16] ok létta eigi fyrr en vér nám[17] Oddgeiri af heiðingjum, hvárt sem þeim þikkir [vel eða illa,[18] með frœknleik várum. Þá svara Frankismenn: Eigi sýnist oss þat ráð at sœkja Oddgeir á þessa lund, því at hann mun nú staddr vera í millum margra þúsundraða[19] heiðingja, ef hann lifir [heldr en eigi,[20] ok mun oss dýrt verða eins manns líf. ef vér týnum [margra fyrir þat;[21] hœfir oss at fara vitrliga með þessu máli ok leita svá fremi[22] við hefnd þessa, at vér komim framar niðr[23] en gerast til at eins; [ok er svá ilt[24] at hlaupa, at maðr setist[25] aptar niðr en hann ríss[26] upp. Þá mælti Nemes hertugi [ok fjöldi annarra manna, er vitrir váru í hirð Karlamagnús konungs, at[27] meir en 400 skjalda skulu[28]

[1]) erfiði *a*. [2]) [þá 20 af þeim, ok þá var svá komit, at hann var svá móðr, at hann gat eigi varizt bæði sakir sára ok mœði, enda er þat satt (kom þat fram *b*) *B*, *b*. [3]) ganga *a*. [4]) [Varð Oddgeir nú handtekinn ok verðr nú fyrst at vera í *B*, *b*. [5]) [*mgl. a*, *B*; *a stiller Cap. 29 foran 28.* [6]) [ferr þar til er hann finnr föður sinn *a*; kemr nú til fundar við Karlamagnús konung *B*, *b*. [7]) þau *tilf. a*, *B*, *b*. [8]) [handtekit Oddgeir *a*; Oddgeir var handtekinn *B*, *b*. [9]) þér *tilf. a*; yðr *tilf. B*, *b*. [10]) [Karlamagnús konungr varð þessi sögu úfeginn *a*, *B*, *b*. [11]) skaði *a*, *B*, *b*. [12]) [um Oddgeir *a*, *B*, *b*. [13]) [höfum vér jafnröskan dreng eptir, ef vér missum hans *B*, *b*. [14]) Vtrent *B*, *b*. [15]) Edelun *a*, *B*; Odelun *b*. [16]) [ok síðan skolu vér velja hina frœknustu menn til farar með oss af yðru liði *B*, *b*. [17]) náim *B*, *b*. [18]) [betr eða verr *a*, *B*, *b*. [19]) þúsunda *B*, *b*. [20]) [*mgl. B*, *b*. [21]) [mörgum várum mönnum, en náim honum þó eigi heldr en áðr; fyrir því *B*, *b*. [22]) *mgl. a*, *B*, *b*. [23]) á leið *B*, *b*. [24]) [en ilt er svá fram *a*, *B*, *b*. [25]) komi *B*, *b*. [26]) reis *B*. [27]) [*mgl. B*, *b*. [28]) munu *a*, *B*, *b*.

vera klofnir, ok þeir drepnir er bera, fyrr en [vér náim eigi Oddgeiri danska;[1] en þó letjum vér eigi [at þessi ferð sé farin, segir Nemes, því at hefna mundi hann slíkra svika,[2] ef hann ætti þenna hlut máls sem vér eigum, ok fýsum[3] vér heldr þessarrar ferðar.

30. Nú er at segja frá Oddgeiri, at heiðingjar hafa[4] hann til Rómaborgar ok [kómu at skógarhorni einu, þar sem fagrt[5] var, ok settu hann þar niðr ok tóku af honum öll hans hervápn er hann hafði undir því tré er olife heitir. ok þótti þeim hann hafa vel varizt, ok mælti hverr við annan: Vili þér sjá Oddgeir danska inn bezta[6] riddara er verit hefir í Franz. Þar kom margskonar lýðr, ok undruðust hann Tyrkir ok Torkobus,[7] Frísir ok allskonar[8] heiðit fólk. Síðan fœrðu þeir hann fyrir Ammiral konung, ok mæltu allir sem eins manns munni: Konungr, lát þér hugkvæmt vera þessum manni at hefna þat[9] sem hann hefir við þik misgert ok við oss. Hann drap inn fyrra dag þann mann er beztr var í ætt várri, ok feldi fjölda annarra manna,[10] þeirra er vér ættim[11] allra vel at hefna. Þá [svarar Ammiral konungr:[12] Þó at alt veraldar gull væri við[13] honum boðit, þá skyldi hann [eigi lauss verða, heldr skal ek[14] leysa hann í liðum sundr kvikan. En í því bili kom Karvel [ok nefndi konunginn á nafn:[15] Herra konungr, segir hann, ek gékk til einvígis [fyrir þik[16] at koma löndum undir þik ok halda lögum goða várra Maumet ok margra annarra:[17] en son þinn hefir mik háðuliga gabbat [ok fœldan,[18] ok mun ek heita af Frankismönnum únýtr drengr ok sakamaðr.[19] [En síðan er lið hans kom til vígvallarins með ofmetnað sinn at úboðnu eyrendi nauðsynjalaust, þá tóku þeir á braut Oddgeir inn góða dreng með svikum ok engum drengskap.

1) [þeir fái sótt Oddgeir danska á þessa lund *a;* vér getim sótt Oddgeir á þessa leið ***B***, *b.* 2) [at heldr, segir Nemes hertugi, þessarrar farar, ok svá munum vér þessu lúka (svá lýk ek mínu máli ***B***, *b*) at enskis munu vér hefna (heiðingium *tilf.* ***B***), ef vér hefnum eigi þessarra svika, því at hefna mundi hann (vár *tilf.* ***B***, *b*) *a*, ***B***, *b.* 3) hvetjum *a.* 4) fœra *a*; flytja ***B***, *b*; *a forb. dette Cap. (30) med Slutn. af 28 saal.:* undir valdi heiðinna manna ok fœra hann til Rómaborgar ok koma *o. s. v.* 5) einn fagr staðr *a.* 6) [settu hann síðan niðr í einum fögrum stað ok tóku af honum öll hans hervápn; sat hann þá undir einu olifatré, ok töluðu menn mart um hans ágæta vörn, ok mælti svá hverr við annan: Göngum til ok sjám Oddgeir hinn danska hinn ágætasta ***B***, *b.* 7) Torkubus *a*; *mgl.* ***B***, *b.* 8) mart annat ***B***, *b.* 9) *saal. ogs. a*, ***B***, *b.* 10) þinna *tilf. a.* 11) áttum *a.* 12) [sór Ammiral konungr við goð sín ***B***, *b.* 13) móti ***B***, *b.* 14) [dauða fá ok ***B***, *b.* 15) [í þungum hug ok mælti ***B***, *b.* 16) þínar sakir *a.* 17) [við þenna mann fyrir yðra skyld til þess eins at sœkja lönd undir yðr, ok veitta ek Oddgeiri trygðir ok grið yðvarra vegna, svá at honum skyldi engi maðr granda ***B***, *b.* 18) [*mgl.* ***B***, *b.* 19) svikamaðr *a*; svikari ***B***, *b.*

En nú herra konungr þá vil ek biðja þik fyrir vináttu sakir, er í millum okkar hefir verit, at þú gefir Oddgeiri inum frœkna dreng leyfi brott at fara í friði heilum ok úsköddum heim til móts við Karlamagnús konung, ok mun þat vera vel virt fyrir þér, konungr, ef þú gerir svá sem ek bið.[1] Síðan svarar Ammiral konungr: Líða mun [áðr þessi mánuðr en ek leyfa þat; ok þat segi ek þér, at[2] fyrir alt veraldar ríki[3] læt ek hann eigi lausan. Þá svarar Karvel: Eina sögu mun ek segja þér, ok skal sú vera sönn, [höfðingi em ek yfir her þessum þúsundruðum riddara, en til mín ok míns liðs þá segi ek þér enga ván, hverigar nauðsynjar er þér gerast á hendi, nema þú gefir Oddgeiri frelsi at fara hvert sem hann vill með öllum búnaði sínum ok herklæðum. Konungr svarar: Verði sá níðingr er hirðir, þótt þú hefnir[4] þat er þú hœtir.[5]

31. Síðan varð Karvel reiðr mjök við orð konungs ok reið[6] til landtjalds síns. En at móti honum géngu inir beztu [hans menn,[7] ok spurðu hann hversu honum hefði farizt. En hann sór við Maumet guð sitt, at honum hefði illa farizt: Oddgeir er svikinn í trygðum, ok hefir þat gert Danamund son Ammirals konungs enn blauðasti maðr í öllu liði váru; herklæðizt[8] sem skjótast, ok sœkjum Oddgeir ok drepum þá alla er fyrir[9] standa, hvárt sem [meira kemr til eða minna.[10] Sá konungr svarar honum er nefndr er Rodan,[11] hann réð fyrir Egiptalandi, þat liggr langt[12] fyrir utan Jórsalaland: Góðr konungr ertu, Karvel, segir hann, ok frœkn, ger eigi Ammiral konung reiðan, [lát standa nótt fyrir bræði[13] ok gef ró reiði þinni; en á morgin snemma dags þá skaltu eiga húsþing [ok stefna öllum inum beztum mönnum þínum til þín,[14] ok gör síðan sendimenn[15] til Ammirals konungs, ok bið þess at [hann láti hendr af Oddgeiri;[16] en ef hann vill eigi þat, þá skaltu [slíta vináttu þinni[17] við konung ok öllum sættum,[18] ok höfumst at síðan [þat sem þér þikkir

[1]) [ok kom hann með lið sitt ofbeldisfullr til vígvallar ok at mér úvitanda ok tók Oddgeir góðan dreng brott með svikum ok engum drengskap. En nú biðr ek, herra konungr, at þú gefir Oddgeiri frið ok grið sakir okkarrar vináttu at fara heim til Karlamagnús konungs, ok man þat vel virt fyrir þér þegar af öllum lýð, bæði af kristnum ok heiðnum. *B*, *b*. [2]) [þessi mánaðr áðr þat fæst ok *B*, *b*. [3]) gull *a*. [4]) endir *a*. [5]) heitr *a*; [ek em kallaðr riddari yfir þúsund riddara ok skolu vér yðr at engu liði verða, ef þér gefit eigi Oddgeiri grið, hvers (hvar *b*) sem þér þurfit við (vár *b*). Þá svarar Ammiral konungr: Verði sá níðingr at annzar til hvert þér farit *B*, *b*. [6]) veik aptr *B*, *b*. [7]) [menn af liði hans *B*, *b*. [8]) þér *tilf. B*. [9]) í móti *a*; fyrir (honum *tilf. b*) vilja *B*, *b*. [10]) [hann er meiri maðr eða minni *b*. [11]) Roduam *a*; Roddan *B*, *b*. [12]) *mgl. B*, *b*. [13]) [*mgl. B*, *b*. [14]) [við alla þína menn *B*, *b*. [15]) sendimann *B*, *b*. [16]) [Oddgeir danski hafi grið *B*, *b*. [17]) þína *a*. [18]) [segjast or (fylgd ok *tilf. B*) fylgi við hann ok veita honum aldri síðan lið *B*, *b*.

ráð,[1] fyrir því at með þér[2] viljum vér bæði lifa ok deyja [allir, ef þess gerist kostr.[3]

32. [Nú er at segja frá Oddgeiri. Heiðingjar undrast hann, gékk annarr flokkr til en annarr frá, ok mælti hverr við annan:[4] afburðar[5] kurteiss er þessi enn danski. En þar næst kom[6] Gloriant konungs dóttir; [hon mælti síðan til Oddgeirs[7] blíðum orðum kurteisliga, ok bað hann eigi vera [úglaðan, því at úgerla veit ek nær batna má um hag þinn.[8] Þá mælti hon við föður sinn: Konungr, segir hon, þessi inn dýri drengr er nú kominn á miskunn þína, [skipa nú[9] vel við hann, því at hann á engan frænda í hirð Karlamagnús konungs, ok mun fám þikkja undir,[10] þótt honum sé misþyrmt, hann hefir hafizt af mörgum snildarverkum[11] sínum ok svá it sama af margskonar [drengskapar brögðum,[12] ok engan mann vitum vér nú frœknara en hann. En Karvel vin þinn er nú harðla hugsjúkr um þat, er Oddgeir er í höptum [ok at honum tjór ekki fyrir honum at biðja.[13] Ger svá vel faðir, gef honum frið[14] fyrir [mínar sakir, lát hann fara[15] heilan, ok mun þat vel virt vera fyrir þér, svá víða sem þat spyrst.[16] En Danamund var við staddr ok varð reiðr mjök orðum hennar ok mælti: Jlt pútuefni, segir hann, til margt hefir þú rausat,[17] lát af nú þegar í stað; ek sver við Maumet guð várt, [ef eigi væri hér dómr konungs, þá munda ek nú saxa þik í sundr í smá hluti[18] með sverði mínu. En konungs dóttir varð klökk[19] við orð hans ok bliknaði ok mælti á þessa lund: Danamund bróðir, segir hon, þú ert til mikill ofmetnaðarmaðr ok ætlar þú engan mann mega með[20] þik jafnast, en [ríki þitt mun eigi vinnast jafnan;[21] at þarflausu var þér at halda[22] vörð á góðum drengjum, ok fór þér [þá makliga at, er[23] þú týndir 30 riddara, er þar lágu eptir, en þú flýðir undan [af hugleysi[24] at því sinni. Síðan féktu þér 40

[1]) [slíkt (hvat *b*) sem yðr lízt *B*, *b*. [2]) *saal. a*, *B*, *b*; sér *A*. [3]) [*mgl. a*, *B*, *b*. [4]) [Oddgeir danski er nú fyrir Ammiral konungi, ok gengr margr til at undrast hann, ok töluðu allir eitt at *B*, *b*. [5]) *saal. a*, *B*, *b*; aburðar *A*. [6]) farandi *tilf. a*, *B*; þar *tilf. b*. [7]) [hon sá Oddgeir úglaðan ok mælti við hann *a*, *b*; ok sá Odgeir, úgladdist hon, ok mælti hon við hann síðan *B*. [8]) [hugsjúkan, úgjörla veit (ek *tilf. a*) enn nær batna skal (nær batnar *B*, *b*) þinn hagr, *a*, *B*, *b*. [9]) [ok er þat nú konungligt at gera (skipa *b*) *B*, *b*. [10]) skipta *a*, *B*, *b*. [11]) snildarbrögðum *a*, *B*, *b*. [12]) [drengskap *a*, *B*, *b*. [13]) [ok honum tjáir ekki at fá hann *a*; hafðr ok þér vilit eigi fyrir hans orð gefa þenna mann liðugan *B*, *b*. [14]) grið *a*, *B*, *b*. [15]) heim *tilf. a*. [16]) [mín orð, ok man þat vel rómat verða fyrir þér bæði utanlands ok innanlands, ok svá víða sem þat fréttist *B*, *b*. [17]) mælt *a*. [18]) [at þú værir þess verð, at ek saxi þik sundr í smátt *B*, *b*. [19]) nökkut óttafull *B*, *b*. [20]) við *a*, *B*, *b*. [21]) [ofríki þitt mun eigi jafnan (alla *b*) yfirvinna *B*, *b*. [22]) njósn ok *tilf. a*. [23]) [sem makligt var, at *B*, *b*. [24]) [*mgl. a*, *B*, *b*.

riddara ok týndir þeim hálfum, ok gátu þér þó trautt [sótt einn mann, enda þorðir þú aldri at honum at ganga, meðan hann bar vápn sín á lopti, eptir[1] því sem mér sýndist. Ammiral konungr kallaði þá á tvá skjaldsveina[2] sína Elfidan[3] ok Sobin,[4] ok mælti við þá: Varðveitið Oddgeir til morgins, en ef hann kemst frá ykkr, þá [týnið þit lífdögum ykkrum.[5] Herra konungr, segja þeir, vit skulum [svá gæta hans, at honum skal lítil ván í brott at komast.[6] Þá mælti Gloriant konungs dóttir við þá leyniliga:[7] Góðir riddarar, segir hon, ek bið [ykkr fyrir mínar sakir, at þit varðveitið vel Oddgeir danska[8] ok [misgerit ekki við hann.[9] En þeir játtuðu henni,[10] at þeir skyldu [hans vel gæta sem sín sjálfra.[11]

33. Nú skal segja frá Karvel. Hann ríss upp snimma um morgininn í dagan ok fór á fund Ammirals konungs, ok mælti síðan: [Þú veizt[12] þat, konungr, [hvat ek hefi fyrir þínar sakir unnit,[13] mörg lönd sótt til handa þér ok marga hólmgöngu[14] framda. Nú vil ek þess biðja þik, at þú [látir Oddgeir inn góða dreng lausan ok í brott fara[15] í friði. Ammiral konungr svarar: Þess er ván engi, at hann verði [innan mánaðar[16] lauss, ok þat segi ek þér heldr, at hann verðr aldri fyrr lauss en ek hefi París sótta ok Orliens. Þá svarar Karvel: Þat segi ek þér, at [þú sœkir aldri París, nema þú njótir annarra manna frœknleiks, hvárki né Orliens.[17] Sér þú eigi, konungr, at Karlamagnús konungr er [kominn hér;[18] ok áttu nú þegar eigi kost at komast or Rómaborg né menn þínir, þó at [þeir vildi, ok hafa Frankismenn þá hugsan,[19] at þú sér nú yfirkominn. En nú vil ek vita um mál Oddgeirs, hvárt [ek skal geta bœn mína eða skal ek enga ván eiga.[20] Þá svarar Ammiral konungr: [Þess er lokin ván, því at á morgin er dagr kemr þá skal ek láta hengja hann, ok eigi fyrir inn mesta dal fullan af gulli þá vildir þú eigi hafa slíkan dóm[21] sem hann skal hafa. Síðan kallar Ammiral kon-

[1]) [sóttan einn riddara á fœti, at *a*, *B*, *b*. [2]) skutilsveina *B*, *b*. [3]) Elfidalin *a*, *B*, *b*. [4]) Sodin *a*; Sobim *B*; Sobni *b*. [5]) [er þat ykkarr bani *B*, *b*. [6]) [geyma hann sem sjálfa okkr *B*, *b*. [7]) *mgl.* *a*, *B*, *b*. [8]) [at þit vaktit hann vel fyrir minn bœnastað (mín orð *b*) *B*, *b*. [9]) [misþyrmit honum eigi (í engri grein *B*, *b*) *a*, *B*, *b*. [10]) því *tilf.* *a*. [11]) [hann vel plaga ok gera með hann sem þeir kynni bezt *B*, *b*. [12]) [görla veiztu *a*. [13]) [at ek hefi *B*, *b*. [14]) orrostu *B*, *b*. [15]) [gefir Oddgeir liðugan ok lát hann fara héðan *B*, *b*. [16]) [þenna enn næsta mánuð *a*, *B*, *b*. [17]) [þú s. a. París nema þú n. an. m. frœknleiks ok eigi heldr Orliens *a*; hvárki mantu sœkja París né Orliens, nema þú njótir annarra við *B*. *b*. [18]) [kominn með her *a*; hér kominn með múga manns *B*, *b*. [19]) [þér vilit, ok þat hugsa Frankismenn *B*, *b*. [20]) [hann skal lauss verða *B*, *b*. [21]) [engi er þess ván, því at í dag skal hann hanga, ok eigi fæst hann fyrir hinn mesta dal fullan af gulli, ok aldri vildir þú fá slíkan dauða *B*, *b*.

ungr [menn sína ok mælir, at þeir skyli[1] reisa gálga. En Karvel konungr úgladdist mjök við orð þau ok skildist við konung ok fór til sinna manna. Síðan seinkaði hann eigi ætlan sína ok hljóp á hest sinn ok hleypti á brott skyndiliga, ok létti eigi fyrr en hann kom til[2] Karlamagnús konungs. En Frankismenn urðu þegar varir við kvámu hans, undruðust ok allir, bæði af Peitu ok brezkir[3] menn ok þeir af Norðmandi ok af Angio, ok mælti hverr við annan: Þessi inn sami berserkr er hér nú kominn [er barðist við Oddgeir á hólminum, þat er nú vel at hann er hér kominn[4] ok skulum vér nú týna honum.[5] Hann reið ákafliga, ok mátti engi maðr festast[6] við hann, ok sté eigi af hesti sínum fyrr en hann kom [til landtjalds[7] konungs, ok heilsaði honum vel ok kurteisliga ok mælti við hann síðan: Eigi skaltu þat reyna, at ek hafa svikit Oddgeir: nú em ek kominn hingat [til þinnar tignar ok ríkis með þeirri skipan, at þat skaltu vita ok allir menn þínir, at ek em hér kominn at vilja mínum ok sjálfræði, ok skaltu fá mér slíkan dauðdaga,[8] sem þú spyrr at Ammiral konungr fær Oddgeiri, fyrir því at ek vil hvárki at þú né menn þínir mistrúi mik um þat, at eigi hafi[9] ek voldit[10] svikum þeim sem við Oddgeir váru höfð; ok eigi skulu heldr várir menn ætla þat, því at eigi vildi Oddgeir mik [svíka heldr en ek[11] hann. Þá svarar Karlamagnús konungr: Þú skalt vera velkominn vinr. Ok vísaði honum til góðs sess sem vert var.[12]

34. [Nú skal segja frá heiðingjum. Þeir urðu illa við brautför Karvels konungs síns ok lánardróttins, ok samnaðist[13] saman meir en 20 þúsundir riddara, ok géngu allir fyrir Ammiral konung ok mæltu: Herra, [sögðu þeir, haf rétt mál við oss;[14] Karvel var í handsölum við Oddgeir, en Danamund son þinn tók hann með svikum ok údrengskap frá Karvel konungi. Nú ger vel konungr, gef [Oddgeiri gang ok frið[15] ok lát hann fara til Karlamagnús konungs herra

[1]) [á sína menn ok biðr þá (bað *B*) *a*, *B*, *b*. [2]) hers *tilf. a*. [3]) ebreskir *B*. [4]) [*tilf. B*, *b*. [5]) *fra* Þessi inn *osv. har a*: þenna sama berserk er veldr kvölum Oddg. danska skulum vér nú drepa hann. [6]) festa orð *a*. [7]) [fyrir landtjald *a*, *B*, *b*. [8]) dauða *a*. [9]) hefi *a*. [10]) valdit *a*. [11]) [svíkja, var þat því eigi rétt, at ek sviki *a*. [12]) *fra* [til þinnar tignar *osv. har B*, *b*: á yðrar náðir með þeim vilja, sem þér skulut heyra, at þvílíkan dauða sem þér heyrit sagt at Ammiral konungr lætr fá Oddgeiri, slíkan dauða fái þér mér; fyrir því at ek vil hvárki, at þér né yðrir menn mistrúi mik um þat, at ek hafi valdit svikum við Oddgeir, ok eigi munu várir menn þat tala, því at þat væri eigi réttligt, at ek hefði hann svikit. Karlamagnús konungr mælti: Vel ferr þér, góðr drengr, segir hann, ok skaltu vera velkominn með oss, meðan þú vill hér vera. Ok vísaði honum til sœmiligs sætis, svá sem vert var. [13]) [Svá segist at þjónustumenn ok alt þat fólk, sem Karvel var höfðingi yfir, bar mikla hrygð af hans brottferð, ok söfnuðust *B*, *b*. [14]) [hugsit um hvat rétt er *B*, *b*. [15]) [upp Oddgeir *a*.

síns.[1] En konungr[2] einn mælti í móti því, sá er nefndr er Galathien,[3] at Oddgeir skyldi or höptum lauss vera. Hann mælti viðr Ammiral konung: Ef þú vilt heilt ráð af mér hafa, þá láttu Oddgeir aldri undan komast, því at engi maðr hefir jafnilt gert á þér ok þínum mönnum, ok svá mun enn, ef hann [kemst í brott.[4] En Sodome,[5] konungr sá er á hólm hafði gengit við Karlot son Karlamagnús konungs, hann [kunni honum illa aufúsu[6] fyrir orð sín,[7] ok mælti við Galathien: Mikinn údrengskap mælir þú, segir hann, er þú mælir at móti at gefa grið[8] Oddgeiri danska, ok hefir Ammiral konungr of mikla ást[9] á þér, Galathien, því at fyrir skömmu draptu þrjá ina beztu höfðingja, er í váru ríki hans, ok alla[10] frændr hans, ok þín ráð [váru um dráp Constanti ens[11] kurteisa, ok þú hélt[12] munlaugu, þá er honum var blóð látið ok hann hafði bana. En Karvel er svá góðr drengr ok kurteiss, at heldr vill hann fá bana en svíkja menn í trygðum.[13] Ok [Sodome gékk þá fram at Galathien ok laust á tenn honum, svá at þrjár géngu or höfðinu, en blóð nam staðar í serk honum.[14] Þá hljópu upp tveir konungar ok fjórir hertugar, ok [stóðu á milli þeirra ok létu þá eigi ná at berjast ok gerðu þegar sætt í millum þeirra, svá at eigi varð Ammiral konungr varr við.[15] Nú standa upp tveir[16] konungar Rodan[17] ok inn gamli Geosner,[18] ok [allir inir beztu höfðingjar er í váru liði heiðingja, ok[19] géngu fyrir Ammiral konung ok mæltu við hann: Jlla [þikkir oss þat, er þú skalt svá hafa týnt Karvel jafnfrægjum[20] dreng, at hann verðr aldri fulllofaðr. Nú viljum vér leggja til þess ráð, at Karvel komi aptr til vár, en brottferð sé leyfð Oddgeiri danska. Ammiral konungr svarar ok lézt illa aufúsu kunna þeim fyrir sitt eyrendi, er þeir höfðu þá mælt, en þó at þér bregðizt mér allir, þá mun ek hafa fengit, áðr[21] mánuðr sé liðinn, svá mikinn her sem þér

[1]) liðugan ok frjálsan með öllum sínum eigum *tilf.* ***B***, *b.* [2]) maðr ***B***, *b.* [3]) Galadirin ***B***, Galaditin *b*, *her og senere.* [4]) [verðr lauss ***B***, *b.* [5]) Sadomi ***B***, *b.* [6]) mikla ouosu(!) *a.* [7]) [gaf hér til orð ***B***; varð reiðr við orð hans *b.* [8]) ok gang *tilf. a.* [9]) *saal.* ***B***, *b*; elsku *a*; *mgl. A.* [10]) váru allir *a*, ***B***, *b.* [11]) [drápu ok Constant hinn *a*, ***B***, *b.* [12]) *saal. ogsaa a*, ***B***; hélzt *b.* [13]) griðum ***B***, *b.* [14]) [eptir þetta hljóp Sadome at Galadirin ok sló með nefa sínum á hans munn, svá at or géngu 3 tennr, ok kom blóðit niðr milli klæða honum ***B***, *b.* [15]) skildu þá ok sættu þá skjótliga ***B***, *b.* [16]) 3 ***B***, *b*, *a.* [17]) Rodvan *a*; Roboas ***B***; Rodoas *b.* [18]) Geosner (Geofreyr ***B***, *b*) ok Madan *a*, ***B***, *b.* [19]) [allir hinir ellztu menn af heiðingjum *a*; *mgl.* ***B***, *b*, [20]) jafnfræknum höfðingja ok góðum *a*, [21]) hálfr *tilf. a*, ***B***,

hafit, ok skal ek þá fara ok taka Karlamagnús konung ok undir mik leggja alt hans ríki.[1]

35. Nú er at segja frá Karvel. Hann er nú í hirð Karlamagnús konungs vel metinn[2] ok hefir þar[3] gott yfirlæti af Karlamagnúsi konungi.[4] Nú mælir Karvel við Karlamagnús konung: Hví gefr þú heiðingjum [svá miklar náðir.[5] Tak ráð mitt, lát fara menn þína hvern dag[6] [á hendr heiðingjum.[7] Þá svarar Nemes hertugi ok þeir Edelun jarl: Satt segir þú, Karvel, segja þeir: ok svá sannaði konungr sjálfr orð þeirra ok lézt aldri hafa sét hans maka.[8] ok mælti við Karvel: Góðr vinr, segir hann, trú á guð ok [lát af fíflsku[9] ok gerst minn maðr, ok skal ek gefa þér borg þá er heitir Muntolim.[10] Karvel svarar: Fyrr skal ek láta leysa hvern lim frá öðrum á mér [heldr en ek hafna guði mínum Maumet eða fella ek lög hans niðr.[11] Síðan tók Karlamagnús konungr ráð Karvels ok mælti við Karlot son sinn: Bú þik [skjótt ok lið þitt með þér[12] ok ríð á hendr heiðingjum. [Ok því næst var Karlot búinn ok hafði með sér eigi meira lið en 40 berserkja.[13] Síðan riðu þeir [leið sína[14] til Rómaborgar ok kómu undir [skógarnef nökkurt.[15] Þá herklæddist Karlot ok alt lið hans með góðum brynjum ok hjálmum. En Karlamagnús konungr sendi eptir þeim hundrað riddara, fyrir því at honum þóttu þeir [of fámennir.[16] Heiðnir menn héldu vörð á sér ok urðu þegar varir við þá, ok herklæddust þegar ok riðu í móti þeim. Síðan tóku þeir at berjast, ok mátti þá sjá stór högg, er Frankismenn gáfu ok heiðingjar. Frankismenn eru frœknir ok fimir.[17] en heiðingjar eru sterkir ok úforsjálir. Þar gerðist nú mannspell[18] mikit. En svá luku þeir sínu viðrskipti, at heiðingjar flýðu undan ok sá [sinn kost engan vænna.[19] ok fóru svá fram í hjá kastala þeim, er [liggr[20] í utanverðri Rómaborg.[21] En Gloriant konungs dóttir var í þessum

[1]) [líkar oss er þú hefir týnt vináttu Karvels þess höfðingja er frœknastr er með oss ok bezt at sér. Nú vilju vér leggja á með yðr heil ráð, at Karvel komi aptr en Oddgeir fari lauss ok liðugr. Ammiral konungr lézt þeim úþökk kunna fyrir þessa málaleitan, ok þó at þér bregðizt mér allir, þá man ek fengit hafa jafnmikinn her um þat (áðr en *b*) hálfr mánaðr líði héðan, ok skal ek drepa Karlamagnús konung ok leggja undir mik alt hans ríki *B*, *b*. [2]) virðr *B*, *b*. [3]) góðan gang ok *tilf.* *a*, *B*, *b*. [4]) ok af allri hirð hans *tilf.* *a*, *B*, *b*. [5]) [ró *a*; frið *B*, *b*. [6]) at herja *tilf.* *a*. [7]) [at beriast við þá því at þess eru þeir verðir *B*, *b*. [8]) né vitat *tilf.* *B*, *b*. [9]) [kasta heiðni *B*, *b*. [10]) Muntoloim *a*; Minthoim *B*, *b*. [11]) [en ek bregðist Maumet guði mínum eða ek hafni hans lögum *B*, *b*. [12]) [með miklu liði *B*, *b*. [13]) [*tilf.* *a*, *B*, *b*. [14]) [sem leið lá *B*, *b*. [15]) [skóg nökkurn *B*, *b*. [16]) [vera of fáir *a*; áðr of fáliðir *B*, *b*. [17]) *saal.* *a*, *B*, *b*; fimar *A*. [18]) mannfall *B*, *b*. [19]) [eigi annat líkara *B*. [20]) utan borgar *tilf.* *a*. [21]) [stóð mjök utarliga í borginni *B*, *b*.

kastala ok var gengin í vígskörð at litast[1] um, ok varð henni litið til viðrskiptis þeirra, ok kennir þar Danamund bróður sinn, ok sá at Karlot son Karlamagnús konungs elti hann. Síðan kallar hon á Karlot blíðliga ok mælti: Hverr riddari ertu, er svá [ert djarfr[2] at þú þorir[3] at elta son Ammirals konungs, ok auðkendr hefir þú verit í dag í[4] öllum herinum. En Karlot nam staðar ok svaraði henni: Hver ertu, in fagra mær, er [svá ákafliga[5] mælir til mín, ek hefi lengi[6] hlýtt til orða þinna. Hon svarar: Ek em Gloriant konungs dóttir, ok vil ek at þú segir mér, ef nökkurr er sá maðr í hirð Karlamagnús konungs, er Karvel heitir; hann var unnasti minn um [hríð, ok vil ek at þú berir honum orð mín, ok segir at ást sú öll er vit höfðum okkar í millum at[7] hann hefir nú hana endaða, ok tel ek hans völd í því en eigi mín: seg honum þau tíðendi önnur, at ek hefi Oddgeir inn danska í minni varðveizlu, ok er honum enskis áfátt.[8] Nú ræð ek þér heilt, ríð nú undan, fyrir því at nú [eru hingat á för meir en 20 þúsundir heiðingja, ok áttu enga viðstöðu móti þeim.[9] Ok þá veik Karlot undan með lið sitt [ok (kom) farandi í Franz, ok var sá beztr, fyrir því at þá var úsómalaust undan at flýja, ok hann hafði þá unnit sigr á heiðingjum, en lítil ván ef hann hefði lengr við haldizt at hann hefði með lífi brott komizt.[10] En [Ammiral konungr flýði undan til Rómaborgar, en at móti honum kómu 20 konungar, ok spurðu allir hversu honum hefði farizt.[11] Hann svarar: Jlla hefir mér farizt, vér flýðum undan ok höfðum týnt af liði váru mörgum fjölda riddara, ok eigum vér þat engum manni at kenna nema Karvel, því at hann hefir gert mér mikla skömm ok hefir oss selt alla af hendi sér.[12]

36. Í því bili kómu fram farandi 7 sendimenn fyrir Ammiral konung, ok stigu af hestum sínum allir ok mæltu heilsandi: Herra

[1]) sjást *B*, *b*. [2]) [mikla dirfð berr á þik *a*. [3]) *saal.* *a*, *B*, *b*; þorðir *A*. [4]) af *B*, *b*. [5]) [*mgl.* *B*, *b*. [6]) um hríðar sakir *a*; um hríð *B*, *b*. [7]) *saal.* *a*; ok *A*. [8]) [stund. En seg honum þau mín orð nú, at enduð er ást með okkr, ok tel ek hann því valda; seg honum ok, at Oddgeir danski er í minni geymslu, ok líkar honum nú vel *b*, *B*. [9]) [sækja eptir þér 20 þúsundir heiðingja ok máttu enga mótstöðu veita *B*, *b*. [10]) [ok kom farandi til Franz, ok var þá ósómalaust undan at flýja, því at hann hafði þá sigr unnit á heiðingjum þann dag, ok hann hafði gefit pipar blóði blandinn, ok fór síðan til Karlamagnús konungs *a*; [yfir ána Tifr, ok var honum þá ámælislaust aptr at leita, því at hann hafði unnit á þeim degi fagran sigr; kom hann síðan aptr til Karlamagnús konungs *B*, *b*. [11]) til tekizt *a*. [12]) [Danamunt konungs son reið til Rómaborgar með því liði sem undan komst, ok til móts við Ammiral konung föður sinn, ok sagði honum, hvat í hafði gerzt. Konungr lét lítt yfir þeirra ferð ok sagði þetta engum manni mega kenna nema Karvel, því at hann hefir oss brugðizt ok gengit á sína trú. *B*. *b*.

konungr, ver kátr ok glaðr, því at vér höfum góð tíðendi þér at segja, þau[1] at liðveizla kemr þér mikil utan af löndum af mönnum þeim, er kallaðir eru Robiani,[2] ok þeirra[3] er heita Barbare. en konungr sá er [nefndr Cordes,[4] ok sá höfðingi [annarr er Sueifr,[5] hann er af landi því er Mongandium heitir. En lýðr þessi var búinn til ferðar inn fyrsta dag [aprilis mánaðar,[6] þat köllum vér einmánuð. Eru þeir nú komnir til borgar þeirrar er Baor heitir, hon stendr á Púlslandi, þar skildumst vér við þá með svá mörgum drómundum ok galeiðum, at engi má tali á koma, ok er þat fólk svá ilt viðreignar, at síðan Gondoleas risi var í heimi þá hafa engir [jafnhvatir verit[7] sem þessir eru, ok því einu kvíða þeir, at Karlamagnús konungr þori eigi at bíða þeirra, ok ætla þeir hann munu þegar flýja, er hann spyrr [at þeir eru komnir til móts við yðr.[8] En er sendimenn luku sínu eyrendi,[9] þá stóð upp Danamund son Ammirals konungs ok talaði sitt eyrendi á þessa lund: Rangt hafa þeir spurt, segir hann, er þeir ætla þat sem eigi man vera, at Karlamagnús konungr muni eigi þora at bíða þeirra. Ek hefi [átt í móti honum þrjár fólkorrostur, ok týnda ek í hvert sinn meir en 20 þúsundum, en umfram þei· bardagar er smáir váru í[10] mörgum sinnum; en því mun ek heita ok þat efna, at ek mun eigi hefja ina fjórðu í móti honum, ok þat ráð viljum vér eiga með feðr várum.[11] at hann [viti til landa sinna aptr ok týni[12] eigi fleira af liði sínu en nú hefir hann áðr týnt, því at þat þikki mér meiri ván, at engum manni muni þat hlýða at halda orrostu í móti Karlamagnúsi konungi. En ef hann vill eigi vár ráð taka, þá mun hann fá[13] sér stór lýti ok

[1]) því *a.* [2]) Robians *a.* [3]) þeim *a* [4]) [af landi því er Cordes heitir *a.* [5]) [með her sínum er Sueipr heitir *a.* [6]) [í mánaði þeim er aprilis heitir *a.* [7]) [*saal. a*; jafnhvata *A.* [8]) [kvámu þeirra til þín *a.* [9]) *Begyndelsen af dette Capitel hertil lyder i B og b saaledes:* Ok í því er þeir höfðu þetta at tala, kómu fyrir konunginn 7 menn, þeir stigu af hestum sínum ok kvöddu hann sœmiliga. ok eptir þat báru þeir fram sín erendi ok mæltu: Vér höfum herra, sögðu þeir, at segja yðr góð tíðendi. konungr af Cordes, er Feridan heitir, ok Svef konungr af Mondangim koma hér skjótt til liðveizlu við yðr; þeir hafa úflýjanda her, ok váru þeir albúnir heiman fyrsta dag aprilis mánaðar, en vér skildum á Púlslandi í borg þeirri er Bera hét; þeir hafa galeiðr ok drómunda svá mart, at eigi má tali á koma, ok er þat fólk svá ilt viðreignar, at eigi munu grimmari menn, ok því einu kvíða þeir, at Karlamagnús konungr þori eigi bíða þeirra, ok ætla þeir hann þegar flýja munu, er hann spyrr þeirra tilkvámu. [10]) í *mgl. a.* [11]) [háit við Frankismenn þrjár fólkorrostur, ok týndum vér í öllum allmiklu liði, ok hefi ek varla fyrir fundit röskara fólk. ok því man ek heita ok þat efna, at minn skjöld ber ek eigi hit fjórða sinn móti Karlamagnúsi. ok þat ráð gef ek föður mínum *B*, *b.* [12]) [viki heim til landa sinna ok ríkis ok týndi *a.* [13]) á *tilf. a.*

öllu liði sínu. Ammiral konungr svarar syni sínum: Þat veit ek víst,[1] segir hann, at hvatki er menn segja, þá ertu aldri minn son, því þú ert æðrufullr ok [illr raunar,[2] ok aldri á konungs son svá at vera, ok þat segi ek þér víst, at þegar er vér höfum lagt Frakkland undir oss ok mikit annat af ríki Karlamagnús konungs,[3] at eigi skaltu hafa svá mikit af því ríki [at vert sé eins pennings[4] [þess er proentun[5] heitir.[6] Þá svarar Danamund: [Slíka heimsku heyrða ek aldri fyrr mælta; héðan er hálfs mánaðar ferð til Mundíufjalls, segir hann, en annat slíkt til Parísar í Franz, ok þat skaltu vita. at síðan er enn löng leið til kastala ins helga Marteins, en breskir[7] menn eru vápnslœgir, ok vill engi yðvarr eiga við þá fleira en ek hefi átt. En ef ek væra nú staddr á Norðrlandi at Andres stofu eða í öðrum stað góðum, því skylda ek heita, at ek skylda aldri koma til Rómaborgar eða til Antiochiam, ok eigi heldr til Púlslands né Miklagarðs. En eigi em ek regimaðr eða hugblauðr, þó faðir minn segi þat, fyrir því at ek hefi reynt hug Frankismanna ok riddaraskap, ok veit ek eigi lifandi menn[8] betri drengi en þeir eru. Ok meðan þeir höfðu þetta at tala, þá koma þar farandi þessir menn, sem áðr eru nefndir. Ok jafnskjótt sem Ammiral konungr spurði þeirra kvámu, þá gékk hann út af borginni í móti þeim ok fagnaði þeim vel ok þakkaði þeim þangatkvámu sína. Ok jafnskjótt spurðu þeir hann, hvat hann vissi til Karlamagnús konungs hvítskeggs. En Ammiral konungr svarar: Hann er, sagði hann, á för ok vill eiga við oss orrostu. Þeir mæltu: Þat eru góð tíðendi, því at enskis erum vér jafnfúsir sem at berjast við enn gamla, ok þat skal hann segja, at hann fékk aldri jafnharða sókn sem sjá skal vera, ef hann bíðr vár.[9]

[1]) [fari heim aptr til ríkis síns, ef hann vill eigi týna sínu lífi ok sinna manna, því at engum man hlýða at halda stríð móti Karlamagnúsi konungi. En ef faðir minn vill eigi þessi ráð þekkjast, þá mun hann fá miklu meira skaða en hann hefir áðr fengit. Ammiral konungr svarar syni sínum af reiði mikilli: Þat veit hinn helgi Maumet *B*, *b*. [2]) [dáðlauss drengr *B*, *b*. [3]) slíkt sem vér viljum *tilf. a.* [4]) [sem eitt fótmál *b*. [5]) proventum *a*. [6]) [*mgl. B*, *b*. [7]) berskir *a*. [8]) í dag *tilf. a.* [9]) [Mjök úheyriliga talar þú, faðir, segir hann, því at ek hygg, at eigi þú ok engi þinna manna hirði fleira at skipa (skipta *b*) við Frankismenn en ek; ok Frakkland munu þér aldri vinna eða önnur ríki Karlamagnús konungs, því at þegar er þú sér merki Karlamagnús konungs, þá þorir þú eigi svá langt fram at ganga, at þat sé þverr fótr (þvers fótar *b*). En ek vænti þess, at fleira man við þurfa en dul ok hól, ef þú sigrast á þeim, ok man þat at sönnu verða, at stóryrði þín munu meira mega í sessi en á hesti. En þóat ek hafi opt úsigr farit fyrir Frankismönnum, þá er þat meir af vaskleik þeirra en af hugleysi mínu, ok man ek þat ætla ok mæla, at eigi sé til traustari menn en þeir eru. En þá er þeir töluðust þetta við, þá kómu þeir sömu konungar sem aðr er af sagt.

37.[1] Nú [hefir mikit vaxit lið Ammirals konungs. Þar er kominn til hans konungr sá er Burnament[2] heitir, hann hefir með sér 20 þúsundir hermanna, hann ræðr fyrir engum löndum, því hann vill eigi; hann hefir allan sinn aldr verit í bardögum ok verit herkonungr mikill, en þat lið sem honum fylgðu[3] má aldri vera fyrir utan bardaga, ok ef eigi eru aðrir til, þá berjast þeir sjálfir. En jafnskjótt sem þessi maðr kom til, þá átti Ammiral konungr[4] húsþing við allan her sinn ok sagði þeim ætlan sína. Ok er því var lokit, fór Burnament til landtjalds síns ok herklæddist, fór fyrst í brynju sína, þá er lýsti af sem af inum dýrstum gimsteinum, ok gyrði sik sverði sínu. En menn hans leiddu fram hest hans, ok höfum vér eigi[5] heyrt sagt frá betra hesti, hann er nefndr Bifolen,[6] hann hefir kastat fernum tönnum. Burnament hljóp á bak honum [ok reið í brott leið sína einn samt,[7] ok nam eigi fyrr stað en hann kom yfir ána Tifr. Hestr hans var [þeirrar náttúru,[8] at honum var jafnkringt at svima [með hann á sjá ok á vatni[9] sem renna á landi.

En Ammiral konungr stóð þegar upp í móti þeim ok fagnaði þeim vel ok þakkaði þeim mikilliga sína þarkvámu. En þeir spurðu þegar, hvar hinn hvítthári væri Karlamagnús konungr. Ammiral konungr svaraði: Hann er nú á ferð kominn hingat ok vill berjast við oss. Þat er góð saga, sögðu þeir, þvi at vér ugðum þat eitt, at hann mundi eigi þora at bíða vár, en þó gerði hann sem fól, er hann flýði eigi þegar hann spurði til várra ferða, ok skal hann þat sanna, at þá hit fyrsta skal hann fengit hafa bardaga, er vér finnumst. En viðr þessi orð varð Ammiral konungr svá kátr, at hann vissi varla, hvárt hann hafði sik eða aðra *B*, *b*.

[1]) *Da Capp. 37 og 38 afvige betydelig i B og b, anföres de fuldstændig nedenfor efter disse Haandskrifter.* [2]) [er kominn til liðs við Ammiral konung sá maðr er Burnement *a.* [3]) fylgði *a.* [4]) þegar *tilf. a.* [5]) *tilf. a.* [6]) Berfolinn *a.* [7]) [*mgl. a.* [8]) [með þeim hætti *a.* [9]) [undir honum á sæ eða vötnum *a.*

---

37. Nú skal frá því segja at sá maðr kom til Rómaborgar er Burnament hét. Hann hefir með sér 30 þúsundir riddara, hann réð fyrir engum löndum ok bar þó konungs nafn. En þat lið er honum fylgir má aldri [án vera[1] bardaga, ok ef eigi eru aðrir til, þá berjast þeir sjálfir. En Burnament hefir um allan aldr verit í bardögum, hann var mikill vexti ok illr kosti, svartr á hár ok hörund; hann má engan mat eta nema hrán[2] ok eigi vín drekka nema blóði væri blandat; hann hafði gul augu sem kettir, ok þó enn skygnri um nætr en daga. Þessi maðr var fullr galdra ok gerninga ok flærðar, ok mundi hann tröll kallaðr vera, ef hann kœmi norðr hingat í heim.[3] En þegar er þessi maðr kom til konungs, þá hafði hann þing viðr menn sína alla hina vitrastu. Ok þegar því var lokit, þá gékk hann til landtjalda sinna ok herklæddi sik, ok fór í brynju þá er svá birti af sem af gimsteinum hinum beztum; hon var með átján litum. Síðan gyrði hann sik sverði, því er átt hafði

1) [lifa án *b.* 2) hrátt *b.* 3) lönd *b.*

En þá tókst[1] illa til kristnum mönnum, er verr var. Nemes hertugi ok Edelon jarl ok Jofrey inn þriði, hann var ok mikill höfðingi, þessir höfðu farit[2] á veiðar með haukum[3] ok höfðu svá vel veitt, at [þar af var klyfjaðr hestr með[4] fuglum þeim er þeir höfðu tekit.[5] Nú er þeir fóru[6] heim til landtjalda sinna, þá kom at þeim farandi Burnament ok œpti hárri röddu á þá ok bað [at þeir mundi bíða hans.[7] En Jofrey var næst honum staddr, ok sneri aptr[8] í móti Burnament, ok áttust þeir við um hríð, en svá lauk viðrskipti þeirra, at Jofrey hneig til jarðar, en Burnament tók hest hans. Nemes reið þeim hesti er Mores hét, hann reið eptir Burnament ok þeir Edelon báðir. En Burnament reið þess at[9] ákafligar undan, en hestar þeirra máttu ekki [fara svá mikit sem hestr Burnaments. En er þeir sá at þeir máttu ekki[10] at fœrast, þá ríða þeir aptr til landtjalda sinna. En lið þeirra hafði dvalizt eptir í skóginum 700[11] riddara er nýliga höfðu verit dubbaðir til riddara. Nú er þeir sá Burnament ok kendu [at hann hafði hest Jofreys með at fara, þá hleyptu þeir eptir honum or skóginum ok tóku[12] af honum hestinn, en hann komst

[1]) *saal. a*; tók *A.* [2]) víða *tilf. a.* [3]) hauka *a.* [4]) [þeir höfðu klyfjaðan hest af *a.* [5]) veitt *a.* [6]) vildu fara *a.* [7]) [þá bíða *a.* [8]) hesti sínum *tilf. a.* [9]) *mgl. a.* [10]) [*tilf. a.* [11]) 7 hundruð *a.* [12]) [hest Jofreys, þá tóku þeir eptir honum or skóginum ok *a.*

---

Nabogodonosor konungr, þat var faðms langt á milli hjalta ok höggstaðar, þat hafði aldri numit í höggvi stað. Þá var fram leiddr hestr hans, sá er Befoli hét, eigi hefig heyrt sagt af betra hesti, ef hann væri eigi svá tryldr sem hann var. Þessi hestr hafði fjórum sinnum kastat öllum sínum tönnum. Nú sté Burnament á [hest sinn[1] ok reið fram til árinnar Tifr. Hestr hans var með þeim hætti, at hann kunni jafnvel at svimma undir manni á sjó ok vatni sem renna á landi. En nú skal segja af Nemes hertoga at hann hafði farit á veiðar ok Edelun jarl ok Jofreyr, sá var einn ríkr maðr. Þeir höfðu veitt svá vel, at þeir höfðu klyfjaða hesta sína af fuglveiði. En þá er þeir vildu heim[2] með veiðina, kom Burnament ríðandi at þeim ok bað þá bíða. En Jofreyr var þá nær staddr ok snýr aptr hesti sínum í móti honum, ok lagði Jofreyr spjóti til hans, en Burnament var þungr fyrir, ok gékk í sundr spjótskaptit[3] í skildi hans. En Burnament lagði sverði sínu í lær Jofreys ok lypti honum or söðlinum ok kastaði honum aptr yfir herðar sér svá hart, at [brotnaði í honum[4] hvert bein[5] er hann kom á jörð. Burnament tók þá hest hans ok reið í brott með. En þeir Nemes hertogi ok Edelun jarl riðu eptir honum ok gátu eigi tekit hann, ok fóru aptr við svá búit til Karlamagnús konungs. En þeirra lið var sumt í skógi þann dag, ok kendu þeir hest Jofreys, er Burnament reið hjá þeim fram, ok nú ríða[6] þeir allir samt á Burnament ok taka af honum hestinn, svá riðu þeir at honum hart. En Burnament reið þá[7] svá fljótt, at á einu augnabragði var hann or augsýn þeim, ok þá mœtti hann

[1]) [bak honum *b.* [2]) snúa *tilf. b.* [3]) Jofreys *tilf. b.* [4]) [haussinn br. í honum ok *b.* [5]) var lamit *tilf. b.* [6]) ríða *b.* [7]) undan *tilf. b.*

nauðuliga undan. En er hann reið fram hjá[1] þeim, kom at móti honum ungmenni eitt, er riðit hafði frá borg þeirri er Tokum hét. Burnament reið at honum[2] ok tók hest þann er hann hafði með at fara. En þat er at segja frá hesti Burnaments, at þar váru hlaupnar í meinvættir, djöflar kvikir, ok fyrir þær sakir var hann svá[3] fimr, at Frankismenn máttu [engum kosti hans fund nálgast.[4] En hann létti eigi fyrr en hann kom til Rómaborgar. Ammiral konungr gékk í móti honum ok spurði hann tíðenda. Hann lét vel yfir ferð sinni ok sagði konungi, at hann hafði drepit tvá riddara af kristnum mönnum ok tekit tvá hesta [ina bezta er í eru her[5] Karlamagnús konungs, ok nú hefi ek sýnt Frankismönnum frœknleik minn, en nú vil ek sýna þér hest þann er ek tók af þeim, en annarr komst undan. Þá svarar Ammiral konungr ok mælti við Burnament: Nú má sjá hverr drengr þú ert ok mikill höfðingi; nú gef ek þér Gloriant dóttur mína, ok þitt skal Franz vera, því at ek sé, at þér mun lítit fyrir verða[6] at vinna þat. Nú svarar Burnament: Þetta it sama var, ok eyrendi mitt hingat, en ekki annat. Ok tók síðan glófa konungs[7] ok þakkaði honum gjöfina.[8] En hirðmenn Karvels mæltu

1) *saal. a*; frá *A.* 2) þeim manni *a.* 3) kvikr ok *tilf. a.* 4) [eigi koma saman við hann *a.* 5) [er beztir váru í öllum herinum *a.* 6) *mgl. a.* 7) hans *a.* 8) vel *a*

---

ungum manni einum, er riðit hafði hesti lávarðs síns til brunns. Hann reið at honum ok rak hnefa sinn við eyra honum, svá at haussinn brotnaði allr í smátt.[1] Síðan tók hann hestinn ok létti eigi fyrr en hann kom til Rómaborgar. En Ammiral konungr stóð upp í móti honum ok spurði tíðenda. En hann lét vel yfir ferð sinni ok kvaðst drepit hafa 2 riddara af kristnum mönnum ok tekit 2 hesta þá sem beztir eru af hestum Karlamagnús konungs, ok megi þér sjá hér annan. Þessu varð Ammiral konungr feginn ok mælti síðan: Nú má sjá, hverr afreksmaðr er þú ert ok höfðingi; nú gef ek þér Gloriant dóttur mína ok þar með alt Frakland, því at ek sér at lítit verðr þér fyrir at vinna þat af Karlamagnúsi konungi. Þá svarar Burnament: Þat var ok helzt erendi mitt hingat, segir hann, því at mér sýnist engis vert röskum mönnum at berjast viðr Karlamagnús konung ok við menn hans, ok hefir honum dregit til mikillar úgiptu, at hann dró þá dul á sik at bíða mín heima. Nú fékk Ammiral konungr honum glófa sinn,[2] at þetta skyldi nú haldast sem þeir höfðu talat. En þar váru við staddir hirðmenn Karvels konungs, ok mælti hverr við annan: Þat er nú skaði, sögðu þeir, at herra várr Karvel veit nú eigi hvat til[3] er, at Gloriant konungs dóttir unnosta hans er nú játtuð öðrum manni, ok meiri[4] ván ef hann vissi, at hann mundi launa honum glófann eigi hœgliga áðr hann kœmi í hennar faðm. Þá mælti einn þeirra: Segjum hinum danska til, ok vitum ef hann vill nökkut at gera sakir Karvels konungs.

1) smá mola *b.* 2) til vitnis *tilf. b.* 3) um *b.* 4) væri *b.*

hverr við annan: Skaði er þat mikill, er Karvel höfðingi[1] várr veit eigi þau tíðendi er nú gerast, at Gloriant konungs dóttir unnasta hans er nú gefin[2] öðrum manni. En þat vitum vér víst, ef hann væri lífs ok lauss,[3] at hann mundi gefa[4] honum ilt faðmlag, [ef þeir hittast. Væri svá vel at inn danski væri lauss or myrkvastofu, þá mundi hann gera þat drengskaparverk fyrir sakir Karvels, ef hann spyrr þetta, at verja konungs dóttur fyrir þessum vánda manni Burnament.[5]

38. Nú er svá komit,[6] at þau Oddgeir ok konungs dóttir léku at skáktafli. En þar kom farandi hirðmaðr einn ok sagði þeim þessi tíðendi, hversu hverft Ammiral konungr hafði ráðit. En þau urðu við þat eyrendi bæði illa. Þá mælti Oddgeir á þessa lund: Karvel vin minn ok inn bezti drengr ok inn kurteisasti, illa hefir nú til tekizt, ef annarr maðr skal hafa unnustu[7] þína, en eigi þú. En þat er þó alt fyrir sakir tryggleiks þíns ok drengskapar, er þú lýstir við mik. En nú vilda ek, konungs dóttir, at þú gætir þat af föður þínum, at hann lofaði mér at ek [talaða nakkvat[8] orð við hann, ok vilda ek lýsa fyrir[9] öllum her hans, at þessi maðr Burnament hefir þegit rangliga þessa gjöf, ok á þat eigi at vera at nökkurr maðr fái annars manns festarmey utan[10] dauði hans sé spurðr. Konungs dóttir svarar: Ek skal þat sýst geta, því at eigi er mér þat síðr í hug en þér. Oddgeir þakkaði henni. Eptir þat reis hon upp þegar jafnskjótt ok gékk at finna Ammiral konung föður sinn.

1) dróttinn *a.* 2) ætluð *a.* 3) ok úbundinn maðr *tilf. a.* 4) gera *a.* 5) [En þat uggum vér nema hinn danski geri drengskaparverk fyrir sakir Karfels, ef hann spyrr þetta, ok svá vel at hann væri þá stund or myrkvastofu *a.* 6) *mgl. a.* 7) festarkonu *a.* 8) [mælta nökkur *a.* 9) *mgl. a.* 10) nema *a.*

---

38. Ok þá gékk sá sami maðr til herbergja konungs dóttur, ok sátu[1] þau Odgeirr at skáktafli. En konungs dóttir spurði þenna mann tíðenda. En hann svarar: Skamt verðr nú tíðenda í millum, þeirra sem ill eru. Hver eru þaú nú, segir hon, er Karvel dauðr? Heldr mundi hann vilja dauðr vera en þat vita, at annarr maðr skyldi eignast festarmey hans. Konungs dóttir roðnaði mjök við þessa sögu, ok varð því líkust sem þá er roðar[2] fyrir upprennandi sólu í hinu fegrsta heiði. En Oddgeir skaut taflborðinu af knjám sér ok mælti: Jlla er þat, Karvel konungr hinn bezti drengr, at annarr maðr skal eignast festarmey þína, ok ef ek hefði nú liðugan gang, skyldi þessi maðr fá eitt högg af sverði mínu ok lag af spjóti mínu, áðr þetta [yrði framgengt.[3] En nú biðr ek, konungs dóttir, at þú þiggir af föður þínum, at hann lofi mér at tala nökkut við sik, ok man ek segja, at sjá vándi maðr hefir þik rangliga fengit, ok þat á eigi haldast, at neinn maðr taki festarmey annars, nema sá sé dauðr. Konungs dóttir svarar: Ek skal þat fá af honum at vísu. Ok stóð upp þegar ok gékk til föður síns.

1) léku *b.* 2) himinn roðnar *b.* 3) [féngi framgang *b.*

39. Konungr fagnaði vel dóttur sinni[1] ok mælti við hana á þessa lund: Dóttir, segir hann, ek hefi [gefit þik konungi[2] þeim er frœknastr tekr[3] til hjálms ok brynju, ok eigi gyrðir sik sverði betri drengr.[4] Þá svarar konungs dóttir: [Þat er minn fullr vili,[5] at þú sjáir fyrir [mér þat sem sœmiligt þikkir vera;[6] en þat ætla ek, at hann muni mik[7] dýrt kaupa, ef Karvel spyrr þetta; eða hvar[8] er sjá inn frœkni konungr er þú ætlar mér, faðir? Þá svarar Burnament:[9] Hér máttu sjá þann, konungs dóttir, er [þér er ætlaðr,[10] ok skal ek gera brullaup[11] til þín til [virðingar Maumet[12] guði várum, ok skal ek gefa þér [a(t) morgingjöf[13] Franz, [ok Karlamagnús konung yfirkominn skal ek fá þér í hönd.[14] Þá svarar mærin: Góða gjöf gefr þú mér ok ágæta, ef svá verðr sem þú segir;[15] en þó[16] mun ek segja þér sannyrði eitt, [ef þú verðr eigi illa við:[17] Faðir minn hefir í myrkvastofu mann einn af liði Karlamagnús konungs, [ok ætla ek, at hann mun[18] eigi fara á hæl[19] á vígvelli fyrir þér svá langt at þvers fótar sé. Þá svarar Burnament: [Þat skulum vit reyna, því at ek skal fá leyfi af Ammiral konungi til þess at vit skorimst á hólm fyrir sakir þeirrar ástar er ek hefi við þik lagða; ok skal ek heita þér því, at ek skal fœra þér höfuð hans hingat með mér af vígvelli ok fá þér í hönd. Konungs dóttir svarar: Vel segir þú, ef svá efnist sem nú er[20] heitið. En þegar þat er sýnt, þá skal skjótt samgangr okkarr verða. Þá mælti Gloriant við föður sinn: Oddgeir danski vill tala við yðr, ef þér vilið leyfa honum, ok væri vel, ef vér kvæmim honum til várrar trú,[21] ok yrði þér, faðir, síðan vel [til hans.[22] Konungr játtaði henni því, ok lét senda eptir honum 7 menn, en þeir sögðu honum at konungr leyfði honum at ganga til tals[23] við sik. Oddgeir gladdist við þat, ok fór síðan á konungs fund ok bjóst um áðr vel ok fimliga,[24] sem honum stóð.[25]

¹) setti hana niðr hjá sér *tilf.* ***B***, *b*. ²) [gipt þik manni ***B***, *b*. ³) *saal.* *a*, ***B***, *b*; telz *A*. ⁴) en hann *tilf.* ***B***, *b*. ⁵) [því vil ek eigi á móti mæla *a*, ***B***, *b*. ⁶) [kosti mínum slíkt er þér líkar ***B***, *b*. ⁷) þat *b*; *mgl.* ***B***. ⁸) hverr ***B***, *b*. ⁹) Burmant *her* ***B***, *ellers* Burnament. ¹⁰) [þú skalt eiga ***B***; þik skal eiga *b*. ¹¹) brúðkaup ***B***. ¹²) [tignar Terogant ***B***, *b*. ¹³) [á morgin at gjöf *a*; at bekkjargjöf ***B***, *b*. ¹⁴) [ok Parísborg ok Karlamagnús konung bundinn ok yfirkominn ***B***, *b*. ¹⁵) heitr ***B***. ¹⁶) nú ***B***. ¹⁷) [*mgl.* ***B***, *b*. ¹⁸) muni *a*. ¹⁹) [þann er eigi man á hæl hopa ***B***, *b*. ²⁰) hefir þú *a*. ²¹) trúar *a*. ²²) [við hann *a*. ²³) viðrœðu *a*. ²⁴) kurteisliga *a*. ²⁵) *fra* [Þat skulum vit reyna *har* ***B*** *og* *b*: Reynt skal þat verða, ef ek em heill, ok skal ek fá lof af Amiral konungi, at hann fari út af myrkvastofunni meðan vit berjumst, ok skolum mið (við *b*) fremja bardaga sakir ástar þeirrar sem ek hefir á þér, ok ef ek fœri þér eigi höfuð hans í hendr af vígvelli, þá lát þú kasta mér í hina fúlustu myrkvastofu er í Rómaborg er. Þá mælti konungs dóttir við föður sinn: Oddgeir danski vildi tala með yðr, ef þér gæfit orlof til, ok væri mikit

40.[1] En er hann kom fyrir Ammiral konung, mælti hann: Herra konungr, segir hann, illa hefir þú hagat fyrir dóttur þinni, er þú hefir [hana heitit[2] þessum manni en tekit fra Karvel, jafnhvatum dreng sem hann er, ok gert honum svá mikla skömm ok úsœmd; en þú ættir þat eigi at gera við hann, fyrir því at hann hefir mörg lönd þér til handa sótt, ok þat skaltu til segja, at sá er þú hefir hana gefit,[3] hann skal hana hafa dýrt keypt áðr [skamt líði héðan.[4] En þó at engi hefni þess nema ek, þá skal þó hefnt verða. En er Burnament heyrði orð hans, þá varð hann illa við ok mælti síðan: Hlýttu mér, segir hann, ákafliga verr þú þetta mál. En ek hefi þat spurt, at þit eruð félagar [Karvel ok þú ok jafnir kappar,[5] ok fyrir þær sakir fór ek utan um haf, at ek heyrða þat sagt, at engi riddari [þyrfti at[6] bera skjöld sinn í móti þér; en ef þú treystist at berjast í móti mér ok verja unnustu Karvels fyrir vináttu sakir ykkarrar, þá stefni ek þér at ganga á hólm við mik, ok skal ek happ í, ef hann vildi taka við trú várri, sem mik grunar at vera muni. Ammiral konungr játtaði því skjótt, ok var þá Oddgeir danski framleiddr fyrir hann. En Oddgeir var sem fyrr segir meiri vexti en aðrir menn, ok hafði bjart andlit ok karlmannligt, hár hafði hann rauðgult ok liðaðist alt í lokka; hann var svá sterkr at afli, at honum varð aldri nær aflafátt, ef hann átti við mennska menn, fimr ok frœkn til allrar vígfimi, hvárt sem reyna skyldi í burtreið eða einvígi. Oddgeir var þá fagrliga klæddr ok vel til reika, svá hafði Gloriant konungs dóttir við hann búit.

[1]) *Capp. 40 og 41 anföres fuldstændig nedenfor efter B og b.* [2]) [heitit dóttur þinni *a.* [3]) ætlat *a.* [4]) [en héðan sé skamt liðit *a.* [5]) [ok jafningjar *a.* [6]) [mætti *a.*

---

40. Hann kvaddi konunginn vel ok kurteisliga ok mælti síðan: Herra, segir hann, illa hefir yðr nú til tekizt, er þér heitið dóttur yðvarri þeim manni er varla má maðr kallast sakir margrar illrar náttúru, en brugðit einkamálum við konunginn Karvel er vér vitum beztan dreng; ok ætti þér þat eigi at gera, svá þarfr maðr sem hann hefir yðr verit langa æfi ok unnit undir yðr með sínum frœknleika mörg konungaríki; ok ef þér vilit lofa mér at ganga á hólm við þenna mann fyrir hönd Karvels, þá skal hann dýrt kaupa áðr hann fái hana. Burnament heyrði hót Oddgeirs ok mælti til hans: Ákafliga verr þú þetta mál. Ek hefir spurt at þit Karvel erut kumpánar ok jafningjar, ok fyrir þá grein fór ek mest utan um haf, at ek heyrða sagt, at engi féngist slíkr riddari sem þú; ok ef þú treystist at berjast við mik ok verja Gloriant konungs dóttur fyrir vináttu sakir ykkarrar Karvels, þá stefnig þér til hólms at berjast við mik, ok skal ek fá af Ammiral konungi at hann lofi þér, ok ef þú sigrar mik, þá skaltu fara lauss ok liðugr af þeim fundi,[1] hvert sem þér líkar. Ok tak vápn þín ok berjumst í hólmi þeim eðr ey sem hólmganga er lögð. Þá svarar Oddgeir: Koma man ek til hólms eptir því sem mið[2] höfum talat.

[1]) brott *tilf. b.* [2]) við *b.*

geta leyfi af Ammiral konungi til þessarrar hólmstefnu, ok þat með[1] at þú skalt fara í friði fyrir Ammiral konungi ok öllum heiðingjum, hvert er þú vilt, ef þú kemst yfir mik í okkru viðrskipti. [Gakk ok tak vápn þín, ok skulum vit herklæðast í ey þeirri er hólmganga er mörkuð.[2] Þá svarar Oddgeir: Jafnmæli skal með okkr vera, segir hann. Nú ef þú hefir hærra hlut í okkru viðrskipti, þá skaltu hafa meyna, ok skal Karvel enga ván eiga eða tilkall síðan til hennar.

41. Nú kallar Oddgeir skjaldsvein [Gloriant konungs dóttur,[3] þann er nefndr er Remund ok mælti: Far sem skyndiligast[4] ok legg á söðul á hest[5] ok far til hirðar Karlamagnús konungs, ok létt eigi fyrr en þú hittir Karvel at máli. Seg honum, at ek hefir skorast á hólm fyrir hann í móti þessum manni er Burnament heitir; höfum mit þat svá skilt, at eigi skulum vit þaðan komast báðir kvikir; en þat er fyrir þá sök at hann ætlar sér Gloriant konungs dóttur, en oss væri þat leitt, ef vér [mættim nökkut at gera, at annarr maðr féngi unnustu hans.[6] En Remund dvaldi eigi ferð sína ok létti eigi fyrr en hann kom til landtjalda Karlamagnús konungs. En þeir er vörðinn héldu, spurðu [þeir hverra eyrenda hann fœri.[7] Hann kvezt eiga eyrendi[8] við Karvel. Nú var honum fylgt á Karvels fund, ok bar Remund fram kveðju konungs dóttur ok Oddgeirs, ok sagði honum þau tíðendi er hann hafði. En Karvel var úglaðr við þat, er Ammiral konungr hafði brugðit við hann þeim máldaga er mæltr hafði verit þeirra í millum. Síðan gekk hann fyrir Karlamagnús konung ok bað hann leyfis at fara til Rómaborgar ok kvezt eiga þangat skylt eyrendi. Konungr svarar: Far heill ok vel ok kom [til vár er[9] þú vilt.

1) skal þiggja af konungi *a.* 2) [*tilf. a.* 3) [sinn *a.* 4) harðast *a.* 5) minn *tilf. a.* 6) [féngim nökkut at gert, at hann hefði unnustu þína, Karfel *a.* 7) [hvat tíðenda hann hefði *a.* 8) tíðendi *a.* 9) [hingat þegar *a.*

---

41. Oddgeir kallar nú til sín skjaldsvein sinn, þann er Remund hét, ok mælti við hann: Legg sem skjótast söðul á hest ok ríð til hirðar Karlamagnús konungs ok seg Karvel, at ek hefir játtat mik á hólm fyrir hann viðr þann mann er Burnament heitir, ok hefir hann þat mælt, at mið[1] skyldum eigi þaðan komast báðir lífs; en sú er sök til, at hann ætlar sér Gloriant konungs dóttur, en mér [finnst ekki til þess,[2] ef ek féngi nökkut at gert, at hann tœki unnostu Karvels. En Remund dvaldi ekki ok fór til hirðar Karlamagnús konungs, ok fann skjótt Karvel at máli ok sagði honum þessa nýjung ok þar með kveðju Oddgeirs ok konungs dóttur. Karvel varð úglaðr viðr þetta, at Ammiral konungr hafði brugðit einkamálum þeirra á millum, ok sagði síðan Karlamagnúsi konungi, at hann ætti skylt erendi at fara til Rómaborgar, ok bað hann leyfis, en hann[3] játtaði þegar ok bað hann vel fara.

1) við *b.* 2) [þikir þat illa *b.* 3) konungr *b.*

42. Síðan [fór Karvel[1] skyndiliga til Rómaborgar. En í móti honum [fóru af borginni meir en 20 þúsundir hans frænda ok vina,[2] ok spurðu allir hversu honum hefði farizt[3]. En hann sagði sem var, at honum hefði vel farizt[3], ok Karlamagnús konungr hafði[4] gefit honum leyfi at fara hvert sem hann vildi. En þat þikki mer [sem Ammiral konungr hafi[5] eigi gert höfðingliga,[6] er hann hefir heitit[7] öðrum manni festarmey mína,[8] ok víst er þat í móti mínum vilja. [Ætlan þá sögðu honum liðsmenn hans sjálfs, at engi kostr væri annarr af Ammiral konungi: en Oddgeir inn bezti drengr sem ván var skoraðist á hólm við Burnament fyrir þína skyld, ok vildi verja Gloriant til handa þér ok leggja líf sitt í ábyrgð.[9] Karvel svarar: Gott verði góðum dreng jafnan;[10] ek skal vera brjóst hans, ok em ek sjálfr makligastr til at heyja þessa hólmgöngu. Síðan gékk hann fyrir Ammiral konung, en allar þær þjóðir er þar váru undruðust hann. En konungr ávítaði hann mjök ok mælti: Jlla hefir þú gert Karvel, segir hann, er þú hefir neitat Maumet guði várum ok trúir á guð kristinna manna. Karvel svarar: Eigi hefir ek þat gert enn, segir hann; en [þat er annat mál, konungr, við vin þinn Burnament, hann[11] hefir dregit á sik[12] of mikla dirfð, þar sem hann hefir ætlat sér festarmey mína at úvilja mínum; ok ætla ek honum þat munu illa hlýða, [því at ek hugða þat,[13] at engi mundi svá djarfr gerast, at þora mundi at berjast við mik á vígvelli.[14] Burnament [heyrði orð hans ok stóð upp ok[15] mælti: Karvel, segir hann, [sœmd þín er brotin, ok á ek við þik ekki mál, því at maðr sá bauzt[17] í móti mér,[18] er Oddgeir heitir, [ok hljóp hann í sýslu þína,[19] ok vil ek þann leik fremja móti honum, sem mælt er, ef þú vilt vera[20] í borgan fyrir hann. Þá svarar Karvel: Öll lönd ok ríki er ek held af Ammiral konungi vil ek í veð setja,[21] at hann skal eigi því bregða, er [þit hafið mælt ykkar í milli.[22] Síðan sendi Karvel fjóra[23] menn eptir Oddgeiri ok [bað hann koma til sín. En jafnskjótt sem þau boð kómu til hans, þá fór[24] hann þegar þangat sem Karvel var, ok [var þegar þat sýst er áðr var talat.[25]

[1]) [bjóst Karvel ok fór *a*, *B*, *b*. [2]) [gékk fjöldi manns, frændr hans ok vinir, eigi færra en 20 þúsundir *B*, *b*. [3]) at farit *B*, *b*. [4]) hefði *B*, *b*. [5]) *saal.* *a*; hafði *A*. [6]) konungliga *a*. [7]) [Ammiral konungr hafa gert úmerkiliga, er hann hefir játtat *B*, *b*. [8]) minni *a*, *B*, *b*. [9]) [þá segja honum menn hans, at Oddgeir danski hinn bezti drengr hét sik á hólm móti Burn. fyrir þik, ok vildi leggja líf sitt í hættu. *B*, *b*. [10]) fyrir *tilf.* *a*. [11]) [vinr þinn Burnament *B*, *b*. [12]) *saal.* *a*, *B*, *b*; þik *A*. [13]) [en þat hugða ek *a*. [14]) [ef ek má ráða *B*, *b*. [15]) [*mgl.* *B*, *b*. [16]) [stafr þinn er brotinn ok á ek af því þetta mál ekki við þik *B*, *b*. [17]) *saal.* *a*, *B*, *b*; buast *A*. [18]) til einvígis fyrir þik *tilf.* *B*, *b*. [19]) [*mgl.* *B*, *b*. [20]) ganga *a*, *B*, *b*. [21]) leggja *a*, *B*, *b*. [22]) [hann hefir talat *B*, *b*. [23]) sína *B*, *b*. [24]) [kom *B*, *b*. [25]) [váru þar framborin mjök góð herklæði *B*, *b*.

43. Karvel gékk þá fram ok herklæddi Oddgeir með inum beztum vápnum er vera mátti, fyrst með góðri brynju, en síðan setti hann hjálm á höfuð honum allan [settan gimsteinum,[1] ok mælti við hann: Ek gef þér sverð mitt [ok sé ek[2] at þér sómir at bera þat, ok sver ek við trú mína ok Maumet guð várt, at ek gæfa þat eigi[3] bróður mínum né öðrum frændum mínum, þótt þeir byði fram fjóra vagna[4] af[5] gulli. Sverð þat heitir Kurtein, hafðu þat ok njót vel. Oddgeir tók við sverðinu ok þakkaði Karvel gjöf þá, hljóp síðan á hest sinn ok reið til Rómaborgar ok til eyjar þeirrar, er hólmstefna var lögð í. En Karlamagnús konungr [hafði hönd at sýslu ok sendi menn inn í skóga þá er váru í nánd hólmstefnu þeirra, ok bað þá við því standa, at heiðnir menn ætti nú eigi kost á Oddgeiri, sem þeir höfðu fyrr farit með svikum.[6]

44. Nú var Oddgeir til hólmstefnu[7] kominn ok [hafðist þar við.[8] En Burnament herklæddist vel ok skjótt, fór fyrst í brynju sína[9] ok setti hjálm á höfuð sér, þann er átt hafði [Nabagudunosor konungr,[10] ok hann gyrði sik með sverði því er átt hafði [Eleon[11] inn sterki.[12] En þat sverð var faðms langt í millum hjalts[13] ok höggstaðar, ok hafði þat aldri numit í höggvi staðar, hvat sem fyrir varð.[14] En síðan var fram leiddr hestr hans Berfolen[15] allr albrynjaðr,[16] ok steig hann á bak honum.[17] En þá kom Gloriant konungs dóttir þar farandi ok mælti við hann: Burnament, segir hon, mikill skörungr ertu, [kosta nu ok gefst vel ok lát þat spyrjast, ok eir þú[18] Oddgeiri enum danska.[19] Þá svarar Burnament: At vísu [konungs dóttir, segi ek þér þat, at ek skal eigi drepa hann, en fyrir bæn yðra þá skal ek[20] færa þér hann kvikan. Konungs dóttir svarar: Vel mælir þú nú, Burnament, segir hon, þá skal vera samgangr okkarr, er þat er sýst. Síðan reið hann [í brott til hólmstefnu. Þá hét Gloriant á guð sinn, ok bað þess at hann skyldi aldri aptr koma.[21]

1) [gyldan ok víða gimsteinum settan *a*, *B*, *b*. 2) [því at ek sé *B*, *b*. 3) sambornum *tilf.* *B*, *b*. 4) hlaðna *tilf.* *b*. 5) rauðu *tilf.* *B*, *b*. 6) [sendi þúsund riddara í þann skóg sem næstr var hólmstefnunni, ok bað þá koma (geyma *b*), ef Oddgeir féngi sigr, at eigi mætti heiðnir menn optar fá vald á honum með svikligum umsátum *B*, *b*. 7) hólms *a*, *B*, *b*. 8) [beið nú þess er at höndum kom *B*, *b*. 9) víða ok síða *B*, *b*. 10) [Helenus hinn sterki *B*, *b*. 11) Elon *a*. 12) [Nabogodonosor konungr *B*, *b*. 13) hjalta *b*. 14) var *a*, *B*, *b*. 15) Befolen *a*; Befoli *B*, *b*. 16) *saal. ogsaa a;* brynjaðr *B*, *b*. 17) ok reið síðan til vígvallar *tilf.* *B*, *b*. 18) þó *a*. 19) [herra, segir hon, ok lát þat nú til spyrjast, at þú gangir vel fram í dag, ok hlíf þó hinum danska fyrir mína skuld *B*, *b*. 20) [frú, segir hann, ek veit at ek má drepa Oddgeir í fyrsta höggi, ef ek vil, en fyrir þína bæn skal ek þyrma honum ok *B*, *b*. 21) [til hólms, ok þá hét Gloriant á guð allsvaldanda svá mælandi: Heyrðu hinn máttugi

45. [Því næst sá Burnament fyrir sér hvar Oddgeir var,[1] ok œpti hárri röddu ok mælti: Illu heilli komtu hingat, fyrir því at ek sé nú feigð á þér, [ok með sverði mínu skal ek bana þér. En ef þú vilt gefa upp vápn þín ok neita guði þínum, ok segst yfirkominn sem þú ert, þá skal ek gefa þér líf fyrir sakir konungs dóttur, því at hon hefir árnat þér miskunnar við mik, ef þú vilt þiggja.[2] En Oddgeir [þakkaði honum ok bað hann taka þau[3] laun er honum þœtti mestu skipta; en þó vil ek freista vápna þinna nakkvat áðr, ok segjast eigi fyrr yfirkominn en þat er.[4] Síðan lustu þeir hesta sína með sporum, ok reið hvárr þeirra at öðrum,[5] ok lagði hvárr til annars með spjóti, ok brustu spjótsköptin bæði[6] í sundr, ok kom hvárgi þeirra öðrum af hesti. Síðan drógu þeir sverð sín or slíðrum, ok hjó Burnament til Oddgeirs ok[7] af mikinn hlut hjálmi hans. En Burnament fylgdi eigi mjök höggvi sínu, en Oddgeir laut undan, ella mundi hann hafa drepit hann. En Frankismenn ok heiðingjar er [varðhald höfðu[8] á þeim, sá athæfi þeirra ok ugðu hvárir [sínum manni.[9] Oddgeir reiddist við högg þat, sem Burnament hafði veitt honum, ok þóttist þá vita, at hann var hraustr drengr ok vápnfimr,[10] freistaði hann þá sverðs síns ok [vildi vita, hve gott var at höggva með Kurtein,[11] ok hjó til Burnaments ok[12] af honum hjálminn allan hœgra megin, svá at brúnin fylgdi [í brott hjálmsbrotinu,[13] ok dugði honum lítt Maumet í því sinni, ok nam sverðit [eigi fyrr en í mundriða staðar.[14] Nú mælti Burnament: Bölvat[15] verði þitt líf ok svá líkamr it sama; en aldri fann ek [þann riddara, er mér gerði fyrr stóru[16] sárara en þú. Oddgeir svarar: [Skamt skal[17] þér til verra, [lítit er þetta enn af öðru, ok skal þat

ok mildi guð, er skapat hefir jörð ok sjó (himin ok jörð *b*) ok alla luti, þá er á jörðunni alast undir himni, ok stýrir ok styrkir með margfaldri miskunn góðs manns vilja til framkvæmdar, en niðrar ok lægir ofmetnað ok illsku vándra manna, steyptu hinni ógorligstu reiði þinni yfir þessa mannfýlu hinn vánda Burnament, ok lát hann aldri aptr koma, nema honum sé þat til hinnar hæðiligstu höfuðskemdar ok hinnar sneypiligstu svívirðingar ***B***, *b*.

[1]) [Nú ríðr Burnament til vígvallar ok sá þegar hvar Oddgeir stóð ***B***, *b*. [2]) [Nú segst yfirkominn, sem þú ert, ok gef upp vápn þín, því at ek vil þér líf gefa fyrir sakir Gloriant konungs dóttur, því at hon bað mik þyrma þér ***B***, *b*. [3]) þá *a*. [4]) [svárar: Varla kann ek upp at gefast at öllu úreyndu, ok munu vit prófa hversu til vill takast, því at vel má ek sjá, hversu sverð þat (þitt *b*) bítr, þó at þat sé mikit. ***B***, *b*. [5]) sem harðast *tilf.* *a*, ***B***, *b*. [6]) senn *tilf.* *a*, ***B***, *b*. [7]) *tilf.* *a*, ***B***. [8]) [héldu vörð *a*, ***B***, *b*. [9]) [um sinn mann *a*. [10]) vígfimr *a*. [11]) [vill nú prófa, hversu Kurteinn dugi ***B***, *b*. [12]) *tilf.* *a*, ***B***, *b*. [13]) [hjálmbrotinu ***B***, *b*. [14]) [staðar í mundriða skjaldarins ***B***, *b*. [15]) burtskamt(!) *a*. [16]) [þat sverð fyrr at mér gerði sárara ***B***, *b*. [17]) [Skjótt (Skamt *b*) man ***B***, *b*.

gert vera í þökk við[1] Gloriant konungs dóttur, er þú ætlar unnustu þína vera skulu. Þá svarar Burnament: Ymsir skulum [vér eiga,[2] segir hann. Síðan hjó hann til Oddgeirs ok[3] af honum[4] nefbjörgina, ok kom þá[5] eigi sári við hann at því sinni. Þá æpti Burnament hárri röddu ok mælti: Dauðr ertu, Oddgeir, ok er nú konungs dóttir laus frá þinni gæzlu. Oddgeir svarar: Fíflsku[6] talar þú[7] nú, ok hjó síðan til hans á hjálminn, ok spratt[8] sverðit af hjálminum, sem verr var, ok nam í jörðu staðar, ok [kom eigi sári við hann at því sinni.[9] [Þá höggr Burnamend til Oddgeirs ok[10] af honum allan hjálminn ok alt hárit [við svörðinn öðrum megin,[11] ok barg guð er eigi nam[12] djúpara, ok rann þá blóð um hann allan niðr. En hann[13] reiddist mjök við högg þat ok hjó til Burnaments, ok klauf í sundr hjálm hans ok alt ofan í herðar ok [gékk frá[14] honum dauðum. Þá mæltu heiðingjar: Nú er Burnament fallinn, en Oddgeir hefir hest hans ok sverð. Ok var þeim öllum á þessum gripum in mesta elska. Nú ferr hverr[15] þeirra heim síns vegar. En Milon páfi kom þar farandi með tvær þúsundir riddara, ok gékk í móti honum[16] með processíu ok hafði með sér armlegg Pétrs postula ok marga aðra helga dóma.[17] Síðan tók Oddgeir höfuð Burnaments[18] ok batt við [slagálar[19] sér[20] ok reið á fund Karvels ok konungs dóttur ok færði þeim höfuðit. En þau þökkuðu honum vel þá fórn.

46.[21] Síðan gékk Karvel fyrir Ammiral konung ok sýndi honum höfuðit ok mælti svá: Herra, segir hann, tak af mér heilt ráð ok trútt, bú ferð þína sem skjótast heim til Babiloniam ok berst eigi lengr til ríkis annarra konunga, því at ek hefir því heitit fyrir mér,

1) [ok gerðag þetta fyrir skyld *B*, *b*. 2) [vit (mið *B*) höggva *a*, *B*, *b*. 3) *tilf. a*, *B*, *b*. 4) hjálminum *B*, *b*. 5) þó *a*, *B*, *b*. 6) *saal. a*; filmsku *A*; mikla fólsku *B*, *b*. 7) *saal. a*, *B*, *b*; þó *A*. 8) hraut *a*; stökk *B*, *b*. 9) [varð hann ekki sárr *B*, *b*. 10) [en hinum heiðna varð þat högg jarðgengt mjök, ok hjó síðan til hans ok *a*. 11) [öðrum megin með sverðinum *B*, *b*. 12) tók *B*, *b*. 13) Oddgeir *a*, *B*, *b*. 14) af *a*. 15) *saal. a*; hvárr *A*. 16) Oddgeiri *a*. 17) [féll þá Burnament dauðr til jarðar. Ok er heiðingjar litu þat urðu þeir hræddir, ok flýði síns vegar hverr. En kristnir menn æptu sigróp. *B*, *b*. 18) *saal. B*, *b*; Burnamend *A*; B *a*. 19) slagólar *a*. 20) [söðui sinn, hann tók ok hest hans *B*, *b*. 21) *Dette Capitel og de övrige til Slutningen af denne Fortælling ere tagne af B, b; Cap. 46, hvormed denne Episode af Karlamagnús Saga slutter i A og a, meddeles nedenfor efter disse Haandskrifter.*

---

46. Síðan fór[1] Karvel til fundar við Ammiral konung ok færði honum höfuðit, ok mælti síðan: Þat er mitt ráð, herra, segir hann, at vér farim [heim til ríkis várs ok landa, ok berjumst[2] eigi lengr til annarra konunga ríkis,

1) reið *a*. 2) [til landa várra ok síðan heim til ríkis várs, ok berizt *a*.

sem ek man efna, at ek skal aldri berjast móti Karlamagnúsi konungi eðr mönnum hans. En á hvern konung annan sem þú vill herja, þá bjóðumst ek til[1] með mína menn. En ef þú vill eigi hlýða mínum ráðum, man ek fara til Karlamagnús konungs með alt þat fólk er mér vill fylgja, ok munu vér þá allir samt herja á þik, ok létta eigi fyrr en vér fáim aptr unnit Rómaborg ok lagt undir hann alt [Babilonia ríki.[2] Þá svarar Ammiral konungr: Karvel, segir hann, þú þarft eigi at mæla svá ákafliga, því at ek vil[3] þínum ráðum fylgja við[4] alla luti, ok ek sé þat at þú ert mér öruggr í alla staði, en ek bíð þess aldri bœtr, ef þú ferr brott frá mér. Þá mælti Karvel: Þess vil ek biðja, segir hann, attu gef[5] Oddgeiri danska leyfi at fara til Karlamagnús konungs við vináttu þinni, ok leys hann vel af hendi með góðum gjöfum ok gersemum, sem vert er, því at hann hefir unnit þér mikla sœmd ok gæfusamliga, er hann rendi þessu enu illa ráði, er[6] þú skyldir gefa dóttur þína Gloriant hinum vánda-gerningamanni. Þá lét Ammiral konungr fjóra úlfalda klyfjaða[7] af allskonar gersimum bæði af hinum dýrustu perlum ok hinum ágætligustu náttúrusteinum, ok gaf Oddgeiri, ok bað konungr hann fara í sínu leyfi hvert er hann vildi. Oddgeir þakkaði konungi vel gjafir sínar, ok bað nú hverr þeirra annan vel fara.[8] Síðan gékk Oddgeir til Gloriant konungs dóttur ok tók af henni lof til brott-

1) þess *tilf. b.* 2) [Serkland *b.* 3) *tilf. b.* 4) um *b.* 5) gefir *b.* 6) at *b.* 7) klyfja *b.* 8) lifa *b.*

---

því at skjótt segi ok yðr mína ætlan, at aldri eigum vér síðan orrostu í móti Karlamagnúsi konungi. En á hvert land annat,[1] sem þér vilit fara með herskildi, þá bjóðumst ek til með mínum mönnum. [Þess vil ek biðja ok,[2] at þú gefir Oddgeiri grið[3] ok leyfi at fara heim til Karlamagnús konungs ok með vináttu yðra, ok leys hann vel af hendi sem góðan dreng skyldi með gjöfum ok góðum gersimum. En Ammiral konungr hlýddi öllum orðum þessum, [at hann leysti Oddgeir vel af hendi með sœmiligum gjöfum.[4] Síðan gerði Karvel för Oddgeirs í brott sœmiliga[5] ok heilsaði[6] vel ok kurteisliga Ammiral konungi. En Karvel ok [konungs dóttir gœddu Oddgeir mörgum góðum gersimum.[7] Síðan fór Karvel með Oddgeiri ok fann Karlamagnús konung ok tók af honum leyfi ok vináttu ok öllum hans mönnum, ok hafði þó umfram[8] góðar gjafir ok margar gersimar. [Eptir þetta sneri Ammiral konungr heim aptr til Babilonar með öllum her sínum, ok er ekki getið at þeir Karlamagnús konungr hafi optar orrostur áttar, svá at í þessi sögu sé ritað. En Karlamagnús konungr fór heim til Frakklands, þá er hann hafði siðat ok í lag fært Rómaríki eptir þann mikla hernað sem áðr hafði þar á legit um stundar sakir, ok sat þá í náðum nökkura stund. Fellr hér lykt á annan þátt sögu Karlamagnús konungs.[9]

1) annarra *a.* 2) [Nú vil ek biðja þik þess er vera skal *a.* 3) gang *a.* 4) [*mgl. a.* 5) í friði *a.* 6) hann *tilf. a.* 7) [Oddgeir skildust með vináttu, ok gáfu þau konungs dóttir honum sœmiligar gjafir, ok svá Ammiral konungr. *a.* 8) aðrar *tilf. a.* 9) [*mgl. a.*

ferðar, en hon gaf honum góðar gjafir. En eptir þat fóru þeir Oddgeir ok Karvel á fund Karlamagnús konungs. Þá lét Milon páfi gera processíu[1] á móti Oddgeiri með helgum dómum ok lofsöngum ok[2] gékk á móti honum allr herr Karlamagnús konungs, ok leiddu þeir hann pávinn ok Karlamagnús konungr heim til landtjalda sinna.

47. Þá tók Milun páfi at telja trú fyrir Karveli[3] konungi, ok rœddi þar um mörgum fögrum orðum. En þá er páfinn lauk sinni rœðu, þá svaraði Karvel á þessa leið: Þú hefir mælt fagrt erindi ok snjalt, ok sé ek at mikil náttúra fylgir yðr kristnum mönnum, ok veit ek at átrúnaðr yðarr er bæði betri ok fegri ok hreinligri ok[4] betra krapti en várr átrúnaðr, ok man ek því ávalt vera vinr kristinna manna, þar[5] sem ek em staddr. En með því at ek [hefi þat nafn í sið várn borit, at ek[6] hefir drengr verit kallaðr,[7] þá þurfi þér eigi trú yðra at telja fyrir mér, [ok ek veit áðr,[8] at [sú er[9] betri. En þó vil ek eigi at svá litlu leggja drengskap minn at ganga af hendi Ammiral konungi ok neita Maumet guði mínum, sem[10] bæði hefir faðir minn ok allir frændr mínir trúat á, ok með því at ek hefi[11] mælt, at ek skal engum manni bregðast fyrr í[12] vináttu, þá sýnist mér at þat man eigi vel sama, at ek bregðist[13] guði mínu,[14] þó at ek viti annan meira ok mátkara en hann. En þat er mælt með oss, at þat þikki drengs bót vera, at maðr sé þeim í liðsinni sem[15] minna má, ok [fyrr vil ek segja yðr it sanna til í einu orði, svá sem mér er gefit,[16] þá man ek heldr láta brenna mik í eldi kvikvan[17], en ek vilja neita Maumet guði mínum ok Ammiral konungi.

48. En þá[18] er þeir töluðust þetta við, þá kom maðr hlaupandi, ok var honum gefit orlof at ríða[19] fram, því at þeir sá, at hann var eyrendamaðr. Hann gékk þegar til tjalds[20] þess er Karlamagnús konungr var inni. Hann var spurðr tíðenda, en hann spurði hvar Karvel væri. Þá var honum sagt. Hann[21] gékk þá inn í landtjald ok þangat sem Karvel var, ok bar honum kveðju Gloriant konungs dóttur ok fékk honum bréf í hendr, en hann braut þegar innsiglit ok las bréfit. En þat sagði svá: Hinum kurteisa konungi Karveli vin sínum sendir Gloriant dóttir Ammirals konungs allra góða kveðju með fullkominni ástsemd. Síðan er þit Oddgeir fórut á brott héðan, þá hefir oss at hendi borit[22] bráðlig úgipta ok margföld öfundar áhyggja af svikafullri flærð konungs af Cordes ok þeirra er

[1]) processionem *b.* [2]) *saal. b*; a *B.* [3]) Karvel *b.* [4]) af *tilf. b.* [5]) hvar *b.* [6]) [*mgl. b.* [7]) í várum löndum *tilf. b.* [8]) [en veit ek þó *b.* [9]) *saal. b*; þeir eru *B.* [10]) þeim er *b.* [11]) þat *tilf. b.* [12]) *tilf. b.* [13]) bregðumst *b.* [14]) mínum *b.* [15]) er *b.* [16]) [skjótt at segja yðr með einu orði *b.* [17]) kvikan *b.* [18]) í því *b.* [19]) fara *b.* [20]) landtjalds *b.* [21]) *saal. b*; þá *B.* [22]) komit *b.*

í ráðum hafa verit með honum um úráð þat er þeir hafa lengi á legit. En nú er at fullkominni framkvæmd orðit,[1] því at á hinni fyrstu nátt er þit Oddgeir várut á brott farnir, þá fóru þeir með öllum her sínum [til herbergis þess,[2] er inni var Ammiral konungr faðir minn[3] ok svaf, ok[4] brutu upp hurðir[5] ok drápu konunginn ok alla þá menn er inni váru. En ek var höndum tekin ok em ek nú í valdi Feridans konungs af Cordes, ok búa þeir nú ferð sína hvern dag ok ætla heim[6] til fóstrlanda sinna með þessu herfangi, er þeir hafa nú fengit. En ef þú hefir eigi gleymt nafni [Gloriant konungs dóttur,[7] þá vil ek þess [nú biðja þik,[8] at þú skyndir[9] ferð þinni sem mest, því at þat veit hinn máttugi Maumet, at ek vil heldr vera höggvin á háls með hvössu sverði, en ek [vilja annan mann eiga[10] en þik. Ok svá [mjök þori ek at mæla,[11] at fyrr skal öll skepna ganga á móti náttúru sinni en ek skyli þér hafna. Lifit[12] vel. En er hann hafði lesit bréfit, þá gerðist[13] hann harla[14] litverpr. En Oddgeir var þá nær staddr ok spurði hvat hann hefði[15] tíðenda frétt. En hann sagði slíkt sem [hann hafði af bréfinu lesit.[16] Þá mælti Oddgeir: Félagi, segir hann, ver eigi úglaðr, [fyrir þá sök at[17] ek man heita þér því, sem ek skal efna, at ek man eigi fyrr mat minn eta, en [annathvárt er at þessar skemdar verðr[18] hefnt, ella bíða ek bana. Þar var ok þá viðstaddr Karlot konungs son ok mælti til Oddgeirs á þessa leið: Þess[19] sver ek við trú mína ok fyrir enn helga Dionisium í Frakklandi, at ek skal fylgja þér í þessa ferð ok eigi við[20] skiljast, meðan líf er í brjósti mér ok báðum okkr. En Karvel þakkaði þeim vel orð sín, ok gékk síðan til Karlamagnús konungs ok sagði honum tíðendin.

49. En konungr bauð honum at fara við allan her sinn at hefna þessar svívirðingar. [Þá svarar Karvel því, at verðr seint[21] at þeysa svá margan mann ok mikinn her, ok megu vér þat eigi fyrir þeim[22] sökum, at Oddgeir hefir þat mælt, at hann skal eigi fyrr mat eta en þessa er hefnt. En nú vil ek fara í þínu leyfi, ok Karlot son þinn, ok ætla ek annathvárt at oss muni auðit verða [við gæfu þína[23] at hefna þessa, eðr ella man ekki af verða hefndinni, því at mik dreymdi í nátt, at ek skyta örum 3 til Rómaborgar, ok þótti mér sem allar kœmi niðr í enn hæsta turn er á var húsi því, er Feridans[24] konungr var[25] inni ok allir hinir ríkustu menn hans,

[1]) *saal. b*; framkvæmdit *B.* [2]) [í herbergi þat *b.* [3]) hann lá *tilf. b.* [4]) þeir *b.* [5]) hurðina *b.* [6]) á leið *tilf. b.* [7]) [mínu *b.* [8]) [*saal. b*; um biðja *B.* [9]) skundir *b.* [10]) [eiga annan mann *b.* [11]) [vil ek segja *b.* [12]) Lif *b.* [13]) varð *b.* [14]) harðla *b.* [15]) hafði *b.* [16]) [á bréfinu stóð *b.* [17]) [*mgl. b.* [18]) [þessa er *b.* [19]) þat *b.* [20]) þik *tilf. b.* [21]) [Karvel þakkaði konungi vel boð sitt, en segir þó seint *b.* [22]) *saal. b*; beina *B.* [23]) [með gæfu þinni *b.* [24]) Feridan *b.* [25]) *tilf. b.*

ok sýndist mér svá sem eldr kœmi upp eptir, þar sem örvarnar höfðu niðr komit, ok vaknaða ek í því at logi[1] lék yfir öllum húsum, ok veit ek fyrir[2] því at þar munum vér 3 vera við[3] þínum ráðum ok koma þeim eldi á þá, er þeim man at fullu vinnast.[4] [Nú lagði konungr þat ráð til, at svá skyldi vera[5] sem hann vildi. [En nú er at segja frá því, at þeir búast[6] Oddgeir ok Karvel ok Karlot, ok [þarf ekki at segja frá búnaði þeirra nema þat, at svá bar búnaðr þeirra af annarra manna búnaði sem þeir váru framar ok hraustari[7] en aðrir menn þeir er í þann tíma váru í veröldunni.

50. Nú ríða þeir leiðar sinnar ok höfðu eigi meira lið með sér en 3 skjaldsveina. Ok er nú ekki sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir koma at skógi einum; þá kom þar maðr hlaupandi á móti þeim, sá var riddari einn af liði Karvels konungs. En hann [var sárr mjök, ok sá þeir þegar, at hann[8] var nýkominn or bardaga.[9] [Þeir spurðu hann tíðenda eða hvaðan hann kœmi eðr hví hann[10] væri svá búinn.[11] En hann sagði at Ammiral konungr var fallinn en konungs dóttir í valdi Feridans konungs af Cordes. En þá er Danamunt son Ammirals konungs varð varr við,[12] þá samnaði hann liði, ok váru vér þar allir þínir menn með honum ok fórum at þeim. En þeir urðu þegar varir við oss ok riðu á móti með öllum her sínum, ok tókum vér þegar at berjast í morgin er[13] vígljóst var, ok var þá fallinn meir en helmingr af váru liði, en ek flýða undan, en Danamunt var sárr mjök. En nú skundit[14] ferð yðvarri, ef þér vilit [nökkurri hjálp at þeim[15] koma, er þar eru staddir. Síðan vísar hann þeim til hvar bardaginn var. Ok þegar er hann hafði þetta mælt, þá féll hann af hestinum ok kom dauðr á jörð. Þá mælti Karvel: Fyrir sakir [slíks manns[16] fékk ek mikla sœmd af Ammiral konungi. Nú ríða[17] þeir ákafliga ok létta eigi fyrr en þeir kómu þar sem bardaginn var.[18] Ok [er svá sagt, at riðu[19] þegar fram í her heiðingja ok tóku sér þar stað allir samt ok feldu á lítilli stundu svá mikinn fjölda af þeim, at þat mundi útrúligt þikja, [ef talit væri.[20] En þegar er Danamunt varð varr við sína menn, þá eggjaði hann herinn[21] ákafliga, ok varð þá hinn harðasti bardagi, féll nú[22] af hvárratveggja liði ok þó fleira af Feridans[23] konungi.

1) eldr logandi *b.* 2) af *b.* 3) með *b.* 4) vinna *b.* 5) [Konungr bað Karvel svá með fara *b.* 6) [Nú búast þeir *b.* 7) [bar svá búnaðr þeirra af annarra manna búnaði sem þeir váru framar *b.* 8) [*mgl. b.* 9) ok sárr mjök *tilf. b.* 10) [*saal. b*; Karvel segir hann til bæði hvaðan hann kœmi eðr hann *B.* 11) leikinn *b.* 12) svikin *tilf. b.* 13) *saal. b*; ok *B.* 14) þér *tilf. b.* 15) [þeim at nökkurri hjálp *b.* 16) [slíkra manna *b.* 17) *saal. b*; reða *B.* 18) hafði verit *b.* 19) [hleyptu *b.* 20) [*mgl. b.* 21) hina *b.* 22) mikit *tilf. b.* 23) Feridan *b.*

Maðr hét Jakomin[1] hann var æzkaðr[2] af Damasko borg, ok var [mælt, at engi væri betri[3] riddari í allri Damasko. En þessi maðr hafði fyrstr[4] allra manna borit vápn á Ammiral konung, ok hann hefir þat mælt, at hann skal aldri renna fyrir einum, hann á 2 syni[5] ok heitir annarr Þoilos[6] en annarr Zabulon, þeir váru báðir harðir[7] ok illir viðreignar.

51. Þat er nú at segja, at Jaskomin kom at ríðandi, þar sem fyrir var Oddgeir,[8] ok lagði til hans spjóti. En Oddgeir brá fyrir[9] skildi, ok gékk í sundr spjótskaptit í skildinum. Þá lagði Oddgeir til hans ok í gegnum skjöld hans ok brynju, ok svá at á hol gékk kesjan. En Þoilus[10] son hans var nær staddr ok hjó til Oddgeirs ok klauf fjórðunginn af skildi hans ok í sundr spjótit.[11] Þá sá Karvel þetta, ok sneri at hesti sínum ok hjó til Þoilis[12] ok kom á öxlina hœgri, svá [af fauk[13] höndin, en sverðit rendi ofan með síðunni ok kom á fótinn fyrir ofan kné, ok tók[14] þar af. En þá féll Þoilis[15] af hesti sínum ok stóð aldri upp síðan. Nú kom Zabulon þar at ok sá, at faðir hans var særðr mjök en bróðir hans drepinn, þá hjó hann til Karvels. En Karlot konungs son var þar nær staddr at baki honum [ok hjó á höndina, þá er hann reiddi upp sverðit, ok beit af höndina,[16] en Zabulon kom eigi sári á hann.[17] En Jaskomin sat á hesti sínum, því at hann var sárr mjök. Hann sér nú á úfarir sona sinna, ok er þat sagt, at hann hjó til Karvels ok klauf sundr allan skjöld hans, ok sverðit hljóp í lær honum, ok varð Karvel[18] sárr mjök. Þá hjó Oddgeir til hans,[19] ok kom á hálsinn, svá at af beit[20] höfuðit bæði af honum ok svá af hestinum, er hann sat á, ok mælti: Vesöl vanmenna, segir hann, hvaðan kom þér svá mikil dirfð, at þú þorðir at bera vápn þín á móti mér. Nú er Zabulon einn eptir af þeim 3[21] feðgum, ok veik þá undan ok þangat til sem Feridans[22] konungr var fyrir, ok sagði honum fall föður síns ok bróður.

52. [Sá maðr er nú til nefndr er Svef heitir, hann er æzkaðr af landi því er heitir Montagandim, hann er náfrændi Feridans konungs[23] ok merkismaðr hans. Svef mælti til Zabulons á þessa leið: Gnægri höfðu þér frændr kávísi[24] ok lutdeilni, segir hann, en drengskap ok hreysti, ok kom sjá svívirðing yðr til handa mörgum dögum síðar en líkligt var, ok veit ek þat víst, ef Feridans konungr hefði

[1]) Jaskomin *b.* [2]) ættaðr *b.* [3]) [hann kallaðr beztr *b.* [4]) *saal. b*; fyrskt *B.* [5]) sonu *b.* [6]) Zoilas *b.* [7]) menn *tilf. b.* [8]) danski *tilf. b.* [9]) við *b.* [10]) Zoilas *b.* [11]) skjótskapt hans *b.* [12]) Zoilas *b.* [13]) [at af gékk *b.* [14]) *tilf. b.* [15]) Zoilas *b.* [16]) [þá er hann reiddi upp sverðit, ok í því hjó hann af honum höndina *b.* [17]) Karvel *b.* [18]) Karlot *b.* [19]) Jaskomin *b.* [20]) fauk *b.* [21]) *mgl. b.* [22]) Feridan *b.* [23]) [Suef konungr, er fyrr var getit, var náfrændi Feridan konungs af Cordes *b.* [24]) *saal. ogsaa b.*

eigi svá mikla virðing á yðr lagt, at fyrir löngu skylda ek hafa gert yðr þá skömm, at sjá væri enkis[1] verð hjá, er nú hafi þér fengit, því at þér várut[2] fullir flærða ok svika ok undirhyggju, illsku ok údáða. Þá svarar Zabulon: Svei verði oflangri tungu ok skemdarfullu höfði! hvar keyptir þú þér þá dirfð, er þú þorðir slíkt at mæla við oss frændr; því at þú veizt þat á þik, at fánýtri maðr fæðist aldri á jarðríki en[3] þú ert, bæði[4] illr raunar ok ásýndar, þú ert huglauss ok hjartablauðr, údyggr ok illgjarn, svikall ok sárorðr, fláráðr ok flærðsamr, ok á alla vega samankallaðr[5] af hinum herfiligstu höfuðskömmum,[6] ok [veiztu þat at þú þorðir aldri[7] slíkt at mæla, meðan vér várum allir frændr heilir ok vápnfœrir, sem þú mæltir nú um hríð. Þá segir[8] Svef: Verða ek slíkr sem þú, ef ek hefni þér eigi þessarra orða. Ok þá hjó Svef til Zabulons, ok kom á [háls honum[9] ok beit náliga af höfuðit. Þá mælti Feridans konungr: Mikinn skaða hefir þú nú gert mér, Svef, segir hann, ok ef þú bœtir mér þetta eigi með nökkuru snildarverki, þá skaltu aldri bera merki mitt síðan. Þá svarar Svef: Ok eigi er ek verðr yðvart merki at bera, ef ek bœti eigi þetta, svá at þér líki vel. Nú er þar ákafr bardagi, ok féll mart af hvárumtveggium, en þó eru[10] þeir auð kendir Oddgeir [ok hans félagar.[11]

53. En nú er at segja frá Svef, at hann ríðr fram þar til er hann mœtti[12] Danamunt[13] konungs syni. En þegar er þeir mœttust, þá lagði Svef til Danamunt með spjóti, en Danamunt[14] brá fyrir sik skildi ok varð ekki sárr at því sinni. Danamunt hjó þá til Svefs[15] [svá hart, at sverðit gékk í sundr undir hjaltinu fremra í hjálminum. En[16] Svef varð ekki sárr at því sinni. Þá mælti Svef: Nú hjóttu í hönd mér merki Feridans konungs. Eptir þat hjó Svef til Danamunt ok klauf allan hjálm hans [ok höfuð,[17] svá at í tönnum nam staðar. Þá œpti Svef hátt ok mælti: Sœkjum nú fram vaskliga, fallinn er Danamunt konungs son. En[18] Karvel heyrði óp hans ok skildi hvat hann mælti, þá segir Karvel:[19] Vili eigi[20] Maumet guð minn, at ek njóta Gloriant konungs dóttur, ef ek skal eigi hefna bróður hennar. Ok veik þá hesti sínum at Svef ok kallaði á hann ok mælti: Ef þú hefir heldr karlmanns náttúru en konu, þá bíð þú Svef. En hann sneri undan ok þangat til sem fyrir var Feridans konungr. Þá hjó Karvel eptir honum ok náði eigi til hans ok kom á hömina

1) engis *b.* 2) *saal. b*; væri *B.* 3) svá sem *tilf. b.* 4) ertu *tilf. b.* 5) samanballaðr *b.* 6) höfuðklækjum *b.* 7) [aldri þorðir þú *b.* 8) svarar *b.* 9) [hálsinn *b.* 10) váru *b.* 11) [Karlot ok Karvel *b.* 12) mœtir *b.* 13) *saal. b*; Damunt *B*, *saal. ogsaa senere.* 14) hann *b.* 15) Suef *b.* 16) [í hjálminn svá hart, at sverðit gékk í sundr undir fremra hjáltinu, ok *b.* 17) [*mgl. b.* 18) er *tilf. b.* 19) hann svá *b.* 20) *tilf. b.*

hestinum, svá at hann féll undir honum. En Karvel lét þá skamt höggva á millum, ok létti eigi fyrr en hann gékk af Svef dauðum.

**54. En nú er at segja af Oddgeiri danska. Hann sitr nú á** hesti sínum ok ríðr nú at Feridans konungi, en konungr á móti honum, ok börðust þeir lengi svá, at hvárgi kom sári á annan, því at konungr var allgóðr riddari. Þá mælti Oddgeir: Annathvárt er nú, at þú ert eigi svá góðr kosti Kurtein,[1] sem Karvel sagði, eða ella hefir ek ekki trútt[2] at fylgt hér til, svá sem ek hefi föng á, enda skal nú reynt verða, hvárt heldr er. Þá hjó Oddgeir til Feridans konungs ok klauf hann í sundr í miðju, svá at í söðlinum nam staðar. Þá mælti Oddgeir: Þess var ván, segir hann, at eigi mundi Karvel þetta sverð borit hafa, nema hann vissi at bíta kynni. En er konungr var fallinn, þá flýði allr herrinn [undan, sá er honum hafði fylgt.[3] En Karvel [mælti, at ekki skyldi[4] reka flóttann, því at þetta er[5] alt [mínir menn ok várir,[6] ok allr sá herr er fylgt hefir Danamunt konungs syni. Þá snerust[7] til þeirra Oddgeirs ok Karvels allir þeir sem grið vildu hafa. Ok ríða þeir nú til kastala þess, er Gloriant konungs dóttir var [læst í,[8] ok brutu upp þegar kastalann ok tóku hana þaðan á brott. En síðan ríðu þeir inn í borgina, ok gékk þá til handa Karvel allr herr Feridans konungs. Þá gaf Karvel þeim Oddgeiri ok Karlot margar gjafir enn [á nýjan leik,[9] ok svá Gloriant konungs dóttir, ok fara þeir við þat aptr til Karlamagnús konungs. En nú býr Karvel ferð sína ok fór með her sinn út á Púl, ok svá út yfir haf þar til er hann kom í Babiloniam, ok var þar til konungs tekinn, ok er mikil konungaætt [frá Karvel komin ok[10] Gloriant konungs dóttur. En þeir Oddgeir ok Karlot fóru aptr til Parísborgar í Frakkland með Karlamagnúsi konungi, ok var Oddgeir merkismaðr hans æ meðan [hann lifði ok konungr, ok eru margar aðrar sögur frá Oddgeiri. En vér lúkum hér nú þessarri sögu.[11]

[1]) Kurteinn *b.* [2]) *mgl. b.* [3]) [*mgl. b.* [4]) [bað eigi *b.* [5]) eru *b.* [6]) [várir menn *b.* [7]) *saal. b*; snýst *B.* [8]) [inni læst *b.* [9]) [af nýju *b.* [10]) [komin frá þeim *b.* [11]) [þeir lifðu báðir, ok er hann því jafnan við sögu Karlamagnús konungs. En nú lúkum vér hér þessum þætti *b.*

---

# FIORÐI PARTR KARLAMAGNUS SÖGU AF AGULANDO KONUNGI.

Í nafni dróttins várs Jesu Krists[1] byrjar hér einn part sögu hins frægasta herra Karlamagnús keisara sonar Pippins Frakka konungs, í hverjum greiniliga segir, hversu sagðr keisari Karlamagnús frjálsaði[2] meðr guðligu fulltingi ok árnaðarorði sæls[3] Jakobi Hispaniam ok Galiciam af valdi Saracenorum ok Affrikanorum. En fyrir því frelsti guð með styrkum armlegg Hispaniam, at þat ríki hafði hann fyriræetlat til einsligrar ok ævinligrar virðingar sínum signaða vin Jacobo postola Jóns bróður. Ok meðr því at herra Karlamagnús bauð mikiliga, at þau frægðarverk er guð virðist á hans tímum vinna fyrir sína miskunn ok drengiliga framgöngu kristinna manna, skyldu minniliga haldast guði til lofs ok dýrðar ok öllum eptirkomandum mönnum í veröldina til sannrar kynningar ok dagligrar skemtanar, skrifaði af frjálsing Hispanie hinn heimuligsti keisarans vin ágætr herra Turpin Rensborgar erkibyskup. Váttar byskupinn í því bréfi er hann skrifar til Leofrandum decanum Achisborgar sik hafa verit nálægan þeim stórtáknum, er guð opinberliga [framdi fyrir[4] sínum lýð fyrir bœn ok verðleika blezaðs Jacobi, hvert byskupsins bréf heldr þvílíkan framburð sem hér fylgir.

Turpin meðr guðs miskunn faðir ok forstjóri Renensis kristni, ok samfélagi hins fræga herra Karoli Magni, sendir Leofrando Achisborgar decano ástsamliga kveðju guðs sonar Jesu Krists. Meðr því at þér gerðut mér orð þann tíma sem ek var staddr nökkut sjúkr

[1]) Jn nomine domini *b. Da Fortællingen om Agulandus er meget afvigende i de to Recensioner Aa og Bb, er det nödvendigt at give hver for sig; og da Aa paa Grund af udrevne Blade paa enkelte Steder er defekt, meddeles Recensionen Bb som fuldstændig först.* [2]) frelsaði *b.* [3]) sæla *b.* [4]) [sýndi *b.*

af sárum í borginni Vehenna, at ek mundi skilvísliga skrifa, hversu hinn völdugasti herra Karlamagnús vann Hispaniam undan valdi Saracenorum, en sakir þess at ek var þann tíma nökkut tálmaðr, hvar fyrir ek þóttist eigi mega yðvarn bœnastað fullgera, þá minnist ek nú þessa verks fyrst fyrir guðs skyld í himinríki sœmd ok æru heilags Jacobi hverium einkanliga til heyrir þetta efni til ævinligrar frægðar Karlamagnúsi keisara. Ok fyrir því at ek skil yðra góðfýsi þessa beiða sakir ástar við guð, elsku við Jacobum postola, kærleiks við keisarann, set ek í upphafi minnar framsagnar með hvílíkum hætti þetta efni byrjaðist, þar næst greinandi nefniliga sérhverja atburði, er á þeim tíma gerðust in Hispania, ok þau frægðarfullu stórmerki er guð dróttinn opinberaði til styrkingar sinni kristni, þar með þann lofsamliga sigr er keisaranum veittist á guðs úvinum ok sínum, þó at með stórri mœðu ok blóðs úthellingu sinna manna, ok þau dygðaverk sem keisarinn framdi guði til heiðrs ok æru við hinn signaða Jacobum postola í uppsmíði kirkna ok heilagra munklífa, þau fjórtán ár er hann dvaldist in Hispaniis, ok þá hluti sem ek sjálfr sá mínum augum sendir ek yðrum félagskap letri samsetta. En þar sem þér skrifaðut, at þeir hlutir sem fram fóru miðil[1] kristinna manna ok heiðinna in Galicia finnast[2] eigi fylliliga skrifaðir í þeim annál er liggr í staðnum Sendine, má þat vel til bera, at sá sem sagðan annál hefir samsett, væri eigi nálægr þeim hlutum er þar gerðust, ok eigi heyrt svá skilríkra manna framburð þaðan af sem honum þótti eptir skrifanda; en ek væntir guði til sjánda, at eigi muni minn þessi framburðr við sagðan annál discordera. Gæti yðvar sannr guð ok styrki yðvarn mátt ok góðan vilja. Svá segir Turpin erkibyskup byrjandi þessu næst sinn framburð af greindu efni.

Ágætr postoli dróttins virðuligr Jacobus son Zebedei predikaði fyrstr guðs eyrendi vestr in Hispaniis, birtandi[3] dimmum hugskotum skært ljós sannrar trúar, en mikill harðleiki ok stirðr langrar úvenju landsmanna skipaðist lítt til mýkingar fyrir postolans áminning, einkannliga sakir þess at allir ríkisins mestháttar menn risu snarpliga móti sinni sáluhjálp meðr öllu fyrirlítandi hans kenning. Ok meðr því at háleitr guðs ástvin Jacobus skilr sitt starf ok mœðu öðlast lítinn ávöxt í þann pungt, vendir hann aptr meðr sínum lærisveinum til sinnar fóstrjarðar, þat er Jórsalaland, þess eyrendis at fylla þar með guðs vilja fagran sigr dýrðarfulls píslarvættis[4] fyrir harðan grimleik hatrsamra Gyðinga, þolandi fyrir guðs ást sáran dauða meðr pínu snarpeggjaðs sverðs undir glœpafullum konungi Herode Agrippa. En at fyldum postolans sigri leiddi guð dróttinn hans helgasta líkam

[1]) millum *b*, *her og senere.* [2]) finnist *b.* [3]) þar *tilf. b.* [4]) pínslarvættis *b.*

meðr sjau lærisveinum mjök stórmerkiliga brott af Jórsölum[1] fram til Hispanias, skipandi svá með sínu einvaldi, at sú hin sama þjóð, sem fyrr hafnaði sœtri[2] kenning postolans lifanda, skyldi nú við taka sannri hjálp fyrir nálægð hans andaðs líkama, ok at þau lönd ok ríki sem postolinn merkti sér meðr líkamligri návistu,[3] skyldu hans vera, svá lengi sem veröldin byggist. Ok fagrliga fyldist sannleiksins fyriræetlan, því at guðs miskunn samvinnandi háleitisjartegnum Jacobi meðr hjálpsamligri predikan hans lærisveina snerust allar hálfur Hispanie til kristiligrar trúar heiðrandi meðr allri sœmd guðs vinar líkama ok fagrliga leiddu í þeim stað er landsmenn kölluðu [á þeim[4] tíma Librarum Domini en nú nefnist Compostella. Blómgaðist síðan vel ok fagrliga heilög trúa in Hispaniis um langa[5] tíma, þar til at guðrækir Saraceni ok Moabite hermannliga[6] grimmaðust með ránum ok manndrápum upp á fyrr greind ríki, brennandi bæði[7] borgir ok kastala, niðr brjótandi kirkjur ok aðra heilaga staði, hvern mann drepandi er eigi vildi[8] neita sínum guði, ok svá görsamliga eyddu þeir fjándans limir heilagri kristni, at nær fannst sá engi staðr í þeim heroðum, er sönnum guði veitti [makliga sœmd[9] ok hans signaða vin Jacobo, héldu Saraceni Hispanias undir sínu svívirðiligu valdi alt fram á ofanverða daga Karoli Magni, ok sakir þessar fúlastu þoku er á þeim tímum yfirgnæfði öllum fyrrgreindum löndum ok upp gékk af þeirri guðrækiligu þjónostu er hvervitna dagliga framdist í herfiligri fágan bölvaðra skurgoða[10] fálust bjartir geislar skínanda gimsteins, þat er ágæt frægð ok jartegna blóm[11] heilags Jacobi, hverr mætari er hverjum veraldligum thesaur ok á þeirri jörðu hvíldist bæði lágt ok leyniliga, svá lengi sem guðlig[12] forsjá skipaði. Nú er um runnit með skömmu máli, hversu bölvaðir Saraceni féngu vald yfir Hispanie ok Galicie, því byrjar hér næst greina meðr hverri atferð almáttigr guð sníðr brott þyrna meðr illgresi af akri síns elskuligasta vinar virðuligs Jacobi.

1. Með því at hinn frægasti herra er verit hefir á Norðrlöndum Karolus Magnus, hverr fyrstr allra Frakka konunga hélt rómverskan keisaradóm, mundi hafa mörg lönd ok stór konungaríki in Italia lagt undir sik meðr herskildi, Angliam, Franciam, Þýverskuna, Burgundiam, Lotaringiam ok önnur fleiri er liggja miðil tveggja sjófa, þar með útalligar borgir á valdi Saracenorum undirokat rómverskan keisara, þá hugðist hann létta hernaði en taka hvíld eptir mikit erfiði ok hætta eigi lengr sér ok sínum mönnum í orrostum ok úfriði. Nú sem keisarinn hefir sagða ætlan staðfesta með sínu hjarta, gefr

[1]) *saal. b*; Afsolum *B.* [2]) *saal. b*; sœtá *B.* [3]) návist *b.* [4]) [í þann *b.* [5]) langan *b.* [6]) *saal. b*; harmanliga *B.* [7]) *saal. b*; beyi *B.* [8]) *saal. b*; vildu *B.* [9]) [makligt lof *b.* [10]) skurðgoða *b.* [11]) blómi *b.* [12]) guðs *b.*

honum líta á nökkurri nátt útganganda af sinni sæng einn stjörnuveg undarligs mikilleika, hverr upp ríss af sjó Frisie ok veittist miðil[1] Theothoniam ok Galliam, Jtaliam ok Akvitaniam, ok síðan rétta leið yfir Gaskuniam, Baldam ok Nafariam alt vestr til Hispaniam ok Galiciam. Herra Karlamagnús sem hann sér greindan stjörnugang[2] optliga um nætr, hugsar sem vitr maðr, at svá[3] sjaldsénn hlutr muni hafa nökkut mikit at[4] merkja. Ok sem hann studerar optliga af þessu efni, birtist honum eina nátt í svefni virðuligr maðr fagrliga klæddr með bjartri ásjánu ok blíðu viðbragði, hverr til keisarans talar meðr kærligum orðum svá segjandi: Son minn sœti, segir hann, hvat gerir þú? Keisarinn sem hann heyrir sik svá vel kvaddan með svá blíðu orðtaki, virðist meðr engum hætti þegjandi í móti, hvar fyrir hann svarar: Hverr ertu, góði herra, er mik kveðr svá kærliga.[5] Fríði maðr svarar: Ek em Jacobus postoli fóstrson herra Jesu Krists, son Zebedei, bróðir Johannis evangeliste. Mik kallaði Jesus son heilagrar Marie meyjar til sín á sjó Galilee fyrir sína úumrœðiliga mildi, en Herodes hinn úmildasti konungr lét hálshöggva mik með sverði. Líkami minn liggr in Hispaniis flestum mönnum úkunnigr í hálfum Galicie, hver ríki nú haldast [undir háðugligu[6] valdi Saracenorum ok Moabitarum. En mjök þiki mér undarligt, er þú frelsar eigi land mitt af þeirra valdi, svá mörg ríki borgir ok bœi sem þú hefir undir aflat rómverska kristni. Ok[7] því skaltu vita,[8] at svá sem guð hefir gert þik völdugara en nökkurn konung í veröldu, svá hefir hann ok skipat þik til þess at frjálsa eign mína undan heiðnum þjóðum, at þar fyrir takir þú bjarta kórónu eilífrar dýrðar. Þat hefir ok sýnt sá stjörnuvegr er þér birtist, at þú munt fara af þessum löndum með þinn mikla her fram til Hispanias ok eyða þeirri vándu þjóð ok leysa þau lönd af hæðiligum þrældómi heiðingja, þar með [mun þú[9] góðfúsliga vitja mins legstaðar efla ok uppreisa mína kapellu. Eptir þik munu þangat fara allir lýðir Jtalie pílagríms ferð, þiggjandi af guði þar fyrir lausn allra synda, lýsandi með guðs lofi þeim stórtáknum ok fáheyrðum jartegnum, sem hann virðist fyrir sinn almátt vinna: man þessi ferð haldast alt til heimsins enda. Nú far sem skjótast, segir Jacobus postoli til Karlamagnús keisara, því at ek skal vera þinn styrktarmaðr ok þér fullting veita í þessarri ferð ok þínum nauðsynjum, ok þitt starf skal ek ávaxta í guðs augliti ok þiggja af honum þér til sœmdar eilífa dýrð himinríkis, ok þitt nafn skal æ lofast ok svá lengi uppi vera sem veröldin byggist. Eptir þessi orð líðr postolinn brott af keisarans augliti, en hann vaknar hugsandi greinda sýn með miklum fagnaði; dvelr þó[10] ferð

[1]) millum *b.* [2]) stjörnuveg *b.* [3]) sjá *b.* [4]) *tilf b.* [5]) kurteisliga *b.* [6]) [háðugliga undir vándu *b.* [7]) Af *b.* [8]) *tilf b.* [9]) muntu *b.* [10]) þá *b.*

Hispanie um lítinn tíma væntandi framar at styrkjast af postolans fyrirheiti, hvat er hann öðlast, því at annat sinn ok þriðja birtist honum Jacobus postoli meðr sama hætti ok fyrsta tíma. En keisarinn styrktr þriðju postolans vitran vill meðr engu móti lengr dvelja sína ferð ok gerir boð um öll nálæg heröð, stefnandi til sín mörgum mikils háttar mönnum, miðil hverra er var ágætr herra Turpin erkibyskup af Rensborg, er þessa hluti hefir fyrst saman setta; hér[1] með kallar keisarinn eigi síðr mikinn almúgans fjölda, ok öllum í einn stað samankomandum boðar hann greiniliga alla vitran Jacobi postola, váttandi þar með, at hann ætlar halda sínum her til landa Hispanie ok eyða því bölvaða illþýði, sem oflengi hefir í legit akri dróttins ok hans blezaða vinar Jocobi, hvat allir heyrandi menn samþykkja gjarna lofandi guð fyrir sína mildi.

2. Á viðrkœmiligum tíma sem virðuligr herra Karlamagnús keisari hefir vel ok kurteisliga búit sinn her, lyptir hann sinni ferð út af Francia, farandi þar til er hann kemr inn í heröð Hispanie til þeirrar borgar er kallast Pamphilonia; hon er mikil borg meðr hinum sterkustu múrum. Um hana sitr Karlamagnús þrjá mánaði, en sakir mikils borgarinnar sterkleika verðr hon meðr engri list unnin né nökkurskonar vígvélum. Ok er keisarinn sér, at í þessum stað vinnr ekki mannligr klókleiki, snýr hann til fulltings almáttigs guðs í himinríki svá segjandi: Dróttinn Jesu, heyr bœn mína ok gef þessa borg í mitt vald til tignar þíns[2] blezaða nafns, því at sakir þinnar trúar kom ek í þessor lönd at leysa þau undan svívirðuligu yfirboði heiðinna þjóða. Hér með kallar ek til [þín, virðuligr Jacobus,[3] biðjandi at þú hjálpir nú til ok standir vel frammi, ok ef þat er satt, at þú birtist mér, þá brjót niðr sterka múra Pamphilonie. Ok eptir þessor keisarans orð sjá allir nærverandis menn, at hinir harðastu[4] múrar borgarinnar falla niðr á einu augabragði, svá at nú gefst keisaranum liðugr inngangr meðr sínum mönnum. Verða nú vándir Saraceni borgina upp at gefa nauðgir, þótt þeir vildi eigi. Gerir Karlamagnús keisari þeim nú tvá kosti, taka trú rétta ella þola skjótan dauða. Öðlast þeir sœmd ok frelsi sem trúnni játa, en hina lætr hann alla hálshöggva unga menn sem gamla. Ok er Saraceni þeir sem byggja í nálægum stöðum, frétta hversu múrar Pamphilonie hafa stórmerkiliga niðr hrunit, ok hennar alt hit fyrra afl skjótliga fyrirvorðit, skelfast þeir stórliga mjök í sínum hugskotum, svá framt at sakir þess mikla ótta er guð lætr nú yfirkoma þeirra hjörtu, fara þeir út af sínum herbergjum rennandi fram á veg fyrir keisarann, berandi með sér skyldir ok skatta, gefandi sjálfa sik ok alt þat sem þeir

[1]) *saal. b*; hvar *B.* [2]) *saal. b*; síns *B.* [3]) [*saal. b*; mín virðugligan Jacobum *B.* [4]) sterkustu *b.*

höfðu at halda upp undir hans vald ok vilja. Mjök [undraðist heiðin þjóð[1] herlið Karoli sakir fríðleika ok ágæts klæðabúnaðar ok allrar kurteisi, hvar fyrir þeir tóku þessa[2] hans menn vel ok sœmiliga at uppgefnum sínum vápnum meðr bezta friði. Ferr hann nú skyndiliga hinn beinasta veg fram til legstaðar heilags Jacobi í Compostellam, hver á þeima tíma var eitt harðla lítit ok fornfágat[3] borgarreysi. Compostella stendr á vestanverðu landi Galicie mjök nærri því hafi er kallast Perxotium[4] mare. Því ferr keisarinn til hafsins leggjandi sínu hvassa spjóti í sjóinn, þakkir gerandi almátkum guði ok blezaða postola Jacobo fyrir þat er hann hefir sinn mikla her svá langt leitt í þá heimsins hálfu, sem honum[5] framast byrjaði. Eptir þetta snýr Karlamagnús sinni ferð aptr á leið frelsandi síðan alt land Hispanie ok Galicie af heiðnum mönnum. Var á þessum tímum í Galicia þrettán borgir með Compostella, en sex ok tuttugu in Hispaniis, miðil hverra er var ein borg er kallaðist Atennoa,[6] í þeirri hvílir ágætr guðs píslarváttr Torkvatus,[7] er verit hafði forðum þjónustumaðr heilags Jacobi postola, hverjum til sœmdar svá er senniliga skrifat, at þat olifutré sem stendr við píslarváttsins gröf blómgast á hverju ári hans hátíðardag fögru blómi með fullum ávexti fyrir guðliga gjöf. Greindar borgir, þar með öll nálæg heröð, lönd ok ríki, þorp ok kastala lagði keisarinn[8] undir sik, sum meðr auðveldi ok góðum friði, sum með list ok vitrligum klókskap, sum með miklum háska ok stóru erfiði, sem einkanliga fjórar svá heitandi borgir Venzosam, Kapariam, Sonoram ok Odam, ok hina fimtu til[9] er kallast Lucrinam, hver stendr in Valle veride, hverja hann umsitr þrjá mánaði í[10] síðastu, ok fékk meðr engarri list né nökkurskonar harðfengi hana unnit, þar til er hann kallar til fulltings heilagan Jacobum, biðjandi at svá lemi hann styrkleik Lucrine sem fyrrum Pamphilonie, hvat er svá gerist senniliga, at engir sterkir borgarveggir mega móti öflgast tilkvámu guðs postola. Ok sakir þess stóra erfiðis er Karlamagnús þoldi fyrir þeim borgum, bölvar hann þeim meðr sínum grundvöllum, hverja hans gerð guð styrkir svá at ein fúlasta kelda hafandi í sér svarta fiska ok illiliga sprettr upp í greindri Lucrina, ok engi maðr þorði síðan byggja þessar fimm borgir sakir keisarans ummæla. Ok þau skurguð, hof ok hörga er keisarinn fann in Hispaniis, lét hann brenna eyða ok niðr brjóta, ok allan heiðingligan lýð er frá vildi snúast fyrri vantrú skírði ágætr herra Turpin erkibyskup meðr keisarans ráði, enn aptr snúandi alla þá til fyrra siðar er fyrirlátit höfðu sína trú er forðum viðtóku þeir fyrir læri-

[1]) [undraðust heiðnir menn *b.* [2]) hann ok *b.* [3]) forfágat *b.* [4]) Perocium *b.* [5]) þeim *b.* [6]) Acennoa *b.* [7]) Torqilatus *b.* [8]) hann *b.* [9]) *mgl. b.* [10]) *mgl. b.*

sveina Jacobi. En þeir allir er svá váru fagnaðarlausir, at heldr vildu þola skjótan dauða en taka trú rétta, váru drepnir eða í þrældom teknir.[1] At þessum hlutum fagrliga fyldum snýr Karlamagnús vestr til Compostella samanlesandi alla smiðu af sínu landi ok[2] hagastir máttu finnast, ok lét reisa eitt[3] stórt mustari með góðum kosti í þakklætis gerð viðr heilagan Jacobum. En er kirkjan er alsmíðuð, sœmir hann hana margri prýði, klokkum góðum, fríðum bókum, sœmiligum skrúða með öðrum bezta búnaði, skipaði[4] henni til dagligrar þjónostu hreinlífra manna samnað eptir reglu heilags Ysidori, leggjandi svá mikit gótz þangat til í föstu ok lausu sem þar þjónandi menn gnógligast hafa þurftu. Hér með lætr hann eigi síðr víða um landit heilagar kirkjur uppreisa, örliga veitandi til þvílíkra gerða þat mikla gull ok silfr sem honum höfðu offrat konungar ok aðrir höfðingjar Hispanie. Sem Karlamagnús hefir þrjá vetr dvalizt í þessum löndum ok starfat þvílíka hluti sem nú hafa mátt heyrast, birti hann fyrir sínum mönnum, at hann ætlar til Franciam heim at ferðast, en gefa Hispanias til varðveizlu allsvaldanda guði ok undir dyggiliga forsjó hins heilaga Jacobi.

3. At frelstu ríki Hispaniarum ok í góða[5] stétt skipaðu heldr ágætr herra Karlamagnús keisari brott af Hispania með sínu liði, hafandi með sér mikit gull ok silfr aptr í Galiciam (!), heim sœkjandi heilagan[6] guðs vin Dionisium er hvílir í frægri borg París, kallandi saman allan borgarinnar lýð ok af nálægum stöðum ok gerir þeim [kunnigt þann[7] fræga sigr, er allsvaldandi guð hefir veitt fyrir árnan heilags Jacobi í frjálsing Hispanialands, segir þat móti líkendum sakir þess litla mannskaða er þeir féngu við svá mikinn múg Saracenorum sem landit höfðu at halda, því eggjar keisarinn á at allir þvílíka hluti heyrandi gefi lof údauðligum guði ok hans elskuligsta vin Jacobo postula höfðingja Hispaniarum; segir ok at í þakklætis [merki ok elskubragð[8] Jacobi[9] ætlar hann kirkju reisa láta honum til dýrðar í borginni París áðr hann fœri brott; þar með birtir hann eigi síðr, at hann vill auka sœmd hins heilaga Dionisii ok hans kirkju í sjálfri París á þeim tíma, ok ambana honum svá þat[10] fulltíng er hann trúir Dionisium sér hafa veitt í þessarri ferð. Ok svá gerir hann, því at allr lýðr gaf gott samþykki til alls þess er keisarinn vildi.[11]

4. Næstu nótt eptir þessa hluti sem nú váru greindir, [var Karlamagnús keisari genginn[12] inn í kirkju Dionisii, ok vakir þar um nóttina biðjandi sér hjálpar af guði [ok öðrum,[13] biðr keisarinn þess

[1]) reknir *b.* [2]) sem *b.* [3]) harðla *tilf. b.* [4]) hann *tilf. b.* [5]) góðan *b.* [6]) háleitan *b.* [7]) [kunnan hinn *b.* [8]) [bragð ok elskumark *b.* [9]) Jacobo *b.* [10]) fyrir *b.* [11]) vera láta *tilf. b.* [12]) [gengr Karlamagnús keisari *b.* [13]) [*mgl. b.*

ok einkanliga með góðfúsu hjarta, at heilagr Dionisius þiggi af guði þeirra manna sálum aflausn synda, sem fallit höfðu in Hispaniis fyrir vápnum heiðingja. Ok eptir bœn[1] algörva sofnar keisarinn, ok þegar birtist honum heilagr Dionisius talandi svá til hans meðr blíðum orðum: Karole, segir hann, heyrð er bœn þín, því at ek hefir þegit af guði fyrir meðalgöngu vinar þíns Jacobi, at allir þeir sem þínum áminningum hlýða ok fallit hafa á þessum tímum in Hispania[2] ok falla munu, skolu öðlast fyrirgefning allra sinna misverka meiri sem minni. Eptir þetta hverfr Dionisius á brott, en keisarinn vaknar þakkir gerandi almátkum guði, ok þegar um morgininn eptir birtir hann vitranina. En allir heyrandi menn lofa allsvaldanda guð fyrir þvílíka miskunn. Síðan lætr keisarinn reisa eina kirkju í París til dýrðar Jacobo. Eptir þat gert ferr keisarinn brott af París til Aqvisgranum, í hverjum stað hann sat optast, þá er hann var heima í Franz, því lætr hann þar reisa eina kirkju harðla mikla með fríðasta kosti er fá kunni til heiðrs ok æru virðuligrar guðs móður jafnan meyjar sancte Marie. Í þessum stað lætr keisarinn upp smíða aðra kirkju til virðingar[3] Jacobo postula. [Þriðja kirkja[4] Jacobi smíðast við borg Tholosam, fjórðu kirkju lætr Karlamagnús uppreisa til sœmdar[5] Jacobo miðil borgar Azam ok staðar hins heilaga Johannis er kallast Sordue, hjá þeirri kirkju liggr eitt stræti er nefnist[6] Via Jacobita Hér með gerir hann víða klaustr guði til lofs ok heilögum Jacobo. Nú sem Karlamagnús keisari starfar þvílíkt fyrir íblástr heilags anda sér ok öðrum til sáluhjálpar, skal heyra þessu næst hvat annarr höfðingi af úlíkum anda uppkveiktr vinnr sér til frægðar.

5. Á þessum tíma var yfir Affrica sá heiðinn konungr er hét Agulandus mikill ok sterkr. Hann átti sér eina frú stórrar ættar, eptir því sem þvílíkum konungi byrjaði, hon var vitr kona, kurteis ok harðla væn, svá at engi mátti fríðari finnast í öllu ríki Affrice. Þau Agulandus áttu einn son er hét Jamund, hann var ungr maðr fullr af drambi ok metnaði, stinnr ok sterkr, harðr ok vápndjarfr, sem síðar mun birtast. Agulandus konungr var stórliga ríkr, svá at einum heiðnum konungi byrjaði eigi meira ríki at eignast, því at meir en tuttugu kórónaðir konungar váru undir hann skattgildir, ok réðu þó sumir af þeim mörgum ríkjum. Þeir höfðingjar er í þenna[7] tíma ríktu í Affrica váru margir frændr Agulandi mjök nánir, sumir hans heimuligstu vinir. Margar þjóðir útöluligar géngu undir hans ríkdóm,[8] þótt hér nefni fár, þat er at skilja: Saraceni, Mauri, Moabite, Ethiopes, Nardi, Affricani, Perse; ok svá segja vitringar

[1]) bœnina *b.* [2]) Hispaniis *b.* [3]) dýrðar *b.* [4]) [*saal. b*; þriðju kirkju *B.*
[5]) dýrðar *b.* [6]) kallast *b.* [7]) þann *b.* [8]) ríkdómi *b.*

heiðingja at þótt enn fljótasti múll til tekinn af Jórsalalandi fœri út sumarfullum[1] dagleiðum muni hann eigi fá hans ríki umkringt. Jamund son Agulandi var manna mestr, fríðr sýnum, vel á sik kominn, ok sakir þeirrar elsku er Agulandus hafði á syni sínum gaf hann honum kórónu ok veitir honum til þjónastu marga höfðingja, en [skyldi ríki taka eigi fyrr til stjórnar[2] en eptir hann dauðan.

6. Nú sem Jamund hefir þvílíka sœmd fengit, digrast hann undir höndum ok samnar saman sér til fylgdar unga menn ok úráðna, hverra félagskap Jamund sœkir ok þeirra ráðum gjarna hlýðir, er[3] hvárki kunnu honum góð ráð né sér sjálfum. Því ferr hann nú mörgu fram, er Agulando þikkir mjök í móti, því at þá menn tekr hann undir sína vináttu, sem fyrir fulla sök rákust brott af[4] föður hans þjónastu. En sakir þeirrar ástar er Agulandus hefir á syni sínum ok þess mikla ótta er af honum stendr, þorir engi [nökkut til leggja[5] hans framferða. Því stendr svá búit hans mál, þar til er Agulandus fréttir þat sannliga, hversu Karlamagnús keisari hefir frelst Hispanias með styrkri hendi af Saracenis, hvaðan[6] af hann reiðist ákafliga ok kallar saman alla spekinga ok mest háttar menn í einn stað, ok talar svá sem hér má heyra: Góðir höfðingjar, segir hann, ek trúi öllum yðr kunnigt orðit, at þat várt skattland er kallast Hispania ok várar þjóðir hafa langa tíma haldit, er nú undan gengit váru valdi fyrir ofmikinn uppgang kristinna manna; því at svá er sannliga flutt, at sá þeirra höfðingi er Karlamagnús heitir hafi dirfzt til þeirrar úvináttu við oss ok guði vára at herja upp á Hispanias, ok drepit niðr mennina, eytt borgirnar, hofin niðr brotit, guðina sundr lamit ok allri þeirra fágan görsamliga fyrirkomit, en alt land undirokat þann sið er mínu hjarta er mjök úþekkr. Nú þá er ek heyrði þvílíka hluti, óttast[7] nökkut minn hugr, því at ek veit eigi svá görla hvat yðr sýnist ráðligast, en þess vilda ek nú víss verða. Því næst stendr upp einn konungr Ulien at nafni, hann var þykkr[8] ok sterkligr ok í sínum framburði mjök ákafr ok fljótr til reiði, ef nökkut gerðist honum í móti, digraðist hann af miklum ríkdóm ok stórri ætt, því at hann var systurson Agulandi, hvar fyrir hann talar djarfliga ok segir svá: Agulande,[9] eigi byrjar yðr svá ríkum konungi mikils at virða þótt fátœkasta land Hispania hafi undan gengit yðvarri tign, fyrir þat[10] at svá skjótt sem þér vilit má þat aptr vinna, ok hvat annat af eigu kristinna manna sem þér kjósit, ok margir af yðrum köppum munu þikkjast betri riddarar en ek, ok veit þat Makon, at engi skal svá mikill í Frankismanna liði, at eigi gangi

1) til sjáfar fullum *b*. 2) [eigi skyldi hann ríki taka til stjórnar fyrr *b*. 3) *saal. b*; ok *B*. 4) or *b*. 5) [til at leggja nökkut *b*. 6) *saal. b*; hveðan *B*. 7) óttaðist *b*. 8) digr *b*. 9) *mgl. b*. 10) því *b*.

ek djarfliga í móti tveimr eða þremr. Óttizt ekki,[1] herra. at leiða yðvarn her til Hispanias, ek játti yðr senniliga, at alt þeirra megn skal eigi meira standast en þessi litla hálmvisk, er ek saman þröngi minni þykku hendi. Svá talar hinn drambvísi Ulien, er úgörla veit hvat hann segir. Agulandus svarar: Vel talar þú, Ulien frændi, ok svá mun beint vera; framarla má ek treysta þínum riddaraskap ok annarra kappa minna. Ok meðr því at Jamund son minn er höfðingligr maðr, byrjar honum héðan af at halda miklu ríki, en ek vil með engu móti mínu veldi sundr skipta, þá ætla ek vinna eigi at eins Hispanias heldr[2] þar með alla Jtaliam honum til handa ok setja hans sæti í Róma, er beztr[3] staðr kallast í þeim löndum. Ok til þess at svá gerist, skolu vér at hyllast sjálfa guðina; at þeir meðr oss frammi standi ok hefni síns[4] skaða á várum úvinum ok sínum. En þótt margir várir guðir[5] sé miklir, hafa alt eins mestan höfuðburð fjórir af þeim, þat er at skilja, hinn máttugi Machon ok enn völdugi Maumet ok digri Terrogant ok sterki Jupiter; þá fjóra skolu vér láta meðr oss í för verða. Ok til þess at þeir leggi fulla alvöru fram í várt fullting, skolu vér þann mesta heiðr þeim til sœmdar veita, sem vér erum skyldugir, þat er at búa þá alla með skærasta gulli, setja dýrastum[6] gimsteinum, ok grafa með frábærum hagleik. Ok sakir[7] þess at í allri Affrika finnast hvárki svá listugir meistarar né sá dýri kostr sem tilheyriligr[8] sé sjálfum guðunum, skal þá senda fram í Arabiam, er gnógliga grœðist[9] öllum dýrastum auðœfum, gulli ok gimsteinum, til þeirra hagastu smiða er í því landi eru, at þeir prýði vára guða með þeim fríðasta kosti, er þar kann fá, því at senniliga byrjar, at svá sem vér erum meira ríkdóms en nökkurr annarr konungr í veröldinni, svá sé ok þeir guðir[10] sem vér dýrkum hverjum guðum glæsiligri ok með meira kosti. Sem konungrinn hætti sinni rœðu, hlupu[11] allir upp með einu háreysti ok segja svá: Öll guðin hjálpi yðr, góði konungr,[12] ok laði til sinnar vistar fyrir svá mikla sœmd, sem þér veitit þeim til virðingar. Síðan slítr konungr þingit, ok ferr hverr til sinna staða.

7. Nú gerir Agulandus sendimenn til Arabiam með guði sína. dveljast þeir svá langan tíma í þessarri ferð sem líkindi váru[13] á. En í þeirra brottferðar tíma géngu[14] margir vinir Agulandi fram eggjandi at sem fyrst haldi hann sínum her til Hispaniam, hverra orðum hann tekr harðla vel, ok segir at svá framt guðin koma heim, skal hann sinn her búa. Hér með er eigi síðr Jamund áeggjaðr af sínum vinum, at hann standi nú langt[15] fram með föður sínum

[1]) eigi *b.* [2]) ok *tilf. b.* [3]) hæstr *b.* [4]) várs *b.* [5]) guðar *b.* [6]) með dýrmætum *b.* [7]) sökum *b.* [8]) tilhœfiligr *b.* [9]) *saal. b*; greiðist *B.* [10]) guðar *b.* [11]) hljópu *b.* [12]) herra *b.* [13]) eru *b.* [14]) ganga *b.* [15]) vel *b.*

ok afli sér ríkis. En hann gefr sér um fátt, lætr Agulandum einn bera[1] straum fyrir þessarri ferð, þikkir eigi mjök miklu varða, þótt [hann fái nökkura sneypu;[2] ok ef svá verði,[3] ætlar hann sakir mikillar drambsemi ganga fram djarfliga ok vinna alt ríki undir sik með tilstuðning sinna manna, því at hann þikkist þat skilja,[4] at Agulando gengr þat mest til at berjast [til ríkis[5] við kristna menn, at koma honum brott or Affrika, ok virðir svá sem faðir hans vili ræna hann sinni föðurleifð.

8. Nú sem sendimenn nálgast heim, ríðr Agulandus langt á veginn móti þeim með miklum prís til virðingar við goðin, því at mikil forvitni er honum á, hversu þeirra frægð[6] ok prýði hefir skipazt. En þegar sem hann lítr[7] þá svá glæsiliga,[8] sem engir máttu finnast þvílíkir, gengr hann nær or vitinu sakir þeirrar vanstiltrar gleði er hann fékk í hjartanu. því at svá sögðu spakir menn heiðinna þjóða, at með þeim dýrastu gimsteinum, gulli ok silfri, er þessi bölfaðu skurgoð væri með prýdd, máttu auðveldliga kaupast sjau hinar sterkastu borgir. Sem Agulandus kemr aptr til sjálfs síns, er verr var, talar hann svá til þeirra er hjá standa: Hverr sá nökkura guði svá völduga sem þessa? Nei, nei, víst alls engi. Ok ef þessir líta til sinna úvina[9] ok várra reiðum augum ok ygldum brúnum, mun alt þeirra afl í fölska niðr falla; því at nú hafa þeir[10] þegar þat unnit í ömbun várrar gerðar, at Karlamagnús hefir brott farit af Hispania til sinna landa, stendr þat ríki eptir höfðingjalaust, ok því þarf eigi annars en vér sýnim Karlamagnúsi ok Hispanialandi nökkurn lítinn hlut af várum ríkdómi[11]. En ef nauðsyn biðr[12] meira afls, sem goðin láti eigi vera, þá er gott af gnógu at taka. Allir segja at svá er geranda. Lætr Agulandus nú blása hvellum lúðrum ok samnar saman miklum mannfjölda af nálægum borgum, velr þar af síðan svá margt[13] sér til fylgdar sem honum líkar. Sem herrinn[14] er búinn ríðr Agulandus út af sinni borg með miklum heimsins metnaði fram til sjófar. Eru þá búin skjótliga skip bæði mörg ok stór hlaðin meðr vænasta kosti er hafa þurfti, vist[15] ok drykk, gulli ok silfri, hestum ok klæðum ok alls háttar gœðum. Stígr síðan hverr ok einn út í þat rúm sem ætlat var. Drambar Agulandus konungr mjök[16] af sínum styrk, því at hann þóttist nú öruggr um, at engi hlutr megi honum bella, því at í sinni fylgd hefir hann fyrr greinda guði fjóra, er hann væntir sér af alls fulltings, hvat því verr man gefast sem meir[17] er treyst. Þar er Jamund

1) brjóta *b.* 2) [faðir hans fari nökkura sneypuferð *b.* 3) verðr *b.* 4) vita *b.* 5) [*mgl.* *b.* 6) fegrð *b.* 7) sá *b.* 8) vel búna *b.* 9) *saal.* *b*; vina *B.* 10) þau *b.* 11) ríkjum *b.* 12) beiðir *b.* 13) lið *tilf.* *b.* 14) þessi herr *b.* 15) mat *b.* 16) nú mikit *b.* 17) meira *b.*

son hans ok margir aðrir höfðingjar, konungar, jarlar, hertogar ok barúnar. En þessir eru einkanliga hersins foringjar sem hér greinast: Gezbin[1] konungr af Arabia, Bacales konungr af Alexandria, Avit konungr af Bugie, Aspin konungr af Agapia, konungr Famni[2] af Marab, Alfingr konungr af Mariork, Manio konungr Mecque, Ebravit af Sibil. Með þessum siglir konungr Agulandus brott or Affrica, er hans ferð hin skrautligasta,[3] því at víða leiptrar af á sjóinn brott, þá er sólin fagrt skein á búnar snekkjur, gyld drekahöfuð, glóandi veðrvita, segl einkar sœmilig með ýmissum litum, rauðum sem blóð eðr hvítum sem snjór. Ok ef Agulandus heldr meðr [svá mikilli[4] mekt heim til Affricam vegnar honum [vel ok[5] betr en skyldi.

9. En þegar þessi guðs úvinr kemr in Hispanias með sínum þjónum, gerast[6] skjótt umskipti, því at Karlamagnús keisari er eigi nærri[7] en heima í Frans, en landit höfðingjalaust, hvar fyrir þessir fjándans limir stríða upp á guðs hjörð ok [hans helgasta postola[8] meðr miklum herskap, brjóta niðr alla kristni, drepandi kristna menn eðr brott reka í útlegð, en skipa í staðinn svívirðiliga heiðni með djöfulligri þjónkan bölvaðra skurgoða. En hvat munum vér ætla mega fyrir hverja [skynsemdar grein[9] blezaðr guðs postoli Jacobus [rœktar þanneg[10] geymslu Hispanie, hverja hann viðrtók þann tíma er Karlamagnús fór heim í Franz, at hann lætr enn sitt land undir gefast vald ok yfirboð bannsettra heiðingja ok leyfir at niðr brjótist kirkjur en hof með hörgum upp reisist; því at görla veit Jacobus, at engi sœmd veitist hans ljúfa meistara Jesu, meðan synir Heli yfirbjóða. Nú þá hvat mun honum til ganga svá mikillar þolinmœði, utan þat at honum þikkir Karlamagnús keisari meðr minni mœðu strítt hafa fyrir Hispanialandi en honum virðist tilheyriligt þeirri krúnu, er keisarans bíðr í himinríki; þat annat, at enn hafa miklu færri gefit sitt líf fyrir frelsi Jacobi af húsi Krists ok Karlamagnús en postolinn hefir ætlat, ok því vill hann at eflist styrkar orrostur ok hann megi alla þá með sér til himinríkis laða, sem honum líkar ok hans land verja; þat þriðja má honum vel til ganga, at suðrhálfan þröngist stórliga mjök af fjöld ok forzi bölvaðra heiðingja, ok því er nauðsyn, at þeir rými nökkut veröldina ok sœki heim til helvítis vini sína Makon ok aðra fulltrúa. Fyrir þvílíkar greinir guðligra skipana gerir Jacobus postoli svá ráð fyrir, at Karlamagnús konungr verðr[11] víss hins sanna hvat Agulandus konungr af Affrika ferr fram móti guði, ok móti þeim tíðendum skipar hann sér á þann hátt er nú skal segja.

[1]) Texbin *b.* [2]) Fantin *b.* [3]) skörnligsta *b.* [4]) [jafnmikilli *b.* [5]) [*mgl. b.* [6]) þar *tilf. b.* [7]) nær *b.* [8]) [hins helgasta postula Jacobi *b.* [9]) [grein skynsamliga *b.* [10]) [lætr þann veg rœktast *b.* [11]) verði *b.*

10. Þenna tíma er þvílíkir hlutir fara fram in Hispaniis, sem nú hafa verit greindir, sitr ágætr herra Karlamagnús í Aguisgranum í Franz, ok er hann fréttir þau hörmungar tíðendi hryggist hann mjök í sínu hjarta ok kveikist meðr miklu kappi guðligs vandlætis, sendir þegar boð ok bréf hvervitna út í ríkit, bjóðandi at allir höfðingjar meðr sínum styrk komi til Aquisgranum sem fljótast. En sakir þeirrar miklu elsku ok sannrar hlýðni er keisarans undirmenn höfðu viðr sinn herra, flýtir hverr ok einn sinni ferð eptir hans boði, meiri maðr sem minni, fram í þann stað sem ákveðinn var; koma þeir fljótast er nálægastir váru. Nú sem margir stórhöfðingjar Frankismanna eru samankomnir í nefndan stað, en þó hvergi nær[1] þeir allir sem kallaðir[2] váru, ríss sjálfr keisarinn upp ok talar svá: Guð ömbuni yðr, góðir höfðingjar, þá auðmjúku undirvorpning, er þér veitit mér fyrir guðs skyld, því at ek játti at margir af yðr væri betr til fallnir en ek þvílíkrar tignar sem ek stendr í, er þér gerit yðr liðuga nótt með degi mínum vilja ok yfirboði, svá at jamglaðliga leggi þér fram yðvart líf firir guðs ást ok vára, sem alt annat er þér hafit halda, hvat yðr gjaldi sannr guð ömbunari allra góðra hluta. En fyrir hverja sök ek hefi nú kallat yðr saman, skal ek birta. Mikit hrygðarefni er at komit mínum eyrum, því at senniliga segist þat, at sú kristni er land Hispanie eign vinar míns heilags Jacobi viðr tók guði samvinnanda meðr várri atgöngu, sé nú görsamliga eydd ok fóttroðin af hundheiðnum konungi Affrice Agulando at nafni. Ok meðr því at ek skil at blezaðr Jacobus mun svá til ætla, at ek ok mínir menn skylim enn frammi standa hans jörðu til lausnar, sér til sœmdar, en oss til sálubótar, þá heyrit, mínir góðu vinir, at þessum her skal ek halda til Hispanialands ok öðlast, hvárt sem guðlig forsjó vill skipa, fagran sigr eða skjótan dauða, því at ek trúir at heilögum Jacobo þiki vér allvel lengi hafa haldit kyrrsetuna. Nú þó at eigi sé allir þeir hér komnir sem guð mun oss til liðveizlu senda, skolum vér alt eins búa þetta várt lið sem bezt at hestum vápnum ok klæðum, ok flytja várn her fram í þann stað Hispanie, sem oss sýnist viðrkœmiligr at bíða þeirra liðsmanna, sem síðar[3] kunna[4] til koma. Væntir ek ok þess, ef heiðingjar frétta at vér sém þeim nálægir, at þeir muni údjarfligar landit yfirganga. Allir er heyrðu þvílík orð keisarans, svöruðu sem einni röddu: Góði herra, segja þeir, gjarna viljum vér yðrum ráðum framfylgja í þetta sinn ok hvert annat, svá lengi sem guð lér oss lifa, því at langa[5] tíma hefir yður[6] forsjó vel dugat bæði til andar ok líkama, ok svá trúum vér enn verða meðr guðs vilja ok fulltingi heilags Jacobi postola.

[1]) nærri *b.* [2]) nefndir *b.* [3]) síðan *b.* [4]) kunnu *b.* [5]) langan *b.* [6]) oss þín *b.*

11. Eptir þetta býr Karlamagnús keisari sinn her vel ok kurteisliga, sem engi um aldr þurfti honum lýti fyrir gefa, lyptir síðan sinni ferð brott[1] af Frans meðr svá prúðum[2] flokki, [at engi var þvílíkr annarr í allri Jtalia.[3] Í þessum her váru dýrir höfðingjar, svá at eigi váru vildri til. Var einn af þeim fyrstr ok fremstr ágætr herra Turpin erkibyskup af Rensborg, er fyrr var nefndr, hverr einkanliga var til þess skipaðr af guði ok keisaranum at skíra menn vígja kirkjur ok hafa fram fyrir lýðnum hjálpsamligar áminningar. Annarr höfðingi var Milun hertogi af Angler mágr keisarans, hverr á þessum tíma er höfðingi yfir hans herliði. Þriði kappi var Rollant systurson Karlamagnús, hann var þá jarl Ornonianensis borgar ok hafði fjórar þúsundir hinna frœknastu riddara. Fjórði höfðingi var Oliver jarl Gebenensis, hann var son Rameri jarls ok hafði þrjár þúsundir vaskra riddara. Fimti kappi var Arastagnus konungr Brittanie meðr sjau[4] þúsundum riddara. Sétti höfðingi var Engiler hertogi Aquitanie borgar. Þessa borg Aquitaniam lét fyrst reisa Augustus keisari eptir sögn[5] fornra manna; undir hana liggja mörg heruð með stórum borgum, ok taka nafn af borginni ok kallast Aquitania. Engiler fylgdu fjórar þúsundir hermanna, er kœnastir urðu[6] til alls vápnaburðar, en þó einkar bezt kunnu þeir af bogum skjóta. Sjaundi var Oddgeirr danski með tíu þúsundir góðra riddara. Áttandi Nemes enn kurteisasti hertogi af Bealuer með fim þúsundir. Níundi Gundabol[7] Frísa konungr með fjórar þúsundir. Tíundi Lanbertus af Biturika ríkr höfðingi með tveim þúsundum. Ellepti Samson hertogi Burgundionensis með tvær þúsundir. Tólfti var Eystult[8] jarl af Lingunia með þrjár þúsundir vígra manna. Með þessum greindum ok mörgum öðrum ferr herra Karlamagnús þar til er hann kemr fram í þann stað eðr borg er Benona heitir, þar dvaldist hann meðr sínum her nökkura[9] biðstundar tíma þeirra höfðingja er síðar fóru. Hvar fyrir greina skal þessu næst þann atburð, er í þessum stað gerðist meðr þeim hætti sem greindr Turpin erkibyskup, er þetta efni hefir samsett, ritaði með sínum framburði ok svá byrjar.

12. Sem Karlamagnús keisari dvaldist í borginni Benona, sýktist einn riddari af herinum Romaticus at nafni, þar til er hann nálægr dauða skriptast ok tekr dróttinligan líkama með annarri guðs þjónastu. Ok eptir þetta kallar Romaticus til sín einn riddara sér skyldan nökkut lítt ok segir svá: Þú góði vin, segir hann, tak þann fríða hest er ek á ok sel fyrir fulla peninga ok gef alt verðit fátœkum mönnum mér til sáluhjálpar, þegar sem ek er dauðr. Síðan sálast Romaticus, en riddarinn selr hestinn fyrir hundrað skillinga silfrs,

1) út *b.* 2) fríðum *b.* 3) [*mgl. b.* 4) 4 *b.* 5) sögu *b.* 6) váru *b.* 7) Gundebol *b.* 8) Gistubert *b.* 9) nökkurn *b.*

hvat er hann tekr til sín ok gefr eigi[1] fátœkum mönnum, heldr eyðir hann öllu reiðskjótans verði á fám dögum fyrir drykk mat ok klæði, en ætlar eigi nökkut minnsta einum[2] fátœkum. Sem liðnir eru þrír tigir daga frá andláti Romatici birtist hann greindum riddara í svefni ok talar svá til hans með stuttu yfirbragði: Þar liggr þú ok hefir illa gört við mik fyrir þína ágirni, því at þat skaltu vita, at svá sem ek leið á brott af þessu lífi, hafði lausnari minn fyrirgefit mér allar syndir meðr sinni mildi, fyrir þat er ek gaf minn hest hans limum til hugganar; en sakir þess at þú tókt meðr rangri ágirni undir þik þá ölmosu, ok mistu guðs fátœkir menn þeirrar hugganar er ek gaf þeim mér til sáluhjálpar, þá hefir ek þolat margar pínslir þessa stund alla, er frá er liðin mínu andláti. En nú skipar svá guðlig mildi, at þú skalt á morgin koma í minn stað, en ek man leiðast í hvíld paradísar. Síðan vaknar riddarinn felmsfullr ok birti þegar hvat fyrir hann hefir borit um náttina. En öllum áheyrandum[3] þikir undarligr hlutr ok mjök óttanligr, ok sem þeir tala [þetta efni miðil sín,[4] heyra þeir er hjá standa upp í loptit mikinn úkyrrleik með miklum illum lætum, því líkast sem leones rautaði eða úlfar þyti ok graðungar geldi, ok rétt í því grípst þessi riddari brott af manna augliti,[5] svá at aldri [sást hann síðan[6] lifandi. Ok er þessi fáheyrði hlutr flýgr um herinn, fara margir hans at leita bæði á fœti ok hestum fjóra daga í samt, ok finnst [meðr engu móti.[7] En tólf dögum síðar hittist hans líkami laminn í sundr á einu bergi þrjár dagleiðir brott frá því er hann hvarf í fyrstu. Gaf nú öllum skilja, at sá loptsins úkyrrleiki sem heyrðist, var af úhreinum öndum, hverra grimleikr í þeim stað hafði niðr kastat þess vesla manns líkam, en dregit sálina með sér í fyrirskipaðan stað til eilífra kvala. Af þessum hlutum[8] auðsýniliga birtist, hversu þungr löstr þat er í guðs augliti at draga undir sik meðr ágirni þær ölmosur sem góðir menn gefa fyrir sinni sál, hvárt sem þat gera heldr skyldir menn eða úskyldir, því at eigi geldr maðr[9] þeirrar gerðar með því at sá verðskyldar sér mikinn glœp er[10] gerir, en heilög kirkja eða fátœkir menn þarnast[11] sinnar eignar; þar meðr geldr senniliga sál hins andaða, því at þat sem hon hugði sér til hugganar snýst henni til mikillar hrygðar. Hér af má [þat ok[12] skilja, at hvat sem kristinn maðr gefr lifandi[13] fyrir sál sinni eða annarr eptir hann, þá er höfuðnauðsyn at sem fyrst lúkist, því at svá lengi sem góðgörningrinn dvelst nýtr sálin þess eigi algörliga, þar sem hon kvelst í pínu fyrrum en þat er veitt sem játtat var. Lýkst hér þetta mál, en þessu næst skal víkja aptr til Agulandum.

[1]) ekki *b.* [2]) hinum *b.* [3]) *saal. b*; áheyranda *B.* [4]) [millum sín af þessu efni *b.* [5]) augsýn *b.* [6]) [síðar sást hann *b.* [7]) [hann eigi *b.* [8]) lut *b.* [9]) einn *b.* [10]) þat *tilf. b.* [11]) þarfnast *b.* [12]) [ok þat *b.* [13]) *mgl. b.*

at engi sparir annan. Þegja um stund hverr at öðrum, horfir þeirra mál til mikils váða, ef eptir því géngi sem nú var stefnt, en svá gætti guð sinna manna, at þótt hvárirtveggju hefði fullan vilja til öðrum[1] fyrirkoma, at engi fékk gert nökkut meira mein, en áðr var greint af jarlinum. Nú með því at guðs miskunn lítr þá, kemr Oddgeiri danska í hug at spyrja nökkurs sinn leikfélaga, ok talar svá: Hvat manna ertu, riddari? segir hann. Riddarinn svarar: Ek heitir Clares systurson hins fræga hertoga Girarðs af Borgunia, er hegat kom undir Aspremont fyrir fám nóttum at þjóna almátkum guði ok drepa heiðingja; en hvat manna ertu? segir Clares. Hann svarar: Ek heiti Oddgeirr fóstrson Karlamagnús keisara. Clares segir: Minn góði vin, segir hann, [vertu vel kominn.[2] Ok fleygir frá sér sverðinu ok gengr at honum meðr fullu lítilæti, en Oddgeir rennr í móti, ok kyssast með fagnaði. Í annan stað spyrr Nemes hertogi sinn lagsmann, hverr hann sé. Ungi riddari[3] svarar: Ek er son herra Girarðs, en nafn mitt kalla menn Reiners,[4] kómu vér fyrir nökkurum dögum undir fjallit at bera [vára skjöldu[5] móti heiðingjum. Þá segir Nemes: Leggjum[6] af, góði vin, þessum leik, því at ek er hinn heimoligsti vin Karlamagnús. Eptir þat kasta þeir frá sér sverðunum ok ganga báðir saman, haldandi upp höndum til vitnis góðs friðar. Þann veg gera þeir[7] riddarar allir. Ok er keisarinn ok Girarð er sét höfðu á þeirra leik [líta þetta,[8] undra þeir mjök ok hleypa fram hvárr frá sínum her, ok sem þeir mœtast ok viðr kennast, gerðist mikill fagnaðr í þeirra fundi af hvárratveggja hendi.

39. Skjótliga sem þeir hittust Karlamagnús ok Girarð, spyrr keisarinn hvat hertoginn kunni segja til[9] heiðingja. En hann svarar: Ekki, herra, utan þat sem yðr er kunnigt, at þeir hafa dregit saman úflýjanda her, ok þar með vil ek segja yðr, at turn þenna[10] er þér megit líta ok Jamund sat í um stund, er í mínu valdi, ok því gef ek hann ok fimtán þúsundir góðra riddara harðla vel búna upp undir yðra forsjá. Keisarinn þakkar hertoganum fagra görð, spyrjandi með hverjum hætti hann [komst at[11] turninum. En hann segir alt it sanna. Karlamagnús talar þá: Lof sé guði ok sælum Jacobo; en svá lízt mér, at engi kunni betri forsjá veita[12] yðru liði en sjálfr þú; vil[13] ek ljá þér turninn ok þá hluti sem honum fylgja, svá lengi sem þú dvelst hér. Girarð þiggr þat. Í því kemr Fagon merkismaðr meðr öllum herinum, gerðist þá mikill kliðr ok háreysti, er svá margr maðr kom saman í einn stað. Keisarinn ríðr þá upp á eina hæð ok talar hárri röddu svá segjandi: Allir guðs vinir ok

[1]) at *tilf. b.* [2]) [*tilf. b.* [3]) maðr *b.* [4]) Remer *b.* [5]) [várn skjöld *b.* [6]) Látum *b.* [7]) þessir *b.* [8]) [*tilf. b.* [9]) af atferði *b.* [10]) þessi *b.* [11]) [náði *b.* [12]) fyrir bera *b.* [13]) því vil *b.*

mínir[1] gefi hljóð orðum mínum. Senniliga hefir allsvaldandi guð hér saman lesit [mikit fjölmenni[2] af ýmissum stöðum sakir elskuligsta síns vinar Jacobi postola, til þess at frelsa lönd hans undan illum yfirgang Affricanorum, ok veit ek at margir eru komnir bæði fyrir guðs skyld ok mína, en sumir fyrir eina saman ástsemd guðs í himinríki, vilja þó margir nú gefa sik upp undir mína forsjó ok höfðingskap, hvar fyrir vér eigum þess biðja, at guð láti oss þat vel gegna ok hans sœmd aukist þaðan af en minkist hvergi. En ef ek kemr heim í Franz meðr sigri, skal hverjum ömbunast sitt starf eptir tilverkan. Herra Girarð svarar: Gjarna viljum vér, frægi herra, yðrum herradómi hlýða, ok væntum þess at þat gagni oss vel bæði til sálu[3] ok líkama. Þessu næst skipar keisarinn liðinu í fylkingar, váru í fyrstu fylking fjórar þúsundir, fyrir þessi váru höfðingjar Salomon konungr, Jofreyr ok Ankerin ok Hugi jarl af Eleusborg.[4] Þeir höfðu tvau merki [hvít sem snjór,[5] váru þeir stórliga vel búnir at hestum, vápnum ok klæðum. Þeir taka allir höndum saman, at fyrr skulu[6] þeir liggja dauðir en flýja. Í annarri fylking váru sjau þúsundir, því liði stýrði Gundilber[7] Frísa konungr. Þar mátti sjá mörg merki með ýmissum litum, hvítar brynjur, skíra hjálma, gljándi[8] sverð með gullhjöltum, ok rauða skjöldu. Í þriðju fylking váru fimtán þúsundir, þar váru höfðingjar Nemes hertogi, Lampart ok Riker hrausti riddari; þessir höfðu meðr öllu góð herklæði búin víða meðr hreinasta gulli, grœna skjöldu, digr spjót meðr blakandi[9] merkjum. Í fjórðu fylking skipaði hann tuttugu þúsundir hraustra riddara, var hér foringi góðr herra ok dygðugr Vernes meðr öðrum fleirum; í þeirra liði váru stálharðir hjálmar ok silfrhvítar brynjur meðr gulum merkjum ok rauðum. Þrír tigir þúsunda stóðu í fimtu fylking, þeirra höfðingjar skipaðust tveir konungar, einn hertogi ok tveir jarlar, ok er líkligt at Jamund þurfi báðum höndum til[10] taka áðr þeirra flokkr sé rofinn. Séttu fylking stjórnaði gamall höfðingi ok vitr, Droim konungr af Gaschunia, ok hafði fjóra tigi þúsunda; hans lið var stórliga vel búit at herklæðum ok höfðu frá[11] því fljóta hesta sem flestir aðrir, ok allr þeirra búnaðr var sterkligr ok þó kurteiss; stóðu í þeirri fylkingu sjau hertogar allir öflugir ok vápndjarfir. Hina sjaundu fylking skipaðu margar þjóðir, Saxar ok Suðrmenn, Franzeisar ok Flæmingjar, Lotaringi ok meðr þeim riddarar[12] af Púl ok Cicilia; hér var Fagon merkismaðr [ok annarr Oddgeir[13] or Kastram; í þessarri fylkingu váru sex tigir þúsunda. En þessu liði

1) *saal. b*; síuir *B*. 2) [*saal. b*; aukit fjölmennis *B*. 3) sálar *b*. 4) Oleansborg *b*. 5) [snjóhvít *b*. 6) skuli *b*. 7) Gundibol *b*. 8) glóandi *b*. 9) blakandum *b*. 10) vel fram *b*. 11) *saal. b*; fyrir *B*. 12) höfðingjar *b*. 13) [keisarans ok annarr riddari *b*.

skyldi stýra hinn frægasti herra Karolus Magnus son Pippins Frakka konungs; stóðu hér frammi margir ríkir höfðingjar, hertogi Rollant, Oddgeir danski ok aðrir þvílíkir þeirra jafningjar. Nú hefir verit greindr herr kristinna manna; mun Jamund ok faðir hans Agulandus þat prófa, at betra væri þeim heima sitja;[1] því at svá lengi sem guð lofar, munu þessir djarfliga móti þeim fram ganga, svá at öll þeirra ván man görsamliga fyrir verða, ok svá harðan slag munu þeir við taka fyrir sína ágirni, [at þess eins man[2] þá fýsa at bölva þeim ok illa viðrmæla, er þá eggjuðu til þessarrar ferðar.

40. Sem Karlamagnús hefir fylkt liði sínu, stígr hann af hesti ok gengr undir einn við, er var með mörgum kvistum ok gaf af sér mikinn skugga. Hann var þá svá búinn, at einn dýran kyrtil af vildasta klæði, er eximi[3] kallast, hafði hann ok þar yfir rauða skikkju af hinu fegrsta cicladi, samdregna[4] snjáhvítum[5] skinnum; hött eða húfu af skinnum sabelin hafði hann á höfði görfan uppá hœversku Franzeisa með síðum böndum eða tuglum unninn með mestu virkt; en skaptit upp af hettinum[6] var með gyltum knappi meistarliga görfum; hosur hans váru af bezta purpura búnar meðr bezta[7] gulli, þar með huldi[8] hans breiða fœtr kurteisir skúar[9] sœmiliga samdir. Karlamagnús leggr af sér skikkjuna, en steypir yfir sik öruggustu brynju görfa með miklum kosti, því at hon var skær ok hvít af hreinastu[10] silfri; sum var hon rauð grœn eða gul, eigi hafði hon nökkurn tíma bilat; þar yfir utan skrýddist hann þykkum leðrpanzara. Hjálmr var honum settr á höfuð, svá mikil gersemi at engan fann þvílíkan hvárki í her kristinna manna né heiðinna: hann[11] var görr af því stáli er harðast mátti smiðrinn finna, ok grœnn at lit, ein gerð[12] lá um þveran hjálminn grafin meðr flúrum ok laufum, ok víða settr dýrastum[13] gimsteinum. Í hjálminum stóðu svá miklir náttúrusteinar, at engi þurfti sinn dauða at óttast, meðan hann hafði hann á höfði. Síðan var hann gyrðr sverði er heitir Jouise;[14] þat sverð var stórliga vænt bæði mikit ok sterkt, ok ritat með gullstöfum fram eptir eggteinunum. Svá búinn stígr keisarinn upp á þann hvíta vápnhest, er Balam sendi honum. Héldu margir ríkir menn í hans ístig, ríðr hann fram í miðjan herinn. En margar þúsundir hugðu at keisaranum, sem hann var herklæddr á hest kominn. því at maðrinn var stórhöfðingligr, kurteiss at líta, ok þó hermannligr, mikilleitr ok fríðr í ásjónu, meðr snörum augum, breiðr á herðar, digr í öllum vexti ok þrekligr, hinn öflugasti, ok kunni

[1]) setit *b.* [2]) [*saal. b*; en þess einsaman *B.* [3]) *saal. b*; esterin *B.* [4]) með *tilf. b.* [5]) snjóhvítum *b.* [6]) hattinum *b.* [7]) hreinu *b.* [8]) huldu *b.* [9]) skór *b.* [10]) hreinasta *b.* [11]) þessi hinn góði keisarans hjálmr *b* [12]) gjörð *b.* [13]) dýrmætum *b.* [14]) Gaudiola *b.*

einkar vel at bera sinn skjöld. Ok er Girarð lítr keisarann, talar hann til þeirra er hjá honum stóðu: Eigi er þessi herra meðalhöfðingi, at sönnu[1] má hann heita keisari kristinna manna, því at eigi man þvílíkr áðr verit hafa ok líkligt at eigi verði.

41. Karlamagnús keisari sem hann sitr á hesti búinn til bardaga, ok herrinn umbergis svá vel ok kurteisliga herklæddr[2], at réttliga var þeim í mikil prýði er sitt lið jammart bjó þann veg, því engi var sá af þeim mikla flokki, at eigi hefði brynhöttu[3] undir hjálmi, þikist hann[4] nú vita, at skjótt man[5] orrosta takast; því vill hann enn sína menn áeggja[6] fögrum fortölum, þeim til styrktar bæði til sálu ok líkama, ok talar svá: Öllum yðr er vel kunnigt, at almáttigr guð sendi sinn eingetinn son hegat til jarðríkis, ok hann fæddist af heilagri frú ok hreinni mey Marie[7] í þessa veröld til hjálpar öllu mannkyni, er áðr var glatat í synd fyrsta feðrs[8] Adams, hann atferðaðist hér þrjá vetr ok þrjátigi ok tók heilaga skírn af Johanni[9] baptista, hverja hann bauð veitast öllum er hans þjónar vildu gerast, heitandi þeim er hans boðorðum fylgja svá mikla ömbun úþrotnandi sælu, at engi maðr dauðligr fær tjáð né talit, en hótandi þeim hræðiligum píslum eilífs bruna, er þau vili[10] fyrirlíta en ræna hann sinni eign, heilagri kristni, hverja hann merkti sér í úthelling síns dreyra; en nú er öllum auðsýnt, at tveir heiðnir höfðingjar Agulandus ok Jamund hafa nú til þess hingat sótt á hendr oss utan af Affrika at brjóta niðr kristin lög ok svívirða heilaga staði guðs en drepa oss eða reka í útlegð ok setjast síðan í erfð Krists ok þat lán sem hann veitir oss sínum börnum, ok meðr því at hann hefir sent oss hegat at verja hans sæmd ok æru, þá látum oss í hug koma at vér eigum honum at þjóna eða hversu mikit vér eigum honum at ömbuna. Hann tók á sik mart[11] vás ok erbiði[12] sakir várrar hjálpar, en hér á ofan háð ok brigsli [ok áleitni, sár ok[13] kvöl ok krossins pínu], leyfði hann sínar hendr ok fætr gegnum grafast digrum járngöddum, rann or þeim[14] sárum it skærasta blóð; fimta sár þoldi hann á sinni hægri síðu af hvassa[15] spjóti, or hverju fram flaut blóð meðr vatni; en sá sem spjótinu lagði, tók þegar skæra sýn, sem hendr hans dreyrugar snurtu hans augu, sem áðr var sjónlauss. Sé góðir vinir, þvílíkt ok svá mikit vann várr lausnari oss til hjálpar, ok fyrir því skolum vér glaðliga ganga fram móti hans úvinum ok setja várt líf fyrir heilaga kristni ok dauða taka af vápnum heiðingja, ef þat er guðs vili; ok ef svá geri þér, bíðr vár

[1]) *saal. b*; sýnum *B.* [2]) *saal. b*; fóstraðr *B.* [3]) brynhött *b.* [4]) *tilf. b.* [5]) muni *b.* [6]) eggja *b.* [7]) Maríu *b.* [8]) feðr *b.* [9]) Joanne *b.* [10]) vill *b.* [11]) várt *b.* [12]) erfiði *b.* [13]) [með aleitan, sára *b.* [14]) þessum *b.* [15]) hvössu *b.*

ömbun eilífrar sælu, munu vér þá skína í mikilli birtu[1] ok gleðjast allir saman fyrir almátkum guði án enda. Eptir þessi keisarans orð ríðr fram herra páfinn ok talar svá: Hlýðit mér,[2] synir mínir, ek er faðir yðvarr skipaðr af guði góðr læknir sálum yðrum, því[3] trúit mér, ek skal eigi ljúga at yðr. Herra várr Jesus Kristr verandi í þessum heimi valdi sér til fylgdar tólf postola, var þeirra höfðingi Pétr postoli, hverjum guð veitti svá mikit vald, at þat skyldi laust ok bundit á himni ok jörðu, sem hann byndi eða leysti. Vitið án efa, at hann stendr búinn at [styrkja yðr ok lúka upp porti[4] himneskrar paradísar, ef þér djarfliga gangit fram undir keisarans merkjum, einkanliga þeim er nú vilja iðrast sinna synda; ok til þess at af dragi allan ifa yðrum hjörtum, þá leysi ek yðr af öllum syndum meðr því valdi, er guð hefir mér veitt fyrir blezaðan postola Petrum, setjandi yðr þá skript at höggva heiðingja sem stærst, spara hvárki hendr né fœtr, höfuð eða[5] bol, takandi þar fyrir satt verðkaup með sjálfum guði. Allir játta feginsamliga þessum kosti ok styrkjast mjök af herra páfans fyrirheitum, þakkandi honum ok keisaranum sínar fagrar áminningar. Lyptir herra páfinn upp [sinni hœgri hendi[6] ok blezaði allan herinn, ok ríðr brott síðan klökkvandi. Herra Girarð ríðr at keisaranum ok talar til hans svá segjandi: Nú megi þér líta, herra, görla her heiðingja; því leiðit fram yðra fyrstu fylking þeim í móti, en ek skal halda fram mínu liði, því gjarna vilda ek komast í miðja fylking heiðinna manna, ef þat væri guðs vili, ok prófa hvat þar kunni[7] ek ok mínir menn at hafast. Keisarinn svarar: Far í guðs signan, góði vin, ok finnumst heilir, ef guð vill. Heldr keisarinn liðinu ofan í dalinn neðanverðan ok bíðr þar þess sem at höndum kann koma, alvörusamliga kallandi á guðs miskunn ok fullting síns blezaða herra Jacobi postola.

42. Þessu næst skal hér[8] segja af heiðingjum, at svá sem þeir líta her kristinna manna nálægan, þá ríðr fram fyrsta fylking, er Balam var stjórnari fyrir, ok gerðu þeir svá mikinn gný ok þyt at víða heyrði, blásandi hvellum lúðrum, stórum hornum ok digrum trumbum, berjandi á tabur ok skjöldu; útallig merki létu þeir blása með ymsum litum fyrir vindinum, þar með glóaði þeirra búnaðr, gyltir hjálmar, silfrhvítar brynjur, skínandi skildir, svá at strandirnar birtust á tvær hendr af þeirra vápnum. Frammi fyrir brjóstinu ríðr optnefndr Balam, hafði hann steypt utan yfir sína brynju [einum hjúp af hinu bezta[9] purpurapelli til auðkennis. Meðr honum riðu fram fjórir konungar, er því höfðu heitit upp á sína trú at sœkja aptr fjóra höfuðguði Maumet Machon Terogant ok Jupiter, eða koma

[1]) birti *b.* [2]) allir *tilf. b.* [3]) þér *b.* [4]) [lúka upp fyrir yðr port *b.* [5]) né *b.* [6]) [sína hœgri hönd *b.* [7]) kunna *b.* [8]) *mgl. b.* [9]) [*mgl. b.*

eigi aptr ella. Því hábrókast[1] þessir mikit svá, at allr þeirra búnaðr var rjóðr[2] af gulli. En þegar sem fylkingar koma mjök saman, þeyta kristnir menn hvelt heróp, ok eggjar hverr annan til framgöngu. En í því kemr mikill ótti í lið heiðingja, svá at margir þeir sem fyrir litlu hugðust hvetvetna[3] mega vinna, skulfu nú á beinum ok kvíddu sér, ok ef þeir ganga þann veg hræddir móti Franzeisum, munu þeir fá skjótt makliga gisting. Hugi jarl er fyrir var fyrstu fylking Karlamagnús ok hans fjórir kumpánar ríða fram djarfliga or sinni stöðu móti fjórum konungum, er [fyrr váru greindir,[4] ok uppkveiktir miklu kappi fyrir góðan anda skjóta þeir[5] svá styrku skeyti í þeirra flokk, at þrír konungar liggja dauðir á vellinum. En Balam lagði til Huga jarls ok rak hann af baki, en sakir þess at guð bannaði mátti hann eigi koma blóði út á honum. Fyrir þetta sigrmark er guð ok blezaðr Jacobus veitti sínum lýð í fyrstu[6] athlaupi styrktust Franzeisar mjök ok glöddust, hlupu fram með miklum ákafa. Hófst þá bardagi at marki, gerðist mikill gnýr ok úkyrrligt hark, brak ok brestir í þeirra atreiðum, því at Frankismenn hjuggu svá stórt, at eigi var huglausum gott fyrir[7] verða; svá lögðu þeir hart meðr hvössum spjótum, at engi hlíf stóð við. Margr dramblátr drengr féll nú svívir(ð)liga af hesti, svá at aldri reis hann upp á sína fœtr; söðlar týndust, en hestar hlupu er glatat höfðu sínum herrum, hjálmar meðr hausnum klofnuðu, hendr ok fœtr [búkunum af fu' u.[8] Svá gékk Franzeisum nú vel, at þeir sem áðr höfðu nökkut bleyðzt[9] gerðust nú svá snarpir ok miklir fullhugar, at engir váru nú djarfari í sinni framgöngu. Því[10] féll almenniliga þat bölvaða fólk, þar til at þeir kómu þar sem stóðu bogmenn heiðingja, þessir vándu hundar taka snarpt í móti, skjótandi bæði hart ok tíðum af tyrkneskum bogum, svá at búinn var váði fyrir hendi; en í því kom at fram hinn kæri keisarans frændi Rollant ok Oddgeir danski með sínum jafningjum ok réðu þegar svá drengiliga móti bogmönnum, at þeir rákust eigi skemra aptr or sinni stöðu en fjögur örskot, stoðandi þeim hvárki stinnir bogar né stálhörð skeyti, því at Rollant verðr þeim stórhöggr, hvar fyrir drjúgan fellr af heiðingjum, en nökkut af kristnum mönnum ok þó fátt hjá því.

43. En af herra Girarð er þat segja, at svá sem hann hafði búit sitt lið, stefnir hann til atsóknar í hinn hœgra fylkingararm Affricamanna, ok er auðvíst at eigi gefst þeim setuefni, sem þar eru fyrir. Herra Girarð talar þvílíkum orðum til sinna manna: Höggit stórt, þegar þér mœtit herinum, ok prófit hvárt nökkut [kunni þau

[1]) dramba *b.* [2]) rauðr *b.* [3]) hvervetna *b.* [4]) [fyrri greindust *b.* [5]) *mgl. b.* [6]) fyrsta *b.* [7]) at *tilf. b.* [8]) [búkinum af flugu *b.* [9]) dignat *b.* [10]) Þá *b.*

sömu sverð at[1] bíta digrhálsana[2] heiðingja, sem ek hefir yðr til búit, óttizt alls ekki, því at ek er Girarð, er yðr skal drengiliga framfylgja, því at sá er sæll er guði þjónar bæði nú ok at eilífu. Þeir svara: Þat skolu þér sjá mega,[3] at reyna man hvárt [fyrri dignar,[4] vér eða vápnin. Í þessu hleypir fram herra Clares rekjandi sitt merki af digru spjóti, er hann hélt sinni hægri hendi, keyrir hestinn sporum, þann sem hann tók af Jamund, ok rennir at einum ríkum konungi af Affrica Guilimin at nafni, leggr til hans gegnum skjöldinn brynjuna ok búkinn, skjótandi honum dauðum á jörð, ok kallar hárri röddu svá talandi: Góðir félagar, lítit hérna! þessi hinn drambvísi merkti oss völl með sínu hjartablóði, sækit at djarfliga, eigi er öðrum at firr, launum í dag þat brauð ok vín, er guð seðr oss með dugliga, sníðum hold með beinum, en blóði útsteypum ok gefum ærit tafn hrafni ok vargi, því at vér munum öðlast sæmd ok sigr. Svá gera þeir sem hann eggjar, bregða sverðum ok veita heiðingjum stór högg ok gildan slag, meðr engu móti eptir spyrjandi, hvárt sá er konungr eðr þræll sem fyrir verðr. Í þessum svifum snarar[5] gamli Girarð at einum miklum riddara, er áðr hafði drepit marga kristna menn, stautar á[6] honum spjótinu ok lyptir honum or söðlinum, fleygjandi á jörðina meðr þvílíkum orðum: Þat veit sá er mik skóp, at aldri héðan af drepr þú mína menn. Ríðr svá síðan karlmannliga fram, at hverr ok einn sá er honum mætir verðr húíga.[7] Verðr í þessarri hálfu bardagans mikit mannfall, svá at bæði drepast niðr menn ok hestar, fellr ok [nökkut niðr[8] af liði hertogans. Því skal héðan frá snúa at sinni ok geta[9] nökkut af ferðum Jamundar.

44. Sem bardaginn hófst um morguninn hefir Jamund sik fram undan höfuðmerkinu í miðjar fylkingar, bregðandi sverðinu Dýrumdala, ok höggr kristna menn á báðar hendr meðr svá miklu afli, at hvárki hlífir skjöldr né brynja, því at sverð hans klauf jamvel stalla[10] ok steina sem hold ok bein. Hvar fyrir hann vinnr stóran skaða á keisarans sveit; því at svá sem hann sér sínar fylkingar húíga[7] ok vikna, æðist hann æ því meir ok grimmist. Þetta getr líta Oddgeir danski ok talar svá: Almáttigr guð, mikill harmr er mér þat, er þessi vándi[11] heiðingi skal svá lengi lifa ok drepa margan duganda dreng. Hér með snýr hann hestinum, heldr at sér skildinum ok stýrir spjótinu til lags, skundandi þagat sem Jamund var ok einn riddari meðr honum Arnketill or Norðmandi. En er Jamund sér þat, mælir hann til Moram móðurbróður síns: Hér ferr einn maðr lítill

1) [kunnu þau sverð *b*. 2) digrhálsaða *b*. 3) herra *tilf. b*. 4) [*saal. b*; digna *B*. 5) fram *tilf. b*. 6) at *b*. 7) *saal. b*; griga *B*. 8) [mikit *b*. 9) segja *b*. 10) stál *b*. 11) vándr *b*.

vexti at okkr, frændi, hvat mun hann ætla utan leita dauðans? hann skal honum skjótt koma. Því [ríðr hann[1] móti, ok þegar hestarnir mœtast, leggr hvárr í skjöld annars hörðum lögum með svá miklu afli, at hvárgi mátti sínum hluta hrósa, því at báðir koma þeir hvar fjarri niðr hestunum. Oddgeir bregðr sínu sverði, en Jamund Dýrumdala, má nú senniliga Oddgeirr sýnast uppgefinn, nema guð hjálpi honum. En í því ríðr Arnketill at einum miklum höfðingja ok ríkum er hét Boland, ok hjó til hans ofan í hjálminn svá hart, at haussinn klofnaði niðr í tennr,[2] hrindr honum dauðum niðr á jörð, en grípr hestinn þann sem hann reið ok fær Oddgeiri, á hvern hann stígr upp bæði skjótt ok fimliga. Skilr svá með þeim Jamund, ríða nú hvatliga aptr til sinna manna.

45. Nú er bardagi stórliga harðr ok mannskœðr, en þó er æ í þá hálfu mest hark at heyra sem Rollant ryðst[3] um meðr sínum jafningjum, því stórliga kœnir váru þeir sundr sníða hold með beinum, hvar fyrir hlífar spellast, riddarar meiðast,[4] hestar þreytast, Affrikar[5] bleyðast ok vilja undan halda, því at þeirra lið tekr þúsundum falla, en vellirnir eru af manna búkum hestum ok klæðum[6] víða þaktir, svá at þat var eigi minnr en hálf röst, at hvárki maðr né hestr mátti sínum fœti á bera jörð stíga. En hvat[7] má hér framar af segja, en þann dag allan, frá því er orrostan háðist árla um morguninn, stóð æ hin sama hríð[8] alt til þess er náttaði. Bauð hinn helgi Jacobus postoli mörgum kristnum mönnum heim til mikils sællífis á þeim degi af liði Karlamagnús, ömbunandi þeim stinnum mála í eilífri gleði fyrir sitt dagsverk. Nú sem kvelda tekr ok dimma, léttir höggorrostu,[9] ríðr keisarinn ofan í eitt dalverpi með nökkurum mönnum, er hann þá mjök angraðr, því at tveir konungar hafa látit sitt líf ok meir en fjórir tigir jarla ok hertoga ok margt annarra manna. Eigi[10] angraði hann fyrir þá grein þeirra dauða,[11] at hann þœttist eigi þeirra ömbun fyrir vita, heldr fyrir þat at því færri stóðu upp landinu til verndar sem fleiri fóru til guðs.

46. Herra Girarð tekr sér náttstað undir einum hamri, hafði hann látit þrjár þúsundir sinna manna, en allir vildastu riddarar sátu á hestum [í öllum herklæðum mjök móðir af erfiði ok þorsta; en aðrir kristnir menn sátu á hestum sínum á miðjum vígvellinum[12] ofan á dauðum[13] manna búkum. Engi var nú svá ríkr né[14] mikils háttar, at eigi héldi sínum hesti með beisli, en sverð[15] annarri hendi:

[1]) [ríðast þeir *b.* [2]) tenn *b.* [3]) ríðr *b.* [4]) mœðast *b.* [5]) Affricani *b.* [6]) herklæðum *b.* [7]) hverr *b.* [8]) *mgl. b.* [9]) höggorrostunni *b.* [10]) En eigi *b.* [11]) dauði *b.* [12]) [sínum á miðjum vígvellinum, mjök móðir af erfiði ok þorsta; en aðrir kristnir menn sátu í herklæðum á hestum *b.* [13]) dauðra *b.* [14]) eðr *b.* [15]) í *tilf. b.*

engi fékk svá mikil hœgindi at hann leysti hjálminn sér af höfði, hvárki maðr né hestr át né[1] drakk, engum[2] kom svefn á auga,[3] því at allir þóttust skyldir[4] sjálfs sín at geyma hesta ok vápna, því at ein lítil slétta lá í miðil þeirra ok heiðingja; allir sátu þessa nótt meðr ugg ok ótta. Af heiðingjum skal segja þessu næst, at svá sem á leið daginn ok myrkti af nótt, gerðust margir lausir á velli, lögðu skjöldu á bak sér ok flýðu. En er Jamund sér þat, reiðist hann [ok kallar[5] á þá ok mælti: Vei verði yðr, vándir þrælar, senniliga hafi þér svikit mik, snúit aptr ok fyrirlátit mik eigi; því at yður ráð eggjuðu mik á þat svell at berjast til lands þessa. En þó[6] Jamund sé mikill ok kalli hátt, vilja þeir nú eigi aptr hverfa. því at svá hefir þeim at getizt vápnum Franzeisa um daginn, at aldri utan ofríki gangi at munu þeir girnast þeirra viðrskipta. Í því[7] kemr Balam sendimaðr fyrir Jamund ok styðst á hjaltit[8] sverðsins, er hann hélt á, ok talar: Þetta ráð hefðir þú upptekit Jamund. ef ek hefði ráðit, at trúa mínum orðum, er ek kom frá Karlamagnúsi, þá er þér sendut mik at forvitnast um lið kristinna manna, heldr en þola slíka svívirðing, sem þú hefir fengit í dag; því at þat skaltu vita, at öll fyrsta fylking, er þú fram hélt í morgin, er gersamliga niðr drepin, ok þó annat litlu minna,[9] en sumt flýit undan. Nú hefir svá gengit sem ek sagða; bað ek þá at þú skyldir varast, en þú ok menn þínir vildu því síðr veita nökkurn trúnað mínum framburði,[10] at þér sögðut mik til þess hafa tekit fémútur af kristnum mönnum at svíkja yðr, en nú hefir þú nökkut varr vorðit, hvárir sannara töluðu ek eða þeir hrósarar ok mikilátu drambsmenn,[11] er sér í hendi kváðust hafa alt þeirra ríki, ok nú prófar þú hversu mikit þeir afla[12] þér. Jamund svarar: Satt er þat, Balam, oflengi hefir ek þeim trúat, en hvat er nú ráðligast, góði vin? Balam svarar: Tveir eru kostir fyrir höndum; sá annarr at halda undan eða gefast upp á vald keisarans, ok ætla ek öllum munu þat betr gegna: hinn er til annarr[13] at standa[14] karlmannliga ok þola hér dauða: því at eigi verðr þat fals sem ek segir, at Frankismenn stígr þú eigi yfir, ok engi þjóð er þeim jöfn [til hreysti ok riddaraskapar,[15] því at sjá máttu, at þeir sitja á hestum sínum ok bíða yðvar.[16] Jamund svarar: Þat skal mik aldri henda at gefast upp eða brott flýja, meðan vér höfum miklu fleira lið en þeir. Eptir þetta skilja þeir sitt viðrtal.

¹) eðr *b.* ²) manni *tilf. b.* ³) augu *b.* ⁴) til *tilf. b.* ⁵) [kallandi *b.* ⁶) þótt *b.* ⁷) bili *tilf. b.* ⁸) hjalt *b.* ⁹) lið *tilf. b.* ¹⁰) orðum *b.* ¹¹) *saal. b*; drembumenn *B.* ¹²) vinna *b.* ¹³) enn þriði *b.* ¹⁴) ok verjast *tilf. b.* ¹⁵) [í hreysti ok riddaraskap *b.* ¹⁶) svá *tilf. b.*

47. Árla um morguninn þegar sem dagr tekr upp[1] renna, gerir mikinn hélukulda móti sólarinnar upprás. Bjó Jamund þá[2] fylking til fyrstu atlögu, er í váru tuttugu þúsundir, ok fylgir sjálfr; en þeim móti fara fjórar þúsundir Franzeisa, ok eru þeir senniliga of liðfáir. Hófst[3] þegar bardagi með miklu ópi ok háreysti, váru margir mjök þstirðir af kulda ok sárum,[4] en fengu þó at sinni úmjúka lækning, hvar fyrir kristnir menn kölluðu á sinn skapara sér til fulltings, því at senniliga hrygðust þeir af falli sinna félaga. Þegar sem bardaginn tekst, ríðr Jamund grimliga fram í lið kristinna manna ok ætlar at hefna þess skaða, er hann þóttist fengit hafa hinn fyrra dag, leggr sínu digra spjóti til Anzelin or Varegniborg í gegnum skjöldinn brynjuna ok búkinn, fleygjandi niðr af hestinum, ok hirðir meðr engu móti, hverr hans fall eðr dauða kærir. Þar næst ríðr[5] fram Balam ok leggr einn góðan dreng gegnum skjöld hans ok brynju. En í því kemr at fram Oddgeirr danski meðr mikinn flokk riddara. En er Balam sér þat, kippir hann at sér spjótinu ok vendir aptr til sinna manna. En sá er lagit þoldi varð lítt sárr. Oddgeirr gengr nú djarfliga fram, höggr til beggja handa; sér hann at nú fellr fjöldi kristinna manna, því hvílist hann ekki við, gengr í miðjar fylkingar heiðingja, ok í þessarri sókn fær hann handtekit Butram er fyrr var nefndr. Eptir þat ríðr hann aptr í sína fylking ok fréttir túlkinn, hvat hann kunni segja um[6] fyriætlan Jamundar. En hann segir:[7] Jamund ætlar með þvílíku liði vinna Karlamagnús sem nú hefir hann ok þér megit[8] sjá. Ok er Oddgeir heyrir þat, hleypir hann þar til er Karlamagnús var meðr sinni fylgd, var hann þá enn eigi kominn í bardagann, því at þeir byrjuðu fyrst bardagann[9] er á vígvellinum váru um náttina. Þegar er keisarinn lítr Oddgeir, heilsar hann honum fyrr ok spyrr, hversu nú gangi.[10] Hann svarar: Vel meðr guðs vilja, herra; en þó fáit þér nú mikinn skaða, því at margr dugandi riddari lætr sitt líf; en vér kumpánar, er fram riðum í morgin, höfum fengit túlk Jamundar, ok segir hann svá, at fyrr ætli Jamund láta hendr ok fætr en gefast upp eða gera nökkur orð Agulando feðr sínum. Því sendit til herbúða yðvarra ok stefnit hingat öllum ungum mönnum, ok ef þeir koma vel búnir, þá væntir mik, at heiðingjar verði rýrir; því at þótt þeir sé margir, þá eru þeir bæði lítt herklæddir ok illir raunar, þegar með harðfengi er at þeim gengit, en menn yðrir eru margir sárir ok móðir ok[11] sækja svá meðr kappi, at margir heiðnir falla[12] um einn. Ok er keisarinn heyrir orð Oddgeirs, hryggist hann í sínu hjarta ok segir svá: Þá

[1]) at *tilf.* *b.* [2]) fyrstu *tilf.* *b.* [3]) þar *tilf.* *b.* [4]) [sárir ok stirðir af kulda *b.* [5]) *saal.* *b*; leggr *B.* [6]) af *b.* [7]) at *tilf.* *b.* [8]) megut *b.* [9]) orrostuna *b.* [10]) gengr *b.* [11]) at *b.* [12]) falli *b.*

hinn dýrligi herra almáttigr guð, undir hvers valdi ok yfirboði allir skapaðir[1] hlutir standa, mikill harmr er mér, at þat fólk, sem þú, dróttinn minn, gaft mér til stjórnar, skal drepast niðr í mínu augliti af þínum úvinum, þeim er aldri höfðu ást á þér ok jafnan hata þá heilaga trú, er þú bautt halda ok hafa, en vilja nú fyrirkoma þinni sœmd ok grípa undir sitt níðingligt vald þat ríki, sem þú átt ok[2] þínir vinir. Nú er at velli lagðr mikill fjöldi þinna þjónostumanna, þeirra sem til þess váru ætlaðir at refsa þeim sinn úsóma ok hreinsa heilaga kristni af þeirra yfirgangi, því bið ek þína miskunn,[3] at þú styrkir oss en kastir þinni reiði yfir þessa úvini. Hér með kallar ek til þín, hinn háleiti[4] guðs postoli Jacobe, biðjandi at eigi víkir þú frá oss því[5] fulltingi, sem mörgu sinni hefir þú vel veitt, síðan vér kómum í þína þjónostu, því at þat veizt þú, at þú ert efni ok upphaf minnar higatkvámu, ok ef þú lætr hér drepast niðr alla mína hirð, þá mun eigi þat verða framgengt er þú [fyrirhézt[6] þann tíma er þú birtist mér, at þín sœmd skyldi fyrir mína framgöngu aukast í þessu landi. Nú veittu þínum riddarum öruggan hug ok steyp bölvaðum heiðingjum með styrkleik þíns mikla[7] máttar, at þar fyrir lofi allir miskunn guðs ok þína vernd án enda. Sem keisarinn hefir endat sína bœn, talar hann til Oddgeirs danska: Þat ráð sem þú lagðir til skal hafa, at senda eptir öllu því liði, er at várum herbúðum dvelst, því kalli til mín Droim konung ok Andelfreum unga. Ok þegar þeir koma fyrir keisarann, segir hann: Þit góðir vinir, farit skjótliga til herbúða ok segit þat minn vilja, at allir ungir menn ok þjónostusveinar búi sik til bardaga ok komi síðan á minn fund. Þeir játtu[8] því gjarna ok ríða brott til herbúða ok gera keisarans eyrindi, eptir því sem síðar greinist. En [keisarinn býr nú sínar fylkingar fram til bardagans ok hafði[9] þá enn mikit lið ok frítt, lætr hann upp setja sitt höfuðmerki, var þar[10] Rollant ok margir aðrir höfðingjar. Ok er Jamund sér gullara keisarans, talar hann til sinna manna: Nú megi þér líta metnað[11] Karlamagnús, at[12] hann heldr enn til bardaga með liði sínu, ok man ætla oss at sigra; því sœkjum vér[13] djarfliga, því at eigi man enn minni liðsmunr en fjórir[14] móti einum, ok þat lízt mér, at þeir menn hafi meira kapp en forsjá, ef þeir þikkjast várum fjölda mega fyrirkoma. Karlamagnús sem hann kemr at bardaganum, eggjar lið sitt at hefna sinna kumpána, er þar lágu dauðir á vellinum. Riddari Salomon byrjaði fyrstr atreið af keisarans liði ok leggr spjóti til þess konungs, er Bordant hét. Þessi

[1]) *mgl. b.* [2]) eðr *b.* [3]) miskunnsemi *b.* [4]) heilagi *b.* [5]) þínu *b.* [6]) hétst fyrir *b.* [7]) blezaða *b.* [8]) játa *b.* [9]) [keisarans fylkingar búast fram til bardagans, hafði hann *b.* [10]) með *tilf. b.* [11]) ofmetnað *b.* [12]) er *b.* [13]) framm *b.* [14]) sé *tilf. b.*

Bordant hafði sér á hálsi einn hvellan lúðr Olifant, ok þó at [hann væri[1] mikill at vexti ok vel búinn, féngu herklæðin eigi hjálpat honum, ok skýtr Salomon honum dauðum á jörð, en grípr til hornsins í því ok fær náð. Sem Jamund lítr konunginn fallinn, en lúðrinn brott tekinn, angrar[2] hann mjök ok hleypir eptir Salomon svá segjandi: Betra væri þér, riddari, at hafa eigi verit fæddr, því at nú skaltu tapa þínu lífi, hefir[3] þar með sverðit Dýrumdala hátt upp ok höggr í hjálminn kljúfandi hann í herðar niðr, tekr Olifant ok knýtir um háls sér. En í því kemr at farandi góðr riddari Ankerin at nafni ok ætlar höggva til Jamundar. En hann snarast um[4] fast ok klýfr Ankerin í herðar niðr ok talar svá: Nei,[5] kristinn, segir hann, eigi var þat þitt at vinna mér skaða. Ok er Frankismenn sjá svá stór högg Jamundar, vilja flestir leita sér léttara en fást við hann. Nú gerist bardagi stórliga snarpr. Ok er keisarinn vissi Ankerin fallinn, talar hann: Guð drepi þann heiðingja sem þik drap, minn góði vin, ok gjarna meðr guðs vilja vilda ek þín mega á honum hefna, því at þú vart minn elskuligasti fóstrson af bernskutímanum mér trúliga þjónandi; gleði guð nú þína sál, en vér er eptir lifum skolum því djarfligar[6] framganga sem færri eru [til skipta.[7] Meðr þessum orðum kemst hann við í sínu hjarta, en fyllist þó jamfram meðr guðligu kappi ok kallar Rollant frænda sinn svá segjandi: Treystum[8] nú í guðs miskunn ok gerum heiðingjum svá harða hríð, at þeim taki um alt bak. Hleypr[9] fram síðan með brugðnu sverði ok sníðr sundr heiðingja. Hér með sækir Rollant at öðrum megin meðr sínum lagsmönnum, snýr skjótt[10] í þessum stað orrostunnar mannfalli[11] á heiðingja. Nú sjá þeir hvassa hildarvöndu gegnum smjúga þeirra hjörtu, hvar fyrir blóðit tekr or undum renna, sárin svíða, brynjur sundrrifna, en seggir hníga,[12] ok meðr því at fullting Jacobi stendr með kristnum mönnum[13] í þessarri hálfu orrostunnar, skal héðan frá hverfa en ryðja annarstaðar til frásagnar.[14]

48. Nú byrjar at segja nökkut,[15] hvat hinn góði hertogi[16] hefst at, því at eigi er þat ætlanda. at hann sofi eða geri ekki til gagns, þá er þvílíkt er at hrœra. Snemma um morguninn sem lítt er ljóst af deginum, kallar hann til sín frændr sína Boz ok Klares ok aðra höfðingja, er um nóttina dvöldust sem áðr sagðist undir hamrinum, ok talar svá til þeirra: Mínir kæru frændr ok vinir, segir hann, hvat munu vér nú fá at gört, höfum látit mikit af várum liðsmönnum, en harðr bardagi fyrir hendi, utan þat at gefa oss alla undir guðs

[1]) [*tilf. b.* [2]) angrast *b.* [3]) hefr *b.* [4]) við *b.* [5]) Vei *b.* [6]) snarpligar *b.* [7]) [eptir *b.* [8]) Treystumst *b.* [9]) hleypir *b.* [10]) nú *b.* [11]) *tilf. b.* [12]) *saal. b*; gníga *B.* [13]) sótt fall *tilf. B.* [14]) *saal. b*; faagnaðar *B.* [15]) frá *tilf. b.* [16]) Girarð *b.*

forsjá ok vera búnir at setja várt líf út í dauða fyrir hans skyld, svá sem hann virðist háleitr ok heilagr at þola dauða fyrir várar sakir; því ríðum djarfliga móti údyggum lýð heiðinna manna, ok meðr því at völlrinn er víða þaktr af búkum, svá at eigi má hestum fram koma, skolu fimm þúsundir várra manna láta hér eptir sína reiðskjóta en ganga í bardagann, ok veita oss þvílíkt gagn er ríðum sem þeir viðkomast. Allir játta svá gera sem hann vill standa láta. Eptir þetta ríðr herra Girarð til bardagans ok hefir eigi meira lið í fyrstu en tvær þúsundir; hann slæst í lið fram [á hœgra veg fylkingararms[1] keisarans ok ræðst móti þeim tuttugu þúsundum heiðingja, er þar höfðu fylkt, var hans atreið hin harðasta, því at hvárki var oddvitinn huglauss né þeir sem honum fylgdu. Sem Affrikamenn litu tilkvámu hertogans, grúfa þeir niðr undir hjálma sína ok brynjur. Skjótliga hleypa kristnir menn[2] góðum hestum ok öruggum herklæðum búnir, lögðu með spjótum en hjuggu með sverðum svá hart ok stórt, at heiðingjar máttu ekki annat en hlífa sér við þeirra áhlaupi. En þeir sem firr stóðu skutu með stinnastum skeytum, en hertogans menn hirðu þat eigi, því at svá váru þeir nú styrktir af guði, at engi hinn firsti stóð í móti þeim, því at svá váru þeir geystir, at hverjum þótti því betr [at lengra kom sér[3] fram í lið heiðingja; því geymdu þeir eigi þar fyrir sinnar stöðu ok fóru sem lausir. En herra Girarð þat sjándi, kallar hárri röddu ok segir: Frægir riddarar, geymit yðvar vel ok bindizt eigi[4] meðal vándra heiðingja. höldum[5] saman sem bezt, svá at hverr styði annan fyrir utan þeirra fylking, ok hendum þat sem oss stendr næst, látum þá hörfa undan, ok sækjum því fastara eptir sem þeir linast meir. Eptir þessor orð lýstr hann sinn sterka vápnhest sporum, hristir spjótit ok leggr ríkan höfðingja er hét Malchabrun í gegnum skjöldinn, panzarann, brynjuna ok búkinn, skjótandi honum dauðum[6] á jörðina fjarri hestinum, yppir síðan merkinu svá segjandi: Lítit, heiðingjar, þenna lagsmann yðvarn, er lúta varð fyrir mér öldruðum. Þar með talar hann til sinna manna: Höggvit stórt, guð man styrkja armleggi yðra, at mega djarfliga sverðunum beita, nú gengr at málefnum,[7] senniliga birtist at vér höfum réttara at mæla. Í þenna tíma koma þær fimm þúsundir í bardagann, sem hertoginn bauð af stíga sínum hestum. Váru þeir herklæddir beztum vápnum, gáfu þeir heiðingjum stór högg með hörðum spjótlögum, sníða höfuðin af bolunum, kljúfa suma í herðar niðr ok kvista hendr ok fœtr; því heyrast nú ill læti til heiðingja, því at vápnlausir hnigu[8] skjótt fyrir þessum riddarum

[1]) [hjá hœgra fylkingararmi *b*. [2]) með *tilf. b*. [3]) [er sér kom lengra *b*. [4]) engi *b*. [5]) oss *tilf. b*. [6]) niðr *tilf. b*. [7]) málaefnum *b*. [8]) *saal. b*; géngu *B*.

nýkomnum, þorir engi optar en um sinn at leggja sinn[1] feitan búk [undir þeirra vápn.[2] Hér með skal greina, at herra Girarð snýr atsókninni þar til at[3] stóð höfuðmerki Jamundar, ok sakir hvárstveggja at Affricamenn líta atgöngu stórliga snarpa, svá at nú þikkjast þeir at raun komast, hversu gott ok gleðiligt þat er at reyna vápnaskipti Franzeisa, stökkr hverr undan er má, því at þeir staðir sem nökkurri sókn eða vörn mátti viðkoma váru af þeim haldnir, en heiðingjar þyrptust saman upp á þá hina dauðu, sem þykkvast féngu þeir staðit. Sem hertoginn er at kominn mjök[4] þeirri fylking, sem stóð umbergis merkit, risu þeir fast móti um stundar sakir, en þegar at[5] hertogans menn komast at öllum megin, þá viknar skjótt fylkingin. Ok sem konungarnir Magon ok Asperant, er fyrr váru nefndir, í hverra vald ok geymslu Jamund gaf höfuðmerkit, líta hertogann svá nálægt en sína menn falla hvern um annan, tala þeir sín í miðil þvílíkt sem hér má heyra: Satt prófast þat nú, sem Balam forðum sagði af Frankismönnum, at engir munu þeim vera jafnir at hreysti, því at svá miklir kappsmenn eru þeir, at aldri meðan lítit er í þeirra brjósti munu þeir sinn hlut láta. En Jamund gerir nú opinbert sitt dramb ok mikilæti meðr fáheyrðri heimsku, at hann dirfist þess at halda viðr [á bardaga án [Agulando feðr sínum,[6] er þat[7] ok líkara, at þessi hans ofmetnaðr stígi honum sjálfum í höfuð, ok allir er hans ráðum fylgja munu þvílíkrar heimsku gjalda. En at vísu megum vér fól kallast, ef vér ætlum nökkut vinna í þessum stað, þar sem Jamund þorir eigi koma hingat oss til hjálpar. En hvers bíðum vér hér utan dauðans? ok meðr því at hann afrækist sitt höfuðmerki, þá tjóar[8] ekki þótt vit standim; því er þat miklu betra at leita brott or þessum nauðum ok sækja fund Agulandi ok gera honum kunnigt hvat fram ferr. Hvárt sem þeir tala hér um langt eðr skamt, kemr þat saman meðr þeim báðum, at þeir ríða brott undan merkinu gerandi Jamund enga vissu af sinni gerð, komast brott or bardaga mjök nauðuliga, hleyptu hestum sem mest gátu aftekit, ok er af þeirra ferð [framar ekki[9] segjanda. Herra Girarð ryðr nú breiða götu, fylgja honum næst systursynir hans Boz ok Klares ok aðrir mest háttar höfðingjar, en síðan hverr hans manna eptir annan, ok höggva til beggja handa, svá at valköstrinn hleðst[10] hátt upp hjá þeim tveim megin, svá ganga þeir fram undir merkit. Sem hertoginn er þar kominn, talar hann til sinna manna: Höggum djarfliga, Affrika konungr hyggst nú hafa unnit yðr ok eyða[11] land várt ok ríki, en[12] reka oss í útlegð eða selja hörðum

[1]) *tilf. b.* [2]) [*saal. b*; þeirra vápnum *B.* [3]) er *b.* [4]) *mgl. b.* [5]) *mgl. b.* [6]) [Agulandi feðr síns *b.* [7]) því *b.* [8]) þat *tilf. b.* [9]) [at sinni ekki framar *b.* [10]) hlóðst *b.* [11]) eytt *b.* [12]) ætlar at *tilf. b.*

pínslum. Nú mun reynt verða hversu vel þér standit frammi oss at verja, ek em gamall ok því byrjar yðr[1] styðja mína elli ok sœkja því betr sem þér erut yngri. Sem hann er kominn undir höfuðmerkit, sœkir hann meðr svá miklu kappi, at engi þóttist hafa sét þvílíka sókn jamgamals manns, því at hvern þann heiðingja hjó hann til bana í einu höggi,[2] er hans sverð mátti ná, hvar fyrir þeir fella á lítilli stundu meir en tíu þúsundir umbergis merkit. Flýja í[3] brott allir er máttu ok kómu aldri aptr undir þat merki síðan. Stendr þat nú eitt saman upp eptir á vellinum með þeim fjórum olifutrjám er heiðingjar höfðu reist, ok hélt þeim arni[4] er merkit stóð á. Ok er allr sá fjöldi heiðingja var brottu sem merkit höfðu varðveita, sumir flýðir en flestir drepnir, eru menn hertogans margir sárir ok móðir, stígr herra Girarð af hestinum ok stórliga mœddr. Ganga menn þá til hans ok steypa af honum herklæðunum, taka hjálm af höfði honum ok fœra hann or brynjunni, sezt hann niðr móðr[5] af miklu erfiði, stökkr blóð fram[6] or hans nösum niðr á hjálminn, ok menn hans þat sjándi hryggjast þaðan af. En hann talar til þeirra: Verit ekki hryggir fyrir mínar sakir, því at ekki er mér at angri utan þat at heiðingjar lifa of margir: því sœkit fram til bardagans ok veitit drengiliga fullting konungi várum, en þegar er ek hefir niðr steypt þessu merki, skal ek til yðvar koma. Skal nú hverfa héðan brott, en greina hvat annarstaðar ferr fram.

49. Karlamagnús keisari gengr fram einkar vel meðr sínum mönnum, hefir hann enga vissu af, hvat herra Girarð hefst at, því at svá stóð bardaginn þykt ok víða. Ekki vissi ok[7] Jamund, þar sem hann gékk gildliga fram ok drap margan mann með sínu sverði. hvat um leið hans höfuðmerki. Ok sakir þess at hvárigir máttu halda einart sinni sömu sókn,[8] beiddu menn hvíldar ok greindu sundr fylkingar, svá at nökkut lítit hlið varð á miðil; létti þá hinum mesta bardaga, en héldust atreiðir vaskra drengja. Því hleypir Triamodes konungr frændi Jamundar meðr ákafri atreið klæddr dýrum búnaði, haldandi digrt spjót með miklu merki, fram ríðandi at einum riddara Frankismanna, leggr í gegnum skjöld búk ok brynju ok kastar honum dauðum á jörð; ok þegar sem hann hefir sitt hvassa spjót út dregit, hindrar hann eigi sinni framreið, vísar hann því fram annan tíma, leggjandi í gegnum góðan herra Milun hertoga. bróður Bærings brezka ok dregr hans lungu með innifluni út á sínum spjótkrókum, berr hann hátt blóðugt spjótit ok þikist allvel leikit hafa ok hrósar sér fast, ok snýr við svá búit til sinna manna, œpandi hárri röddu svá segjandi: Herra Jamund, segir hann, vertu glaðr

[1]) at *tilf. b.* [2]) *mgl. b.* [3]) nú *b.* [4]) *saal. b*: armi *B.* [5]) *tilf. b.* [6]) þá *b.* [7]) *mgl. b.* [8]) stöðu *b.*

ok kátr, sé hér mitt fríða spjót, hvert fagrliga hefir blómgazt í vörmum dreyra, því at þat hefir nú rétt gegnum smogit hjartaborg tveggja kappa kristinna manna, ok því sækit snarpliga fram, því at þetta ríki er skjótliga alt í yðru valdi, því at aldri héðan af reisa þessir sitt spjótskapt oss í móti sér til verndar. Sem kristnir menn sjá Milun hertoga dauðan, því at hann hafði verit hinn snarpasti maðr til vápns, harma þeir hann mjök, en einkanliga mislíkar þetta Bæringi brezka, hvar fyrir hann fyllist mikillar reiði, keyrir hestinn sporum ok hleypir eptir Triamode svá segjandi: Bíð, heiðingi, [ef þú þorir, því at[1] ek vil hefna bróður míns. En Triamodes lætr eigi sem hann heyri, ok vill eigi við horfa. Því leggr Bæringr, þegar hann kemst[2] í fœri, spjótinu aptan miðil herðanna,[3] svá at út gékk um brjóstit, dregr síðan at sér karlmannliga ok lyptir honum upp or söðlinum fleygjandi honum á jörðina, með mikilli hermd[4] svá talandi: Af baki skaltu nú verða at stíga, þó[5] bæði sér þú digr ok feitr, ok aldri örglast héðan af á þína stirðu fœtr; þú drapt bróður minn ok þóttist hafa allvel leikit, en[6] nú hefir þú hann svá dýrt keypt, at aldri um aldr verðr þú hans arfi. En er Jamund sér Triamodem systurson sinn[7] dauðan liggja á vellinum, harmar hann grátandi hans dauða ok talar mörg[8] kveinkanarorð á sína tungu. Tóku[9] Affrikar dauðan líkamann ok báru í faðmi sér í miðjan herinn, grétu þar[10] ok sýttu.

50. Þessu næst riðu fram or fylking kristinna manna tveir riddarar Riker ok Margant, annarr á bleikum hesti kurteisum, en annarr á grám hesti föxóttum. Margant lagði sínu spjóti til konungs þess er hét Mages:[11] hann átti ríki fyrir utan Jórsalaland, fullr af drambi ok miklum metnaði; en þó hann væri mjök þrútinn af eitri drambseminnar, hjálpaði honum þat stórliga[12] lítit, því at it hvassa[13] spjót kunni greiðliga gegnum fljúga hans búk með öllum herklæðum. En Riker lagði spjóti í gegnum náfrænda Jamundar, þessi hafði haft af sínu[14] ríki hinn hvellasta lúðr Olifant, hvern Jamund berr nú á sínum hálsi: ok er Riker leggr spjótinu fyrir brjóstit, ætlar Gizarið[15] at ríða fram[16] undan laginu, en í því bregðr Riker sverði ok hjó utan á hálsinn, sníðandi af honum höfuðit rétt í augliti allra heiðingja. Ríða báðir þessir riddarar vel af guði varðveittir aptr í sinn stað. Sem Jamund sér þessa tvá frændr sína dauða Triamodem ok Gizarið, en alla völlu hulda af[17] líkum sinna manna. [Því at[18] þar sem bardaginn stóð veitti guð svá mikla miskunn, at

1) [*mgl. b.* 2) kemr *b.* 3) herða honum *b.* 4) grimd *b.* 5) þótt *b.* 6) ok *b.* 7) fallinn ok *tilf. b.* 8) *saal. b*; mjök mork *B.* 9) þá *tilf. b.* 10) þá *b.* 11) Mates *b.* 12) sérliga *b.* 13) hvassasta *b.* 14) *tilf. b.* 15) Gizarð *b, her og senere.* 16) *mgl. b.* 17) með *b.* 18) [*mgl. b.*

svá hjuggu kristnir menn niðr heiðit fólk sem búfé, því gengr þetta alt saman mjök á Jamund, svá at hans ásjána sortnaði, kallandi Balam til sín meðr stóru[1] andvarpi svá segjandi: At sönnu var ek þá heimskr, er ek trúða eigi því sem þú sagðir mér satt. Hvat mun nú af mér verða, fallnir eru tveir frændr mínir, er mik eggjuðu til þessa lands at fara, hugðumst ek treysta mega þeirra riddaraskap, en nú liggja þeir dauðir; því, góði vin, legg til gott ráð, því at eigi veit ek hvern enda eiga mun mín úhamingja um síðir. Balam svaraði: Hvat undrast þú,[2] þótt þér fari þann veg fram? því at aldri mun þat vel út seljast, hvárki [meðr þér né nökkurum[3] öðrum, at una eigi því ríki sem [hann á at[4] réttu, ok ágirnast miklu meira en hófinu gegni ok ræнast til meðr röngu ok[5] grípa annarra eign. En fyrir þat at[6] þú hefir ágirnina, þá byrjaði þér þat með, ok öllum þeim er höfðingjar þikkjast vera, at gera sik [styrka ok stöðuga,[7] kunna vel því sem at höndum kemr, gleðjast eigi of mjök þótt þeir mikils afli, enda bera karlmannliga þótt nökkut misfalli. En sakir þess at ek lagði til þau ráð er ek kunni bezt með yðr, ok vildu þér þau at engu hafa, þá kann ek nú ekki til leggja, mun eigi hverr fara fram sínum ráðum sem líkar, en aldri muntu kristna menn yfirstíga. Jamund svarar: Hversu sem aðrir gera, trúir ek aldri, at þú bregðist mér. Þrífr síðan lúðrinn er Lamn hafði á hálsinum ok þeytir meðr svá miklu afli, at víða kendist jörðin dynja umbergis, en bregðr sverði sínu Dýrumdala keyrandi hestinn sporum ok ríðr at bardaganum fram at einum kristnum manni, höggr til hans[8] sverðinu ofan í hjálminn ok klýfr niðr í búkinn,[9] ok gerir hér á ofan harðastu sókn.

51. Hefst orrosta nú at nýju. Ok meðr því at almáttigr guð vill hepta Jamund at gera[10] skaða á sínum sauðum, vill hann ok tálma hans tröllskap um tíma[11] ok láta frétta þat sem hertogi Girarð hefir svinkat, at þaðan af versni honum[12] í hug heldr en batni. Því kemr einn heiðinn[13] riddari á flugskjótum hesti þar at sem Jamund sækir at sem harðast, ok leiðir hann brott or mestu þröng, byrjandi sitt mál svá: Ho, ho, herra Jamund, segir hann, mikil úhamingja þröngir oss á alla vega; mikil skömm ok svívirðing hefir þér ok öllum þínum mönnum í dag til borit. Ek er nú einn af þeim mörgum, er þitt höfuðmerki skyldu geyma, en í morgin kom at oss einn flokkr, er stórliga[14] mátti lítill sýnast; þeir váru flestir á fæti, frá því betr herklæddir en nökkurir aðrir, allar þeirra bryn-

1) þungu *b.* 2) þat *tilf. b.* 3) [þér né *b.* 4) [maðr á með *b.* 5) at *b.* 6) er *b.* 7) [*saal. b*; styrkan ok stöðugan *B.* 8) með *tilf. b.* 9) kviðinn *b.* 10) mikinn *tilf. b.* 11) *saal. b*; litíma *B.* 12) Jamund *b.* 13) *mgl. b.* 14) sérliga *b.*

jur váru tvísettar eða meir, hvítar sem skærasta silfr, svá öruggar at varla kunni spillast, engi var sá hjálmr á þeirra höfðum, at eigi væri gyltr ok settr gimsteinum, sverðin váru grœn af stáli sem gras; lágr maðr [ok þykkr[1] gékk þar fyrir með miklu kappi, hvern ek trúir verit hafa þeirra foringja; ok svá leika þessir við vára menn, at á litilli stundu drápu þeir meir en tíu þúsundir. Sem hér er komit, vill Jamund eigi bíða lengr ok talar svá: Þegi þú, vándi[2] maðr ok hinn saurugi þræll, því at þú veizt eigi hvat þú segir. Mun ek nökkut trúa framburði þeim, at sœmd míns höfuðmerkis sé minkuð, þar sem þat tóku til geymslu tveir konungar, er ek bezt trúða, ok eigi minnr en hundrað þúsunda styrkra manna. Hvárt sem þér líkar betr eða verr, skaltu enn heyra þaðan af meira: þeir[3] konungar eru báðir brott flýðir, en drepnir þeirra liðsmenn flestir, höfuðmerkit niðr brotit ok komit í vald kristinna manna; nú trú, ef þú vill, þetta verðr þér at sönnu. Ok er Jamund þikist eigi mega við dyljast, fellr svá mikil hrygð honum í hjarta, at næsta fellr hann í úvit. En eptir tíma kallar hann til sín tvá konunga heiðna Salatiel ok Rodan, svá til þeirra talandi með harmsfullu yfirbragði: Góðir herrar, segir hann, svívirðliga eru vér útleiknir á marga vega, höfum látit fjóra guði vára, drepinn er mestr hluti [várs fjölda,[4] en á þetta ofan erum vér ræntir sjálfu höfuðmerkinu, er faðir minn gaf mér sakir mikillar elsku. Nú meðr því at þit hafit lítt eða ekki komit í bardaga, en hafit gott lið ok vel búit, þá dugit nú sem drengiligast, því at lið kristna konungs er drjúgum fallit, en mart sárt ok mótt ok til lítils fœrt, hvar fyrir þér munut auðveldliga stíga þeim yfir höfuð; en ef þat gerist,[5] skal ek ykkr mest háttar setja allra minna höfðingja í þessu ríki. Þá svarar Salatiel: Herra Jamund, óttizt ekki vætta, því at áðr kveld komi, muntu sjá Frankismenn alla dauða. Jamund segir: Vel þeim augum er þat liti,[6] því at allr tregi, harmr með sút hreinsaðist þá í brott or mínu brjósti. Salatiel dubbar sik nú, tekr vápn sín, boga ok örvamæli, ríða eptir þat fram til orrostu með fylktu liði, ok œpa mikit heróp. Eiga guðs riddarar enn at nýju[7] heyja harðan hildarleik. Gerist þá mikill mannskaði í hvárratveggja[8] liði, hnígr nú sýnt á Frankismenn, því at þessi heiðni konungr Salatiel, er var bæði harðr viðfangs ok ramr at afli, fór um it ytra sem einn veiðimaðr, gerandi ýmist, at hann lamdi hlífar en braut bein meðr þeim stóra lurk,[9] er hann hafði sér fyrir spjót, eða af boganum skaut sem tíðast, því at í öllum herinum var engi bogmaðr þvílíkr; hvárki skjöldr né brynja stóðst hans skeyti, því at allir broddar hans örva

1) [*tilf. b.* 2) rauðr *b.* 3) *saal. b*; því at *B.* 4) [liðs várs *b.* 5) gerit *b.* 6) líta *b.* 7) at *tilf. b.* 8) hvárratveggju *b.* 9) lurki *b.*

váru eitraðir, hvar fyrir hverr fékk bana, er hann kom blóðinu út á. Svá berr til, at Oddgeir danski getr líta framferð Salatiels, hvat hann harmar mjök, ok treystandi á guðs miskunn fýsist hann gjarna at koma í leik viðr hann, rennir hestinum sem snarast, ok þegar hann mœtir honum, leggr hann spjóti í hans harða skjöld, ok meðr því at guð sá til með honum, flýgr gegnum skjöldinn, brynjuna ok búkinn, steytandi honum[1] síðan dauðum á jörð. En í þessu hleypti fram Nemes hertogi virðuliga klæddr,[2] sitjandi á enum vænasta hesti ok mœtir Rodan[3] konungi, höggvandi ofan í hjálminn svá hart, at engi hlíf gat hólpit, klauf hann í herðar niðr, hrindr honum síðan af hestinum. Snúa þeir báðir aptr í sína fylking Oddgeir ok Nemes, en Jamund, sem hann sér þessa tvá falla, talar hann: Færri eru vér nú [en fyrir litlu.[4]

52. Eptir fall Salatiels gerist hvíld á bardaganum. Stígr Karlamagnús keisari af hesti sínum ok sezt niðr, samankallandi þá höfðingja, sem eptir lifðu, Rollant, Oddgeir, Nemes, Salomon, Huga, Riker, talandi svá til þeirra: Mínir góðir vinir, hversu mikit lið mun nú standa undir várum merkjum? Þeir svara: Eigi vitum vér þat gerla herra, segja þeir, en þat truum vér, at eigi sé færra en þrír tigir þúsunda. Keisarinn segir: Þat veit guð, at þat er fátt hjá því sem þyrfti, en hvat mun líkast til framferða? Þá svarar Rollant ok Oddgeir: Þat at sœkja sem bezt ok höggva heiðingja svá stórt, at engi hlíf standist, ok ef almáttigr guð sér til kristni sinnar, sem vér trúum, þá mun hann gefa oss sigr á heiðingjum. Sem þeir talast við þvílíka hluti, kemr þar einn riddari, sitjandi á góðum Gaskunia hesti; hann var svá búinn, at eitt digrt spjótbrot stóð í gegnum skjöldinn með fríðu merki ok síðu svá at tuglarnir drógust um jörðina, brynja hans var víða brostin, panzarinn slitinn, hjálmrinn brostinn, blóð rann fram undan hans brynstúkum, því at eitt mikit sár hafði hann miðil herða, hvar fyrir söðullinn var fullr af blóði. Riddarinn kveðr keisarann vel ok kurteisliga, svá segjandi: Guð signi yðr ok styrki, hinn góði herra Karlamagnús keisari. Karlamagnús lítr við honum ok svarar: Guð hjálpi þér, eða hverr ertu, ek kenni þik meðr engu móti. Ek heiti Valterus or borg Salastis, verandi einn af fylgdarmönnum herra Girarðs, er mik sendi til yðvar, en hann sendi yðr guðs kveðju ok sína ok allir hans menn. Almáttigr guð gleði þann[5] gamla herra, en hvar er sá góði vin? Rétt undir höfuðmerki heiðingja, segir Valterus, svá fimr sem fiskr, snarpr sem leó, kátr sem kið, hann hefir niðr höggvit merkit, [drepit suma,[6] en rekit alla á flótta, þá sem þat höfðu[7] varðveita.

1) *tilf. b.* 2) herklæddr *b.* 3) *saal. b*; Alfami *B.* 4) [eptir en áðr *b.* 5) hann *b.* 6) [*mgl. b.* 7) at *tilf. b.*

Keisarinn lofar allsvaldanda guð, ok þikir nú fara vel at[. En með tilstuðningi Jacobi mun nú[1] skjótt um batna. Því skal þessu næst segja, hvat þeir fara fram Droim konungr ok Andelfrei, er sendust til herbúða keisarans, sem áðr var getit. En Karlamagnús skal tala við Valterum ok hvílast meðan.

53. Þegar Droim konungr kom til keisarans landtjalda, var sögð orðsending keisarans, at allir þeir er nökkut lið megi[2] veita skyldu búast, sem bezt væri föng á, ok koma til fulltings við [keisarann ok[3] kristna menn, svá herramenn sem riddarar, ráðsmenn ok þeirra sveinar, steikarar, byrlarar,[4] innverðir ok útverðir, ok hverr er vápnum gat[5] valdit. En við þetta urðu flestir glaðir, því at í þessu liði var fjöldi ungra manna, þeirra er mikil forvitni var á at sjá skipaðar fylkingar ok prófa sína hreysti. Gerðist nú mikit hark ok skjótt umskipti í herbúðum, greip sá beztan hest með vápnum er fyrst náði, aðrir stigu upp á stirða vetrfáka; hér með skáru þeir fögr klæði, pell ok silki eða hvíta líndúka, gerandi þar af merki, hverr bjó sik eptir því sem[6] mátti, stíga eptir þat á sína reiðskjóta. Margir af þeim váru sterkir ok miklir, eru fremstir af þeim fjórir fóstrsynir keisarans, er honum þjónaðu dagliga at borði ok sæng, er svá heita, Estor, Otun, Engeler ok Grelent. Þessir [ríða fyrst[7] fram á brekkuna, er miðil lá búðanna ok bardagans, ok áðr þeir kómu til valsins ríða þeir Droim ok Andelfreus[8] fram fyrir ok koma rétt í þann tíma firir keisarann, sem hann talar við Valterum, ok kveðja hann upp á hátt Franzeisa, svá segjandi: Guð signi yðr, frægasti herra Karlamagnús keisari, son Pippins Frakkakonungs. En hann tekr þeim[9] brosandi ok spyrr síðan: Eru komin ungmenni vár? At vísu, herra, segja þeir. Hversu mikill afli er þat, segir keisarinn. Þeir svara: Nærri[10] fjórum tigum þúsunda. Sem keisarinn þat heyrandi, heldr höndunum með upplyptum augum til himinsins ok þakkir gerir guði með þvílíkum orðum: Lof sé þér, eilífr konungr dýrðar, ok þínum elskara sælum Jacobo postola, því at nú þikjumst ek vita, at skjótt umskipti man[11] á váru máli verða, þá er þessir allir koma á móti liði heiðingja; því köstum niðr öllum[12] angri ok ótta, því at oss man guð veita sitt blezaða fullting. Eptir þat býðr hann Droim konungi víkja aptr móti ungum mönnum ok segja þat,[13] at hverr taki þat af vápnum ok hestum, þeim sem gnógliga[14] mátti á vígvellinum fá, sem [þætti sér henta.[15] Ok svá gera þeir, kasta[16] nú margir þeim búnaði, sem áðr höfðu þeir, [en skrýðast[17] nýjum

[1]) [ok hugsar gott til, at nökkut muni *b.* [2]) mætti *b.* [3]) [*mgl. b.* [4]) byrlar *b.* [5]) fékk *b.* [6]) bezt *tilf. b.* [7]) [ráða fyrstir *b.* [8]) Andelfrei *b.* [9]) *saal. b*; honum *B.* [10]) *saal. b*; herra *B.* [11]) muni *b.* [12]) öllu *b.* [13]) *mgl. b.* [14]) nógliga *b.* [15]) [honum þætti sér heyra *b.* [16]) hafna *b.* [17]) [skrýðandi sik *b.*

herskrúða, takandi þar með fríða hesta, er látit höfðu sína herra. Sem allir eru vel búnir at vápnum ok klæðum: hleypit nú fram drengiliga, segir Droim konungr, ok sœkit snarpliga, því at gnógr[1] er tími at hefna vina várra áðr kveld komi. Þeir gera svá, hleypa fram at bardaganum meðr miklum geysingi. En er heiðingjar líta þessarra manna atreið, æðrast þeir at marki í sínum hjörtum, ok segja svá: Engi hefir oss sannara sagt en sendimaðr Balam, þetta land verðr aldri unnit, því at hér þeysir nú at oss þat folk sem eigi[2] hefir áðr í bardagann komit, ok mun eigi gott [fyrir verða þeirra atgang.[3] Ok er ungu menn koma til orrostunnar, má þar heyra mikinn gný, óp ok háreysti, því þótt þessir væri eigi dubbaðir riddarar, kunnu þeir alt eins djarfliga[4] beita bitrum brandi. Hallaðist bardaginn þegar í lið heiðingja, svá at hverr fellr um annan, er[5] nú ekki móttak, verðr þeim nú rétt eptir því sem þeir hugðu til. Jamund sem hann sér hvat nú ferr fram, at kristnir menn fjölgast mikit en hans lið gerist nær alt drepit, örvilnast hann í hjartanu, at hann muni fá sigrinn. Því litast hann um, hvar líkast sé til brottkvámu, ok er hann ætlar hneigjast til hœgri handar, er þegar[6] á ferð herra Girarð með tíu[7] þúsundir vaskra riddara; því þikir Jamund meðr engu móti þar greiðligt fyrir, ok brýtr fylking sína á bak eigi skemra en þrjú örskot. En er þat sér herra Girarð, snýr hann þar til með mikinn flokk, ok kemr á bak honum[8] þungu hlassi, drepr enn[9] sem tíðast. Nú sér Jamund at ekki er til hjálpa, dregr hann sik aptr á leið, ok er þar fyrir Karlamagnús keisari með sínum mönnum.

54. Sem kristnir menn hafa tekit alt umbergis Jamund, ok drepa svá gersamliga heiðingja, at fátt stóð upp, en þat flýði sem því náði, þikist Jamund illa staddr, en hvat sem kostar, vill hann lífs gjarna undan komast, ef[10] mætti. Því leitar hann til einhvers[11] staðar þar sem þynst stóðu kristnir menn ok [hélzt bardaginn,[12] kemst þar út með nauðum ok með honum 2 konungar Goram ok Mordoam; ok ef hann getr í þetta sinn forðazt hendr Franzeisa, má hann vel yfir láta ok réttliga segja, at aldri fyrr kom[13] hann or þvílíkum öngum. Flýr Jamund nú sem sá[14] fríði hestr mátti aftaka, ríðandi ofan með einum litlum hamri, ok hefir með sér lúðrinn hvella ok sverðit góða ok et[15] digrasta spjót, svá seigt ok hart, at eigi kunni at brotna, segist at skaptit væri af þeim viði er ölr kallast. Hann ríðr þrútinn af harmi, kærandi sín vandræði, þegar frá bar mönnunum, ok segir svá: Aumr ok vesæll er ek vorðinn, svá

[1]) nógr *b.* [2]) ekki *b.* [3]) [at verða fyrir þeirra ágangi *b.* [4]) snarpliga *b.* [5]) var *b.* [6]) þangat *b.* [7]) 20 *b.* [8]) þeim *b.* [9]) heiðingja æ *b.* [10]) hann *tilf. b.* [11]) einshvers *b.* [12]) [*mgl. b.* [13]) komst *b.* [14]) hans *b* [15]) hit *b.*

mikill ok máttigr sem ek þóttist[1] vera, því at þat hugða ek, at engi mundi sigr á mér vinna, en [eigi hefir mér[2] at því orðit í dag. Betr mætti ek við una, at hafa legit heima í ríki Affrica ok ofmetnazt eigi upp á móti ráðum föður míns. Senniliga gerða ek mik ofdigran, þá er ek lét ekki annat mér líka en bera kórónu á höfði at feðr mínum lifanda. Barn var ek ok illa vanit, er ek hlýdda ráðum úvita. Fyrir þetta alt saman kom yfir mik sorgar dagr meðr svá mikilli bernsku, at aldri mun niðr leggjast. Balam heyrir gerla hvat Jamund muðlar ok tekr svá til orða: þess háttar ummæli sem þú hefir, Jamund, væri konu blautrar náttúru, þeirrar er harmsfull gréti [sinn bónda eða[3] dauða síns eingetins[4] erfingja. En of síð sátt þú þat, at metnaðr meðr miklu kappi ok af annarri hálfu fávizka meðr úgæfu eru eigi samkvæmiligir[5] hlutir sín í miðil, en hvat sem þú kærir, stendr nú svá sem vorðit er. En ef þú lítr á bak þér aptr, mun þér annat sýnast líkara en kæra sem mest, því at átta menn af Franzeisum elta þik ok vilja fyrir eins ná líti þínu. Jamund sér, at svá er satt sem Balam segir, því at Karlamagnús hafði vorðit varr brottkvámu þeirra ok hleypti eptir sínum fljóta hesti. Fylgdu honum í fyrstu Rollant, Oddgeir, Nemes ok fjórir skjaldsveinar. Ríða nú hvárirtveggju eptir megni, þar til at hestr Mordoans[6] konungs þreytist meðr öllu, svá at hvárki gengr hann fyrir sporanna ístangan né[7] höggum þungra spjótskapta. Þá mælti Jamund: Hvat er nú til ráða, eigi má ek þat þola at láta hér eptir meistara minn Mordoan konung, því snúum karlmannliga móti þeim er eptir ríða, ok rekum þá af baki, fám svá hest kumpáni várum. Eigi man þér þann veg af verða meðr öllu, segir Balam, forða líti þínu, meðan þú mátt, en lát þann deyja sem dauðr er. Jamund gefr nú engan gaum at[8] orðum hans, snýr aptr hestinum fullr af reiði, snarar at sér skjöldinn en hristi spjótit, ok með því at Nemes hafði skjótastan hest annarr en Karlamagnús, þá mœtir Jamund honum fyrstum, ok leggr til hans spjótinu í gegnum skjöldinn ok panzarann, er hann hafði utan yfir brynjunni. En sakir þess at meðr guðs forsjó bilaði hon eigi, þá féll Nemes af baki fyrir mikilleika lagsins. En í því er Nemes er af baki fallinn, kemr at Oddgeir danski ok höggr til Goram ofan í hjálminn meðr svá öflugri hendi, at höfuðit klofnar ok nemr eigi sverðit fyrr staðar en í kviðinum, hrindr[9] honum síðan dauðum [af baki.[10] En er Jamund sér[11] Goram fallinn, bregðr hann sínu bjarta[12] sverði ok stefnir ofan í miðjan hjálm Oddgeirs. En hann víkr sér undan, ok kemr höggit

[1]) þóttumst *b.* [2]) [nú hefir mér eigi *b.* [3]) [*tilf. b.* [4]) *saal. b*; getins *B.* [5]) *saal. b*; samkenniligir *B.* [6]) Mordoan *b.* [7]) fyrir *tilf. b.* [8]) *mgl. b.* [9]) *saal. b*; hrindum *B.* [10]) [á jörð *b.* [11]) lítr *b.* [12]) bitra *b.*

framar niðr en Jamund ætlaði,[1] snertr sverðit hestinn fyrir framan söðulinn ok tekr þar sundr í miðju, fylgir Oddgeir enum eptra hlut til jarðar. En senniliga gætti guð síns riddara, því at ef þat högg hefði staðar numit honum í höfði, mundi Jamund vel hafa hefnt Goram. Jamund víkr nú hestinum ok vill eigi við haldast lengr, snúandi undan hvatliga, því at Karlamagnús var þá at kominn. Sem hann ríðr brott, víkr Balam aptr rennandi hestinum sem snarast, tvíhendir spjótit ok ætlar at leggja til þess kurteisasta keisara Karlamagnús. Ok er hann getr þat líta, lýstr hann sinn hvíta hest sporum, ok berr hann bráðara at[2] en Balam varði, leggjandi fyrr til hans meðr svá styrkri hendi, at Balam fellr af baki, þótt hann vildi eigi. En keisarinn hleypir þegar[3] eptir Jamund, en Balam stökkr skjótt upp ok fimliga, ok ætlar ná hesti sínum, en nú er eigi þess kostr, því Nemes hertogi er þar kominn ok verr hestinn, svá at hann náir honum meðr engu móti, bregðr hvárrtveggi sverðum, ok hefst þar hin harðasta atganga, höggr hvárr til annars svá stórt, at flýgr eldrinn í móti or þeirra hlífum, er stórliga nærri um þeirra riddaraskap. En er Oddgeir sér þat, flýtir hann[4] at ok vill veita Nemes lögunant sínum. En Balam þat sjándi skilr eigi svá búit duga, því talar hann þvílíkum orðum til Nemes: Góði riddari, gef upp at sœkja lengr, því at stórlítit[5] sigrar þú í, þó at þú drepir mik við annan mann, en ek játti þat þeim er mik skóp, at gjarna vilda ek taka skírn ok merkjast heilagri trú; ok ef Nemes hertogi af Bealfer væri svá nálægr, at ek mætta tala við hann, þœtti mér ván,[6] at á þessum degi kœmi hann mínum hag til góðrar hjálpar. Þá mælti Nemes: Hverr [er þú[7] riddari eða hvat á Nemes þér varlaunat?[8] Hann svarar: Ek heiti Balam, mik sendi Agulandus til Karlamagnús at [forvitna herlið[9] hans, þá er hann var staddr í Baion, en engan velgerning á ek at Nemes framar en hann vill gert hafa. Nemes segir[10] þá: Þakkir sé almátkum guði, er [mik varðveitti[11] svá, at ek gerða þér enga smán eða[12] skaða. Sem þeir talast[13] við, kemr Oddgeir at, hristir digrt spjót ok ætlar því gegnum Balam. En Nemes þikkist ofseinn ok grípr skaptit[14] fyrir framan hendrnar svá segjandi: Fyrir guðs skyld ok mína bœn ger þeim manni ekki mein, því at engi mátti öðrum meir at gagni koma[15] en þessi riddari kom mér, ef hann er sá sami Balam, er forðum gékk svá drengiliga fram mér til hjálpar, þann tíma er ek var handtekinn af heiðingjum ok[16] leiddr fyrir Agulandum ok dœmdr af honum til

1) til *tilf. b.* 2) *tilf. b.* 3) fram *tilf. b.* 4) sér *tilf. b.* 5) stórliga lítit *b.* 6) *tilf. b.* 7) [ertu *b.* 8) vanlaunat *b.* 9) [forvitnast herbúðir *b.* 10) mælti *b.* 11) [hann varðveitti mik *b.* 12) né *b.* 13) þetta *tilf. b.* 14) spjótit *b.* 15) *saal. b*; verða *B.* 16) *saal. b*; var ek *B.*

dauða, því at eigi at eins bauð hann sitt fé mér til hjálpar, heldr var hann búinn at setja sitt líf út fyrir mína skyld, ef þess hefði þurft. Þar með gaf hann keisaranum þann hvíta hest, er nú sitr hann sjálfr á, ok því er ek senniliga skyldr at veita honum þat gagn, sem framast má ek ok hann vill gjarnast þiggja. Balam þakkar hertoganum sín orð, játtandi fyrir þeim at með öllu vildi hann neitta fyrri villu. Ok er svá er komit þeirra máli, hleypir Rollant at þeim ok sér standa hest Nemes á vellinum fyrir sér, fyllist hann upp af miklu kappi, því at þat hugsar hann at hertoginn sé drepinn, því grípr hann hestinn ok stígr á bak, hleypandi fram eptir veginum, en sá féll dauðr niðr af mœði, sem [hann áðr reið.[1]

55. Nú er þar til at taka, at Karlamagnús ok Jamund ríða langt frá öðrum mönnum, hleypir Jamund fyrir, ok er nú skipt við hann sœmdunum, því at fyrra dag árla fylgdi[2] honum eigi minnr en sjau sinnum hundrað þúsunda, en nú er eigi eptir einn skjaldsveinn honum til þjónostu. Ok meðr því at hestr Jamundar var hinn skjótasti, er þat um stund at keisarinn kemst eigi eptir, þar til er Jamund ríðr fram undir einn lítinn álmviðar skóg. Þar sér hann keldu litla með skærasta vatni, er upp rann undan rótum [þess olifatres[3] er þar stóð, ok sakir mikillar mœðu[4] ok erfiðis fýsir hann at drekka, ok eigi var þat án líkendum, því at meir en þrjú dœgr höfðu svá liðit, at hvárki át hann né drakk, ok engi annarr sá er í bardaganum var, ok eigi þorði hann nökkut sinn á þeim tíma hjálminn taka sér af höfði; hvar fyrir hann stígr nú af baki, tekr af sér hjálminn ok skjöldinn, leggjandi niðr hjá olifaviðinum,[5] leggst eptir þat niðr at vatninu ok drekkr. En fyrr en hann rísi upp frá brunninum kemr Karlamagnús at öðrum megin svá skyndiliga, at Jamund náir eigi sínum vápnum, því at keisarinn tekr þau geyma, [þótti honum þat at, er hann hafði þann veg vangeymt sín.[6] Karlamagnús talar þá: Tak vápn þín ok stíg á hest, því at engi móður son skal því bregða mér, at ek drepi vápnlausan flóttamann, en vit þat, at þenna úsynjudrykk skaltu dýrt keypt hafa. Jamund gerir svá, klæðist ok stígr á hest, snarandi sér at brjósti skjöldinn sem fastast, en heldr spjótinu til lags. Ok af því at hann var ungr maðr, rann af mesta mœði hans hjarta viðr þat er hann drakk, svá at nú þótti honum ekki vætta sér mega granda, hvaðan af hann talar svá: Þat veit Maumet, segir hann, at eigi hefir þú, riddari, þann mann fyrir fundit, [at renni fyrir[7] þér einum, en furðuliga skjótan hest hefir þú, er svá langt bar þik brott frá þínum lagsmönnum,[8] ok stórliga vel ertu búinn at vápnum, því at brynja þín er svá fögr

[1]) [áðr reið hann *b*. [2]) fylgdu *b*. [3]) [olivotrés *b*. [4]) mœði *b*. [5]) olivoviðinum *b*. [6]) [*mgl. b*. [7]) [er renni undan *b*. [8]) mönnum *b*.

sem apaldrs flúr, en hjálmr þinn er svá góðr gripr, at hverr er slíkan vill[1] fá, mundi honum gjarna móti leggja þrjár ríkastu borgir, ok þú munt vera mikils háttar maðr, því at senniliga hefir þú sýnt mér þat, at aldri [var þú[2] af meðalmanni getinn eðr or litlu kyni kominn, þar sem þú þyrmdir mér vápnlausum ok gerðir mér svá mikla hœvesku, at þú gaft mér aptr mín[3] herklæði, hafandi þau áðr í þínu valdi, ok þat skal ek þér góðu launa: því kjós um tvá kosti. fá mér vápn þín ok einkanliga hjálminn góða, ok far í mínu leyfi aptr til þinna manna sjálfráðr,[4] en ef þú vill[5] neita guði þínum ok gerast minn maðr, skaltu fá miklu vildara, því at allir ættmenn þínir ok vinir skolu vera sælir af þér einum; væri þetta kostaboð af minni hendi engum til reiðu utan þeim sem svá vel til mín gerði sem þú. Karlamagnús svarar: Vel ferr þér, Jamund, en eigi man ek at öllu úreyndu miðil okkar þessum kosti játta. Jamund talar þá nökkut stutt: Hverr ertu, er svá skjótt neitar þvílíku boði mínu, seg mér nafn þitt. Keisarinn svarar: Fyrir ekki kemr mér at dyljast fyrir þér, Karlamagnús heiti ek son Pippins Frakkakonungs, keisari kristinna þjóða. Jamund sem hann heyrir þat, þagnar hann líttat,[6] svá sem varla tryði hann hans orðum, ok talar síðan: Sé þat satt, sem þú segir, þá fellr mér nú eptir því sem ek mundi œskja,[7] ok eigi virði ek allan minn skaða eins hálfs penings, því at á þínum líkama skal ek hefna þeirra harma, er marga vega hafa til komit mínu hjarta af þér ok þínum mönnum, en þó alt eins sé ek, at góð fylgd er í þér, ok því vil ek enn minnast þeirrar hœvesku er þú gerðir mér. Legg nú upp í mitt vald í yfirbót minna skaða. en þér til frelsis ok náða, París, Rómaríki, Púl ok Sikiley, Lotaringiam, Frakkland ok Borgundiam, Brittaniam ok alla Gaskuniam. Karlamagnús svarar: Þat veit guð, segir hann, at þú vill[8] vera stórliga ríkr mangari, ok meðr engu móti samir þér at stjórna svá miklu ríki, því at þú kant eigi haga því,[9] en þess væntir mik, at guð skipti ríkjum sínum[10] eptir sinni vild á þessum degi, er ok[11] líkara at fleira þurfir þú við en orð einsaman. Jamund keyrir nú hestinn sporum, rennandi at eptir endilöngum vellinum, komandi saman meðr svá hörðum lögum, at hvárki ístig né söðulgjarðir fá[12] haldit, því[13] falla þeir báðir á jörð. Sprettandi skjótt upp, bregðandi sverðum hátt[14] ok fimliga, sœkir hvárr at öðrum með mestu karlmensku, gerðist svá harðr leikr þeirra á millum, at eigi var þvílík sókn af tveim mönnum. Var[15] eigi alt eins nú jamkomit á meðr þeim, því at keisarinn var mjök hnignaðr af elli, en Jamund ungr, harðr[16] ok hinn sterkasti at afli. Svá

1) vildi *b.* 2) [vartu *b.* 3) vápn mín ok *b.* 4) sjálfráði *b.* 5) vilt *b.* 6) lítt við þat *b.* 7) vilja *b.* 8) vilt *b.* 9) þér *b.* 10) *mgl. b.* 11) *tilf. b.* 12) *saal. b*; fær *B.* 13) þar *b.* 14) hart *b.* 15) þó *tilf. b.* 16) herra *b.*

stór högg veita þeir, at fjórðungum heilum sníðst brott af skjöldunum. Því næst stígr keisarinn fram sínum hœgra fœti, en hefr upp hátt sverðit ok ætlar ofan í hjálminn. En í því víkr Jamund undan höfðinu, ok kemr höggit niðr á hœgri öxlina svá hart, at brynjan brast ok varð Jamund mjök sárr. En er hann kendi sársauka, reiðist hann mjök ok veitir sókn því harðari. Karlamagnús kennir þat, at jafnan er sóknin linaðist rennir Jamund augum til hjálmsins, er hann bar á höfði, hvar fyrir hann skilr, at honum vildi hann gjarna ná. Ok þat var satt, því at því optar sem Jamund leit hjálminn, þá girnist hann því meir at fá hann, hvaðan af hann talar svá: Mjök virði sá þik, hinn kristni, er þvílíkan hjálm samdi þínu höfði, því at í honum eru þeir náttúrusteinar, at ek má eigi drepa þik, meðan þú berr hann; en senniliga ertu klókr ok kœnn í geymslu við þinn góða hjálm, ef ek fæ hvárki lypt honum né spilt eða meðr öllu af þér svipt, ok þat veit Makon, at eigi skaltu svá vel leika, því at fyrir engan mun skal hann vera lengr þinn, ef ek má sjálfr ráða. Keisarinn segir: Þat veit guð, at hann skal eigi þinn verða. ok mjök er sá svívirðandi sjálfan sik, er hann gefr þér upp. Eptir þessor[1] orð fleygir Jamund [frá sér[2] skjaldarbrotinu ok ætlar at reyna afl við keisarann, heldr annarri hendi sverðinu en vill grípa annarri til hans. En af því at Karlamagnús kennir sik mjök mœddan en Jamund sterkan, víkr hann sér undan kœnliga, ok missir Jamund jafnan, er hann grípr til hans. Ok svá fór nökkurum sinnum, þar til at[3] Jamund gat gripit í skjaldarsporðinn ok kippir, en [er þat tjóar honum eigi,[4] grípr hann böndin hjálmsins ok togar, en keisarinn tekr í öðrum megin ok heldr, gerast nú harðar sviptingar, í hverju[5] er hjálmrinn skriðnar af höfði keisaranum.[6] Togast þeir nú þann veg um hann, at hvárr heldr í böndin. Nú sem þeir eigast við þvílíkan leik, skilr keisarinn sik munu verða yfirstiginn, ef þeir sjást tveir á, því angrast hann í hjartanu rennandi huganum[7] til guðs í himinríki, at hann sjái nú til með honum, at eigi týnist öll heilög kristni ok leggist undir úvina vald, einkanliga treystir hann á sinn kæra vin Jacobum postola, at hann hjálpi til í svá mikilli hans nauðsyn. Ok senniliga heyrist hans bœn ok ákall. at eilífr guð fái eigi þvílíkan skaða sem nú[8] horfði til, heldr sendir hann keisaranum gott[9] fullting meðr þeim hætti, at rétt þann tíma sem Jamund hafði mjök brottsnarat af honum hjálminn, kemr at fram Rollant, hafandi [einn stóran spjótkurf ok digran,[10] stökkvandi af hestinum sem fljótast, ok hefr upp lurkinn ljóstandi stórt högg ofan

1) þessi *b.* 2) [*mgl. b.* 3) er *b.* 4) [þat tjóar ekki *b.* 5) hverjum *b.* 6) keisarans *b.* 7) huginum *b.* 8) *tilf. b.* 9) *saal. b*; þat *B.* 10) [eitt stórt spjótskaptsbrot ok digrt *b.*

í hjálminn Jamundar. En er Jamund sér Rollant, bregðr hann ekki mjök við hans högg, utan talar þann veg til þeirra beggja þrútinn allr ok bólginn af móði: Þat sver ek við Makon ok Terogant ok allan mátt guða várra, at mjök er guð ykkarr kröptugr umfram alla guði aðra, ef þit komizt báðir heilir frá mér. Hefir[1] síðan upp sverðit, er hann hélt á, ok ætlar höggva ofan í bert höfuð keisarans. En í því er hann berr upp höndina, lýstr Rollant öðru sinni meðr lurkinum með[2] öllu afli á handlegginn svá hart, at sverðit hrýtr niðr or hendinni, hvert Rollant grípr ok lætr nú skamt miðil höggva, höggr í[3] hjálminn ok klýfr sundr í miðju ok þar með höfuðit, svá at í neðri[4] tönnum nam staðar. Féll Jamund [þá áfram alt[5] til jarðar ok stóð aldri upp síðan[6] á sína fœtr.

56. Þegar Jamund er fallinn, sezt Karlamagnús keisari niðr á völlinn yfirkominn af mœði, ok talar til Rollants þvílíkum orðum: Þakkir geri ek þér, almáttigr guð, at[7] þú sendir mér þvílíkan dugnaðarmann, ok mikill giptumaðr vartu nú Rollant frændi, því at Jamund hefði at vísu stigit yfir mik, ef þú hefðir lengr dvalizt. Rollant tekr [hest Jamundar, sverð[8] ok lúðr til sín. Kómu þá Frankismenn Oddgeir ok Nemes með sínum félögum ok líta Karlamagnús mjök móðan ok Jamund dauðan. Sem Nemes kemr fyrir keisarann, tekr hann svá til orða: Góði herra, lofaðr sé guð, er ek sé þik heilan [á lífi,[9] en úforsjáliga var þat gört at reka þvílíkan kappa einn samt, sem Jamund var, því at [þér máttut[10] sjá, hversu úflóttamannliga hann skildist við, fellandi mik til jarðar, en hjó í sundr[11] hest míns góða kumpáns Oddgeirs danska, gerandi svá báða okkr[12] at göngumönnum ok til engis fœra. Keisarinn svarar: Minn góði vin, ger þér glatt í hjarta, ok þökkum þat guði ok hans helgum mönnum, er betr er vorðit en mér þótti líkendi [um hríð,[13] því at svá harða sókn veitti mér þessi heiðingi, sakir þess hjálms er ek bar,[14] at ek þóttumst með öllu uppgefinn, ef guð hefði eigi sent mér Rollant frænda minn. Eptir þat [ganga þeir til ok taka[15] hreint vatn ok gefa keisaranum at drekka, þvá síðan blóð ok sveita af hans andliti, því at svá hafði Jamund við leikit, at víða var afhruflat keisarans[16] andliti, er böndin[17] hjálmsins höfðu inn gengit. Síðan fóru þeir þar til er búkr Jamundar lá ok líta sundrbrotinn hans hœgra[18] armlegg, en hausinn meðr hjálminum klofinn niðr í tennr. Hvaðan af Nemes talar til Rollans meðr miklum kærleik: Guð styrki

1) hefr *b.* 2) af *b.* 3) *tilf. b.* 4) miðjum *b.* 5) [þegar fram allr *b.* 6) þaðan af *b.* 7) er *b.* 8) [þá sverð Jamundar *b.* 9) [ok lífs *b.* 10) [þat máttut þér *b.* 11) í miðju *tilf. b.* 12) *tilf. b.* 13) [á um stundir *b.* 14) ber *b.* 15) [taka þeir *b.* 16) *saal. b*; konungsins *B.* 17) *saal. b*; borðin *B.* 18) *mgl. b.*

þá hönd, er svá sterk högg veitti þessum hundingja; því tak þér til eignar þat af herfórum Jamundar sem þú vill, því at vér játtum, at þú ert verðugr at njóta þess, er þú sóttir svá drengiliga. Líkama Jamundar snúa þeir á grúfu ok fœra upp undir olifatré,[1] kastandi yfir hann[2] skildi, ok stíga eptir þat á hesta. En áðr þeir riðu brott, víkr keisarinn at þeim Oddgeir ok Nemes svá segjandi: Ef þessi maðr hefði verit kristinn, fœddist engi drengr í heiminum honum gildari. Nemes svarar: Vei ok svei sé feðr hans, ok móður er hann fœddi, ok öllum þeim er hann [gráta ok sýta,[3] þar sem hann er nú gefinn at eilífu öllum djöflum.

57. Keisarinn ríðr nú aptr til sinna manna. Var alt kristit fólk meðr mikilli hrygð ok harmi, sakir þess er þeir [mistu ok[4] vissu eigi hvat um leið keisarann ok hans fylgdarmenn. Var þá rekit á flótta lið heiðingja, er lífit kunnu[5] fá. Því ríðr Karlamagnús til þeirra landtjalda er þeir höfðu átt, stíga af hestum[6] úti fyrir því stóra landtjaldi, er Jamund átti, gengr þar[7] inn með sínum kempum. Var þar harðla vel fyrir búit, því at [hvatki var[8] þar, gnógar vistir ok hinn vildasti drykkr er hverr kunni sér kjósa, þar skorti eigi gull ok[9] silfr meðr dýrum steinum, góðan borðbúnað smíðaðan[10] bæði eptir gömlum[11] hagleik ok nýjum; í gnóg váru þar hin dýrustu klæði, skorin ok úskorin, svá mikil völ var[12] þar á allsháttar herskrúða, sem eigi er auðvelt at telja. Þótti Frankismönnum hér[13] gott at hvílast eptir langa mœðu ok mikit erfiði. Settist Karlamagnús í sæti ok allir hans vildarmenn. Herra pávinn meðr lærðum mönnum sat hjá keisaranum í þessu landtjaldi, lofandi guð eptir þann sigr er hann hafði veitt sínum þjónum. Náðaðu Franzeisar sik nú vel meðr vist ok drykk, er í gnóg var skemtiligr; gerðist þá mikil gleði í guðs fólki. Þetta landtjald er Jamund son Agulandi hafði flutt or ríki Affrica var gört meðr svá miklum hagleik, at Frankismenn þóttust aldri[14] þvílíka gersemi hafa séna; þar máttu rúmliga inni sitja þúsund riddara, at fráteknum skutilsveinum ok þjónostumönnum. Sjálft tjaldit var af dýrastum vefnaði[15] saumat meðr gull ok silfr, framan í brjóstinu váru settir fjórir karbunkuli, af þeim lýsti um alt landtjaldit, svá at eigi þurfti þar kerti brenna um nætr eða[16] kveldum, heyrðust[17] þar fagr fuglasöngr ok pípnahljómr, þar sýndust töfl sjálf[18] leikast öðrum til skemtanar. Svá mikil birti gékk út af þeim fyrr greindum carbunculis, at umbergis dalinn lýsti af, svá at þeim sem vörð héldu mátti ekki á úvart koma, keisarans menn höfðu ok œrit

1) olivotréit *b.* 2) einum *tilf. b.* 3) [*saal. b*; grætr eða sýtir *B.* 4) [*mgl. b.* 5) kunni *b.* 6) *saal. b*; hesti *B.* 7) keisarinn *b.* 8) [bæði váru *b.* 9) né *b.* 10) *saal. b*; smíðaðr *B.* 11) fornum *b.* 12) váru *b.* 13) þar *b* 14) eigi fyrr *b.* 15) vefjum *b.* 16) um *tilf. b.* 17) heyrðist *b.* 18) *mgl. b.*

ljós til sinna framferða. Í þessu landtjaldi sefr keisarinn [meðr herra páfanum um nóttina.[1] Um morgininn[2] býðr keisarinn, at vatn vígist af kennimönnum ok dreifist á alt liðit, síðan um tjaldit utan ok innan, ok þá hluti aðra sem heiðnir menn höfðu áðr með höndum haft. Eptir þat gert gengr keisarinn með öllu sínu liði til borðs, sitja ok drekka [um daginn[3] vel glaðir. Ok áðr borð váru upptekin ganga fyrir keisarann þrír menn, Nemes hertogi ok Oddgeir danski leiðandi Balam sendimann miðil sín, ok kveðja hann[4] vel ok kurteisliga. Keisarinn tekr þeim blíðliga eptir spyrjandi, hverr sá þrifligi maðr sé, er þeir leiða. Hann svarar: Ek heiti Balam, er forðum var sendr af Agulando ok Jamund, þann tíma sem þér dvölduzt í borginni Baion, ek sendi yðr einn hest hvítan, ok nú skemstu, svá sem ek fyldumst upp[5] þeirrar dirfðar at ríða yðr á móti, feldu þér mik af baki. Ok meðr því at ek görla undirstendr, fyrir þá hluti marga sem fram hafa farit vár í millum, at sá siðr sem heiðnir menn hafa má heldr kallast villa en nökkur[6] trúa, ok því vil ek nú meðr öllu hana fyrirláta ok taka trú rétta meðr skírn, ef þér vilit þat veita mér; en þat skolu þér vita undir vitni guðs yðvars, at þetta sama hefir löngu áðr verit með mínu hjarta, þótt ek fylgdi mínum lagsmönnum alt higat til. Konungrinn svarar: Ef þér er þetta alvara, [sem þú talar, þá[7] vil ek eigi úgjarnari láta veita þér heilaga skírn en þú[8] viðr taka. Hann svarar: Guð er váttr yfir, at þetta er minn hjartaligr vili. Því næst segir keisarinn hvar komit er máli Balams sendimanns. En herra páfinn lofar almátkan guð, ok segir svá til keisarans: Dvelit eigi, herra, at fullgera hans beiðni, því at hverr er sá góðr, er guð virðist brott draga or fjándans kverkum til sinnar kynningar. Keisarinn býðr þegar, at nökkurir Frankismenn búi til djúpan brunn, ok svá gerist. Fara til síðan fjórir byskupar með öðrum klerkum ok vígja brunn þenna, ok at honum vígðum, bað keisarinn [at herra páfinn[9] virðist þessum manni skírnarþjónostu veita, hvat hann gerði gjarna, ok skírði Balam í nafni heilagrar þrenningar gefandi honum nafn, ok kallaði hann Vitaclin eptir einum ríkum herra Karlamagnús keisara, er litlum tíma áðr hafði andazt. Keisarinn lypti honum or skírnarbrunni ok klæddi hann sjálfr beztum klæðum, gefandi honum þar með eina dýrastu[10] skikkju ok lagði yfir herðar honum. Sýndist öllum þessi maðr hinn þrifligasti, því at hann var fríðr sýnum, mikill vexti, sterkr at afli ok kurteiss í meðferði. Er nú úti at segja frá Vitaclin fleira at sinni, en nú skal geta í fám orðum ágæts[11] herra Girarðs

1) [um náttina, ok svá herra pávinn *b.* 2) sem tími var kominn *tilf. b.* 3) [*mgl. b.* 4) keisarann *b.* 5) *mgl. b.* 6) rétt *tilf. b.* 7) [er nú talar þú *b.* 8) vill *tilf. b.* 9) [herra pávann, at hann *b.* 10) fríðustu *b.* 11) *mgl. b.*

gamla, því at eptir þat er hann hafði unnit höfuðmerki Jamundar, sneri hann til bardagans annat sinn, sem fyrr sagðist, ok svá framt sem hann vissi at Jamund flýði,[1] en Karlamagnús sætti eptir, gerði hann hina snarpastu[2] sókn ok eggjaði sína menn til framgöngu,[3] rekandi [flótta heiðingja[4] langt um þat fram sem aðrir[5]. En er dimma tók af aptni, snýr hann sínu liði til þess sama turns, sem hann vann af Jamund, ok keisarinn gaf upp í hans vald, svá lengi sem hann stæði í stríði á Hispanialandi. Var þá drjúgan fallit af hans sveitungum, en mart sárt, en[6] alt mótt bæði samt af hungri erfiði ok þorsta, tóku nú allir á sik hvíld ok náðir um nóttina. Skal herra Girarð hvílast í turni sínum með menn sína, en herra Karlamagnús skal sitja í landtjöldum með sínu liði, ok láta mæðu[7] renna af heilum mönnum, en græða sjúka ok sára, ok búast þann veg við þeim lutum sem síðar kunnu at höndum koma. En þessu næst verðr nökkut at segja af Agulando, hversu vel ok drengiliga hann tekr við þeim tveim konungum Magon ok Asperant, er brott flýðu undan höfuðmerki Jamundar sonar hans. þá er þeir koma á hans fund.

58. Sem þvílíkir hlutir fara fram in Hispanis, er nú hafa verit greindir, sitr[8] Agulandus konungr meðr miklum her í þeirri borg ríkis Affrice er Frisa heitir, ok fréttir ekki hvat gerist miðil Karlamagnús keisara ok Jamundar. Því heldr hann nú mikinn prís ok gleði, fyrir þá sök at tveir ríkir konungar eru komnir til borgarinnar með stóran[9] skipaflota, hét annarr Bordant öflugi, er stjórnaði því ríki er liggr fyrir utan Jórsalaland, en annarr Modal. Ok einn dag þeirra þarvistar, leika konungarnir skáktafl Agulandus ok Bordant, ok sem þeir hafa lengi leikit, hallar taflinu á Agulandum, hvat hann þolir lítt ok talar svá með reiði: Gef upp taflit, segir hann, því at þótt ek leggi við [alt Púl,[10] féngir þú þat víst eigi unnit. Konungrinn svá sem brosandi líttat[11] af gráleik talar: Eigi er svá, herra, því at því síðr legða ek ríki út, ef ek sæti í yðru rúmi, at mér þætti betri glófi minn en ván taflsins. Sem þeir talast þessor orð við, koma greindir konungar Magon ok Asperant til hallarinnar, stíga af hestum ok ganga síðan[12] fyrir Agulandum, þar sem hann sitr at taflinu ok kveðja hann. En hann lítr við þeim ok kennir þá görla ok spyrr, hvat þeir kunni segja tíðenda. Þeir svara: Herra, mikil eru tíðendi. Hver þá, segir Agulandus, hefir Jamund son minn unnit Hispanialand, en drepit konung kristinna manna eða rekit á flótta? Eigi er þann veg meðr öllu, segja þeir, son þinn hefir barizt

[1]) var flýinn *b.* [2]) snörpustu *b.* [3]) atgöngu *b.* [4]) [heiðingja á flótta *b.* [5]) áðr *b.* [6]) ok *b.* [7]) mæði *b.* [8]) *saal. b*; sér *B.* [9]) stórum *b.* [10]) [*saal. b*; Ful *B.* [11]) lítt þat *b.* [12]) inn *tilf. b.*

við Karlamagnús, ok trúum vit[1] at flest þat lið er þú fékt honum til fylgdar sé drepit; en hann fékk okkr til geymslu sitt höfuðmerki ok eigi færra lið en hundrað þúsunda, en annan dag sem bardaginn tókst, kom at oss[2] úvart eitt fólk undarligs snarpleika, var þar foringi lítill[3] maðr vexti ok þykkr, ok drap alt lið várt ok[4] rak okkr á flótta, veitti Jamund enga vernd sínu merki né okkr. Höfum vit farit síðan nótt ok dag til þess sem nú er komit. Agulandus spyrr þá með reiði Asperant: Hvat kantu[5] segja mér til Jamundar? Hann svarar: Þat veit trú mín, at ek kann eigi framar segja en nú hefir ek greint. Agulandus, sem hann heyrir orð konungsins, leypr upp meðr bólginni reiði, hrindr fram á gólfit taflinu, en grípr upp einn stóran fork ok ætlar setja (í höfuð) konunginum, en hann víkr sér undan, ok kom höggit á einn steinstólpa svá hart, at hann brotnaði sundr. Agulandus talar þá: Þit vándu svikarar skolut í stað verða[6] teknir ok hengdir á gálga sem hinu[7] verstu þjófar, eðr þola annan dauða svívirðligra[8] fyrir þann útrúnað,[9] er þit hafit framit við son minn ok móti mér konungi ykkrum. Asperant svarar: Aukast man þín svívirðing því meir, sem makligt er, þótt þú látir drepa okkr fyrir enga sök rétta, en hvárki þú né Jamund þurfit þá dul ykkr at ætla at vinna Karlamagnús. Því næst eru konungarnir gripnir eptir konungs boði, en hann gengr inn í eina stóra höll ok kallar til sín alla höfðingja er váru í liði heiðingja, ok talar svá: Góðir höfðingjar, öllum yðr sé kunnigt, hversu mikinn údrengskap þessir tveir konungar hafa gert við mik, svikit son minn ok flýit brott undan hans höfuðmerki sakir[10] bleyði ok ragmennsku. Nú til þess at engi þori þvílíka údýgð at veita sínum höfðingjum, býð ek yðr upp á yðvart líf, at fyrir þat yfirboð er ek á öllum yðr veita, at þér dœmit þessum svikarum réttan refsingardóm ok skjótan, at eigi standi lengi þeirra gerð úhegnd. Höfðingjar svara: Engi úhlýðni skal í þessu máli birtast af oss við yðr sakir nökkurrar úeinarðar. Ganga síðan brott or höllinni tuttugu konungar í eina skemmu, váru margir af þeim bæði frændr ok vinir þeirra tveggja konunga, er nú sátu bundnir. Því var hér sem optliga kann til bera, þar sem um vönd mál er at tala, at eigi sýnist öllum einn veg, mæla sumir með konungunum ok vilja þeirra efni leiða til meiri miskunnar, en aðrir standa á móti ok vilja gera eptir því sem Agulando mætti helzt líka, ok atskiljanligr verðr þeirra[11] framburðr. Skal nú greina með skömmu máli hvat [hverr leggr til.[12]

[1]) vér *b.* [2]) á *tilf. b.* [3]) lágr *b.* [4]) en *b.* [5]) at *tilf. b.* [6]) vera *b.* [7]) hinir *b.* [8]) svívirðiligan *b.* [9]) vantrúat(!) *b.* [10]) sinnar *tilf. b.* [11]) *saal. b*; hvarar *B.* [12]) [hverir til leggja *b.*

59. Nú sem greindir konungar eru í einn stað saman komnir, stendr upp í fyrstu Amustene konungr, því at hann var allra þeirra mest háttar, ok hafði í[1] forræði tuttugu þúsunda herliðs, hann átti tvá sonu vel til manns komna, var hann náfrændi konunganna, ok því vill hann sína rœðu byrja þeim til létta, [ok talar svá[2] með snjöllum orðum: Meðr því[3] at hér eru inni vitrir menn ok spakir, þá er þat til, at hverr heyri annars framburð meðr athuga, ok beri þolinmóðliga þat[4] sem talat verðr; tökum þat[5] af hvers tillögum, sem bezt er ok skynsamligast, látum brott reiði, heimsku ok ákafa, en kjósum oss til handa vizku með hógværi. En sakir þess at Magon ok Asperant eru systursynir mínir, byrjar mér eigi margt[6] tala af þeirra efni, en þess væntir mik, at engi sé sá kominn á þessa stefnu, er[7] þá vili með sínum dómi framar angra en rétt er, því at ek hræðumst, ef þeim verðr nökkut misþyrmt, at allr þessi herr sturlist eigi[8] lítt. Eptir svá talat sezt Amustene niðr, en upp stendr Aquin konungr ok talar með hörðum anda: Stórliga mikit [tekst þú[9] á hendr, herra Amustene, ef þú ætlar því við koma með glysligum orðum, at menn þessir, þótt þeir sé frændr þínir, sé með engum dómi angraðir, því at mér virðist at[10] sjálfra þeirra orð geri þá dauðans verða, þar sem þeir vátta, at Jamund tignaði þá svá mjök, at sitt höfuðmerki seldi hann þeim í vald meðr miklu liði, en allir vér megum nú sjá þá hér komna, ok eru hvergi sárir á sínum líkama, eigi eru skildir þeirra höggnir né panzarar slitnir, hvárki er hjálmr þeirra stokkinn né brynja; hvar fyrir auðsýnt er, at þeir hafa brott flýit sakir bleyði ok hugleysis. Vér sendum þagat sonu vára ok frændr, ok megum vér senniliga um þeirra hag hræddir vera, en þú Amustene hyggst verða[11] glaðr ok feginn í aptrkvámu þinna frænda; en þér skal at öðru verða, því at rétt í [þínu augliti[12] skipar ek þá undir þann[13] dóm, sem allra várra harma sé hefnt í þeirra svívirðligum dauða. [Svá segir Aqvin ok sezt niðr eptir þat.[14] Þessu næst stendr upp mikill höfðingi Galinger gamli, hann stjórnaði miklu ríki ok réð fyrir mikilli borg er Sebastia heitir, hann var skrautligr maðr ok hafði yfir sér eina skikkju af dýrastu[15] klæði, skegg hans var hvítt[16] ok tók niðr á bringu, ok sem hann bjóst nökkut at tala, gáfu allir hljóð, því at hann var hinn málsnjallasti í öllum her heiðingja, hógværr ok úáleitinn ok virðr mikils af öllum. Því byrjar hann svá sitt eyrendi: Göfgir herrar, segir hann, segja vil ek yðr hvat mér lízt um mál þetta; konungar þessir

1) *mgl. b.* 2) [*mgl. b.* 3) segir hann *tilf. b.* 4) hvat *b.* 5) því *b.* 6) at *tilf. b.* 7) at *b.* 8) *saal. b*; ok *B.* 9) [takizt þér *b.* 10) sem *b.* 11) vera *b.* 12) [þinni augsýn *b.* 13) þvílíkan *b.* 14) [*mgl. b.* 15) dýrasta *b.* 16) sítt ok fagrt *b.*

eru mikillar tignar, hraustir menn ok vápndjarfir, nú ef þér vilit at nökkurr dómr falli með réttu lögmáli á þeirra sök, þá virðist[1] mér þat betr standa, at þeirra mál bíði þar til, er vér verðum sannleiksins vísir, hversu mjök þeir eru sekir. Kemr Jamund aptr heill meðr sínu föruneyti, dœmi hann svá mikla þeirra sök sem honum líkar, en ef Makon gætir eigi síns höfðingja ok fellr Jamund eða verðr særðr til úlífis, dœmit þá sem [yðr sýnist[2] sannast. Vili þér hafna þessu mínu ráði, mun ek alls ekki hlutast til yðvarra gerða; þér vitit sjálfir, at hvárki á þetta mál dœma meðr hrapan eðr ofmiklum skunda án lögligu prófi né nökkurt annat, skal ek ok engis manns vilja, hvárki meira né minna, í því þjóna at dœma öðruvís en mér sýnast[3] réttindin segja, ok þó at mér væri boðit annat ríki jammikit, sem nú stjórna ek, væra ek meðr öllu eigi verðugr at sitja í minni sœmd, ef ek dœmdi rangt þat mál, sem mér til heyrði yfir at segja. Tali sá hér fleira,[4] sem betr heyrist, en þegja man ek at sinni. Síðan stendr upp Mordanturus konungr ok talar: Undarliga [sýnist hér taka,[5] at sá maðr, sem ek hugði at kominn væri til fullrar skynsemdar fyrir aldrs sakir, skal nú vorðinn litlu betri en örvita,[6] en svá ferr þér, Galinger, sem vitringrinn segir, at svá kólnar hjartat brott af samvizkunni sem líkaminn þornar af ellinni. Undra ek þat, hví þér sýnist at dvelja eða lengja dóms atkvæði þessarra konunga, þar sem þeir eru eigi at eins sekir við Agulandum ok Jamund son hans, heldr ok jamvel við forna[7] setning hinna fyrri hervíkinga, því at svá er skipat í[8] hermanna lögum, at engi nýtr drengr skyldi dirfast lengra flýja or orrostu en fram undir höfuðmerkit ok þola þar, hvárt sem heldr kynni til bera líf eða dauði. Hefði þessir konungar verit skipaðir í broddi fylkingar ok flýit brott or bardaga, svá at þeir hefði eigi geymt höfuðmerkis sakir felms[9] ok hræzlu, mætti á þetta líta meðr miskunn, en nú meðr engu móti, þar sem þeir vátta sik hafa verit setta stjórnara merkisins, ok síðan þat fyrirlátit ok svikit á þann veg sinn meistara. Því játta ek þá sjálfdœmda til hæðiligsta[10] dauða. Eptir þessi orð gengr hann til sætis. En þessu næst ríss upp Gordiant[11] or Galacia,[12] liggr sú út í Garsant, hann var stórliga ríkr, skegg hans ok hár var hvítt af[13] hæru, breiðr var hann í herðum meðr digrum armleggjum, ríkuliga klæddr ok höfðingligr. Hann mælti hárri röddu: Göfgir herrar, þér vitit at hvárki er ek barn at aldri né vitsmunum, ok því megi þér vel hlýða [mínum ráðum.[14] Þessir konungar er vér erum nú yfirskipaðir eru góðir riddarar, ok því er þat ofskaði at dœma þá til dauða.

1) sýnist *b.* 2) [þér sjáit *b.* 3) sýnist *b.* 4) um *tilf. b.* 5) [snýr hér til *b.* 6) örviti *b.* 7) *mgl. b.* 8) fornum *tilf. b.* 9) felmts *b.* 10) *mgl. b.* 11) Gordant *b.* 12) Galizia *b.* 13) fyrir *b.* 14) [minni rœðu *b.*

látit þat aldri verða utan sjálfr Agulandus dœmi, allra helzt meðr því at vér vitum eigi hverja raun á beri[1] þeirra máli. En þó at Jamund hefði mörgum hlutum mótstaðligr verit vilja föður síns ok oss [hans höfðingjum,[2] þá eigum vér alt eins viða hann, þar sem hann er einga son höfuðkonungs várs, ok[3] bið ek alla forðast at gera þvílíkan hlut [við hann[4] héðan af. Nú hvat ek tala eða ek vildi at væri, þikki mér líkligt, at sá verði endir þessa máls, sem öllum horfi til mestu[5] vandræða, ok því man ek uppgefa ok tala eigi lengr at sinni. Sem Ulien frændi Agulandi heyrir, hversu sundrleitan[6] framburð konungarnir hafa, vill hann eigi lengr þegja, ríss upp ok hristir sik, talandi með hörðum anda, sem hann var optliga vanr: Heyrit görla, hvat er ek segi. Berliga sér[7] ok, at þér verðit eigi til fulls ásáttir þenna dóm, er konungr várr Agulandus hefir oss öllum til komit, hvers boð vér erum skyldir at fullgera, því at sjálf guðin hafa skipat hann várn yfirhöfðingja. Játir[8] ek, at þat var mikit úvizkuráð, er Agulandus gaf Jamund syni sínum kórónu, ok staðfesti svá með honum dramb ok ofbeldi móti sjálfum sér ok öllum hans vinum. En þó at vér gæfim þar eigi ráð til, þá verðr þat nú at standa sem hann skipaði, hvar fyrir þér megit álíta, góðir höfðingjar, hvílíka svívirðu þessir[9] konungar hafa framit honum í móti, fyrirlátit herra sinn, hafnat ok útkastat ok svá illmannliga við hann skilit, at þá er þeir váru ofmjök tignaðir um aðra fram ok tóku til geymslu hans höfuðmerki, flýðu þeir brott með illsku ok ragskap ok sviku þann veg sinn meistara; því dœmi ek, at þeir hafi fyrirgert lífi ok limum. Nú ef nökkurr er svá djarfr hér inni, at þenna minn dóm kalli rangan, taki hann vápn sín án dvöl ok herklæðist síðan móti mér, en ek skal rétt í stað sníða af honum höfuðit ok sanna svá minn dóm réttan. En ef ek geri eigi eptir því sem [talat er,[10] sé mér kastat niðr í djúpa dýflizu, ok svelti[11] mik þar til bana. Við þessor orð Uliens þögnuðu konungar, ok leit hverr til annars. En hann settist niðr ok veik at þeim konungi, er Pharaon hét, svá segjandi: Nú þikkjumst ek hafa vel fram haldit vilja Agulandi, at engi þorir móti mæla mínum framburði. Sem þögn hefir staðit[12] lítinn tíma, stendr upp Pantalas konungr, hann var með reiðuligri ásýnd, fyrir þat at[13] frændr hans váru til dauða dœmdir, því talar hann meðr hvellri röddu, svá at vel máttu allir inni sitjandi menn heyra: Mikil djörfung ferr fram af munni þínum Ulien, segir hann, attu[14] einn um alla fram gerir þik opinberan í því, at dœma svá hrausta drengi til dauða sem eru Magon ok Asperant.

[1]) berr *b.* [2]) [höfðingjunum *b.* [3]) því *tilf. b.* [4]) [fyrir hans menn *b.* [5]) mestra *b.* [6]) *saal. b*; sundrligan *B.* [7]) *saal. b;* segi *B.* [8]) játar *b.* [9]) tveir *tilf. b.* [10]) [ek talar *b.* [11]) svelt *b.* [12]) um *tilf. b.* [13]) er *b.* [14]) at þú *b.*

En þessu viltu ömbuna Agulando þat dýra vín, er þú treðr þik með dagliga, at gera þat eptir hans vilja, sem báðum ykkr mun[1] verða mikil vanvirða. Nú hverjum sem þat líkar eða mislíkar, man ek segja hvat mér sýnist líkast um þetta mál, at Agulandus konungr várr bíði til þess, at Jamund son hans kemr aptr eða hann fréttir sannleik, hvárt þeir hafa brott flýit or bardaga fyrir fulla sök eða sakir bleyði einnar saman, því at þat veit Makon, at hvárki Agulandus né þú Ulien ok engi annarr má þetta mál at réttu fyrr dœma, ok ef ek ætta vald[2] svá mikils hers, sem hér er nú saman kominn í þessarri borg, skyldi engi svá djarfr, at þá þyrði únáða at öllu úprófaðu. Svá segir Pantalas ok gengr til sætis. Hér eptir[3] ríss upp Gundrun konungr hinn karneski,[4] hann var forráðsmaðr[5] þess ríkis, er átti Temprer konungr ok kallat var Birangri,[6] mikit land ok vel bygt, snjallr maðr í framburði, stórliga fróðr í heiðingja lögum ok höfuðráðgjafi Agulandi konungs. Gundrun styðst við einn stólpa ok talar: Eigi samir oss at hafa fyrir ekki orð ok vilja höfuðkonungs várs Agulandi, þar sem hann bauð meðr sínu valdi, at vér dœmdim harðan refsingardóm ok réttan þeim tveim svikarum, sem hér standa [ok þat heimsliga hugsa,[7] at oss muni vel líka sú mikla svívirðing, er þeir flýðu vándir þrælar ok huglausir frá sínum herra Jamund, er vald gaf þeim yfir sínu höfuðmerki sem hugdjörfum kempum, ok meðr því at þeir prófaðust[8] fullir af údáð ok svikum, þá dœmi ek, at þeir sé hengdir sem dáligir þjófar, ok síðan brendir líkamir þeirra á báli, því at svá sómir at gera við vánda svikara. En þó at Pantalas frændi þeirra vili únýta vára dóma, þegar þeir ganga fram móti hans vilja, gef ek eigi einn frjálsan pening fyrir hans dramb ok metnað. En ef hann þorir, taki hann sverð sitt ok berist viðr mik, ok ef ek kvista eigi skjótliga sundr hans búk, brenni mik í eldi ok kasti öskunni út í vind, en reki brott arfa mína af sínu fóstrlandi. Eptir svá talat sezt hann niðr. Þá stóð upp kurteiss höfðingi Acharz[9] or Amflor, hermaðr mikill, ok talar svá: Höldum þat sem í fyrstu var talat, at engi þótti né ofrkapp gangi inn vár í miðil um þetta[10] mál, heldr tölum meðr hógsemd þat sem oss virðist satt vera. En betra hefði Agulando verit at sitja heima í friði ok náðum í ríki sínu Affrica, er svá er vítt ok mikit, at hverjum einum konungi er í gnóg, en sœkja[11] með ágirni til þess ríkis annarra konunga, sem eigi er gagn í at hafa, ok fá þaðan af tjón fjár ok manna. Var þat ok ofmikit skjótræði, at hann skipaði Jamund son sinn höfðingja svá margra góðra drengja, því at öllum

[1]) í *tilf. b.* [2]) ráð *b.* [3]) næst *b.* [4]) karneski *b.* [5]) forráðamaðr *b.* [6]) Hiangri *b.* [7]) [er ok þat heimskliga hugsat *b.* [8]) prófast *b.* [9]) Achaz *her og senere b.* [10]) þeirra *b.* [11]) seilast eigi *b.*

má líkligt þikkja, er hans ákefð er kunnig, at eigi at eins muni[1] þessir tveir konungar kenna þaðan af mikils kulda, heldr allir þeir sem hans ráðleysi[2] fylgja. Nú sakir þess at Magon ok Asperant, hverja þér dœmit[3] dauða verða, eru góðir höfðingjar ok optliga reyndir í[4] trúleik ok öruggum riddaraskap, býð ek mik ok mína peninga í vörðslu fyrir þá, at þeir nái[5] lífi ok limum fyrst, þar til er Jamund kemr aptr, en ef þér vilit eigi taka þenna kost, segist ek or allri tillögu um þetta[6] mál. Svá lýkr Acharz sinni rœðu. En Abilant[7] konungr hinn öflugi svarar hans framburð[8] sem hér má heyra: Senniliga ertu Acharz, segir hann, eigi meðr lymskligum orðum áminnandi heldr opinberri ásakan snarpliga hirtandi, ok ef makliga væri[9] gert, ættir þú aldri at koma í auglit Jamundar eða nökkurs virðr vera af hans feðr Agulando, þar sem þú ætlar svá fyrirkoma[10] þínum glysligum boðum, at vér brytim boðskap konungs várs ok svikim hann svá. Hygg af því ok gakk í brott í stað utar í loptit frá [váru augliti[11] ok hvískra þín ráð þeim í eyra,[12] sem þér eru líkir, en vit þat at eigi um aldr skulu heyrast þín tillög þessum konungum til hjálpar, því at eigi samir, at þeirra mál standi lengr úpínt fyrir nökkurs manns bœn eða vilja, ok nú beint í þínu augliti skulu þeir vera bundnir ok barðir, ok eigi eitt it minsta skulu þínar hendr þeim mega við hjálpa, heldr skulu fimtán skjaldsveinar þeim refsa sína údygð, svá at hverr þeirra hafi í sinni[13] hendi stirðan hestavönd samanknýttan meðr stirðum álstrengjum ok berja þá meðr afli, en hverr þeirra sem eigi kemr blóði út á þeirra baki fyrir sitt högg, skal þegar hljóta annat högg af minni hœgri hendi. Síðan þessir svikarar eru þann veg leiðnir, skal þá [hengja eða binda í tagl ok draga um hóla[14] ok steina ok lemja þá þann veg sundr, en brenna síðan á báli at köldum kolum. Þetta er minn dómr ok allra þeirra er mér vilja fylgja. En þér Acharz ok[15] þeim öðrum, er þeim vilja fylgja eða kalla þetta rangt vera, skulum vér djarfliga þvílíkan dóm dœma, því at alla yðr tel ek sekja[16] af samþykt [þeirra svika.[17] Tali nú hátt ok framliga, ef nökkurr berr þoran til at tala á móti mínu atkvæði. Melkiant konungr stendr þá upp, djarfr maðr í framburði ok einka vin Amusteni konungs, ok talar svá: Bæði er þat, [Abilant, er[18] þú ert mikill ok digr, enda þikkist þú nú[19] svá, þar sem þú hyggr, at engi þori sína tungu hrœra móti þér. En til þess at þú kennir sjálfan þik eigi til svá mikils kominn,

[1]) munu *b.* [2]) fram *tilf. b.* [3]) nú *tilf. b.* [4]) at *b.* [5]) haldi *b.* [6]) þeirra *b.* [7]) Adilant *b.* [8]) framburði *b.* [9]) er *b.* [10]) viðkoma *b.* [11]) [várum augum *b.* [12]) eyru *b.* [13]) *mgl. b.* [14]) [draga bundna í tagli um holt *b.* [15]) eðr *b.* [16]) sekta *b.* [17]) [þessarra svikara *b.* [18]) [Adilant, at *b.* [19]) ok *tilf. b.*

mun ek úskjálfandi tala þat sem mér líkar, svá at þú ok þínir lögunautar megi gerla heyra. Þagat hefir ek um stund ok heyrt, hvat hér hefir verit talat, ok virðist mér sem þeir þykist vitrastir, er mest þyngja mál konunganna, en þeirra dóm skil ek fram ganga meðr ákefð ok illri úeinurð við Agulandum, sem þá kalla dauða verða fyrir þat, þótt þeir leituðu brott or bardaga síðan dauðinn var handvíss; stóðu þeir eigi lengi ok börðust djarfliga, til þess at fallit var alt þeirra lið? mundi nökkut tveggja manna snarplig vörn mjök mikit í þeim stað vinna, ef áðr gátu ekki at gert[1] hundrað manna? Biðu þeir, ok kom ekki Jamund ok engi annarr þeim til viðrhjálpar. Nú þá segit einarðliga, hverr yðvarr, er nú sitr[2] hér, mundi svá snjallr ok mikill fullhugi, at þann tíma sem honum þœtti sér ráðinn dauði, at hann liti[3] eigi um sik alla vega, hvar líkast væri til brottkvámu? Ek man svara mér sjálfr, víst engi. Ok því síðr gefi þér gaum at úskyldum manni, þótt hann væri yðvarr höfðingi, at eigi mundu þér hugsa um, þótt faðir yðvarr eða móðir væri eptir í úvina valdi, ef því heldr gæti þér forðat yðru lífi. Þat mætti[4] ok hugleiða, ef nökkut skyldi at skynsemi leita, hversu optliga kann til bera þeim sem í orrostu verða staddir, at svá mikill ótti kemr yfir þeirra manna hjörtu, sem áðr eru mörgu sinni reyndir at hugdirfð, at engis fýsir þá annars en snúa undan; en þegar þeir eru hólpnir við mestu hættu, undra þeir sjálfa sik, hví þeir urðu svá sigraðir at flýja undan vápnum sinna úvina, vildu þeir gjarna[5] miklu heldr hafa þá þolat skjótan dauða en þolat[6] þvílíka fölnan sinnar fyrri[7] hreysti; fyrir hvat skiljanligt verðr, ef rétt skal álíta, at þeirra flótti varð eigi af hugbleyði heldr váveifligum atburð. Í þenna atburð virðast mér þessir konungar hafa ratat: þeir leituðu brott síðan þeir sá engan annan[8] grœnna, ok fálust eigi í hellum eða öðrum jarðarholum sem hræzlufullir flóttamenn, heldr sóttu þeir á fund sjálfs höfuðkonungsins, því at þeim þótti engi annarr líkari at veita Jamund fullting en Agulandus faðir hans, síðan hann[9] vissi, hvers hann þurfti við. Nú dœmi ek þá því[10] síðr dauðans verða fyrir þessa gerð, at mér þœtti þeir makligir góðra ömbuna. Svá lýkr Melkeant sínu máli ok sezt niðr. Þá ríss upp mikill höfðingi ok ríkr, er hét Sinapis hyggni, hann stjórnaði stóru ríki er Alpre kallast, var Sinapis mesti vin Agulandi ok hafði fóstrat langan tíma Jamund son hans, hann talar á þenna hátt: Þinn framburðr, Melcheant, má sýnast skynsamligr, ef skjótt er álitit af úvitrum mönnum, en ef hann er vitrliga[11] skoðaðr, finnst fátt hæft í, því at hann gengr

[1]) mörg *tilf. b.* [2]) sitit *b.* [3]) sæi *b.* [4]) mættit þér *b.* [5]) *mgl. b.* [6]) fengit *b.* [7]) *mgl. b.* [8]) sinn kost *b.* [9]) *saal. b*; til *B.* [10]) þess *b.* [11]) inniliga *b.*

fram af þeirri ofmikilli vináttu, er [allir vér vitum, at[1] þú hefir við þann svikla konung, er ek sé sitja þar hjá steinstólpanum klæddr rauðu klæði mjök at úverðu, því at hann hefir alla götu[2] lífs á illu setit ok jafnan verit údyggr sínum höfuðkonungi, en ek hefir æ fylgt Agulando konungi meðr fullri dygð ok heilleika; en þat er undarligt, at svá vitr maðr sem Agulandus er, þolir honum þat[3] sem hann ferr fram, því at nú vildi hann undan koma þessum svikarum, er hann kallar sína systursonu, réttum dómi, eigi at eins fyrir sik, heldr ok aðra sína jafningja; því væri þat sannr vili minn, at Agulandus ræki brott or[4] sínu ríki fyrst þann sem er upphaf lymsku ok undirhyggju ok alla hans ættingja, þá sem nú opinbera sína úhlýðni við hann í þessu máli. En þá Magon ok Asperant dœmi ek, at þoli þann hæðiligsta[5] dauða, sem vér megum þeim verstan fá; eigi skal þá meðr vápnum drepa sem nýta drengi, ok eigi þola gálga sem hreinir þjófar, heldr skolu þeir bundnir vera í tagl harðreiðastu hesta ok dragast um öll stræti, ok síðan niðr verpast í fúlan pytt, at þeirra sekt verði öllum opinber, ok at eigi frétti Jamund, at vér haldim hans svikara í friði meðr oss. Skal þenna dóm sem fyrst er tími til fullgera. En þó at þessi minn dómr þikki þér, Amustene, rangr, skal svá búit[6] standa, ok gerla skil ek, at þér líkar stórilla minn orskurðr, því at þú bliknar allr ok sortnar svá sem jörðin; fyrr muntu þrútna ok digr gerast af bólginni reiði en þú fáir þína vini[7] frelsta af várum dómi, því at [eigi syn(j)a ek, þótt þú kallir[8] þenna dóm rangan, skal ek sníða af þér þitt flærðarfulla höfuð ok hverjum öðrum, er þessu mæla móti. Sem hér er komit máli[9] Sinapis, talar Madequin sterki: Eigi er þörf, at um þetta mál talist fleira at sinni, því at þessu öllu vil ek samþykkja, sem Sinapis hefir dœmt. Stendr upp ok gengr þar til er Ulien sitr, ok tekr í hönd honum svá segjandi: Göngum fyrir Agulandum ok birtum honum hvílíkr endir á er fallinn konunganna mál. Þeir gera svá ok finna konunginn sitjanda í höll sinni á einni silkidýnu, kveðja hann, ok talar Ulien síðan: Rýmit brott þungum harmi af [yðru brjósti, því at[10] tveir svikarar hafa rétt þvílíkan dóm, sem yðarr vili stendr til. Agulandus svarar: Eru þeir til dauða dœmdir? At vísu herra, segja þeir, ok fyrir þat[11] látit þá án dvöl taka ok binda miðil tveggja hesta ok þenja þeirra líkama[12] sem mest í sundr, látit síðan hleypa eykjunum um hvert stræti borgarinnar ok grjót ok hörga, síðan látit brytja þá í smá stykki ok niðr sökkva í hinn fúlasta pytt. Agulandus sem hann heyrir orð Uliens, gleðst hann nökkut lítt ok býðr

[1]) [*mgl. b.* [2]) síns *tilf. b.* [3]) hvat *b.* [4]) af *b.* [5]) háðugligasta *b.* [6]) búinn *b.* [7]) frændr *b.* [8]) [ef þú kallar *b.* [9]) *tilf. b.* [10]) [hjarta þínu, þeir *b.* [11]) því *b.* [12]) líkami *b.*

svá gera við konungana, sem nú var greint, at þeir váru dregnir mjök grimmliga í augliti karla ok kvenna, svá at hold þeirra ok blóð lá víða eptir á strætum ok steinum. Þótti flestum þessi dómr [mjök harðr,[1] þó engi þyrði þat opinberliga tala; gerðist af þessu efni mikit sundrþykki í her heiðingja.

60. Næsta dag eptir þessa hluti, sem Agulandus sitr[2] yfir borðum, koma í borgina þúsund flóttamanna af liði Jamundar, fannst engi sá í þeim flokki, at eigi væri mjök sárr. Var höfðingi þeirra einn riddari Valdibrun at nafni, hann gékk fyrir inn í höllina stórum sárum særðr, [hafði hann verit[3] lagðr meðr kesju gegnum brynjuna ok panzarann, svá at í beini nam staðar, flóði or því[4] sári ok mörgum öðrum[5] blóð á hallargólfit, þar sem hann gékk. Hann kvaddi Agulandum með lágri raust ok móðri af mikilli blóðrás [ok langri,[6] svá segjandi: Öll yður guð styrki yðvart ríki, en af miklu tómi hugsi þér,[7] hvat um líðr Jamund. Hví ertu þann veg leikinn, góði vin, segir Agulandus, eða hvat segir þú tíðenda? Valdibrun svarar: Mikil tíðendi hafa vorðit síðan vér skildum, því at þá er Jamund hafði tekit til geymslu af yðr turninn sterka, þótti oss um tíma horfast á vænliga, því at í fyrstu sem Jamund fór út af turninum með tuttugu þúsundum ungra ok hraustra hafandi til styrktar guðina sjálfa, varð bæði gott til fjár ok manna, snerist þá margr kristinn lýðr til annarrar trúar, brendum vér borgir en píndum konur ok karla. Ok sem þann veg gékk farsælliga várr hagr, vendi Jamund aptr [til turnsins[8] með miklu herfangi, mœttum vér þá njósnarmönnum Karlamagnús í fjallshlíð einni, hugðum vér einn veg gera [þeirra sem annarra manna,[9] ræna lífi ok eignast fé, en þat fór alt annan veg, því at svá snarpliga géngu þeir í móti, at sú var[10] endalykt várs fundar, at þeir drápu fjölda en ráku Jamund ok alla oss á flótta, tóku gull ok silfr svá gersamliga, at eigi einn minsta pening ætluðu þeir oss, þar með [guðina sjálfa.[11] En í annan tíma sem Jamund reið út með lið sitt af turninum at hefna fyrri svívirðingar ok vinna aptr guðin, urðum vér svá háðugliga brottreknir, at turninn var af oss tekinn, svá at vér áttum þangat aldri skjóls leita. Síðan samnaði Jamund saman úvígum[12] her ok fór til stríðs við sjálfan keisarann, ok er þat skjótt at segja, at vér börðumst þrjá daga, ok þó at kristnir menn væri fáir hjá várum fjölda, þá þröngdu þeir svá at oss um síðir, at þat vissa ek síðast til, at þeir ráku Jamund á flótta með þremr[13] konungum, en drápu hvert mannsbarn, svá at eigi einn komst undan. Þvílík eru mín tíðendi, segir

[1]) [of harðr *b.* [2]) sat *b.* [3]) [hann var *b.* [4]) þessu *b.* [5]) mikit *tilf. b.* [6]) [*mgl. b.* [7]) um *tilf. b.* [8]) [*mgl. b.* [9]) [*saal. b*; sem annarra *B.* [10]) varð *b.* [11]) [guðin sjálf *b.* [12]) úvígan *b.* [13]) þrimr *b.*

Valdibrun. Agulando þvílíka hluti heyrandi batnar lítit í sínu hjarta, ok af mikilli sorg lætr hann sem eigi hafi hann gerla heyrt, hvat Valdibrun talaði ok talar[1] svá: Eigi mun ek rétt skilit hafa þín orð, riddari, segir hann, en svá heyrðist mér sem þú segðir, at þau glæsiligu guð, sem ek hugði oss mega veita mestan styrk, væri hertekin af kristnum mönnum. Valdibrun svarar: Rétt heyrðist yðr þat, herra, ok því heldr gripust þau brott or[2] váru valdi, at vér sám um langt, hversu ⌊undarliga var með þau[3] farit ok, hér meðr með[4] mikilli sneypu ok svivirðu ráku kristnir menn þau ofan á jörðina or þeim virðuliga vagni, sem þau áðr sátu í, ok géngu á þá[5] ok tróðu[6] undir fótum, hræktu í gullbúin[7] skegg þeirra ok kampa, berjandi[8] lurkum ok steinum, hengjandi þá[9] upp at fótunum sem hæst oss til skapraunar. En aldri sá ek þau þar sýna krapt sinn né mátt, hvárki meira né minna, ok alla tel ek þá svikna, er á þvílíka[10] guði trúa, því at öllum[11] er auðsýnt, at eigi munu þau mikit hirða um annarra þurft,[12] er þau máttu eigi forða sér við þvílíkri sneypu.[13] Agulandus svarar þá[14] meðr miklum móði: Hvat kantu segja mér af Jamund syni mínum, hvárt hann muni[15] vera lífs eða dauðr? Valdibrun svarar: Eigi[16] veit ek til þess, segir hann, en líkast þikki mér, at hann hafi leitat undan til Benaris borgar meðr öðrum flóttamönnum,[17] því at eigi kann ek[18] ætla, at nökkurr hafi upp fyllzt þeirrar djörfungar at drepa Jamund son yðvarn, en þó má eigi alls of[19] synja hvat Frankismenn gera, því at aldri finnast þeim frœknari drengir, ok frá því vel búnir at vápnum sem nökkur þjóð önnur. Mikill harmr er þat hjarta mínu, segir Agulandus, at ek veit eigi, hvat af Jamund er vorðit, en hvert ráð skolum vér nú upptaka? Valdibrun svarar: Annathvárt at setjast um kyrt ok hætta eigi sér né liði sínu undir vápn Franzeisa eða halda sem skjótast á hendr þeim með þann mesta her, sem þér kunnit fá. Agulandus svarar: Þat veit Maumet, at aldri skal mik þat henda at gefa upp þat land ok ríki at sœkja, sem þeir hafa gripit undan mínu valdi, heldr man[20] ek halda til móts við þá ok drepa hvern mann ok leggja[21] svá undir mik öll þeirra ríki. Ok þegar borðin eru uppi, býðr Agulandus saman stefna öllum konungum ok ríkum höfðingjum af borgum ok nálægum þorpum, ok segir svá til þeirra allra, er hans orð máttu heyra: Affrika höfuðkonungar, heyrit orð mín ok linit harmi mínum, búi hverr sik sem fljótast, bleyðizt eigi, blásit hornum yðrum ok hvellum lúðrum, ok

[1]) segir *b.* [2]) af *b.* [3]) [með þau var *b.* [4]) *tilf. b.* [5]) þau *b.* [6]) tráðu *b.* [7]) gulli búin *b.* [8]) þau með *tilf. b.* [9]) þau *b.* [10]) slíka *b.* [11]) oss *b.* [12]) þörf *b.* [13]) smán *b.* [14]) þó *b.* [15]) man *b.* [16]) Ekki *b.* [17]) fleiri mönnum *b.* [18]) at *tilf. b.* [19]) um *b.* [20]) skal *b.* [21]) koma *b.*

stefnit til skipa öllu liði váru, því at vér skulum ríða at Frankismönnum ok lægja þeirra dramb ok ofbeldi ok hefna þeirrar svívirðu, er þeir hafa oss á marga vega veitt, ef þeir þora bíða várrar tilkvámu. Madeqvin svarar orðum[1] konungs: Þat veit Makon, segir hann, at ef ek lifi langa stund, eru kristnir menn skjótt dauðir. Þá svarar Valdibrun: Eigi þarftu Madeqvin svá mjök fýsast fund Karlamagnús, því at eigi munu þér úgjarnari yðvarri ferð létta, þótt þar hafi þeir eina þúsund en þér eina ok tuttugu. Þessu næst má heyra [um alla borgina[2] margan lúðr þeyttan, mikit hark ok háreysti, því at hverr býr sik ok sína sveit at hestum ok vápnum sem líkast mátti. Ok at öllum her Agulandi saman komnum, heldr hann út af borg meðr útölulígan fjölda ofan til skipa, settist í fríðasta[3] lypting meðr dróttning sinni, siglandi blíðan byr þar til er hann kemr sínum skipaflota í fríða höfn Hispanie, er gengr upp í þá stóru á, sem fellr ofan eptir dalnum, er fyrr var greint at lægi ofan undan fjalli Asperment, í hverjum þeir börðust Karlamagnús ok Jamund. Ok þegar tími var til, gengr Agulandus af skipum[4] meðr alt liðit, en[5] lætr reisa landtjald bæði mikit ok frítt. [Dróttningu sína lætr hann at skipum dveljast,[6] ok fær henni til geymslu marga menn ok kurteisa. En meðr því at hann hafði nökkura vissu af þeim sem brott kómust or bardaganum, at Karlamagnús mundi í[7] þeim stöðum nálægr vera, þá skiptir hann liði sínu öllu[8] í fim fylkingar, ok skipar fyrir hverja fylking þvílíkum höfðingjum sem síðar greinist.[9] En hversu enn frægi herra Karlamagnús verðr víss tilkvámu Agulandi er þessu næst segjanda.

61. Karlamagnús sitr í landtjaldi Jamundar meðr herra páfanum ok öðru stórmenni, en annat lið er í tjöldum umbergis. Hefir keisarinn enga vissu af meðferði[10] Agulandi, þar til at þann sama dag sem Affrikamenn taka höfn skamt frá herbúðum Franzeisa, gengr herra Vitaclin, er áðr hét Balam ok skírðr var af Karlamagnúsi, sem áðr sagðist, fyrir Karlamagnús keisara, kveðjandi hann vel ok kurteisliga, ok talar síðan leyniliga svá segjandi: Göfugr herra, segir hann, ek bið, at þú ok herra páfinn gangit með mér brott frá öðrum mönnum. Keisarinn gerir svá, tekr í hönd herra páfans, ok ganga þrír samt út or tjaldinu, en aðrir sitja eptir. Vitaclin tekr svá til máls: Meðr því at þat er nú vorðit, sem ek hugsaða löngu áðr, at gerast guðs maðr ok taka heilaga trú, þá sem ek er héðan af gefinn undir vald guðs ok yðvart, Karlamagnús keisari, því[11] byrjar mér eigi at leyna yðr þeim hlutum, sem ek skil nauðsyn

[1]) máli *b.* [2]) [*mgl. b.* [3]) fríðustu *b.* [4]) sínum *tilf. b.* [5]) ok *b.* [6]) [Dróttningin skyldi eptir dveljast á skipum *b.* [7]) *mgl. b.* [8]) *mgl. b.* [9]) greinir *b.* [10]) ferðum *b.* [11]) þá *b.*

til bera, at þér vitið, en ef ek gerði[1] þat, væri[2] ek sannr svikari. Ek vil segja yðr þá eina list, sem þér ok engi yðvarr maðr hefir geymt, at þessu landtjaldi fylgi. Lítit upp undir knappana ok munu þér sjá í ofanverðu brjóstinu einn dreka gerfan af gulli, í drekanum megi þér líta eitt speculum, þat er þeirrar náttúru, at ef maðr lítr í þat meðr staðfastri sýn, sér hann þau tíðendi sem gerast á sjó eða á landi í nálægum stöðum. Nú góði herra, sjáit í skuggsjána, ok munu þér skjótliga sjá sigla at landi útöluligan skipastól, drómunda þunga, snekkjur, galeiðr meðr stórum langskipum, þar er kominn Agulandus konungr meðr úvígjan[3] her, takandi[4] höfn skamt frá yðrum búðum.[5] Þar með[6] megit þér sjá, ef þér vilit, at hann gengr frá sjá[7] meðr allan sinn her, ok lætr landtjöld reisa ok skipar liði sínu í fjórar fylkingar, en ætlar sér til stjórnar ena fimtu, ok er auðsýnt at eigi man hann fyrr aptr snúa til sinna ríkja en þér[8] hafit fundizt. Keisarinn gengr at ok sér þessa hluti alla sanna sem Vitaclin sagði, hvar fyrir hann mælti svá: Lofaðr sé guð, er hann þvílíkan mann skapaði sér til þjónostu, sem þú ert, Vitaclin; en geri[9] nú skjótt sendimenn til hertoga Girarðs, at hann komi á minn fund. Svá er gert, at menn eru sendir til turns hertogans. Ok þegar er herra Girarð heyrir orðsending keisarans, býr hann sik ok kallar sér til fylgdar systursonu sína Boz ok Claies ok syni sína tvá, er fyrr váru nefndir, ríðr veginn fram til herbúðanna. Ok er keisarinn veit, at hertoginn er kominn, gengr hann móti honum meðr mikilli gleði ok minnist við hann, takandi sjálfr í hans hægri hönd, en tveir lendir menn ena vinstri, ok leiða hann svá miðil sín. Karlamagnús talar þá: Guð launi yðr mikla mæðu, sem [þú hefir[10] nú þolat skemstu í [drengiligri frammgöngu ok[11] fulltingi við hans kristni; en undra ek þat, hví [þú hefir[12] eigi viðr tekit [konungliga sæmd,[13] þvílíkr höfðingi. Hertugi Girarð svarar: Eigi vilda ek bera konungs nafn, því at ek þóttumst eigi vera makligr þeirrar tignar, en þótt ek sé[14] einn hertogi, fær ek vel meðr guðs fulltingi haldit ríki mínu í frelsi ok náðum bæði fyrir kristnum víkingum ok heiðnum. En þeim einum sómir réttiliga at bera tignarkórónu, sem guði líkar, at vaxi til þess at þjóna honum því framar, styðja heilaga kristni ok styrkja lög ok réttindi, en únýta ok fyrirsmá ranga hluti ok guði mótstaðliga, hafa ættgóða menn sér næsta, ok þiggja af þeim gjarna heil ráð, sem hann kennir sér trúa. Konungi byrjar miklu stjórna ok gefa stórum, sá er eigi vill þann veg vera, honum samir [fyrir

[1]) gerða *b.* [2]) væra *b.* [3]) úflýjanda *b.* [4]) hér *tilf. b.* [5]) herbúðum *b.* [6]) *mgl. b.* [7]) skipum *b.* [8]) þit *b.* [9]) ger *b.* [10]) [þér hafit *b.* [11]) [drengiligu *b.* [12]) [þér hafit *b.* [13]) [konungs nafni *b.* [14]) *tilf. b.*

engan mun[1] konungs nafn bera. Keisarinn talar: Rétt segi þér, hertogi Girarð, en þat trúir ek, at þessa hluti hafir þú. Síðan ganga þeir fjórir saman í einn stað, Karlamagnús, herra páfinn, hertoginn ok Vitaclin. Segir keisarinn þá hertoganum alt, hvar komit er. Hertoginn sér þegar, er hann lítr í speculum, herlið Agulandi ok skipt sundr í fim fylkingar. Hann talar þá til keisarans: At vísu mun Agulandus hér kominn, ok er líkara, at hann ætli[2] hefna Jamundar sonar síns, en þó at þeirra lið sé útöluligr fjöldi, þá er guð várr svá máttigr, at þat má hann gera fyrir árnaðarorð heilags postola síns Jacobi, at svá dreifist þeirra hundheiðna fólk fyrir vápnum sinna sauða nú[3] sem fyrr; en vei verði þeim, er í þessarri nauðsyn skilst við yðr, segir hertoginn til keisarans, heldr skal ek ok mínir menn, þó at vér sém nú alls til fáir, svá harða hríð veita heiðingjum, at mörgum skal fult vinna. Keisarinn þakkar hertoganum sín orð, en mælir[4] síðan: Bróðir Vitaclin, þú hefir verit lengi með Affrikamönnum, því seg oss ljósliga frá höfðingjum þeirra ok búnaði, ok hverja formenn Agulandus mun skipat hafa fyrir sínar fylkingar. Vitaclin svarar: Sannliga[5] er mér kunnigt höfðingja val Agulandi, ok því skal ek yðr réttiliga greina hvers þeirra búnað áðr[6] kveld sé úti, en þér hugsit um, hvat [er ek kann[7] yðr segja. Keisarinn segir, at svá skal vera. Vitaclin tekr þá til máls: Þér sjáit, herra, at næst oss undir einum skógi standa landtjöld mörg smá af hvítastu[8] léreptum eða bezta silki, yfir hinu mesta landtjaldi mantu sjá eitt stórt merki af rauðum purpura, þat á einn öflugi Madeqvin, í öllu ríki Affrikanorum finnst honum engi meiri ok sterkari; hann hefir sterka menn ok vígkœna í bardaga. En öðrum megin við ána gagnvert tekr herbergi önnur fylking Agulandi með kurteisum tjöldum, stýrir þeirri, sem ek hygg, völdugr höfðingi[9] Acharz or Amflor ok hans frændi Manuel, þekki ek þeirra búnað gerla, því at optliga var ek í ráðum meðr Acharz, ok vil ek þat segja yðr, at alla þá[10] harðfengnustu menn sendi hann til Jamundar af sínu liði. Upp undir þann[11] stóra skóg ok dimma mantu sjá stór tandtjöld ok ekki[12] mjök skrautbúin, þau byggja undarligt fólk, þeim verða engir illgjarnari ok verri viðreignar, af flestum dugandis mönnum eru þeir hataðir ok fyrirlitnir, svá at engi ann þeim; þeir una[13] við lítit brauð ok þó úvandat, matast jafnan síðla sem údygðarmenn, engis virða þeir hesta né góð herklæði, fuglar ok dýr er[14] þeirra matr, engir verða þeim betri bogmenn, því at engi fær forðazt þeirra skeyti, eigi treysta þeir sínum[15] spjótum, lítit vápn þikkir þeim í

[1]) [með engu móti *b.* [2]) at *tilf. b.* [3]) *tilf. b.* [4]) talar *b.* [5]) Senniliga *b.* [6]) en *tilf. b.* [7]) [ek kunni *b.* [8]) hvítustum *b.* [9]) herra *b.* [10]) hina *b.* [11]) þeim *b.* [12]) eigi *b.* [13]) lifa *b.* [14]) eru *b.* [15]) stinnum *b.*

sverðum eða öxum; þeir eru svá fljótir, at engi hestr stendst þeim; reki þeir flótta, þikkir þeim vel at fara, en ef þeir flýja, ýla þeir sem hundar ok verða skjótt yfirstignir; þeirra foringi er ríki[1] konungr Kalades af Orfanie[2] ok annarr Floriades. [Upp meðr[3] þeim hamri er gengr upp með ströndinni öðrum megin standa stórliga mörg landtjöld með gyldum[4] knöppum, sá lýðr er þau byggir er af einu landi, þeir alast við betra vín ok brauð en aðrar þjóðir, þeir hafa gnægð gulls ok silfrs meðr dýrum steinum, fríðir eru þeir sýnum ok kurteisir í sínum háttum, vel búnir at öllum herskrúða ok öruggir til bardaga; þeim stjórna tveir höfðingjar ok kappsmenn miklir Eliadas[5] ok Pantalas. Í fimta stað munu þér, herra, glöggliga kenna, hvar upp er reist sjálft höfuðmerkit Agulandi, trúi ek þar undir skipaða[6] honum til verndar marga konunga ok ríka höfðingja, ok svá gersamliga ætla ek hér komna ríkismenn or Affrika, at fáir siti eptir. Nú hefir ek sagt yðr sem ek veit sannast, en þessu næst eigu[7] þér at hugsa, hvat þér vilit upp taka, en tveir sýnast mér nú til, annathvárt at þér gefit ríkit í vald Agulandi eða verja meðr karlmensku, [eptir því sem[8] gefr yðr styrk til. Karlamagnús svarar: Nei, minn góði vin, eigi meðan guð gefr mér at lifa skal ek upp gefa mitt ríki[9] heiðingjum; en haf Vitaclin mikla þökk fyrir þá dygð er þú sýnir oss.

62. Sem Karlamagnús keisari er vorðinn víss hins sanna af her Agulandi, talar hann til herra Girarðs: Legg til ráð,[10] herra Girarð, á hvern hátt vér skolum fram fara, því at nú vitum vér, at Agulandus man skjótt koma á hendr oss með úfriði, svá at eigi verðr tími[11] at senda heim í várt ríki eptir liði; en þó[12] ek hafi lítit herlið, ætlar ek eigi undan[13] flýja. Hertoginn svarar: [Herra, segir hann,[14] guð man styrkja yðvarn góðan vilja ok hans postoli Jacobus; en meðr því at þér hafit marga unga menn líkliga til framgöngu, þá sem eigi prófaðu sik í höggorrostu, fyrir þá sök látit blása um allan herinn ok kallit til yðvar hvern ungan mann, er vápn má bera ok sik kann herklæðum skrýða, meira háttar sem minna, ok gefit öllum herklæði. Keisarinn sendir í alla nálæga staði dygga menn ok stefnir saman lærðum sem leikum, ríkum sem fátækum: látit engan eptir sitja þann sem yðr má nökkura viðrhjálp veita, hvílíks stéttar, valds eða tignar hverr er. Keisarinn þakkar honum sín ráð, því talar hann síðar[15] til herra páfans: Meðr því at ek veit engan af váru liði heitari ást ok meiri hafa til frelsis heilagri[16]

[1]) ríkr *b.* [2]) Orfama *b.* [3]) [Undir *b.* [4]) gyltum *b.* [5]) Abadas *b.* [6]) *saal. b*; skipat *B.* [7]) eigit *b.* [8]) [sem guð *b.* [9]) fyrir *tilf. b.* [10]) *mgl. b.* [11]) til *tilf. b.* [12]) þótt *b.* [13]) at *tilf. b.* [14]) [*mgl. b.* [15]) síðan *b.* [16]) heilagrar *b.*

kristni en yðr, heilagr faðir, þá bið ek,[1] at þér takit yðr sœmiliga fylgd ok kallit til guðs bardaga alt þat fólk sem þér megit við[2] komast, ok búit til orrostu eptir yðvarri vild, því at allir eigu yðru boði at hlýða. Herra páfinn játtar gjarna keisarans bœn, gerandi sína ferð meðr lærðum mönnum. En þegar hann er brottu, kallar keisarinn fjóra lúðrþeytara ok biðr þá blása um allan herinn fyrir hverjum manni[3] meðr greindum boðskap. Ok þegar þessi tíðendi flugu um herbúðir, kómu þeir flestir á keisarans fund, sem í fyrra bardaga höfðu verit, vel búnir at vápnum. Eptir þat skundaði hverr fyrir annan, þóttist sá bezt leika er fljótastr varð, svá at á lítilli stundu var mikill fjöldi ungra manna kominn fyrir keisarans landtjald. Karlamagnús talar þá hárri röddu: Lof sé almátkum guði, segir hann, þessi flokkr er mikill ok líkligr til góðs hlífskjaldar móti úvinum. En meðr því at feðr yðrir eru nú margir dauðir, en þeir sem lifa eru þungaðir bæði af elli ok miklu erfiði, viljum vér at þér rísit upp í stað þeirra ok gerizt riddarar ok takit þvílíka sœmd sem hverr er um[4] kominn; vili þér þessu glaðliga játta, skal ek gera yðr svá vel ríka, at þaðan af skulu yðrir frændr fullsælu eignast, ef guð gefr oss [heila aptr til várra[5] fóstrlanda. Hinir ungu menn urðu glaðir[6] keisarans fyrirheitum ok játtaðu at gera hans vilja. Karlamagnús segir: [Nú þá,[7] farit þar til sem valrinn liggr, ok taki hverr sér þann herskrúða meðr hestum ok öðrum riddaraligum fórum.[8] Þeir gera svá, ríða þagat sem bardaginn hafði verit, [ganga í valit,[9] fundu þar mjök fríð vápn, gylda[10] hjálma, silfrhvítar brynjur, harða skjöldu, sverð hin beztu,[11] þurftu þeir eigi meira kosta þvílíka gripi at fá, en fletta þá hina dauðu er þar lágu. Þar með taka þeir sér fríða hesta meðr smeittum [bitlum ok gyldum söðlum,[12] ríða eptir þat til herbúða ok gáfu hestum sínum œrit korn um nóttina. Enn næsta morgin tók hverr sínar fórur ok stigu á hesta, ríðandi allir senn til landtjalds keisarans. Váru fremstir af þeim fjórir skjaldsveinar Estor, Bæringr, Otun ok Engiler, heyrðu þeir einkanliga til hertoga Rollant unga systursyni Karlamagnús, hvarfyrir hann dubbar þessa fyrst alla til riddara sakir elsku við sinn frænda, en síðan hvern eptir annan. Tókust nú allir þeir er vápnin þágu[13] or þjónostu, en skipaðust frelsi ok sœmdum þeim sem riddarum til heyra, þat er, at vera undanteknir öllum sköttum ok skyldum lýðmanna eða pyndingum valdsmanna. Ok at þessu görvu játtu[14] sik allir undir guðliga hlýðni viðr heilagan postola Petrum ok keisarann,

[1]) yðr *tilf. b.* [2]) til *b.* [3]) *tilf. b.* [4]) til *b.* [5]) [aptr til yðvarra *b.* [6]) af *tilf. b.* [7]) [*mgl. b.* [8]) ríðit síðan aptr svá búnir *tilf. b.* [9]) [ok *b.* [10]) gilda *b.* [11]) géngu nú í valit *tilf. b.* [12]) [söðlum ok bitlum gyltum *b.* [13]) höfðu *b.* [14]) játuðu *b.*

kystu eptir þat á hœgri hönd keisarans, gerandi sik honum handgengna, heitandi at fylgja hans boði ok vilja ok styrkja heilaga kristni eptir megni. Þá kallar Karlamagnús til sín Rollant ok tekr í hönd honum ok [minnist til hans[1] meðr mikilli ástsemd ok segir svá: Senniliga ætta ek þik at elska ok framari[2] sœma en nökkurn annan, því at guði til sjánda gaftu mér líf fyrir hans miskunn, ok fyrir þat trúi ek, at guð láti þér mikla giptu til handa bera; því gef ek alla þessa ungu riddara undir þitt vald, at þeir veiti þér allan heiðr sem sínum formanni, því at ek vænti, at þá [styrki þeir[3] mest mína sœmd í því at fyrirkoma guðs úvinum, ef þvílíkr er oddviti þeirra flokks. Rollant þakkar keisaranum fögr orð, en allir játta gjarna þessu. Eptir þessa hluti tekr herra Girarð orlof til brottferðar, ok ríðr með sínum frændum til turnsins. Géngu allir honum glaðliga móti, þeir sem þar váru, ok spyrja hversu Karlamagnús mætti. Hertoginn svarar: Guði sé lof ok dýrð, at hann er bæði heill ok kátr, en stendr þó nú í miklu starfi, því at hann gerir fjölda riddara af mörgum kynkvíslum, ok eigi fréttir hann eptir, hvárt [hann er ríkr eða fátœkr,[4] því skulum vér þar eptir breyta ok dubba alla unga menn til riddara, þá sem váru liði fylgja. Allir svara: Guð styrki þetta várt ráð ok láti vel skipast með yðvarri forsjá. Girarð kallar þá Ancelin ríkan höfðingja ok talar til hans: Tak með þér sonu mína Milun ok Girarð ok fylg[5] til Karlamagnús, ber honum kveðju mína, ok þat með, at ek beiði at þessa mína sonu virðist hann til riddara dubba. Ancelin gerir sem honum var boðit, stíga þeir á hesta ok ríða til herbúða keisarans, ganga fyrir hann ok kveðja hann sœmiliga. Hann tekr þeim vel. Síðan mælir Ancelin: Hertogi Girarð sendi yðr kveðju ok bað, at þér mundit[6] gefa herklæði þessum tveim hans sonum, sem þér sjáit hér standa. Karlamagnús svarar: Gjarna góði vin, segir hann, skal ek gera hans bœn, því at engi [finnst honum hraustari drengr vápn (at) bera.[7] Eptir þat[8] tekr keisarinn í hönd [Miluns unga,[9] hann var þeirra ellri brœðra, ok talar til hans svá segjandi: Ertu son hertoga Girarðs af Borgundia? At vísu, herra, segir hann. Karlamagnús talar þá til Eisants brezka: Fœr oss þat sverð, sem á er lagðr heilagr kross meðr rauðu gulli. Hann gerir svá, tekr sverðit ok fær konunginum.[10] En keisarinn bregðr því ok lítr á, talandi þvílíkum orðum til Miluns unga:[11] Meðr því at þú ert sonr hins röskvasta höfðingja, svá at engi meðr hertoga nafni fœðist þeim[12] vildri, þá er líkligt, at þú

1) [kyssir hann *b.* 2) framar *b.* 3) [styrkit þér *b.* 4) [þeir eru ríkir eða fátœkir *b.* 5) þeim *tilf. b.* 6) mundut *b.* 7) [drengr honum hraustari berr vápn *b.* 8) þessi orð *b.* 9) [Milon *b.* 10) honum *b.* 11) *mgl. b.* 12) honum *b.*

verðir góðr höfðingi, ok fyrir hans skyld skal[1] ek þik sœma; þetta[2] sverð gefr ek þér ok þar með ríki Utili borgar, hvert nú stendr laust undir váru valdi, utan ein ung jungfrú sitr yfir, hon skal vera þín, væntir ek at eigi finnist í þeim stöðum henni fríðari; skaltu jafnan hafa vára vináttu ok skipast miðil minna beztu riddara. Eptir [þessor orð[3] gyrðir hann Milun sverðinu ok klæðir öðrum klæðum, en hann hneigir keisaranum meðr lítilæti þakkandi fögrum orðum þvílíka sœmd. Eptir þat er framleiddr Girarð ungi, hann var drengiligr maðr, kurteiss í vexti, fríðr sýnum meðr sterkligum armleggjum. Keisarinn mælti:[4] Riddari Eisant, fœr mér higat þat sverð, er mest er af þeim sverðum, er mér heyra til. Eisant tekr sverðit ok leggr í kné konunginum. Þá mælti Karlamagnús: Þetta sverð átti einn frægasti riddarason, er tekit hafði í arf[5] eptir föður sinn, meðr þessu sverði sótti hann tvær ríkastu borgir Gand ok Lelei, ok þat ríki sem til þeirra liggr. Ok fyrir því at þér, Girarð ungi, er tilheyriligr[6] riddarans réttr, þá gyrði ek þik þessu sverði, þar til leggjandi hin beztu herklæði; gefi guð þér með þessu sverði langt líf ok gott, sigrsæli ok sannan vilja hans kristni at styrkja. Þar með var framleiddr hvítr hestr búinn til stríðs með hinum dýrastum herfórum. Gefr keisarinn þenna[7] Girarð unga með kærri vináttu.

63. Nú er greinanda af herra páfanum, at hann ferr eptir bœn keisarans um borgir ok bœi, þorp ok kastala, kallandi með sér hvern mann er nökkut lið mátti veita, svá ungan sem gamlan, lærðan sem úlærðan, klaustramenn ok þjónostumenn, ríkan sem fátœkan. Flýtir hann þó sem mest ok kemr aptr til herbúða, þá er Karlamagnús hafði lokit at gefa ungum mönnum herklæði, því gengr hann móti herra páfanum, takandi hann sjálfr af baki meðr fullri[8] hœvesku ok leiðir hann inn í landtjaldit, setjast niðr allir samt. Ok sem keisarinn er víss vorðinn, hvat herra páfinn hefir sýslat, talar hann með hárri röddu svá segjandi: Lof sé almátkum guði fyrir sína mildi, því at nú hefir hann margan góðan dreng aptr skipat í þeirra rúm, er féllu í fyrra bardaga, hverjum hann bauð heim til sín undan váru valdi. En til þess at engi undrist, hvat vér förum fram í liðdrætti[9] ok dubban nýrra riddara, sé öllum kunnigt, at Agulandus er kominn oss á hendr meðr úvígan[10] her, er líkligt, at hann þikkist nú eiga gnógar sakir við oss, látit son sinn ok mestan hluta þess liðs, er honum fylgdi. En svá gerði guð meðr sinni forsjó, at aldri átti Agulandus sigri at hrósa í fyrrum várum viðrskiptum, ok enn vænir[11]

[1]) vil *b.* [2]) *saal. b*; því at *B.* [3]) [þat *b.* [4]) *saal. b*; svarar *B.* [5]) erfð *b.* [6]) *saal. b*; tilheyriligt *B.* [7]) þetta *b.* [8]) allri *b.* [9]) liðsdrætti *b.* [10]) *saal. b*; úvíganda *B.* [11]) væntir *b.*

ek, at svá muni[1] verða. Ok þó at vér hafim[2] stórliga fátt lið hjá honum, skulum vér alls ekki óttast, heldr treysta því framar á guð ok gefa oss upp undir hans miskunn ok árnaðarorð hins heilaga Petri, einkanliga skulum vér nú undir krjúpa meðr alvöru fullting hins mikla vinar míns Jacobi postola, herra ok höfðingja lands þessa, at hann veiti auðsýniliga forstöðu sínum verkmönnum, svá at öllum verði ljóst, at þeir eiga sér öruggan formælara, sem í hans þjónostu vilja drengiliga standa. Ok sakir þess at skjótliga munum vér bardaga eiga, í hverjum engi má öruggr vera hvárt guð dróttinn veitir lengri lífdaga, þá er þat bœn vár ok vili,[3] at þér, postuligr herra, syngit messu á morgin sem fyrst er tími[4] í váru landtjaldi, ok ⌊fórnfœra öllum heimi[5] til hjálpar dróttinligan líkama ok einkanliga oss, er í þenna pungt stöndum; skulu þá allir várir menn taka af yðvarri hendi heilaga þjónostu, ok styrktir aflausn synda meðr blezan af yðr veittri skulu búast til bardaga; því búist nú hverr ok einn svá við, at hann verði makligr guðligum[6] stórmerkjum. Herra páfinn þakkar keisaranum sín orð ok allir aðrir ok[7] játta gjarna hans vilja at gera. En þegar er dagrinn kemr, býr páfinn sik til messu ok aðrir lærðir menn, syngst guðligt embætti vel ok sœmiliga fram um guðspjall, en þá ganga allir nýdubbaðir riddarar til altaris gefandi mikit fé, gull ok silfr,[8] at einn mátti langan tíma vel af fara, ef geymsla fylgði. Ok sem þar er komit þjónostu, er lýðrinn skal taka corpus domini, ganga fyrst allir kennimenn til heilags altaris, þar næst keisarinn, ok síðan hverr eptir annan. En áðr herra páfinn gengr frá altarinu, talar hann fagrliga fyrir fólkinu af margfaldri miskunn guðs við mannkynit, sýnandi[9] ljósliga hvat þeir taka í ömbun, er trúliga þjóna sínum lausnara; þar með birtandi hvílíka eymd ok vesöld þeir eigu[10] fyrir hendi, er hann fyrirlíta ok fóttroða heilaga kristni, alla fögrum orðum áeggjandi, ok einna framast nýju riddara, at allir standi nú karlmannliga undir keisarans merkjum, heitandi öllum þar fyrir aflausn allra sinna synda. Eptir þat lætr herra páfinn frambera heilagan kross dróttins or sinni hirðslu, er greint var snemma[11] í þessu máli, at hann flutti með sér af Róma til Hispaniam. Ok sem hann opinberast, falla allir til jarðar með miklu mjúklæti, heiðrandi þat blezaða tákn sem mætara er hverjum dýrasta gimsteini. Herra páfinn talar þá með tárum sínum:[12] Synir mínir, segir hann, lítit meðr yðrum augum þenna háleita heilaga[13] dóm, er fagrliga dýrkaðist af hreinum ⌊dreyra várs lausnara,[14] á þessum þoldi hann

[1]) man *b.* [2]) höfum *b.* [3]) ráð *b.* [4]) tóm *b.* [5]) [fórnfœrit öllum þeim *b.* [6]) guðs *b.* [7]) *tilf. b.* [8]) svá *tilf. b.* [9]) ok sýndi *b.* [10]) eiga *b.* [11]) snimma *b.* [12]) *mgl. b.* [13]) heilagan *b.* [14]) [líkama várs herra Jesu Kristi. *b.*

sáran dauða fyrir várum syndum, undir þessu merki skolu þér nú framganga væntandi, at svá sem úsýniligir várir úvinir leggja fyrir hans krapti á flótta, svá munu[1] ok sýniligir guðs úvinir ok heilagrar kristni hneykiast ok at engu verða allr þeirra máttr, ef guð virðist þeim sýna hans mikla heilagleik. Eptir þessor orð hefr hann upp sína hægri hönd ok gefr öllum sína blezan. Ferr hverr síðan heim til sinnar búðar, ganga til borðs, eta ok drekka sem líkar. En synir herra Girarðs ríða til turnsins ok segja hertoganum, hversu stórmannliga keisaranum hefir farit til þeirra, ok svá hvat fram hefir farit [síðan með[2] Frankismönnum. En herra Girarð verðr glaðr við þá sœmd, er keisarinn hefir [veitt þeim.[3] Sem keisarinn hefir þvílíka stund setit yfir borðum, sem honum þótti fallit, býðr hann lúðra við kveða, ok þat með at hverr búi sik ok sinn hest til orrostu, ok sem þat er gert, skipar hann fim fylkingar af sínu liði. Í hinni fyrstu fylkingu skipar hann foringja Rollant frænda sinn með tólf jafningjum, leggjandi honum til fylgdar þrjár þúsundir ungra manna. Fyrir aðra fylking setr hann Salomon konung ok Huga jarl, váru þar Bretar, ok höfðu þat sigrmerki, er forðum bar hinn heilagi Milun er hvílir í Bretlandi; var þeirra sveit fim þúsundir. Þriðju fylking skal stjórna hinn hrausti höfðingi Gaskunie Droim konungr ok Nemes hertogi, ok höfðu sjau þúsundir. Fjórðu fylking stýrði góðr höfðingi Gundilber[4] Frísa konungr, Segris ok Enser váru í þeirra fylgd, Saxar ok Normandiar.[5] Sjálfr Karlamagnús ætlar sér ena fimtu til forráðs, var þar Fagon[6] merkismaðr, Vitaklin ok margir aðrir góðir drengir; en svá segir,[7] at eigi hefði[8] hann þá fleira[9] í sinni höfuðfylking en sextán þúsundir eðr litlu meir. Síðan tekr keisarinn einn langan reyrvönd sér í hönd, stígr á vápnhest gildan, ok greinir hverja fylking frá annarri svá langt sem honum sýnist. Ok áðr hann víkr aptr sínum hesti, kallar hann Oddgeir danska ok segir svá: Meðr því, góði vin, at ek veit kapp ok harðfengi Rollants frænda míns, at optliga sér hann eigi fyrir, hversu honum gengr út sakir sinnar hreysti ok góðvilja viðr oss, þá biðr ek, at þú sér honum sem[10] næst í þessum bardaga ok hjálpir honum við, hvat[11] sem þú mátt, [því at[12] engum manni ann ek meira, ok því verðr mér þat mikill harmr, ef honum verðr[13] nökkut, því at þótt Rollant sé enn ungr, þá finnst honum engi meiri kappi. Oddgeir svarar: Gjarna, minn herra, skal ek gera yðvarn vilja í því at standa hjá honum, þótt ek sé fyrir enga grein til þess kominn at veita honum nökkura umsjó, því at í öllum hlutum er hann röskvari, þó ek hafi

[1]) muni *b.* [2]) [*saal. b*; miðil *B.* [3]) [þeim veitta *b.* [4]) Gundebol *b.* [5]) Nordmandiar *b.* [6]) *saal. b*; Magan *B.* [7]) segist *b.* [8]) hafði *b.* [9]) lið *tilf. b.* [10]) *mgl. b.* [11]) hvar *b.* [12]) [*mgl. b.* [13]) grandar *b.*

vetratal meira, en guð kristinna manna geri við oss alla samt eptir sinni mildi.[1] Skal hér nú fyrst hvílast, en víkja þar til sem fyrr var frá horfit.

64. Agulandus konungr sem hann hefir látit reisa sínar herbúðir ok skipat liði sínu í fylkingar, kallar hann til sín sjau konunga, er vitrastir váru allra hans ráðgjafa, ok talar til þeirra þvílíkum orðum: Mjök undarligt þikki mér, at Jamund son minn kemr eigi til fundar við mik, því at öll líkindi þœtti mér, at hann mundi frétt hafa vára higatkvámu, ef nökkur[2] dveldist hann í nálægum stöðum, ok yðr at segja, hefir ek á mikinn[3] grun, at eigi muni [honum sjálfrátt[4] um sínar ferðir. Þá talar Madequin öflugi: Herra, segir hann, mikil undr hefi ek at segja, engi nótt kemr sú yfir, síðan vér sigldum til lands þessa, at eigi dreymi mik býsn ok údœmi, kristna menn þikkjumst ek sjá svá undarliga klædda, at frá höfði til hæls sýnast mér þeir huldir harðasta stáli, svá at þar fyrir meinar þeim hvárki starf né vökur, [en svá kynliga leika við oss,[5] at hvítt ok rautt, þat er [heili ok blóð,[6] þikki mér þeir samblanda í höfði várra manna. Nú fæ ek eigi skilit, hvat slíkt hefir þýða. Konunginum þótti undarligr hans framburðr, ok vildi þar ekki til tala. Því næst segir Maladien konungr: Margir undra þat, Agulande, um svá vitran mann sem þú ert, hví svá lengi skal dvelja[7] at eiga bardaga við kristna menn, en ríða eigi sem skjótast á hendr þeim, svá fáliða[8] sem þeir eru. Er þat ok sannleikr, at Karlamagnús þessi hefir fengit mikla dirfð af sínum metnaði, er hann treystir[9] sínum litla liðsafla at bíða yðvar, en þat mun til koma, at hann kann eigi hugsa, at þér hafit þvílíkan styrk honum í móti. En þó er váru máli nú þann veg komit, at nógu marga góða drengi þikkjumst vér hafa látit, þó at eigi fœri héðan af fleiri, ef því mætti við koma; því væri prófanda enn um sinn, at þessi Karlamagnús vildi ríða á vit sín ok kennast við sjálfan sik, ok senda til hans skilríka menn, þá er greiniliga útskýri yðvart vald, ríki ok fjölmenni, þar með [beri þeir[10] einarðliga fram yðvarn boðskap. Vill hann yðr undirgefast ok hlýðnast, þá er vel, neiti hann þeim kostum, sem þér bjóðit, sé hann drepinn ok allir Frankismenn, taki þeir þá sitt dramb ok ofmetnað. Þá svarar Ulien: Herra konungr, dvelit sem skemst at fullgera þetta ráð Maladiens konungs, því at þat er vel ok vitrliga tillagt;[11] látit til annan at fylgja mér, ok munum vit[12] þetta eyrendi svá í alla staði vel fylla, sem þér fyrir segit. Agulandus [svarar þeirra orðum ok[13] sendir eptir Galinger gamla ok segir honum þessa

[1]) miskunn *b.* [2]) nökkut *b.* [3]) nökkurn *b.* [4]) *saal. b*; hann sjálfbrátt(!) *B.* [5]) [*mgl. b.* [6]) [*saal. b*; heila þar með *B.* [7]) fresta *b.* [8]) fáliðir *b.* [9]) með *tilf. b.* [10]) [*tilf. b.* [11]) samit *b.* [12]) vér *b.* [13]) [*mgl. b.*

ætlan, beiðandi at hann fari þessa sendiferð með Ulien. Hann játtar því gjarna, býr sik vel ok kurteisliga, bindr sér á fœtr gullbúna spora, leggr yfir sik eina dýrastu skikkju ok setr sér á höfuð kórónu gimsteinum setta, stígr síðan á enn[1] sterkasta múl, svá at margir héldu í hans ístig. Ok er sá hinn gamli karl er á bak kominn, fá þeir honum í hendr einn olifakvist til marks,[2] at hann var sendimaðr með góðum friði. Var maðrinn skrautligr,[3] því at skegg hans hvítt fléttaðist langt niðr á bringu, en hárit lokkaðist ofan á herðar undan kórónunni. Ulien snarar[4] upp á einn fljótan hest, þann er betri var at reyna en [tvá aðra,[5] hann hafði steypt yfir sín[6] klæði silkipanzara meðr gullsaumaðum laufum, hann bar gullsmeittan buklara ok hafði hit hvassasta spjót með miklu merki ok fríðu. Riðu þeir brott síðan frá Agulando, annarr skipaðr til þess at bera fram konungsins orð með hógværð ok mikilli snild, en annarr skyldi hóta með snörpum orðum, ef þess þyrfti við. Sé, svá ríða þessir sendimenn Agulandi til þess at þeir nálægjast fyrstu fylking keisarans. Lætr Ulien blaka merkit fyrir vindinum, stíga báðir vel í stigreip, gera sik sem gildasta, at því meira [skoli um finnast[7] þeim er þá líta. Þeir ríða drjúgliga fram um hinar þrjár fyrstu fylkingar, kveðja engan, enda gaf engi gaum at hvar þeir fóru. Sem þeir koma at meginliðinu ríðr einn mikill maðr ok merkiligr á grám hesti fram fyrir þeim, á hvern Galinger kallar hárri röddu svá segjandi: Þú maðr er þar ríðr, seg mér greiniliga hvar Karlamagnús er, konungr Frankismanna, ek kann engi skil á honum, en vit erum sendir til hans af hinum öfluga konungi Agulando. En þessi sami riddari var hinn kurteisi herra Karlamagnús, ok hafði þá nýgreint sundr sínar fylkingar, sem áðr sagðist. Ok hann heyrandi röddina mannsins,[8] snýr hann[9] aptr móti hestinum ok segir: Góðir vinir, segir hann, hér er ek rétt hjá yðr,[10] ok eigi þurfi þér mín lengr[11] leita. Þá svarar Galinger: Enga kveðju hefir ek þér at bera,[12] því at enga ást né góðan vilja hefir [konungr várr[13] á þér né nökkurr hans manna, en heyr þann boðskap, sem ek man fram bera af hans hendi. Gjarna góði vin, segir hann, ger þitt eyrendi svá frjálsliga sem þér líkar, engi minna manna skal ykkr misbjóða. Sakir þess, kvað Galinger, at þú kennist við, hversu þolinmóðr Agulandus er, þá bauð hann, at þú sendir honum fjóra höfuðguði sína heila ok úskadda, ok þar með skatt, þat er þúsund hesta klyfjaðra[14] af brendu gulli ok silfri ok öðrum dýrum gersemum, hér á ofan svá margar

1) einn *b*. 2) merkis *b*. 3) skörugligr *b*. 4) snaraðist *b*. 5) [tveir aðrir *b*.
6) *saal. b*; sik *B*. 7) [finnist um *b*. 8) mannanna *b*. 9) *mgl. b*.
10) ykkr *b*. 11) lengra *b*. 12) af Agulando konungi *tilf. b*. 13) [hann *b*.
14) klyfjaða *b*.

fríðastu meyjar úspiltar; þetta svá mikit skaltu honum leggja þér til lífs ok þínum mönnum. En ef þú vill halda þinni sœmd ok ríki, þá bauð hann, at þú takir[1] kórónu þér af höfði, legðir niðr konungs skrúða, en klæddist hárklæðum ok géngir berfœtr,[2] berandi sjálfr þína kórónu þér í hendi, ok framkomandi fallir á kné ok gefir honum í vald höfuð þitt með lítillæti. Ok ef þú gerir svá, skulum vér hans ráðgjafar með þér fram falla ok biðja þér miskunnar, þikkist ek þat vita, at gjarna[3] gefr hann þér aptr þína sœmd ok kórónu, ef þú vill gerast hans maðr. Karlamagnús heyrandi orð Galinger brosir nökkut lítt í kampi ok talar meðr hógværum orðum: Vel ok skörulega berr þú fram eyrendi þíns höfðingja, en þat veit guð, at mjök þunga þjónostu kýss sá heiðni konungr mér til handa, en[4] illa ömbunaði ek þá dróttni mínum marga sœmd ok mikla, sem hann hefir mér veitt,[5] ef ek gæfa sjálfkrafi sakir[6] lítilmensku hans kristni undir vald ok yfirboð heiðinna þjóða, alls til lengdar[7] hefði Karlamagnús þá lifat, ef hann svá dýrt keypti eins heiðins konungs vináttu, at neita guði sínum[8] údauðligum konungi, en þjóna ok lotning veita bölvaðum skurgoðum[9] dumbum ok dauðum;[10] nei, segir hann, bannar guð, at svá gerist, heldr er ykkr þat satt at segja, at eigi meðan lífit liggr mér í brjósti, skal ek leggja mína sœmd með kórónu í kné Agulandi, en gull ok silfr man eigi finnast svá mikit í váru valdi, sem hann krefr, ok guð láti oss aldri girnast meðr eigingirni[11] utan til styrktar heilagri kristni ok sœmdar [góðra riddara.[12] Meyjar fríðar þær sem Agulandus vildi sér senda láta, eru nú fjarlægar luktar í öruggum borgum ok kastalum svá trúliga, at engi maðr má þeim grand vinna, enda er þat mjök úfallit, at kristnar brúðir selist til samlags ok saurlifnaðar heiðinna manna. Þau fjögur skurgoð er þér kallit [(at) verit hafi guðir yðrir,[13] eru nú eigi til reiðu honum at senda, því at fyrir nökkurum dögum váru þau pútum í vald gefin, ok brutu þær þá sundr í smátt. Sem Ulien heyrir hvat konungrinn talar, reiðist hann ákafliga, lætr síga brýnn, hefir sik úkyrran, reisir upp merkit en hristir spjótit, styðst á söðulbogann, ok segir svá: Hvaðan kom svá mikil dirfð þínu hjarta, at þú tekr þann veg rembiliga eyrendi þvílíks konungs? Fyrir þá eina sök bauð hann þér þetta, at honum þótti, sem er, lítilræði í at láta[14] drepa þik ok þitt lið. En fyrir því at þú kant eigi þekkjast hans góðvilja, þá vir þat ifalaust,[15] at Agulandus er kominn með úflýjanda her ok ætlar at drepa alla þá er þér fylgja, en taka sjálfan þik höndum ok binda

[1]) legðir *b*. [2]) berfœttr *b*. [3]) þegar *b*. [4]) enna (!) *b*. [5]) veitta *b*. [6]) með *b*. [7]) lengi *b*. [8]) mínum *b*. [9]) skurðgoðum *b*. [10]) daufum *b*. [11]) *saal. b*; eiginligri *B*. [12]) [góðum riddurum *b*. [13]) [verit hafa guði yðra *b*. [14]) *mgl. b*. [15]) efalaust *b*.

sterkum rekendum, flytja með sér í yðra höfuðborg Rómam ok kóróna þar Jamund son sinn ok gefa honum til stjórnar alla Jtaliam, en þik ok alla kristna menn reka í þrældóm, utan [þit vilit[1] þeim glaðliga hlýða. Keisarinn svarar þá brosandi: Mjök úvitrlig hugsan at ætla einn ráða öllum heimi, ok ef guð lofar, mun Agulandus því síðr kóróna Jamund í Róma, at honum skal þess eigi auðit at koma þar sínum fótum. Galinger talar[2] þá: Herra konungr, segit mér, í hverju hafi þér svá mikit traust, er nökkut yðvart lið meira, en þat sem nú hefir ek sét? mér virðist þat stórliga fátt hjá styrk Agulandi, því at í hans fremstu fylking er Madeqvin stýrir [eru tuttugu þúsunda[3] bæði stórir menn ok sterkir, en í hverri annarri fleira; því fæ ek eigi annat skilit, en svá [breiðist niðr yðvart fólk sem lauf af viði,[4] ok þat munda ek hyggja, at feigð tali nú fyrir yðrum munni. Keisarinn svarar: Verða má at svá sé, en eigi máttu sjá várn mesta styrk, því hann er hvárki í dauðligra manna höndum né skurgoðum, senniliga heldr í einum guði ok hans heilagum.[5] Ulien svarar: Ger boðskap Agulandi, ok lát til reiðu skattinn. Karlamagnús segir: Bíðit þolinmóðliga litla stund, meðan ek ráðumst um við menn mína. Skjótliga víkr keisarinn aptr til herbúða ok gerir orð hertoga Girarð, at hann komi á hans fund. Þegar sem hertoganum [kemr keisarans orðsending,[6] ríðr hann án dvöl með sínum frændum, ok áðr hann kemr fyrir Karlamagnús, stígr hann af hesti gangandi þar til sem keisarinn sitr, ok fellr á kné minnandist við hans hægri hönd, svá segjandi: Guð ömbuni yðr, góði[7] herra, þá[8] sæmd er þér veittuð sonum mínum. Keisarinn svarar: Alt var þat með minna móti en þú vart makligr. Eptir þat segir hann honum, at þar eru sendimenn Agulandi, þar með greinandi alt þeirra eyrendi. [Sem hertoginn hefir þat heyrt, segir hann:[9] Góði herra, margt er enn gott til ráða, sendit Agulando höfuð Jamundar sonar síns, er honum þó helzti gott ok miklu skapligra at leggja honum í kné[10] en höfuð yðvart með kórónu, vænir[11] ek, at við þá fórn bregði[12] honum mátuliga vel, er ok því betr er[13] honum líkar verr. En óttumst alls ekki at berjast, styrki hverr annan, en guð alla oss; vei verði þeim er eigi rekr djarfliga þeirra[14] tuttugu þúsundir á flótta meðr þeim tíu er mér fylgja. Svá gerir keisarinn, sem hertoginn leggr ráð til, sendir tvá riddara Baldvina ok Riker til þess olifatrés, er búkr Jamundar lá undir, ok þeir þar komandi

[1]) [þú vilir *b*. [2]) svarar *b*. [3]) [*saal*. *b*; hann tuttugu þúsundum *B*. [4]) [dreifist yðvart fólk sem lauf fyrir vindi *b*. [5]) mönnum *tilf*. *b*. [6]) [koma keisarans orðsendingar *b*. [7]) völdugi *b*. [8]) miklu *tilf*. *b*. [9]) [Hertoginn svarar *b*. [10]) þat *tilf*. *b*. [11]) veit *b*. [12]) bregðr *b*. [13]) sem *b*. [14]) *tilf*. *b*.

hjuggu brott höfuðit af búkinum ok armlegginn hœgra með fingrgulli, höfðu þetta tvent með sér, en létu[1] bolinn[2] eptir liggja, ríða síðan aptr ok kasta niðr á jörðina fyrir fœtr keisarans. Eptir þat kallar herra Karlamagnús á þá Galinger ok Ulien hárri röddu svá segjandi: Komit hingat, sendimenn, [því at nú er skattrinn reiðu búinn.[3] Í fyrstu sem þeir heyrðu skattinn nefndan, urðu þeir geysi glaðir, en svá sem þeir sjá hvílíkt[4] er, bregðr þeim alt öðruvís[5] við en þeir hugðu til. Karlamagnús talar þá til þeirra meðr blíðu andliti: Nú þó at þeir hlutir sé eigi til reiðu at senda Agulando konungi yðrum, sem hann beiddi, þá skal eigi alt eins engis virða orð þvílíks höfðingja, allra helzt[6] er hann sendi þvílíka menn til vár. Því takit hér[7] fjóra gripi ok fœrit konungi yðrum, þat er höfuð Jamundar með hjálmi, ok armleggr hans með fingrgulli; segit þar með Agulando, at þetta skal hann fyrr eiga umfaðma en gulliga kórónu Karlamagnús keisara, ok ef guð lofar, ætlum vér þvílíkan at gera hans sem Jamundar. Galinger sem hann lítr höfuð Jamundar þann veg tilbúit, andvarpar hann hátt ok segir: Hó[8] herra Jamund, þunga dagleið áttir þú fyrir hendi, þá er þinn varð[9] þvílíkr gerr; en hvat gerðir þú, hinn bannsetti Makon, er þinn bezti vin skyldi svá háðuliga vera leikinn? Konungrinn svarar: Þat var at líkendum, þó at sá veitti enga hjálp öðrum, sem sjálfum sér mátti eigi forða við hrakförum.[10] En tak þú, Galinger, til meðferðar,[11] hvárt sem þér líkar [höfuð Jamundar eðr armlegginn[12] ok fœr Agulando. Nú þó honum væri hvárki mjök viljat, fœrist honum höndin, en Ulien höfuðit, ok sem þat er borit at honum, ýglist hann á[13] höfuðit, blæss hátt ok segir: Þat veit Maumet, at mikilla hefnda er sá verðr af Agulando, er þvílíkt[14] hefir unnit at drepa hans einga son; því tak hér glófa minn, talar til konungs, í einvígis veð, ok lát fram í móti hinn vildasta af þínum,[15] ok ef ek sigra hann, takit allir trú vára, en ef hann sigrar mik, þá vil ek snúast til yðvars siðar. En vit þat, ef þit finnizt þú ok Agulandus, at þetta lið er alt til dauða dœmt, hvar fyrir örlög yðar eru þrotin ok með öllu únýt. Karlamagnús svarar: Vel segir þú, stillt lunderni þitt, þá er betr, því at þú hefir nasar[16] svá bráðar, at eigi geymir þú hvat þér byrjar tala; guð ræðr örlögum várum, en eigi orð þín, er þat ok líkara, at hann sýni, hvárr réttara hefir í þessu máli, hann er sœkir þetta land eða ek er þat ver. Nú fœr Agulando höfuðit með þeim orðum, at eigi um

[1]) *saal. b*; lætr *B.* [2]) búkinn *b.* [3]) [Nú er til reiðu skattrinn *b.* [4]) hvílíkr *b.* [5]) öðruvegs *b.* [6]) fyrir þat *tilf. b.* [7]) *saal. b*; þér *B.* [8]) óhó *b.* [9]) var *b.* [10]) hrakför *b.* [11]) ferðar með þér *b.* [12]) [höfuðit ok hjálminn Jamundar eðr armlegginn með fingrgulli *b.* [13]) *saal. b*; ok *B.* [14]) slíkt *b.* [15]) mönnum *tilf. b.* [16]) nasir *b.*

aldr berr hann kórónu í heilagri Róma. Við þessor orð skiljast þeir, líkar þeim Ulien stórilla.

65. Sendimenn Agulandi ríða nú brott eigi svá kátir sem fyrr, ok meðr minna ríkdómi en þeir hugðu til; eigi gengr Karlamagnús berfœtr[1] fyrir hestum þeirra,[2] eigi fylgja þeim til gleði fagrar meyjar, heldr er sá einn þeirra afli at líta blóðugt höfuð ok fyrir allar greinir lítt fágat, hvar fyrir þeir ríða seint með döprum hug, til þess at[3] þeir koma nálægt fremstu fylking Agulandi, ok mœta fyrst Madeqvin, hann heilsar þá ok segir: Verit góðir af tíðendum, segit með auðveldi, hversu mátti hinn digri Karlamagnús, hefir hann sent oss guði vára? Sem Ulien heyrir hvat Madeqvin talar,[4] reiðist hann ok vill engu svara. Hvaðan af Galinger segir: Hví[5] lætr þú sem galinn maðr? hvárki þína guði né [annat gott[6] mun Karlamagnús láta kúga af sér, dauðr er Jamund,[7] brotnir sundr guðirnir. Madeqvin svarar: Farit með engan hégóma, engi maðr mundi dirfast at gera þvílíka smán[8] ok skapraun konungi várum. Galinger segir: Líttu hér þá höfuð Jamundar, ef þú trúir mér eigi. En forsjóliga[9] gerði Karlamagnús þat, því at hvárki Agulandus né nökkurr yðvarr vissi,[10] at Jamund var[11] dauðr, utan hann hefði látit fylgja skýrar jartegnir, kenn nú þá þat fingrgull. er Jamund berr sér á armlegg. En er Madequin má eigi lengr dyljast við, svarar hann með andvarpan: Alt vill oss til harms snúast, ok létti hárit[12] sér af höfði, ok allir hans kumpánar, er þat fréttu, kveinaðu hátt með illum lætum sakir hræðslu ok ótta, er yfir þá kom. Síðan ríða sendimenn fram til annarrar fylkingar, er stýrði Achars or Amflor, ok þegar hann kendi silkimerki Uliens, snýr hann móti honum[13] ok mælti: Velkomnir lögunautar várir, hafa kristnir menn undir gengit meðr sínum höfðingjum vár lög. Galinger svarar: Mikil heimska væri þeim þat, því at alt várt traust verðr oss at engu, en þeir megu alt þat vinna sem þeim líkar. Acharz svarar: Hví beri þit ykkr svá lítt, eigi munu þau údœmi[14] at hendi komin, at Jamund sé dauðr. Galinger segir: At vísu er hann[15] dauðr, sem sjálfr máttu þínum augum sjá; lít hérna hönd hans með fingrgulli. En Ulien hefr höfuðit ok hjálminn, klofit hvártveggja sundr, er Karlamagnús sendi Agulando. Acharz ok allir hans menn urðu svá daprir af þessu efni, at nær vissi engi hvat at skyldi hafast. Fram ríða sendimenn héðan at þriðju fylking, er Kalades stjórnar, hann víkr fyrir þá svá segjandi: Makon signi ykkr; þat var enn ván Ulien, segir hann, at þér mundi sœmdin vilja, enda man Agulando þat

[1]) berfœttr *b.* [2]) *tilf. b.* [3]) er *b.* [4]) segir *b.* [5]) Hér *b.* [6]) [nökkut annat *b.* [7]) ok *tilf. b.* [8]) skömm *b.* [9]) forsjálliga *b.* [10]) mundi trúa *b.* [11]) væri *b.* [12]) *saal. b*; hartt *B.* [13]) þeim *b.* [14]) tíðendi *b.* [15]) Jamund *b.*

bezt líka. Gékk harði konungr glaðliga undir at gjalda skattinn, eða[1] hví fari þit svá fáliða? Váru hestarnir eigi til reiðu? Ulien tekr reiðast við þat spott, er hann þikkist mœta, ok svarar með mikilli reiði: Vei verði yðr, svá mart sem þér rabbit, er þat ok líkara, at þú Kalades ok þínir fylgdarmenn verði skjótliga vísir, hvern eða hvílíkan skatt kristnir menn ætla yðr, ok ef þú nýtr eigi annarra við, mun þér þá[2] at fullu vinnast; en vit þat, at guð vár hafa svikit oss ok látit drepa Jamund, en seljast sjálfa sik í hendr þátum; hafa þær svívirðliga farit með þá ok brotit sundr í smátt. Kalades gékk náliga af vitinu, sem hann heyrði hvat Ulien sagði, ok talar: Bölvaðr sér þú, Makon, [svá lítt geymandi[3] þíns höfðingja! Hverr mun héðan af þagat þurfa til trausts at leita, sem þú ert? Vei verði þér fyrir þinn údrengskap, þeir munu ilt at ömbun taka, er þér þjóna. Síðan ríða þeir fram til fjórðu fylkingar. Ok þegar Eliades ok Pantalas kenna þeirra ferð, snúa þeir móti þeim ok kveðja þá svá segjandi: Velkomnir sendimenn konungs várs, hvar eru þær fríðu meyjar, er Agulandus beiddi? gott eiga ungir menn sér við þeirra faðmlög at una. Galinger svarar: Eigi eru Frankismenn svá auðveldir við at eiga, sem þér ætlit, ok annars hygg ek at þeim þikki þér makligir en at leika[4] at gersemum þeirra. En nú er þat framkomit, Pantalas, sem margir töluðu, þá er Agulandus skipaði Jamund son sinn formann svá góðra riddara, at þat mundi öllum oss horfa til mikillar úgæfu at fara eptir hans ákefð til þessa lands, því at kristin þjóð hefir svá mikit traust í sínum guði, at þeir þikkjast öllu á leið koma, þegar hann hlutast til með þeim, lítit skilda ek af, en mart heyrða ek þá segja af honum; drepit hafa þeir Jamund ok alt [lið hans,[5] tortímt hafa þeir guðunum sjálfum, ok vilja enga sœmd Agulando fyrir unna, þvílíka vanvirðu ok skömm sem þeir hafa gert honum ok öllum hans vinum. Þvílíkt höfum vit at segja, ok þó annat miklu fleira. Pantalas þagnar ok kann engu svara. Þessu næst koma þeir at höfuðmerki Agulandi, fara margir miklir höfðingjar ok spyrja þá æ sem tíðast at tíðendum, en þeir láta mjök drjúgliga ok vilja engum nökkut segja fyrr en þeir koma fyrir[6] Agulandum. En er Agulandus sér þeirra ferð, verðr hann geysi glaðr, heilsaði[7] þeim fyrri, ok spyrr hvar Karlamagnús var[8] eða hvárt hann ætli[9] koma á hans fund, biðr þá segja hátt ok greiniliga sitt[10] eyrendi. Galinger svarar konunginum: Meðr því at þér beiðit þess, skal ok svá gera. At vísu ætlar Karlamagnús at koma[11] á yðvarn fund, ok[12] eigi meðr svá mikilli undirvorpningu at

[1]) ok *b.* [2]) sá *b.* [3]) [er svá lítt geymdir *b.* [4]) yðr *tilf. b.* [5]) [þat lið er honum fylgdi *b.* [6]) til *b.* [7]) heilsandi *b.* [8]) fari *b.* [9]) nökkut *tilf. b.* [10]) sín *b.* [11]) sœkja *b.* [12]) en *b.*

gefa upp í yðvart vald sína kórónu með konungligri sœmd, heldr at eiga við yðr bardaga. Er þat ok satt at segja, at engis kyns ótta [sám vit[1] snerta hans hjarta, ok eigi it minsta bregða sínum lit, þá er vit bárum honum yðvart eyrendi, heldr var hann heill ok kátr ok hafði skipat sínum fylkingum. Þá svarar Agulandus nökkut stutt: Sendi hann oss skattinn? Já, herra, segir Ulien, þvílíkan sem nú megi þér sjá. Kastar fram hjálminum með[2] höfðinu fyrir fœtr honum, ok talar: Þenna sendi Karlamagnús þér skattinn, en engan annan, er þat höfuð Jamundar; ok til þess at þér þurfit eigi lengr[3] dyljast við at son yðarr er dauðr, lét hann fylgja skýrar jartegnir, hverjar Galinger [kann yðr at[4] sýna. Galinger leggr þá fram armlegginn á gólfit fyrir kné konungi. Sem Agulandus sér höfuð Jamundar, visnaði hans hjarta, svá at alt megn[5] dró brott or hans limum, fallandi fram or sínu sæti yfir höfuðit mjök í úvit, ok liggr þar til þess, at hjástandandi menn taka hann sér í faðm. Ok sem af honum líðr it mesta úmeginit,[6] talar hann með þungu andvarpi: Hó hó, son minn, til mikillar úgiptu [var þú[7] fœddr, því at fyrir þitt forsjóleysi stingr[8] œsiligr harmr hjarta þíns föður; en þó er þat makligt, því at ek veitti þér ofmikit efni til mótgangs við mik, þá er ek setti kórónu þér á höfuð, aldrigi síðan fylgdir þú mínum ráðum, heldr héltu[9] þeirra félagskap, er hvárki vildu mína sœmd né þína, svá at Estor er mik vildi svíkja, gerðir þú þinn merkismann, ok þökk hafi þær hendr er hann drápu. Eptir þetta talar hann til Galinger: Hvar eru guðir várir fjórir? Hann svarar: Enga ván eigi þér[10] þeirra, herra, því at kristnir menn hafa háðuliga við þá skilit, svá at skœkjur tóku þá í sitt vald, drógu þá ok bundu brjótandi sundr at síðastu, ok undra ek, hví þeir létu [þann veg[11] með sik fara, eigi sýnandi né eitt mark[12] síns máttar, en þat mun reyndar, at þeir megu sér miklu minna en vér látum, hefði þeir mátt við gera, þá þyldi þeir aldri [þvílíka smán[13] hefndalaust. Sem Agulandus heyrir þat, þikkir honum lítit um batna, ok segir svá bæði[14] með hrygð ok mikilli œði: Hví má þann veg til bera? Áðr vér byrjaðum herferð til þessa lands, báðu vér guðina fulltings, er margan tíma höfðu oss vel dugat, ok vér hyldumst þá svá mjök[15] at, at vér sendum þá fram[16] í Arabialand ok létum öll búa með skærasta gulli ok dýrastum gersemum, ætlandi at því öllu framar stœði þeir frammi með oss; en nú er sú ván horfin, at þvílíku sem sjá má. Hvat kantu at segja, Galinger, af Karlamagnúsi? Galinger svarar: Karlamagnús virðist mér hinn merkiligasti maðr ok hafa

[1]) [sá ek *b.* [2]) ok *b.* [3]) *mgl. b.* [4]) [má yðr *b.* [5]) megnit *b.* [6]) úmegnit *b.* [7]) [vartu *b.* [8]) stangar *b.* [9]) hélt þú *b.* [10]) til *tilf. b.* [11]) [svá *b.* [12]) merki *b.* [13]) [*mgl. b.* [14]) báði *b.* [15]) *mgl. b.* [16]) *mgl. b.*

svá[1] snörp augu ok mikla giptu. Mart heyrða ek þá segja af guði sínum, kváðu hann hafa niðr stigit af himnum í kvið heilagrar nökkurrar meyjar, þeirrar er þeir nefndu Mariam, segjandi at hon bæri hann í sínum kviði marga mánuðu,[2] ok fæddi síðan sem eitt lítit barn í heiminn, ok þat létu þeir þar fylgja, sem mér þótti móti öllum líkendum, at hon væri jafnhrein mær síðan hon hafði getit hann ok fætt sem áðr. Þenna piltinn unga sögðu þeir vera sem annan mann ok taka skírn af einum manni, er bygði[3] eyðimörk, ok nefndu hann Johannem. En eptir þat er Jesus var skírðr, sögðu þeir hann predika sanna trú, en þat þoldu Gyðingar illa, ok hefði farit til at pína hann ok negla[4] á kross, ok dœi[5] sem annarr maðr, ok eptir þat risi hann[6] af dauðanum til lífs ok stigi upp aptr til himnanna ok settist í sitt hásæti, byggjandi þar æ síðan. Ok þat sögðu þeir, at sá einn mætti hjálpast, er á hann trýði. Ok þá spurða ek, hvat þeir hefði, er eigi trýði honum, en þeir sögðu þá brenna í eilífum eldi. Í þessum guði sínum sögðust þeir hafa svá mikit traust, at þeir ætlaðu glaðir ganga til bardaga móti yðr, ok þótti sigrinn víss fyrir hendi; en sú þeirra ætlan var mér eigi skiljanlig, því at yðr, herra, satt at segja, mun eigi taka lið þeirra til þriðjungs við yðvarn fjölda. Agulandus svarar: Fyrir þeim mikla harmi er ek þoli fyrir dráp sonar míns, má ek eigi eptir hugsa hvat er þú talar. Eptir þetta er tekit blóðugt höfuðit or hjálminum ok fœrt konungi, en hann minnist við leggjandi á brjóst sér. Endrnýjast þá hans harmr ok angr, ok réttliga mátti þat segja, at um allar fylkingar Agulandi væri hit sama orðtak at heyra, er hverr sagði öðrum: dauðr er Jamund. Þar með störfuðu allir í sorg ok gráti. En meðr guðs lofi man þetta hrygðarefni lítit hjá því, sem þeim man skjótt til[7] bera.

66. Þessu næst er greinanda, at svá sem sendimenn Agulandi váru brott riðnir, talar Karlamagnús við hertoga Girarð: Þú minn elskuligsti vin, segir hann, skaltu[8] hafa blítt orlof til þinna manna ok búa þá til bardaga, því at í stað ætlum vér[9] láta blása til atlögu. Hertoginn svarar: Verði vili guðs ok yðvarr, en geymit þess einna framast, at hin fyrsta atlaga yðvarra manna verði sem snörpust, því at ef heiðingjar kenna engan bilbug á yðr, munu þeir skjótt vikna. Ok ef guð gefr þat fyrir sína mildi, at fyrr orkaði á þeirra lut, þá væntir ek, at eigi fái þeir viðfall þaðan af; því at lengstum ferr svá, at þeim veitir erfiðara, er fyrri hliða. Ok [ef hin[10] fremsta fylking gengr fram or sinni stöðu, sœki aðrir því

[1]) *mgl. b.* [2]) mánaði *b.* [3]) í *tilf. b.* [4]) hann *tilf. b.* [5]) deyði *b.* [6]) upp *tilf. b.* [7]) handa *tilf. b.* [8]) skalt *b.* [9]) at *tilf. b.* [10]) [*saal. b*; ek man *B.*

drengiligar eptir, ok styði svá hverr annan, en standi meðan sem bezt, er eigi sér hvern veg ferr. En ek man þar leita til atsóknar meðr mínum mönnum, sem guð gerir ráð fyrir; vilda ek gjarna, at eigi gæfi[1] þeim setuefni[2] sem vér fyrst mættim. Keisarinn þakkar hertoganum sín tillög, kvazt þess vænta, at vel dugi Rollant frændi hans til með sínum jafningjum. Skiljast síðan, ríðr hertoginn sinn veg, en Karlamagnús lætr blása sínum konungligum lúðri, en er hann heyrist, gerist mikill gnýr ok úkyrrleiki í herinum, skipast hverr þeirra í þá stöðu ok undir þat merki, er hann á at standa. Sem hér er komit, ríðr herra páfinn fram meðr mikla sveit manna, váru þeir flestir herklæðum skrýddir berandi dróttinligan kross. Ok meðr því at enn var eigi ráð fyrir gert, hverr þat dýrmæta merki skyldi um bardagann bera, þá víkr herra páfinn at einum herramanni, er honum var vel kunnigr af þeirri sveit er Mauri kallast, ok segir svá til hans: Þú góði vin, skrýð þik sæmiliga ok ber í dag kross dróttins fyrir váru liði. Herra, [segir hann,[3] þér talit undarliga, hversu má ek bera þann blezaða kross úlærðr maðr? Hvat vinn ek þá með þeim vápnum, er þér féngut mér fyrra dag? Ek segi yðr, herra, at eigi skrýðumst ek fyrri öðrum skrúða, en þessi bilar mér. Skolu þér ok þat sjálfir mega sjá, at svá drengiliga skal ek guði þjóna ok yðr, at dýrkeypt munu þau verða heiðingjum. Því látit annan bera krossinn, þann sem hans heilagleik sé makligri. Herra páfinn kallar þá til sín mikilsháttar mann ok vel lærðan Ysopem at nafni, ok segir: Son minn, vér viljum at þú berir[4] í dag dróttinlegan kross fyrir váru liði. Heilagr faðir, segir hann, ek játti, at yðru boði á ek[5] hlýða, en bið ek, at heldr fái þér krossinn dróttins öðrum manni til meðferðar, því at alls til fá guðs úvini ok yðra þikkjumst ek mega slá mínu sverði, ef ek ber hann; hvar fyrir ek biðr, at þér gerit mik frjálsan ok liðugan af þessu, skal ek því heita, at eigi gangi heiðingjar þar frjálsliga fram, sem þeir mæta mér. Sem þeir talast þessor orð við, ríðr at einn þrifligr maðr sitjandi á vænum hesti rauðum, stórliga vel búinn at vápnum, kurteiss í vexti [ok hinn hreinmannligsti á hesti, meðr þrifligum herðum ok digrum armleggjum.[6] Þessi hneigir herra páfanum ok segir: Guð signi yðr ok styrki, heilagr faðir! heyrt hefir ek á um hríð, at yðr verðr[7] svá sem handbyndi at[8] hinum heilaga krossi, ok fáit eigi þann er hann vili bera; nú meðr yðrum vilja mun ek heita[9] þessu vandræði ok bjóðast til at bera krossinn, er þeir hafa áðr neittat svá sem miklum þunga. Herra páfinn lítr við honum ok

1) gæfist *b.* 2) setugrið *b.* 3) [*tilf. b.* 4) *saal. b*; berit *B.* 5) at *tilf. b.* 6) [með þrekligum herðum ok digrum armleggjum, ok hinn hreinmannligsti á hesti líta *b.* 7) verði *b.* 8) *tilf. b.* 9) létta *b.*

kennir eigi í fyrstu manninn, því at herklæðin huldu hans ásjónu, ok spyrr: Hverr ertu, góði riddari, eða af hverju ríki, er þann veg glaðliga býðst undir at bera [svá háleitan heilagdóm[1] ok létta váru starfi? Hann svarar með gamni: Herra, fyrir norðan Púl var ek fœddr í Frakkakonungs ríki, ek var munkr í klaustri Umages meir en tíu vetr, hvert stendr í borginni Kun, þaðan var ek brott tekinn ok gerr byskup Reimensis[2] kristni; en nafn mitt, herra, man yðr kunnigt, því at ek heitir Turpin. Herra páfinn segir: Son minn, at vísu ertu mér kunnigr, ok viltu bera í dag þetta blezaða merki? Gjarna, segir hann, því at svá byrjar, at vér yðrir þjónostumenn standim karlmannliga frammi í guðs bardaga, en þér biðit oss miskunnar. Eptir þat stígr erkibyskup af hesti ok gengr lítillátliga [kyssandi hœgra fót páfans,[3] en tekr síðan glaðr ok feginn við dróttinligum krossi, stígr á bak ok ríðr síðan alt í fremstu fylking. Ok þegar Rollant ok Oddgeir danski ok þeirra félagar sjá Turpin erkibyskup þar kominn meðr kross dróttins, stökkva þeir allir af baki, falla til jarðar með miklu lítillæti ok tigna þann háleita heilaga[4] dóm, en stíga síðan á hesta. Sem hér er komit, stendr vel at greina þessu næst, hvílíkt traust ok fullting er allsvaldandi guð auðsýniliga sendir heilagri kristni af sínu himnesku sæti fyrir háleita[5] verðleika síns elskuligsta postola, því at Jacobus sér ástundan Karlamagnús ok heyrt hefir hann keisarans bœn, ok fyrir því at hann skilr eigi nú mega algerliga yfirstígast af sinni jörðu til lokins herskap[6] úvinarins ok hans kumpáns Agulandi meðr mannligum styrk, því biðr hann sinn háleita meistara dróttin Jesum son Marie meyjar, at hann virðist nökkura senda sér[7] af himneskri hirðsveit, at makliga niðr brjóti[8] ok djarfliga sundr sníði drambsama limu andskotans. Ok þat veitist[9] þegar, því at svá sem kross dróttins várs Jesu Kristi er kominn í fremstu fylking kristinna manna, líta allir, at[10] sjá máttu fyrir þröng manna eða hæðum jarðar, at þrír riddarar björtum herklæðum skrýddir ok á hvítum hestum ríða ofan undan fjalli[11] Aspremont svá djarfliga, at eigi taka þeir fyrr sína hesta af skeiði, en þeir nema staðar[12] rétt í framanverðri fylking Rollants takandi sér stöðu hjá Oddgeiri danska. Ok[13] sakir þess at þeir kendust af engum, þá talar Oddgeir til þess er fyrir þeim var, ok undraði hví þeir [riðu þann veg[14] ákaft, ok segir svá: Þú riddari, er sitr á þeim[15] hvíta hesti, er ek sá engan stoltara, seg mér nafn þitt eða af hverri borg þú ert kynjaðr, aldri man ek þik mér fyrir augu hafa

[1] [þenna heilagan dóm *b*. [2]) Renensis *b*. [3]) [at pávanum kyssandi hans hœgra fót *b*. [4]) helgan *b*. [5]) háleitan *b*. [6]) *saal. b*; skap *B*. [7]) *mgl. b*. [8]) kvisti *b*. [9]) veittist *b*. [10]) er *b*. [11]) fjallinu *b*. [12]) stað *b*. [13]) En *b*. [14]) [riði svá *b*. [15]) hinum *b*.

borit, eða hvert ætlar þú, er þú ríðr svá geystr? Nýkomni riddari svarar honum meðr hógværri rödd: Stillt þik vel, góði vin, segir hann, ok tala þægiliga, en þat er líkligt, at fleiri sé menn í heimi en þú berir kensl á alla; en ef þú vill nafn mitt vita, þá nefn mik Georgium, en þeir tveir, sem mér fylgja, heita Demitrius[1] ok Mercurius, skal ek þik ekki leyna því, at vér erum sendir af konungi várum at veita yðr lið, ok ekki skaltu þat undra, þótt ek skipi mér í brjósti fylkingar, því at hvervetna þar sem ek verð í bardögum staddr, gerir ek æ hina fyrstu atreið móti úvinum, en hana vil ek nú gefa þessum unga manni keisarans frænda, sem hér stendr hjá okkr, meðr þeim formála, at aldri skal honum koma æðra í hjarta né bleyðiorð af munni, hvar sem hann verðr staddr. Sem Oddgeir þikkist gerla undirstanda, at þeir eru guðs heilagir menn, lítilætti[2] hann sik sem mest í þeirra augliti ok talar meðr fagnaði: Lofaðr sé sá dróttinn [er vér eigum,[3] er svá miskunsamliga umhugsan veitir sínum sauðum; enn bið ek þik, hinn heilagi guðs kappi, at þú takir þá geymslu yfir Rollant systursyni keisarans, sem hann skipaði mér. Georgius svarar: Ríðum fram djarfliga allir samt, en ger þú[4] ekki orð á fyrir öðrum af váru efni. Rollant heyrir þat sem þeir talast um, ok lofar allsvaldanda guð af öllu hjarta, ok víkr djarfliga fram í miðil þeirra, standa síðan allir samt.

67. Skjótliga sem greindir guðs riddarar eru í komnir fylking Frankismanna, sjá þeir hvar fram ferr Madeqvin mikli meðr sinni[5] fylking. Gerist þá úkyrrleikr mikill, hark ok háreysti, því at hvárirtveggju œpa stór[6] heróp, blása í horn ok þeyta lúðra, berja bumbum en ljósta trumbum, ok svá mikill gnýr varð af öllu saman ópi [ok háreysti[7] mannanna ok miklum hljóm stórra horna, háfum þyt hvellra lúðra, stórum dyn[8] digra trumbna ok allskyns lætum hesta ok múla meðr margri[9] hvískran fagra söngbjallna, at í hverri[10] hæð ok fjalli kvað dvergmála, en langt ok víða skalf jörðin ok pipraði hvern veg út í frá; ok sannliga máttu þeir eigi kallast huglausir, er í þvílíkum úkyrrleik stóðu meðr öllu úskelfðir. Því gaf [guð óumrœðiligan[11] styrk í hjörtu sinna manna, at þeir glöddust ok dirfðust við alt slíkt, svá sem þeir skyldi inn ganga til dýrasta snæðings. En af annarri hálfu kom mikill ótti í hjörtu margra heiðingja, þegar þeir litu fylkingar Franzeisa. Nú síga fylkingar saman, svá at eigi er lengra miðil en eitt örskot, ok áðr en [þær mœtast,[12] rennir Madequin fram á völlinn sínum stóra hesti, sem prófandi ef nökkurr væri svá mikils hugar, at við hann þyrði prófa.[13] En Georgius sem

[1]) Demetrius *b*. [2]) lítillækkar *b*. [3]) [*mgl. b*. [4]) þó *b*. [5]) sína *b*. [6]) *mgl. b*. [7]) [*mgl. b*. [8]) *saal. b*; þyt *B*. [9]) nógri *b*. [10]) *saal. b*; hverju *B*. [11]) [hann mikinn *b*. [12]) [*saal. b*; þeir mœðaz *B*. [13]) at reyna *b*.

hann lítr[1] Madequin, talar hann til Rollants takandi í beislistaumana, ok segir svá: Sé, segir hann, hversu þessi hinn drambláti hrósar sér, hræðst ekki þótt hann sé mikill ok digr, prófa til hversu leikrinn fari, því at þér byrjar[2] heyja fyrstu atreið þessa[3] bardaga. Rollant hneigir sik ok talar: Ef þat er vili guðs ok yðvarr, skal ek gjarna fyrstr manna brand[4] rjóða í heiðingjans blóði. Síðan slær hann þann[5] skjóta hest sporum, er Jamund hafði átt,[6] tvíhendir spjótit, en snarar at sér skjöldinn, ríðandi at sem snarast, ok leggr spjótinu í skjöld Madeqvins, ok sakir þess at hann var stórliga þungr fyrir, fékk Rollant hvárki komit honum af hesti né nökkut sveigðan. Madeqvin leggr spjóti [til Rollants[7] svá hart, at í gegnum gengr skjöldinn, en með því at guð hlífði, brast sundr spjótskaptit í þrjá hluti, en Rollant varð ekki sárr. Rollant fyllist upp af miklu kappi ok bregðr góða sverði Dýrumdala,[8] ok sakir þess at þeirra var svá mikill [vaxtar mun,[9] at Rollant náði varla hans höfði, reisist hann upp sem lengst ok höggr sverðinu ofan í miðjan hjálm Madeqvins, kljúfandi hans digra búk meðr öllum herklæðum alt niðr, svá at í hestinum nam staðar. Varð mikill dyn[10] í vellinum, er hann féll til jarðar. Sem heiðingjar sjá sinn höfðingja fallinn, skelfast þeir stórliga mjök ok tala[11] svá: Herra Madequin, segja þeir, í engu landi fannst þér meiri ok sterkari maðr, en furðuliga mikit afl er gefit þeim litla manni, er þik herklæddan svá ramliga sundr klauf; þat veit Makon, at aldri sám vér einn lágan dverg þvílík högg veita, ok ef aðrir Franzeisar eru jafnsterkir, man Agulandus hart niðr[12] koma, ok skjótt man öll Affrika í eymd sitja. Rollant ríðr eptir Madeqvin feldan[13] djarfliga fram at heiðingjum ok drepr hvern er fyrir verðr. Ok er Georgius sér hvat Rollant hefst at, talar hann: Ríðum fram til fulltings við þenna mann, er svá drengiliga hefir oss rutt til vígvallar. Eptir þat ríða þrír guðs riddarar, Oddgeir danski ok ellifu[14] jafningjar fram tveim megum[15] hjá Rollant, ok öll þeirra fylking, gerist þá hin snarpasta höggorrosta.[16] Þeir guðs riddarar bregða sínum sverðum, er svá váru hrein ok bitrlig at lýsti af, ok höggva niðr heiðingja til beggja handa. Sem bardagi[17] hefir fastliga tekizt ok Affrikar falla, en aðrir verjast vel ok drengiliga, kemr frægr herra Turpin erkibyskup móti heiðnum mönnum berandi þann heilaga kross, er á þessum tíma birtist yfir háleitr kraptr guðligrar miskunnar, at hann skein svá bjart, at alla vega ljómaði af[18] sem sólar ljósi, ok svá sýndist hann guðs úvinum mikill ok ógurligr, at

[1]) leit *b.* [2]) at *tilf. b.* [3]) í *tilf. b.* [4]) sverð mitt *b.* [5]) sinn *b.* [6]) áttan *b.* [7]) [*tilf. b.* [8]) Dúrumdala *b, her og senere.* [9]) [munr um vöxt *b.* [10]) dynr *b.* [11]) mæla *b.* [12]) viðr *b.* [13]) fallinn *b.* [14]) hans *b.* [15]) megin *b.* [16]) orrosta *b.* [17]) bardaginn *b.* [18]) honum *tilf. b.*

eigi þorðu þeir móti honum líta, heldr sneru þeir undan hans nálægð sem lengst mátti,[1] þar til at öll fylking Madeqvins tekr rjúfast. En Rollant með sínum mönnum drepa svá margan mann á litilli stundu, at þat var eigi auðvelt tína, því at meðan hans jatningjar váru úmóðir, þurfti engi lífs at vænta, er varð fyrir þeirra vápnum. En meðr því at víðara verðr við at koma, skal Rollant meðr krapti hins heilaga kross ok stuðning þriggja guðs ástvina, er jafnan géngu honum næstir, þann veg dreifa þeirri fyrstu fylking Agulandi, sem guð skipar, en nú skal greina þessu næst, hvat hinn hrausti hertogi Girarð hefst at í þenna pungt.

68. Girarð sem hann skildist við Karlamagnús keisara, ríðr hann sem hvatligast til sinna manna, ok kallar saman alla höfðingja ok býðr til bardaga búast, ok er allir eru búnir at hestum ok vápnum svá vel, at engi flokkr þurfti betr ok fagrligra[2] vera búinn, en sá er hertoginn hafði fóstrat af þeim sœmdum er guð léði honum, talar hann til þeirra ungu manna, er nýtekit höfðu við riddaraligum búnaði, ok segir: Þér ungu menn, segir hann, gerit yðr harða í hjörtum ok vápndjarfa, bili spjótin eða brotna kunni, grípit skjótt til sverðanna, látit [yðr jafnkringt at[3] höggva sem leggja, hvárt sem betr dugir, hræðizt alls ekki Affrika vánda menn ok fúla, rekum djarfliga þeirra flótta, eggi hverr annan til hugdirfðar, því at með vilja lausnara várs skulum vér af þeim vinna alt þat sem þeir [úmakliga hafa[4] halda, lönd ok ríki, gull ok silfr, en vænta þar á ofan meiri ómbuna ok háleitari af almátkum guði fyrir várt starf ok erfiði, því at harla gott er at leggja sitt líf út fyrir hans skyld. Allir játta svá gera sem hann býðr. Boz ok Clares frændr sína skipar hann í fremsta lagi sinnar fylkingar. Ok þegar sem þeir ungu riddarar eru á hesta komnir, ríða þeir ákaft, þóttist sá bezt leika, er fyrst mátti[5] rjóða sinn brand[6] í hörðum heiðingja beinum. Hertoginn stefnir á bak liði Karlamagnús ok ætlar, ef svá vill verða, at komast í nánd höfuðmerki Agulandi, því at þar þikkir honum[7] enn bezt við at eiga, sem mestr er styrkrinn fyrir. Því ferr hann fram um einn lítinn skóg ok vill ekki koma í bland við aðrar fylkingar, ok stefnir á hœgra veg at höfuðmerkinu Agulandi. En á þeim skógi váru nökkurir njósnarmenn Agulandi ok verða varir við hertogans menn, því hleypir einn af þeim til þess er hann kemr fyrir Agulandum, berandi sitt eyrendi með ákefð ok segir: Maumet hjálpi yðr, því at þurfa munu þér nú þess; hér ferr at yðr einn flokkr kristinna manna stórliga vel búinn[8] at herklæðum, ok ef þér búizt eigi við þeim, munu þeir at vísu gera yðr mein. Sem Agulandus heyrir þat, bregðr

1) máttu *b.* 2) fagrligar *b.* 3) [*saal. b*; jafntkungt (!) vera *B.* 4) [hafa úmakliga *b.* 5) mætti *b.* 6) eðr reyna *tilf. b.* 7) *saal. b*; þeim *B.* 8) búnir *b.*

honum við[1] undarliga, því at hann skelfðist í sínu hjarta, ok allir hans höfðingjar er með honum váru saman komnir, ok var þat fyrir guðliga miskunn, at hundrað þúsunda, sem Agulandus hafði skipat undir sitt merki,[2] mætti óttast, hvar sem fœri[3] þeim (í) nándir [nökkurr hundraða[4] flokkr. Ok er heiðingjar líta hertogans ferð ok spyrja hvat nú sé til ráða talar fyrr greindr Ulien: Herra, segir hann, hryggizt eigi af þessu efni, þessir hafa fá menn ok engan [liðkost til þess[5] at granda yðvarri sœmd, því at þeirra afl virði ek lítils; fáit mér til fylgdar tuttugu þúsundir riddara, ok skal ek makliga[6] ganga þeim at veita nætrgisting,[7] ok ef ek hefir eigi drepit þá alla áðr sólin sezt, verði rangsnúnir sporar mér á fœtr settir, en brott tekinn toppr or mínum hesti, en ek sjálfr hafðr at athvarfi. Agulandus svarar: Þú ert hraustr riddari[8] ok líkligr at veita mér heil ráð með trúrri þjónostu, Ulien frændi, því vættir[9] ek, at þú hjálpir mér við meðr þínum riddaraskap; ok ef vér fám þetta ríki unnit, skal þat gefast yðr til stjórnar, svá sem í arf eptir Jamund frænda þinn. Ulien svarar: Þat veit Machon, at eigi beiði ek framar. Gengr síðan ok kyssir hans hœgri hönd. Galinger heyrir hvat þeir talast við ok segir: Undarligt er þat, Ulien, at þú kennist eigi við hvat þú mátt; hygg af því, at þér beri þá giptu til handa at vega sigr á Franzeisum, eða mantu eigi hversu lítit þeir gáfu sér[10] at [hábrókan þinni,[11] heldr [fór þú,[12] þó at nauðigr, með blóðugt höfuð Jamundar, ok vart feginn at[13] þú komzt[14] brott or þeirra augsýn. Ulien reiðist mjök orðum Galingers,[15] ok ef Agulandus væri eigi svá nálægr, mundu þeir prófat hafa sín í miðil, hvárr drjúgari yrði. Eptir þat sem Ulien hefir tekit orlof af konungi, tekr hann með sér vel tuttugu þúsundir ok fylkir. Flestir af þeim báru engar brynjur né hjálma, sá var þeirra búnaðr, at þeir váru í þykkum[16] leðrpanzarum, ok brynhettur læstar at höfði, boga meðr örvamæli, en öxar héngu við söðulboga; svá búnir ríða þeir móti hertogans mönnum. Sem hertogi Girarð lítr þeirra ferð, kallar hann saman sína menn, er áðr fóru nökkut dreift, ok segir: Geymum vel til ok förum ekki lausir,[17] þröngum oss saman sem mest, ok gerum vára fylking sem þykkvasta, svá at skjöldr liggi við skjöld, en spjót við spjót, látum[18] þá at sœkja, en vér tökum móti djarfliga, hlífum oss sem bezt, ok bregði engi sinni stöðu, þar til er heiðingjar taka[19] mœðast, en veitum þá sem drengiligsta atsókn. Svá gera þeir, slá

[1]) *tilf. b.* [2]) höfuðmerki *b.* [3]) *saal. b*; fera *B.* [4]) [tíu þúsunda *b.*
[5]) [liðskost *b.* [6]) fyrir *tilf. b.* [7]) vetrgisting *b.* [8]) maðr *b.* [9]) væntir *b.*
[10]) sik *b.* [11]) [drambi þínu *b.* [12]) fórtu *b.* [13]) er *b.* [14]) komt *b.*
[15]) Galinger *b.* [16]) þiskum (*d. e.* þýzkum) *b.* [17]) dreift *b.* [18]) *saal. b*; litum *B.* [19]) at *tilf. b.*

á svá stinna fylking ok þykkva, at langt mundi líða áðr en glófi kœmi til jarðar, þótt yfir væri kastat. Ok er Ulien kemr at, rennir herra Clares systurson hertogans fram á völlinn, er miðil var fylkinganna, ok ætlar fyrst[1] byrja þessa orrostu, ef nökkurr [vili honum móti[2] horfa. En er Ulien sér þat, kallar hann á einn riddara er hét Jafert ok talar [: Þú Jafert, segir hann,[3] lít þann hinn kristna, er svá lætr brakstinnliga,[4] [senniliga felmtar[5] hann til dauðans, ríð hann af baki, falli hann fyrir þér, öll þeirra fylking er uppgefin ok í váru valdi. Jafert játar svá gera ok setr [sínum hesti[6] spora ok ríðr sem mest á völlinn ok leggr til Klares digru spjóti í gegnum skjöldinn svá hart,[7] at í brynju nam stað,[8] en spjótit[9] brast sundr í tvá hluti. Sé, riddari, segir Clares, þar fórtu nú. Ok leggr í því til hans ok gegnum járnbundinn skjöld ok brynjuna ok búkinn, fleygjandi honum[10] niðr á jörðina, ok segir hárri röddu: Þann veg kendi mér minn gamli meistari at steypa dramblátum. Snarar síðan aptr í sína stöðu. En Ulien eggjar [sína menn[11] til framgöngu, sœkja heiðingjar þá at, ok tekst seint at vinna, því at engu losi koma þeir á hertogans lið, en hverr sem kemr í nánd er skjótliga drepinn; því fýstist[12] engi optar en um sinn undir ganga þeirra högg, fellr margt af heiðingjum, en nær ekki af hertoganum.[13] Girarð kallar þá: Gangit fram djarfliga ok rekit þessa vánda[14] hunda af várum höndum, er engi dugr er yfir. Þeir gera svá, veita hina hörðustu hríð, höggva á tvær hendr með ópi ok háreysti, er hverr eggjar annan, slíðra æ sem tíðast sín snarpeggjaðu sverð í blóðvörmum hjörtum heiðingja. Má þessu næst líta skjót umskipti, Affrikar renna, en hertogans menn eptir sœkja drepandi hvern sem þeir við komast. Ulien gengr hart fram, ok sem hann lítr marga flýja, œpir hann hárri röddu ok talar svá: Skömm bíði[15] þér, vándu pútusynir, hverfit aptr ok svívirðit eigi svá alla oss, at renna meðr bleyði en verjast eigi[10] meðr karlmensku. En þótt Ulien kalli hátt, lætr engi sem heyri. Hertogi Girarð sœkir nú fram at heiðingjum ok [ryðr með öllu[16] þeirra fylking, því at þótt hann sé nú gamall, þarf engi sér lífs at vænta, er honum mœtir. Því fellr á litlu bragði [af Ulien[17] hundrað við hundrað, þúsund við þúsund, svá at víða gerast vellir þaktir af manna búkum. Ok er Ulien sér þann veg fara, en má ekki at gera, talar hann með sjálfum sér: Vesæll er ek vorðinn, hvat mun nú af mér verða? Ek hugðumst á þessum degi vinna undir mik alla Jtaliam ok skipa þat ríki mínum þjónum,

1) fyrstr *b.* 2) [vill við honum *b.* 3) [svá *b.* 4) bragðstinnliga *b.* 5) [felmtir *b.* 6) [*saal. b*; sinn hest *B.* 7) *mgl. b.* 8) staðar *b.* 9) skaptit *b.* 10) *tilf. b.* 11) [*tilf. b.* 12) fýsist *b.* 13) hertogans mönnum *b.* 14) vándu *b.* 15) bíðit *b.* 16) [ríðr með allri *b.* 17) [*mgl. b.*

en nú verð ek sem fullr úgæfumaðr flýja undan. Nei, verði þat eigi at sinni, at ek hugbleyðumst. Snýr hestinum aptr ok leggr sínu digra spjóti til þess, sem næst honum var, ok hrindr honum dauðum á jörð. Þar með ríðr hann at frægum riddara Valtero, er margan heiðingja drap með sínu sverði, ok leggr til hans í gegnum [skjöldinn ok slítr brynjuna[1] ok kastar honum dauðum á jörð, ok segir: Þat veit Maumet, at eigi verr þú land fyrir oss héðan frá. Hann ríðr nú um hit ytra mjök reiðr af falli sinna manna, hnefandi sverðit með miklu afli ok drepandi margan guðs riddara, suma rekr hann svívirðliga[2] af hestum, en aðra leggr hann sínu spjóti. Ok í þessarri sinni framferð ríðr hann þrettán menn af baki, ok særir flesta til úlífis. Sem herra Boz [bróðir Clares[3] sér, hversu mikinn skaða Ulien gerir, fyllist hann af miklu kappi ok vildi gjarna prófa, ef nökkut féngi hann tálmat heiðingjans tröllskap, því kostar hann ok[4] honum at mœta, ok kallar hárri röddu á Ulien svá segjandi: Bíð mín, segir hann, ek vil fyrir eins finna þik. Ulien lítr til hertogans ok sér, at honum fylgja margir riddarar, hvar fyrir hann vill eigi bíða ok ríðr undan sem ákafast, til þess er hann nemr staðar á einum sandhól, ok víkr aptr hestinum ok kallar[5] herra Boz með þessum orðum: Þú riddari er mik vill finna, kom higat, því at fyrir trú mína skal ek eigi lengra undan þér renna. Boz rennir hestinum sem snarast at honum, en hinn í móti, ok leggr hvárr til annars svá hart, at hvárgi gat í söðli haldizt,[6] ok falla báðir af baki. Varð þá hinn gullbúni hjálmr Uliens víða moldu litkaðr. Þeir stökkva báðir upp skjótt ok fimliga, því at hvárr kostar öðrum fyrr á fœtr[7] komast, grípa til vápna; ok er Ulien litast um, sér hann þar[8] ríða at þeim mikinn riddara flokk til fulltings við herra Boz. Hvar fyrir hann skilr eigi svá búit duga, skundar [sem hvatast[9] til hests síns, stingr undir sik spjótskaptinu ok stökkr á bak, keyrir síðan sem harðast til sinna manna, ok skilr svá meðr þeim Boz at sinni. Flýr Ulien ok allir hans menn[10] er því náðu, en herra Girarð sótti eptir vel ok karlmannliga drepandi flesta af þeirra sveit. Skal hann nú at sinni þvílíkt henda af liði Uliens, sem honum berr fœri á, en hverfa[11] til Georgium ok hans félaga.

69. Rollant sem hann hefir [dreift allri[12] fylking Madequins, drepit flesta en aðra rekit á flótta, kemr því næst at annarri fylking Agulandi, er stýrði Acharz or Amflor, váru þá fáir fallnir af sveit kristinna manna, en mjök mœddir menn ok hestar. Ok er Acharz sér þeirra ferð, þikkir honum undarligt, hversu skjótt þeir hafa

1) [brynjuna ok skjöldinn *b.* 2) *saal. b*; stinnliga *B.* 3) [*mgl. b.* 4) á *b.* 5) á *tilf. b.* 6) fyrir öðrum *tilf. b.* 7) at *tilf. b.* 8) *saal. b*; því *B.* 9) [*mgl. b.* 10) þeir *tilf. b.* 11) nú *tilf. b.* 12) [*saal. b*; drepit alla *B.*

gegnum gengit fyrstu fylking, en sakir þess at hans lið var flest hart viðreignar ok vel búnir[1] at vápnum, þá taka þeir hart móti,[2] svá at nú er búit við miklum váða, ef eigi koma fulltingsmenn[3] at styðja Rollant; en hvaðan mannligt traust kemr at skal segja.[4] Karlamagnús keisari skipar fyrir aðra fylking Salomon konung ok Huga jarl, ok sem bardaginn hófst, bíða þeir, sem talat var, hvern veg ferr, utan fara at fram hljóðliga orrostunni. Má þá skjótliga heyra högg ok stóra bresti, því talar Hugi jarl: Herra Salomon, þú skalt taka til geymslu lið várt flest með höfuðmerki, en ek ok þúsund gildastu[5] riddara skal[6] leita í bardagann ok prófa at ek megi nökkut lið veita várum kumpánum, mik væntir at Rollant ok Oddgeir hafi í gnóg at starfa, ok guð láti þeim ekki verða til meins. Svá gerist sem nú var greint, at Hugi jarl ríðr með þúsund riddara,[7] váru þeir eigi búnir sem fantar, því at þeir höfðu öruggar brynjur ok trausta hjálma, en sátu á fríðum hestum ok úmœddum. Biðr Hugi, at Salomon konungr haldi eptir djarfliga ok veiti þessum[8] viðrhjálp. Hann játtar svá gera. Hugi jarl var manna þrifligastr, ok[9] mikill vexti, en öruggr til allrar hreysti ok karlmensku; hann œpir stórt heróp ok eggjar menn sína, svá segjandi: Góðir vinir, segir hann, ryðjum[10] djarfliga oss veg[11] til várra manna, höggum svá stór högg, at engi hlíf standist, látum þat auðsýnt, at engir verða[12] Franzeisum betri drengir. Þeir gera svá, höggva sverðum til beggja handa, en leggja[13] spjótum bæði hart ok tíðum, ryðja sér veg til þess at þeir koma þar fram, sem er Oddgeir danski. Ok er Oddgeir sér Huga jarl, segir hann svá: Lof sé guði, [mjök eru vér kumpánar[14] þurfandi þinnar tilkvámu. Jarlinn svarar: Gefi guð, at hon[15] verði at gagni, en nú er ek þar rétt kominn, sem ek munda helzt kjósa. Nú gerist bardagi hinn harðasti, því at hvárirtveggju bjargast[16] eptir megni. Fellr nú svá margr riddari af heiðingjum, at víða þöktust vellir af þeirra búkum, því at senniliga reyndi Rollant, hvárt Dýrumdali kunni nökkut bíta. Þar með géngu djarfliga fram heilagir guðs kappar Georgius ok hans kumpánar, hlutu [margir heiðingjar at hníga[17] fyrir þeirra vápnum. Hugi jarl fréttir [eptir Oddgeir danska,[18] hverir þeir sé þrír riddarar, er þann veg prýðiliga ganga fram. Hann svarar: Minn góði vin, þat eru[19] heilagir menn guðs, Georgius, Demitrius ok Merkurius, er hann hefir sent til styrktar sinni[20] kristni. Jarlinn varð stórliga glaðr við þessa sögu ok segir[21] hárri röddu:

1) menn *tilf. b.* 2) við *b.* 3) *saal. b*; fluttingsmenn *B.* 4) at *tilf. b.* 5) vildastu *b.* 6) skulum *b.* 7) manna *b.* 8) þeim *b.* 9) *saal. b*; ekk(i) *B.* 10) ríðum *b.* 11) fram *tilf. b.* 12) verði *b.* 13) með *tilf. b.* 14) [nú er um vér kompánar mjök *b.* 15) *saal. b*; hér *B.* 16) duga *b.* 17) [*saal. b*; at ganga *B.* 18) [Oddgeir eptir *b.* 19) *saal. b*; er *B.* 20) heilagri *tilf. b.* 21) mælti *b.*

Vinnum svá mikit, sem vér megum, réttum langt [armleggina fram, sem vér megum,[1] því at guðs fullting stendr nú fullkomliga með oss. Sem bardaginn stendr sem harðastr,[2] kemr Turpin erkibyskup með dróttinligan kross fram í fylking heiðingja, gerast þá skjót[3] umskipti enn sem fyrr, því at þeir liðsmenn Acharz, er áðr börðust með miklu kappi, taka þegar[4] bleyðast, er þeir líta kross dróttins, en kristnir menn styrkjast mikit í þeirra[5] tilkvámu, ok veita svá harða atsókn, at þar[6] brestr flótti á heiðingjum. Því má nú líta margan skjöld sundr brotna, en heiðingja þúsundum af baki riðna, aðrir blikna, brynjur slitna, en hjálmar með hausum sundr klofna. Ok er Acharz sér sína menn flýja eða drepast niðr æ sem tíðast, hér með lítr hann hvar Salomon konungr ferr með sína sveit,[7] í þriðja stað sér hann heilagan kross fram kominn með skínandi birti, fyrir hvat alt saman honum virðist[8] þungt veita, ok talar til þeirra er honum standa[9] næstir: Mikil undr birtast hér í dag, því at vér eigum eigi at eins móti[10] vega gildum mönnum, hér verðr oss annat þyngra viðreignar. Hverr um aldr sá þvílík býsn, at eitt tré, þat er [ek ætla kristna menn[11] kalla kross, skal svá mikilli hræzlu á koma gilda karlmenn, at þeirra máttr verðr at engu; því at síðan hann birtist várri fylking, er því líkt sem [vér sém[12] vitlausir, því at með skygnum augum sjám vér ekki, ok engum kosti megum vér móti líta hans birti eða nærri koma hans krapti, um snýr váru viti, ok förum sem œrir menn ok hamstolnir,[13] því optar sem vér lítum til hans, þeim mun meir vaxa vár vandræði; ok ef dróttinn kristinna manna hefir verit píndr á þessu tré, þá samir þeim at sönnu þann vegsama, því at aldri nökkurn tíma birtist þvílíkr máttr yfir várum goðum, ok þat veit Maumet, at eigi stend ek hér lengr. Ok snýr hestinum ok flýr sem hvatast, ok allir hans menn, svá at engi stendr eptir. En Frankismenn reka flóttann svá snarpliga, at þeir drepa hvern er þeir mega,[14] svá at tíu þúsundir fella þeir í flóttarekstrinum. Dreifist þá mjök lið Franzeisa, því at [hverr (drepr) hvern þann undanflýjanda, sem honum var nálægastr[15] ok elta[16] heiðingja víðs vegar um hölkn ok skóga, en flestir flýja til þriðju fylkingar, ok nema þar stað. Rollant var fremstr í eptirsókninni, ok ellefu jafningjar, Oddgeir danski ok Hugi jarl ok margir aðrir, þeir sem frœknastir váru. En þrír guðs riddarar fóru síðar í svig við Turpin erkibyskup ok hinn heilaga kross. Þessu næst koma Franzeisar at

¹) [fram armleggina *b.* ²) harðast *b.* ³) fljót *b.* ⁴) at *tilf. b.* ⁵) hans *b.* ⁶) því næst *b.* ⁷) menn *b.* ⁸) sér *tilf. b.* ⁹) stóðu *b.* ¹⁰) at *tilf. b.* ¹¹) [þeir *b.* ¹²) [*tilf. b.* ¹³) *saal. b*; halfstolnir *B.* ¹⁴) megu *b.* ¹⁵) [hvern þann mann undanflýjanda, sem þeim var nálægr, drepa þeir *b.* ¹⁶) þeir *tilf. b.*

þriðju fylking heiðingja, hverri stýrði Kalades konungr af Orphanie, var með honum mikill fjöldi, því at í hans fylking stóð nú Acharz ok margir þeir sem undan kómust meðr honum. Þá talar Rollant til þeirra, er honum fylgdu: [Víkjum fram[1] djarfliga at þessum vándu[2] hundum, er hér standa fyrir oss, því at varla er þat[3] at þeim vinnanda sem dugandis mönnum. Þeir virða engis hjálma gylta né silfrhvítar brynjur, betra þikkir þeim [eitt rotit súrepli[4] en gildr[5] vápnhestr meðr sínum förum; látum þá vísa verða, at kristnir menn kunna sverðum beita. Œpa síðan allir mikit heróp ok sœkja meðr mesta ákafa. En þó at þeir sem fyrir váru væri ekki skrautbúnir með dýrum herskrúða, taka þeir allt[6] eins snarpliga móti, því at svá er þeim fimr sinn bogi, at nær sýndust [þrír eða tveir[7] kólfar af fljúga þeirra strengjum í senn; þar með eru þeir svá harðskeytir, at trautt fannst sú hlíf, at eigi smygi í gegnum;[8] því vinna þeir mikit skarð á liði Rollants, einna mest fyrir því[9] at margr góðr drengr verðr nú at láta sinn reiðskjóta fyrir þeirra eitruðum örum, hvat er horfði[10] til mikils váða, utan guðs miskunn liti til sinna manna. Ok svá er, því at rétt í þenna pungt kemr Salomon konungr með fjórar þúsundir hinna hraustastu riddara, ok gera þeir heiðingjum harðan slag, reka margan svívirðliga af baki, megu[11] þá kristnir menn, þeir sem áðr váru á fœti, fá sér góða hesta.[12] Gerist nú á nýja leik hinn harðasti bardagi, spörðu hvárigir þá af því sem[13] máttu. Allir Frankismenn börðust drengiliga, svá at optliga rjóða þeir sín [björtu vápn[14] í rauðum dreyra lœkjum, en þó mátti einna mest dásama, hvílíka hreysti Rollant sýndi[15] í þessum bardaga, því at svá hefir hann snart[16] hjarta sem leó hit grimmasta dýr; hann reið flokk or flokki beitandi svá sínu sverði, at hinn harði hildarvöndr braut[17] margs manns hjartaborg knáliga í sundr, ok svá lagði hann margan heiðingja við velli, at þat mátti nær móti líkendum kallast, því at sitt sverð reiddi hann með svá miklu afli, at stóra menn alvápnaða klauf hann sundr í miðju, svá at sér hvárr hlutrinn féll tveim megin niðr hjá hestinum.[18] Allir hans jafningjar ruddust um fast, Oddgeir danski, Salomon konungr ok Hugi jarl, spörðu hvárki hold né bein heiðingja. Sem Oddgeir sér, hversu Rollant sœkir fram, talar hann: Guð styrki þína armleggi, sá hefir betr, er þér stendr nærr en firr. Kalades konungr hafði reisa látit sitt merki í miðri fylking sinni, ok þat getr Rollant

1) [*saal. b*; Vitkum *B.* 2) dauðum *b.* 3) *mgl. b.* 4) [róttré með súr epli *b.* 5) góðr *b.* 6) *saal. b*; allir *B.* 7) [tveir eða þrír *b.* 8) þeirra skeyti *tilf. b.* 9) þat *b.* 10) horfir *b.* 11) mega *b.* 12) reiðskjóta *b.* 13) er *b.* 14) [sverð *b.* 15) *tilf. b.* 16) snarpt *b.* 17) klauf *b.* 18) hestunum *b.*

sét ok kallar til sín fjóra unga riddara, Grelent, Estor, Bæring ok Othun, hverir fyrr váru nefndir, ok segir til þeirra: Góðir félagar, hvat er nú ráð,[1] ek sé hvar stendr merki hins vánda Kalades, ok vilda ek gjarna þat niðr brjóta, ef vér mættim því á leið koma, þá mundi skjótt þessi fylking rjúfast. Grelent svarar: Ráðum til sem karlmannligast, ok munum vér þat sannliga fá niðr brotit, því at þeir sem þat [hafa at[2] geyma, hafa herklæði engu nýt. Rollant segir: Guð ömbuni þér þína hreysti, ok ef hann veitir oss lífs aptr[3] koma til várra eigna, skal þér veitast mikil sœmd. Eptir þat hleypa þessir fjórir[4] kappar brott frá sínum mönnum fram í miðja fylking heiðingja meðr svá mikilli atreið, at hverr ok einn hrökk[5] langt frá þeim, svá hræddir ok felmsfullir,[6] at engi vissi frá sér góðan fagnað. Fór sem Grelent ætlaði, at margir váru lítt búnir við þeirra höggum eða lögum, höggva niðr merkit en drepa þá alla er gæta[7] skyldu. Ok er Kalades sér þat, reiddist hann í sínu hjarta ok stefnir móti Grelent ok ætlar leggja hann í gegnum, en Grelent snarar út undan laginu, en leggr spjóti í gegnum Kaladem, ok í því sem hann ætlar hrinda honum brott[8] or söðlinum, brestr sundr spjótskaptit, en Grelent bregðr sverði ok höggr af honum höfuð, svá talandi: Vei verði þér, vándr heiðingi,[9] svá þungr sem þú ert, at[10] þar fyrir brotnaði sundr mitt góða spjótskapt, en alt at einu fékktu nú þat sár, er engi læknir kemr sá til[11] or Affrika, at þat kunni grœða. Rollant hleypir sem snarast sínum hesti ok mœtir Acharz or Amflor, lætr síga merkit en leggr spjótinu í gegnum skjöld ok brynju, svá at [stendr í hjarta[12] ok segir svá: Þú riddari þóttist vel leika, flýjandi brott or fyrri fylking, en nú vil ek segja þér, at eigi skaltu héðan af þína fœtr hrœra. Því næst brá Rollant sverðinu ok höggr til beggja handa. Sœkja þeir fram svá vel, at á litilli stundu drepa þeir 60 heiðingja ok tvá konunga umfram, en láta eigi lausan einn blóðdropa.[13] Sem Oddgeir missir Rollants, hryggist hann mjök, ok óttast at hann muni vera af hesti riðinn eða drepinn, ok kallar á Huga jarl svá segjandi: Minn góði félagi,[14] leitum sem hvatligast várs bezta kumpáns, því at svá er Rollant brott horfinn, at ek veit eigi hvat af honum er vorðit. Gjarna, segir jarlinn. Þröngast[15] nú þagat í bardagann, sem at heyra var mikit hark ok stóra bresti. Þá kallar Oddgeir: Lof sé guði, at vísu sér ek, hvar hinn hvíti hjálmr Rollants tekr upp hér fram fyrir okkr, flýtum þangat ok hjálpum honum við. Þeir gera svá, ryðja veginn til þess at[16] þeir

[1]) til ráða *b.* [2]) [*mgl. b.* [3]) at *tilf. b.* [4]) *saal. b*; þrír *B.* [5]) *saal. b*; hraut *B.* [6]) felmtsfullir *b.* [7]) geyma *b.* [8]) *mgl. b.* [9]) níðingr *b.* [10]) er *b.* [11]) *mgl. b.* [12]) [í hjartanu nam staðar *b.* [13]) blóðsdropa *b.* [14]) vin *b.* [15]) þröngvast *b.* [16]) er *b.*

koma þar at, er Rollant sœkir með sínum félögum í ákafa. Rollant talar: Vel komnir, góðir kumpánar, stöndum hér allir samt. Oddgeir svarar: Aldri um aldr hefði mitt hjarta gleði fengit, ef ek hefði þín mist. Í þenna pungt kemr Turpin erkibyskup með hinn helga kross, fylgjandi honum þrír guðs riddarar ok ástvinir. Kemr þá mikill stökkr í fylking Kalades, hrökkvast heiðingjar allir saman ok grúfa í skjöldu sína, þegar þeir sjá þat blezaða mark, drógust á bak aptr ok tóku flótta meðr ópi ok illum lætum. En Frankismenn sœkja eptir þeim ok veita makligan bakslett höggvandi þá niðr sem búsmala, ok drepa í þessum rekstri meir en þúsund, ok elta þá um dali ok hamra. Flýja sumir til skjóls í fylking Eliadas, en sumir á fell[1] í brott sem villisauðir.[2] En hverr má öðrum skýra þann fagnað, er allsvaldandi guð veitti sínum þjónum fyrir þat stórmerki, er hann sýndi á þeim tímum; því at þótt heiðingjar stórir ok sterkir stœði eptir megni ok náttúrligum riddaraskap móti kristnum mönnum um stundar sakir, þá bráðnaði sundr öll þeirra karlmenska ok at engu varð, þegar guð dróttinn sýndi þeirra augum krapt síns heilaga kross, veitandi þar með, at hans vinir skyldu sjá mega líkamligum augum heilaga menn sína,[3] hverja hann virðist þeim senda, því at svá styrktust[4] kristnir menn í hvern tíma við þeirra nálægð ok ásýnd dróttinligs kross, sem Affrikar viknaðu.[5] En þó hafa í þessarri svipan margir fallit af kristnum mönnum, en þó stórliga fátt hjá því sem líkendi máttu sýnast eptir mannligum hætti.

70. Sem þrjár fylkingar Agulandi eru með öllu af kristnum mönnum yfirstignar, kemr Rollant því næst at fjórðu fylking, er stýrðu Eliadas ok Pantalas. Þeir váru hinir mestu bardagamenn, ok váru aldri vanir at flýja or orrostu, þeirra lið var frá því vel búit at vápnum ok klæðum, hreysti ok harðleik, sem nökkut annat í her Agulandi. Ok[6] er þeir heyra mikit hark ok stóra bresti, en sjá hlaup ok eltingar alla vega hjá sér, undra þeir mjök ok [talast þeir við[7] þvílíkum orðum: Hvat mun[8] hér um? Eigi man svá illa, at hér sé komnir Frankismenn rétt at oss, ok hafi þann veg skjótt í gegnum gengit þrjár fylkingar várra manna, ok ef þat er, stendr várt mál þungliga; en hversu sem öðrum[9] hefir farit, munu aldri þau úsköp oss til handa koma[10] at gerast ragir ok huglausir fyrir kristnum mönnum, því at í[11] fyrrum fylkingum þrimr mundi eigi hinn líkasti jafnvel búinn at hreysti ok vápnum sem í váru liði er hinn lægsti. Sem Rollant hefir rekit flótta ok er kominn mjök at fjórðu fylking, sýnist hann vera liðþurfi[12] sakir þess at drjúgan

[1]) fjöll *b.* [2]) sauðir flugskjarrir *b.* [3]) hans *b.* [4]) styrkna *b.* [5]) *saal. b*; vaknaðu *B.* [6]) En *b.* [7]) [tala *b.* [8]) man *b.* [9]) áðr *b.* [10]) bera *b.* [11]) hinum *tilf. b.* [12]) liðsþurfi *b.*

höfðu hans kumpánar fallit, en flestir þeir sem lifðu váru móðir bæði af sárum ok erfiði. Því kallar hann til sín einn riddara ok talar svá til hans: Far til Karlamagnús keisara ok ber honum kveðju mína, ok þat með, at hann komi hvatliga [oss til dugnaðar;[1] seg honum greiniliga hvat fram ferr, ok einkanliga hversu mikit fullting almáttigr guð veitir honum í dag fyrir heilagan[2] kross ok sína háleita[3] riddara. Hann ferr sinn veg, en Rollant setr svá sterka fylking af sínum mönnum, því at í herlaupinu hafði hon losnat; eigi var þá enn kominn Salomon konungr, því var fylking Rollants of lítil móti svá miklum fjölda,[4] því at Eliades hafði aukit fimtíu[5] þúsunda í fyrstu, ok þat alt umfram sem síðar kom til af flóttamönnum. Rollant ok hans jafningjar, Oddgeir ok Hugi jarl, stóðu fremstir af kristnum mönnum, œpa þeir stórt heróp. Gerist þá hit fjórða sinn hin snarpasta orrosta, risu þessir heiðingjar svá hart móti, at eigi þóttust Frankismenn fyrr á þeim degi hafa komit í þvílíka raun, því at bæði váru þeir mjúkir til orrostu ok djarfir, enda höfðu vápn yfrit[6] góð. Rollant eggjar menn sína ok [einna fremst nýja[7] riddara, höfðu í fyrrum atlögum þat eina af þeim fallit sem minst háttar var, en þeir stóðu hraustir[8] sem lifðu. Grelent sparir eigi at veita heiðingjum stór högg, var hann hinn sterkasti maðr at afli. Sem[9] bardaginn gengr sem harðast, tala þeir riddarar[10] miðil sín: Lof sé almátkum guði, segja þeir, ok þeim góða herra Karlamagnúsi keisara, er oss tók brott or þrældom[11] ok allri ánauð. Gæfusamliga hefir oss til tekizt, ok sœkjum sem ákafligast, meðan guð lér[12] líf til ok mátt, því at miklu er betri skjótr dauði með hreysti en þola þat, at várum höfðingja sé ger nökkur skömm eða svívirða. Œpa síðan allir í senn meðr hárri röddu, svá segjandi: Verði sá aldri taldr miðil dugandis manna, er nú hlífist við svá mikit, at þat sé vert eins grápenings, hér með höggva þeir svá stórt, at hvárki stendr fyrir[13] hjálmr né brynja. Í þessarri svipan kemr Salomon með sína sveit ok veita snarpa atreið. Mátti hér sannliga sjá drengi hafa áratazt, en með guðs vilja falla heiðingjar æ sem tíðast ok drjúgan af kristnum mönnum. Rollant tekr þá [með miklu magni at sœkja (at) þeim (er) þar[14] stóðu. Margt gott sverð brotnaði sundr í þessum bardaga, spjótin stökkva svá hart ok tíðum, at því var líkt sem örfadrif, margir hraustir drengir rákust háðuliga af hestum, skildir klofnaðu svá snögt, at margir létu sitt líf, ef fyrir urðu þeim lutum, er af þeim hrutu; brynjur slitnaðu, rifnaðu hjálmar,

[1]) [til dugnaðar við oss *b*. [2]) háleitan *b*. [3]) heilaga *b*. [4]) afla *b*. [5]) 50 *b*. [6]) *saal*. *b*; yfrin *B*. [7]) [einkar framast hina nýju *b*. [8]) hraustliga *b*. [9]) Ok er *b*. [10]) riddararnir *b*. [11]) þrældómi *b*. [12]) oss *tilf*. *b*. [13]) við *b*. [14]) [mœðast af mikilli sókn, ok þeir er hjá honum *b*.

[en seggir[1] bliknaðu, en mœddust armar. Sem þann veg hefir gengit um stund, kemr til orrostunnar Droim konungr meðr sjau þúsundir, váru þeir vel búnir at vápnum, hefr hann þar þegar [til atsóknar sem fyrr[2] kemr hann at. En meðr því at mikit ofrefli var við at eiga, þá sá lítinn þurð[3] á fylking Eliadas, ok sakir þess at almáttigr guð vill Franzeisum auðsýna, at þeir eru[4] dauðligir menn, ok hvat þeir eiga undir sér sjálfum, ok þat annat at fyrir þeirra sveit fjölgist himnesk hirð, því þreytast þeir mjök, sem í fyrstu kómu til bardagans um morguninn, nökkut af sárum en þó mest af hita ok miklum sveita, er þeir lausan létu af svá miklu erfiði, þar með þreytast hestarnir, svá at margir verða þá fyrirláta. Ok sem þeirra[5] mál stendr þann veg, kemr ágætr herra Turpin erkibyskup [í ljós[6] meðr sitt háleita merki, fylgjandi honum þrír guðs riddarar. En þó at liðsmenn Eliadas þœttist miklir, bregðr þeim á einn veg[7] við krossins kvámu sem öðrum fyrr, hvaðan af þeir tala meðr sér: Vei verði þeim merkismanni, sem higat er kominn, því at hans merki er svá háttat, þat tekr himnana, en svá bjart ok ógurligt, at engi má móti sjá. Lítit man várr hagr batna við hans nálægð, ok þótt vér eigim erfitt áðr at berjast við Franzeisa, var þat alt eins hraustum mönnum þolanda, en nú er engum viðveranda. Því gerum svá vel, stöndum aldri svá lengr[8] hér, því at hverjum er víss dauði, sem eigi leitar undan. Svá gera þeir, kasta skildinum[9] á bak sér, taka flótta, en rjúfa fylkingina. En þegar kristnir menn sjá þat, sœkja þeir eptir djarfliga ok fella hvern hjá öðrum. Ok er Eliadas lítr sína menn renna, en Franzeisa öllum megin at þyrpast, talar hann: Eigi svá langan tíma sem ek mátti standa miðil hraustra drengja, kom þvílík eymdartíð yfir mik, ok þat er sannleikr, miklir eru þeir sem á hvíta Krist trúa [fyrir sér,[10] því at alt munu þeir vinna mega [eptir sínum[11] vilja. Ek ætlaði engan því skyldu á leið koma, at ek flýði or bardaga, en nú er þó þann veg vorðit, at sá er illr, en hverr annarr verri; en vel þeim [at nökkurn legði áðr við velli[12] af stórum köppum Karlamagnús. Ok eptir þat snýr hann hesti sínum þar til sem váru tólf jafningjar, ok drápu Affrika æ sem tíðast, ok leggr því[13] digra spjóti til þess sem hann fyrst mœtir, svá hart, at slitnar brynjan ok[14] gnestr í hjartanu, fellir hann dauðan á jörð, ok talar síðan hárri röddu: Þat veit Makon ok öll guðin, at nú er eigi viðveranda lengr, trúir ek margra minna manna hefnd[15] á þessum, sem nú hlaut at hníga. Slær hestinn

1) [menn *b.* 2) [atsókn er fyrst *b.* 3) stað *b.* 4) sě *b.* 5) þetta *b.* 6) [fram *b.* 7) hátt *b.* 8) *saal. b*; lengi *B.* 9) skjöldunum *b.* 10) [*mgl. b.* 11) [þat er þeir *b.* 12) [er áðr lagði við velli nökkurn *b.* 13) sínu *b.* 14) en *b.* 15) hefnt *b.*

sporum ok rennir sem snarast á flótta. Rollant getr sét hvat Eliadas hefir unnit ok harmar mjök fall síns jafningja, ok segir: Þat veit guð, sá er mik skóp, at eigi skyldir þú, hinn versti heiðingi, komast undan, ef hestrinn[1] væri eigi svá móðr,[2] en þó skaltu fá litla minning. Grípr eitt spjót ok snarar eptir honum ok kemr [aptan í[3] söðulbogann. Verðr Eliadas sárr nökkut. Þá talaði einn riddari, er honum fylgdi: Sending fékktu þar, Eliadas. Hann svarar: Sú var mér úþörf, sem sá[4] mundi vilja, er[5] sendi, því at ef hon hefði svá komit at framan, sem nú aptan, væra ek at vísu dauðr; en ríðum sem hvatast ok bíðum eigi annarrar. Frankismenn reka flótta meðr svá miklu kappi, at þeir verða eigi fyrr varir[6] en hestarnir detta niðr dauðir;[7] verðr þá[8] neyta fóta, því at æ meðan þeir mega sínar hendr fram rétta, letjast þeir aldri at drepa niðr heiðingja ok þeim at fylgja. Hvat þarf hér lengra,[9] en af verðr Rollant stíga sínum hesti, ok margir aðrir hans kumpánar, sækja síðan eptir einum riðli heiðingja langt frá öðrum, ok svá segist, at þeir sömnuðu þeim saman í eina hvirfing, kringdu síðan umbergis. Váru þeir þá svá yfirkomnir af mœði, at eigi höfðu þeir megin til at sækja at þeim, enda þorðu hinir[10] með engu móti at ráða til þeirra, því standa þann veg hvárirtveggju um stund. Verða þeir svá búnir bíða, en segja nökkut af þeim riddara, sem Rollant sendi til keisarans,[11] því at hann reið skyndiliga, sem áðr var sagt, [til þess[12] er hann fann Karlamagnús[13] ok kvaddi hann þvílíkum orðum: Guð hjálpi yðr, frægi herra, Rollant frændi yðvarr sendi yðr kveðju ok bað[14] sem fyrst koma þínum[15] mönnum til hjálpar. Keisarinn tekr honum vel ok segir: Mjök er mœddr hestr þinn, riddari, en hvat hefir þú oss at segja í tíðendum? Margt, herra, segir hann; þat fyrst at rofnar eru þrjár fylkingar heiðingja, drepinn mestr hlutr liðs, en öllu komit á flótta. Hér með er þat segjanda af Rollant frænda yðrum, at svá mikinn riddaraskap sýnir hann í dag, at þat er móti líkendum; því at frá því sem hann hóf[16] í morgin, heldr hann sömu ákefð í allan dag, þar til er ek skildumst við, var hann þá kominn at fjórðu fylking, stóð þar fyrir mikit ofrefli. Með þessu er þat greinanda, sem þó er mest háttar, hversu óumrœðiligt fullting almáttigr guð veitir yðr í dag, því at hans[17] hinn heilagi kross birtist[18] svá miklum stórtáknum, at fyrir þat falla fleiri heiðnir menn en telja megi. Hér á ofan kómu í morgin snemma þrír riddarar, ok géngu þeir alldjarfliga fram, drepandi hvern heiðingja at öðrum.

1) hestr minn *b.* 2) mjök mœddr *b.* 3) [í eptra *b.* 4) hann *b.* 5) mér *tilf. b.* 6) við *tilf. b.* 7) undir þeim *b.* 8) at *tilf. b.* 9) lengja *b.* 10) *saal. b*; þeir *B.* 11) Karlamagnús *b.* 12) [þar til *b.* 13) keisarann *b.* 14) yðr *tilf. b.* 15) yðrum *b.* 16) orrostu *tilf. b.* 17) *mgl. b.* 18) með *tilf. b.*

Eigi veit ek, hverir þeir eru, því at ek hefir ekki við þá talat, en þat heyrða ek orð nökkurra, at þeir væri heilagir menn sendir af guði yðr til fulltings. Sem keisarinn hefir heyrt orð riddarans, verðr hann fegnari en frá megi segja, ok fellr á kné í guðs augliti ok segir svá með upplyptum höndum: Miklu meira lof ok margfaldari þakkir ætti[1] ek þér at veita, almáttigr guð, en ek megi tungu til koma. Senniliga er þín miskunn um alla hluti fram. Blezaðr sér þú hinn ágæti herra, Jacobe, því at allan þann krapt sem guð sýnir oss í þessu landi, veitir hann fyrir þínar háleitar[2] bœnir ok verðleika. Eptir þat tekr hann fim þúsundir vaskastu riddara með sér, en lætr Fagon geyma þess[3] sem eptir var hjá konungsins[4] höfuðmerki, bjóðandi at hann fari meir af tómi. Keisarinn ríðr nú fljótliga með sína fylgd fram um völluna er valrinn lá. Undraðust allir hversu mikit mannfall er[5] þar hafði vorðit á einum degi. Eigi léttir herra keisarinn fyrr, en hann kemr þar at sem Rollant stendr yfir vörðum eyri, sem fyrr var sagt, því at hvar sem Karlamagnús[6] mœtti sínum mönnum, frétti hann hvar Rollant væri. En þeir sögðust þat eigi görla vita. Sem Rollant sér keisarans nálægð, víkr hann móti honum meðr sínum mönnum. En heiðingjar neyta þegar fóta ok flýja á brott, ok sakir þess at dagrinn var mjök áliðinn, var þeim engi eptirför veitt. En er keisarinn sér Rollant [mjök yfirkominn,[7] talar hann svá sem með gamni: Hvat veldr nú, frændi, at armleggir yðrir eru svá mjök þungaðir, at þeir mega eigi sverðum beita, eða eru vápnin svá sljá,[8] at þau kunna eigi at bíta? Rollant svarar: Ek ætla herra, at hvárttveggja sé nökkut. Karlamagnús segir þá: Margs manns [öfl þreytast[9] fyrir minna en þér hafit unnit í dag, ok hafi guð þar lof fyrir. En nú skal hætta fyrst í nótt at berjast, ok mun hvíldin hvárki verða löng né hœg, en á morgin skulu þér hvílast, en ek ok mínir[10] skulum[11] þá veita heiðingjum atreið. Þeir svara sem[12] einum munni: Komi sú skömm aldri yfir oss, at vér kreysimst í landtjöldum, en þér berizt, betra þikkir oss at standa hjá yðr ok falla, ef guð lofar.

71. Þessu næst skal segja frá Ulien, at eptir þat er hann féll af baki fyrir herra Boz, ríðr hann sem hestrinn gat af tekit, ok þeir hans menn sem undan kómust hertoga Girarð. Ulien stígr af hesti undir höfuðmerkinu ok gengr fyrir Agulandum; hafa[13] hertogans menn svá miklu á leið komit, at drambsemi hans ok ofmetnaðr hefir nökkut lægzt. Því [krýpr hann nú[14] ok biðr Agulandum

[1]) á *b.* [2]) háleitu *b.* [3]) þat lið *b.* [4]) hans *b.* [5]) *mgl. b.* [6]) fór ok hann *tilf. b.* [7]) [yfirkominn mjök svá af mœði *b.* [8]) sljó *b.* [9]) [afl þreytist *b.* [10]) menn *tilf. b.* [11]) skulim *b.* [12]) með *tilf. b.* [13]) höfðu *b.* [14]) [nú krýpr hann *b.*

miskunnar, svá segjandi: Jlla ok úgiptusamliga hefir mér til[1] tekizt í dag, því at lið sem þér féngut mér, er flest drepit, því at þeir kristnir menn eru með svá miklu kappi, at sinn hlut[2] munu þeir fyrir engum manni[3] láta. Agulandus sem hann heyrir orð Uliens, talar hann: Ulien frændi, segir hann, hví syngr nú svá lítill[4] fugl yfir þínu skipi, hefir þat eigi vel enzt sem þú hézt oss í morgin, at þeir kristnir menn sem þú fórt móti[5] í morgin, skyldu allir verða[6] drepnir, áðr[7] sólin settist. Þat kemr mér nú í hug, at þinn fagrgali ok glyslig orð muni alt[8] til langt hafa mik í þetta mál fram leitt, ok fór ek mest til þessa lands, at ek treysta mjök þínum riddaraskap ok annarra þeirra sem þá sögðust vinna mundu hvervetna, en þat reynist mér[9] öðruvís. Ok segja skal ek þér, Ulien, hverju líkt mér virðist farit hafa með okkr. Sá maðr sem trúir blautligum kvenna orðum, á eigi með réttu at stýra miklu ríki, því at konan sitr æ um þat at blekkja manninn, ok ef hon finnr hann nökkut eptirlátan sínum vilja, stundar hon á[10] því meir ok léttir aldri af hans at freista, til þess at hon fær svikit hann ok í sett snöruna. Á þenna hátt hefir farit með okkr. Þú[11] hefir mik elskat kvenna lunderni, drukkit hefir þú vín mitt [en etit brauð,[12] tœmt hefir þú fésjóða mína en dregit frá mér dýrliga menn ok trygga, þú hefir spanit undir þik með mínu gózi vánda menn, en þetta alt hefir ek þolinmóðliga borit[13] sakir mikillar frændsemi ok þess at ek hugða þik þvílíkan vera, sem þú hrósaðir optliga. En seg mér þat, Ulien frændi, sem ek man spyrja: hver er sök til þess, at þinn hvíti hjálmr er allr moldugr,[14] sem þú hefðir á höfði staðit. Ulien svarar: Annat man yðr nauðsynligra en svívirða mik í orðum, því at þótt ek hafi eigi vel farit, munu aðrar kempur yðrar vinna litlu meira sigr. Ok ef kristnir menn mœta yðr, má vera at þá prófist, hverir drjúgastir verða, því at af tuttugu þúsundum er mér fylgdu, hafa þrjár[15] undan komizt, en eigi meir. Sem þeir hafa þvílíkt [at talast við,[16] kemr Eliadas fyrir Agulandum, honum fylgdu 3 þúsundir. Eliadas hafði eigi[17] tekit spjótit or sárinu, er Rollant skaut eptir honum, sem sagt var, hafði mjök blœtt, svá at söðullinn var fullr undir honum, ok rann niðr um hestinn. Hann kveðr Agulandum, en konungrinn kennir hann eigi í fyrstu, [hverr maðrinn var,[18] ok spyrr hann at nafni. Eliadas svarar: Herra, vera má at ek sé úkenniligr, en sét [hefir þú[19] mik fyrri: hér er kominn Eliadas son Nabors konungs frænda yðvars. Agulandus svarar þá

[1]) nú *b*. [2]) hluta *b*. [3]) *mgl. b*. [4]) lítit *b*. [5]) snemma *tilf. b*. [6]) vera *b*. [7]) en *tilf. b*. [8]) alls *b*. [9]) nú *tilf. b*. [10]) æ *b*. [11]) *saal. b*; Nú *B*. [12]) [ok etit mitt brauð *b*. [13]) umborit *b*. [14]) svá *tilf. b*. [15]) þúsundir *tilf. b*. [16]) [við talazt *b*. [17]) brott *tilf. b*. [18]) [*mgl. b*. [19]) [hafit þér *b*.

með reiði, eigi trúandi því sem honum var sagt: Hversu máttu vera Eliadas, þar sem ek skipaði hann foringja þeirrar fjórðu fylkingar, sem næst er oss. Eliadas segir þá í annan tíma: þessu megu[1] þér trúa, er[2] ek má segja enn framar, at aðrar fjórar eru með öllu rofnar, ok svá gersamliga sundr dreifðar, at engi stendr eptir, flestir drepnir, en allir flýðir. Ríða hér meðr mér 3 þúsundir, en annat ætla ek fátt lifa [af þeim[3] fimtigum þúsunda er þér féngut mér at stjórna, er þó sá engi af þessum, at eigi sé nökkut sárr, ok aldri kom ek fyrr í þann stað, er [þann veg væri þungr[4] við at eiga. Agulandus varð hljóðr við þessa sögu, ok talar eptir tíma liðinn: þung tíðendi berr þú, frændi, oss til eyrna. En hvat kantu segja til Madequins? Eliadas svarar: Hann er senniliga dauðr, ok svá var mér sagt, at hann félli fyrstr várra manna. Hvat er þá[5] ráða, segir Agulandus, mun Karlamagnús treysta at sœkja á várn fund? At vísu, segir Eliadas, munu vér til þess hugsa[6] mega, en þó hefir hann fátt lið, því at margt hefir hann látit í dag, en svá hafa þeir snarpt hjarta, at fyrr liggja þeir dauðir en flýja né leggja sína hreysti. Því er þat eitt ráð, at setja njósnir á fjóra vega frá höfuðmerkinu, at eigi megi þeir í nótt koma oss á úvart, en halda til bardaga á morgin, utan þér vilit flýja til skipa ok sigla brott við svá búit. Agulandus talar[7] meðr reiði: Tala engi firn, at ek munda renna undan Karlamagnúsi, ok gefa honum upp þat ríki, sem ek á með réttu, þar sem ek hefir enn [hálfu fleira lið ok meir en hann.[8] En þann kost skal upp taka at skipa varðhald alla vega frá oss. Svá segist, at Agulandus hefði þá eigi [minna her[9] en lítit fátt í hundrað þúsunda með öllu saman. Váru þar margir konungar kórónaðir, miðil hverra var Amustene, er fyrr var nefndr, meir með undirhyggju ok ótta við Agulandum en nökkurum góðvilja, sem hann gaf skjóta[10] raun, því at eigi er[11] honum or minni gengit, hversu háðuligan dauða tveir fyrr greindir konungar Magon ok Asperant náfrændr hans þoldu, ok því sitr hann um at launa þat Agulando ok þeim sem þar áttu mestan hlut í, ef fœri gæfist á. Hvaðan af hann gengr til vina sinna ok frænda, ok talar svá til þeirra: Öllum oss er nú kunnigt vorðit, hvat nú hefir framfarit í dag, at mestr hlutr várs afla [er niðr[12] drepinn, en Agulandus hefir birt, at hann ætlar eigi[13] flýja or þessum bardaga; því trúum vér hvárki hann né nökkurn þeirra, er honum fylgja, aptr koma til sinna eigna. Hér með vil ek lýsa fyrir yðr frændum mínum ok vinum, at sú smán ok svívirða, sem Agulandus gerði oss öllum samt í háðuligum

[1]) megit *b.* [2]) ok *b.* [3]) [*tilf. b.* [4]) [þvílikt væri þungt *b.* [5]) til *b.* [6]) ætla *b.* [7]) svarar þá *b.* [8]) [meira en hálfu fleira lið *b.* [9]) [minna lið *b.* [10]) skjótt *b.* [11]) var *b.* [12]) [hefir niðr verit *b.* [13]) at *tilf. b.*

dauða Magon ok Asperant frænda várra, liggr mér stórum illa, ok ef hann kennir[1] í engu, hvárt oss líkar þat mjök eðr lítt, gerumst vér miklir ættlerar, dáligri hverjum flóttamanni. Nú vil ek segja af mér, at ek skal svá búit eigi lengr standa láta, því er þat mitt ráð, at í þenna pungt skiljum[2] vér við Agulandum ok siglum heim [til Affrica,[3] skiptum ríki oss til handa ok yðrum ættmönnum. Skal þetta þann veg gerast, at hann hafi enga grunsemd á þessu ráði, ok ef þér samþykkit, mun ek svá til stilla, sem mér líkar, en þér skolut því fylgja sem ek vil fram fara. Allir játa þessu,[4] kalla[5] hit mesta snarræði at forðast svá hendr kristinna manna, en hefna sinna svívirðinga. Gengr Amusten þegar fyrir Agulandum upp á þat berg sem merkit stóð á, ok segir svá: Herra, heyrt hefir ek tillögu Eliadas, ok sýnist mér svá geranda; en meðr því at sú úhamingja veitir oss mestan skaða, ef kristnir menn komast miðil vár ok skipanna ok taka þau meðr valdi, þá bjóðumst ek at fara með mína sveina á þann veg er þagat liggr, treystir ek eigi öðrum betr til at hrinda Franzeisum af hendi, ef þeir koma þar fram. En ef í öðrum stað gerist meiri þörf liðs, þann tíma sem bardaginn tekst, skal annathvárt ek eða synir mínir fara þann veg [yðr til fulltings.[6] Agulandus tekr þessu vel ok segir: Þú hefir gott lið, Amusten, ok því máttu oss veita mikinn styrk, ok ger sem þú sagðir.[7] Amusten víkr brott ok hneigir konungi, fylgja honum sjau höfðingjar undan höfuðmerkinu, þeir sem honum til heyrðu, váru þar þrír konungar kórónaðir, lætr hann blása saman öllu liði sínu. Er þat af Amusten segjanda, at þegar um morgininn sem bardaginn hófst, fór hann til skipa, gékk þar á með sína menn ok siglir[8] í brott af Hispania til Affricam, en lagði eld í eða lét höggva á[9] stórar raufar á þau skipin, sem hann mátti eigi með komast, því at svá vill hann fyrir sjá, at Agulandus eigi þar engrar hjálpar ván, þótt til þurfi[10] taka. Svá skilst Amusten við sinn höfðingja, flytr dróttningina með sér ok mart annarra kvenna. Hefði aldregi trúr maðr ok drenglyndr þann veg skilizt við sinn formann; en þat er þó trúanda, at þetta hafi verit fyrir nökkura hálfu guðs skipan ok heilags Jacobi, því at margan kristinn riddara[11] hefði þeir niðr drepit, sakir þess at engi sveit var eptir þvílík[12] með Agulando fyrir hreysti ok vápnabúnað. Er Amusten or þessarri sögu. En þegar hann var brott genginn frá Agulando, skipar Agulandus annan veg frá merkinu Gundrun konung, sinn hæsta ráðgjafa, fándi honum meir en tuttugu þúsundir, í þriðja stað skipar hann höfðingja Moadas son Aufira

[1]) þat *tilf. b.* [2]) skiljumst *b.* [3]) [í Affricam *b.* [4]) svá gera *b.* [5]) þetta *tilf. b.* [6]) [til fulltings við yðr *b.* [7]) segir *b.* [8]) sigldi *b.* [9]) *mgl. b.* [10]) at *tilf. b.* [11]) mann *b.* [12]) slík *b.*

konungs ok Abilant, skipandi þeim þrjátigi þúsunda; í fjórða veg stendr Ulien, ok með honum tuttugu þúsundir. Agulandus sitr undir sínu höfuðmerki, eru þar settar tvennar verndir eða þrennar umbergis. Má senniliga sýnast eigi auðveldligt fám mönnum at hrœra þessa alla or stað, er þann veg hafa ramliga fyrir skipazt. Svá sitja þeir um nóttina, var meiri hræzla[1] uggr ok ótti í þeirra brjósti en nökkurs kyns gaman eða gleði. Því skal þessu næst greina nökkut af Karlamagnúsi keisara.

72. Keisari Karlamagnús ok allir hans menn sitja á hestum um nóttina, þar sem þá var hverr kominn; en þegar sem fyrst lýsti, samnaðuzt allir saman í einn stað, kom þar herra páfinn með sína sveit ok Fagon merkismaðr. Kannar keisarinn þá lið sitt, ok er[2] eigi fleira en þrír tigir þúsunda, höfðu hinn fyrra dag fallit þrír af tólf jafningjum, váru margir sárir af liðinu. Karlamagnús býr sik til orrostu ok hefir fjórar þúsundir hinna gildastu manna, ok ætlar sjálfr at heyja fyrst[3] orrostu um daginn, en biðr Rollant frænda sinn hvílast fyrst. [En hann svarar:[4] Nei, segir hann, ek segi yðr satt, at fyrir guðs miskunn er ek nú eigi minnr tilfallinn sverði mínu beita en í gær. Sem keisarans lið er búit, gengr Turpin erkibyskup til herra páfans ok segir: Ek biðr yðr, postoligr herra, at þú takir nú við heilagum krossi dróttins várs, en ek vildi standa frammi með mínum mönnum í dag ok sverði snarpliga beita, því at ek hefir heyrt Karlamagnús ok alla hans menn svá segja, at á þessum degi skal annathvárt gerast með vilja guðs, at þeir liggi allir drepnir eða þetta land frelsist af valdi heiðingja. Herra páfinn svarar: Gjarna, son minn, segir hann, vil ek taka dróttinligan kross ok sjálfr bera, en þú far í guðs geymslu ok allir þér, ok dugit sem bezt. Eptir þetta lætr keisarinn halda fram öllu liðinu, utan setr Fagon eptir til geymslu síns merkis. Má þá heyra margan lúðr þeyttan, var þetta rétt í þann tíma, er sólin tekr fyrst at rjóða. Ok þegar heiðingjar heyra hvellan lúðragang en líta fram koma fylking Franzeisa, þar með glitar á gullbúin vápn, skjöldu ok hjálma, er morginsólin skein á, slógust þeirra hjörtu úætlanligum ótta, ok tala miðil sín einkanliga: Þetta er undarligt, í gær féllu margir keisarans menn, en nú sýnist hans lið at engu minna en þá. Karlamagnús hleypir fram frá liði sínu, ok þær fjórar fylkingar er fyrr váru greindar, með svá miklu athlaupi, at þegar bognaði fylking Gundruns konungs, þar sem þeir kómu fyrst at. Bregðr keisarinn þá konungligu sverði, ok hans menn, ok höggva bæði hart ok tíðum, svá hverr hlýtr hníga, sem fyrir er, eðr flýja. Hefst þessi bardagi með miklu harki, háfum brestum ok miklu[5] háreysti. Eigi er því gleymanda, at þegar

[1]) *mgl. b.* [2]) þá *tilf. b.* [3]) fyrstr *b.* [4]) [*mgl. b.* [5]) stóru *b.*

orrostan tekst,[1] kómu fram í fylkingar þeir[2] guðs riddarar, Georgius, Demitrius ok Mercurius, sœkjandi alldjarfliga. Rollant ok hans kumpánar, Oddgeir danski, Samson ok Salomon, Hugi jarl, Droim konungr, Gundilber,[3] Nemes hertogi gerðu harða sókn. Sneri þegar mannfallinu í lið heiðingja. Keisarinn ríðr fram meðr svá mikilli hugprýði, at hann hlífði engu, hleypir brott frá sínum mönnum í miðja fylking heiðingja ok mœtir Gundrun, höggr til hans ofan í hjálminn, bítr sverðit snarpliga, ok klýfr hann sundr herklæddan niðr í kvið. En er Affrikar kenna keisarann, sœkja þeir at[4] öllum megin ok drepa hestinn undir honum. Er Karlamagnús nú á fœti staddr háskasamliga, utan guðs miskunn sé honum mjök fulltingjandi. Þat er ok, því at svá drengiliga varðist hann snúandist æ sem skaptkringla, at engi þorði honum tilræði veita. Frankismenn sem þeir missa keisarans, hryggjast stórliga mjök, sem ván var, ok einn af þeim Bæringr brezki getr sét, hversu nauðuliga hann er staddr, rennir hann sem snarast fram at, svá segjandi: Almáttigr guð, segir hann, sjá nú til með þinni miskunn. Ok í því leggr hann spjóti til ríks höfðingja ok í gegnum hann, hrindr honum sem skjótast niðr[5] á jörð ok grípr hestinn, ok skundar þar til sem keisarinn svá harðliga varðist, at heiðingjar hrjóta út ífrá, stökkr af hesti sínum ok segir: Guð sjái til, minn völdugr herra, gerit svá vel, stígit sem skjótast á hestinn, er stendr hjá yðr. Keisarinn gerir sem hann beiddi, tekr annarri hendi í söðulbogann fremra, en stingr niðr spjótinu, ok stökkr svá sköruliga á bak, at engi riddari mátti þat gera kurteisligar. Heldr Bæringr meðan í hans ístig, en hleypr síðan á þann hest sem heiðinginn[6] hafði átt, ok ríða síðan[7] aptr til sinna manna. Verða þeir fegnari en frá megi segja, sjándi sinn herra heilan[8] á lífi; gerist nú lítil sú hvíld í þeim[9] stað. Þessu næst kemr fram einn mikill konungr heiðinn ok eggjar fast Affrika, svá segjandi: Þessi skömm, sem oss ber til handa, mun fljúga yfir hvert land, at fáir einir menn skulu vefja saman harðla mikinn fjölda várra manna, latum þat aldri verða, sœkjum fram djarfliga; sjái þér eigi, at kristnir menn rýma vígvöllinn yðr til handa, því[10] gera þeir svá, at þeir þikkjast yfirkomnir. Affrikar gera sem hann eggjar, velja or sinni fylkingu þá sem sterkastir váru ok bezt búnir at vápnum, hlaupa þeir fram á kristna menn með brugðnum sverðum ok veita svá harða hríð, at margr guðs riddari hlaut nú hníga. Heldr nú við sjálft at þeir vikni. Ok sem Karlamagnús sér þat, talar hann: Dróttinn minn, hversu ætlar þú nú til, hvat fram skal

[1]) tókst *b.* [2]) þrír *b.* [3]) Gundibol *b.* [4]) honum *tilf. b.* [5]) dauðum *b.* [6]) höfðinginn *b.* [7]) við svá búit *b.* [8]) ok *tilf. b.* [9]) þessum *b.* [10]) þat *b.*

fara, hvern veg má[1] kristni öðlast frelsi í dag, ef hennar verndarmenn skulu svá drepast niðr sem sauðir? Styrk oss, dróttinn minn, at vér megum leggja[2] ok niðr setja drambsemisfullan ofstopa þinna úvina. Sem hann hefir [þessor orð[3] talat, kemr herra páfinn með kross dróttins ok víkr fram at keisaranum, ok segir: Góði herra, hryggist eigi fyrir guðliga skipan, því at þótt nökkut gangi annan veg en þér mundut kjósa, þá er þat ekki annat en guð vill prófa yðr í þolinmœði, en yðr ætlar hann alt eins sigrinn, ok verðr því háleitari, sem hann veitist með meiri[4] guðs stórtáknum.[5] Lítit, herra, með [hversu miklu[6] blómi þessi háleiti kross skínn, hvaðan af vér styrkjumst allir í guðs miskunn. Þegar kross dróttins kemr í auglit heiðingja, birtist hann með þvílíkum krapti eða meira sem hinn fyrra dag. Því snúa þeir Affrikar fyrst undan, sem honum stóðu[7] næstir, en þegar Franzeisar kenna þat, dirfast þeir ok[8] sœkja eptir djarfliga.[9] Karlamagnús fylgir fram sínum mönnum ok kallar hárri röddu: Berizt drengiliga,[10] ok hefnit frænda várra ok vina. Rollant rekr flóttann, var í þessum [rekstri svá[11] margr heiðingi drepinn ok svívirðliga[12] leikinn, sem makligt var. Hvat þarf lengra hér frá[13] at segja, en öll þessi fylking heiðingja dreifist gersamliga, flýja aðrir upp undir höfuðmerki Agulandi, en aðrir í sveit Moadas ok Abilans. Var nú at heyra til Affrikamanna ill læti, óp ok gaulan, því at margir þoldu lítt sárin. Kemr Karlamagnús keisari því næst at fylking Moadas. Verðr nú þó fyrst at hverfa héðan frá at sinni.

73. Nú er at segja frá hinum hrausta herra hertoga Girarð, at hann dvaldist um nóttina í þeim litla dal, er lá hœgra veg skamt frá höfuðmerki Agulandi. En um morgininn kallar hann sína höfðingja til tals, ok segir:[14] Nú er líkligt, góðir riddarar, at með vilja guðs gerist í dag einhverr endir á váru máli, því skulum vér nú engan veg þyrma várum líkamum. Ek veit at vér erum nær staddir því bergi, sem á stendr höfuðmerki heiðingja, ok fyrir því at þagat man erfit at sœkja, skulu þér hlýða mínum ráðum. Fjögur hundruð þeirra sem sterkastir eru af oss ok einna bezt at vápnum búnir skulu stíga af hestum ok skipast saman, sem næst hverr öðrum,[15] halda skjöldunum sem þykkvast upp yfir höfuð sér, vera gyrðir sverðunum, í fótsíðum brynjum, reisa spjótin fram fyrir sik; skulu þér þann veg ganga upp undir hamarinn, en þeir sem á hestum sitja skulu kringja at[16] utan öllum megin,[17] ok ef guð gefr þat, at

[1]) þín *tilf. b.* [2]) lægja *b.* [3]) [þetta *b.* [4]) meirum *b.* [5]) stórmerkjum *b.* [6]) [hverju *b.* [7]) váru *b.* [8]) at *b.* [9]) röskliga *b.* [10]) djarfliga *b.* [11]) [flóttarekstri *b.* [12]) illa *b.* [13]) af *b.* [14]) svá *tilf. b.* [15]) ok *tilf. b* [16]) um *b.* [17]) megum *b.*

vér komimst með svá skipaðan flokk upp undir höfuðmerkit, mun í nóg at vinna, ok fyrirbýð ek, at nökkurr minna manna geri nökkura framreið, hvat sem móti oss kann koma, utan hlífim oss sem bezt ok þröngumst þann veg fram miðil þeirra; er þat hugboð mitt, at lítit fái þeir at gert. Allir [kveðast gjarna[1] svá gera vilja, hvern hátt sem hann skipaði. Eptir því[2] gerist sem nú var sagt, at gangandi menn skipaðust fyrst saman, en þar síðan hjá utan riddarar á hestum sem þykkast, greiða þann veg sína ferð upp á brekkuna, er miðil var þeirra ok heiðingja. Ulien getr líta þeirra ferð ok gengr fyrir Agulandum, ok segir: Alla vega koma nú at oss vandræði, hér ferr nú at oss flokkr sá er ek mœtti í gær, ok eru þeir at vísu dauðir, sem þeim mœta. Agulandus svarar: Þar mun vera Amusten kumpán várr með sína fylgd. Nei, segir Ulien, ek kenni gerla, ok því gerit í móti þeim, at þeir komist eigi higat at yðr. Agulandus segir: Haltu, Ulien, móti þeirra liði. Ulien gerir svó þótt nauðigr með tuttugu þúsundir, ok hleypir fram með miklu ópi ok háreysti. Ok sem hertogi sér þat, talar hann til sinna manna: Gefum[3] ekki ópi þeirra gaum né harki, höfum oss vara ok kyrra, látum þá umfást sem þeim líkar, stöndum við svá ok greiðum vára ferð, þegar vér megum því við koma. En sjáit þann er þar hleypr[4] geystr fram undir gulum skildi, sá hljóp í gjár[5] á oss [mjök ákaft;[6] en guði sé lof fyrir, at þá gerðum vér honum maklig skil þeirrar skuldar sem oss byrjaði honum at gjalda, ok enn segir mér vænt hugr um, at hann öðlist litlu betra skatt nú en í gær; því at þess bið ek alla yðr, sem ek ætlar gera, at þér drepit hvern þann sem þess[7] dirfist at koma svá nærri,[8] at vápn yður taki til, en bregðit engan veg yðvarri stöðu, takit þá æ sem næstir eru hendi. Þeir játta svá gera. Ulien eggjar fast til framgöngu,[9] ok ætlar nú hefna þeirrar svívirðingar sem hann fékk fyrra dag. Affrikar œpa þá mikit heróp, skjóta örum, en leggja spjótum, höggva sverðum, slöngva steinum. En þótt þeir fœri þvílíku fram, vann þeim stórlítit,[10] því at eigi breyttu þeir it minsta sinni stöðu, en drápu fjölda heiðingja; átti engi frá tíðendum at segja, er fyrir varð þeirra vápnum. Ok er Ulien sér ekki stoða þvílíkt, en Affrikar bleyðast ok forðast at koma þeim í nánd, þikkir honum[11] sem léttara muni í öðrum stað viðreignar, snýr brott[12] annan veg, kemr fram í fylking Moadas, tekr sér þar stöðu. En hertogi Girarð ferr eptir því sem hann hafði ætlat, því at heiðingjar hrökkva æ svá undan, sem [hans menn sœkja[13] eptir, þar til at hertoginn er [alt kominn[14] upp undir

1) [kváðust *b.* 2) þat *b.* 3) gefit *b.* 4) hleypir *b.* 5) í gær *b.* 6) [með ákefð *b.* 7) *mgl. b.* 8) nær *b.* 9) atgöngu *b.* 10) allítit *b.* 11) svá *tilf. b.* 12) þar fyrir *b.* 13) [hann sœkir *b.* 14) [kominn alt *b.*

hamarinn, er merkit stóð á. En heiðingjar eru þá komnir upp at merkinu ok segja svá Agulando: Ef þeir[1] menn verða eigi sigraðir, sem hér fara at yðr, munu yðrir menn skjótt dauðir. Sem hertoginn er þann veg nálægr, talar hann: Lof sé guði, vel hefir hans miskunn vár geymt, [en engan mann höfum vér[2] látit, en steypt mörgum heiðingja, því stígum af hestum ok göngum djarfliga at heiðingjum. Ek heyri öðrum megin hamarsins mikit hark ok stóra bresti, man keisarinn þar kominn, dugum nú sem hverr er drengr til; þat man guð veita ok hinn heilagi kross, at vér fáim sigr um síðir. Þeir ráða nú upp at heiðingjum með þykkri fylking þegjandi, halda skjöldum fyrir sér, en reisa fram hvassar kesjur, en Affrikar géngu[3] í móti. Hefst at nýju þar hinn harðasti bardagi. Sœkist hertoganum seint, því at erfitt varð hans mönnum at sœkja[4] í gegn upp, fellr því margt hans lið, en[5] miklu fleira af heiðingjum. Var [þá hildar leikr hinn harðasti.[6] Þeir sem næstir váru hjuggu sverðum hart ok tíðum, svá at dýrir steinar stukku langt ok víða [, vel búnir hjálmar sundr[7] klofnuðu, en brynjur brustu, stálin hrukku, en drengir bliknaðu af stórum sárum, er hvárirtveggju veittu öðrum. En áðr nökkut gerist tíðendavænligt í sókn[8] hertogans, skal aptr hverfa til keisarans, ok greina hvat hann hefst at með sínum mönnum.

74. Sem Affrikamenn líta kristna menn drepit hafa ok sundr dreift alla fylking Gundruns konungs, ráðgjafa Agulandi, ríða fram með mikilli reiði þrír tigir þúsunda, [váru þeirra höfðingjar[9] Moadas ok Abilant, svá digrir ok dramblátir, at engan mann virðu þeir sér jafnan. Því blása þeir stórum lúðrum ok gera sem mest hark ok háreysti með ópi ok vápnabraki, ok ætla með því at skelfa hugprúð hjörtu Franzeisa, benda stinna[10] boga, skjóta svá hart at gall í strengjum. En kristnir menn verða eigi svá skelfir, sem þeir hugðu, því at svá sem Rollant heyrir þeirra[11] hark, tekr hann sinn hvella lúðr Olifant, setr sér á munn ok blæss svá hátt,[12] at heyrði fram undir höfuðmerki Agulandi ok um allan herinn. Svá gerðu allir Frankismenn, at hverr þeytti sinn lúðr,[13] er til hafði. Varð heiðingjum miklu[14] kynligra við heróp þeirra en ætla mátti,[15] því at margir af þeim fyldust ótta ok hræzlu. Þessi bardagi hefst með háfum gný ok hörðum samkvámum hraustra drengja. Karlamagnús keisari sœkir með mikilli hreysti, en hinir verjast karlmannliga. Þrír guðs riddarar vinna stóran skaða[16] heiðingjum, ríðast nú

[1]) þessir *b.* [2]) [er vér höfum engan mann *b.* [3]) ganga *b.* [4]) vega *b.* [5]) þó *tilf. b.* [6]) [þessi orrosta hin harðasta. *b.* [7]) [or gyltum hjálmum, skildir *b.* [8]) fylgð *b.* [9]) [var þeirra höfðingi *b.* [10]) stóra *b.* [11]) þetta *b.* [12]) hart *b.* [13]) sá *tilf. b.* [14]) langt um *b.* [15]) mætti *b.* [16]) á *tilf. b.*

margir af sínum hestum bæði kristnir menn ok heiðnir, fellr[1] hverr ofan annan svá þykkt, at hátt hlóðust valkestirnir. Oddgeir danski, Nemes hertogi, Salomon ok Bæringr brezki ríða hart fram í flokk heiðingja. Verðr svá, at [allir eru[2] af hestum feldir, ok er Karlamagnús sér þat, líkar honum lítt, ok kallar í loptit upp svá segjandi: Hvat gerir þú nú, minn göfugi herra Jacobe guðs postoli, [skulu þrír[3] mínir kappar drepast fyrir sjálfs míns augum? Harmr mikill er þat, ok at sönnu segi ek þér þat, ágæti[4] guðs kappi, at eigi ber ek glaðan dag síðan. Hleypir fram síðan meðr mikilli reiði, höggr til beggja handa, þar til er hann mœtir Abilant, höggr með sínu bitra sverði ofan í hjálminn, svá at eigi nemr fyrr staðar en í miðjum kviði, kastandi honum á jörðina niðr. En í því kemr Rollant þar at, sem Oddgeir danski meðr sínum kompánum verst á fœti vel ok drengiliga; fylgdu Rollant ok Grelent, Othun ok nökkurir af jafningjum með fim hundruðum riddara. Ok sem hann sér [þann veg[5] standa sína lagsmenn, talar hann: Ho ho mínir góðu vinir, þat veit guð, at þér erut nú komnir í harðan pungt; vel þeim manni er[6] lina mætti yðrum nauðum. Þeir hrinda heiðingjum tvá vega út ífrá, en kringja um þá alla vega. Grelent tekr til orða: Minn meistari Rollant, furðu góða hesta sitja heiðingjar þessir, vinnum þá ok fám várum mönnum, þeim sem þurfa. Rollant svarar: Gerum eptir því sem þú talar. Því næst hleypir hann at einum digrum heiðingja, leggr spjótinu í gegnum skjöldinn brynjuna ok búkinn, lyptandi honum or söðlinum, ok segir: Þú hinn hundheiðni, far til þíns heimilis. Fleygir honum síðan dauðum á jörð, en grípr hestinn ok fœrir Oddgeiri með þessum orðum: Marga hœversku hefir þú mér sýnt optliga, ok því er ek skyldr at ömbuna þat góðu. Tak hér, góði vin, fríðan hest, er guð gaf mér, ok stíg á sem hvatligast. Oddgeir gerir svá. Grelent reið fram í öðrum stað at öðrum riddara,[7] slœmir til hans sverðinu aptan á hálsinn svá hart, at sundr sneið brynjurokkinn [með brynju, þar með[8] hálsinn, svá at höfuðit fylgdi ok kemr hvar fjarri niðr; þrífr hestinn ok fœrir Nemes hertoga. Er ok skamt at bíða áðr þeim Salomon ok Bæringi eru fengnir hestar. Ríða síðan djarfliga fram allir samt, ryðjast fast um, kljúfa heiðingja í herðar niðr, af sumum fjúka [höfuðin, sumum[9] hendr ok fœtr, hrýgja[10] hverjum ofan á annan, ok eigi gefa þeir gaum at, hvárt þeir liggja opnir eða á grúfu. Er nú þar komit, at Affrikar þurfu eigi[11] geta til, hversu stór högg Franzeisar kunnu veita, því at allúspart brytjuðu þeir[12] til þess djúpa ketils, sem þeim

[1]) fellir *b.* [2]) [þeir eru allir *b.* [3]) [er þessir *b.* [4]) ágætr *b.* [5]) [í þvílíkri hættu *b.* [6]) at *b.* [7]) heiðingja *b.* [8]) [þar með brynjuna ok *b.* [9]) [*mgl. b.* [10]) hlaða *b.* [11]) at *tilf. b.* [12]) heiðingja *tilf. b.*

var fyrir búinn, [þat er helvíti,[1] í hverjum aldri þverr né þrýtr óð[2] uppganga steikjandi vellu. Þann veg gengr Rollant at með sinni fylgd, til þess at þeir ríða fram á tvær hendr keisaranum. Ok er hann lítr þá Oddgeir ok Nemes, gleðst hann ok segir: Lof ok dýrð sé þér, hinn háleiti herra Jacobe, senniliga gladdir þú nú mitt hjarta, sœkjum nú, Rollant frændi, vel ok drengiliga, skjótt mun almáttigr guð oss sigr veita. Tekr síðan sinn konungligan lúðr, þeytir síðan[3] bæði hátt ok hvelt, svá at Fagon merkismaðr heyrir gerla, þar sem hann er með sína sveit. Hvar fyrir hann talar til sinna manna: Þat veit guð, at Karlamagnús þikkist nú þurfa fulltings, at sönnu heyrða ok hljóð hans konungliga lúðrs; því búum oss ok ríðum sem skyndiligast, hjálpum keisaranum eptir megni, mœtum[4] heiðingjum með hörðum höggum,[5] at öll þeirra hugdirfð hverfi þeim. Þeir svara: Herra Fagon, ríðum þann veg, sem þér gerit ráð fyrir; jafnskjótt sem údyggir Affrikar kenna vár viðskipti, munu þeir flýja sem andarsteggi undan[6] gáshauki, ok þá skulu þeir fá örlög sín ok liggja opnir undir hrossafótum[7] með gapanda munni. Herra Fagon ríðr með þúsund[8] riddara, váru þeir harðla vel búnir at vápnum ok klæðum, ok áðr þeir taka at berjast, talar Fagon við Remund frænda sinn: Tak við merki keisarans ok geym sem bezt, en ek man prófa, hvat mitt góða sverð kunni bíta. Fagon sat á góðum gaskunia hesti, hafði bezta hjálm sér á höfði, settan dýrum steinum. Hann kemr til orrostu þar sem Moadas var fyrir, œpir mikit heróp til hugdirfðar sínum mönnum. Veita þeir í fyrstu svá hart athlaup, at þeir sem næstir stóðu, hrukku undan[9] þeim ok vöfðust saman. En Fagon mœtir Moadas ok leggr til hans spjótinu í skjöldinn svá hart, at hann brestr ok þolir eigi, smýgr þá gegnum brynjuna ok gnestr í hjartanu, lyptir honum or söðlinum, svá segjandi: Þar fórtu, mikli maðr, ok er eigi öðrum at firr. Fleygir honum af fram, en snýr hestinum vel ok fimliga, bregðr sverðinu ok höggr[10] í hjálm Matusalems konungs, kljúfandi hann í herðar niðr, kallar síðan hárri röddu á menn sína: Gerit svá vel, sparit hvárki sverð né spjót við heiðingja, látum þá prófa, at vér kunnum fleira en eta ok drekka. Svá gera[11] þeir sem hann beiddi,[12] ok lögðu[13] til jarðar þrjár þúsundir heiðingja. Brast því næst flótti á Affrikamönnum í þann arm orrostunnar. Ulien gengr fast fram, var hann nú kominn sem áðr sagðist í fylking Moadas, sér hann[14] Affrikamenn með öllu bleyðast ok undan leita eptir fall sinna foringja; því kallar hann á þá, svá segjandi: Jlla launi þér Agulando mikla virðing, er hann lagði á

1) [*mgl. b.* 2) öll *b.* 3) *mgl. b.* 4) veitum *b.* 5) svá *tilf. b.* 6) fyrir *b.* 7) hestafótum *b.* 8) braustustu *tilf. b.* 9) fyrir *b.* 10) ofan *tilf. b.* 11) gerðu *b.* 12) bauð *b.* 13) feldu þá *b.* 14) *mgl. b.*

yðr, at þér rennit frá honum; gerit eigi þá opinbera skömm at flýja lengra en fram undir hans höfuðmerki, hvert þér sjáit enn standa. En þótt hann tali þvílíkt,[1] gefa þeir at því engan gaum, heldr leitar hverr sér þangat sem líkast þótti til hjálpar. Ulien keyrir hestinn sporum, hleypir at einum góðum riddara Edvarð at nafni, ok klýfr hans hjálm [ok höfuð,[2] svá at í tönnum nam staðar. Eptir þat mœtir hann hrausta[3] riddara Riker, ok leggr spjótinu í gegnum skjöldinn, ok er hann[4] finnr þat, snarar hann skjöldinn á vígsl með svá miklu afli, at spjót Uliens stökk sundr fyrir ofan falinn, en höggr sverðinu ofan í hjálminn, ok í því sem hann brestr, talar Riker: Vara þik, riddari. Fylgir síðan högginu svá drengiliga, at hann klýfr Ulien [ofan í herðar,[5] fellr hann þá til jarðar. Í þenna tíma kemr herra páfinn með dróttinligan kross fram í fylkingar, eru þar með honum þrír guðs riddarar. Þarf þá eigi um at binda, því at svá mikill ótti [ok hræzla[6] kemr yfir alt lið heiðingja, at hverr fyrirlætr sinn stað, flýja sumir á fjöll eða[7] skóga, sumir undir höfuðmerkit til Agulandum, ok eggja hann[8] flýja. Gerist [þá nú[9] mikil þröng, því at keisarinn er nú[10] kominn með sitt lið neðan undir hamarinn, flýja[11] allir upp undan[12] at höfuðmerkinu, en öðrum megum sœkir[13] hertogi Girarð, ok á eigi lengra til stöðu merkisins en tvau örskot eða varla svá.

75. Agulandus sitr enn undir höfuðmerki sínu, ok þikkir þungliga á horfa. Hafa kristnir menn þá tekit alt umbergis. Því gengr hann fram á bergit ok bregðr sverði sínu ok höggr til beggja handa svá stórt, at [eigi skorti.[14] Herra Girarð sœkir at djarfliga ok kemst at höfuðmerkinu skjótliga, sem Agulandus var undan genginn, ok höggr niðr, eggjar sína menn sem ákafast. Féll í þeim svifum áðr merkit varð niðr höggit meir en þúsund riddara. Sem Frankismenn sjá niðr höggit merkit, vóx[15] þeim dirfð ok árœði, ok hlaða heiðingjum hverjum ofan á annan. Gerðist þá mikill gnýr umbergis, sem allir kómust[16] í einn stað saman. Ok er Agulandus sá merkit falla, gékk hann náliga af vitinu, bíðr eigi svá lengi, at nökkurr haldi í hans ístig, stökkr síðan á einn stóran hest, ok stefnir brott or þrönginni svá reiðr ok hamstoli, at varla vissi hann hvar hann fór. Agulandus stefnir á þann veg, er liggr til Risu borgar, ok verðr fyrir honum eitt stórt[17] díki, svá stórt ok breitt, at hann mátti engan veg yfir komast. Verðr hann þá brott hverfa, þótt nauðigr. En er hertogi Girarð varð þess varr, at Agulandus hefir brott kom-

[1]) slíkt *b.* [2]) [*mgl. b.* [3]) hraustum *b.* [4]) Riker *b.* [5]) [í herðar niðr *b.* [6]) [*mgl. b.* [7]) ok *b.* [8]) at *tilf. b.* [9]) [þar með *b.* [10]) þá *b.* [11]) þeir *tilf. b.* [12]) *saal. b*; undir *B.* [13]) at *tilf. b.* [14]) [býsnum gegndi *b.* [15]) vex *b.* [16]) kómu *b.* [17]) *mgl. b.*

izt, kallar hann hárri röddu, svá [segjandi, ok[1] heyrðu hans menn ok keisarans: Sœkjum eptir Agulando, því at brott er hann flýðr; látum oss aldri þá skömm til handa bera, at hann komist brott, því at eigi man annat sinn gefast líkara fœri til at gjalda honum skattinn en nú. Hann keyrir eptir þat sinn hest með sporum ok ríðr [eptir honum[2] með mikinn flokk, þar til sem Agulandus var, því at svá sem hann komst eigi yfir díkit, sneri hann aptr á vígvöllinn til sinna manna, [þyrptust Affrikar þar[3] þá at honum öllum megin ok vörðu hann, er hertoginn sœkir at, koma skjótliga eptir þeim Boz ok Klaris ok margir[4] af Franzeisum. Hefst í þeim stað hinn harðasti bardagi, vurðu þá[5] snarpar samkvámur, falla heiðingjar æ sem tíðast, en þeir flýja, sem því máttu við koma. Má nú sjá hlaup ok eltingar um völluna, er Affrikar runnu undan, en kristnir menn sóttu eptir. Karlamagnús keisari ferr með mikinn flokk sinna manna til fulltings við hertogann. Ok áðr keisarinn kemr, hleypr fram einn dygðugr riddari Antonen[6] at nafni, ræðismaðr hertogans, ok drepr hestinn undan Agulando, snarar síðan aptr til sinna manna.[7] Er Agulandus nú á fœti[8] ok sér menn sína alla vega falla hjá sér, en suma flýja, þar með lítr hann Karlamagnús ok Franzeisa at sér[9] ríða; þikkir honum nú hvert vandræði koma á bak öðru, hvar fyrir hann talar: Vesæll er ek orðinn, ek hugðumst eignast mundu alla Franz; [eigi veit ek mér nú sigrs ván[10] né undankvámu; bjargi þeir lífi sínu er megu, en mér stendr ekki annat en verjast, meðan megn er til, því at betr samir mér at falla hjá vinum mínum en flýja lengr yfirkominn af þessum vígvelli. Hér eptir fleygir hann frá sér skildinum ok tekr meðalkafla sverðsins báðum höndum, höggvandi svá at hverr hefir bana er fyrir verðr, þar til at sverðit þolir eigi ok stökkr sundr undir hjöltunum. Var þar[11] næst fengit honum annat sverð af sínum mönnum, fór þat sömu leið ok[12] it fyrra, ok með svá miklum tröllskap gékk hann [at um stund, fékk[13] þat ekki, at eigi bryti hann sundr. At lyktum féngu Affrikar honum eina öxi furðuliga stóra, var hon engum vápnhæf utan[14] sterkastum mönnum. Svá segist, at skapt öxarinnar væri af horni, styrkt með mörgum járnvöfum. Stóð nú hvárki við honum járnbundnir skildir né tvífaldar brynjur. Karlamagnús keisari er nú kominn með sitt lið, drápust heiðingjar svá görsamliga, at einn samt[15] stóð Agulandus upp,[16] veitti hann frábæra vörn ok drap margan riddara, til þess at keisarinn bannar at sœkja at honum. Stendr hann þá einn samt[17] ok heldr á öxinni.

1) [at bæði *b.* 2) [*mgl. b.* 3) [því at Affrikar þyrptust *b.* 4) aðrir *tilf. b.* 5) þar *b.* 6) Anton *b.* 7) kompána *b.* 8) staddr *tilf. b.* 9) *mgl. b.* 10) [en nú væntir ek mér eigi sigrs *b.* 11) því *b.* 12) sem *b.* 13) [fram, at um stund fékk hann *b.* 14) nema *b.* 15) saman *b* 16) uppi *b.* 17) saman *b.*

Keisarinn lætr bjóða Agulando at taka við kristni ok játa sönnum guði. En hann svarar því eyrindi skjótt: Ekki vinnr slíkt, segir hann, mér nú at bjóða, því at við engum nýjum sið[1] vil ek taka ok neita goðum mínum fyrir sakir hræzlu, því sœkit at drengiliga sem hraustir riddarar, enn mun öx mín taka til þess er fyrstr sœkir at. Í því hleypr at Claris, en Agulandus höggr til hans ok höggr[2] skjöldinn niðr í gegnum, svá at sínum megin fellr hvárr hlutrinn, ok áðr hann fái at sér tekit öxina, leggr Claris til hans spjóti svá hart, at brynjan bilar, ok fær fóðrat í hans líkama. En Agulandus þrífr í skaptit ok brýtr sundr fyrir ofan falinn. Því næst höggr hertogi Girarð ofan í hjálminn, ok kemr á utarliga, stökkr niðr á öxlina ok klýfr niðr í brjóst, lítr Agulandus þá niðr[3] við höggit. Var þá eigi langt at bíða, áðr Rollant snarar at ok höggr á hálsinn sínu góða sverði Dýrumdala með svá miklu afli, at höfuðit með hálsinum flaug brott af búknum. Féll Agulandus þá dauðr til jarðar, þótt hann vildi eigi. Œptu kristnir menn þá mikit sigróp ok kölluðu svá hátt dauða Agulandi, at heyrði[4] um allan herinn. Gerðist þá mikill fagnaðr ok gleði í hjörtum kristinna manna, ok gáfu margir[5] þakkir almáttigum guði.

76. Eptir fall Agulandi settist Karlamagnús keisari niðr á völlinn, því at hann var mjök mœddr, ok allir aðrir. En þat verðr eigi auðvelt at tína, hversu mörgum þakklætisorðum hann lofaði dróttin Jesum ok hans háleita postola Jacobum fyrir þat opinbert fullting af þeim stórtáknum, er dásamliga birtust yfir heilaga krossmarki, þar með[6] sýniliga framgöngu þriggja guðs ástvina; því at öllum var þat efalaust, at allsvaldandi guð hafði þá senda af sinni himneskri sveit, sakir þess at þegar at[7] lokit var bardaganum, hurfu þeir brott af manna augliti ok fundust hvergi. Hvat víða finnst lesit í sögum heilagra manna, þar sem himneskir kraptar hafa birzt í nökkurri hjálp eða þjónustu við góða guðs ástvini. Karlamagnús fór síðan til sinna landtjalda, býðr[8] hverjum[9] at taka hvíld[10] ok náðir eptir mikit erfiði. Ok sem tími var til, býðr hann ganga um valinn ok kanna þar sem hans menn hafa[11] fallit, ok gékk eigi fyrrum[12] frá, en öllum kristnum mönnum, þeim sem fallit höfðu í þessum bardaga ok hinum fyrra, var veitt hin sœmiligasta greptrar[13] þjónusta. En at því lyktaðu fór hann um öll heruð Hispanie ok endrbœtti kristnina, þar sem[14] þurfti, en reisir upp klaustr ok kirkjur, þar[15] sem Agulandus ok sonr hans Jamund hafði[16] áðr niðr brotit.

1) siðum *b.* 2) klýfr *b.* 3) áfram *b.* 4) heyrðist *b.* 5) margar *b.* 6) fyrir *b.* 7) *mgl. b.* 8) bjóðandi *b.* 9) manni *tilf. b.* 10) frið *b.* 11) höfðu *b.* 12) fyrri *b.* 13) graftar *b.* 14) þess *tilf. b.* 15) þær *b.* 16) höfðu *b.*

1.[1] Turpin með guðs miskunn erchibyskup af borginni Reins, samfélagi [Karlamagnús konungs ins mikla í Hispania,[2] sendir Leofrando dekano Akis [q. guðs[3] Jesu Cristi. Því at þú sendir mér orð til, þá er ek var staddr í borginni Venna sjúkr nökkut svá af sárum, at ek ritaða hversu várr inn mikli ok inn [frægi Karlamagnús keisari friðaði[4] land í Hispania ok Galicia af ofrgangi[5] Saracina, þá vil ek skilvísliga skrifa ok yðr senda letri samansett[6] þau inu undarligu stórmerki ok þann lofliga sigr, er hann vann á Saracinum í Hispania ok vér sám várum augum, fylgjandi honum þau fjórtán ár er hann fór með her sinn of[7] Hispaniam ok Galiciam. Nú með því at þér rituðut svá til mín,[8] at þau in frægju stórtíðendi er keisarinn gerði í Hispania fundut þér eigi fullkomliga skrifuð[9] á þeim annál[10] er liggr í staðnum Sendine, þá meguð þér þat vel skilja, at sá sem þann annál ritaði var eigi nær þessum tíðendum; en þó skal þetta verk ekki við þann annál diskorda. Guð gefi yðr langt líf með góðu megni.

2. Virðuligr guðs postuli Jacobus predikaði fyrstr kristni í Galicia. Eptir þat fór hann til Jórsalalands ok var þar hálshöggvinn af Herode konungi Agrippa. En lærisveinar hans færðu hans inn helga líkama aptr í Galiciam ok styrktu þá enn heilaga kristni með sínum kenningum. Nú er [liðu stundir,[11] eyddist mjök kristni í Galicia, svá at náliga var þar engi kristindómr[12] á dögum [Karlamagnús konungs.[13] Þessi inn sami Karlamagnús[14] keisari inn mikli, síðan er hann hafði með miklu starfi ok stríði lagt undir sik mörg ok stór konunga ríki, England ok Frakkaríki, þýðverskt land, Bæjaraland ok Burgun ok Latorigiam ok Jtaliam, ok enn fleiri ríki í millum tveggja sjáfa,[15] þau sem hér eru eigi greind, ok útaligar borgir lagði hann undir sik af Saracina valdi ok undir rómverskan keisaradóm, þá hugði hann at gefa sér frið ok hvíld eptir margan sveita ok langt erfiði ok hætta eigi sér lengr eða sínum mönnum í úfriði ok orrostum. Ok jafnskjótt sá hann á himni einn stjörnuveg[16] þann er upp hófst af Fríslands[17] hafi ok veittist alt milli þýðverks[18] ríkis ok Galiciam, Jtaliam ok Aquitaniam, ok síðan rétta leið yfir Gaskuniam ok Basdam, Nafari ok Hispaniam alt til Galiciam, þar sem var heilagr dómr ins helga Jacobi postula mjök úkunnigr flestum mönnum í þenna tíma í því landi. Nú er Karlamagnús konungr sá

1) *Her meddeles Fortællingen om Agulandus efter Haandskrifterne A a. Se ovenfor S.* ***126.*** 2) [hins mikla Karls keisara í Spania *a.* 3) [kveðju *a.* 4) [frægasti keisari Karl frjálsaði *a.* 5) valdi *a.* 6) samansettu *a.* 7) um *a.* 8) vár *a.* 9) skipuð *a.* 10) annáli *a.* 11) [stundir liðu fram *a.* 12) kristni *a.* 13) [Karls keisara hins mikla *a.* 14) Karl *a.* 15) sjóa *a.* 16) *saal. a*; stjörnuvegg *A.* 17) *saal. a*; Frakklands *A.* 18) þýverks *a.*

þenna stjörnuveg optliga um nætr, þá hugsaði hann fyrir sér, hvat þetta mundi[1] merkja. Ok er hann studeraði í þessu með mikilli hugsan, birtist honum [þess háttar sýn[2] í svefni, einn herra í fagri ásýn, ok mælti við hann á þessa lund: Son minn, hvat gerir þú? Hann spurði í móti: Hverr ertu, herra? Sá[3] svarar: Ek em Jacobus postuli, fóstrson Jesu Kristi, son Zebedei, bróðir Johannis guðspjallamanns. Mik kallaði guð til sín á Galilea sjá,[4] en Herodes konungr Agrippa lét halshöggva mik með sverði. Minn líkamr liggr nú mjök mönnum úkunnigr í Galicia[5] landi, þar sem Saracinar hafa[6] háðuligt vald yfir. Ok þikki mér mjök undarligt, er þú frelsar eigi land mitt af [valdi úfriðarmanna,[7] þar sem þú hefir mörg stór lönd ok margar stórar borgir undir þitt ríki lagt. Ok fyrir því vil ek þér kunnikt gera, at svá sem guð gerði þik völdugra en nökkurn annan veraldligan konung, svá kýs ek[8] þik til þess af öllum konungum með fyrr sýndri leið at leysa land mitt af úfriði[9] Moabitarum, at þar fyrir þiggir þú af honum kórónu eilífrar ömbunar.[10] Þat merkir ok stjörnuveg þann er þú sátt undir himni, at þú mant fara af þessum löndum með þínum mikla her í Galiciam ok fyrirkoma þeirri heiðingjaþjóð ok frelsa svá landit ok vitja minnar kapellu ok legstaðar. Eptir þik munu fara [allar þjóðir[11] millum tveggja sjáfa[12] pílagrímsferð þiggjandi af guði lausn synda sinna, lýsandi guðs lofi ok kröptum ok undarligum hlutum, þeim sem hann gerir. Þessa ferð munu þeir fara upp af þínum dögum alt til enda veraldar. Far þá nú sem skyndiligast,[13] því at ek skal vera þinn fulltingjari í öllum hlutum, ok þitt starf skal ek ávaxta ok þiggja af guði þar fyrir þér kórónu í himinríki, ok til síðurstu daga skal þitt nafn vera lofat. Með þvílíkum orðum birtist inn sæli Jacobus postuli Karlamagnúsi konungi þrim sinnum. En konungr[14] styrktist mjök af fyrirheitum postulans, ok dró saman mikinn her ok fór í Hispaniam at eyða heiðnum þjóðum með sínum styrk.

3. Pampilonia heitir borg sú er Karlamagnús konungr sat fyrst um þrjá mánaði ok fékk eigi unnit, svá váru hennar múrar sterkir. Þá bað Karlamagnús konungr til guðs svá mælandi: Herra Jesu Kriste, gef mér í vald borg þessa til tignar nafns þíns, því at fyrir sakir trúar þinnar kom ek [til þjóða þessarra í þessi lönd.[15] Heyrðu, inn sæli Jacobus postuli, lát mik vinna borg þessa, ef þat er satt at þú birtist mér. Þá hrundu niðr allir borgarveggirnir til grundvallar með guðs gjöf ok bœn ins sæla Jacobi postula, ok vann

1) hafa at *tilf. a.* 2) [*mgl. a.* 3) Hinn *a.* 4) sjó *a.* 5) Galilea(!) *a.* 6) mjök *tilf. a.* 7) [Saracina valdi *a.* 8) hann *a.* 9) valdi *a.* 10) dýrðar *a.* 11) [allir lýðir *a.* 12) í *tilf. a.* 13) skjótast máttu *a.* 14) keisarinn *a.* 15) [í þessi lönd af vantrúaðri þjóð *a.*

Karlamagnús konungr með þvílíku móti þessa borg. Konungrinn[1] gaf líf öllum Saracinum þeim er skírast vildu láta, en alla þá sem eigi vildu láta skírast[2] lét hann drepa.[3] Ok er Saracinar spurðu þessi[4] tíðendi, lutu þeir honum hvar sem hann fór, ok sendu á vega[5] fyrir hann skatta ok skyldir ok gáfu í hans vald borgir ok heruð. Saracina þjóð undraðist mjök keisarans fólk fyrir sakir fríðleiks ok ágæti[6] klæðabúnaðar, ok af því tóku þeir hann ok hans her at uppgefnum sínum vápnum sœmiliga ok friðsamliga. Fór Karlamagnús konungr svá fram rétta leið til legs ins helga Jacobi postula. Ok þegar hann kom til hafsins, lagði hann sínu spjóti í sjáinn[7] ok þakkaði guði ok inum sæla Jacobo postula, er hann hafði leitt sinn inn mikla her í þá hálfu[8] heims, svá langt sem hann mátti framarst. Turpin erkibyskup skírði þat fólk alt í Galicia með ráði Karlamagnús konungs, er af hafði gengit kristni þeirri er sett hafði Jacobus postuli[9] ok hans lærisveinar, eða þá er eigi höfðu áðr trú[10] tekit. En þá alla menn er eigi vildu við skírn taka, lét hann annathvárt hálshöggva eða gefa í vald kristinna manna til þrældóms ok ánauðar. Eptir þetta vann Karlamagnús konungr alt Hispaniam sjáva í millum, í þeirri ferð vann hann af borgum ok stórþorpum fim hundruð í Galiciam ok umfram alt landit í Hispaniam. Lutu nú undir ríki Karlamagnús konungs öll þau lönd er byggvast[11] vestr af Afrika til sjáfar. Öll þessi lönd [borgir ok staðir eru nú í hans valdi, ok[12] tók hann með friði, en sum með[13] stríði ok inni mestu list, utan eina borg er var af inum sterkustum borgum í þeim löndum, er Luctena heitir á norœnu, hana fékk hann eigi unnit í fyrstu umsát. Hon stendr þar sem grœna dalr heitir á norœnu. Enn síðarsta tíma er hann sat um þessa borg fjóra mánaði, þá bað hann til guðs ok ins [sæla Jacobs[14] postula, ok af því [féllu niðr[15] þessarrar borgar veggir,[16] ok er[17] hon jafnan síðan úbygð alt til þessa dags. [Einn keldulœkr[18] spratt upp í miðjum stað þessum með svartu vatni, ok sýnast þar í svartir fiskar. Þessar borgir yfirkomnar með þungu starfi,[19] [Luctuosam, Venzosam, Capariam,[20] Odam, Sonam, þorði engi maðr at byggja eða upp reisa alt til þessa dags fyrir sakir þeirrar bölvanar, er konungrinn[21] lagði á borgirnar. Öll þau skurgoð ok líkneskjur[22] Saracina ok heiðingja, er Karlamagnús konungr fékk í Hispania, braut hann niðr utan eina líkneskju [í landi[23]

1) Keisarinn *a.* 2) né taka rétta trú *tilf. a.* 3) hálshöggva *a.* 4) undarligu *tilf. a.* 5) veg *a.* 6) ágæts *a.* 7) sjóinn *a.* 8) álfu *a.* 9) *saal.* a; postula *A.* 10) við skírn *a.* 11) liggja by(g)ð *a.* 12) [ok staði *a.* 13) miklu *tilf. a.* 14) [helga Jacobus *a.* 15) [*saal. a*; fella *A.* 16) múrar *a.* 17) *saal. a*; eru *A.* 18) [Ein kelda *a.* 19) af Karlamagnús konungi *tilf. a.* 20) [Luktenam, Venosam, Caparan *a.* 21) keisarinn *a.* 22) líkneski *a.* 23) [*mgl. a.*

Alandaluf. Sú líkneskja hét Salemcadis;[1] staðrinn heitir Cadis sá er sú líkneskja var í, Salam heitir guð á tungu Arabialands manna. Svá segja Saracinar, at sá Maumet er þeir dýrka, gerði þessa líkneskju [í sínu nafni, ok með galdralist læsti hann í þessi líkneskju eins kyns djöfla fylki, þau sem eignuðust með sínum styrk þessa borg ok líkneskju,[2] ok af því mega eigi menn hana brjóta. Ef nökkurr maðr kristinn kemr í nánd henni, þá verðr hann sjúkr; en ef [sjúkr Saracinus kemr[3] til hennar ok tignar hana ok biðr sér miskunnar, hann ferr heill á brott. En ef nökkurr fugl sezt á hana,[4] þá deyr hann þegar. En svá er búit um sjálfa líkneskjuna, at steinn ferstrendr stendr á sjáfar ströndu, þar sem hrafn er vanr at fljúga; hann er gerr með Saracina list ok því mjórri sem ofar er. Á þeim stólpa stendr þessi líkneskja er steypt er eptir manns mynd af inum bezta latuni. Hon horfir í suðr ok hefir í[5] hendi klumbu mikla. Svá segja Saracinar, at þessi klumba mun falla or hendi líkneskjunni á því ári, er sá Frakka konungr er fœddr er kristna skal alt Hispanialand á síðustum tímum veraldar. Ok jafnskjótt sem Saracinar sjá þessa klumbu niðrfallna,[6] þá flýja þeir brott allir af Hispanialandi. Gull þat er [konungar gáfu Karlamagnúsi konungi ok aðrir höfðingjar,[7] lagði hann til þess at auka musteri ins helga Jacobi postula, ok prýddi hann [þat musteri[8] með sœmiligu ok dýrligu kirkjuskrúði ok skipaði þar til byskup ok kanoka eptir reglu Ysodori byskups. En með afganga[9] þess mikla gulls ok silfrs, er hann fékk í Hispania, lét hann gera margar kirkjur ok klaustr í Þýðversku[10] ok Franz ok Gaskoniam, ok af þeim öllum lét hann flest vígja Jacobo postula til dýrðar ok lofs.

4. Nú svá sem Karl[11] konungr kom heim í Franz, þá kom einn heiðinn konungr af Affrika sá er Agulandus heitir í Hispaniam ok vann þat ríki alt undir sik með myklum her. Hann braut þar niðr alla kristni þá er Karlamagnús konungr hafði þar sett, ok drap alla kristna menn eða rak af landi. [Ok þá[12] er Karlamagnús konungr spurði þessi tíðendi, fór hann annat sinn í Hispaniam með her sinn, ok hertugi Milo[13] af Angleriz var stjórnari hersins. Til þess rita ek þenna atburð, at menn viti hver ábyrgð í er at taka undir sik lögligar gjafir, þær er menn gefa fyrir sál sinni í banasótt.

5. Þá er Karlamagnús konungr var staddr við borgina Baion með her sinn, þá gaf einn riddari er Romarik hét hest sinn fyrir

[1]) Salamkades *a.* [2]) [*tilf. a.* [3]) [*saal. a*; sjúkir Saracinar koma *A.* [4]) þessa líkneskju *a.* [5]) hœgri *tilf. a.* [6]) niðrfalla *a.* [7]) [þeir gáfu Karlamagnúsi konungi Saracinar, konungar ok höfðingjar, í Spania á þeim 3 árum er hann dvaldist þar *a.* [8]) [þá kirkju *a.* [9]) afhlaupi *a.* [10]) þýversku *a.* [11]) Karlamagnús *a.* [12]) [En *a.* [13]) *rettet;* Nisto *A*, Justo *a.*

sál sinni skriptaðr ok húslaðr. En eptir andlát hans seldi frændi hans hestinn fyrir 100 skillinga silfrs, sá sem hann hafði umboðit at gefa hestverðit fátœkum mönnum, en hann sjálfr eyddi þessu fé á fám dögum fyrir mat ok drykk ok klæði. En eptir 30 daga birtist honum inn [framliðni maðr, ok mælti við hann[1] þessum orðum: Ek fal þér á hendi mína peninga at gefa fátœkum mönnum fyrir sál minni, þá skaltu þat vita, at guð [gaf mér upp[2] allar mínar syndir; en fyrir þat er þú tókt rangliga ölmosu mína, þá hefi ek verit í hörðum píslum 30 daga, en á morgin muntu koma í minn stað, en ek í paradisum. Nú sem menn heyrðu draum hans of morgininn, [þótti flestum ógurligr þessi fyrirburðr.[3] Því næst heyrðu menn upp í loptit yfir hann sem león rautaði eða úlfar þyti eða griðungar gneldi.[4] Ok í því var þessi vesli maðr tekinn í loptit upp, svá at engi maðr sá hann síðan lífs. Fjóra daga var hans leita farit á hestum ok fótum, ok fannst[5] eigi. [Nú sem liðnir váru tólf dagar[6] eptir þenna atburð, var fundit lík hans á bergi einu brotit alt í sundr, fjórar dagleiðir frá þeim stað er hann [hafði í brott horfit,[7] djöflar höfðu honum þar niðr kastat grimlega.

6. Svá sem Karlamagnús konungr ok Milo[8] hertugi kómu í Hispaniam með her sinn, þá sóttu þeir eptir Agulando konungi, ok svá sem þeir leituðu hans listuliga, fundu þeir hann við á þá, er heitir Segia[9] á inni fegrstu eng ok sléttu. Þar lét Karlamagnús konungr setja [ina fegrstu[10] kirkju ok vígja guðs píslarváttum Fakundo ok Primitibo, ok [lagði þar til eitt ríkt þorp ok setti þar[11] ágætt klaustr. Ok svá sem hvárr þeirra kom nær öðrum, þá bauð Agulandus konungr Karlamagnúsi konungi at berjast við sik, hvárt er hann vildi at kœmi 20 í mót 20, eða 40 í mót 40 af hvárs liði, eða 100 í mót hundraði[12] eða þúsund í mót þúsund, eða tvá í mót tveimr, eða einn í mót einum. Þá sendi Karlamagnús konungr hundrað í mót hundraði[12] riddara Agulandi[13] konungs, ok féllu allir Saracinar. Eptir þat senda þeir 200 riddara hvárr, ok féllu allir heiðingjar þeir er Mauri heita. Nú eptir þetta sendi Agulandus konungr 2 þúsundir[14] riddara í móti 2 þúsundum[15] riddara Karlamagnús konungs, ok féllu enn sumir [af riddorum Agulandi, en sumir flýðu.[16] Á þriðja degi eptir rak Agulandus konungr frá sér kempur sínar[17] leynilega, ok þóttist nú víss vorðinn, at Karlamagnús konungr hafði

[1]) [framgengni riddari með *a*. [2]) [hefir fyrirgefit mér *a*. [3]) [þá þótti þeim hans fyrirburðr harðla undarligr *a*. [4]) gylli *a*. [5]) hann *tilf. a*. [6]) [En 12 dögum *a*. [7]) [hvarf *a*. [8]) Justo *a*. [9]) Seggia *a*. [10]) [mikla *a*. [11]) [lét þar setja eitt ríkt þorp ok *a*. [12]) hundrað *A*; 100 *a*. [13]) Agalandus *a*. [14]) 300 *a*. [15]) 300 *a*. [16]) [, en sumir af riddörum Karlamagnús konungs *a*. [17]) allar *a*.

minna lið en hann, ok bauð þá almenniliga bardaga á næsta degi eptir; ok þessu játtaði Karlamagnús konungr. Nú búa kristnir menn vápn sín til bardagans. Ok þann sama aptan fyrir orrostuna stungu þeir niðr spjótsköptum sínum í völlinn úti fyrir hallardyrum.[1] En snemma[2] of daginn eptir er menn kómu til at taka hverr sitt spjót, þú fundu allir þeir er féllu of daginn eptir í bardaganum með píslarsigri sín spjótsköpt með börk ok blóma. Þeir undruðu þetta æfintýr ok eignuðu[3] guði þenna atburð. Þeir hjuggu síðan upp spjót sín sem næst máttu þeir jörðinni; en af þeim rótum upphöggvinna spjótskapta er eptir stóðu í jörðunni, runnu upp fagrir lundar réttir sem sköpt með mörgum kvistum ok fögru laufi, svá sem sjá má. En þessir lundar váru flestir af aski, er af þessum sköptum runnu upp. Hertuginn Milon faðir Rollants fékk píslarvættis pálm í þeim bardaga með þeim píslarváttum guðs, sem áttu þessi blómguðu spjótsköpt, er nú fyrr var frá sagt. Í þessum bardaga lét Karlamagnús konungr hest sinn. Ok svá sem keisarinn var nauðugliga staddr með tvær þúsundir fótgangandi kristinna manna í millum [margra þúsundraða[4] Saracina, þá brá hann sverði sínu er Gandiola[5] hét ok hjó með því fjölda Saracina sundr í miðju. Ok er leið á daginn skildust kristnir menn ok heiðingjar, fóru þá hvárir heim til sinna herbúða. Á næsta dag eptir kómu af Róma herr, [4 marchisar með[6] fjórar þúsundir riddara allgóðra, til liðs við Karlamagnús konung. Ok svá sem Agulandus konungr vissi þat, sneri hann í brott með öllum her sínum. En Karlamagnús konungr fór heim í Franz með sinn [inn mikla[7] her.

7. Eptir þetta dró Agulandus konungr saman útalligar þjóðir, Saracinos ok Misturios,[8] Moabitas ok Ethiopes, Pardos ok Affrikanos, Persas. Í þessum her váru þessir höfðingjar, Texphin[9] konungr af Abia, Bakales konungr af Alexandria, Avid[10] konungr af Bugia, [Ospin konungr af Agapia, Partin konungr af Marak,[11] Alfing[12] konungr af Maiork, Mamonon konungr af Meana,[13] Ebrauid[14] konungr af Sibili,[15] Estimaior[16] konungr af Korduba. Nú sem Agulandus konungr hafði unnit borgina Agenne með þeim inum mikla her, þá sendi hann orð Karlamagnúsi konungi með fám riddorum ok hét at gefa honum 40[17] hesta hlaðna með gulli ok silfri ok enn önnur auðœfi, ef hann vildi undir hans ríki ganga. Fyrir því mælti hann þetta, at hann vildi kenna Karl[18] konung at vexti ok áliti, ef[19] hann mætti því léttligar við komast at drepa hann, ef svá kynni til at

[1]) herbúðunum *a.* [2]) árla *a.* [3]) *saal. a*; eignaði *A.* [4]) [*mgl. a.* [5]) Gaudiola *a.* [6]) [*tilf. a.* [7]) [*mgl. a.* [8]) Misterios *a.* [9]) Terhpin *a.* [10]) Avit *a.* [11]) [*tilf. a.* [12]) Alfuskor *a.* [13]) Mekua *a.* [14]) Ebiauin *a.* [15]) Sibil *a.* [16]) Altumaior *a* [17]) 60 *a.* [18]) Karlamagnús *a.* [19]) ok ef *a.*

bera, at þeir fyndist í orrostu. Ok svá sem Karlamagnús konungr undirstóð hans [inu falsligu[1] boð, þá reið hann or ríki sínu með tvær þúsundir inna vöskustu[2] riddara ok setti svá nær borginni Agenne sín landtjöld, þar sem Agulandus konungr sat með her sinn, at eigi var[3] meir en fjórar mílur fram til staðarins. Þá fór Karlamagnús konungr leynilega frá liði sínu með 60 riddara upp á fjall, þat er svá var nær, at sjá mátti þaðan staðinn, ok lét þar eptir þessa riddara ok sín konunglig klæði, en tók upp verri klæði ok lagði opinn skjöld sinn í milli herða sér ok spjótlauss, sem siðr er til sendimanna at fara höfðingja í millum í úfriði, ok svá fór hann fram til staðarins, ok með honum einn riddari. Nú sem menn kómu í mót þeim af staðnum ok spurðu hvat manna þeir væri, en þeir kváðust vera[4] sendiboðar Karlamagnús konungs ins mikla keisara til Agulandum konungs. [Nú sem þessir menn[5] kómu fyrir Agulandum konung, þá mælti Karlamagnús konungr [við Agulandum konung:[6] Karlamagnús konungr sendi okkr til yðvar at segja yðr, at hann [vill gjarna gerast yðarr maðr, ok er hann hér kominn með 60 riddara, ok því biðr hann, at þér komit til tals við hann með 60 riddara[7] í friði. En er konungr heyrði þessi orð, herklæddist hann þegar skjótt ok bað þá segja Karlamagnúsi konungi, at hann skyldi bíða hans. Agulandus konungr [sér görla keisarann en kendi hann með engu móti.[8] En Karlamagnús konungr kendi görla Agulandum konung, ok hugði at hvar bezt væri at vinna borgina. Hann sá þá alla konunga, er í váru staðnum. Síðan fór hann upp á fjallit til riddara sinna ok svá aptr til liðs síns. En Agulandus konungr með 7 þúsundir riddara reið út af staðnum sem skjótast mátti hann, ok vildi Karlamagnús konung drepa, ef honum gæfist fœri á. En hann reið undan ok heim í ríki sitt, ok dró at sér mikinn her ok vendi síðan aptr í Hispaniam, ok kom til borgarinnar Agenne, ok sátu um staðinn sex mánaði. En á 7 mánaði svá sem Karlamagnús konungr hafði til búit allar þær listir ok smiðvélar sem höfðingjum er títt at vinna borgir með ok kastala, þá lét hann veita harða atgöngu. Þá flýði Agulandus konungr með þeim konungum ok höfðingjum, sem þar váru, ut of[9] inar lægstu smáttur staðarins eina nótt leyniliga, ok kómust þeir svá undan valdi Karlamagnús konungs at því sinni. En inn næsta dag eptir reið Karlamagnús konungr inn í staðinn við miklum prís ok fögrum sigri, váru þá margir Saracinar drepnir.

[1]) [falslig *a.* [2]) frœknustu *a.* [3]) váru *a.* [4]) menn ok *tilf. a.* [5]) [þessir menn váru leiddir inn í staðinn, ok er þeir *a.* [6]) [ok hans félagi *a.* [7]) [er kominn með 60 riddara til tals við hann *a.* [8]) [kendi eigi keisarann, þó at hann mælti við hann *a.* [9]) um *a.*

8. Agulandus konungr settist nú í þann stað er Santunes heitir. En er Karl[1] konungr frétti þat, þá sótti hann eptir honum, ok bauð at hann skyldi gefa upp staðinn. En hann vildi eigi gefa upp borgina, ok bauð at fara út af staðnum ok berjast við hann með því móti, at sá þeirra ætti staðinn er sigraðist í orrostunni. Um kveldit síðla fyrir bardagastefnuna at settum landtjöldum ok skipuðum fylkingum á eng þeirri, er verðr í millum árinnar[2] Karant ok kastrum er heitir Talaburg, þá settu kristnir menn spjót sín í völlinn fyrir landtjöldum sínum. En um morguninn fundu þeir kristnir menn spjótsköpt sín með næfrum ok laufi, er féllu of daginn eptir í orrostu með píslarsigri.[3] Þessir riðu út fyrstir of daginn eptir ok drápu marga Saracina, ok féllu þó allir. En þat váru 4 þúsundir manna. Þar lét Karlamagnús konungr hest sinn, ok svá sem hann var á fœti staddr í millum margra heiðingja fékk hann styrk af sínum mönnum ok drap þá mikit fólk af Saracinum, þar til er þeir móðir ok sigraðir flýðu í borgina. Ok nú setti Karlamagnús konungr herbúðir sínar umhverfis borgina, nema þar sem áin var. Um síðir flýði Agulandus konungr út á ána með her sinn á einni nótt. Ok þegar Karlamagnús konungr varð við þat varr, þá setti[4] hann eptir honum ok drap konunginn af Agapia[5] ok konunginn af Bugia ok nær fjórum þúsundum heiðingja. Agulandus konungr flýði nú undan of [Portos Sephereos[6] alt til borgarinnar Pampilon, ok sendi[7] orð Karlamagnúsi konungi, at hann kœmi [þann veg[8] til orrostu við hann. Svá sem Karlamagnús konungr heyrði þetta, fór hann heim í ríki sitt ok stefndi nú [at sér[9] öllum þeim her, sem hann mátti mestan fá í sínu ríki.

9. Karlamagnús konungr bauð nú, at allir þrælar í Franz skyldu frjálsir vera með öllu sínu hyski, ef þeir vildi[10] fara í herför þessa með honum til Hispanialands. Ok [í þessa herför[11] leysti hann út þá menn er í myrkvastofum váru læstir,[12] en þeim gaf hann fé[13] er áðr váru fátœkir, illgerðamenn tók hann í frið, en gaf aptr eignir sínar þeim er áðr höfðu mist. En alla þá sem vel váru vápnaðir ok vígir gerði hann riddara, ok jafnvel þá sem hann hafði réttliga kastat út af sinni [þjónustu ok vináttu[14] tók hann aptr í [þann stétt, sem fyrr höfðu[15] þeir. Ok með fljótum orðum um at fara þá kallaði hann með sér til þessar herferðar bæði vini ok úvini, innlenska ok útlenska, at hann mætti því heldr fyrirkoma guðs úvinum í Hispania. Nú svá sem þessi herr kom saman, þá

[1]) Karlamagnús *a.* [2]) ánna *a.* [3]) píslarvætti *a.* [4]) sótti *a.* [5])Agabia *a.* [6]) [Portus Cepheros *a.* [7]) þá *tilf. a.* [8]) [þangat *a.* [9]) [til sín *a.* [10]) vildu *a.* [11]) [til þessarrar herferðar *a.* [12]) *mgl. a.* [13]) peninga *a.* [14]) [eigu ok þjónustu *a.* [15]) [sína stétt sem fyrr váru *a.*

leysti Turpin erkibyskup allan herinn meðr sinni blezan af öllum sínum syndum. Byrjaði nú Karlamagnús konungr ferð sína í Hispaniam á mót Agulando konungi. En [þessi váru nöfn höfðingja þeirra er frœknastir váru til hernaðar yfir herinum[1] meðr Karlamagnúsi konungi: Turpin erkibyskup af Reins; Rollant [er var hertugi yfir herinum, jarl[2] af Cenoman ok herra af Clave,[3] systurson Karlamagnús konungs, son Miluns hertuga af Angleir ok frú Bertu[4] systur Karlamagnús konungs, hann hafði fjórar þúsundir[5] hermanna; Olifer var ok hertugi yfir herinum, hann var hinn hraustasti ok hinn vígkœnsti riddari [ok hinn sterkasti at leggja með glafel,[6] hann var jarl af Gibben[7] ok son Reiners jarls, hann hafði 4[8] þúsundir góðra hermanna; Eystult jarl af Lingun, son Otun jarls, hafði 3 þúsundir hermanna; Arakstan konungr af Brittannia, hann hafði 7 þúsundir hermanna; var þá ok annarr konungr í Brittannia sá er vér segjum nú ekki af; Engeler hertugi af Aqvitaniam hafði fjórar þúsundir hermanna, þessir váru vel kœnir á allskonar vápn ok bezt á bogaskot; þessa borg Aquitaniam, er landit heitir alt af þat er undir liggr, gerði fyrst Augustus keisari, en eptir fráfall Engeler[9] hertuga eyddist þessi staðr ok fékk enga uppreist síðan; þar var ok Jofrey[10] konungr af Bordal með 3 þúsundir hermanna; [Gerin ok[11] Golias, Salomon (félagi) Eystults ok Baldvini bróðir Rollants; Gandebeld Frísa konungr með fjórar þúsundir riddara; Del jarl af borginni Narras með tvær[12] þúsundir riddara; Arnald af Bernald[13] með 2 þúsundir góðra hermanna; Naunan[14] hertugi af Beiare[15] með fimm þúsundir góðra hermanna; Oddgeir Dana konungr með 10 þúsundir góðra hermanna, af honum er svá sungit í kantilena til þessa dags, at hann gerði útalliga undarliga hluti; Lambert prinz af Biturika með 2 þúsundir hermanna; Samson hertugi af Burgunia með 2 þúsundir hermanna; Constantin prefectus af Róma með 20 þúsundir hermanna; Romald[16] af Albaspania; Gauter af Termis ok bróðir hans Vilhjálmr; Gara hertugi af Loringa[17] með fjórar þúsundir hermanna; Begon ok Alfrig af Burgunia; Bernard af Nobilis, Guinard, Esturmid,[18] Þiðrekr, Juor, Bæring, Haro, Guinelun[19] er síðan varð svikari. Herr Karlamagnús konungs sjá er nú var taldr váru ríðandi menn einir, en á fótfarandi mönnum var engi tala höfð. Þessir höfðingjar er nú váru nefndir váru inir frœknustu heims kempur ok guðs riddarar í millum kristinna manna á sínum dögum.

[1]) [þessir váru höfðingjar frœknastir til hernaðar *a*. [2]) [*saal. a*; jarl er v. h. y. herinum *A*. [3]) Slave *a*. [4]) Gilim *a*. [5]) góðra *tilf. a*. [6]) [*tilf. a*. [7]) Gilin *a*. [8]) 3 *a*. [9]) Engilers *a*. [10]) Jofreyr *a*. [11]) [Gescir af *a*. [12]) 4 *a*. [13]) Berit *a*. [14]) Naunal *a*. [15]) Berare *a*. [16]) Rombald *a*. [17]) Lotoringia *a*. [18]) Estorant *a*. [19]) Guilulun *a*.

10. Đessi herr kom saman, þar er heitir Borddalr. Þat váru tvær dagleiðir á lengd ok á breidd, er þessi herr huldi jörðina, ok tólf mílna lengd mátti heyrra hesta gnegg ok gný[1] af reið þeirra. Arnald af Bernald[2] fór fyrstr[3] út um Portos eisereos[4] ok til Pampilon; ok þegar fór jarlinn Eystult eptir honum með sinn her; þar næst Oddgeir Dana konungr með sínum her, ok Constantin hertugi af Róma með sínum her, þar næst Arastang konungr ok hertugi Engeler með sinn her, ok því næst Gandebol konungr með sínum her. Síðarst fór sjálfr Karlamagnús konungr með öllum meginherinum. Ok þá er Karlamagnús konungr kom til borgarinnar Pampilonia, bauð hann Agulando konungi at gefa upp borgina, fyrir því at hann kvezt eptir hennar fall[5] hafa upp reist þessa borg ok síðan kastolum styrkta, ella bað hann konung halda bardaga við sik ok ganga út af staðnum. Nú sem Agulandus konungr sá, at hann fékk eigi haldit staðnum, þá kaus hann at berjast við Karlamagnús konung með því móti, at Karlamagnús konungr gæfi honum grið til at búa her sinn ok saman at kalla, þann sem í[6] námunda var, til þessa bardaga með fullkomnum frið.[7] En þat var Agulando konungi undir þessu, at hann vildi kenna Karlamagnús konung, ef hann mætti honum í orrostu, ok vildi fyrir því eiga stefnulag við hann, ok [þegar játaði Karlamagnús konungr þessum orðsendingum.[8]

11. Agulandus konungr svá sem hann var búinn, reið hann út af borginni með allan her sinn, ok er hann var skamt kominn af staðnum, lét hann eptir herinn, en reið fram með 60 riddara ina frœknustu á fund Karlamagnús konungs. Ok svá sem þeir fundust, þá mælti Karlamagnús konungr: Mikit hefi ek á yðr at kæra, ef þú ert Agulandus, er mín lönd Hispaniam [ok Galiciam[9] ok Gaskuniam hefir með prettum af mér tekit, er ek hafða með guðs[10] styrk undir mik unnit ok undir kristin lög snúit. Ok þar með hefir þú drepit alla kristna menn er á mitt vald vildu flýja[11] ok þú máttir ná. Mínar borgir hefir þú niðr brotit ok kastala ok eydd lönd mín með eldi ok járni.[12] Ok svá sem Agulandus konungr heyrði Karlamagnús konung mæla á Arabiamanna tungu, þá sem hann kunni[13] bezt, þá gladdist hann mjök ok undraðist ok mælti til Karlamagnús konungs: Ek bið þik, at þú segir mér, fyrir hví þú tókt þat land af várri þjóð, er hvárki hafði átt þú né þinn faðir eða hans faðir?[14] Karlamagnús konungr svarar: Þá er várr herra Jesus Kristus skapari himins ok jarðar skipaði kristna þjóð yfir allar heimsins þjóðir; ok

[1]) kný *a.* [2]) Bernind *a.* [3]) *tilf. a.* [4]) Portus cisterios *a.* [5]) niðrfall *a.* [6]) *mgl. a.* [7]) griðum *a.* [8]) [þessu játaði Karlamagnús konungr *a.* [9]) [*mgl. a.* [10]) miskunn ok *tilf. a.* [11]) *saal. a*; fleyðu *A.* [12]) járnum *a.* [13]) *tilf. a.* [14]) né þess faðir *tilf. a.*

af því lagða ek á sem mestan hug at snúa yðvarri þjóð til várra laga. Þá mælti Agulandus konungr: Því[1] er mjök úverðugt at vár þjóð sé undir [yðvarri þjóð,[2] at vér höfum mætari lög en þér: vér dýrkum Maumet guðs sendiboða ok hans boðorð höldum vér, ok þar með höfum vér almáttig guð, þau er oss sýna með boði Maumets úorðna hluti, þá dýrkum vér ok tignum, ok af þeim höldum vér líf ok ríki. Karlamagnús konungr svarar: Í [þessum átrúnaði[3] villist þú, Agulandus, fyrir því at vér höldum guðs boðorð, en þér haldit lög eins[4] hégómamanns; vér göfgum[5] ok trúum á einn guð, föður ok son ok helgan anda, en þér trúit á djöful þann er byggir í skurgoðum. Sálur[6] várar fara[7] eptir dauðann til eilífs fagnaðar fyrir vára trú, en yðrar sálur[6] fara til eilífra písla í helvíti, ok má fyrir þat sjá, at vár lög eru betri en yður. Tak þú nú hvern kost er þú vilt, at þú lát skírast með öllu liði þínu ok hjálp svá [liði þínu ok lífi,[8] eða kom til bardaga við mik ok muntu[9] fá illan dauða. Agulandus konungr svarar: Þat skal mik aldri henda, at ek láta skírast ok neita svá [guði mínum[10] Maumet almáttigan vera, heldr skal ek ok mitt fólk berjast við þik ok þína þjóð meðr þeim skildaga, at þeirra trúa er betri [sem sigrast,[11] ok sé sigrinn til eilífrar sœmdar þeim sem fá, en hinum til eilífrar skemdar[12] er missa. Ok ef ek verð lifandi sigraðr, þá skal ek ok alt mitt fólk skírn taka. Því næst sendi Karlamagnús konungr 20 riddara í mót 20 riddorum Saracina á velli þeim, er bardaginn var lagðr, ok féllu allir heiðingjar. Nú því næst sendi Karlamagnús konungr 40 riddara í mót 40 Agulandi manna ok fór sem fyrr. Þar næst sendi hann 100 riddara í mót 100 riddara Agulandi, ok fyrsta tíma sem flótti brast á kristnum mönnum, þá féllu þeir allir, því at þeir höfðu meira traust á riddaraskap sínum en guðs miskunn. En því næst kom þúsund í mót þúsund, ok féllu [allir inir heiðnu.[13] Þá váru grið sett, ok kom Agulandus konungr til tals við Karlamagnús konung, ok sannaði þá, at betri váru lög kristinna manna en Saracina, ok hét því, at hann skyldi skírast láta of morgininn. Ok svá sem hann kom til liðs síns, sagði hann konungum ok höfðingjum,[14] at hann vill skírn taka, ok bað þá svá gera, ok því játtuðu sumir en sumir neituðu.

12. Á næsta degi eptir fór Agulandus konungr á fund Karlamagnús konungs ok ætlaði þá skírn at taka. Ok er hann kom fyrir borð Karlamagnús konungs, sá hann þar standa mörg borð skipuð

[1]) þat *a.* [2]) [yðvarrar þjóðar valdi *a.* [3]) [þessu *a.* [4]) *saal. a*; ens *A.* [5]) tignum *a.* [6]) Sálir *a.* [7]) koma *a.* [8]) [lífi þínu *a.* [9]) þá *tilf. a.* [10]) [*mgl. a.* [11]) [*tilf. a.* [12]) skammar *a.* [13]) [enn allir Saracinar *a.* [14]) þeim sem þar váru *tilf. a.*

ok þá menn er yfir sátu borðunum með ýmisligum búnaði. Sumir höfðu byskupligan búnað eptir kristnum sið, sumir riddarligan búnað, sumir svartan munkabúnað, en sumir hvítan, sumir veraldarklerka búnað ok margan annan klæðnaðar hátt með ýmsum siðum. Þá spurði Agulandus konungr Karlamagnús konung inniliga,[1] hvat manna hverir væri í sínum búnaði. Karlamagnús konungr segir: Þeir menn sem einlit klæði hafa eru prestar ok læriseðr laga várra, þessir leysa oss af syndum ok gefa oss guðs blezan; en þeir sem þú sér í svartum kápum eru ábótar ok munkar helgari hinum [fyrrum, er vér nefndum,[2] þeir biðja fyrir oss[3] dag ok nótt; en þeir er hvít klæði hafa eru [kanokar, er ina beztu regulu halda ok allar tíðir syngja.[4] Eptir þat sá Agulandus konungr sitja í einum stað samsætis tólf fátœka menn með stafkarla klæðum á jörðu, höfðu hvárki borð né dúk[5] ok lítilliga[6] mat ok drykk. Ok nú spurði Agulandus konungr, hvat manna [þeir væri inir herfilegu.[7] Þá svarar Karlamagnús keisari: Þetta er guðs fólk ok sendiboðar várs dróttins Jesu Kristi, svá marga höfum vér[8] í boði váru hvern dag, sem váru með honum sjálfum hans[9] postular. Agulandus konungr mælti þá: Þessir allir sem upp sitja yfir borði sem þú, eru þínir menn ok hafa góðan drykk mat ok klæðnað, en þeir sem þú kallar með öllu guðs menn vera ok hans sendiboða, þá [lætr þú[10] sitja á jörðu langt í brott frá þér háðuliga haldna at mat ok drykk ok klæðum. Jlla þjónar sá sínum herra, er svá háðuliga tekr hans sendiboða, ok sé ek af því lög þín ill vera, þau sem þú lofaðir. Nú [vil ek fyrir því með engu móti skírn taka. Ok bað sér svá búit heimleyfis ok kvezt enn berjast skyldu við hann áðr en saman gangi þeirra sætt.[11] Karlamagnús konungr skildi nú, at fyrir því vildi Agulandus konungr eigi skírn taka, [er fátœkir menn váru svá illa haldnir, þeir er guðs sendiboðar skyldu vera.[12] Lét hann nú af því geyma, at þeir væri [sem bezt[13] bæði klæddir ok fœddir er í váru herinum. Af slíku má skilja, at [mikil synd[14] er at halda fátœka menn illa.

13. Um morgininn eptir kom hvártveggi herrinn á skipaðan völl[15] til bardaga með sama skildaga sem fyrr var lesit. Karlamagnús konungr hafði 100 þúsunda, ok 30 þúsunda ok 4 þúsundir. En Agulandus konungr 100 þúsunda. Kristnir menn skipuðu her

[1]) eptir *tilf.* *a.* [2]) [er fyrr nefnda ek *a.* [3]) til guðs *tilf.* *a.* [4]) kanunkar ok hafa hina beztu reglu ok syngja allar tíðir *a.* [5]) dúka *a.* [6]) lítillátliga *a.* [7]) [þetta væri *a.* [8]) af þessum *tilf.* *a.* [9]) 12 *tilf.* *a.* [10]) [sé ek, at þú lætr þá *a.* [11]) [vildi hann með engu móti skírn taka, heldr bað hann sér heimleyfis við svá búit, ok bað Karlamagnús konung berjast við sik *a.* [12]) [at kristnir menn héldu háðuliga fátœka menn, þá sem þeir skyldu fyrir guðs sakir fœða ok klæða *a.* [13]) [sœmiliga *a.* [14]) [mikill glœpr *a.* [15]) vígvöll *a.*

sínum í fjórar fylkingar, en heiðingjar[1] í fimm. Nú sem saman kómu inar fyrstu fylkingar, þá [unnu kristnir menn skjótt yfir þá.[2] Fór þá fram önnur fylking, ok fór[3] sem fyrr. Ok er Saracinar sá svá mikinn úsigr sinna manna, fóru þeir út af staðnum með öllum her sínum til bardaga. En Karlamagnús konungr kringdi um þá með sínum her. Arnald af Bernald veitti ina fyrstu atrás[4] með sínum her, ok ruddu[5] sér veg í miðjan her heiðingja; hann hjó til beggja handa með myklu afli ok veitti mörgum manni skaða. Varð þá óp mikit ok hark í hvárratveggju[6] liði, ok géngu kristnir menn öllum megin at [heiðingjum ok drápu niðr, svá at fáir kómust undan.[7] Flýði Agulandus konungr undan ok konungr af Sibil, Astumaior konungr af Korduba með fá[8] liði. Var þá út hellt miklu blóði á þeim degi, svá at[9] tók í ökla, ok birtist svá í þessum bardaga kraptr [várs herra Jesu Kristi ok heilagrar[10] trúar, því at hennar sœmd var lögð við sigr kristinna manna, en Saracina villa niðrbrotin undir þeirra sigr. Eptir þenna bardaga[11] fór Karlamagnús konungr með her sínum til Argue brúar, ok tók sér þar náttstað. Á þeirri nótt at úvitanda Karlamagnúsi konungi fóru nökkurir af kristnum mönnum [þann veg[12] sem valrinn lá, ok tóku þar gull ok silfr ok allskonar gersimar, sem mestar máttu þeir flytja,[13] ok héldu síðan aptr til herbúða sinna. Astumaior af Korduba leyndist af flóttamönnum[14] í fjöllum þeim er váru við veg þessarra kristinna manna, [hann sá nú ferð þeirra ok kom[15] á úvart með Saracina, ok drápu alla svá görsamliga, at eigi komst einn undan. En þat var þúsund manna er þar féllu.

14. Á næsta degi eptir spurði Karlamagnús konungr, at einn höfðingi af Nafar var við fjallit Garðin [sá er fyrir eins vildi stríða við hann.[16] Ok svá sem Karlamagnús konungr kom til fjallsins Gardin,[16] þá stefndu þeir bardaga næsta dag eptir.[17] Þetta sama kveld fyrir bardagann bað Karlamagnús konungr til guðs, at hann sýndi[18] honum mark á þeim mönnum er félli[19] í þeim bardaga. Ok er allr herr Karlamagnús konungs var búinn til orrostu, var sét rautt krosmark á herðum utan yfir vápnum þeirra manna, er feigir váru. Ok er Karlamagnús konungr sá þetta, þá lét hann alla þessa menn byrgja í kapellu sinni, ok hugðist svá skyldu geyma lífs þeirra,

[1]) Saracinar *a.* [2]) [sigruðu kristnir menn skjótt fylking Saracina *a.* [3]) varð enn *a.* [4]) atsókn Saracinum *a.* [5]) ruddi *a.* [6]) hvárutveggja *a.* [7]) [Saracinum ok hjuggu niðr sem þeir vildu, svá at fátt eitt komst undan af heiðingjum *a.* [8]) litlu a. [9]) kristnum mönnum *tilf. a.* [10]) [várrar *a.* [11]) ok sigr *tilf. a.* [12]) [þannig *a.* [13]) með sér *tilf. a.* [14]) ok lá *tilf. a.* [15]) [ok sjá nú ferð þeirra ok koma *a.* [16]) [*mgl. a.* [17]) síðan Karlamagnús konungr kom til fjallsins *tilf. a.* [18]) skyldi sýna *a.* [19]) falla skyldu *a.*

at þeir féllu eigi í bardaganum. Á þvílíkum atburðum má marka, at leyndir eru dómar guðs. Karlamagnús konungr [fékk sigr,[1] en þar féllu 4 þúsundir af Nafaris ok Saracinis. En svá sem Karlamagnús konungr kom til herbúðanna aptr, þá fundu þeir 100 ok fimtugu sinna manna þeirra er [Karlamagnús konungr[2] hafði látit[3] inni byrgja í sínu bœnahúsi, ok váru allir dauðir. Karlamagnús keisari vann þá staðinn við [fjallit Garzin[4] ok þar með alt Nafari.

15. Skjótt eptir þetta var sagt Karlamagnúsi keisara,[5] at risi einn af Kuerni ok af kyni Goliath var kominn af Siria til borgarinnar Nager með 20 þúsundir Tyrkja ok Armenia. Hann hét Ferakuth[6] ok var sendr af Ammiral Babilonie[7] á mót Karlamagnúsi konungi; hann hræddist hvárki skot né spjót, hann hafði afl 40 styrkra manna. Ok fyrir þessa sök fór Karlamagnús konungr skjótt til staðarins Nager. Ok er Ferakut vissi hans tilkvámu, fór hann út af staðnum í mót Karlamagnúsi konungi ok bauð þess háttar einvígi, at einn riddari kœmi í mót einum. Ok svá sem þeim samdist þetta mál,[8] þá sendi Karlamagnús konungr Oddgeir danska til einvígis við risann. En er risinn sá hann, [fékk hann honum blítt faðmlag ok tók hann léttliga undir hœgri[9] hönd sér ok bar hann inn í staðinn sem hógværan sauð. Því næst sendi Karlamagnús konungr til einvígis Reinbald[10] af Albaspania. Ok jafnskjótt sem risinn kom til móts við hann, tók hann Reinbald[11] til sín annarri hendi ok bar hann inn í staðinn ok kastaði[12] í myrkvastofu. Því næst váru sendir tveir herrar Constantin af Róma ok Eleon[13] jarl. En Ferakut tók þá undir sína hönd sér[14] hvárn þeirra ok bar þá svá inn í staðinn ok kastaði þeim í myrkvastofu. Eptir þetta sendi keisarinn tólf til einvígis við risann, ok æ tvá senn. [En hann[15] kastaði þeim öllum í myrkvastofu. Ok er Karlamagnús konungr hafði sét þessi viðrskipti, þá vildi hann eigi hætta fleirum sínum mönnum undir afl risans. Rollant bað sér nú leyfis[16] at berjast við risann, ok fékk tregliga[17] af Karlamagnúsi konungi.

16. Nú svá sem þeir mœttust herra Rollant ok risinn, þá tók risinn hann undir hönd sér ina hœgri ok setti hann á hest sinn [fyrir framan sik[18] ok ætlaði svá at fœra hann í staðinn heim. En svá sem Rollant fékk[19] aptr sitt afl ok traust af allsvaldanda guði, greip hann um háls[20] risanum ok fékk snúit risanum aptr á bak

1) [vann sigr í þessum bardaga *a.* 2) [hann *a.* 3) *tilf. a.* 4) [fjallgarðin *a.* 5) konungi *a.* 6) Ferakurtt *a*, *her og senere.* 7) [konungi af Babilonia *a.* 8) *mgl. a.* 9) [gékk hann til hans blíðliga ok meðr sinni hœgri hendi faðmaði hann ok í öllum hervápnum sínum, ok tók hann léttliga undir *a.* 10) Reinald *a.* 11) herra Reinald *a.* 12) honum *tilf. a.* 13) Elon *a.* 14) *mgl. a.* 15) Risinn fór sem fyrr ok *a.* 16) orlofs til *a.* 17) orlof *tilf. a.* 18) [frammi fyrir sér *a.* 19) hafði fengit *a.* 20) höku *a.*

einum harðreiðum fákhesti betr en 2 örskot fram frá öllum öðrum. En þeir sem eptir fóru váru saman 40 þúsunda.

38. Nú er at segja fra herra Girarði. Þá er hann kom til bardagans, þá slóst hann í fylking konungs hjá hinum hœgra fylkingararmi í móti 20 þúsundum, er þar höfðu fylkt, ok var herra Girarð eigi huglauss, þar sem hann reið með hinni hörðustu atreið, svá fáliða, at hann hafði 2 þúsundir en hinir 20. Sem Affrikamenn litu til Frankismanna, þá tóku þeir at grúfa undir hjálmum ok skjöldum betr en 20 þúsundir Frankismanna, ok hleyptu[1] þá á þá með góðum hestum ok vel búnir at herklæðum, ok hófst þá bardagi mikill. Þá skutu heiðingjar sem tíðast af tyrkneskum bogum, en kristnir menn hræddust þat ekki ok géngu í gegnum fylkingar þeirra, ok váru þá gefin mörg stór högg, ok hjuggu þá höfuð ok herðar, brjóst ok bak, þar sem þeir váru berir er kómu í flokk þeirra er herklæddir váru, þá kendu þeir varla hvára frá öðrum ok seldu þá Frankismenn hesta þá er þeir höfðu látit fyrir skotum heiðingja. Girarð mælti þá hárri röddu til sinna manna: [Góðir félagar,[2] segir hann, bindumst eigi svá í millum heiðingja ok höldumst saman utan fylking þeirra, ok hendum af þeim slíkt er vér megum. Ok látum þá aldri[3] koma oss á flótta, heldr skulum vér gefa almátkum guði lof ok verum honum ömbunandi þat er hann var oss skipandi. Ok er hann lauk sinni tölu, þá laust hann [með sporum[4] vápnhest sinn ok hristi spjót sitt ok breiddi í sundr merki sitt ok lagði Malkabrium einn ríkan höfðingja í gegnum skjöldinn ok panzarann ok skaut honum niðr fjarri hestinum öllum heiðingjum ásjándum, ok ypti merki sínu ok mælti til sinna manna: Riddarar, segir hann, höggvit nú stórt, vér eigum rétt at mæla. Fyrr en þeir væri í komnir bardagann, þá stigu 5 þúsundir hans manna af hestum ok féngu þá til gæzlu, því at eigi mátti ríða fyrir valnum, ok kómu skjótt í bardagann herklæddir hinum beztum herklæðum, ok gáfu þá heiðingjum stór högg ok klufu þá höfði ok herðum, limi ok líkami, ok géngu þeir sem kvikir váru á hinum er dauðir váru. Nú (er) þeir sem berir váru kómu í millum þeirra er herklæddir váru, ok þeir höfðu reynt þeirra viðrskipti, þá þorðu þeir eigi síðan svá mjök fram at bjóðast. Girarð œpti þá á sína menn ok mælti: Herra(r), segir hann, höggvit stórt, Affrika konungr hyggst nú hafa unnit yðr ok vill land várt eyða ok fólk várt útlægja. Nú mun reynast, hversu þér vilit oss ok land várt verja. En ek em, svá þér vitit, nökkut við aldr, ok eigi at síðr, ef þér fylgit mínum ráðum, þá mun yðr jafnan sœmd af standa, meðan þér lifit, þá munu þér aldri mega óttast um yðr. Þeir svöruðu þegar allir: Óttizt eigi, herra,

[1]) hleypti *a.* [2]) [Góðr félagi *a.* [3]) aldri eigi *a.* [4]) [mateplum *a.*

um oss, segja þeir, aldri skulum vér bregðast þér, meðan einn várr lifir.

39. Affrikamenn váru þá at raun komnir, at kristnir menn tóku þá alla staðina fyrir þeim, ok snerust þá at þeim Arabiamönnum Tyrkir Persar. Ok váru þá allir staðir fullir af líkum, vápnum ok hestum, nema í þeim stöðum er Frankismenn höfðu tekit fyrir þeim, mátti nökkut við hjálpast ok varast, er Frankismenn váru svá nær komnir höfuðmerkinu. Þeir mæltu þá sín í millum Magon ok Asperant, þeir váru konungar í heiðingja landi: Slíkt sem nú má sjá, sagði oss at sönnu Balam sendimaðr frá Frankismönnum, at þeir eru kappsmenn miklir ok munu aldri láta sína hreysti meðan þeir lifa. En Jamund gerir nú opinberliga mikilæti sitt, ok heimska mikil ok dirfð, er hann þorir þenna barda(ga) at halda án Agulande feðr sínum. Eigi mun sólina fyrr kvelda at hann mun at vísu finna, at þessi metnaðr mun honum illa hlýða, ok heimsku hans munu margir gjalda, alls enskis verðum vér vísir né virðir, ef vér hneigjum (eigi) nökkut undan höfuðmerki váru. Nú sem herra Girarð var kominn at höfuðmerki heiðingja, þá sótti hann með hinu mesta kappi, því at aldri varð honum hugdjarfari höfðingi. Þá váru liðnir vel 100 vetra hans aldrs, en varla var sá nökkurr undir höfuðmerkinu, er hann hjó eigi, svá vel þúsund manna af heiðingjum féllu umhverfis höfuðmerkit. Þá mælti hann til sinna manna: Herra(r), segir hann, almáttigr guð styrki yðr. Nú megu vér at sönnu vita at oss sönnu fallit, ef ek gæti haldit skildi mínum, þá mundum vér sigrast á þessum Affrikum. Herra Girarð at komanda höfuðmerkinu heiðingja, hann hafði með sér hinu hraustustu riddara. Hann hafði ok svá góða brynju, aldri bilaði hvárki þá né fyrr. Hans 2 systursynir er hann hafði fóstrat or bernsku með mikilli vild ok virðingu gerðu svá rúman veg í fylkingu heiðingja, at hverr sem einn hélt undan ok fyrirlétu[1] höfuðmerkit. Svá fóru þeir báðir þaðan hræddir ok huglausir, at aldri kómu þeir aptr undir merkit. Þá mælti Esperam konungr til Mordans konungs: Víst megum vér halda oss fyrir fól ok heimska menn. Jamund þorði nú eigi hér at koma at hjálpa oss nökkut við í slíkri þurft, nema lét oss sjálfa fyrir oss sjá. Maðr mun svá lengi vilja höfðingja sínum fylgja, at hann sé bæði tapandi sér ok honum. Þeir kómust þá nauðugliga á sína hesta ok héldu þegar undan sem hestarnir máttu mest hlaupa. Undir Aspermunt var þessi hinn langi bardagi.[2] Ok sem Karlamagnús konungr barðist við Jamund son Agulandi konungs ok Asperant flýði undan sem skjótast á 2 vápnhestum, ok fyrirlétu Jamund ok höfuðmerkit. Hann barðist í miðjum[3]

[1]) flettu *a.* [2]) bardade *a.* [3]) milium *a.*

herinum, engi orð sendu þeir honum um sína brottreið ok létu standa merkit eitt saman á vígvellinum, er heiðingjar báru þangat á 4 olifutrjám. Sem Girarð hafði sótt höfuðmerkit, þá sté hann af hesti sínum, ok tóku þá menn hans hjálm af höfði hans ok skjöld hans af[1] honum, ok géngu þeir þá undir hendr honum ok leiddu hann. Brynja hans var hin þröngvasta, ok varð honum orðit mjök heitt af þungum vápnum ok snarpligri sókn. Þeir leystu þá sverðit af honum ok settu hann á hjallinn þann er gerr var undir höfuðmerkinu, ok rann þá blóð or nasraufum hans ok niðr í munninn. Allir menn hans þeir sem þetta sá, andvörpuðu með miklum harmi. Þá mælti hann til þeirra: Verit aldri fyrir mínar sakir hryggir, sœkit heldr þat sem eptir er sœmda yðvarra. Nú berst undir Aspermúnt Jamund son Agulandi konungs við Karlamagnús konung. Þá kallaði hann til sín Oddgeir ok Nemes ok Desirim, Riker, Fagon ok Bæring, Milon ok Drois konung ok Salamon, því at eigi fundust þar þá fleiri höfðingjar. Þessir váru hjá konungi fyrir landtjaldi hans, en Jamund öðrum megin ok með honum Balam ok Goramaron ok Triamodes. En af Affrika konungum Kadon ok Safagon, Salatiel ok Lampalille. Þessir rœddu sín í millum ok mæltu: Dýrligr drengr er Karlamagnús konungr ok aldri sigruðumst vér á honum.

40. Nú skal segja frá konungum þeim er undan kómust. Þeir riðu sem mest máttu þeir, alt þar til er þeir fundu Agulandum konung, ok segja þeir honum öll tíðendi sín. Þá vildu sumir, þeir sem fyrir váru, fyrirdœma þá þegar, er þeir höfðu flýit undan höfuðmerkinu, ok segja þá verðuga dauða, er þeir höfðu svívírðan sinn herra. Þá stóð Melkiant konungr (upp) ok mælti svá at allir heyrðu: Þat veit Maumet, segir hann, at þér mælit svá heimsliga, at þér dœmit dugandi menn til dauða, þar sem þér vitit enn eigi hversu bardaginn kann skipast eða hvárir sigrast. Svá mjök er mér kunnigr Jamund, œska hans ok dirfð, árœði ok mikilæti ok metnaðr, at hann[2] mundi eigi heim orð senda né þeim viðrhjálp veita né í þeirra þurftum þá hugga. En hvat var þat kynligt, at þeir flýði undan, þá er þeir höfðu látit alt sitt lið. En ef þeir hefði þar lengr dvalizt, þá væri þat engi hreysti né riddaraskapr, heldr hin mesta heimska, því at þar var en(s)kis at bíða nema dráps ok dauða, ok fengi aldri vinir þeirra[3] bœtr þeirra lífláts. En þó at þeir hefði varazt, þá hefði þeim þat ekki tjáð. Nú gerit þér fyrir því rangt, at þér dœmit þá fyrir öngvar sakir, en mál þeirra eru sannprófuð, því at ef þeir hefði þar lengr dvalizt, at alt þessa heims gull féngi eigi frjálsat. Þá stóð upp Kalides konungr yfir Orfanie, hann var ríkr maðr ok fésterkr, undir hans valdi váru 4 konungsdómar:

[1]) at *a.* [2]) honum *a.* [3]) fá *tilf. a.*

Herrar, kvað hann, berit þolinmóðliga þat sem hér er talat. Þá er vér höfum heyrt þat er þeir mæla, þá tökum þat af, er vér finnum bezt vera, fyrirlátum heimsku en kjósum vizku. Agulandus konungr hafði alla Affrika í sínu valdi, því at hon er réttfengin hans föðurleifð. Hver nauðsyn rak Agulandum hingat at fara? Hans ríki er svá mikit ok vítt, at hinn bezti múll er vér höfum hér af Jórsalalandi, þó at hann fœri hvern dag sem mest mætti hann hina mestu dagleið, þá mætti hann eigi á 7 vetrum fá farit yfir ríki Agulandi konungs. Nú er hann enn vel heill ok hestfœrr, sterkr ok vápndjarfr, ok sá riddari, at engan veit ek í öllu yðru liði, þann er skjótara geti brotit digrt spjót en hann, eða betr kunni at höggva með sverði. En um einn hlut hefir hann mjök misgert, at hann vildi kóróna son sinn at sér lifanda ok gefa honum ríkit, meðan hann er heill ok kvikr; því at síðan Jamund tók við ríki föður síns at ráða, þá skipti hann ríkinu ok gaf þeim er öllu tapaði fyrir sakir heimsku sinnar. Jafnan síðan hirti hann lítt um yðvarn félagsskap. Nú eru hér komnir njósnarmenn hans or hinu sœta Frakklandi. En þér vitit at sönnu, at kristnir menn trúa á son heilagrar Marie ok hafa sannfregit alt þat er hér er títt með oss, ok hví Jamund þrætir til þessa lands ok fór hingat um haf með hinu mesta skipaliði. Þat sem Jamund hefst nú at mislíkar föður hans, því at hann heldr með sér alla ena yngstu menn ok hit vildasta lið. En Karlamagnús konungr hefir með sér lenda menn ok alla hina göfgustu menn ok alla þá er elztir váru. En þat fólk er nú berst hann við, ef þeir koma honum í háska ok lætr hann líf sitt, þá munu þeir sjálfir skipta ríki sínu sem þeim líkar. Nú höfum vér mörg lönd ok ríki fyrirlátit ok spilt fyrir sakir þessa lands, ok er eigi þetta mætara en eins keisara ríki, ok er þetta ríki mjök gagnstaðligt váru ríki, er vér látum nú á baki oss.

41. Síðan stóð upp hinn gamli Galingrerir, hann var miklu ríki valdandi, hann réð fyrir Sebastiam hinni dýrligu borg, ok hafði hann yfir sér ríka pellsskikkju ok ágætan búnað undir. Hann hafði hvíta kampa ok hvítt skegg hangandi á mitt brjóst með þríkvísluðum fléttingum. Ok er hann tók at tala, þá hlýddu allir, í öllum herinum var engi honum málsnjallri maðr: Herrar, kvað hann, ef yðr líkar at hlýða, þá vil ek sýna yðr nökkut af því sem mér lízt. Þessir 2 konungar várir eru mikillar tignar, hraustir menn ok vápndjarfir, ok ef þér vilit hafa þat at framkvæmd sem þér hafit dœmt um þeirra mál, þá er betr fallit, at þeirra mál standi til þess er vér fregnum sannindi. Ef Jamund kemr heill aptr ok hans föruneyti, þá sé þetta mál dœmt eptir því sem hann er til segjandi. En ef Makon gerir sinn vilja ok fellir Jamund, eða verðr særðr til úlífis,

þá dœmit þá eptir því sem þér sjáit sannast ok þeir[1] . . . . . konungr ok mælti: þat veit Makon, kvað hann, at þetta þikir mér undarligt. Hverr kann segja mér at þeirra dómr er rangr. Með því at Jamund fékk þeim höfuðmerkit at gæta, þá samdi þeim eigi annat en flýja aptr undir, þó at þeir hefði fyrir ofrefli stokkit; því at engum manni samir lengra at flýja en undir merkit, ok eigu aldri þaðan at hverfa fyrir sakir einskis dauða ok svíkja svá sinn herra.

42. þá mælti Talamon með mikilli reiði, hann var grimmr sem león er öll dýr hræðast, hann var ríkr maðr ok forstjóri mikils valds, hann (var) konungr þess lands er heitir Mememunt; hann var rauðr í augum með hlæjanda ok blíðu andliti, hinn öflugasti un(d)ir vápnum á hesti: Herrar, segir hann, ek veit at sönnu, at þetta sé eigi þolt þeim lengi, er 2 konungar várir hafa illa gert við sinn höfðingja ok alla oss, þeir fyrirlétu herra sinn er þá fram dró ok sœmdi ok gaf þeim vald yfir miklu liði. Nú vitit at vísu, at mér er mikill harmr af þessu, ok fyrir því at mik væntir at þetta sé eigi, hvárt Jamund er vel fallit eða illa, en þó bíðum vér þolinmóðliga ok látum standa þetta mál til þess er vér fregnum sannindi, síðan dœmit þá eptir yðrum vilja, ok á báli brennit eða aðrar píslir [þola látit, því[2] at þat veit Makon, segir hann, er öll mín sœmd horfir til, ef þér vilit eigi svá gera, þá mun leikr várr illa fara, því at 20 þúsundir manna af þessum sökum verða blóðgir, fyrr en konungarnir sé fyrirdœmdir. Ulien konungr vildi þá eigi lengr þegja ok mælti til allra áheyrandi: Herrar, segir hann, gefit mér hlýðni ok hljóð; ek sé berliga, at þér deilit allir um einn dóminn at gera. Til hvers konungr komtu öllum oss á þessa stefnu? þá er minn herra hafði her sínum samnat áðr en hann fœri hingat[3] . . . . . . þeir hafa fyrirlátit sinn nátturligan herra er fékk þeim höfuðmerki sitt at varðveita ok sœmdir sínar at verja, en þeir flýðu sem vándir þrælar ok huglausir, höfnuðu Jamund herra sínum, er vald hafði yfir þeim. Nú dœmit með réttu, hverjum sem mislíkar, at þeir sé hengdir sem hinir dáligustu þjófa(r), ok síðan látit á báli brenna líkami þeirra, því at svá sómir at gera við dróttins svika. En þó at Pantalas frændi þeirra, er ek sé þar sitja, vili únýta dóma vára, þá gef ek eigi einn frjálsan pening fyrir hans dramb ok ofmetnað. Ef ek hefi sverð mitt í hendi ok þorir hann at verjast mér ok tek ek eigi þegar höfuð af honum, þá brennit mik í eldi ok kastit ösku minni í vind ok rekit brott arfa mína or ríki mínu.

[1]) *Her er over Halvdelen af et Blad afskaaren, hvorved omtrent 20 Linier ere tabte i a.* [2]) [þolet svá *a.* [3]) *Her mangle atter 20 Linier af nysanførte Grund.*

43. Þá kallaði Pliades með mikilli reiði sem león mjök angraðr fyrir sakir síns herra, honum jafnungr maðr var aldri vaskari: Ek veit at vísu, segir hann, at minn herra mun nú heimsliga fara fyrir sakir þessarra svikara. En Makon gerir sína reiði á þeim, svá at þeir komi aldri fyrir sinn herra Jamund, er svá illmannliga fyrirlét(u) hann í bardaga. Þessir svikarar hafa fyrirgert lífi sínu ok limum, at menn brenni þá í eldi eða þeir deyi öðrum jafnháðuligum dauða, svá at hestar dragi þá dauða í augliti alls hers várs, ok síðan kasta þeim í fúlan pytt, svá at allir þeir er þetta spyrja sjá við at gera slíkt. Ek segi upp at sönnu ok réttum dómi, at þat veit Makon, er sál mína á sér einkaða, at ef þeir eiga sér nökkurn þann frænda eðr vin, at þetta mál vili fyrir mér verja ok segja svá, at ek dœmi þetta af hatri en eigi eptir tilverkum, þá standi sá nú upp, ef hefir nökkura hugdirfð at verjast ok mæla á móti þessum dómi, ok segi með hverjum hætti at hann sé rangr. Ok ef ek tek eigi með þessu sverði, er ek ber við síðu mér, jafnskjótt höfuð af honum öllum yðr ásjándum, ok sýna yðr hann upp gefinn ok yfirkominn, þá verði svei mínum herra, ef hann lætr eigi höggva mik skjótt.

44. Því næst stóð upp Gorhant or Florence, miklu ríki valdandi, hann var höfðingi yfir Kipr ok Barbare, hann var hinn illgjarnasti ok hinn lymskasti, engi var hans jafningi at svikum ok metnaði, svá at engi riddari þorði við hann at eiga. Hann var bróðir Musteni yfir Karsialandi, hann angraði mjök er frændr hans váru svá mjök fyrirdœmdir, ok er hann tók at tala, þá þögnuðu allir: Pliades, segir hann, þú ert alt of heimskr, er þú vilt ræna þessa 2 konunga lífi sínu, því at þeir hafa til einskis dauða þjónat, ok eigi væntir mik at þér drepit þá svá búit, því at herra Jamund ok hans lið vildu þeim ekki við hjálpa; svá lengi stóðu þeir undir höfuðmerkinu, at engi vildi þeim við hjálpa. Af 100 þúsunda er þeim váru fengin at verja merkit, þá kómust eigi 2 undan. En þá er þeir máttu eigi lengr standast, þá vildu þeir forða lífi sínu, ok váru þá hvárki svik né illska né hugleysi.

45. Síðan stóð upp Malavent konungr, hann var höfðingi til austrættar af Affrikalandi. Fyrir utan hans ríki veit engi maðr hvat títt er, hvárt nökkur skepna lifir austar eða engi, nema þat at (þar) er ok vindr ok himinn yfir. Hann átti hit auðigasta ríki, fyrir utan hinar ríkustu borgir betr en 100 kastala. Hann var hinn blíðasti maðr ok hinn fríðasti ok jafnan hlæjandi, hár at vexti ok grimmr at reiði, mjór um mitt en breiðr í herðum, með löngum ok digrum armleggjum, hvítr á höndum sem snjór með liðmjúkum fingrum ok hœverskligri brynju, þá er hann sat á hesti sýndist hann maðr hinn

mesti; hann var tiguligr ok klæddr ríku purpurapelli með snjóhvítum skinnum, skikkja hans var gullsaumuð ok sett gimsteinum, svá at hon var eigi lakari en 100 marka silfrs. Þessi mælti djarfliga öllum áheyrundum: Þat veit Makon, segir hann, herra Amuste, at yður kynkvísl vill spilla várri ætt. Ek em nú búinn at sanna þat, at hvárgi þessarra konunga er verðugr dauða, svá sem ek segi, svá skal ek sanna; en ef ek geri eigi svá, þá láti minn herra hengja mik upp. Þá hlupu upp betr en 40 hundraða heiðingja, ok vildu þeir allir sanna með honum. Þá mælti hann: Komit, segir hann, at þér sannit orð yður með eiðum; en ef þér vilit eigi þat, þá mun illa fara með oss. Eptir þetta skildu þeir svá, at engi varð lykt á dómum þeirra. Ok hefr hér upp hina fimtu bók, er leiðir oss aptr at vita hvat líði bardaganum.

46. Triamodes kom þá hleypandi með ákafri atreið ok breiddi í sundr merki sitt af enu digra spjóti sínu. Hann lagði til Miluns hertuga í gegnum skjöldinn ok brynjuna ok hinn hvíta skinnkyrtil hans ok dró or honum innyflin fyrir framan söðulbogann, ok hörmuðu kristnir menn mjök fall hans, því at hann var góðr höfðingi ok hinn vaskasti riddari. Triamodes sneri aptr sem skjótast, ok reisti spjót sitt með merkinu er hann hafði blóðgat í brjósti hertuga, ok œpti þá hárri röddu: Herra Jamund, segir hann, sœkit kostgæfliga þetta ríki, því at aldri mun þessi maðr gera oss síðan mótstöðu. Ok sem hann mælti þetta, þá kom Bæringr hleypandi svá skjótt sem hans hinn góði hestr gat borit hann ok hristi spjótit með mikilli reiði ok lét síga merkit, ok í því angri er hann hafði þá mundi hann náliga í sundr hrista spjótit. En Triamodis kunni eigi aptr at snúast í móti honum, ok lagði Bæringr hann í millum herðanna, svá at spjótit stóð út fyrir brjóstinu, ok tjáðu honum eigi herklæði hans, þat er vert væri eins glófa, ok bar hann dauðan or söðlinum. Ok er hann dró spjótit or honum dauðum, þá[1] mælti hann: Ofan skaltu stíga, segir hann, hinn vándi maðr, ok héðan skaltu aldri upp rísa, því at þú drapt bróður minn. En nú hefir þú svá dýrt keypt hann, at aldri nýtr þú þeirra eigna er hann átti. Triamodes lá þá dauðr á vellinum. Ok er Jamund sá þat, harmaði hann grátandi fall hans ok mælti á sína tungu mörg hörmulig orð. En Affrikamenn kærðu með mikilli hörmung fall hans ok báru hann dauðan í [föðmum sínum,[2] ok margir féllu í úvit á lík hans af sorg. Því næst riðu fram or konungs fylking Riker ok Marant, [annarr á bleikum hesti en annarr á grám,[3] ok lagði annarr til þess riddara er Mates[4] hét, hann var konungr yfir því landi[5] er liggr fyrir utan

[1]) *Her begynder atter A, som nu igjen lægges til Grund.* [2]) [faðmi sér *a.*
[3]) [*tilf. a.* [4]) Marant *a.* [5]) ríki *a.*

Jórsalaland. Hann var metnaðarmaðr mikill, en öll herklæði hans tjáðu honum ekki, því at hann bar hann af hestinum á spjóti sínu ok kastaði honum dauðum á jörð.[1] En Riker lagði til Garisanz, hann var frændi Jamund son Meysanz, hann hafði Olivant inn hvella[2] lúðr [á hálsi sér[3] utan af Affrikalandi. Riker lagði hann í brjóstit, ok flaug[4] spjótit í gegnum hann. Ok er hestrinn bar hann umfram, þá brá hann sverðinu. Sem páfinn leit til þeirra,[5] þá signaði hann þá ok mælti: Hinn helgi Pétr postuli, kvað hann, í þína miskunn gef ek þessa tvá menn.

47. Sem Jamund sá tvá frændr sína fallna ok allan völlinn huldan af líkum, þá sortnaði alt andlit hans ok andvarpaði hann þá hörmuliga ok mælti: Herra Balam, segir hann, hvat mun nú af mér verða, þessir tveir konungar[6] eggjuðu mik mest at fara hingat, ok hugða ek at þeir skyldu vinna mér alt þetta ríki, er ek sé nú hér liggja dauða. Þá svarar Balam: Undarliga mæli þér; sá er eigi vill una því ríki er honum er heimilt ok girnist með röngu þat sem annarr á, mun aldri vel endast. Svá samir ok öllum er höfðingjar eru, at kunna eigi of illa, þó at þeim misfalli, verða ok eigi of fegnir, þótt þeir sé mikils aflandi, ok þat sem at þikkir vera segja þeim[7] vinum sínum, er nökkura [hjálp megu honum[8] veita. Þú sendir mik í Valland at gera sendiferð þína at stefna Karlamagnúsi konungi til þín, ok sagða ek honum þat sem þér mæltuð, ok óttaðist hann við engi þau tíðendi, er ek kunna[9] segja, ok ógnaða ek honum [þat alt[10] er ek mátta. En þegar jafnskjótt lét hann fram leiða 100 hinna beztu hesta fyrir mik, at ek skylda kjósa af hvern[11] er ek vilda. Ok fann ek jafnskjótt, meðan ek var með þeim, at þeir váru hinir hörðustu riddarar ok [at aldri mundu[12] þeir undan flýja.[13] Sem ek var aptr hingat kominn, þá hugðumst ek segja yðr alt þat er mér fannst sannast í, ok varaða ek yðr alla við at sjá[14] þeim vandræðum, en þér létuð þá allir sem ek hefða svikit yðr. En nú vil ek eigi optar sýna yðr minn vilja, nema nú leiti hverr fyrir sér ok bjargi lífi sínu, aldri munu kristnir menn flýja. Þá svarar Jamund: Aldri samir þér at bregðast mér. Ok tók þá Olifant [ok blés at[15] hugdjarfa menn sína með svá hvellri röddu, at jörðin þótti dynja undir vel þriggja fjórðunga lengd umhverfis. Ok reið hann þá aptr til bardagans ok stefndi at einum kristnum manni ok hjó hann ofan í hjálminn,[16] sverðit nam eigi fyrr staðar en í miðjum búk hans.

1) völlinn *a*. 2) hvellasta *a*. 3) [*mgl. a.* 4) fló *a*. 5) *mgl. a.* 6) *mgl. a.* 7) þeir *a*. 8) [viðrhjálp megu *a*. 9) honum at *tilf. a.* 10) [alt þat *a*. 11) þá *a*. 12) [aldri munu *a*. 13) ok aldri verða þeir reknir or sínu ríki *tilf. a.* 14) við *tilf. a.* 15) [ok setti á munn sér ok blés ok vildi *a*. 16) ok svá at *tilf. a.*

48. Svá sem Jamund kom[1] í bardagann, þá váru höggvin mörg stór högg. Herra Girarð [þá er hann hafði sótt[2] höfuðmerki heiðingja, hann var farinn or brynju sinni ok öllum herklæðum sínum at hvílast. Þá sendi hann eptir 2 systursonum sínum Booz ok herra Klares, ok kómu þegar sem hann mælti. Hann rœddi við þá: Þit skulut nú taka, segir hann, með ykkr 400 af váru liði ok ríða sem skjótast í bardagann með liðinu[3] fylktu. En jafnskjótt sem ek hefi upp tekit merkit[4] ok rækt allan þeirra[5] stað, þá kem ek til yðvar. Gjarna herra, sögðu þeir. Einn þeirra heiðingja er undan höfðu[6] komizt var hinn fimasti maðr, hann hljóp þegar á hinn skjóta[7] hest, er svá flaug ákafliga sem in [skjótasta svala eða valr[8] sœkir bráð sína. Ok er hann kom [fyrir Jamund, talar hann svá til hans:[9] Herra Jamund, kvað hann, mikill harmr ok angr er oss [gerr ok yðr mikil[10] svívirðing. Nökkurir menn kristnir kómu at oss[11] á fœti, aldri sám vér menn svá herklædda, þeir höfðu enga þá brynju er eigi væri þreföld ok hvítari hinu skírasta silfri, svá at aldri fölsuðust þær fyrir vápnum; í þeirra liði var engi sá hjálmr er eigi sé[12] gyltr ok settr gimsteinum, ok léku þeir svá við vára menn undir höfuðmerkinu með sverðum sínum, at öll váru svá grœn[13] sem hit grœnasta gras, ok drápu þeir fyrir oss meir[14] en þúsund manna undan höfuðmerkinu. Sem Jamund skildi[15] orð hans, leit hann [við honum[16] með grimmum augum ok mælti: Þegi, kvað hann, hinn saurgi ok hinn syndugi maðr, þú veizt eigi hvat þú mælir. Ek fékk höfuðmerki mitt [til varðveizlu tveimr konungum ok tíu þúsundum[17] riddara. Þá svarar hinn heiðni:[18] Alla hafa kristnir menn þá drepit ok ráku oss undan höfuðmerkinu ok tóku þat í sitt vald. Þá tók Jamund at hryggjast ok kallaði til sín Salatiel konung ok Rodan[19] hinn harða: Herrar, kvað hann, vér erum nú svívirðuliga sviknir, fjórir guðar várir eru í brott teknir frá oss, ok hafa þeir jafnan hatr á oss fyrir þat. Kristnir menn hafa nú engan styrk, sumir eru fallnir, en sumir særðir til úlífis ok hestar þeirra únýtir, en þér erut enn eigi í bardaga komnir, ok hestar yðrir heilir ok þér vel herklæddir. Á þessu sumri skal ek vera kórónaðr í Rómaborg, fellum nú þetta fámenni er eptir er. Salatiel konungr laut honum ok mælti: Óttizt[20] alls ekki Frankismenn, segir hann,

¹) var kominn *a.* ²) [er sótti *a.* ³) öllu *a.* ⁴) höfuðmerkit *a.* ⁵) *saal. a*; þenna *A.* ⁶) hafði *a.* ⁷) fljóta *a.* ⁸) [skjótasti valr sá er *a.* ⁹) [at liðinu þar sem þeir börðust, þá reið hann þegar þar sem þröngin var mest ok spurði hvar Jamund var. Ok er honum var sagt, þá tók hann í hönd honum ok leiddi hann með sér ok mælti *a.* ¹⁰) [orðinn ok yðr ger nú mikil skömm ok *a.* ¹¹) ok allir *tilf. a.* ¹²) var *a.* ¹³) af stálinu *tilf. a.* ¹⁴) betr *a.* ¹⁵) hafði skilt *a.* ¹⁶) [til hans *a.* ¹⁷) [í gæzlu 2 konunga ok 10 þús. *a.* ¹⁸) *mgl. a.* ¹⁹) Roddan *a.* ²⁰) óttast *a.*

þetta kveld skaltu alla þá sjá dauða. Hann tók þá skjöld sinn ok boga ok örvamæli[1] með sér, ok riðu síðan allir með fylktu liði í bardagann.

49. Sem þessir tveir konungar kómu í bardagann, þá blésu þeir hornum ok lúðrum ok börðu á tabor, ok gerðist þá mikill gnýr[2] í hvárstveggja[3] liði. Þá mælti páfinn: Nú er ekki annat til[4] en gefa alla oss almátkum guði, er sálur várar frjálsaði með dauða sínum. Sá er nú gefr hér stór högg [til friðar heilagri kristni,[5] allar hans syndir meiri ok minni tek ek upp á mik á þessum degi. Þá kom Oddgeir leypandi fram or Frankismanna liði með digru spjóti huldr góðum skildi. En Salathiel reið[6] sem veiðimaðr hjá bardaganum meiðandi Frankismenn með [sínu skoti[7]. Engi maðr gat staðizt hans skot, því at allir váru eitraðir broddar hans, svá at [sá hafði engi[8] líf er hann [gat blóði or komit.[9] En Oddgeir leitaði hans, ok því næst mœtir hann honum, ok hjó þegar til hans í skjöldinn með svá miklu höggvi, at [hann klauf þann illa hund í herðar niðr ok kastaði honum dauðum á jörð. En er Jamund sá Salathiel konung fallinn, þá harmaði hann dauða[10] hans með miklum harms gráti. Eptir þetta kom fram hleypandi herra Nemes hertugi yfir Bealver vel ok virðuliga herklæddr á Mozeli hinum vildasta vápnhesti sínum. Engi hestr þess [hins mikla fjölda[11] kunni síðr at mœðast en hann, ok engi riddari var sá er síðr kunni[12] hræðast en hertugi Nemes. Ok er hann reið at fylking heiðingja, þá mœtti hann fyrst Fulfinio[13] konungi, ok hjó hann þegar [í sundr í miðju ok skaut honum dauðum í miðjan valinn. Sem Jamund leit fall ins heiðna,[14] þá mælti hann: Nú eru enn færri várir menn en váru. Þá sneri herra Nemes aptr í lið Frankismanna. Þá kallaði Karlamagnús konungr til sín Oddgeir ok Nemes, Riker ok Fagon, Drois konung ok Salomon konung, ok mælti hann við þá: Hversu mikinn fjölda riddara eigu vér um höfuðmerki várt. Þeir svöruðu: 30 þúsunda. Karlamagnús mælti þá: Guð veit, segir hann, þat er alls of fátt. Góðir riddarar, segir hann, hvat er oss ráð hafanda? Þá svarar Oddgeir: Vér viljum vaskliga verjast ok svá [stór högg veita,[15]

[1]) örmel *a.* [2]) ok mannskaði *tilf. a.* [3]) hvárutveggju *a.* [4]) ráðs *tilf. a.* [5]) [á þessum velli *a.* [6]) svá *tilf. a.* [7]) [skotum sínum; aldri varð honum betri bogmaðr í öllu heiðingja liði *a.* [8]) [engi hafði sá *a.* [9]) [mátti blóði or koma *a.* [10]) [öll hans herklæði tœðu honum eigi þat er vert væri eins glófa, ok skaut honum dauðum or söðlinum fjarri á völlinn, ok kærði Jamund mjök fall *a.* [11]) [hans liðs *a.* [12]) at *tilf. a.* [13]) Alfamen *a.* [14]) [svá miklu höggi, at engar hlífar gátu hólpit honum, ok skaut hann honum or söðlinum. Sem Jamund leit, at hann féll dauðr af hestinum *a.* [15]) [stórt höggva *a.*

at engar hlífðir[1] skulu við standast, ok ef guð ann heilagri kristni, þá mun hann gefa oss sigr á heiðingjum.

50. Sem þeir töluðu þetta, kom sira Valteri á einum góðum Gaskunie hesti ok hafði á spjótbroti sínu svá mikit merki, at hann dró eptir sér tuglana[2] á jörðinni, spjótbrot[3] stóð í gegnum skjöld hans, brynja hans[4] fölsuð ok slitinn panzari hans, ok lágu [brynjuböndin slitin[5] á höndum hans[6] ok hjálmr hans í mörgum stöðum bilaðr, ok rann blóðit undan brynju hans, svá at söðulboginn var fyrir honum allr blóðugr, ok leggir hans ok fœtr með sporum, ok hann var sárr mjök milli herða ok hélt[7] blóðgu sverði sínu í hendi sér. Ok er hann leit Karlamagnús konung, þá mælti hann: Guð signi [þik, Karlamagnús konungr.[8] Konungr svarar: Guð fagni [þér, riddari.[9] En eigi kenni ek þik, ok seg mér nafn þitt. Hann svarar: Menn kalla mik Valteriom[10] af Salastius borg. Herra Girarð [Boy son[11] sendir yðr guðs kveðju, ok hans systursynir herra Boz ok Clares, ok vér höfum sótt höfuðmerki heiðingja. Sira Valteri, segir Karlamagnús konungr, lifir enn sá inn rausti maðr. Guð veit, segir hann, at svá er hann heill sem fiskr ok kátr sem kið, svá at engi hans manna höggr stœrra[12] en hann. Þá mælti konungr: Hvar er nú herra Girarð? Þá svarar Valteri: Rétt[13] undir höfuðmerkinu sjálfu heiðingja, er hann sótti af þeim, ok höfum vér [gert þar svá mikinn haug af heiðingjum, at þeir liggja betr en 10 þúsundir[14] dauðir hverr á öðrum. Dauðr er Jamund nema hann sé betr at sér, aldri bíðr hann kvikr þetta kveld. Ok þá kom Andelfræi á eplóttum hesti. Sem hann sá Karlamagnús konung, þá kvaddi hann konung í Frankismáli ok mælti: Guð signi yðr, Karlamagnús konungr, son Pippins konungs. Guð fagni þér, Andelfræi ungmenni, segir konungr, ok hér fara nú, segir konungr, sveinar várir. Já, segir Andelfræi, guð veit, segir hann, at [fim tigir þúsunda eru í hinni fyrstu fylking, ok[15] er engi svá vanbúinn í öllum þeim[16] fjölda, at eigi hafi silkimerki gott, ok flestir allir silfrhvíta hjálma ok önnur góð herklæði. Sem konungr skildi [hvat Andelfræi sagði,[17] þá lypti hann höndum til himna ok þakkaði guði [með tárum. En er þetta lið kom fram, þá[18] stóð þeirra fylking tvá fjórðunga. Nú er þar kostr þeim er hesta vilja fá at taka svá góða sem bezta vilja or

1) hlífar *a.* 2) tyglana *a.* 3) eitt *tilf. a.* 4) var *tilf. a.* 5) [brynjuslitin *a.* 6) honum *a.* 7) á *tilf. a.* 8) [Karlamagnús konung hinn ríka *a.* 9) [herra riddari *a.* 10) Valteri *a.* 11) [*mgl. a.* 12) stœrri högg *a.* 13) Þat veit trú mín, beint *a.* 14) [þeim gert svá mikit högg, at betr en 10 þúsundir liggja *a.* 15) [50 í þessarri hinni fyrstu fylking *a.* 16) þeirra *a.* 17) [þetta *a.* 18) [. Þá er Albanie sveinar kómu á vígvöllinn *a.*

100 þúsunda, þeir er [þurfi er herklæða þurfu eigi meira fyrir at hafa[1] en taka af þeim er dauðir liggja.

51. Nú svá sem þeir váru allir vel herklæddir ok á góðum Gaskunie[2] hestum eigi færri en fjórtán þúsundir, en[3] í enni síðarri fylking váru 60[4] þúsundir. En [Droim hertugi[5] af Stampesborg reið þegar at móti þeim ok mælti: Enn megu þér í góðum tíma, segir hann, hefna vina yðvarra. Nú riðu þeir ofan fyrir brekkuna ok glitraði gull ok stál í móti sólskininu, ok gerðist þá[6] mikill moldreykr undan [hesta fótum[7] þeirra. Þá mæltu heiðingjar: Engi maðr sagði oss sannara en Balam sendimaðr, aldri verðr þetta land sótt af várri hendi oss til sæmdar. En ef Jamund hefði sent eptir feðr sínum í dagan, þá væri nú Valland[8] í hans valdi, ok nú verðr þat aldri sótt. Nú samir hverjum at unna[9] hesti sínum er góðan á. Sem hinir kómu at þar er bardaginn var, þar mátti þá heyra mikinn gný ok ógurligan hörkul. Ok er Jamund sá at bardaginn hallaðist á hans menn, þá hætti hann at ljósta [eða heitast við þá, ok þó hét hann þeim at þarflausu fé[10] ok ríki. Því næst leit hann á hœgri hönd sér þangatferð herra Girarðs ok við honum 10 þúsundir riddara,[11] ok dró hann þá á bak fylkingar sínar betr en þrjú örskot. En inn gamli Girarðr lagðist[12] með þungu hlassi á bak þeim ok [feldi sem tíðast[13] af þeim mikinn fjölda. Ok er Jamund fann at ekki var til viðrhjálpar, þá dró hann at sér beisl[14] sitt ok skundaði alt þat er hann mátti til aptrferðar.

52. Svá sem Jamund sá, at kristnir menn höfðu tekit umhverfis hann betr en 10 þúsundir hinna vápndjörfustu riddara,[15] þetta var fylking herra[16] Boz ok Clares, ok leit hann [þá á bak sér ok[17] sá [á hœgri hönd sér Karlamagnús konung sœkja fast fram, ok snerist hann[18] þegar or flokki þeirra, ok ef hann getr forðat sér sem hann hyggr, þá má hann at sönnu segja, at aldri komst hann fyrr or slíkum háska. Nú flýr Jamund undan berandi spjót sitt ok merki í hendi sér, ok var þat harmr er þat spjót var svá seigt,[19] at hvárki[20] kunni bogna né brotna. Þenna við kalla sumir menn aiol.[21] Þetta spjót ok tvau önnur þess hins sama viðar hafði hann með sér [til bardagans.[22] Hann sat á[23] svá skjótum hesti, at [í

¹) [þeirra þurfa, en til herklæða þarf ekki meira at vinn(a) *a.* ²) *mgl. a.* ³) hinir *tilf. a.* ⁴) 40 *a.* ⁵) [herra Droim *a.* ⁶) svá *a.* ⁷) [fótum hesta *a.* ⁸) alt land *a.* ⁹) inna *a.* ¹⁰) [þá né hœta þeim, þá hét hann þó at þarflausu gjöfum *a.* ¹¹) hinna hörðustu manna *a.* ¹²) þá *tilf. a.* ¹³) [*tilf. a.* ¹⁴) *tilf. a.* ¹⁵) manna *a.* ¹⁶) þeirra *a.* ¹⁷) [*tilf. a.* ¹⁸) [at Karlamagnús konungr rak hann, ok snerist á hœgri hönd ok fór *a.* ¹⁹) ok hart *tilf. a.* ²⁰) aldri *a.* ²¹) niol *a.* ²²) [þangat í bardagann *a.* ²³) einum *tilf. a.*

öllum þeim fjölda var engi hans maki,[1] ok reið hann þá ofan hjá bergi nökkuru ok kærði um vandræði sín ok mælti:[2] Vesall ok syndugr em ek nú, segir hann. Ek þóttumst vera svá mikill ok máttugr, at aldri mundu[3] menn á mér sigrast, en nú í dag hefir mér eigi svá gefizt. Ek gaf þeim rangar sakir er[4] eigi lifa, ok misgerða ek í því, at ek vilda[5] bera kórónu [föður míns[6] at honum lifanda. Sá gerir sér[7] at sönnu harm ok skaða, er barn er ok barna [ráðum vill fylgja.[8] Þá svarar Balam: [Heyr, kvað hann,[9] ertu kona er kærir dauða [einka barns síns.[10] Metnaðr ok ofrefli eru samlíkir félagar. Sá er í flestum úgæfum hefir sinn trúnað, lendir jafnan í þann vanda, er of seint verðr at kæra. En nú[11] með því at þér vildi illa[12] fara, þá samir betr at aðrir kæri [fyrir þik[13] misfarar þínar, en þú sjálfr [kveinir sem börn eða hugveykar konur.[14]

53. Nú ferr Jamund leiðar sinnar, ok fylgja honum þrír konungar. Hann hallaðist í úvit á söðulbogann aptr, ok leit hann þá á bak sér ok sá at Karlamagnús konungr rak hann ok Nemes hertugi ok Oddgeir, ok fylgdu þeim fjórir skjaldsveinar Estor delangres[15] ok Rollant á grám hesti,[16] Otun[17] ok Bæringr. Því næst stóð[18] hestr Magons konungs svá mœddr ok sprengdr, at hvárki gékk hann fyrir sporum né höggum. Þá mælti Jamund: Nú kann ek sízt at sjá hvat til [ráðs sé,[19] ef Magon minn meistari ok fóstrfaðir skal hér eptir liggja, ok er mér mikill skaði ok skömm at láta hann. Snúumst[20] við þessum, er hér fara eptir, ok ríðum þá af [hestum sínum ok tökum einn þar af.[21] Þá svarar Balam: Þat mun lítt tjá oss, þó at þú klandir[22] ríki þeirra; en þeir munu fylgja þér ok drepa þik, ef þeir megu með nökkurum hætti ná þér. En Jamund [gaf eigi gaum at[23] hvat hann sagði, ok [tók þegar skjöld sinn ok hélt at sér sem fastast, ok lypti spjóti sínu ok hristi með svá miklu afli, at náliga braut hann í sundr, ok[24] hleypti þegar fram hestinum ok lagði spjótinu til herra Nemes ok hjó[25] ofan í hjálminn ok or allan fjórðunginn, ok ef eigi hefði brynjan verit svá örugg,[26] þá hefði hann at vísu drepit hann, ok síðan[27] skaut hann honum or söðlinum. Oddgeir danski hjó til Gorham[28] með svá [styrkri hendi, at hann

[1]) [varla mátti nökkurn finna í öllum þeirra fjölda, at jafngóðr væri sem sjá *a.* [2]) vei mér *tilf. a.* [3]) myndi *a.* [4]) *tilf. a.* [5]) skylda *a.* [6]) [Agulandus *a.* [7]) *mgl. a.* [8]) [ráði vilja trúa *a.* [9]) [Sjám, kvað hann, kærandi slíkt *a.* [10]) [barns þíns *a.* [11]) *mgl. a.* [12]) nú illa at *a.* [13]) [*mgl. a.* [14]) [látir of illa *a.* [15]) delagres *a.* [16]) vápnhesti *a.* [17]) Utun *a.* [18]) stöðvaðist *a.* [19]) [ráða er *a.* [20]) Snúizt *a.* [21]) [hestunum, ok vinnum einn af hestum þeirra *a.* [22]) klandrir *a.* [23]) [hirti eigi *a.* [24]) [*mgl. a.* [25]) hann *tilf. a.* [26]) at hon bilaði eigi *tilf. a.* [27]) því næst *a.* [28]) Goram *a.*

klauf höfuð ok herðar til beltisstaðar ok skaut honum dauðum á jörð. Sem Jamund leit fall síns meistara ok ræðismanns,[1] þá brá hann þegar sverði sínu ok ætlaði [mitt ofan í höfuð Oddgeiri.[2] En sverðit flaug ofan á[3] söðulbogann ok tók af höfuðit hestinum. En ef þetta högg hefði tekit hinn danska, þá mundi Jamund vel hafa hefnt ræðismanns síns. Ok þá dró hann at sér beislit ok sneri undan. Balam sneri þá aptr ok hnefaði spjót sitt sem hann mátti fastast, ok hleypti fram á[4] hinum góða hesti sínum ok stefndi at leggja til Karlamagnús [konungs hins kurteisa.[5] En konungrinn varð skjótari ok lagði [til hans með svá miklu afli, at hann kastaði honum langt[6] af hestinum saurgandi hin silfrhvítu herklæði hans.[7] Balam hljóp því næst upp ok ætlaði hann at komast á hestinn, ok er herra Nemes sá þat, brá hann sverðinu sem skjótast at verja hestinn fyrir honum, ok hófst[8] þar svá hörð atganga, at horfði til mikils váða; hvárr hjó til annars með þeim inum góðum sverðum svá styrkliga, at fjarri flaug eldrinn or [hlífum þeirra.[9] Sem Balam sá at Oddgeir skundaði þangat haldandi ok skakandi þat it digra spjót, ok með honum Estor delangres, Otun ok Bæringr ok Rollant á sínum hesti, þá sá hann, at honum mundi eigi duga at verjast, ok mælti þá til herra Nemes: Herra riddari, segir hann, nem staðar ok hætt at berjast, þú sigrast lítt í því at þú drepir mik. Ek vilda láta skíra mik ok signa[10] guði ok heilagri trú, ok ef ek mætta finna herra Nemes hertuga or Bealfer, þá mundi hann þenna dag mér til hjálpar koma. Þá mælti hertugi Nemes: Hvat manna ertu, segir hann? [Herra, segir Balam, ek em[11] sendimaðr, sá er var í Franz at gera sendiferð Agulandi konungs. Þá svarar herra Nemes: Almátkum guði[12] þakkir. Ok þá mælti hann til Oddgeirs: [Gerit honum ekki mein, engi maðr var honum raustari; ok þá er ek var fyrirdœmdr til dráps ok dauða af hermönnum Agulandi, þá varð þessi maðr mér at hjálpa í mínum þurftum, ok hann frjálsaði mik í augliti þeirra, ok lét bera fyrir mik svá mikit fé gulls ok silfrs, at engi maðr hirti sér fleiri né betri gersimar at kjósa né œskja. Hann gaf Karlamagnúsi konungi hinn hvíta hest. Heyr góðr riddari,

[1]) [öflugri hendi ofan í skjöldinn, at hann klauf at endilöngu, ok bilaði brynjan fyrir högginu, ok blóðgaði hann sverð sitt í miðjum búk hans ok skaut honum hundheiðnum fjarri af hestinum, ok féll hann dauðr á jörðina. Ok sem Jamund leit þenna atburð um meistara sinn ok ræðismann *a.* [2]) [hann ofan í hjálminn í mitt höfuðit *a.* [3]) í *a.* [4]) *mgl. a.* [5]) [hins kurteisa keisara *a.* [6]) [fyrr til hans svá styrkri hendi, at ekki ístig gat honum haldit, ok feldi konungr hann *a.* [7]) sín *a.* [8]) er *a.* [9]) [annars hlífum *a.* [10]) mik *tilf. a* [11]) [Ek em Balam *a.* [12]) geri ek *tilf. a.*

segir hann,[1] viltu halda nú þat sem þú hefir mælt? Já herra, segir hann, þat vil ek at vísu ok þess em ek biðjandi. Ek gef mik guði ok undir yðra gæzlu, at ek vil trúa á almátkan guð, er hin helgasta mey[2] María fœddi í Betlemborg. Þá svarar Nemes hertugi: Guð veit, segir hann, at þat vil ek gjarna veita þér. Þá kom Rollant ríðandi á einum farahesti[3] svá móðum ok nær sprungnum af erfiði, ok leit hann þá Morel[4] standa á [miðjum veg sínum,[5] ok spurði ekki at nema hljóp þegar á [bak honum,[6] ok fékk hann þá svá mikinn harm, at aldri fékk hann meira, því at hann hugði at Nemes væri fallinn.

54. Nú flýr Jamund reiðr ok hryggr, því at nú er umsnúit valdi hans. Í gær árla er daga tók, þá hafði Jamund undir sínu valdi 7 sinnum 100 þúsunda, nú er eigi eptir hans liðs af öllum þeim enn minsti skjaldsveinn. Karlamagnús[7] rekr hann ok getr eigi farit hann[8] innan mikilla fimm fjórðunga, ok kom Jamund þá at nökkurum skógi litlum álms eða olifaviðar, þar sem hit skírasta vatn spratt upp undir rótum viðarins. Sem hann sá þat, þá fýsti hann mjök til, fyrir því at hann var móðr mjök af erfiði ok vöku; því þá váru liðnir þrír dagar síðan hann bergði [á nökkuru hvárki at eta né drekka,[9] ok aldri þess í milli þorði hann hjálm sinn af höfði at taka, ok þá steig hann af hesti sínum ok skaut því inu mikla sverði með skálpinum niðr, ok setti skjöld sinn [niðr við viðinn, ok batt[10] hest sinn, ok gékk til keldunnar ok lagðist niðr at drekka, ok drakk svá mikit sem honum líkaði. En fyrr en hann væri upprisinn, þá kom þar Karlamagnús konungr at honum svá skyndiliga, at Jamund mátti eigi ná vápnum sínum eða[11] hesti, ok þótti honum skömm[12] er hann hafði svá mjök vangætt sín. Þá mælti Karlamagnús konungr: Ef guð vill, þá skal engi maðr mega bregða mér því at ek drepa flóttamann slyppan, tak vápn þín ok [stíg á hest þinn,[13] því at ek em kominn at klanda[14] keldu þessa af þér, ok úsynju [drakk þú af þessi keldu[15] ok þenna drykk skaltu

¹) [Gör honum aldri mein; engi varð öðrum meir at gagni en þessi riddari varð mér í mínum þurftum. Þá mælti hertugi Nemes: Ertu sá Balam, segir hann, er svá mjök vart mér at hjálp fyrir Agulando konungi, þá er þeir dœmdu mik í heyrn minni sjálfs undir dráp ok dauða, en þú frjálsaðir mik í augliti þeirra ok lézt bera fyrir mik svá mikit fé gulls ok silfrs, svá margar hvítar brynjur, svá marga gylta hjálma ok svá mörg vel bítandi sverð, ok svá marga góða hesta, at engi maðr hirti sér fleiri né betri gersimar at kjósa, né œskja. Þú gaft ok Karlamagnúsi konungi hinn hvíta hest. *a.* ²) mær *a.* ³) farahesti *a.* ⁴) morel eitt *a.* ⁵) [vellinum miðjum *a.* ⁶) [hann *a.* ⁷) konungr *tilf. a.* ⁸) *mgl. a.* ⁹) [nökkurri fœzlu né drykk *a.* ¹⁰) [at viðinum ok festi *a.* ¹¹) né *a.* ¹²) í *tilf. a.* ¹³) [*saal. a*; steig á hest sinn A. ¹⁴) klandra *a.* ¹⁵) [drapt(!) þú *a.*

dýrt kaupa. Þá tók Jamund skjótt vápn sín ok hljóp þegar á hest sinn, ok hélt fram inum stinna skildi sínum at brjósti sér sem fastast ok[1] inu digra spjóti sínu til lags, ok mælti: Þat veit Maumet, herra riddari, segir hann, syndir þínar eggja þik til slíks, sem nú hefir þú gert. Eigi em ek sá maðr, er þú megir reka á flótta. Sé ek, at þú hefir fríðan hest ok skjótan,[2] er svá fjarri hefir borit þik öðrum mönnum; hvít er brynja þín sem apaldrs flúr, svá at engi vápn fá[3] henni spilt, en hjálmr þinn er [grœnn sem gras,[4] gerr af inu bezta stáli ok settr gimsteinum, ok sá er slíkan vildi fala,[5] mætti kaupa við verði [þriggja hinna ríkustu borga[6] ok kastala. En þat hefir þú mér berliga sýnt, at aldri vartu getinn af meðalmanni né af[7] litlu kyni, er þú þyrmdir mér, meðan ek var slyppr fyrir,[8] ok gaft mér hest minn ok vápn. Þú hefir svá kurteisliga þjónat mér, at þessi þjónusta skal þér vel duga, en hér verðr þú at játa mér klæði þín, ok gef ek þér leyfi aptr at fara úspiltum. [En ef þú vill af kristni ganga ok guði neita, þat veit Maumet at ek skal gera þik svá ríkan, at allir frændr þínir skulu af þér ríkuliga auðgast.[9] Þá svarar Karlamagnús: Þessum kosti, segir hann, sem nú hefir þú gert,[10] játa ek þér eigi svá búit, ok svá finnst mér í, sem ekki[11] vilir þú mikit fyrir[12] hafa at sœkja mik. Þá mælti Jamund: Hvat [er nafn þitt, segir hann?[13] Guð veit, segir Karlamagnús, aldri [vil ek leyna fyrir þér[14] nafni mínu. Karlamagnús heiti ek keisari kristinna höfðingja, mér þjóna Frankismenn ok [Alimanie Bealveri ok af Loerenge,[15] Mansel ok Rómverjar. Þá þótti Jamund undarligt, er hann var þar einn, ok mælti: Nú er mér [eptir því[16] fallit sem ek vilda œskja, [því at nú virði ek eigi minn skaða eins lágs penings, fyrir því at þinn líkami skal gjalda þess harms ok trega, er býr í mínu brjósti af falli minna frænda ok höfðingja.[17] Jamund spurði í annat sinn: Ertu sá Karlamagnús er [felt hefir fyrir mér fim hundruð þúsundir fráteknum[18] þeim er undir merkinu féllu. Nú vil ek at þú gefir mér upp Paris til umbóta skaða míns, Rómaríki,[19] Púl ok Sicili, Tutalis[20] ok Loereng, Bealver ok Alimanni, Frakkland ok Burguniam, Nordmandi ok Brittaniam ok alla [Gaskuniam, ok[21] til landamæris í Spáni. Þá svarar Karlamagnús keisari: Þat veit guð, at þú vilt vera ríkr mangari, þér samir eigi at eiga

1) hélt *tilf. a.* 2) fljótan *a.* 3) geta *a.* 4) [grasgrœnn *a.* 5) falan láta *a.* 6) [hans 3 hinar ríkustu borgir *a.* 7) or *a.* 8) *mgl. a.* 9) [*mgl. a.* 10) mér *tilf. a.* 11) eigi *a.* 12) við *a.* 13) [heitir þú, seg mér nafn þitt *a.* 14) [leyni ek *a.* 15) [Alemaner, Peito ok Bretanie *a.* 16) [svá *a.* 17) [Nú virði ek eigi skaða minn eins penings, því at á þínum líkam skal ek hefna minna skaða ok harma. *a.* 18) [svá margan ríkan félaga hefir felt fyrir mér 5 hundruð þúsunda at ótöldum *a.* 19) Romaniam *a.* 20) Putalis *a.* 21) [Gáskon út *a.*

mörg lönd, er svá vilt latliga sækja. En mik væntir, at vit munum svá skipta, at í skilnaði okkrum mun annarr hvárr[1] okkarr lítt lofa sinn lut. Jamund var ungr maðr, stinnr ok sterkr, harðr ok hugdjarfr í viðrskipti. En keisarinn[2] var hygginn ok forsjáll, tryggr ok inn vaskasti. Síðan létu þeir hlaupa hesta sína at endilöngum vellinum, svá [sem þeir máttu mest af taka,[3] ok lagði hvárr [til annars svá styrkliga, at þeir[4] féllu báðir senn af hestunum til jarðar, ok var engi sá herbúnaðr keisarans[5] er eigi [vörgaðist af moldunni í[6] falli þeirra. Jamund ljóp þegar upp ok brá Dýrumdala, en konungr brá Jouise konungligu sverði, ok gerðist þá svá hörð atganga í millum þeirra tveggja, at aldri varð þvílík milli tveggja dauðligra manna, ok hjoggust þeir þá svá stórum höggum, at þeir klufu skjöldunu, svá at fjarri flugu fjórðungarnir í brott. En konungr steig þá fram fœti ok hjó[7] Jamund ofan í hjálminn, ok flaug sverðit ofan hœgra megin ok sleit brynjuna[8] af öxlinni ok særði hann miklu sári. Sem Jamund sá[9] blóðit renna um sik, þá sprakk hann náliga af harmi ok angri, ok þat sá hann, at konungr ætlaði honum þegar annat högg, ok at[10] hann vildi með engum kosti stað sinn láta fyrir honum. Þá sá hann gullgjörð er ger var um hjálm konungs settan[11] með hinum dýrstum gimsteinum, ok mátti hann þá eigi lengr leyna því er honum var í hug, ok mælti:[12] Þú hinn kristni, gott [tóm ferr[13] þú þá, ef ek fæ eigi af þér slitit hjálminn þann enn góða, ok [ek geta[14] hvárki lypt honum né spilt; því eigi má ek drepa þik, meðan þú hefir hann á höfði, ok þat veit Maumet, eigi skaltu hans kunna gæta fyrir mér. Nú veit konungr at Jamund tekr hann höndum, nema almáttigr guð dugi honum ok heilagr andi. Þá getr hann eigi staðizt honum, ok veik hann þá herðum sínum undan honum, er hann vildi grípa hann höndum, ok misti[15] hans jafnan. Nú sá Jamund at konungr varðist honum, ok er hann leit opt á hjálminn, girntist hann æ þess meir,[16] er hann leit[17] hann optar, ok mælti þá: Þú hinn kristni konungr,[18] segir hann, mjök virði[19] sá þik ríkuliga, er svá virðuliga hjó þinn hjálm. Þetta er smíð Salomons konungs hins ríka. Ek segi þér, at í þínum hjálmi eru þeir steinar, at sá er þá getr sótt, hann mun eigi sækja mætra,[20] ok þat veit Maumet, at [aldri skal hann þinn vera lengr.[21] Þat veit guð,

[1]) tveggja *a.* [2]) konungr *a.* [3]) [mjök sem þeir gátu skjótast keyrt þá *a.* [4]) [annan í skjöldinn svá hart, at engi söðulgjörð né ístig né brjóstgjörð gat þeim haldit ok *a.* [5]) konungs *a.* [6]) [vorgaðizt í moldunni af *a.* [7]) til *tilf. a.* [8]) ofan *tilf. a.* [9]) leit *a.* [10]) ef *a.* [11]) setta *a.* [12]) síðan *tilf. a.* [13]) [rom fær *a.* [14]) [ef ek get *a.* [15]) hann *tilf. a.* [16]) til hans *tilf. a.* [17]) sá *a.* [18]) maðr *a.* [19]) virti *a.* [20]) mætara *a.* [21]) [þinn skal hann aldri verða *a.*

segir konungr, aldri skal hann þinn verða, ok mjök er sá svívirðr er fyrir þér lætr hann.

55. Undir olifatré[1] gerðust þessir atburðir. Þessir tveir höfðingjar börðust með hinni hörðustu atgöngu.[2] En hvert sinn er Jamund veitti áræði Karlamagnúsi konungi, þá tók hann[3] svá vaskliga við honum, at hann fékk[4] ekki unnit at honum. Þá greip Jamund í skjaldarsporðinn ok vildi slíta[5] af honum. Ok er hann gat þat eigi gert, þá greip hann í böndin ok vildi slíta af honum hjálminn, ok var þá höfuð konungs bert. En Karlamagnús hélt[6] á hjálminum, ok tókust þeir þá höndum. Ok er Jamund hafði náliga tekit hjálminn af Karlamagnúsi konungi, þá kom Rollant ríðandi ok steig þegar af hestinum undir viðinum, ok hafði í hendi spjótsbrot eitt digrt. Ok er Jamund sá hann, þá [gaf hann ekki gaum at honum. því at hann var[7] hinn mesti ofmetnaðarmaðr ok[8] hugði engan dauðligan mann sinn jafningja vera mundu. En konungr var þá mjök angraðr, ok ef guð sendir honum eigi skjóta viðrhjálp, þá er alt ríki hans týnt ok tapat. En í því kom Rollant hlaupandi þangat, ok hafði í hendi sér mikit spjótsbrot,[9] ok laust þegar á hjálminn Jamunds svá mikit högg sem hann mátti mest. Þá sór Jamund við Machun[10] ok Terrogant ok allan þeirra mátt ok styrk, ok mælti: Allmjök verðr þá guð yðvarr kröptugr[11] yfir alla aðra guða, ef þit komizt báðir heilir frá mér, sem þit eruð hér tveir komnir. Jamund var sterkr, grimmr ok illgjarn, en Karlamagnús konungr var eigi barn í sínum athæfum. Þá hnefaði Rollant spjótsbrotit[12] báðum höndum ok ætlaði sér annat högg[13] í þann hvíta hjálm, ok skaut Jamund við hægri hendi, ok kom svá mikit högg á armlegg hans, at it hvassasta sverð flaug [langt or hendi[14] honum. Sem Jamund kendi at hann hafði ekki í hendi nema brynglófann tóman, þá minkaði metnað hans ok bliknaði hann þá. En Rollant greip þegar sverðit ok hjó til Jamunds í gegnum hjálminn, svá at þegar flaug blóðit ok heilinn af[15] munni hans, en sverðit nam staðar í hinum neðrum tönnum, ok steyptist hann með svá miklu falli, at aldri síðan stóð hann upp á sína fœtr. Nú hefir Jamund fundit þat er hann hefir lengi leitat. Keisarinn[16] settist þá niðr at hvíla sik ok mundi lítt hrósa sínum hlut nema [at því er[17] Jamund var dauðr; fyrir því ef guð hefði eigi sent honum slíka viðrhjálp, þá bæri hann aldri[18]

[1]) olifaviði *a.* [2]) hvártveggja gefandi ok viðrtakandi *tilf. a.* [3]) konungr *a.* [4]) gat *a.* [5]) skjöldinn *tilf. a.* [6]) þá *tilf. a.* [7]) [hirti hann ekki um hann, því at hann var þrútinn af reiði ok *a-* [8]) svá at hann *a.* [9]) spjótskaptsbrot *a.* [10]) Makon *a.* [11]) kraptigr *a.* [12]) spjótkurf sinn *a.* [13]) ofan *tilf. a.* [14]) [fjarri höndum *a.* [15]) or *a.* [16]) Konungrinn *a.* [17]) [í því at *a.* [18]) optar *tilf. a.*

kórónu. Rollant tók þá [hest sinn[1] með öllum búnaði, ok kómu þá Frankismenn, Oddgeir ok Nemes, ok stigu þegar af hestum sínum ok fundu Karlamagnús konung móðan ok blóðgan [um andlit.[2]

56. [Oddgeir ok Nemes stigu þegar af baki. Sem Nemes sá Karlamagnús konung, þá varð hann hryggr ok mælti:[3] Jlla ok úforsjáliga gerðir þú, er þú rakt hann einn,[4] þar er þú sátt, at hann feldi mik af hestinum ok hjó í sundr hest Oddgeirs með sverðinu, ok gerði okkr báða með kynligum hætti sem peðmenn eða göngumenn. Þá fór hann eigi sem [flóttamaðr, heldr sem hinn mesti víkingr.[5] Þá svarar konungr: Herrar, kvað hann, ek mun nú framleiðis við sjá slíkum háska, en nú má engi únýta þat sem gert er. Hann veitti hina hörðustu mótstöðu fyrir sakir hjálms míns, er hann girntist [mjök til,[6] ok ef guð hefði eigi sent mér Rollant, er mín hefndi á honum, þá [væra ek at vísu[7] til dauða dœmdr. Þá tóku þeir lík Jamunds ok sneru opnu. En Rollant hafði svá ákafliga sótt hann, at hann hafði í sundr lostit hinn hœgra armlegg hans fyrir framan ölbogann. Þá [kysti Nemes hertugi Rollant þrysvar[8] ok mælti: Þessa gripi er þú hefir nú sótt, játum vér þér görsamliga, því at[9] þú ert verðugr at njóta þess er þú hefir svá drengiliga til sótt. Fyrr en konungr stigi á hest sinn, þá þógu þeir blóðit ok sveitann af andliti hans, ok báru Jamund undir olifatré eitt ok lögðu hann þar niðr. En Rollant hafði svá mikit högg lostit hann í hnakkann, at bæði augu hans lágu[10] á kinnum úti, en heilinn með blóðinu var ofan siginn í augastaði[11] hans. Þeir sneru honum á grúfu ok köstuðu yfir hann skildi. [Þá mælti konungr:[12] Herra Nemes, segir hann, ef þessi væri kristinn, aldri fœddist honum vaskari maðr, síðan Kristr kom í heiminn. Nemes svarar: Vei sé þeim er hann grætr, ok svá [þeirri konu er slíkan son[13] fœddi, þar sem hann er nú gefinn öllum djöflum.

57. Síðan riðu þeir Karlamagnús konungr til liðs síns ok fundu hvern mann hugsjúkan ok hryggvan,[14] því at engi vissi hvar[15] konungr var kominn. Hestarnir váru svá mœddir,[16] at náliga váru til enskis nýtir. En ef hann[17] hefði lengr dvalizt, þá væri alt þeirra traust týnt. Sem konungr var þar kominn, þá sté hann af hestinum, ok leiddu þeir hann til [landtjalds Jamunds[18] ok tóku af honum

[1]) [hestinn *a*. [2]) [í andliti *a*. [3]) [þeir stigu þegar af hestum sínum ok fundu þegar Karlamagnús ok mæltu *a*. [4]) á flótta *tilf. a*. [5]) [hræddr flóttamaðr, er hann reið okkr báða af hestunum *a*. [6]) [*saal. a*; hann *A*. [7]) [hefða ek at vísu verit *a*. [8]) [lagði Nemes hertogi báðar hendr um háls Rollants ok kysti hann 3 sinnum *a*. [9]) *saal. a*; þvit *A*. [10]) *tilf. a*. [11]) au(g)nastaði *a*. [12]) [Ok þá kallaði Karlamagnús ok mælti *a*. [13]) [þeirri er hann *a*. [14]) *saal. a*; hugrakan *A*. [15]) Karlamagnús *tilf. a*. [16]) meiddir *a*. [17]) konungr *a*. [18]) [landtjaldsins *a*.

hans herklæði, tóku þá Frankismenn [sitt herbergi.[1] En hinn gamli Girarð rak flótta heiðingja betr en röst, ok komst enginn þann veg kvikr í brott, en allir vellirnir váru huldir af[2] líkum ok vápnum, svá at eigi mátti ríða [fyrir eða fram komast.[3] En svá mikit fé var þar, at hverr er vildi fyldi [skjöld sinn ok hosur sínar[4] af gulli ok silfri.[5] En hinn gamli Girarðr steig þá af hesti sínum fyrir turninum, ok váru allir hinir vildustu mjök angraðir, fyrir því at þeir höfðu vakat ok fastat fjögur dœgr, ok var þá öllum mikill fagnaðr á, er þeir féngu hvíld, ok settist Karlamagnús konungr þá til matar. En ef Agulandus konungr[6] vissi þat sem nú var þar tíðenda, þá mundi hann verða bæði styggr ok reiðr.

58. Agulandus konungr var þann tíma í borg þeirri er Frisa heitir, ok váru þar þá landfastir orðnir Bordant konungr hinn máttugi, hann[7] var af því landi er liggr fyrir utan Jórsalaland, ok Modas konungr með mikinn her, ok gerðu þar mikinn fagnað ok skemtan, ok settust til skáktafls at leika við Agulandum konung, ok tóku[8] til um morguninn snemma,[9] en gáfu eigi upp fyrr en nón var liðit. Ok er Agulandus sá at dáligri var hans hluti í taflinu, þá varð hann mjök reiðr ok mælti: Til enskis dvelr þú þetta tafl, ek legg við alla[10] Púl í móti þínum[11] hœgra glófa. Þá hló hinn at, ok mælti: Gef ekki Púl,[12] sverð ok spjót eru fyrir oss at verja þat. Síðan daga tók[13] hefir Jamund fram riðit, ok með honum sjau[14] þúsundir riddara, en þat veit ek eigi, hversu þeim hefir tekizt. Nú lýkr hér hinni séttu bók, sem Karlamagnús konungr var til hvíldar kominn ok lið hans eptir it mikla starf ok meinlæti hins mikla bardaga, ok er nú sagt í hinni sjaundu bók frá athæfum Agulandi, síðan Magon ok Asperam kómu til hans, þeir er flýð[15] höfðu undan höfuðmerki Jamunds.[16]

59. Magon ok Asperam konungar koma nú ríðandi sveitugum[17] hestum til Frise borgar, þar sat Agulandus konungr hinn öflugi.[18] Hestar þeirra váru blóðugir af spora höggum, þeir kvöddu konung með tiguligum orðum, þegar þeir kómu fyrir hann, er hann sat yfir[19] skáktafli. Hvat gerir þú, sögðu þeir, sonr þinn hefir barzt[20] við

[1]) [herbergi sín *a.* [2]) *mgl. a.* [3]) [þar né fram koma *a.* [4]) [skaut sín ok hosur *a.* [5]) En þá er þeir höfðu sem þeim líkaði, þá var enn svá mikit eptir, at þá angraði at sjá *tilf. a.* [6]) ***Her fölger et Blad i a, hvoraf Halvparten er bortskaaren, saa at de nederste 26 Linier mangle; og dernæst er den levnede Halvpart igjen skaaren tvers over, saa at kun det halve af de tilbageblevne 16 Linier er tilovers.*** [7]) er kominn *a.* [8]) taka *a.* [9]) árla *a.* [10]) allan *a.* [11]) hinum *tilf. a.* [12]) því at *tilf. a.* [13]) í gær *tilf. a.* [14]) hundruð *tilf. a.* [15]) flýit *a.* [16]) Jamundar *a.* [17]) sveittum *a.* [18]) [hinn ö]flugasti konungr *a.* [19]) at *a.* [20]) barizt *a.*

Karlamagnús konung, vit höfum tekit[1] við höfuðmerkinu ok hundrað þúsunda með; þá kómu at úvöru á hœgri hönd oss eitt fólk, ok foringi þess liðs var einn lítill gamall maðr, ok drap alt lið várt ok kom okkr á flótta, ok af þeim tuttugu þúsundum er eigi einn sá er skjöld megi bera. Þá svarar Agulandus: Asperam, kvað hann, hvar er son minn? Herra, segir hann, þat veit trú mín, at vér erum þess enn eigi sannfróðir. Sem Agulandus heyrði þat, þá hljóp hann náliga or viti sínu ok greip þegar staf einn, er lá hjá honom, ok skaut upp ok kastaði at honum. En er hann sá stafinn fljúga at sér, veik hann undan sem skjótast. En þat it mikla högg tók á brott hálfan stólpann þann sem hann kom á. Þá mælti Agulandus: Hinn gamli svikari, kvað hann, aldri skulu vér því trúa, at nökkurr maðr sá er við kristni hefir tekit muni koma syni mínum á flótta. En fyrir ykkarn útrúnað skal ek láta hengja ykkr báða sem hina verstu þjófa. Þá svarar Asperam: Skilit hefi ek orð yðar, herra, segir hann, en ek vænti, at þat mun yðr eigi upp gefast vetrlangt, er þér segit mik stolit hafa. Þá stefndi Agulandus til sín öllum höfðingjum er í váru liðinu, ok kómu þeir allir samt fyrir hann í hina miklu höll, er Jerimias konungr hafði átt. Þá talaði Agulandus ok mælti: Herrar, kvað hann, heyrit hvílíkan údrengskap þessir tveir konungar hafa lýst við mik, svikit son minn ok illmannliga svikit hann. Nú býð ek yðr, at hverr yðvarr dœmi þat sem rétt er um þetta mál. Þeir svöruðu: Eigi skulu þér þess missa, herra. Þá géngu or höllinni 20 konungar ok sömnuðust í eitt lopt. Þessir váru mestir höfðingjar, Almazor ok Amustade. Nú talaði Amustade fyrstr: Herrar, segir hann, þessir tveir konungar eru ættingjar mínir ok systursynir. Mik væntir, at engi sé sá á þessa stefnu kominn er þá vili með sínum dómi angra, því at þeir eru hinir vöskustu riddarar, ok hræðumst ek mjök, ef þeim verðr misþyrmt, at allr þessi herr sturlist ok sundrþykkist.

60. Þá stóð upp Akvin konungr ok rœddi sem reiðr maðr: Herra Amustade, segir hann, mikit taki þér yðr á hendr, er þér segit, at engi skuli angra þessa menn í dómi. En með því at þeir hafa flýð undan merkinu, er herra Jamund fékk þeim til gæzlu, eigi á líkam sárir ok engi þeirra vápn spilt eða fölsuð, þá er þat hverjum manni sýnt, at þeir hafa sik sjálfir fyrirdœmt. En vér sendum þangat syni vára ok brœðr ok náskylda frændr, ok erum hræddir ok[2] hryggir um þeirra hag, en þú vilt vera feginn ok hafa frændr þína frjálsa. En nú beint hér í augliti þínu skulu þeir vera

[1]) *Her mangler Resten af förste Side af det overskaarne Blad i a.* [2]) *Her begynder anden Side af det overskaarne Blad i a.*

fengnir í vald þessarra höfðingja,[1] at slíkr dómr se görr um þá, at vér sém allir hefndir af.[2]

61. Þá stóð upp Ankaris konungr or Amflors ok mælti hárri röddu: Herrar, segir hann, verit eigi svá mjök angraðir, þat vitum vér, at mikil ok víð er Affrika, ok margir eru þar fémiklir menn, er aldri girntust annarra konunga ríki. Betr sœmdi Agulando, at hann væri nú heima í Affrika eða í öðrum stöðum síns ríkis, hann mætti ríða á veiðar með hundum ok veiðimönnum at allskyns dýrum, eða með haukum at allskyns fuglum. En Jamund son hans ok þessir nýju riddarar, er fyrir skömmu tóku herklæði, ok vér[3] berserkir ok kappar er[4] hér erum samankomnir mundum sœkja ok vinna sœmdir ok ríki, ef mikillæti rósara slíkra, er nú töluðu áðr, teldi sik eigi hverjum manni vildri ok vaskari. En Magon konungr ok Asperam rauði er þér vilit nú fyrirdœma, þá eru eigi hraustari menn um allan riddaraskap í allri Affrika né öflgari[5] at fyrirkoma várum úvinum, [þá væri þat of[6] skaði, ef þeir væri drepnir eða spiltir. En ef konungi líkar, þá göngu vér[7] í vörzlu fyrir þá, til þess er [sannendi koma[8] upp, hvárir sigrast hafa í bardaganum.

62. Síðan stóð upp Abilant konungr hinn öflgi[9] ok mælti: Ankaris, [segir hann, sannliga sýnir þú þik eigi réttan um þetta mál.[10] Gakk í brott utar í loptit ok haf ráð þín við þann er þér líkar, ok seg þat er þú heyrir, en aldri skaltu fyrir þessa menn í vörzlu ganga, því at eigi samir at þetta mál standi lengr.[11] Ok nú [fyrir sjálfs þíns[12] augliti skulu þeir vera bundnir ok barðir, hvárki skulu þeim tjá[13] fœtr né hendr; þeim skulu fylgja fimtán skjaldsveinar, ok skal hverr þeirra hafa í hendi einn hestavönd görfan með hörðum knútum af hinum seigustum álum, en hverr þeirra er eigi kemr blóði út or baki þessarra svikara við hvert högg, þá skal sá hljóta it mesta högg af minni hœgri hendi. Eptir þat er þessir svikarar eru svá leiknir, skulu vér láta hengja þá ok því næst á báli brenna. En ef þér látit illa yfir, þá skulu várar tungur jafndjarfliga þann sama dóm yðr dœma.

63. Þá talaði Amustene yfir Fameborg, þessi var hinn hyggnasti maðr ok inn auðgasti, ríki hans liggr umhverfis Galliam ofan með sjónum endilöngum. Hann mælti á þessa leið: Lendir menn, segir hann, heyrit hvílíka svívirðing þessir konungar hafa gert, er

1) til þess *tilf. a.* 2) á þeim *a.* 3) *saal. a*; váru *A.* 4) *saal. a*; ok *A.* 5) listuligri *a.* 6) [þat væri ok *a.* 7) [vilj]um vér ganga *a.* 8) [satt kemr *a.* 9) öflugi *a.* 10) [kvað hann: Opinberum orðum ertu þat . . . . . . . . . . . . . . . . . þú Agul. konung né Jamund *a.* 11) . . . né leysist með vörzlu, ok aldri eigu þeir at bera kórónu ne . . . . . *tilf. a.* 12) [beint í þeirra *a.* 13) *Her mangler Resten af anden Side af det overskaarne Blad i a.*

Maumet ok allir guðar várir bölfi þeim, þeir ganga við mikilli illsku ok ragskap, þeir hafa hafnat sínum herra af hugleysi. Þessa gerði Jamund höfðingja ok fékk þeim mikit ríki ok tignaði þá með viðtöku höfuðmerkis síns, ok hafa þeir við gengit at þeir flýðu undan, ok engi sá er viti hvat líði um svá mikinn her ok mannfjölda. Nú er sá minn dómr sannligr, at þeir hafi fyrirgert lífi ok limum. En ef nökkurr mælir móti þessum dómi, þá standi hann upp til einvígis í móti mér; ok ef ek tek eigi höfuð af honum fyrir þetta kveld, þá gef ek honum upp alt ríki mitt. Ok var engi sá er í móti honum mælti.

64. Samuel konungr svarar þá af mikilli reiði: Herra Amustade, segir hann, þú mælir of heimsliga, allir vér vitum, at þú vart aldri vinr várs afsprings. En nú vil ek segja þér, hversu þín ætt hefir æ vára ætt hataða. Þat var fyrir því at þeir kómu eigi því fram, er þeir vildu, fyrir því at várir frændr ráku þína frændr af sér, ok fýsti þá aldri optar við þá at eiga. En faðir minn gerði vilja sinn ok gaf upp löndin ríkuliga. Asperam er inn ágætasti höfðingi, ok svá Magon félagi hans. En ef þú hatar þá með illsku þinni, þá samir þér eigi at fyrirdœma þá svá svívirðliga, enn veiztu eigi hvárir sigrazt hafa; þeir eigu ok svá marga frændr ríka ok vini, at engum kosti þola þeir, at þú fyrirdœmir þá fyrr en vér vitum hvat títt er um vára menn.

65. Hinn hyggni Sinapis stóð þá upp, hann var höfðingi yfir Alfre, hann réð turninum í Antiochia, hann var hinn mesti vin Agulandi ok Jamunds, hann hafði verit fóstrfaðir Jamunds: Herrar, kvað hann, heyrið hversu mikit þessir tveir ættingjar Norons hafa[1] misgert, er systursynir eru þess hins svikala konungs, er ek sé þar sitja undir steinstólpanum klæddr rauðu ciclatun.[2] Hann hefir lengi á illu setið, en ek hefi jafnan konunginum fylgt. Konungr várr skyldi reka þessa í brott Akari ok Lampalilla, Salatiel ok Safagon konung, Esperigam ok Managon konung, Estor[3] ok Malgernin konung ok alla ættingja þeirra bölvaða. En svikara dœmu vér at hengja[4] sem þjófa ok brenna þá síðan á báli í augliti alls lýðs, [at hverr maðr viti ok sakir ok syndir þeirra.[5] En ef Amustene kallar þetta rangt, þá skal honum[6] rangt en oss rétt. Í gær árla reið Jamund á hendr kristnum mönnum ok skipaði þessum svikorum undir höfuðmerki sitt,[7] en nú sjám vér[8] þá hér komna heila ok úsára; eigi þurfum vér at gefa þeim svikara sök, þeir ganga sjálfir við, ok dirfast svá, at þeir sjálfir segja upp svikin, ok fyrir því

[1]) *Med dette Ord begynder atter a.* [2]) siklatun *a.* [3]) hinn rauða *tilf. a.* [4]) þá *tilf. a.* [5]) [*tilf. a.* [6]) vera *tilf. a.* [7]) ok foringja fyrir lið sitt *tilf. a.* [8]) allir *tilf. a.*

samir oss at skunda þessum dómi, at eigi spyri Jamund þat til vár, at vér höldum svikara hans. En þú Amustene,[1] er ek sé þar sitja, bleyðist þú nú ok bliknar allr, jörðu ertu líkr sem dauðr maðr. Nú ef þú vilt þenna dóm falsa ok þínir frændr er nú heyrit orð mín, þá gangit til vápna yðvarra, en ek mun stíga á hest minn herklæddr, ok ef ek get eigi sannat þenna dóm í aftöku höfuðs þíns, þá láti konungr hengja[2] mik sem hinn versta[3] þjóf er til galga er dœmdr. Af þessum orðum urðu allir svá dumbi, at engi þeirra kvað eitt orð upp.

66. Ulien ok Madekvin[4] konungr stóðu þá báðir upp, ok tók hvárr í hönd öðrum, ok géngu or loptinu inn í höllina ok fundu Agulandum [konung sitjanda á einni silkidýnu ok[5] andvarpanda kappsamliga. Ulien sór þá við Makun ok Apollin ok mælti til Agulandum: Hugr þinn, herra, er alls of [blautr við þessa svikara[6] hins bölvaða kyns Kains,[7] er jafnan hafa [svik gert,[8] látit nú draga þá kvika at hestahölum í sundr. Agulandus konungr [gékk þá með þeim út í loptit til dómsmanna ok[9] mælti hárri röddu: Eru dœmdir þessir svikarar? segir hann. Já, sögðu þeir. Fyrirkomit þeim þá sem skjótast, segir hann, hestar skulu draga þá í gegnum herinn at[10] augliti alls lýðs, svá karla sem kvenna, ungra ok gamalla. Síðan látit [saman samna öll þeirra stykki ok kasta[11] í hinn fúlasta pytt. Samnit þá saman pútum [90 eða hundrað,[12] þeirra er seljast fyrir silfr, ok munu þær gjarna koma, ok gefit hverri þeirra bisund[13] gulls, ok mígi þær ok saurgi ofan[14] á þá, svá at hverr maðr sjái þat. Tendrit síðan mikinn eld þá[15] í at brenna. Sá er [öðruvís refsar[16] svikorum, þá sœmir sá[17] þá of mjök er á gálga hengir.[18] Síðan váru fram leiddir þessir tveir konungar, er fyrirdœmdir[19] váru. Þá mælti Agulandus: Hinir vándu svikarar, kvað hann, hvat hafi þit gert af syni mínum? Kunnit þit nökkut at segja mér hvat af honum er orðit? Nei herra, segja þeir, vit várum eigi þar svá lengi, at vit vissim hvat [um hann[20] varð síðarst. [Einn gamall maðr lítill á miklum vápnhesti grám var foringi eins fólks, svá vel kunnandi at berjast, at engi skepna gat staðizt honum, ok ráku oss þegar frá merkinu ok hjuggu þegar niðr í augliti okkru 20 þúsundir. En Jamund var þá í öðru liði ok barðist í móti þeim, er þar váru, ok kunnum vér alls ekki frá honum at segja.[21] Þat veit Makon,

[1]) Samnel *a.* [2]) leika *a.* [3]) dáligasta *a.* [4]) Madikun *a.* [5]) [*tilf. a.* [6]) [blauðr, þessir 2 svikarar ættingjar *a.* [7]) Tames *a.* [8]) [at svikum verit *a.* [9]) [*mgl. a.* [10]) ok síðan um alla borgina í *a.* [11]) [bera stykki þeirra öll saman ok kastit *a.* [12]) [áttatigum eða 100 *a.* [13]) *saal. a*; pisund *A.* [14]) *mgl. a.* [15]) þeim *a.* [16]) [aðra leið þjónar *a.* [17]) hann *a.* [18]) hangir *a.* [19]) dœmdir *a.* [20]) [af þeim *a.* [21]) [*tilf. a.*

segir Agulandus, at víst em ek fól, ef ek spyr ykkr fleira. Ok krafði [þá fjögurra hesta ok lét binda[1] Asperam milli tveggja en Magon millum annarra tveggja, ok hljópu þá þjónar [til ok keyrðu hestana[2] þegar sem þeir horfðu um berg ok hamra, svá at hvervitna var vegrinn blóðugr ok grjót af blóði þeirra ok holdi. Eptir þat váru þeir kastaðir í hinn saurgasta pytt, [ok feldu þá portkonur á þá hland ok annan saur líkama sinna at öllum herinum ásjánda.[3] En eptir þetta fúla[4] starf tók hver þeirra þúsund gulls. Eigi lauk leiki þeim fyrr en kvelda tók, ok gerðist [mikil umrœða í liði heiðingja, ok mælti hverr við annan:[5] Jlla hefir Jamund þeim[6] við hólpit.

67. Ðá er Agulandus konungr hafði til borða[7] sezt, þá stigu af hestum sínum í konungs garði ein þúsund af flóttamönnum, ok fannst engi í þeirra liði sá er eigi væri[8] sárr, [ok hestar þeirra mjök sárir,[9] skildir þeirra klofnir at únýtu, ok gékk sá fyrir er ríkastr var inn í höllina fyrir konungs borð. En hann var lagðr með kesju í gegnum brynjuna ok pansarann, ok [féll blóðit um alt hallargólfit or sárinu.[10] Hann mælti lágt, því hann mátti eigi hátt: Herra, segir hann, þú mant alt of lengi hér dveljast ok of seinn verða. Síðan Jamund son yðvarr fór at búa í turninum, þá riðu vér með þrjár þúsundir riddara [ok útalt bogmanna lið várt,[11] ok fór Jamund þá fyrir liði váru at fá oss vistir, ok höfðu vér guða vára með oss at snúa kristnum mönnum undir lög vár. Vér sóttum borgir ok kastala, alla hina ágætustu menn er eigi vildu guði sínum níta,[12] lét Jamund drepa, ok brjóstin skera af konum þeirra. Í þeirri[13] ferð tóku vér it mesta fé. Sem [Jamund var við oss skilinn ok vér snerum[14] aptr, mœttum vér þá njósnarmönnum Karlamagnús konungs,[15] ok[16] þá hugðumst vér gera skyldu atreið á hendr þeim, ok tœði alls ekki hvárki bogaskot né spjótalög. Þar féll Entor merkismaðr várr, ok þá létu vér fjóra guða vára, en í ánni druknuðu svá margir af várum mönnum, at þurrum fótum mátti [fara á líkum[17] þeirra, ok sá ek þá einn Frankismann reka Jamund til þess er hann kom í garðshlið[18] turnsins, ok drap hann þá hestinn

1) [hann þá 4 hesta harðreiða ok bundu *a.* 2) [á hestana ok keyrðu *a.* 3) [en þá kómu portkonur öllum herinum ásjánda ok feldu á þat sem eptir var af líkömum þeirra hland ok annan saur líkama sinna *a.* 4) saurga *a.* 5) [hvíslan mikil, ok í Affrika liði mælti hverr til annars *a.* 6) þessum 2 *a.* 7) borðs *a.* 8) var *a.* 9) [*mgl. a.* 10) [gaus blóðit or sárinu, svá at alt gólfit var blóðugt, ok hjálmr hans var höggvinn ofan til banda, svá at hlutirnir lágu á herðunum *a.* 11) [at útöldu liði bogmanna várra *a.* 12) neita *a.* 13) þeirra *a.* 14) [mánuðr var liðinn, snerum vér *a.* 15) í hirðinni *tilf. a.* 16) sem vér riðum ofan af fjallinu *tilf. a.* 17) [ganga á líkömum *a.* 18) garð *a.*

undir honum[1] ok tóku þeir þá af oss[2] alt þat er vér höfðum saman dregit, ok höfðum vér allir eigi svá mikit, at vert væri eins penings.

68. Þá svarar konungr: Er þat satt, Valdebrun, eru fjórir guðar várir teknir? Já, sagði hann, vér höfum nú barzt[3] þrjá daga við Karlamagnús konung; fáir eru Frankismenn, en eigi munu aðrir finnast vaskari. [Þeir tóku höfuðmerki várt ok ráku oss á flótta, ok ekki tjáði oss allr fjöldi várr;[4] en Jamund dvaldist eptir með fjórum konungum, Balam ok Gorham, Mordruin[5] ok Sinagern. Þá er þeir tóku guða vára,[6] þá börðu þeir þá með spjótsköptum[7] ok með hvössum hégeitlum oss ásjándum, ok drógu þá þegar af fjórum [olifatrjám ok[8] niðr á jörð ok sneru höfðunum[9] niðr[10] en fótunum upp, ok lýstu þeir eigi þar [mátt sinn[11] né krapta, ok alla tel ek þá svikna er [sér trúa slíka guða hjálpa mega.[12] Herra, kvað Valdebrun, skilit þat er ek segi yðr, vér sám gerla [lið Frankismanna ok[13] njósnarmenn þeirra, foringjar eru tólf hertugar ok tveir konungar kórónaðir, en lið þeirra er fjórirtigir[14] þúsunda,[15] en fylking sjálfs konungsins er hundrað þúsunda, en vér höfum drepit[16] fjórðung liðs þeirra. Nú herra, ef þér vilit þetta land sœkja, þá ríðit sem skjótast ok hryggizt eigi, því at þeir hafa [ekki liðsfjölda í móti yðr at standa.[17] Ef þeir væri gerðir[18] oss til matar, þá mundu þeir eigi vinnast oss til hálfrar fylli. Þá svarar konungr: Valdebrun, segir hann, þú fyllir mik harms,[19] þú kant ekki segja mér frá Jamund. Víst ekki, segir hann, nema þat, ef nökkurir eru kvikir, þá eru farnir til Beiuere[20] borgar at taka[21] þar hvíld.

69. Agulandus konungr reiddist þá ok mælti: Hau,[22] kvað hann, Affrikamenn, verit eigi nú harmafullir[23] eða latir, góðir riddarar, blásit nú hornum ok lúðrum ok ríðit sem skjótast á hendr þeim, ok takit með yðr 20 þúsundir riddara. Fyrir þessum skulu vera höfðingjar Madekvin[24] ok Almazor, en fyrir annarri fylking skulu vera[25] Akarð or Amflor ok Ulien, þeim skulu fylgja þrírtigir þúsunda. Þessir skulu mér fylgja at gæta líkama míns ok sœmda minna, Modes rauði ok Galingres gamli, Ambilant hinn mikilláti ok

[1]) ok ef höggit hefði tekit hann hálfan, þá þurfti hann eigi meira *tilf. a.* [2]) honum *a.* [3]) barizt *a.* [4]) [Allir hafa þeir brynjuhött undir brynjum ok brynjur fótsíðar. Þessir keyrðu oss ok þröngdu, at ekki téði oss allr fjöldi várr, ok tóku þeir höfuðmerki várt, en vér flýðum *a.* [5]) Mordium *a.* [6]) frá oss *tilf. a.* [7]) spjótkurfum *a.* [8]) [alifantum *a.* [9]) *saal. a*; höfðinu *A.* [10]) á þeim *tilf. a.* [11]) [sínar jarteignir *a.* [12]) [á slíka guða trúa ok slíkt hyggja sér mega hjálpa *a.* [13]) [*mgl. a.* [14]) 60 *a.* [15]) riddara *tilf. a.* [16]) vel *tilf. a.* [17]) [lið til at halda viðstöðu í mót yðr *a.* [18]) görvir *a.* [19]) því at *tilf. a.* [20]) Befueris *a.* [21]) fá *a.* [22]) Ho *a.* [23]) hugblauðir *a.* [24]) Madekun *a.* [25]) foringjar *tilf. a.*

Amuste ok með honum tveir drambsamir synir hans. Vér skulum ríða at Frankismönnum ok lægja dramb þeirra ok metnað. En ef vér hefðim Jamund son minn með oss, þá mundu vér skjótt verða vísir, hverir vildastir væri. Þá svarar Valdebrun: Herra, segir hann, vitið at vísu, at þér þurfið eigi svá mjök girnast at leita [Frankismanna, væri þeir þúsund, en þér tveir ok 40 þúsunda, þá mundu þeir eigi síðr leita[1] yðvar en þér þeirra. Agulandus stóð þá grátandi fullr af harmi ok plukkaði skegg sitt. En herr hans allr tók at blása ákafliga ok riðu or borginni 100 ok 40 þúsunda, ok létu þó eptir mikit lið at gæta skipanna ok [hina fríðu dróttningu Agulandi, henni til þjónustu váru fengnir tuttugu þúsundir riddara.[2]

**70. Madeqvin konungr talaði þá við sína menn: Þat veit** Maumet, ef ek má nökkura stund lifa, at allir eru kristnir menn dauðir, er fyrir mér verða. Í annarri fylking eru 30 þúsunda. Þar mátti sjá [mörg góð hervápn,[3] yfir þessi fylking váru höfðingjar Akart af Amflor ok Manuel systrungr hans. yfir annarri fylking var höfðingi Floriades, hans lið var með[4] öðrum hætti vápnat, þessir höfðu eigi brynjur né panzara, heldr hin beztu spjót. Ef þessir reka flótta, þá ætla þeir nær at sœkja, en ef þeir verða reknir, þá eru þeir hundum skjótari, yfir þessum var annarr foringi Chalides hinn ríki. Hina 3 fylking varðveitti Eliades,[5] hans lið var vel[6] vápnat, þeir eru saman 40 þúsunda hinu[7] mestu ofmetnaðarmenn.[8] En í fylking sjálfs Agulandi var Ulien ok Moadas inn mikli, Galingres gamli ok Abilant. En Amustene ríðr[9] andvarpandi, fyrir sakir systursona sinna mikinn harm hafandi, er með hestum váru í sundr dregnir fyrir[10] augliti sjálfs hans. [En ef Amustene vildi lýsa[11] sínum hug eptir því sem var, þá ætlar hann at vísu Affrikamönnum hefndina.[12] Í þessi fylking váru allir vel herklæddir ok höfðu marga tyrkneska boga með hinu vildasta skoti. En ef eigi hjálpar[13] guð nú kristnum mönnum, þá munu eigi margir eptir lifa **af þeim[14] þat mund er þessir mœta þeim [í bardaga.[15]**

**71. Nú hafi þér heyrt, hversu Agulandus leitar kristinna** manna, þar til er hann finnr þá. En nú er segjanda frá athæfi Karlamagnús konungs ok hans manna.[16] Þá nótt herbergdist Karlamagnús konungr í landtjaldi Jamunds, ok hafa þeir þar svá nógar

[1]) [*mgl. a.* [2]) **[varðveita hina fríðu dróttning. Aldri væri enn fríðari** kvennmaðr, ef hon tœki kristni ok tryði á guð, 20 þúsundir riddara **varðveittu hana ok þjónuðu henni.** *a.* [3]) **[marga panzara, hvítar brynjur, gylta hjálma, góða hesta, hinu hvössustu sverð, hina beztu boga** *a.* [4]) *tilf. a.* [5]) **Eleadas** *a.* [6]) **klætt ok** *tilf. a.* [7]) **hinir** *a.* [8]) **ok hinir** grimustu, þessir gera kristnum mönnum skaða nema Kristr stöðvi þá. *tilf. a.* [9]) **upp** *tilf. a.* [10]) **í** *a.* [11]) ***saal. Fragment i norske Rigsarkiv;*** **lymska hug sinn** *a.* [12]) [*tilf. a.* [13]) **helpr** *a.* [14]) **í** *tilf. a.* [15]) [*mgl. a.* [16]) **liði** *a.*

vistir ok góðan drykk, at í öllum heiminum þurfa þeir eigi [nógari né vildri[1] at leita. Hit mesta gull ok silfr var þar samankomit, hin dýrstu pell, hinn mesti fjöldi gullkera ok silfrkera, ok allskyns önnur gögn af brendu silfri ok gör með hverskyns hagleik fornra smiða ok nýrra. Svá mikit val var þar á digrum spjótum ok hvössum sverðum ok allskyns vápnum dýrum, at aldri sá dauðlig augu svá úumræðiligan fjölda; ok þó höfðu þeir keypt at harðri kaupstefnu, því at þeir mönguðu þau með varningi holds ok blóðs líkama sinna. [Annarr hlutr var í sá er þá huggaði, er þeir höfðu hefnt sín á Affrikum. Þeir vörðu sik þá sem bezt með allskonar góðum mat ok drykk ok féngu hina hógværustu hvíld.[2]

72. Keisarinn vildi[3] þá eigi lengr dveljast ok sendi þá eptir einum erkibyskupi ok lét vígja vatn ok bað kasta yfir alt liðit, ok settist hann þá til dagverðar borðs í landtjaldi Jamunds, ok géngu þá þúsund riddara at þvá hendr sínar, en allir máttu rúmliga sitja í því landtjaldi, ok þó rúmliga skutilsveinar ok [byrlar at sinni þjónun ganga.[4] En vant er at telja hversu mörgum[5] hagleik þetta landtjald var gert, því at engi lifandi maðr hafði þvílíkt[6] sét; 4 karbunculi steinar váru í knöppunum[7] á landtjaldinu, ok lýstu [ok birtu[8] allan dalinn umhverfis; þar váru fuglar jafnan syngjandi. En um kveldum [at náttverði ok fyrir ok eptir[9] er þar leikit með allskyns skemtan.[10] Engi þurfti kerti at tendra, ok ef ránsmenn fara it efra eða it ytra at brjóta borgir eða kastala eða at öðrum ránföngum, þá megu þeir engan veg undan víkja, at eigi megi sjá, ef þeir[11] við snúast at berjast. Svá gáfu steinar af sér ljós um nætr sem hinn ljósasta dag.

73. Mjök er sá sendimaðr lofandi, er kom í Franz til Karlamagnús konungs at segja honum tíðendi ok konungr feldi af hesti sínum.[12] Hann kom nú gangandi [fyrir Karlamagnús konung[13] ok mælti: Herra, segir hann, látit nú skíra mik, síðan vil ek segja yðr þau tíðendi, er yðr hœfir [með skyldu[14] at vita. Vinr, kvað konungr, viltu svá mjök skunda til þess? Já, sagði hann, guð er váttr minn, at mik hefir lengi til þess fýst. Guð sé lofaðr, segir Karlamagnús. Þann[15] sama dag sem konungr var mettr, þá gerðu Frankismenn skírnarbrunn, ok kom þar páfinn at tala[16] við Karlamagnús. Herra, segir keisarinn, séð[17] hér sendimann Agulandi konungs, er hann sendi til mín í Franz at gera sendiferð sína, Oddgeir ok Nemes fœrðu hann hingat,[18] en nú vill hann við kristni taka. Páfinn svarar: Lof sé almátkum guði. Síðan vígðu fjórir fontinn,

1) [nœgri né vildari *a.* 2) [*tilf a.* 3) þar *tilf. a.* 4) [þjónostumenn *a.* 5) margföldum *a.* 6) fyrr slíkt *a.* 7) klöppunum *a.* 8) [þeir *a.* 9) [*tilf. a.* 10) töflum *a.* 11) vilja *tilf. a.* 12) *mgl. a.* 13) [ok stóð fyrir konungi *a.* 14) [at vísu *a.* 15) hinn *tilf. a.* 16) rœða *a.* 17) sjáit *a.* 18) þangat *a.*

ok gékk þá páfinn til at gera sína þjónustu. En Balam af klæddist[1] öllum klæðum nema línklæðum,[2] ok drektu þeir honum þrysvar.[3] Þá kom Karlamagnús ok tók hann or vatninu. En sá er kaupa vildi krismuker þat er þar var fram borit,[4] féngi eigi keypt[5] fyrir þúsund marka[6] silfrs. Þá mælti páfinn til Karlamagnús konungs: [Herra, segir hann, sœmit nú ok tignit þenna mann, er guði er gefinn, ok gerit yðr hann kæran vin.[7] Konungr svarar: Guð veit, at þat skal ek gjarna gera. Í skírninni sneri Karlamagnús konungr nafni hans ok gaf[8] honum ríka skikkju. [En hann var mikill maðr ok öflugr, sterkr ok harðligr, í öllum her kristinna manna var eigi fríðari riddari, hann kunni vel í söðli at haldast, hann var hinn vildasti maðr. En pávinn skírði hann,[9] ok var hann kallaðr Vitaclin[10] eptir einum lendum manni konungs ok vin. Hann tók þá í hönd Karlamagnúsi konungi, ok þá gékk páfinn með þeim út af landtjaldinu, ok þá mælti Vitaclin: [Eigi samir mér nú at leyna, at ek em gefinn guði ok ykkr.[11] Guð veit, segir Karlamagnús konungr, í því hefir þú vel gert, ok fyrir þat muntu öðlast[12] sœmiliga ömbun af guði.

74. Þá mælti Vitaclin: [Ykkr vil ek engu leyna. En nú lítið[13] upp in speculum landtjalds yðvars, er undir er knöppunum, er drekinn stendr á. Séð[14] nú þat hit mikla skipalið[15] er siglir í höfnina, svá at útalligr herr er. Nú megum vér sjá turninn í Risaborg ok öll útvígi borgarinnar. Nú megum vér sjá fimm fylkingar, ok eigi munu þeir aptr snúa[16] fyrr en þeir mœta[17] oss. Nú takit ráð, hvat vér skulum at hafast, hvárt ver skulum bíða eða undan halda. Þat veit guð, segir Karlamagnús, at eigi em ek hér kominn undir Aspramunt[18] til þess at flýja eða[19] upp at gefa heiðingjum ríki mitt. Þá leit Karlamagnús í skuggsjó landtjaldsins, ok[20] sá hann galeiðr ok langskip ok drómunda [ok hafskipa fjölda údœmiligan fljóta,[21] ok þá leit hann turninn í Risaborg ok stólpa ok vígskörð, ok andvarpaði hann þá af harmsfullu hjarta. [Þá sá hann at páfinn grét ok illa lét, svá at vötnuðust bæði augu hans[22] ok runnu tár af kinnum hans. Þá mælti Karlamagnús til páfans: Hætt sem skjótast ok lát eigi svá, í slíku[23] máttu hryggja allan her várn, skunda heldr til Girarðs hertuga ok seg honum, at hann komi til

[1]) þá *tilf. a.* [2]) línbrókum *a.* [3]) 3 sinnum *a.* [4]) þá *tilf. a.* [5]) þat *tilf. a.* [6]) brends *a.* [7]) [Takit nú þenna mann ok tignit, guði gefinn *a.* [8]) fœrði *a.* [9]) [*tilf. a.* [10]) Vitaklin *a.* [11]) [því at ek em nú guði gefinn, ok samir mér nú eigi at leyna *a.* [12]) fá at vísu *a.* [13]) [Ef ek leyni ykkr, þá em ek sannr svikari. Lítit nú *a.* [14]) Sjáit *a.* [15]) skip ok lið *a.* [16]) snúast *a.* [17]) finna *a.* [18]) Aspermunt *a.* [19]) né *a.* [20]) sá at páfinn grét, ok þá *tilf. her urigtig A.* [21]) [fjölda ok hafskipa údœmiligan flota *a.* [22]) [*tilf. a.* [23]) slíkum látum *a.*

mín sem skjótast at rœða við mik. Þá svarar páfinn: Þat geri ek gjarna. Með því ráði er Karlamagnús sagði honum, fór páfinn þegar brott, ok fylgdu honum fjórir erkibyskupar. Sem þeir kómu heim, þá stigu þeir þegar af hestum sínum, ok er þeir kómu til turnsins, þá stóð herra Girarðr ok þvó hendr sínar, albúinn til dagverðar. Þá kom páfinn ok blezaði þá[1] ok mælti: Karlamagnús keisari er oss sendi hingat, hann [sendi yðr þau orð er vér leynum eigi. Hann[2] bað at þér [skyldut koma[3] sem skjótast á hans fund, fyrir því at hann vill yðrum ráðum fylgja. Þá svarar hertuginn: Þat má vel vera, segir hann; en ek verð nú fyrst at matast ok mitt lið, því at vér bergðum [á öngri fœzlu[4] á þessum þrimr dœgrum;[5] en þegar[6] ek em mettr, þá skal ek fara; sé sá svívirðr, er í þessarri þurft bilar. Þegar er hertuginn er mettr, váru framleiddir hestar þeirra söðlaðir, ok steig þá herra Girarðr á hest sinn með tveimr systursonum sínum ok 2 sonum sínum ok riðu upp um brekkuna. Ok er þeir kómu meðal herbúðanna, þá sá þeir þar mikil auðœfi gulls ok silfrs ok útalligan fjölda góðra hesta.[7] Herra Girarðr steig þá af hesti sínum, ok héldu ístigi[8] hans Droim ok Amfræi, ok tók þá Karlamagnús konungr í hönd honum hina hœgri, en í aðra tveir[9] lendir menn, ok heilsaði hann þá Karlamagnúsi konungi með hollum[10] trúnaði. Þá mælti Karlamagnús konungr til herra Girarðs: Fyrir hví vartu eigi konungr? Þá svarar Girarðr: Eigi vilda ek, herra, því at ek em eigi verðugr svá mikillar tignar, ok hefi ek eigi þann er þat gerir mér, en ek held í friði ríki mitt. Hinn ríki keisari, fyrirkunnit mik eigi,[11] þeim einum samir at bera kórónu, er guði líkar at vaxi ok bœtist til þess at þjóna kristni heilagri en únýta röng lög, en alt gott styðja ok styrkja, ættgóða menn hafa jafnan sem næst[12] sér er góð tilbrigði eigu, ok hversu honum samir konungdómi at stjórna, heita fá ok gefa stórum. Sá er eigi vill svá lifa, honum samir eigi at bera kórónu. Þá svarar páfinn: Þeim samir at vísu þínum orðum at hlýða, er vit ok vizku vilja sér hirða. Karlamagnús keisari sendi mik eptir þér, hann vill undarligan atburð segja yðr,[13] aldri [heyrða ek[14] annan þvílíkan. Þessir þrír höfðingjar ok Vitaclin var hinu fjórði, [ok engi annarra vissu hvat þeir ætluðu,[15] þeir géngu vel 3[16] örskot frá öllu liðinu, ok [þá mælti[17] páfinn: Sjáit herra Girarðr, segir hann, undir knappinum á landtjaldinu í skuggsjó, þaðan máttu[18] sjá alla ströndina, sem áin fellr

[1]) alla *tilf. a.* [2]) [*tilf. a.* [3]) [komit *a.* [4]) [eigi á mat né drykk *a.* [5]) dögum *a.* [6]) er *tilf. a.* [7]) vápnhesta. Sá er aldri hafði fyrr jafngóða, hann mátti nú fá þar œrna *a.* [8]) í ístig *a.* [9]) ríkir *tilf. a.* [10]) öllum *a.* [11]) því at *tilf. a.* [12]) næsta *a.* [13]) þér *a.* [14]) [heyrðir þú *a.* [15]) [*tilf. a.* [16]) 4 *a.* [17]) [mælti þá *a.* [18]) mátti *a.*

ofan í sjá, svá margar galeiðr, langskip ok knerri[1] ok drómunda, [at trautt verðr tölu á komit.[2] Sér þú Affrikamenn[3] er upp ganga af þessum skipum, þeir hafa fimm[4] fylkingar ok fyrir utan þá er undir höfuðmerkinu eru. Nema guð vili nú sjá til vár, þá munu oss of síðla koma aðrir til hjálpa. Karlamagnús konungr sýndi honum með fingri sínum þat er títt var [in speculo.[5] Þá mælti hann lágliga[6] í eyra honum: Mæl ekki þat er her várum sé[7] til angrs. Þá svarar Girarðr: Herra, segir hann, þat játa ek yðr gjarna. Karlamagnús konungr mælti þá: Er eigi þetta[8] Agulandus konungr ok[9] hér höfuðmerki hans? Hér hljótum vér[10] bardaga. Vitaclin bróðir, segir hann, gör mik sannfróðan, svá at ek mega vita meðferð þeirra [ok hversu viðvarit er um þeirra búnað.[11] Já herra, segir hann, guð veit at þat kann ek vel greina,[12] því at ek verð nú hér dveljast með yðr, ok hefi ek enga [ástundan til þeirra aptr at[13] koma, ek hefi látit[14] son minn. En hvat þarf ek yðr þetta langt at gera, ek skal yðr alt þetta fyrir kveld sýna, svá at þér skuluð[15] yðrum augum sjá sjálfir.

75. Sjái þér herra, segir hann, undir þeim fyriskógi, þar taka þeir nú herbergi hinir fyrstu heiðingjar með svá mörgum landtjöldum af hinu bezta silki [ok hinum hvítustum léreptum[16]. Ok þar er þér séð[17] hit mesta [merki purpura gert,[18] þat á hinn öflugi Madekuin, í öllu Affrikalandi fær[19] öngan hans maka, ok svá eru Affrika höfðingjar hér görsamliga komnir, at eigi einn ríkrar ættar er eptir sitjandi, ok allir hinir beztu riddarar er nú váru í Affrika, þá hefir hann með sér, ok ætlar sér at hefna þeirra er í gær féllu; hann hefir ok sent eptir Jamund frænda sínum. Þá svarar páfinn: Þat veit sú hin helga trú, er ek á at gjalda hinum helga Martino,[20] at sannliga samir Karlamagnúsi keisara at sœma þik ok einkannliga at elska. Þá mælti Vitaclin: Lítit nú, herra, undir vínviðarskóg öðrum megin gegnt við ána, er rennr í gegnum dalinn, þar tekr önnur fylking heiðingja herbergi, þetta er fylking Akarz or Amflor. Ek var optliga í ráðagerðum með honum. Hann sendi hvern riddara þann er nökkur var hreysti at til Jamunds, en allir þeir sem hann sendi sínum herra Jamund váru gersamliga drepnir í gær [á þessum velli.[21] En hinn veg hjá skóginum[22] tekr nú herbergi eitt undarligt fólk, [þat er mjök er illgjarnt.[23] Svá [er þeim háttat,[24]

[1]) knörru *a.* [2]) [*mgl. a.* [3]) Affrika *a.* [4]) 4 *a.* [5]) [innan spekulum *a.* [6]) með lágum orðum *a.* [7]) er *a.* [8]) þessi *a.* [9]) er *tilf. a.* [10]) 5 *tilf. a.* [11]) [*tilf. a.* [12]) gera *a.* [13]) [ván né vilja optar til þeirra *a.* [14]) einka *tilf. a.* [15]) skulit *a.* [16]) [*tilf. a.* [17]) sjáit *a.* [18]) [purpura merki *a.* [19]) á hann *a.* [20]) Marteine *a.* [21]) [hér á vellinum *a.* [22]) þeim mikla skógi *a.* [23]) [þeir er engir verða illgjarnari *a.* [24]) [eru þeir háttaðir *a.*

at þeim ann engi, ok engi gerir þeim gott; þeir hafa lítit brauð ok matast sílla,[1] þeir virða enkis góð herklæði né vápnhesta ok eigi eins fúins eplis alt bóndastarf, þeir allir lifa við skógar veiði. [Engir í heiminum eru[2] svá góðir skotmenn,[3] engi kemst undan skoti þeirra, en ef þeir taka flótta[4] ok fellr þeim boginn, þá treystast þeir spjótum sínum, ok engi hestr er þeim jafnskjótr.[5] Þessir eru liðsmenn Calades af Orfanie. Séð enn, herra, [undir hamrinum[6] hjá keldunni mörg rík landtjöld [sett gullörum;[7] þetta fólk er af[8] hinu signaða landi, þar vex[9] hit bezta brauð ok vín, hit nógasta gull ok silfr, hvít skinn ok grá, ok hinir vildustu vápnhestar. Þessir eru hinir kurteisustu menn, ok konur unna þeim mjök, ok þeir eru kvennamenn miklir, Eliadas ok Pantalas konungar eru höfðingjar ok herrar þeirra. Nú herra, óttizt[10] ekki, allir þeir sem með þeim váru vildastir riddarar liggja hér með félögum sínum drepnir á þessum velli. Þá mælti páfinn: Þat veit heilög trú, segir hann, at vér skulum vera þínir vinir. Herra, kvað Vitaklin, skilit vel orð mín. Þá er yðrir menn höfðu [keyrt ok sveift vára menn,[11] þá sem Jamund hafði[12] með sér, ok tóku fjóra guða vára, þá þreifst aldri síðan vár ætlan. Nú, herra, ef þér vilit hafa ríki yðvart í friði,[13] þá ríðit sem skjótast á hendr þeim; en ef þér vilit flýja undan ok gefa þeim upp ríki yðvart, þá munu þeir gjarna taka við. Eptir þessi orð lagði keisarinn hendr um háls honum, ok mælti: Ef þú ert staðfastr í þessu, þá skaltu vera mér kærastr ok [jafnan við mína ráðagerð.[14]

76. Girarðr hertugi tók þá at tala: Herra konungr, segir hann, látit nú blása um allan herinn, at allir hinir yngstu menn komi til yðvar sem skjótast, þeir sem vápn[15] bera ok brynjum ok hjálmum kunnu[16] klæðast. En ek vil nú fara til minna manna ok hugga þá, því at ek vil búa þá til ráðagerða várra. Þá svarar konungr: Þat er vel geranda. Síðan kallaði hann til sín fjóra [af beaucis[17] at blása um allan herinn ok bera orð hans ok boð. [Fjórir beaucismenn[18] riðu um allan herinn œpandi ok lýsandi konungs boð: Komit allir til konungs[19] ungir ok vápnfœrir, þjónostumenn, skjaldsveinar, steikarar, dyrverðir, rekkjusveinar, ræðismanna þjónar ok[20] skutilsveinar, undirbyrlar ok kertasveinar;[21] þér skulut allir herklæði taka, er til nökkurrar viðrhjálpar erut fœrir, ok þeim er vel duga í þessarri hans þurft, þá hefir hann heitit at gera yðr ríka.[22] Þegar

1) síðla *a.* 2) [Eigi eru í heiminum *a.* 3) veiðimenn *a.* 4) þá tjáir ekki *tilf. a.* 5) at þá geti tekit *tilf. a.* 6) [við hamarinn *a.* 7) [eða gullara þá hina stóru er á standa knöppunum *a* 8) or *a.* 9) finnst *a.* 10) óttast *a.* 11) [rekit vára menn ok svipt *a.* 12) heiman *tilf. a.* 13) frelsi *a.* 14) [í viðrsetu ráðagerða minna *a.* 15) megu *tilf. a.* 16) at *tilf. a.* 17) [bauægismenn *a.* 18) [þessir *a.* 19) hans *a.* 20) eða *a.* 21) kertisveinar *a,* 22) menn *tilf. a.*

kómu þessi tíðendi um allan herinn, ok kómu þeir fyrstir er í hinum fyrra bardaganum höfðu verit, brynjaðir[1] ok hjálmaðir. Þá mælti konungr: Ef guð sendir mik heilan í Franz[2] fóstrland várt, þá skal ek gera yðr svá mikla menn ok ríka, at [alt yðvart fólk skal af yðr[3] tignast. Þá gerðust þeir fegnir ok riðu betr en röst þangat sem bardaginn hafði verit, ok fundu þar mörg fríð vápn, gylda hjálma, silfrhvítar brynjur, harða skjöldu, hin beztu[4] sverð, ok tóku þegar til sín ok kusu[5] hina vildustu hesta[6] með gyldum söðlum. Síðan riðu þeir til herbúða sinna ok tóku af hestunum söðlana, ok hvíldu þá um nóttina með nógu[7] korni ok fóðri.

77. Fjórir fóstrsynir keisarans[8] Rollant ok Estor, Bæringr ok Otun frágu alt þat er títt var. Þeir ræddust þá við allir saman ok mæltu: Hvat skulu vér nú at hafast, keisarinn heldr oss sem hertekna menn. Nú er engi svá vándr knapi, at konungr gefi eigi[9] herklæði, ef hann vill hafa. Förum nú ok vitum, ef vér skulum nökkur herklæði af honum hafa, en ef hann synjar oss, förum í brott ok skiljumst við hann. Þá svarar Rollant: Guð signi [yðra ráðagerð,[10] ok gerit svá sem þér segit. Rollant steig þá á hest sinn ok hans félagar með honum. Þeir fundu konung sitjanda með fámenni, því at öngir menn váru þá hjá honum nema hertugar hans Oddgeir ok Nemes ok Flovent. Konungr andvarpaði þá[11] með harmsfullu hjarta ok tárin runnu [ofan á kinn honum.[12] Hertugarnir mæltu þá við hann: Hættit, herra,[13] harmi þessum, dauðr er Agulandus, ef hann mætir oss. Herrar, segir hann, mælit eigi slíkt; þá er vér börðumst á fyrra velli, höfðum vér konunga ok jarla ok hertuga mikla ok máttuga höfðingja; hina ríkustu af þeim höfum vér látit [sjau hins fjórða tigar[14] ok 300. En nú verð ek at hafa þeirra viðrhjálp, er áðr[15] váru þjónustumenn annarra, ok fyrir því springr náliga hjarta mitt af harmi. Ok þá vildi hann ekki [fleiri um[16] tala, því at páfinn ok herra Girarðr höfðu fyrirboðit honum at segja [nökkut af því sem hann hafði[17] sét. En í því kom Rollant ok steig af hesti sínum, ok er hann leit Nemes hertuga, þá tók hann í skikkjuskaut hans[18] ok annarri hendi í beltissprota Oddgeirs, ok leiddi þá skamt í braut þaðan[19] er keisarinn var. Þá mælti Rollant í reiðu skapi: Hvat segir Karlamagnús? Hví heldr hann oss sem hertekna menn? Vér fórum í her þenna með honum sem göngumenn, ok reið ek á einum svá harðreiðum verkfák, at náliga

[1]) allir *tilf. a.* [2]) í *tilf. a.* [3]) [öll ætt yður skal af mér *a.* [4]) björtu *a.* [5]) kjöru a. [6]) vápnhesta *a.* [7]) œrnu *a.* [8]) Karlamagnús konungs *a.* [9]) góð *tilf. a.* [10]) [vára ætlan *a.* [11]) mjök *tilf. d.* [12]) [honum á kinnr *a.* [13]) ok látit af *tilf. a.* [14]) [7 ok 30 *a.* [15]) fyrr *a.* [16]) [fleira *a.* [17]) [nökkurum þat er þeir höfðu *a.* [18]) honum *a.* [19]) frá því *a.*

hristist[1] or mér allar tenn, svá skók hann mik, at aldri kenda ek slíkt. Nú ef Karlamagnús konungr vill eigi fá oss herklæði, þá munu vér skilja við hann. Þá tók Oddgeir hann í faðm sér ok kysti hann ástsamliga[2] ok mælti: Þér skulut [fullkomliga hervápn bera.[3]

78. Nemes hertugi ok Oddgeir danski knésettust[4] fyrir Karlamagnús konung. Þá mælti herra[5] Nemes: Herra konungr, segir hann, systurson yðvarr vill gerast riddari. Guð veit, segir Karlamagnús, þat má [enn vel gerast í góðu[6] tómi, en Rollant frændi várr er enn of ungr vápn[7] at bera. Þá mælti hinn ungi Rollant: Guð má miskunna mér; en þó at ek sé ungr, þá em ek þó eigi huglauss, ok sótt hefi ek it bezta sverð. Ek hefi ok þjónat yðr með borðkeri at matborði, en Estor delangres hefir skorit mat fyrir yðr. En ef þér vilit eigi gera oss fjóra félaga riddara, þá sýslit yðr aðra þjónustumenn, en vér munum leita fyrir oss. Rollant, segir konungr, eigi mun ek yðr þetta synja, enn minnir mik, þá er ek var undir olifaviði, ok sá ek þik þá hlaupa af hestinum svá skjótt sem [leóns hvelpr,[8] ok hafðir í hendi [af spjótbroti lítinn kurf ok laust Jamund[9] svá mikit högg, at fjarri flaug [sverðit or hendi honum, þá er hann hugðist mik skyldu höndum grípa. Nú[10] ef þú biðr mik nökkura bœn, þá þarf hvárki til[11] at hlutast Oddgeir né Nemes. Bið fyrir 20 eða 30, hundrað eða þúsund, allir skulu af þínum bœnum vápn taka, er [vilja ok bera kunna.[12] En er Rollant heyrði keisarann svá mæla, þá vildi hann á kné falla. En Karlamagnús konungr tók í hönd honum ok kysti hann með mikilli ástsemd ok mælti: Mér samir sannliga at elska þik, góði systurson, um hvern dauðligan mann fram, því at þú[13] gaft mér líf[14] guði tilsjánda. Þá lét Karlamagnús keisari blása fyrir öllum landtjöldum, at allir skyldu [fyrir hann[15] koma. Þar mátti sjá hina ungu menn til ganga kistna sinna, ok drógu þá fram sjóða sína með nógu[16] gulli ok silfri ok pellum, ok ætluðu þá gjafir sínar, fyrir því at hverr þeirra hafði þar[17] fengit svá mikit fé, at þeir vissu eigi hversu þeir skyldu fyrir sjá.

79. Nú ferr herra Girarðr or konungs hirð ok með honum herra Booz[18] ok Clares, ok stigu af hestum sínum fyrir landtjaldi

[1]) hristi *a.* [2]) með mikilli ástsemd *a.* [3]) [brátt bera herklæði *a.* [4]) þá *tilf. a.* [5]) hertugi *a.* [6]) [vel vera af *a.* [7]) herklæði *a.* [8]) [mjóhundr *a.* [9]) [spjótkurf af apaldri til mín, ok er Jamund hugðist reiða sverðit í höfuð mér, þá laustu hann *a.* [10]) [honum sverðit, þat er hann hugðist halda á, ok armleggr hans gékk í sundr fyrir framan ölbogann, svá at síðan nýtti hann aldri sína hönd. En *a.* [11]) í *a.* [12]) [megu bera ok hafa vilja *a.* [13]) fannt mik ok *tilf. a.* [14]) með *tilf. a.* [15]) [til hans *a.* [16]) gnógu *a.* [17]) *mgl. a.* [18]) *tilf. a.*

Girarðs, ok géngu þá í móti þeim jarlar ok lendir menn ok spurðu hversu keisarinn mætti. Þá svarar Girarðr: Lof sé guði, at hann má vel ok er heill, ok skulu nú allir þjónustumenn verða[1] riddarar, ok svá[2] skulu vér allir gera eptir sama hætti. Þá svöruðu allir: Guð signi ætlan vára ok láti vel skipast eptir yðru ráði. Nú kallaði Girarðr [til sín[3] systursonu sína ok tvá sonu sína, ok mælti: Herrar, kvað hann, nú skulu allir [vápn bera, þeir er megu;[4] ok ef guð sendir mik í mitt ríki, þá skal ek þat vel yðr launa. Sem herra Girarðr hafði búit þá, þá var flokkr þeirra þrjár þúsundir. Þá mælti hann til [sona sinna[5] Miluns ok Girarðs, þá[6] fékk hann í hendr Ancelin hertuga, ok mælti:[7] Þú skalt fara á fund Karlamagnús konungs ok bera[8] honum guðs qveðju ok mína[9] vináttu. Seg honum, at hann gefi sonum mínum herklæði, ok haf þá síðan með þér til mín aptr. Þá svarar hertuginn: Þat geri ek gjarna, herra. Síðan ljópu þeir á hesta sína ok kómu[10] til hirðar Karlamagnús konungs, ok fundu þeir þar ríka [höfðingja ok margt annat fólk þeirra, er gera létu[11] riddara brœðr sína ok sonu ok aðra þjónustumenn sína, ok mælti þá Karlamagnús, at hertugar ok jarlar skyldu sjálfir dubba menn sína. Þá mæltu höfðingjar sín á millum: Víst hefir Karlamagnús konungr fengit oss þetta starf at þarflausu. Ok vissu þeir eigi hvat þeir mæltu, því at þeir vissu eigi [hers at ván.[12]

80. Keisarinn er nú í landtjaldi Jamunds ok gerði fjölda[13] riddara af ýmsum[14] kynkvíslum, ok ekki fór hann at því,[15] hvárt þeir váru ríkra manna synir eða fátœkra.[16] Öllum hefir hann nú gefit gott frelsi ok sœmdir sem riddorum, öllum er frelsi gefit fyrir bœjar tökum ok konungs skyldum. Sem þeir höfðu [skilt þat[17] frelsi, ok at fyrir sakir Rollants váru þeir frjálsaðir,[18] þá handgéngu þeir konungi ok gáfu sik almátkum guði ok hinum helga Petro postula, ok mæltu við Karlamagnús konung: Herra konungr, sögðu þeir, látit oss nú æ sem fyrst finna þat hit bölvaða fólk, vér skulum svá slátra þeim í augliti yðru, at aldri skulu þeir fá bœtr [sinna skaða ok svívirðinga.[19] Keisarinn skundaði þá starfi sínu, ok valdi af[20] flokki þeirra 300 ok 30 ok sjau menn. Meðan þessir lifa, þá munu þeir verja guðs lög ok [sœmd keisarans[21] ok í hans augliti munu þeir eptir mætti höggva höfuð af heiðingjum. Sem Karla-

1) vera *a.* 2) *mgl. a.* 3) [á *a.* 4) [riddarar vera, þeir er vilja ok vápn megu bera *a.* 5) [sinna manna *a.* 6) þessa *a.* 7) til hans *tilf. a.* 8) segit *a.* 9) sína *a.* 10) þá *tilf. a.* 11) [jarla ok hertuga ok mikinn fjölda þeirra manna, er nú létu gera *a.* 12) [vónir hers. *a.* 13) *saal. a*; fjöldi *A.* 14) mörgum *a.* 15) spyrja *a.* 16) fátœkir *a.* 17) [skilit þetta *a.* 18) frjálsir *a.* 19) [sins skaða ok svívirðingar *a.* 20) or *a.* 21) [líkam keisarans ok gæta hans ríkis *a.*

magnús konungr sá[1] yfir sveinana, þá kom honum[2] í hug um feðr þeirra, er fallnir váru. Þessa verðr hann at hafa þangat með sér, sem hann væntir varla sjálfr[3] í brott at komast, ok gerðist honum af þeirri[4] íhugan svá þungr harmr, at engum kosti mátti hann á fótum standa, ok settist hann niðr á[5] pell ok hallaðist á hœgindit ok andvarpaði af [miklum harmi.[6] Droim konungr ok Salomon konungr, Nemes hertugi ok Oddgeir, þessir leiddu Rollant unga fyrir Karlamagnús keisara, ok létu þeir þá fram[7] bera 300 sverða. Eitt var þat sverð, er eigi sómdi[8] huglausum knapa at bera; en Nizant brezki bar þat sverð í hendi sér. Þá brá Karlamagnús keisari sverðinu ok mælti til Droims konungs: Hér er ekki sverð jafngott né jafnfrítt þessu. Þá mælti Oddgeir: Herra, segir hann, freistum sverðsins [í steininum er stendr fyrir landtjaldi yðru.[9] Þá svarar konungr:[10] Þat skulum vér eigi gera. Sem Karlamagnús hélt á [hinum hvassa[11] Dýrumdala, þá stakk hann honum í slíðrar[12] ok því næst gyrði hann Rollant frænda sinn með honum, ok mælti til hans hlæjandi með blíðum orðum: Ek gyrði þik þessu sverði með þeim formála, at þat tigni þik í hreysti ok riddaraskap, meðan þú ert lifandi. Sem Karlamagnús keisari [hafði þetta mælt, þá signaði páfinn hann, ok allir aðrir þökkuðu guði. Sem Karlamagnús[13] hafði gyrt Rollant með þessu sverði, þá féll[14] Nemes hertugi á kné ok batt hinn hœgra spora á fót honum, en Oddgeir hinn vinstra. Fyrr en Rollant leysti af sér hjálm sinn eða sverð, þá géngu skyndiliga 300 ok sjau menn ok 30 manna, ok tók þá Karlamagnús þau sverð sem eptir váru, ok gyrði fyrst með[15] Estor delangres, því næst Otun ok Bæring, Huga ok Jofrey ok [Angler af[16] Gaskunia, ok síðan alla þá er þeim fylgdu; þá gerði Karlamagnús alla at riddorum ok mælti þá til Rollants frænda[17] síns: Mjök ertu lofandi, segir hann, þessa alla fæ ek í þitt vald. Ok gerðust þeir þá allir Rollant handgengnir með fullkomnum trúnaði ok úskaddri konungs sœmd ok þjónustu. Ok þá mælti konungr: Ef guð sendir mik heilan í Franz, ok mér líkar at hvílast ok fara á veiðar, þá skulu þér fara með mér at temja úspaka menn til ríkis míns.

81. Keisarinn samnaði þegar þeim[18] ellifu riddorum, er hann vissi vaskasta, ok lagði þá báðar hendr um háls [Rollant, ok mælti:[19] Góði systurson, segir konungr, þér tólf skulut vera jafningjar; þessir

[1]) leit *a.* [2]) þegar *tilf. a.* [3]) *mgl. a.* [4]) *saal. a*; þeirra *A.* [5]) eitt *tilf. a.* [6]) [öllu hjarta *a.* [7]) *tilf. a.* [8]) samdi *a.* [9]) [hér nú í steininum fyrir landtjalds dyrum *a* [10]) Guð veit, segir hann, at *tilf. a.* [11]) [hinu hvassasta sverði *a.* [12]) slíðrir *a.* [13]) [*mgl. a.* [14]) settist *a.* [15]) *mgl. a.* [16]) [Angiler or *a.* [17]) systursonar *a.* [18]) *mgl. a.* [19]) [þeim ok mælti til R. *a.*

skulu fylgja þér þangat sem þú vill, ok gera þat er þú vill. Ef guð sendir mik heilan aptr í Franz, þá skulu þér fylgja mér at hreinsa ríki mitt. En nú vil ek eigi at sinni segja þér fleira, nema þú vilir mínum ráðum fylgja ok minn kærleik þekkjast. Sem Karlamagnús keisari var í landtjaldi sínu, þá tók hann í hönd Miluns unga ok mælti: Ungmenni, segir hann, satt samir at segja þér; þú ert son herra Girarðs af[1] Burgunia; aldri verðr[2] honum vildri hértugi, sá er með [vápnum herklæðist,[3] aldri mun hans ættingi vera nema góðr maðr. Ek skal gefa þér ríki ok sœmd í Miliborg, þar er nú engi arfi til nema ein dóttir; ef hon er slík sem mik væntir, þá mun eigi finnast henni jafnfríð í öllum hálfum[4] heimsins, þér skal ek gipta hana með miklu ríki. En þú ok Nemes ok Oddgeir ok Fagon skulut fylgja mér ok vera ráðgjafar mínir í hirð minni. Þá kallaði Karlamagnús konungr til sín Eisant hinn brezka ok mælti: Hvar er sverðit þat it bezta, er gullkrossinn er á settr? Hann tók þá sverðit ok fékk honum á kné fallandi ok honum tiguliga lútandi. Sem konungi var fengit sverðit, þá brá hann því ok hugði at vandliga, ok kallaði síðan til sín Nemes hertuga ok Oddgeir: [Þit sáð,[5] segir hann, at ek var í gær gyrðr með þessu sama sverði, þá er ek lét leysa af höfði Jamunds hjálminn ok leggja hann undir olifatré. En nú, Milon bróðir, segir hann, mjök samir þér at tignast. Þetta sverð gef ek þér með jungfrúinni;[6] þú ok Nemes ok Oddgeir skulut vera höfuðráðgjafar mínir ok mér [jafnan þjónandi.[7]

82. Þann sama dag sem keisarinn stóð í landtjaldi sínu, þá tók hann í hönd Girarðs unga, hann var hárfagr ok inn fríðasti, hann hafði digra armleggi ok sterka, ok mælti þá Karlamagnús ástsamliga til hans: [Þú ert, segir hann, Girarð sonr hins vaskasta riddara. Þá mælti hann til Eisant:[8] Eisant bróðir, fœr mér þat sverð[9] er mest er af fjórum mínum sverðum. Hann kom þá ok lagði sverðit á[10] kné konungi. Ok þá mælti konungr: Herrar, segir hann, þetta sverð átti einn riddara son, hann sótti með þessu sverði Gandri ok Lalei hinar ríkustu borgir ok Gullaran, ok alt ríki er til liggr borganna, í engu landi finnst vildra sverð. Ok gyrði konungr hann þá sverðinu í augliti mikils fjölda. Nú sem konungr hafði gyrt hann með sverðinu, þá mælti hann: Með þessu sverði var sótt alt Gandreborgar ríki.[11] Kristni var náliga fyrirkomin[12] ok í úfriði niðrfallin, en þetta sverð guði tilsjánda reisti upp ok friðaði ok styrkti alla kristni vára. Nú gefi þér guð með þessu sverði sigrsælu ok langlífi. Þar var settr konungs söðull á einn hvítan hest, ok gaf

¹) yfir *a.* ²) er *a.* ³) [sverði gyrðist ok *a.* ⁴) álfum *a.* ⁵) [þeir sá *a.* ⁶) jungfrúnni *a.* ⁷) [þjónandi at borði *a.* ⁸) [*tilf. a.* ⁹) hingat *tilf. a.* ¹⁰) í *a.* ¹¹) hlið *a.* ¹²) yfirkomin *a.*

konungr honum með [gyldum söðli ok[1] beisli. Sem konungr hafði gefit honum þann inn blómhvíta hest með svá ríkum búnaði, at hundrað marka féngi eigi keypt reiða hans, þá skundaði páfinn sinni sýslu, ok með því at þar var hvárki kirkja né musteri, þá vígðu [fjórir erkibyskupar[2] allan völlinn þar umhverfis, ok settu [kapalin hans[3] landtjöld pávans,[4] ok bjóst [þá páfinn[5] til messu. Aldri síðan söng hann þá messu, er jafnmargir nýgervir riddarar væri[6] á heyrandi. Páfinn söng messuna, en pistilinn las Bendikt[7] erkibyskup.[8] Sjálfr páfinn las guðspjall, en fjórir erkibyskupar leiddu Rollant systurson Karlamagnús konungs til offerendu.[9] Hann offraði þar svá [ríka offerendu,[10] at hinir sterkustu múlar gátu eigi borit. Þá talaði páfinn: Lendir menn, segir hann, lýðit mér. Þá er várr dróttinn frjálsaði[11] ok minkaði vald úvinarins ok rak hann brott or himinríki, guð mælti þá ok hét at[12] fylla þat skarð, er gerðist á[13] flokki englanna. Hann skapaði á sex dögum alla hluti, en á hinum sjaunda degi hvíldist hann af sínum verkum. Eigi tók hann á[14] með starfi handa sinna. Adam föður várn skapaði guð[15] af moldu ok gerði hann eptir sinni líkneskju, af rifi hans[16] skapaði hann Evam,[17] ok gaf þeim vald yfir öllum skepnum, nema eitt aldin fyrirbauð hann [þeim at eta. En jafnskjótt sveik andskotinn Evo,[18] ok var Adam heimskr, þá er hann lét at hennar áeggjan. Sem allr heimrinn var skapaðr, þá kom guð í þenna heim, ok lét skírast af Johanne baptista. Síðan þoldi hann dauða [fyrir oss.[19] Því næst krafði hann þann hluta ins helga kross, er [hann hafði með sér ok[20] dróttinn var píndr[21] á. Sem páfinn hélt upp krossinum, þá féllu allir á kné ok lutu[22] með mikilli ástsemd með helgum bœnum ok hreinu hjarta, ok blezaði páfinn [allan lýðinn[23] ok gaf þeim [leyfi í brott at fara,[24] ok tóku[25] þeir þá vápn sín ok herklæði.

83. Nú höfum vér heyrt, hversu Rollant var gerr riddari ok hans félagar. En nú verðr at segja nökkut frá Agulando.[26] Hann sendir eptir sex[27] konungum, ok kómu þeir til hans. Hann mælti þá: Herrar, kvað hann, mjök þikki mér kynligt um Jamund son minn: hann hefir nú [þrjá daga barzt[28] við Frankismenn ok sendir mér engi orð. Þá svarar Abilant konungr: Þat veit Maumet, hann gerir sem[29] úviti, þeir hafa látit fjóra guða vára. Blandeqvin[30]

1) [gyltu *a.* 2) [erkibyskupar hans *a.* 3) [kappellanar páfans *a.* 4) hans *a.* 5) [hann þá *a.* 6) váru *a.* 7) Bendictus *a.* 8) hann var bróðir Droims konungs *tilf. a.* 9) altaris *a.* 10) [miklu fé ok hans félagar *a.* 11) frelsaði *a.* 12) hann skyldi *tilf. a.* 13) í *a.* 14) *mgl. a.* 15) hann *a.* 16) Adams *a.* 17) Evu *a.* 18) [Ewu. En andskotinn sveik hana *a.* 19) [oss til lausnar *a.* 20) [*mgl. a.* 21) krossfestr *a.* 22) *saal. a*; bœn *A.* 23) [þá alt lið *a.* 24) [þá brottleyfi *a.* 25) *tilf. a.* 26) konungi *tilf. a.* 27) 7 *a.* 28) [3 sinnum barizt *a.* 29) barn ok *tilf. a.* 30) Maddikvin *a.*

mælti þá til Agulandum: Herra, kvað hann, mjök þikki mér undarligt,[1] engi nótt er sú, er eigi dreymir mik undr ok údœmi. Kristnir menn eru [skyndiliga ok[2] kynliga herklæddir, ofan af höfði [til hæla[3] eru þeir huldir stáli ok járni, þeim meina hvárki starf né vökur; þeir hafa bæði saman blandit [af várum mönnum[4] hvítt ok rautt, heilann ok blóðit. Því næst talaði Maladient[5] konungr: Herra, segir hann, þér gerit mikit úráð, með því at Karlamagnús konungr hefir lítit lið, er[6] þér ríðit eigi [sem skjótast[7] á hendr honum. Hann hefir fengit [ofmikit ofdramb ok hefir hann ofmikit traust á[8] litlum liðsafla, er hann þorir [í mót yðr at stríða.[9] Nú sendit til hans fyrst ok biðit,[10] at hann gefi oss upp fjóra guða vára, neiti sínum guði ok taki við várum lögum. Látit hann ok lifa, ef hann gerir yðr[11] skatt af þessu ríki, sjau hundruð múla ok úlfalda klyfjaða alla með brendu [gulli ok silfri, ok 400 meyja hinna fríðustu[12] í yðvart vald, ok gefit þeim sem yðr líkar, ok gangi berfœttr í ullklæðum til fóta yðr ok gefi yðr upp kórónu sína. Ef hann vill eigi þenna kost, þá sé hann drepinn sem skjótast. Þá mælti Ulien: Vér munum oflengi þetta ráð[13] dvelja. Látit nú þegar annan stíga á sinn hest at fylgja mér, ok skulu vit fara tveir þessa sendiferð. Ok þá sendi Agulandus þegar eptir Galingri hinum gamla. Ok er hann var þar kominn, þá tók hann gullspora á fœtr sér, ok klæddu[14] hann ríkri skikkju ok settu[15] gullkórónu á höfuð honum gimsteinaða,[16] ok steig hann þá á hinn bezta múl, ok héldu þeir í[17] ístig hans, meðan sá inn gamli karl steig upp. Síðan féngu þeir honum einn olifakvist merkjandi sendiferð hans. Hann var hvítr á skegg, hinn fríðasti sýnum,[18] engan gamlan mann máttu þeir finna honum jafnan. Ulien steig þá á einn eplóttan hest, í öllum her heiðingja váru eigi [honum 10 hestar[19] vildri. Hann var klæddr silkipanzara með gullsaumuðum laufum ok bar einn gullsteindan buklara ok it hvassasta spjót með miklu merki, hann var mikill ok öflugr. Þessir váru sendimenn Agulandi konungs. Hér lýkr inni sjaundu bók ok hefr upp ina áttu.

84. Heyrið nú hvat Karlamagnús inn kurteisi keisari hefst at. Hann gerir fimm fylkingar ok ætlar þeim 5 bardaga. Rollant systurson hans gerir hina fyrstu fylking: en Oddgeir hertugi var þann dag merkismaðr keisarans, ok eru í fylking Rollants tvær þúsundir riddara, allir ungir menn ok öflugir. Í annarri fylking var Salomon

[1]) kynligt *a.* [2]) [*mgl. a.* [3]) [ok til fóta *a.* [4]) [*mgl. a* [5]) Maladin *a.* [6]) at *a.* [7]) [*tilf. a.* [8]) [ofdirfð af metnaði sínum ok hefir ofmikla dul af *a.* [9]) [at ríða í mót yðr svá fámennir *a.* [10]) beiðit *a.* [11]) enn *tilf. a.* [12]) [silfri, ok 300 fríðra meyja *a.* [13]) þjóðráð *a.* [14]) klæddi *a.* [15]) setti *a.* [16]) gimsteinda *a.* [17]) *mgl. a.* [18]) í andliti *a.* [19]) [10 hestar honum *a.*

konungr, ok með honum riddarar or Norðmandi ok Peitu ok Gaskunie[1] höfðingjar. Erkibauth ok Hugon [inn harði yfir Hispania gerðu ina þriðju fylking[2] ok herra Nemes hertugi, Jerimias jarl ok Rikarðr inn hrausti. Þá skundaði páfinn sínu liði, ok bjó hann þá fjórða bardaga svá vandliga, at hvárki sat eptir steikari né skutilsveinn, eigi dyrverðr[3] eða rekkjusveinn [né ræðismenn, klerkr né prestr,[4] engi sá er nökkura [hjálp mátti veita. Alla gerði keisarinn nú heiman með hjálmum ok brynjum, sverðum ok góðum hestum. Svá hefir hann þá vel búit, at engi þarf honum (um) þat brigzla,[5] at sitt lið hafi betr búit en hann. J hinni fimtu fylking var Gundilbol[6] ok [Segis, Enser,[7] ok Norðmandiar þeir er eptir váru, ok or Saxlandi þeir er þar[8] lifðu. Ok lagði Karlamagnús niðr[9] skjöld sinn ok tók í hœgri hönd sér einn langan vönd, ok reið þá [ok skipaði[10] fylkingum sínum.[11] Nú mælti Karlamagnús konungr, at menn hans skyldu [búast við bardaga, ok skildi hann þá fylkingar sínar hverjar[12] frá annarri, ok hætti eigi fyrr en hann var kominn frá inni fyrstu til hinnar síðurstu.

85. Í[13] því bili kómu sendimenn Agulandi konungs, Galinger berandi olifakvist. Hann hafði hvítt skegg; skikkjan var svá síð, at [hann dró hana mjök svá jafnsítt hælunum;[14] hár hans var fléttat mjófum fléttingum ok hékk á báðar herðar. En Ulien sat á einum eplóttum hesti, hann féngi eigi keypt með jafnvægi hans af brendu gulli. Hann var í panzara ok hafði hvítan hjálm á höfði, sverð vel bítanda með hvössu spjóti [af apaldrs[15] skapti, ok lét hann blása[16] it mikla merki sitt fyrir vindinum. Hann var mikill maðr fyrir sér ok fullvaxinn með sterkum armleggjum, ef hann væri kristinn, þá væri engi svá [fríð frú, at honum mundi kunna[17] synjast. Þessir váru komnir at fremja sendiferð Agulandi[18] konungs, annarr at heitast, en annarr at berjast, ef nökkurr vill við hann eiga. Konungr ríðr nú[19] fyrir liði sínu, minnir þá á at verja lönd sín ok guðs lög, ok skipaði hverri fylking svá sem samdi fram at ríða. Þá kallar hann til sín Oddgeir nökkut [svá hlátri við lögðum[20] ok mælti: Herra Oddgeir, segir hann, halt þat er þú hézt mér, at gæta systursonar míns, því at hann er barn ok ungmenni, en engi hlutr er sá

¹) Gaskuniu *a.* ²) [. Hina þriðju fylking gerðu hinn harði höfðingi yfir Spania *a.* ³) *saal. ogsaa a.* ⁴) , eigi ræðismaðr né klerkr ok eigi prestlingr ok *a.* ⁵) [viðrhjálp mætti veita. Engi sá er betr búinn, ok engi þarf honum at brigsla um þat, *a.* ⁶) Gundulbit *a.* ⁷) [Ensis *a.* ⁸) þá *a.* ⁹) þá *a.* ¹⁰) [at skipa *a.* ¹¹) Alla gerði nú keisarinn með hjálmum ok brynjum, sverðum ok góðum hestum *tilf. a.* ¹²) [skipa fylkingum sínum, ok skildi hann hverja *a.* ¹³) *saal. a*; Á *A.* ¹⁴) [hon huldi allan búnað hans *a.* ¹⁵) [apaldr at *a.* ¹⁶) á *tilf. a.* ¹⁷) [fríðr at honum mundi kunna at *a.* ¹⁸) Agulandus *a.* ¹⁹) ok talar *tilf. a.* ²⁰) [andvarpandi *a.*

lifandi, er ek em svá[1] unnandi. Þá svarar Oddgeir: Heyr hvat Rollant mælir, aldri meðan hann lifir kvezt hann vera vilja minn vin, nema hann höggvi it fyrsta högg í þessum bardaga. Guð veit, segir Karlamagnús, þat vil ek gjarna gera, ok gef ek hann í gæzlu guðs almáttigs. Ok signaði[2] konungr þá ok reið í brott klökkvandi.[3]

86. [Þá kómu sendimenn ok[4] riðu um þær fylkingar er næstar váru, ok kómu at meginliðinu, ok þá mælti Galinger fyrst: [Bróðir riddari, þú[5] á enum grá hesti, er ríðr fyrir fylkingum þessum, sýn mér Karlamagnús Frankismanna konung, ek kann eigi skil á honum; vit erum sendimenn Agulandi konungs ins öfluga. Þá svarar Karlamagnús hárri röddu: Hér em ek, sagði hann, eigi þurfi þit mín lengr[6] at leita. Þá svarar heiðingi: Enga kveðju ber ek þér, því at mér er engi ást á þér né góðvili. Send Agulando Machun[7] ok Terrogant, Apollin ok [Jupiter inn mikla,[8] ef þú vilt lífi þínu halda. Vinr, sagði Karlamagnús, herra þinn hefir grimt hjarta ok illgjarnt, ef hann vill slíkt mæla. Galinger svarar: Vit erum sendimenn ok komnir at segja þér þessa sendiferð; látit nú fá oss guða vára, ok búit sem skyndiligast þúsundrað ok sjau klyfjahesta, ok ger þeim full hlöss af brendu gulli ok silfri, ok svá margar meyjar úspiltar. Ok þú skalt fara berfœttr ok í ullklæðum ok bera kórónu þína í höndum þér, ok einn skaltu vera af þeim er keyra hestana ok eykina með fénu. Sem þú kemr til Agulandum, þá skaltu falla á kné fyrir honum, ok ef þú vill neita guði þínum ok taka við lögum várum, þá muntu frjálsa ríki þitt ok sjálfan þik; ok þá er þú hefir þetta gert, þá skulum vér biðja [várn herra[9] miskunna þér, ok mun hann þegar gefa þér kórónu þína. Dróttinn guð, sagði Karlamagnús, þessi heiðingi býðr mér harða þjónustu, því at ek hefi eigi numit at ganga berfœttr. En gull ok silfr [er þú krefr, verðr[10] hvílast, en meyjarnar eru svá vel hirðar í öruggum kastalum, er[11] engi maðr kemst at þeim. En fyrir tveimr dögum fengu várir menn [fjóra guða yðra í vald pútna ok brutu þá í sundr handa þeim.[12] Þá tók Galinger at heitast ok skók svá olifakvistinn, at náliga flaug[13] allr í hluti[14] sundr.[15] En Ulien lét síga brýnn sínar

1) meir *a.* 2) signdi *a.* 3) *Codex a henförer den sidste Halvdel af dette Capitel (85) fra:* Konungr ríðr nú fyrir liði sínu, minnir þá á *til det foregaaende Capitel (84), og forbinder förste Halvdel af dette med næste Capitel saaledes:* Þessir váru komnir at fremja sendiferð Agulandus konungs, annarr at heitast, en annarr at berjast, ef nökkurr vill við hann eiga. Þeir riðu um þær fylkingar er næstar váru *o. s. v.* 4) [Þeir *a, se foregaaende Note.* 5) [Þú riddari *a.* 6) lengra *a.* 7) Maumet *a.* 8) [Jubiter *a.* 9) [konung várn *a.* 10) [verðr at *a.* 11) at *a.* 12) [í hendr pútum guða yðra 4 ok brutu þær þá í sundr. *a.* 13) fló *a.* 14) *mgl. a.* 15) þá tók Galinger at mæla við Ulien *tilf. a.*

ok reiddist ok var óðum manni líkari, skók spjótit svá at náliga flaug járnit af, reisti merki sitt upp ok hallaðist á spjótit ok mælti: Karlamagnús, sagði hann, Agulandus er mik[1] sendi hingat á alla Affricam. Þá er hann sendi herinn í Eropam,[2] þá sendi hann njósnir sínar fyrir sér ok[3] fjóra guða vára, ok Jamund son hans sat fullan mánað í Sueriborg.[4] Sem þeir fóru heim, þá tóku [þér fjóra guði[5] vára frá þeim. Agulandus ferr nú at leita þín [þar til[6] er hann finnr þik; hann skal hafa þik með sér til Rómaborgar, þar skal hann[7] kóróna Jamund son sinn,[8] ok alla drepa þá er á Krist trúa. Þat veit trú mín, sagði Karlamagnús, þat skal hann aldri gera, ef guð vill. En hvárki skal hann hafa gull né silfr né meyjarnar; þá vittu þat, at þær eru[9] enn úfæddar er honum munu gjaldast. Þá mælti Galinger: Herra konungr, segir hann, hefir þú nökkut meira lið en þetta sem nú sé ek hér? J hinni fyrstu fylking eru fáir menn, ok þau vápn er þeir bera áttu várir menn. Mandeqvin konungr frændi Agulandi konungs hefir í móti [þessum er ek sá hér[10] 20 þúsundir í sinni fylking fráskildr[11] öðrum fylkingum, þat veit Machun, [þá eru allir[12] þeir teknir sem aldin af viði. Herra konungr, [segir Ulien,[13] stöðvit reiði yðra. Hingat ríða nú tvau hundruð ok 10 ok fimtigir þúsunda. En ef þér værit sem[14] slátr ok brytjaðir til steikarahúsa, þá eru vér svá margir,[15] at eigi væri hálft lið várt fult af yðr, en konungr várr hefir þat boðit öllum at taka þik höndum, til þess at hann drepi þik sjálfr. Keisarinn sendi þá[16] Nemes ok Oddgeir ok Salomon skyndiliga til herra Girarðs, at hann ok synir hans kœmi til konungs.[17] Ok[18] þeim þar komnum gékk konungr út á völlinn með þeim: Herrar, segir hann, hlýðit mér litla stund. Sé þér[19] sendimenn Agulandi konungs, þeir krefja guða sinna ok [sjau ok þúsundrað[20] klyfjaðra hesta af gulli ok silfri, ok svá margar meyjar, ok at ek ganga berfœttr sjálfr ok í ullklæðum, ok lúta honum ok leggja kórónu mína þá sem á heilög kristni ok halda lög hans.

87. Hinn gamli Girarðr tók þá at svara: Herra, segir hann, eigi samir yðr at angrast. Nú eru liðnir 80 vetra síðan er ek tók hjálm á höfuð mér. Sendit nú upp undir olifatré eptir líki Jamunds ok fœrit Agulando,[21] þat er honum maklig fórn, því at þá mun hann angrast ok reiðast. En hverr várr styrki annan at hefna sín, en guð[22] alla oss. Vei sé þeim er eigi rekr með tíu þúsundruðum

[1]) oss *a.* [2]) Eyropam *a.* [3]) *mgl. a.* [4]) Sueri *a.* [5]) [þeir guða *a.* [6]) [til þess *a.* [7]) koma at *tilf. a.* [8]) með kórónu *tilf. a.* [9]) *saal. a*; munu *A.* [10]) [þeim *a.* [11]) fráskildum *a.* [12]) [allir eru *a.* [13]) [kvað hann *a.* [14]) *mgl. a.* [15]) heiðingjar *tilf. a.* [16]) páfann ok *tilf. a.* [17]) hans *a.* [18]) At *tilf. a.* [19]) hér *a.* [20]) [1000 ok 7 *a.* [21]) Agulandus *a.* [22]) styrki *tilf. a.*

tuttugu þúsundir þeirra manna. Þá géngu þeir eptir líkinu Baldvini ok Ríker. Ok þá kómu sendimenn at deila við konung, ok mæltu: Látit búa skatt várn. Vinr, kvað Karlamagnús, ek lét nú menn til fara at búa.[1] Konungs menn kómu undir olifatré ok fundu Jamund ok hjuggu í sundr armlegg hans, þar sem brotinn var, ok tóku eigi fingrgull af hendi honum né af höfði honum hjálm, ok reiddi Riker líkit, en félagi hans bar skjöldinn ok hönd hans ok höfuð, kómu á völlinn þar sem konungr[2] var, ok lögðu niðr lík Jamunds. Sem Galinger leit þat, þá varð hann felmsfullr, ok[3] sem hann var áðr málugr,[4] varð hann þögull. [Sem Ulien sá hann, kendi hann[5] hjálminn ok þat it mikla fingrgull er hann bar. Undarligt högg gaf Rollant, þá er bæði augu flugu or höfði honum ok lágu á kinnunum. Þá mælti Ulien: [Makun, kvað hann,[6] hvat gerðir þú, er þú sýndir[7] eigi krapt þinn. Vinr, [kvað Karlamagnús,[8] þú hefir at vísu týnt guði[9] þínum. Í gær árla var hann uppgefinn pútum, með stórum járnsleggjum ok hvössum stálpíkum hafa þær brotit allan líkam hans, en ek hefi skilt at þú hefir heitazt við mik. Nú tak hér við skattinum, höfði hans armlegg ok skildi, er af metnaði sínum[10] barðist við mik; aldri fær þú annan skatt af mér. Þú ok Galinger er hingat fórut at heitast við mik, segit inum öfluga konungi yðrum, at skattr sá er hann krefr,[11] fjóra guði sína gull ok silfr ok meyjar, þat er skaði[12] at gefa þær heiðingjum til pútna, ok [kóróna mín af inu skírasta gulli ger,[13] þá fær hann aldri, meðan hann [er lifandi[14] ok ek em sverði mínu valdandi. En fjóra [guði þá er þú[15] krefr, þá hefi ek engan þeirra, því at [ek lét þá gefa[16] pútum, ok brutu þær þá[17] í sundr ok drógu þá[18] eptir sér um herbúðir sínar, ok hlaut hver þeirra svá lítit[19] af þeim, at eigi stóð hálfan annan pening. En aldri átta ek svá mikit fé sem hann krefr, ok aldri láti guð Frakka konung [eiga svá mikit fé,[20] nema þegar taki við hinir hraustustu riddarar mínir.[21] Nú þá farit til Agulandum ok fœrit honum höfuð Jamunds með hjálmi armlegg ok fingrgull, ok ef guði líkar, þá skulu vér slíkan gera hann sjálfan sem Jamund. Ulien sat á hesti en Galinger á múl, ok litu höfuð Jamunds ok blóð rennanda or munni hans,[22] bæði augu hans lágu á kinnum, heilinn rann út um eyrun. Annarr grét en annarr andvarpaði. Ok þá dró Ulien hinn hœgra glófa af hendi sér ok gékk fyrir Karlamagnús ok

[1]) sœkja skattinn *a.* [2]) Karlamagnús *a.* [3]) svá *tilf. a.* [4]) þá *tilf. a.* [5]) [Ok sem Ulien kendi líkit ok *a.* [6]) [Makon, Makon *a.* [7]) sendir *a.* [8]) [*saal. a*; segir hann *A.* [9]) guðum *a.* [10]) *saal. a*; þínum *A.* [11]) heimtir *a.* [12]) of skaði *a.* [13]) [kórónu mína af hinu skírasta gulli *a.* [14]) [lifir *a.* [15]) [guða er hann *a.* [16]) [er (ek) vil ekki við þik fást, þá lét ek gefa þá *a.* [17]) alla *tilf. a.* [18]) alla *tilf. a.* [19]) mikit *a.* [20]) [girnast svá mikils fjár *a.* [21]) hans *a.* [22]) ok *tilf. a.*

mælti: Tak hér við glófa mínum í einvígis veð móti þeim er þú fær[1] vildastan; ef ek yfirkem félaga minn á vígvelli, þá skaltu ok þínir menn trúa á guða vára; en ef hann drepr mik, þá skulu allir heiðingjar trúa á sannan guð. Þá mælti Karlamagnús: Stöðva lunderni þitt, ok seg Agulando at nú hefir son hans fengit þat sem hann fór[2] leita. Ek hefi horn hans, sverð ok hest, ok gaf ek Rollant frænda mínum. Nú seg Agulando, at ek sendi honum höfuð sonar hans ok armlegg fram frá ölboganum, ok fyrr en þetta kveld sé komanda, þá verðr annarr okkarr vitandi, hvárr réttara er hafandi, ek þetta ríki verjandi [eðr hann[3] tilsœkjandi. Ulien leit þá skjöldinn ok armlegginn ok andvarpaði þrysvar[4] ok skók höfuð sitt: Hó, herra Jamund, segir hann, þessi var hörð dagleið. Seg,[5] kvað hann, hvaðan eru knapar þessir er þér fylgja; alt þetta lið [it litla[6] er til dauða dœmt ok öll lög þín únýt. Vinr, kvað Karlamagnús, örlög vár eru í guðs valdi, en eigi undir orðum þínum. Ber höfuðit til Agulandum af minni hálfu, seg, at aldri skal þetta höfuð kórónat vera í Rómaborg.

88. Herr keisarans var þá allr fylktr, ok blésu [þeir þá hálft hundrað lúðra[7] til framreiðar ok ríða á brekkuna. Ok er þeir váru ofan komnir í dalinn, þá sá þeir at alt var landit hulit[8] af heiðingjum, svá mikill fjöldi at engi kunni[9] telja. Nú ríða sendimenn skjótt ok mœttu Madeqvin fyrstra manna: Komit heilir sendimenn, sagði hann, hversu líkar Karlamagnúsi hinum harða keisara, hefir hann sent oss fjóra guða vára ok skattinn? Sem Ulien heyrði, þá reiddist hann, er hann spottaði þá. Þá svarar Galinger: Þú mælir, sagði hann, sem galinn maðr. Þeir gáfu guði vára pútum sínum, er með stórum járnsleggjum brutu þá í sundr. Dauðr er Jamund. Þá svarar Mandeqvin: Farit eigi með þessum[10] hégóma, því at engi er svá harðr maðr, at [nökkur mundi þora[11] at misgera við minn herra. Þá [svarar Galinger:[12] Hættit þrætu þessi, því at lík hans liggr undir olifaviði. Þeir hjuggu af honum höfuð ok armlegg, [hér máttu sjá höfuð hans í þessum hjálmi.[13] Þeir vildu eigi taka hjálm af höfði honum né fingrgull af fingri hans, því at þeir vildu at sá kendi hann, er fyrst kórónaði hann. Þá svarar Mandeqvin: Alt snýst oss nú til harms. Ok fékk hann þá svá mikla hugsótt, at hann sleit hárit af höfði sér. Sem lið hans sá þetta, þá lustu allir höndum saman ok hörmuðu svá, at allir í þeirri fylking fengu hræzlu ok hugleysu.[14] Síðan riðu sendimenn fram um lítinn skóg, ok kom

[1]) finnr *a.* [2]) at *tilf. a.* [3]) [en hann er *a.* [4]) 3 sinnum *a.* [5]) Karlamagnús *tilf. a.* [6]) [*mgl. a.* [7]) [í lúðra hálft hundrað *a.* [8]) hult *a.* [9]) at *tilf. a.* [10]) slíkum *a.* [11]) [nökkut þori *a.* [12]) [mælti Ulien *a.* [13]) [*tilf. a.* [14]) hugleysi *a.*

þá Ackars or Amflor [í móti þeim,[1] ok kendi hann þegar silkimerkit Uliens ok reið þegar í móti þeim ok mælti: Vel komnir félagar várir, hafa kristnir menn við tekit lögum várum? Ulien svarar: Þat væri [mikil þín[2] heimska. Þá er Jamund tók Kalabre borg, þá sneri hann mörgum kristnum mönnum til várrar trúar, ok hafði hann með sér tuttugu þúsundir manna. Því næst kómu Frankismenn hinir hörðustu riddarar at honum með tíu þúsundir; sem þeir áttu við vára menn, þá tóku várir menn undan ok létu fjóra guði sína. En kristnir menn tóku þá í[3] sitt vald, ok seldu þeir þá pútum sínum, ok brutu þær þá í sundr, ok fékk hver þeirra lítit af. Dauðr er Jamund ok alt lið hans. Sem Akarz heyrði þat,[4] þá sortnaði hann allr ok bliknaði, ok allir hans liðsmenn[5] váru svá daprir, at engi vissi hvat mæla skyldi til annars. Enn ríða[6] þessir sendimenn. Sem Kaladis konungr kendi ferð þeirra, þá reið hann þegar í móti þeim ok mælti: Vinir, kvað hann, Maumet signi yðr. Eru kristnir menn til várra guða snúnir? Þá mælti Ulien: Guðar várir hafa svikit oss. Þá er Jamund sótti Kalabre borg, þá sneri hann mörgum til sinnar trúar. Hann hafði með sér 20 þúsundir. Sem Frankismenn höfðu komit þeim á flótta, þá tóku þeir fjóra guða vára ok gáfu þá pútum sínum, ok skiptu þær sín í millum. Dauðr er Jamund en vér svívirðir. Sem þeir höfðu sagt Kalade sendiferð sína, þá gékk hann náliga af viti sínu ok mælti: Maumet herra! bölvaðr sér þú, samþykkjandi at Jamund skyldi vera drepinn. Ok slitu þeir þá fylking sína. Nú riðu sendimenn fram. En Eliades ok Pantalas systrungr hans kómu þá leypandi í mót þeim ok mæltu: Sendi Karlamagnús oss nú skattinn ok meyjarnar? Ulien svarar: Frankismenn eru eigi svá auðsóttir. Þá mælti Galinger: Pantalas bróðir, segir hann, til mikillar úgæfu var Jamund [kosinn hingat yfir oss, ok þá einkanuligast er hann[7] eggjaði oss at vinna þetta land. Kristnir menn hafa trú sína ok traust á almátkum guði, syni heilagrar Marie. Þessi er sá er krossfestr var ok dauða sinn fyrirgaf Longino, er í gegnum hjarta hans lagði með kesju. Jamund tapaði fjórum guðum várum, gulli ok silfri, sjau sinnum hundrað þúsunda heiðingja hafa Frankismenn drepit fyrir oss [ok gert mikla skömm ok svívirðing vinum várum ok frændum.[8] Dauðr er Jamund ok fjórir systrungar hans. Sendimenn riðu í brott þaðan ok fram um fylkingarnar ok kómu at [höfuðmerkinu. Þar var Agulandus konungr[9] ok inn öflugi konungr Abilant, ok með þeim Rodant konungr inn

[1]) [*mgl. a.* [2]) [þeim mikil *a.* [3]) á *a.* [4]) þetta *a.* [5]) menn *a.* [6]) riðu *a.* [7]) [kominn yfir oss, er hingat *a.* [8]) [*mgl. a.* [9]) [höfuðmerki Agulandus, þar var hann sjálfr *a.*

sterki ok Madien, Modal konungr inn ungi ok Laufer[1] inn harði. Þessir kendu fjarri [komandi sendimenn.[2]

89. Sendimenn riðu fúsir heim ok vildu gjarna telja tíðendi sín. Ok er konungr leit þá, fagnaði hann kvámu þeirra. Ok er sendimenn stigu af hestum sínum undir höfuðmerkinu, þá mælti fyrst Modas konungr: Ulien ok Galinger, segit skjótt, skulum vér fá[3] skattinn? Þá svaraði Galinger: Þú ert of bráðskeyttr. Vit riðum betr en fim fjórðunga eins vegar, þar sem fleira liggr en 100 þúsunda líkama. Karlamagnús er heill ok vel haldinn, hann er inn vápndjarfasti maðr, hann hafði fyrir löngu skipat fylkingar sínar. Hann sendir þér at vísu skattinn; með þessum gullsteinda [skildi ok laufsteindum hjálmi[4] sendir hann þér höfuð sonar þíns ok armlegg hans hinn hœgra, ok at þeir sé eigi lygimenn er þenna skatt sendu þér, þá fylgir fingrgull fingri hans. Agulandus leit höfuð sonar síns. En Rollant gaf honum svá mikit högg, at augu hans lágu [úti á kinnunum,[5] ok í sundr armleggr hans. Sem konungr kendi fingrgullit, þá visnaði alt hjarta hans ok alt megn hans, ok lagðist ofan á skjöldinn, ok tóku þeir hann í faðm sér. Ok sem hann vitkaðist, þá mælti hann: Hvar eru komnir fjórir guðar várir, er þoldu at son minn væri drepinn? Þá svaraði Galinger: Herra, kvað hann, þá er kristnir menn ræntu oss guðum várum, þá gáfu þeir þá pútum, ok brutu þá í sundr. Alla tel ek þá svívirða er á slíka guða trúa, ok aldri má ek því trúa, at þeir geri jartegnir. Sem konungr heyrði [þessi tíðendi,[6] þá sprakk hann náliga af harmi, ok leit hann þá opt á höfuð sonar síns Jamunds, ok sortnaði hann allr, svá at hann var sóti svartari, en áðr [var hann[7] hverjum manni fríðari. Sonr, kvað hann, mikill er minn harmr, fyrir þínar sakir kom ek hingat í herför; fríðr son, ek kórónaða þik, en þú snerist í móti mér mjök úráðliga, aldri síðan þú fékkt kórónu fylgdir þú mínum ráðum, heldr hafðir þú þeirra úráð, er hvárki vildu mína sœmd né þína. Nú ef þeirra ráð drápu þik, þá skulu þeir ok vera drepnir. Galinger bróðir, segir hann, seg þú mér athæfi Karlamagnús. Galinger svarar: Engi maðr [er sá[8] lifandi, segir hann, ef Karlamagnús sér til reiðum augum, at eigi muni hræðast andlit[9] hans, ok mikil ógn stendr af honum, ok mikil gæfa ef hann heldr viti sínu. Kristnir menn trúa á einn guð, þann er ofan kom af himnum til hjálpar mannkyninu; hann klæddist mannligri mynd af líkam[10] heilagrar Marie. Þessi hin helga mær gat hann svá guðdómliga án allri fýst til karlmanns, hon fœddi hann í Bethleem,[11] hann var skírðr [af

[1]) Lemferr *a.* [2]) [sendimenn komandi *a.* [3]) hafa *a.* [4]) [hjálmi ok steinda skildi *a.* [5]) [niðri á kinnum hans *a.* [6]) [þat *a.* [7]) [*tilf. a.* [8]) [*tilf. a.* [9]) augu *a.* [10]) likama *a.* [11]) Bedelem *a.*

Johanne baptista í ánni[1] Jordan ok bauð síðan helga kristni, ok hverr sem trúir á þenna guð fullkomliga, hann skal vera[2] hólpinn á dómadegi.

90. Þá er sendimenn kómu til Karlamagnús, þá hugðust þeir mundu fá skattinn, ok gera kristna menn þræla skurgoða sinna en sér at knöpum ok hestasveinum, en ina ríkustu drepa svívirðuliga; en þeir fengu eigi í skattinn fjóra falspenninga, heldr fóru þeir aptr með makligum skatt ok fœrðu Agulando höfuð Jamunds. Agulandus sjándi höfuð sonar síns gerðist þá óðum manni líkari í reiði sinni, ok mælti: Sonr, kvað hann, mikill angr[3] er mér, er þú komt mér í þessa ferð. Vér báðum guði vára af öllu hjarta, at þeir skyldu oss við hjálpa; ek valda til smíðar þeim in skírustu gull mörg af[4] Arabialandi ok ina dýrustu steina, er finnast í heimi; með verði þessarra [dýru steina[5] mætta ek keypt hafa sjau inar ríkustu borgir. Með þessum gimsteinum lét ek búa armleggi ok fótleggi, háls ok herðar, fœtr ok fingr, bak ok brjóst, síður ok lendar, ok alla líkami þeirra frá hjassa[6] til ilja. Þú gerðir Entor merkismann þinn, er mik vildi reka or ríki mínu ok leggja undir sik Affrikam, en nú féll honum svá makliga, at hann féll í inum fyrsta bardaga; vel sé þeim höndum er honum bönuðu. Síðan lét Agulandus taka höfuð or hjálminum; ok er honum var fengit bleikt ok blóðugt ok litlaust, er lifandi var fagrt ok frítt, þá kysti Agulandus munninn blóðgan, þar sem heilinn rann or; hann faðmaði höfuðit ok lagði á brjóst sér. Þá mátti sjá Affrikamenn af harmi ok hugsótt hnípa ok gráta, [allir inir vaskustu skulfu[7] af hræzlu.

91. Nú teljum vér frá Karlamagnúsi konungi ok hans athæfum. Hann hefir nú albúnar fylkingar sínar, ok hann sjálfr vel búinn, ok var þá in fyrsta fylking upp komin á brekkuna. Ok er Affrikamenn[8] sá þá, þá var[9] engi svá harðr í öllu liði þeirra, at eigi minkaðist máttr hans ok megn[10] af hræzlu. Þá sá heiðingjar, at þrír riddarar riðu ofan af fjallinu fyrir fylkingum með silfrhvítum brynjum ok inum beztum herklæðum, ok leyptu at inni fyrstu fylking heiðingja. Oddgeir er merkismaðr ok [Rollant, þessir váru foringjar fyrir þessi fylking, er or fjallinu reið ofan.[11] Karlamagnús kallaði þá páfann til sín ok mælti:[12] Komit hingat Mauri, segir hann, guðs vinir ok mínir. Lof sé almátkum guði, [segir páfinn,[13] ek hefi mikinn hlut[14] af krossi [dróttins, þeim er líkamr hans[15] var píndr á. Nú skaltu, herra Mauri, skrýðast ok bera þenna inn helga kross.

[1]) [í *a.* [2]) *tilf. a.* [3]) harmr *a.* [4]) or *a.* [5]) [*mgl. a.* [6]) hjarsa *a.* [7]) [alla hina vöskustu skjálfa *a.* [8]) *saal. a*; Frankismenn *A.* [9]) varð *a.* [10]) megin *a.* [11]) [Rollant er foringi fyrir fylking þeirri *a.* [12]) þá pávinn *tilf. a.* [13]) [*mgl. a.* [14]) hluta *a.* [15]) [þeim er líkamr dróttins várs *a.*

Þá svarar Mauri: Þú mælir kynliga; þú fékkt mér herklæði, brynju, hjálm ok skjöld, ok sit ek herklæddr á hesti þessum ok heill. Þat segi ek þér, at ek skal eigi [skyldast messufötum at skrýðast[1] fyrr en þessi bila mér, ek skal svá vaskliga þjóna guði ok þér, at heiðingjar skulu vápn mín dýrt kaupa. Þá mælti páfinn: Hví ertu svá horfinn mér? Eigi em ek horfinn yðr, herra, segir hann, nema nú verðr svá at vera fyrst[2] at sinni. Þá kallar páfinn til sín Ysopum:[3] Þú ert, kvað hann, inn besti klerkr, þú skalt taka með[4] þessum helgum dómi. Þá svarar hann: Herra, segir hann, þú ert of bráðskeyttr. Til hvers tók ek þessi vápn ok herklæði? fá mér þau vápn er ek var vígðr í, í guðs nafni þá skal ek gera [allan yðvarn vilja.[5] Herra erkibyskup hlýddi til orða þeirra, ok sat hann á einum rauðum vápnhesti inum vildasta.[6] Þessi erkibyskup var öflugliga vaxinn, hinn fríðasti maðr sýnum.[7] Hann reið þá fram í miðjan flokkinn ok mælti til páfans: Herra, segir hann, lengi hefi ek hlýtt til orða yðvarra. Vér erum allir búnir at biðja fyrir oss, en þér getit eigi þess, at vér skulum berjast. Mjök sé ek yðr áhyggjufulla[8] um einn lítinn hlut; ef þér fáit mér þann inn dýra helgan dóm, er þessi nítaði[9] við at taka, [þá vil ek gjarna við taka, því at ek væntir at mér man engi tálman af því standa.[10] Þá svarar páfinn: Vinr, kvað hann, hvar vartu fœddr? Herra, segir hann, fyrir norðan fjöllin í Frakkakonungs ríki. Ek var munkr lengi[11] í Norðmandio í borg þeirri er Kum[12] heitir, í munklífi því er Uniages heitir. Þar var ek betr en 10 vetr, ok vildu þeir gjarna kjósa mik til ábóta yfir sik. Þar var ek kosinn ok fyrir því brott tekinn[13] ok gerr erkibyskup í Reims borg. Ok þat skaltu [vita ok fullkomliga[14] reyna, at þér skal líka mín þjónusta fyrir þetta kveld. Þá mælti páfinn: Guð veit, kvað hann, þú mælir forkunnar vel, leyn mik eigi, hvat þú heitir. Herra, segir hann, Turpin kalla menn mik. Þá mælti páfinn: Guð blezi þik ok [gefi þér góða hamingju.[15] Ertu svá hraustr maðr, at þú vill bera merki fyrir liði váru? Já, [segir hann,[16] þess bið ek at þér gerit svá; ok ef þér vilit mínum ráðum fylgja, þá hefi ek þúsund riddara, er fyrir mér þjóna at borði, ef þér vilit at þeir fylgi mér, þá vil ek vera í fylking Oddgeirs ok Rollants, ok æ meðan nökkurr gerir mínum herra úfrið, ok má ek sjálfr með mínum vápnum[17] hjálpa, þá vil ek í orlofi þat vinna. Sem ek kem til kirkju minnar, þá vil ek vera í allri þjón-

[1]) [skrýðast öðrum messufötum *a.* [2]) *mgl. a.* [3]) Ysope *a.* [4]) við *a.* [5]) [*mgl. a.* [6]) sterkasta *a.* [7]) í andliti ok allr vaskligr *a.* [8]) áhyggjufullan *a.* [9]) neitaði *a.* [10]) [*mgl. a.* [11]) marga daga *a.* [12]) Kuin *a.* [13]) rekinn *a.* [14]) [*mgl. a.* [15]) [láti þér gæfu fylgja *a.* [16]) [guð veit, herra *a.* [17]) ráðum *a.*

ustu svá[1] sem ek em til vígðr. Þá svarar páfinn: Vant er um þetta[2] at tala, [nú vill þú bæði erkibyskup ok riddari vera.[3] Erkibyskup svarar þá: Eigi þori ek, herra, at deila við yðr, ef þér vilit eigi þessu játa, þá aflit[4] yðr annan merkismann. Þá mælti páfinn: Þú skalt þetta leyfi þiggja, en dýrt muntu kaupa.

92. Þá sá þeir Affrikamenn nálgast, ok géngu þá horn ok lúðrar, trumbur ok tabor, [ok gerðist inn mesti gnýr[5] í hvárutveggju[6] liðinu. Sem erkibyskup fékk þetta leyfi, þá kysti hann[7] hœgra fót páfans, ok fékk páfinn honum krossinn. Erkibyskup laut þá páfanum ok tók þá krossinn með miklum fagnaði, ok fylgdu honum sjau þúsundir riddara. Sem [erkibyskup kom til Oddgeirs með krossinn,[8] þá sté hann af hestinum, ok alt lið hans, [ok lutu krossinum með miklum góðvilja ok grétu af fagnaði. Þá mælti Oddgeir: Rollant, segir hann, ek festi þér trú mína tryggliga, at Agulandus er at vísu dauðr, ef hann bíðr vár. Oddgeir inn hrausti riddari sté þegar á hest sinn, ok alt lið hans,[9] ok riðu þeir þá ofan af brekkunni. En þrír riddarar kómu þá skundandi fram fyrir fylkingar til liðsins, ok mæltu ekki, fyrir því at engi orti orða[10] á þá. Ok er þeir kómu í framanvert brjóstit, þá mælti Oddgeir til þeirra hárri röddu: Þú maðr á hinum hvíta hestinum, hví skundar þú svá mjök, eða hvat heitir þú? Þá svarar hann: Still þik, segir hann, ok mæl hœverskliga; Georgium kalla menn mik, þar sem ek var. Ek em hvertvitna[11] vanr at gera ina fyrstu atreið í bardaga, en nú hefi ek gefit ina fyrstu atreið þessum[12] unga sveini með þeim formála, at aldri skal honum bleyðiorð or munni koma. Sem Oddgeir fann, at þessi var at sönnu Georgius inn helgi, er talaði við hann, þá mælti hann: Herra, kvað hann, ek gef hann í guðs gæzlu ok þína. Ok lýkr[13] hér inni áttandu[14] bók ok hefr upp ina níundu.

93. Nú ríða öðrum megin í móti þeim Affrikamenn ok láta ganga horn ok lúðra. Kristnir menn höfðu ok yfrin[15] góð horn ok hvella lúðra. Madeqvin[16] sat á inum skjótasta hesti, svá at engi var vildri[17] vápnhestr í [öllum her Affrikamanna.[18] Hann var í góðum panzara ok á höfði silfrhjálmr,[19] gyrðr löngu sverði. Jt ríka merki hans blakaði fyrir vindinum. Jnn helgi Georgius reið fram með Rollant ok hélt í[20] beisl hans ok mælti: Hræzt eigi[21] þó at hann sé hár ok mikill. Þá svarar Rollant: Heill[22] herra, segir hann,

[1]) minni *a.* [2]) mál *tilf. a.* [3]) [því at þú vilt bæði vera erkibyskup ok riddari *a.* [4]) fáit *a.* [5]) [*mgl. a.* [6]) hvárutveggja *a.* [7]) þegar *tilf. a.* [8]) [Oddgeir leit erkibyskup með krossinum *a.* [9]) [*mgl. a.* [10]) orð *a.* [11]) hvervetna *a.* [12]) hinum *tilf. a.* [13]) lyktar *a.* [14]) áttu *a.* [15]) yfrit *a.* [16]) Mandikvin *a, her og senere.* [17]) vildari *a.* [18]) [öllu Affrikalandi *a.* [19]) silfrhjálm ok *a.* [20]) *mgl. a.* [21]) hann *tilf. a.* [22]) Heilagr *a.*

þat skal ek gjarna gera. Sem Rollant hafði þenna mann[1] sét ok heyrt orð hans, er guð virðist[2] til hugstyrks ok hjálpar honum at senda ok kenna honum riddaraskap, ok játtaði honum ina fyrstu atreið, at engi skyldi honum mega standast, þá leit hann Madeqvin, er reið or fylking sinni at leita þess er [hann vildi fyrst við[3] eiga. Rollant hélt spjótinu til lags ok skildinum sem fastast at brjóstinu, ok keyrðu báðir[4] sem skjótast[5] hestana ok lagði Madeqvin fyrr[6] til Rollants í hinn efra fjórðung skjaldarins ok í gegnum skjöldinn; en brynjan bilaði eigi, ok brast[7] þá spjótit í 3 hluti. En Rollant lagði til hans af öllu afli, ok dugðu [honum lítt vápn hans; því at Rollant blóðgaði alt sverð sitt í líkama hans. Sú var lykt á viðrskiptum þeirra, sem nú má heyra, at í fyrstunni sem Rollant lagði til hans spjótinu, þá var spjótskaptit svá hart at eigi brotnaði, en hann ungr ok úvanr við riddaraskipti, ok varð svá búit at vera, ok eigi gat hann riðit hann af hestinum. Ok því næst greip hann til Dýrumdala ok brá ok skundaði at höggva hann. En Rollant (var) lítill, en hinn mikill sem risi, at varla náði hann sverðinu upp á háls honum ok hjálm, en þó tók sverðit brott allan hlut hjálmsins er fyrir varð, ok svörðinn af hausnum ok af honum hit hægra eyra, svá at heilinn fylgdi. Hann hafði armleggi digra ok langa. Sverðit sleit brynjuna tvefalda ofan á lendar honum, ok nam eigi staðar fyrr en í hestinum. Allr sá hlutr líkama hans sem sverðit tók var í sundr klofinn ok slitinn.[8] Sem[9] inn helgi Georgius ok inn helgi Demetrius ok[10] Merkurius ok Oddgeir merkismaðr þeirra sá Rollant svá vaskliga gefast, at hann reið at einni fylking heiðingja ok hjó niðr alla[11] er hans biðu,[12] sem þeir kómu til hans, þá hjuggu þeir svá stórt, at allir féllu er fyrir þeim vurðu. En þat veit engi, hvárt þeir váru með fullu dauðir, er þessir inir helgu menn feldu, nema svá lágu þeir kyrrir, at eigi hrœrðust [á þeim nökkurskonar þeirra limir.[13]

94. Nú eru þeir þrír riddarar í komnir bardagann, er á hvítum hestum riðu ofan or fjallaklofanum.[14] Þar var hinn helgi Georgius ok Demetrius ok Merkurius. Rollant hafði þá höggvit it fyrsta högg, sem inn helgi Georgius hafði lofat honum. Eigi vissu menn dœmi til, at slíkr maðr hjoggi[15] svá stór högg. Þar mátti þá sjá fjórtán höfðingja búklausa liggja[16] hjá Madeqvin. En Oddgeir feldi sex menn, ok kristnir menn skunduðu svá mjök, at Affrikamenn kómust

[1]) sendimann *a.* [2]) virðir *a.* [3]) [vildi við hann *a.* [4]) *tilf. a.* [5]) fastast *a.* [6]) fyrri *a.* [7]) flaug *a.* [8]) [*saal. a*; *A ganske kort:* lítt vápn hans honum, ok hratt Rollant honum dauðum á jörð. [9]) Ok sem *a.* [10]) hinn helgi *tilf. a.* [11]) þá *tilf. a.* [12]) ok *tilf. a.* [13]) [þeir né upp risu. *a.* [14]) fjallinu *a.* [15]) hyggi *a.* [16]) *mgl. a.*

eigi í brynjur sínar. En Frankismenn eru vel herklæddir, kómu at þeim er berir váru, ok feldu þykt heiðingja. Kristnir menn váru eigi fleiri en tvær þúsundir ok sjau hundruð riddara, en inir heiðnu váru saman 20 þúsundir. Þar sýndi guð kristnum mönnum sína miskunn. Heiðingjar slitu fylking sína, svá at aldri síðan koma þeir í mót Frankismönnum. Sem Affrikamenn sá, at þeir höfðu látit höfðingja sinn, þá féngu þeir mikla hugsótt ok mæltu: Madeqvin herra, segja þeir, í öngu landi var þér jafngóðr höfðingi; þessi er lítill sveinn er þér banaði, mikit afl var gefit svá litlum dverg, at hann klauf inn mesta mann herklæddan, ok ef aðrir eru jafnsterkir, þá mun Agulandus hart niðr koma, ok öll Affrika mun snúast í harm ok [hugar ekka.[1]

95. Turpin erkibyskup bar þann dag inn helga kross, í öllum herinum var engi[2] ágætari heilagr dómr. En svá sýndist Affrikamönnum hann mikill ok ógurligr ok bjartari sólar ljósi, at[3] af því féll hræzla[4] á þá. En nú eru várir riddarar komnir at fylkingu Akarz[5] or Amflor. [Í fyrstu fylking Affrikamanna[6] váru tuttugu þúsundir. Þessir gerðu Madekvin merkismann sinn, er Rollant drap[7] í augliti þeirra. Þessir fjórir er honum fylgdu, feldu svá marga, at engi kunni[8] telja. Þessi hinn helgi kross var svá bjartr, at allan dalinn lýsti af hans ljóma ok ljósi. En Akarz or Amflor þótti[9] undarligt ok kynligt, með hverjum hætti þeir kómu svá skjótt á hendr honum ok réðu til hans manna. En Rollant með brugðnum Dýrumdala hjó svá stór högg á báðar hendr sér, at hann hræddist enga ógn síðan er hinn helgi Georgius styrkti hann, ok þat er frá honum [at segja sannast,[10] at aldri síðan gerði hann svá mikit mannspell [í þessum bardaga.[11]

96. Girarðr hertugi or Satreborg[12] inn hraustasti[13] höfðingi hann gerði af sínum mönnum þrjár fylkingar til 3 bardaga af ungum mönnum vöskum ok vel vápnuðum. Þér inir ungu menn, segir hann, verit harðir ok vápndjarfir, ok þá er spjótin brotna, takit skjótt til sverðanna. Hræðizt alls ekki Affrikafólk, þeir eru vándir[14] villumenn, ok ef ek rek þá eigi á flótta tuttugu þúsundir heiðingja með[15] tíu þúsundum, þá látit eigi optar at mínum orðum. Girarðr hefir nú skipat liði sínu, hann talaði fyrir þeim, eggjaði þá ok hugdirfði ok mælti:[16] Dýrligir drengir, segir hann, Affrikamenn eru vándra manna sveit, únýtir ok huglausir, ek skal vinna af þeim þat er þeir sitja á ok auðga af fé þeirra land várt ok ríki. Nú skulu

[1]) [sút *a.* [2]) eigi *a.* [3]) ok *a.* [4]) *saal. a*; hræzlo *A.* [5]) Akadz *a*, *her og senere.* [6]) [Affrikamenn hinnar fyrstu fylkingar *a.* [7]) hjó *a.* [8]) at *tilf. a.* [9]) undi *a.* [10]) [segjanda *a.* [11]) [*mgl. a.* [12]) Sakrisborg *a.* [13]) ágæti *a.* [14]) ok *tilf. a.* [15]) þeim *tilf. a.* [16]) svá *tilf. a.*

vér vaskliga þjóna guði, er alt hefir í sínu valdi, at vér aflim oss eilífan fagnað. Þeir svöruðu honum ástsamliga ok játtuðu allir hans vilja [at gera í öllu.[1] Boz ok Clares váru foringjar þeirra ok merkismenn, ok váru þeir þá þúsund ok fim hundruð inna [ríkustu riddara;[2] hverr þeirra skundaði fyrir annan at sýna sína hreysti. Þá stalst einn njósnarmaðr heiðingja ok reið skyndiliga í gegnum einn lítinn skóg, ok stefndi sem hann mátti[3] skjótast at höfuðmerki Agulandi. Ok sem hann sá konung, þá œpti hann hárri röddu: Herra Agulande, segir hann, Makun signi yðr; hér ferr nú, segir hann, [á hœgri hönd yðr[4] einn riddaraflokkr, í öllum herinum finnast[5] eigi fríðari menn né betr herklæddir; þessir trúa á son innar helgu Maríu. Sem Affrikamenn heyrðu þessi tíðendi, þá bræddust þeir allir við, ok er þeir litu merki hertugans ok alt liðit herklætt, þá fékk þeim mikla ógn. En er Agulandus leit þá ríðandi, þá fýsti hann [hvárki at læja[6] né leika. Girarðr hertugi reið nú at þeim með öflugum sterkleika,[7] ok er atreið hans eigi sem[8] huglausra manna. Hann ætlar nú heiðingjum svá harðan leik, at aldri fyrr höfðu þeir slíkan. Séð[9] hversu vápndjarfr hann var, at hann þorði at eiga viðskipti[10] við þann konung, er fimtigi konungdóma hafði í[11] sínu valdi; í hans fylking váru hundrað þúsunda heiðingja[12] ins vildasta liðs, er honum fylgdu.[13] En sá var[14] vitr at vísu ok vaskr höfðingi, er slíkr var sem Karlamagnús konungr, er með sextán þúsundum[15] þorði á hann at ríða, ok fyrr en Agulandus fái[16] sótt Franz, þá verðr hann at vísu hryggr ok reiðr.

97. Hertuginn Girarðr,[17] hœferskr, harðr ok grimmr úvinum, reið ramliga at þeim ok gerði þrjár fylkingar, herra Boz ok Clares váru foringjar þeirra. Í hinni fyrstu fylking var[18] þúsund ok fim hundruð riddara, [ok riðu þeir þá svá þröngt, at eigi mátti einn spörhaukr fljúga í millum spjóta þeirra.[19] Affrikamenn sá kristna menn nálgast ok vápn þeirra glóa [af skínandi sólu, ok[20] riðu þegar at segja Agulando. Sem hann heyrði þetta, þótti honum kynligt, ok mælti Ulien þá til konungs: Herra, kvað hann, óttizt ekki, þeir hafa öngan liðskost til þess at gera þér[21] skaða, hálft lið várt etr meira slátr í eitt mál en þeir eru allir, alt afl þeirra er eigi vert eins glófa;[22] ef þér fáit mér 20 þúsundir riddara, þá skal ek svá verja[23] þeim er nú fara hér, at allir skulu dauðir liggja áðr[24] þér farit[25]

[1]) [*mgl. a.* [2]) [hraustustu manna *a.* [3]) gat *a.* [4]) [at yðr á hœgri hönd *a.* [5]) eru *a.* [6]) [eigi hlæja *a.* [7]) styrk *a.* [8]) lík *a.* [9]) Sjáit *a.* [10]) vápnaskipti *a.* [11]) undir *a.* [12]) heiðinna riddara *a.* [13]) fylgdi *a.* [14]) er *a.* [15]) þúsundir *a.* [16]) geti *a.* [17]) var *tilf. a.* [18]) váru *a.* [19]) [*tilf. a.* [20]) [*tilf. a.* [21]) herr (!) *a.* [22]) penings *a.* [23]) veita *a.* [24]) fyrr en *a.* [25]) at *tilf. a.*

sofa. Ef ek geri eigi svá, þá sé allir sporar mínir af hendi[1] skornir ok topprinn klýptr or enni hesti mínum; svá samir at þjóna huglausum riddara. Þá svarar Agulandus: Þú ert hraustr maðr ok mjök lofandi, þú ert minn systurson. Nú vil ek, at þú hjálpir mér við í ráðum þínum ok riddaraskap; ef vér megum þetta ríki vinna, þá gef ek þér þat skattalaust ok skylda. Þá svarar Ulien: Ekki beiði ek meira, segir hann. Ok [gékk þegar ok kysti[2] hönd hans. En inn gamli Galinger vildi[3] öngum kosti því játa, ok mælti: Herra, segir hann, mjök angrar mik nú; þér sendut[4] mik til Karlamagnús konungs, ok fór ek sem sendimaðr yðvarr at krefja réttar yðvars ok at heitast við þá ok víss verða liðsfjölda þeirra. En Karlamagnús konungr er [inn mesti kappi, ok allir þeir er honum fylgja,[5] ok fyrr láta þeir alla sik höggva í sundr kvika[6] en þeir neiti guði sínum;[7] þeir eru eigi bleyðimenn, fyrr en þú kemr þeim [af þessu landi,[8] þá veita þeir harða viðstöðu. Trú [með engum hætti hvat Ulien rósari segir. Þá mælti Ulien ekki,[9] hann skalf allr, ok brann hann sem eldr [væri lagðr á hann,[10] augu hans glóuðu sem glœðr, er hann heyrði hvat Galinger talaði, ok lét þegar saman blása liðinu, ok mundu þeir þá illa deilt hafa, ef eigi hefði Agulandus konungr í þat sinn stöðvat þá.

98. Sem Ulien gékk ífrá konungi, þá mælti hann hárri röddu: Fylgit mér,[11] segir hann, þat veit Makun, at ek skal svá fagna þeim sem ek kann. Hann [hafði þá við[12] sér svá mikit lið, sem honum líkaði, ok [var þat lið[13] betr en tuttugu þúsundir riddara. Agulandus dvaldist eptir undir[14] höfuðmerkinu, ok með honum Abilant ok Meliades konungr ok Moadas mikli ok Amuste með tveim sonum sínum. Sem Ulien hafði fylkt liði sínu, þá gerði hann Jafert foringja fyrir inn fyrsta fylkingararm. Þessi fylgdi konungi utan um hafit; en þeir váru eigi svá viðbúnir sem inir fyrri, því at þessir höfðu hvárki brynjur né hjálma, nema[15] boga ok örvamel[16] á baki ok brynjuhetti læsta á höfði ok öxar bundnar við söðulboga. Í allri þeirra[17] fylking váru eigi önnur hervápn.[18] Ein fylking kom þá í móti þeim ríðandi [af Frankismanna her,[19] aldri sá maðr jafnmarga menn betr búna sem þá fylking, er herra Girarðr hafði fóstrat með sœmdum þeim er guð [gaf honum.[20] Sá er foringi þeirra var leiddi þá í svá [þykkva þröngd fylkingar,[21] at þó at eitt epli væri kastat

1) *saal. ogsaa a.* 2) [kysti hœgri *a.* 3) með *tilf. a.* 4) *saal. a*; sendit *A.* 5) [hinn harðasti maðr ok hinir vöskustu menn þeir er honum fylgdu *a.* 6) *mgl. a.* 7) ok trú sinni *a.* 8) [or þessu ríki *a.* 9) [eigi, kvað hann, Ulien hrósara. Þá mátti sjá Ulien reiðast *a.* 10) [lægi á honum *a.* 11) allir *tilf. a.* 12) [tók þá með *a.* 13) [hafði hann *a.* 14) *tilf. a.* 15) heldr *a.* 16) örvamæli *a.* 17) þeirri *a.* 18) herklæði *a.* 19) [Frankismanna *a.* 20) [hafði gefit *a.* 21) [þykkri fylking *a.*

í millum þeirra, þá mundi löng morginstund líða áðr þat félli á jörð. Ok þá reið[1] Clares einn or fylkingunni vel lásboga skot fram frá öðrum ok reisti upp merki sitt. Þá mælti Ulien við Jafert félaga sinn: Þessi [er fylking öll oss[2] gefin, öll Affrika skal sœmd af [þeirra vápnum. Þá bað Jafert at gera ina fyrstu atreið, ok þat játaði honum Ulien.[3] ok riðust þegar at ok leyptu hestunum[4] sem mest máttu þeir hlaupa, ok lagði Jafert í skjöld Clares, svá at skjöldrinn bilaði, en brynjan spiltist eigi, ok brast þá spjótit í tvá hluti. En Clares lagði til hans í járnbundinn skjöld, ok dugðu honum engar hlífðir,[5] því betr en [faðm af spjótinu setti hann[6] í gegnum hann. Affrikamenn réðu[7] þá til kristinna manna, en þeir[8] vel búnir inum vildustum herklæðum ok vápnhestum[9] ráku þá vaskliga af sér. En Affrikamenn höfðu engar brynjur nema leðrpanzara, ok gerðu kristnir menn þá úbœtiligan skaða á Affrikamönnum, klufu höfuð ok herðar, limi[10] ok líkami, svá at allir vildu þá flýja. Ulien œpti þá á [sína menn þrim[11] sinnum ok mælti: Inir vándu pútusynir, sagði hann, illa svívirði[12] þér oss, [er þér bilit nú[13] í svá mikilli þurft. Þar lágu svá margir drepnir ok af hestum fallnir, at allir váru vellirnir huldir[14] af þeim. Frankismenn eru vel herklæddir, en Affrikamenn eru vápnvana[15] ok berir. Ok þegar sem herra Girarðr kom með sínum fylkingum, þá sleit hann þegar flokk heiðingja. Affrikamenn máttu [eigi lengr við standast,[16] er þeir sá sína menn svá í sundr klofna, at vellir[17] váru huldir af líkum þeirra. Þá mælti Ulien: Vesall em ek, segir hann, hvat skal af mér verða. Ek hugða[18] alla Eyropam undir mik ok mitt vald leggja mega ok skipta því ríki í millum minna manna,[19] ok alla kristni únýta ok svívirða, en vár lög tigna ok styrkja; nú [verða várir úvinir yfirsterkari, en vér úgæfumenn ok huglausir verðum[20] undan at flýja. Í því snerist hann aptr á þeim inum góða hesti, er varla fannst nökkurr jafngóðr. Hverr sá er honum mœtti fékk hart viðrskipti. Sem hann leit Valter mikinn skaða gera[21] heiðingjum, þá stefndi hann at honum, ok lagði hann í skjöldinn ok brynjuna ok herbergði spjótit í hjarta hans ok skaut honum dauðum af hestinum. Sem Clares sá þetta, þá andvarpaði hann af öllu hjarta, en Affrikamenn feldu þá kristna menn. Þar mátti þá sjá marga góða hesta, er fyrirlátit höfðu sína herra, ok géngu þar um völluna slítandi beislin. Ulien sat á rauðum hesti

[1]) réð *a.* [2]) [fylking er oss öll *a.* [3]) [vápnum várum, ok bað þá Jafert gera hina fyrstu atreið, ok þat játaði hann honum vel *a.* [4]) hestarnir *a.* [5]) hlífar *a.* [6]) [en faðmr á spjóti hans gékk *a.* [7]) riðu *a.* [8]) váru *tilf. a.* [9]) ok *tilf. a.* [10]) limu *a.* [11]) [þá 4 *a.* [12]) svívirðit *a.* [13]) [*tilf. a.* [14]) klæddir *a.* [15]) vápnvani *a.* [16]) [þá eigi standa við lengr *a.* [17]) allir vellirnir *a.* [18]) hugðumst *a.* [19]) riddara *a.* [20]) [verð ek sem úgæfumaðr ok huglauss *a.* [21]) á *tilf. a.*

svá góðum, at engi[1] mátti finna annan betra, ok reið hann þá or þrönginni[2] harmandi skaða sinna manna ok spjót sitt öllu afli hefjandi.[3] Spjótskapt hans var or Affrikalandi, þess viðar er Affrikamenn[4] kalla dand,[5] þessi viðr kann varla bogna né brotna. Spjót hans var ok it hvassasta. Hann reið þá ok fann engan svá dramblátan, ef Ulien mœtir, at lofar né hrósar sínum hlut; ef hann höggr eða leggr, þá [stenzt honum hvárki ístig[6] né söðulgerð. Í þeirri framreið feldi hann fjórtán menn af hestum, ef hann væri kristinn, þá væri [hvárki Rollant né Oliver honum vildri riddari.[7]

99. Þá kom Basin[8] hertugi hleypandi, er allan dag leitaði hans, ok œpti hárri röddu á bak honum: Ef þú snýst við undan flýjandi, þá mantu falla. Sem Ulien leit hertugann komanda, er allan dag hafði leitat hans, ok hélt spjótinu til lags, ok eptir honum fara þúsund ok fimm hundruð riddara, ok mátti ekki at gera, þá stefndi hann sem skjótast or þrönginni[9] ok létti eigi fyrr en hann kom á [brekku nökkura,[10] ok tók þá skjöldinn ok hélt sem fastast at[11] sér til hlífðar ok festi fœtr sína með ístigum af[12] öllu afli, ok œpti þá hárri röddu á herra Basin ok mælti: Þat veit [trú mín,[13] segir hann, fyrir dauðan halt mik, ef ek fær[14] þér eigi félaga. Þá kom hertuginn á[15] einum föxóttum Gaskunie[16] hesti, er Droim konungr gaf honum. Sem þeir mœttust á flugskjótum[17] hestum, þá lagði hvárr til annars með hörðum lögum,[18] svá at hvárgi gat sér í haldit söðlinum, ok féllu báðir svá at beggja þeirra axlir lágu í sandinum. Sá er þar væri undir hamrinum hjá olifatré ok sæi, hversu þessir tveir riðust af hestunum, þá mætti hann ok[19] sjá, at þeir ljópu skjótt upp ok tóku skjölduna ok hnefuðu spjótin. Nú sá Ulien at kristnir menn nálguðust hann ok at hann mundi dauða síns þar bíða. Þá skundaði hann til hestsins ok kom sér á hann, svá at hann [studdist á spjótit allr[20] meðan hann steig upp. Vei sé því ístigi er við honum tók. Þá kómu Affrikamenn fjórar þúsundir ok snerust umhverfis Ulien at verja hann. En Clares gat eigi nálgazt hann at því sinni. Þá kómu sendimenn leypandi fram at höfuðmerki Agulandi ok œptu hárri röddu: Herra Agulande, sögðu þeir, alt snýst oss[21] til vandræða [á þessum degi;[22] kristnir menn eru svá járni klæddir ok stáli, at engi maðr kemr sári[23] á þá, þér munut eigi[24] sjá fjóra yðra menn aptr komna. Sem konungr skildi

[1]) eigi *a.* [2]) þröngunni *a.* [3]) hnefandi *a.* [4]) Affrikar *a.* [5]) dant *a.* [6]) [heldr honum hvárki stigreip *a.* [7]) [Rollant ok Oliver eigi vildri riddari en hann. *a.* [8]) Bosin *a, her og senere.* [9]) þröngunni *a.* [10]) [brekkuna *a.* [11]) *mgl. a.* [12]) *mgl. a.* [13]) [Makon *a.* [14]) fæ *a.* [15]) *saal. a*; at *A.* [16]) Gaskuniar *a.* [17]) flaugskjótum *a.* [18]) ok höggum *tilf. a.* [19]) nú *a.* [20]) [allr á spjótinu *a.* [21]) nú *a.* [22]) [í dag *a.* [23]) sárum *a.* [24]) fyrir (!) *a.*

[orð þeirra,[1] þá reiddist hann ok lét búast 80 þúsunda er í hans valdi váru.

100. Nú verðum vér at [rœða um[2] athæfi Karlamagnús ok hins helga Georgii, er með 3[3] mann kom hversdagliga til bardagans undarliga digr [ok drambsamr,[4] öflugr ok vápndjarfr ok vel hugaðr. Hann mælti til sinna manna: Herrar, segir hann, hvat gerit þér eða hvat hræðizt ér,[5] fyrir hví sœki þér eigi at[6] þessum mönnum erfðir þeirra ok sœmdir, er þeir ok forellrismenn þeirra hafa á setit? af þeim [skulum vér[7] verða ríkir við takandi sælum þeirra ok sœmdum, vér skulum skipta í millum vár eignum þeirra ok ríki. Vér erum vel 100 í móti [þeirra tveimr.[8] Vitið at vísu, ef þér látið undan komast einn þeirra, þá verð ek aldri feginn, meðan ek lifi. Því næst gerðist bardagi svá harðr, at hvárki gat hlíft hjálmr né brynja. Kristnir menn váru þá mjök angraðir, hestar þeirra mœddust ok máttu ekki laupa, margir fengu eigi hlaupit um[9] röst. Ef eigi sendir guð þeim nú skjóta viðrhjálp, þá mun Karlamagnús bæði verða hryggr ok reiðr ok þúsund barna í hans ríki föðurlaus ok fátœk. Því næst kom Salomon konungr ok með honum [Angiomenn ok Oransel[10] ok Bretar. Þeir riðu spakliga ok gerðu öngan gný, til þess er þeir kómu svá nær bardaganum, at eigi var lengra til en örskot. Þá mælti Hugi jarl: Herra Salomon, segir hann, þú skalt hér dveljast með drekamerki váru,[11] en ek vil fara at sjá athæfi kristinna manna várra. Rollant er barn en Oddgeir er dugandi maðr, ok hræðumst ek mjök at vér týnum Rollant. Nú ef vér verðum[12] þurfi, þá hjálpit[13] oss við. Þá mælti konungr: Farit í guðs signan ok fagnaði. Þá reið jarlinn í brott með þúsund riddara hraustra. Þessir váru eigi herklæddir sem knapar, þeir höfðu svá öruggar brynjur, at aldri fölsuðust þær fyrir vápnum, ok sátu þeir á [góðum hestum, svá[14] at eigi váru vildri í heiminum, ok œpti þá jarlinn sigróp Karlamagnús keisara, er hafði leóns hjarta. Þessi jarl var inn fríðasti ok inn vaskasti, hann mælti þá við sína menn: Góðir riddarar, segir hann, ryðjum veg várn ok stefnum at höfuðmerki heiðingja; ek bið[15] yðr, at þér höggvit [stórt, svá[16] at engar hlífðir standist höggum várum, ok[17] Frankismenn sém einkendir at sœmd. Jarlinn gat eigi[18] svá mikit at sýst, at hann yrði jafningi Oddgeirs danska,[19] þó gáfu þeir stór högg Samson ok Riker. Ok [þá mælti[20] Oddgeir: Herra Hugi jarl, sér þú riddara þann er sitr á hvítum

1) [þat *a.* 2) [telja *a.* 3) þriðja *a.* 4) [*tilf. a.* 5) þér *a.* 6) af *a.* 7) [skulu þér *a.* 8) [tveimr mönnum þeirra *a.* 9) hálfa *a.* 10) [Angikarmenn ok Mansel *a.* 11) várt *a.* 12) liðs *tilf. a.* 13) *saal. a*; hjálpi *A.* 14) [svá góðum hestum *a.* 15) beiði *a.* 16) [svá stór högg *a.* 17) at vér ok *a.* 18) þar *tilf. a.* 19) ok *tilf. a.* 20) [mælti við *a.*

hesti ok[1] drepr tíðum heiðna menn? Þat er inn helgi Georgius, ok með honum tveir riddarar Demetrius ok Merkurius, er guð hefir hingat sent af himnum til þess at styrkja kristni vára.

101. Akarz or Amflor fann þá at hans menn hugbleyddust, en Frankismenn feldu þá sem tíðast, ok leit hann þá fylking Salomons konungs atríðandi ok kristna menn drepa heiðingja ok inn helga kross skína ok glóa. Þá mælti hann við sína menn: Fjórir guðar várir eru eigi verðir eins falspenings, þeir gáfust í vald [úvina várra;[2] nú eru þeir allir muldir í sundr. Mjök samir kristnum mönnum at tigna[3] sik ok lofa[4] sinn guð; séð[5] hér kross er hann var píndr á, vér getum eigi sét í móti honum, ok[6] engum kosti megum vér[7] nær koma hans krapti, um snýr hann[8] öllu viti váru, vér förum œrir ok[9] hamstolnir; því optar sem vér sjám þenna kross, þeim mun meir vaxa vandræði vár, ok þat veit Maumet, at eigi [verjumst ek lengr. Ok hélt hann[10] þá undan sem skjótast. Akarz or Amflor flýr nú sem skjótast ok hans lið með brugðnu sverði bleikr ok huglauss,[11] en Frankismenn eptir þeim[12] œpandi ok leggjandi með spjótum en höggvandi með sverðum, ok svá mikit unnu þeir á[13] þeim, at betr en 10 þúsundir heiðingja lágu þar þá dauðir. Frankismenn fylgdu þeim um einn lítinn skóg drepandi þá sem tíðast, ok kómu þeir því næst at fylking Calides or Orfanie.[14] Hugi jarl œpti þá hárri röddu ok mælti: Nú samir oss hreysti vára at sýna; höggvit stórt þetta it bölvaða fólk,[15] þessir virða enskis hjálma né brynjur, ok eigi meta þeir enn vildasta vápnhest eins súrs eplis. Þessir taka[16] við várum mönnum vaskliga, ok ef eigi sér nú guð til þeirra ok sendir Salomon ok hans lið, þá töpum vér nú Oddgeir ok jarlinum [it sama.[17]

102. Nú kómu 2 fylkingar kristinna manna at enni þriðju fylking heiðingja, ok hjuggu þá Frankismenn af öllu afli, ok kom þá Salomon konungr svá vaskliga þeim viðr hjálpandi,[18] at honum fylgdu fim þúsundir ins vildasta liðs með öruggum brynjum ok góðum hjálmum. Þessir sóttu svá ákafliga heiðingja, at þeir hjuggu höfuð ok herðar, limi[19] ok líkami, ok fundu þeir svá[20] hart viðrskipti Frankismanna. Þeir váru berir, en hinir herklæddir. Hinir hraustustu urðu hræddir, en inir hugnostu hamstola,[21] ok drógu sik þá á bak ok ýldu svá sem vargar, ok skutu af hornbogum sínum, svá at þeir drápu af vápnhestum Frankismanna 300, ok váru þá margir fyrir því á fœti.

1) er *a.* 2) kristinna manna *a.* 3) lofa *a.* 4) tigna *a.* 5) sjáit *a.* 6) með *tilf. a.* 7) *tilf. a.* 8) *tilf. a.* 9) sem *a.* 10) [vil ek hér bíða lengr. Ok héldu þeir *a.* 11) litlauss *a.* 12) *mgl. a.* 13) af *a.* 14) Arfanie *a.* 15) því at *tilf. a.* 16) tóku nú *a.* 17) [*mgl. a.* 18) viðrhjálpa *a.* 19) limu *a.* 20) þá *a.* 21) hamstolnir *a.*

103. Þá varð[1] bardagi svá harðr, at hvárirtveggju gáfust sem máttu. Margir váru svívirðuliga af hestum riðnir, fyrir því at þessi bardagi at brotnum spjótum gékk allr með sverðahöggum. Þar mátti sjá Rollant [ríða or einum flokki ok jafnan in stœrstu högg gefandi.[2] Þar vann ok mikit at Hugi jarl ok Riker, ok þá mælti Oddgeir: Rollant, kvað hann, guð veit at þú ert mjök lofandi; ek munda eigi trúa þessu í gær, ef mér væri slíkt sagt frá þér. Ver aldri fjarri mér, því at[3] þú ert ungr í þessi sýslu. Já,[4] segir Rollant,[5] ef guð eflir mik, þá skal ek ömbuna þér þessa sýslu ríkuliga ok þína [þjónustu trúliga.[6] [Hugi ok Riker unnu þar mikinn sigr. Oddgeir hertugi ok Samson inn öflugi riddari kallaði[7] til sín fjóra sína félaga Estor, Bæring ok Otun, ok eitt ungmenni er hét Grelent. Hann var fœddr í Bretlandi ok [var skyldr Samsoni[8] konungi, þessi skemti[9] konungi í höll hans, þessi[10] var fóstrson keisarans or bernsku ok svaf jafnan í svefnhúsi konungs.[11] Engi var honum vildri söngari[12] né sá er betr kynni skáldskapar heiti, þessi gerði hit fyrsta kvæði í brezku máli. En í þessarri þörf er þá höfðu þeir gaf Rollant honum herklæði. Af [honum bar engi ungra riddara hans jafningja nema Rollant ok Otun.[13] Þá mælti Rollant til sinna manna: Hvat er nú ráð vildast? Séð[14] merki þat er þar stendr, er inn vándi Galinger á, ef vér mættim sundr dreifa þeirra[15] fylking ok þröng, þá munu [vér at vísu sigrast, en þeir[16] allir týnast. Þá svarar Grelent: Ráðum sem skjótast til þeirra, fyrir því at þeir hafa engi dugandi vápn, trú aldri at þeir standist oss. Já, segir Rollant, þú vart at vísu duganda drengs son. Ok eigi var honum vildri riddari. Nú sem inn ungi Grelent hafði jáð[17] því sem Rollant [hafði mælt,[18] þá lögðu þeir herklæddir at þeim[19] er berir váru. Þá [vildu öngir fyrir þeim[20] verða, ok sleizt þá þegar fylking Calidis, ok váru þeir[21] svá hræddir, at þeir vissu eigi hvat þeir skyldu at hafast. Grelent kom þá hleypandi at Caladis ok lagði hann í gegnum skjöldinn ok hann sjálfan, ok er hann skaut honum or söðlinum, þá brast spjótit, ok brá hann þegar sverðinu ok veitti honum [svá mikit[22] sár, at [aldri fannst þá[23] sá er grœða kynni. Þá kom Rollant hleypandi sem skjótast gat [hans hestr borit hann,[24] ok lét hann síga þat it harða spjót með merkinu ok lagði til Akarz or Amflor með svá miklu afli, at öll hans herklæði tœðu honum alls[25]

[1]) var *a.* [2]) [gefa hinu stœrstu högg *a.* [3]) *tilf. a.* [4]) Já, já *a.* [5]) ok *tilf. a.* [6]) [trúliga þjónustu *a.* [7]) [Rollant kallaði þá *a.* [8]) [náskyldr Salamon *a.* [9]) Karlamagnúsi *tilf. a.* [10]) ok hann *a.* [11]) hans *a.* [12]) söngvari *a.* [13]) [öllum nýjum riddurum var engi honum vildri riddari nema Rollant. *a.* [14]) Sjáit þér *a.* [15]) þessa *a.* [16]) [þeir at vísu deyja eða vér *a.* [17]) játt *a.* [18]) [mælti *a.* [19]) hinum *a.* [20]) [vildi engi fyrir *a.* [21]) *saal. a*; þá *A.* [22]) [þat *a.* [23]) [engi fannst *a.* [24]) [hann *a.* [25]) *mgl. a.*

ekki, ok skaut honum jafnskjótt dauðum af hestinum. Því næst brá Rollant sverðinu ok fim félagar hans, ok feldu[1] þar niðr betr en sextugu[2] heiðingja, ok á ofan drápu þeir tvá konunga [í augliti[3] þeirra, ok lét þá engi þeirra lausan einn blóðdropa [af sér,[4] ok gerðu þeir[5] svá mikit af sér, at jafnan síðan váru þeir sœmdir meðan þeir lifðu. En Floriades ok Manuel héldu undan sem skjótast, hvártveggi harm ok hugsótt í brjósti berandi.

104. Sem Oddgeir misti Rollant ok vissi eigi hvar hann var kominn, þá hræddist hann, at hann mundi eigi optar sjá hann. Ok var þat eigi kynligt, at hann væri hræddr um hans hag, því at hann var fenginn í hans gæzlu, ok mælti þá til Hugons jarls: Herra, sagði hann, illa hefir[6] nú at borizt, ek veit eigi hvar systurson konungs er kominn. En í þessu liði er hér er fyrir oss heyri ek mikinn hörkul, ok at vísu sé ek þar Rollant undir hvítum hjálmi; nú bið ek yðr, at vér hjálpim þeim við sem skjótast. Þá svarar jarl: Þat skulum vér gjarna gera. Þá kom Oddgeir[7] þar sem Rollant var, ok mælti: Eigi hefir þú nú haldit þat sem vit rœddum,[8] ok ef guð hefði eigi gefit mér þessa huggan, at ek fynda þik heilan, þá segi ek þat guði, at aldri skylda[9] ek lengr bera skjöld né herklæði. Affrikamenn fyrirlétu þá þrjá höfðingja sína, en hinn helgi kross kom þeim stökk ok hræzlu á þá, at þeir hníptu allir af hugleysi. Almáttigr guð unni Karlamagnúsi konungi ok hans verkum[10] ok því hinu góða fólki, er hann var stjórnandi, fyrir því vildi hann [eigi, at þeir[11] týndist, heldr var hann verjandi þá ok sendi þeim þrjá riddara sína at hjálpa þeim ok vinum sínum, er honum var ást á, svá opinberliga, at allir sá þá ok kendu ok heyrðu rödd þeirra, ok einkannliga hinn helga Georgium, er foringi [(var) hinna tveggja.[12] Af þessum féngu kristnir menn mikla hugdirfð, en Affrikamenn hrukku[13] allir saman ok taka á flótta, en Frankismenn eptir drepandi þá sem vargar [er sauði elta.[14] Nú eru þeir er eptir lifa af þeim fim konungum allir undan haldandi, en 3[15] höfðingjar þeirra liggja höfuðlausir eptir, en kristnir menn drepa þá 100 ok þúsund fylgjandi þeim um hamra ok dali. En Eliadas[16] ok Pantalas systurson hans[17] váru aldri vanir undan at flýja, þessir váru inir mestu bardagamenn, þeir heyrðu hörkul ok stór högg Frankismanna, ok kómu þá Frankismenn at fylkingum þeirra. Þá mælti Eliadas[16] til ráðgjafa sinna: Kristnir menn eru [mikils metnaðar ok grimleiks,[18] ef

1) feldi *a.* 2) sextigu *a.* 3) [*mgl. a.* 4) [*mgl. a.* 5) þar *tilf. a.* 6) *saal. a*; er *A.* 7) at *tilf. a.* 8) játuðum *a.* 9) skal *a.* 10) *saal. a*; verk *A.* 11) [at eigi *a.* 12) [þeirra var *a.* 13) *saal. a*; rauskvazt *A.* 14) [reka sauði *a.* 15) 4 *a.* 16) Kliadas *a.* 17) ok *tilf. a.* 18) [miklir metnaðarmenn ok grimmir *a.*

þeir finna oss nú raga ok huglausa, [ok ef Agulandus verðr þess víss ok sannfróðr, þá verðum vér aldri hans einka vinir né honum kærir.[1] En ek virði eigi eins falspenings allan metnað kristinna[2] manna. Frankismenn[3] kómu þá ok fylktu[4] ok váru eigi fleiri en 2 þúsundir ok 700, ok riðu þá fyrst fram or Frankismanna liði þeir er vildastir váru. Í þessum flokki var Rollant ok Oddgeir, Grelent ok Riker ok Hugon jarl ok tólf jafningjar. Þessir riðu með[5] svá þykkri fylking, at eigi komst vindrinn í milli[6] þeirra. En þeir váru fyrstir í fylking þessi[7] þrír helgir menn, ok ef Kliades bíðr þeirra, þá er undr ef hann iðrast eigi. Hann var inn vápndjarfasti maðr ok vildi at engum kosti flýja, en Frankismenn œptu þá sigróp keisarans,[8] ok gerðist þá inn mesti gnýr, ok hófu þeir harðan bardaga, svá at margir góðir menn féllu þeir[9] er guð kallaði af þessu lífi. Í þessum bardaga gáfust einkar vel Suðrmenn ok Saxar, [Bealvei ok Ardenei riddarar.[10] Þessir Affrikar eru kurteisir ok vel búnir, þeir sitja á góðum hestum ok úmœddum, þeir drápu vára menn 100 ok 3 af þeim er kosnir váru til tólf jafningja, ok váru tveir hertogar en eitt[11] konungr.

105. Þessi bardagi hófst með miklum gný ok hörðu vápnaskipti. Heiðingjar váru 50 þúsunda, en kristnir menn sjau hundrað ok tvær þúsundir, ok Grelent sparði eigi at veita heiðingjum þunga þjónustu ok hjálpa várum mönnum, ok sóttu þeir svá fast, at engi gat við [staðizt höggum[12] þeirra ok atreið, ok mælti þá hverr við annan: Gæfusamliga, segja þeir, er oss nú fallit; vér várum knapar ok þjónustusveinar, steikarar ok skósveinar, at sönnu samir oss at elska tiguliga Karlamagnús keisara[13] ok þjóna ástsamliga herra várum, er oss tók or þræla þjónustu ok frjálsaði ok gerði oss alla riddara. [Fyrr skulum vér allir láta líf várt en þat þola, at honum sé nökkur svívirðing ger eða hann sé rekinn or sínu ríki.[14] Sem Oddgeir heyrði rœðu þeirra, þá mælti hann hárri röddu: Sælum munni mæltuð þér þetta, ok ef guð lér mér at lifa til þess er ek kem í Franz, þá skal ek þiggja til handa yðr[15] þær inar ríku sœmdir, er hann hefir heitið yðr, því at engi sá maðr er þurfi verðr keisarans ok ber ek mál hans fram, at eigi heyrir[16] hann gjarna ok stéttir[17] bœn minni ok þurft hins. En ek vil vera merkismaðr yðarr, ok fylkið ér[18] nú umhverfis merkit. Þeir svöruðu allir ok mæltu: Þat viljum vér gjarnsamliga. Sem þessum riddorum kom í hug hversu fátœkir þeir kómu til Karlamagnús, ok nú váru þeir gervir riddarar,

1) [*tilf. a.* 2) Frankis *a.* 3) kristnir menn *a.* 4) liði sínu *tilf. a.* 5) í *a.* 6) vápna *tilf. a.* 7) þessir *tilf. a.* 8) *mgl. a.* 9) þar *a.* 10) [Bauæis ok Ardenæis *a.* 11) einn *a.* 12) [staðit höggvi *a.* 13) konung *a.* 14) [*tilf. a.* 15) af keisaranum *tilf. a.* 16) heyri *a.* 17) stéttar *a.* 18) *mgl. a.*

þá þökkuðu þeir honum með ástsamligum orðum ok fögrum kveðjum ok kváðust heldr vilja líf sitt láta en konungr yrði sigraðr fyrir Affrikamönnum. Því næst réðu[1] þeir til heiðingja ok tóku við þeim ok hjuggu þá mörg stór högg limi ok líkami. Fimtigi þúsunda váru þeirra guðs úvina, en kristnir menn tvær þúsundir ok 7 hundruð. Nú ef guð sýnir eigi sinn krapt kristnum mönnum, þá tapar Karlamagnús konungr sínum fóstrsonum.

106. Þá gerðist ógurligr gnýr, ok[2] var þá getit mart þungt hálsslag, ok mundi eigi várr skaði bœttr verða, ef eigi kœmi Salomon með fim þúsundum riddara við[3] reistum spjótum ok blaköndum[4] merkjum ok ina beztu skjöldu fyrir brjósti. Þessi höfðingi er mikill fyrir sér, ok œptu þá Bretar ok hófu upp sigrarmerki[5] ins heilaga Miluns, er þar hvílir í þeirra landi, ok hófu þeir orrostu með hörðu tilræði. Þá máttu eigi leynast huglausir rósarar, er þar létu drepa sik fyrir[6] hugleysi, því at þeir inir[7] ungu menn, er nýdubbaðir váru til riddara váru svá öflugir ok sterkir ok skjótir í stórum höggum, ok féllu þá heiðingjar fjölmenniliga. Í fylking Rollants systursonar Karlamagnús konungs 2 þúsundir ok 7 hundruð, en í fylking Salomonis konungs váru fim þúsundir, ok féllu nökkurir af þeim í þessum bardaga. En í því kom Droim inn ríki hertugi ok með honum Peitumenn ok Gaskuniar með öruggum herklæðum ok sátu á inum beztum hestum, svá at í öllu liðinu váru eigi jafngóðir þeim. Affrikamenn sá þá at lið þeirra féll, ok sá þá inn þriðja bardagann at sér ríða, ok váru þeir þá betr en sjau þúsundir, ok hafði hverr þeirra góðar brynjur ok góðan hest.

107. Í því kómu þeir þrír höfðingjar fram, er guð sendi Karlamagnúsi konungi til hjálpar. Hverr þeirra var í líkneskju riddara, ok með þeim Turpin inn dýrligi erchibyskup, er bar í hendi sér inn helga kross. Þá tóku Affrikar at hvísla sín í millum: Vei verði þeim merkismanni, merki hans er svá hátt, at skýin styðjast af, þat er svá bjart, at sólar geislar eru eigi ljósari: þetta snýr hug várum, vér vinnum hér eigi af þeim nema dauða váru. Eliadas kunni þá ekki ráð, er hann sá at fylking hans slitnaði, ef hann sæi sér nökkura viðstöðu, þá héldi hann eigi undan, ok flýði hann nauðigr ok þó síðarst, ok deildi þá við guða sína ok kvað þá öngu nýtan allan krapt þeirra, reið þá hnefandi it digra spjót sitt. En Rollant ok Oddgeir ok Salomon fylktu liði sínu, ef þeir reka vel flótta heiðingja, þá munu þeir hefna sín. Hestarnir mœddust þá mjök, ok reið þá sendimaðr at segja keisaranum ok mælti: Ríðit herra ok viðr hjálpit yðrum mönnum, engi er vildri riddari en frændi

[1]) riðu *a.* [2]) *tilf. a* [3]) með *a.* [4]) blakandi *a.* [5]) höfuðmerki *a.*
[6]) af *a.* [7]) *Her mangler 1 Blad i a.*

yðvarr Rollant. Þá svarar konungr: Almáttigr guð, segir hann, þér geri ek þakkir. Konungr fagnaði mjök ok skipaði fylking sína.

108. Nú skulum vér heyra hvat hertogi Girarðr sýsti þar fyrir hamrinum, sem herra Boz féll af hestinum fyrir inum drambláta Ulien, er með 20 þúsundum reið þann dag or her Agulandi. Hann hugði þat, at hann skyldi alla ættingja sína gera höfðingja fyrr en hann tœki eldast. En kristnir menn únýttu nökkut ætlan hans ok hugsoðu, at hann skyldi aldri optar hafa á hest stigit. Vei sé þeim er honum veittu lið, af þeim 20 þúsundum er hann hafði með sér lágu þar eptir sjau þúsundir, en þeir er undan flýðu með honum munu aldri optar í slíkan leik fýsast. Ok kom þá Ulien sem skjótast til hers Agulandi ok steig þegar af hesti sínum fyrir höfuðmerkinu, ok kom því næst fyrir konung ok bað hann miskunnar ok mælti: Herra, segir hann, þér gáfut mér alla Eyropam, en nú skal ek aldri þessu landi ráða.

109. Sem Agulandus skildi orð hans, þá mælti hann: Ulien frændi, segir hann, hlýtt hefi ek orðum þínum. Jnn ljósi hjálmr þinn er allr moldugr, skjöldr þinn klofinn, at sönnu var ek heimskr, er ek trúða þér, fyrir sakir þínar lét ek lönd mín ok ríki, því at þú ok Mandeqvin ræntut mik syni mínum. Heima í Affrika kváðuzt þit vera inir beztu riddarar, en nú eru þit únýtir ok huglausir, vei sé mér, ef ek legg lengr mitt traust á ykkr. Ulien frændi, kvað Agulandus, ek vil þik sannfróðan gera, at sá er trúir kvenna ráðum eða huglausum mönnum, honum samir aldri miklu ríki at stjórna. En þú hefir lengi þjónat með kvenna lunderni, þú hefir lengi drukkit vín mitt ok tœmt fésjóða mína. Þá svarar Ulien: Herra, segir hann, hættit nú at deila ok látit fylking gera umhverfis yðr at varðveita líf yðvart ok verja, ok munu þér þá finna, hversu mikit þér vinnit. Vér mœttum Frankismönnum í brekku nökkurri, ok hlaut ek þar falla, svá at hjálmr minn stóð í moldunni til nasbjarga, ok fékk ek önga hjálp af neinum, nema ek þóttumst of síðla ná hesti mínum. En síðan er ek fékk hann ok ek keyrða hann með sporum, þá þótti mér mín hjálp œrin vera. Eigi munu vér Frankismönnum standast, því at af tuttugu þúsundum eru eigi fleiri undan komnir en fjórar þúsundir, því at þeir vilja aldri undan flýja. Ek sá þá í gær svá þykt ríða, at engi spörhaukr mátti fljúga í millum vápna þeirra; ef þeir koma hingat yfir hamarinn ok taka at eiga við vára menn, þá segi ek þeim þat, er heyra orð mín, at þér munuð dýrt kaupa tilkvámu þeirra. Því næst kom hleypandi einn riddari, ok stóð spjótskapt í gegnum hans söðulboga en járninu var hann í gegnum lagðr, ok var söðull hans fullr af blóði, ok fylgdu honum þrjár þúsundir, ok var engi svá hraustr, at eigi hefði hann sár í höfði eða á líkam

eða hesti, ok mælti foringi þeirra lágum orðum, því at hann var meginlauss: Herra, kvað hann, undarliga þikki mér, í gær fengu þér mér 50 þúsunda, ok var niðr höggvinn helmingrinn. Þá svarar Agulandus: Vinr, kvað hann, hvat heitir þú? Hann svarar: Ek em Eliadas son Sobrors konungs. Þá svarar Agulandus: Þú ert náskyldr frændi minn, vit faðir þinn erum systrungar, kantu nökkut at segja frá Madeqvin. Þá svarar Eliadas: Já herra, segir hann, hann er at vísu dauðr. Agulandus varð þegar reiðr fyrir sakir Eliadas, er hann var svá illa leikinn,[1] ok um Mandekuin. Þá svarar Eliadas: Herra, segir hann, hræzt eigi, slíka úgæfu vinna þér rósarar ok drambsmenn; þá er þeir drukku vín þitt ok kystu fríðar meyjar þínar, þá váru þeir hraustir riddarar. En Frankismenn halda ríki sitt af réttum föðurleifðum sínum, hvárgi okkarr getr af þeim sótt við 7 sinnum 100 þúsunda; þó at þér hefðit 100 riddara at móti tveim mönnum þeirra, þá efizt ekki í því, at þó koma þeir at berjast við yðr, Frankismenn eru eigi dáligir né huglausir, eigi ragir né hræddir, ok Karlamagnús konungr er inn vápndjarfasti ok inn hugprúðasti höfðingi. Nú eru fallnir þrír höfðingjar í þessum 3 bardögum inum fyrstum, ok eru þeir eigi at heldr frjálsir er eptir lifa. Þá gerðu margir af heiðingjum mikinn gný ok létu illa, þá kom ok keisarinn með fim fylkingum ok blésu 60 lúðra öllum einni röddu. Gullit ok stálit glóaði ok glitraði svá ljóst ok bjart, at tími dagsins lýstist af, ok var eigi lengra í milli fylkinga Frankismanna en eitt lásbogaskot, ok fannst engi svá digr ok drambsamr í hvárgu liði, at eigi skipti hug sínum ok hræddist. Agulandus var þá undir höfuðmerki sínu ok með honum fim konungar, er allir váru honum með eiðum handgengnir, ok engi sá er eigi hafði kórónu borit, ok lið þeirra fylkti umhverfis alt með svá miklum fjölda, at engi kunni telja. En keisarinn reið þá at þeim með fim fylkingum. Agolandus sýndi sínum mönnum her kristinna manna ok mælti: Þetta lið, segir hann, er eigi svá mikit slátr at oss nœgist til dagverðar; ef þeir væri búnir oss til matar, þá mundi oss herfiliga getit vera. Eigi sýnist mér Karlamagnús konungr vitr höfðingi, er hann berst við mik með eigi meira lið, hér fyrir man hann fá mikil vandræði, hann skal bera járnrekendr um háls ok hendr; ef hann neitir eigi guði sínum ok kristni, þá skal höggva höfuð af honum. Hinn gamli Galingers sá mjök lengi á konung ok mælti hlæjandi at honum: Lítt þat ertu of skjótr; sendit nú eptir Ulien, Frankismenn mœttu honum í dag, aldri var hann svá mjök keyrðr né illa leikinn fyrr. Þá svarar Agulandus: Þú mælir of mart, fyrir því þó at þeir væri af inu harðasta stáli, þá mundu þeir aldri mér standast.

[1]) leikem *A.*

110. Sem Amustene leit Agulandum, þá kallar hann sonu sína ok mælti: Vándir knapar, kvað hann, dáligir flóttamenn! Magon ok Asperant konungar váru systursynir mínir, er drepnir váru af her várum, lítt kemr ykkr í hug þetta, þit eruð ragir ok öngu nýtir, ok þit létuð svívirða frændr mína í augliti mínu. Takit nú beint lúðr minn ok merki sem skjótast ok blásit fjórum sinnum, myklu er minn lúðr hvellari en Olivant, vér skulum til skipa stefna ok skjótt sigla til Affrika, ok ef Karlamagnús berst við Agulandum, þá sigrast hann at vísu ok hefnir harma sinna. Ek em enn ungr ok þit ungir, vér skulum eiga alla Affrikam, ok várir arfar æfinliga. Þá svöruðu þeir: Þessi er inn bezti formáli ok hagligr at hafa. **Nú lýkr inni 9 bok ok hefr upp ina 10.**

111. Affrikamenn réðu þá til kristinna manna. En kristnir menn váru þá fjórar þúsundir ok 30 þúsunda, en aldri máttu menn[1] vera betr herklæddir en þeir váru. En Affrikamenn váru með öðrum hætti vápnaðir, þeir höfðu leðrpanzara[2] ok gyrðir stórum sverðum, báru boga ok öxar ok örvamæla.[3] Sem kristnir menn mœttu[4] þeim, þá gáfu þeir mörg stór högg, klufu höfuð ok herðar,[5] limi ok líkami, ok feldu svá marga, at allir vellirnir váru huldir[6] af líkum,[7] svá at eigi var annat til en ganga eðr ríða á líkum þeirra er dauðir váru. Affrikar er hrósoðu, at þeir skyldu reka Frankismenn af[8] ríki sínu, þá er þeir höfðu átt við Frankismenn, allir þeir er hyggnastir váru, fundu sik vorðna[9] fífl af sínum ráðum. Þá er Amustene vissi at liðit var saman komit, þá mælti hann til Agulandum: Herra, kvað hann, lýð[10] orðum mínum. Lið yðvart þrjár fylkingar er [sigrat ok yfirkomit[11] ok undan flýit kristnum mönnum, en ek á 2 sonu nýgerva riddara, en nú vil ek koma þeim í bardaga, ok ek sjálfr með þeim ok mitt lið. Þá svarar Agulandus: Þat vil ek gjarna. At vísu herra, sagði Amustene, ok er[12] þó betr en yðr væntir. Þá fylgdu honum 10 menn ofan frá höfuðmerkinu, ok váru þrír konungar kórónaðir. En [þá er þeir skildu[13] við Agulandum, þá hefði honum betra verit at láta drepa þá [en lofa[14] þeim í brott at fara. Þeir stefndu þegar í brott frá liðinu ok með þeim 20 þúsundir, ok skildust svá við Agulandum. Ok mundi Amustene eigi svá hafa skilizt við hann, ef hann væri tryggr maðr. Fyrir þessum[15] mundu Frankismenn mikit hafa látit, því at þeir höfðu betr en 20 þúsundir ins vildasta liðs. Þeir kómu til skipa ok géngu á þau með öllum[16]

[1]) ***Her begynder atter a.*** [2]) ok línpanzara *tilf. a.* [3]) örvamæli *a.* [4]) kómu mœtandi *a.* [5]) hjuggu *tilf. a.* [6]) *tilf. a.* [7]) þeirra *tilf. a.* [8]) or *a.* [9]) vera *a.* [10]) hlýðit *a.* [11]) [*saal. a*; sigraðar ok yfirkomnar *A.* [12]) *saal. a*; eigi *A.* [13]) [þeir skilduzt *a.* [14]) [heldr en lofat *a.* [15]) þeim *a.* [16]) hestum, vápnum ok *a.*

fjárhlutum, en öll önnur skipin brendu þeir ok í sundr hjuggu. Nú ef Agulandus gætir sín eigi, þá mun hann aldri síðan augum[1] sjá Affrikam.

112. En meðan Agulandus beið þeirra er frá honum fóru, þá skundaði Girarðr ok kom í einn dal leyniliga ríðandi. En lið hans var þúsund ok [7 hundrað,[2] ok fylkti hann þeim svá þykt, at vindrinn komst varla[3] í millum[4] þeirra, ok er kynligt ef hann iðrast eigi. Sem Ulien leit þá, þá sprakk hann náliga af harmi ok mælti til Agulandum: Herra, segir hann, hér ferr nú at oss eitt fólk, er ek mœtta í dag, þeir drápu fyrir mér sjau þúsundir manna. Agulandus svarar: Er eigi þetta lið Amustene er héðan fór?[5] Víst eigi, herra, segir hann. Nú vitið at vísu, segir Ulien, at hverr er dauðr, er eigi[6] verst sem bezt. Eptir þenna formála kom hræzla ok hugleysa á Agulandum, ok mælti[7] at Ulien skyldi búinn[8] at gera hans vilja. Hann gékk þegar reiðr ok óðr ok steig á hest sinn ok hafði með sér 20 þúsundir undan höfuðmerkinu, ok mœtti þá herra Girarð. En Amustene var þá ofan kominn á skip, ok týndi þeim öllum er hann vildi eigi með sér hafa. Nú ef eigi gætir Agulandus sín, þá hefir hann týnt sínum hlut í Affrika. En þau sjau 100 er Girarðr fékk Booz ok Clares eru vel herklæddir. Ok er Ulien inn illgjarni sá þá, þá hleypti hann þegar at þeim með svá harðri atreið, at engi var sá í þeirra liði, er eigi hræddist dauða. En herra Booz ok Clares tóku svá fagrliga við þeim, at í fyrstunni drápu þeir mikinn fjölda. En hvárt sem þeir vildu eða eigi, þá hlutu þeir fyrir[9] at halda ok kómu þá í fylking Girarðs. Sem hann[10] leit systursonu sína, þá reiddist hann, ok laust hann þá í reiði sinni ok kallaði þá pútusonu. Aldri, kvað hann, váru þit synir Miluns hertuga, er þit hræðizt svá mjök heiðingja. Oddgeir ok Rollant, Grelent ok Estor ok Riker ok Marant sigruðust í dag í fjórum bardögum, svá at engi þeirra er eptir váru þorði[11] í móti at standa. Várir menn váru sárir, en heiðingjar svá margir drepnir ok sárir, at engi lifandi maðr kunni[12] telja. Oddgeir ok Rollant ok þeirra félagar ráku saman í einn hvirvil heiðingja, ok sem þeir vildu efla bardaga sinn, þá váru þeir svá móðir, at þeir féngu nær ekki at hafzt, ok urðu þeir þá aptr at snúa[13] í fylking Karlamagnús. Þá mælti Karlamagnús: [Herra guð,[14] lát eigi lægjast þína helgu kristni, ok gef mér styrk, at ek mega hefna þinna vina[15] á þessum heiðnum hundum. Sem hann hafði þetta mælt, þá reið konungr[16] fram ok með honum fjórar

[1]) *mgl. a.* [2]) [hundrað ok 7 *a.* [3]) eigi *a.* [4]) vápna *tilf. a.* [5]) reið *a.* [6]) *tilf. a.* [7]) þá *tilf. a.* [8]) vera *tilf. a.* [9]) undan *a.* [10]) hertugi Girarð *a.* [11]) þorðu *a.* [12]) at *tilf. a.* [13]) snúazt *a.* [14]) [*tilf. a.* [15]) óvina *a.* [16]) hann *a.*

þúsundir riddara, ok riðu í flokk heiðingja í móti Gundrun kerrumanni, [ok klauf Karlamagnús konungr hann í herðar niðr sem fúinn fausk.[1] En fyrr en hann kœmist þaðan, þá særðu þeir undir honum hestinn 15 kesjum, ok fyrr en Karlamagnús féngi þann hest er hann drap úvin sinn af, þá drápu þeir [10 þúsundir af Affrikanis,[2] ok hrukku allir[3] á bak aptr af hræzlu. Sem várir menn snerust aptr í fylking sína, þá dirfðust Affrikar, ok gerðist þá hart viðskipti ok hjuggu mörg högg[4] þau er harmandi váru, svá at mikill fjöldi féll, ok harmaði [hann þá[5] fall sinna manna, ok œpti hann þá hárri röddu ok bað þá sína riddara hefna sín í guðs nafni. Þá börðust vel Bealvæi[6] ok Saxar ok brezkir menn, [Rollant ok Oddgeir ok þeirra félagar[7] gáfust einkar vel. Keisarinn var fremstr í brjóstinu ok hafði Jouise[8] í hendi sér, engi hefir líf er eitt högg fær af honum. Þá féngu Frankismenn[9] svá mikinn skaða, at engi [kunni þat segja, ok hjuggu[10] bæði höfuð ok herðar, limi ok líkami, ok kom þá til Karlamagnús Oddgeir ok Nemes ok mæltu: Herra, kváðu þeir, lið várt er mjök fallit, vér höfum nú eigi [fleira liðs[11] en fimtán þúsundir manna, ok 9 af tólf jafningjum. Herrar, kvað Karlamagnús, skilt hefi ek orð yðar, en svá hjálpi mér guð, at myklu heldr vil ek deyja en undan flýja.

113. Karlamagnús konungr ok Nemes hertugi ok Oddgeir sá þá menn sína hugbleyðast, ok þá mælti páfinn: Herrar, kvað hann, hræðizt ekki, nú freistar guð yðvar; hann sá sik sjálfan [til dauða[12] dœmdan ok bar hann þat [þó einmóðliga,[13] gerit nú fyrir hans sakir þat[14] sem hann gerði fyrir yðrar sakir.[15] Allir er heyrðu orð hans, þá mæltu:[16] Aldri beiðumst vér fyrir [þessa tölu[17] at lifa, nema guð gefi oss sigr á heiðingjum. Herra, segir Karlamagnús, nú hafi þér sagt minn vilja, ok engi maðr skal önnur ráð nýta.[18] Turpin erkibyskup gaf þá upp páfanum inn helga kross ok mælti: Nú[19] skulu þér sjá, ef ek má nökkura hjálp veita. En páfinn játaði því þegar. Þá blés erkibyskup einum hvellum lúðri at eggja menn sína, ok heyrði Agulandus þá lúðrinn ok mælti til sinna manna: Nú hefi ek alt þat er mér líkar, Frankismenn[20] eru at fullu yfirkomnir, ok vilja þeir oss nú upp gefa vígvöllinn; sœkit nú fram

[1]) [þessi var ráðgjafi heiðingja. Karlamagnús klauf hann ofan í mitt höfuðit allan herklæddan *a.* [2]) [betr en 10 þúsundir heiðingja, svá at allir Affrikar æðruðust *a.* [3]) 2 *a.* [4]) *tilf. a.* [5]) [þá Karlamagnús *a.* [6]) Bealfij *a.* [7]) [Oddgeir ok Grelent, Rollant ok Estor, Riker ok Marant *a.* [8]) Jouís sverð sitt *a.* [9]) kristnir menn *a.* [10]) [lifandi maðr fær þat sagt, ok hjuggu þeir þá *a.* [11]) [meira lið *a.* [12]) [*mgl. a.* [13]) [vel *a.* [14]) svá *a.* [15]) hann sá sig sjálfan dœmdan ok þoldi fyrir oss dauða *tilf. a.* [16]) þeir *tilf. a.* [17]) [þenna dag *a.* [18]) hafa *a.* [19]) hefi ek alt þat er mér líkar *tilf. a.* [20]) kristnir menn *a.*

at höfuðmerkinu. Þeir gerðu svá, ok hugðu at kristnir menn mundu[1] bila. Þá [dirfðist lið Affrikanorum,[2] ok hófst þá [inn harðasti bardagi.[3] Flugu þá spjót [sem í örvadrif sæi.[4] Frankismenn tóku[5] við þeim höggvandi með hvössum sverðum höfuð ok herðar. Þá [mælti Ulien ok œpti hárri röddu á sína menn:[6] Affrikamenn, segir hann, óttizt ekki, hefnit frænda yðvarra, feðra ok brœðra, er Frankismenn hafa drepit, ok[7] Jamund er yðr fóstraði; sœkit nú af þeim lönd ok ríki, at þér verðit ríkir ok fullsælir. Þá er hinir skildu orð hans, þá réðu þeir at harðara til kristinna manna. Girarðr ok hans synir ok systursynir[8] ruddu af sér með stórum höggum sem þeir máttu. En ef eigi miskunnar nú guð kristnum mönnum, þá munu dýrt kaupa huglausir menn hreysti þeirra, er vápndjarfir eru. Sem keisarinn reið í fylking heiðingja, þá blésu þeir hornum sínum ok lúðrum, ok gerðist þá ógurligr gnýr[9] ok mikill mannskaði í hvárutveggja liði. Oddgeir ok Nemes, Riker ok Hugi, ok Salomon er bar gullara keisarans, ok Bretar er honum fylgdu, Rollant ungi er bar Dýrumdala blóðgan [ok allir hans félagar vörðust harðla vel.[10] En allir váru þá uppgefnir, ef eigi hefði Karlamagnús keisari kallat á þá ok [mælir til þeirra:[11] Verit sköruliga, sagði hann, líkam minn ok sœmdir yðrar. Barðist Karlamagnús konungr þá svá hraustliga, at allir er sá högg hans [stóð mikil ógn[12] af, ok var honum ekki hóglífi gefit þann dag. Þá var drepinn undir honum hestr hans inn bezti, ok hann inn öflgasti maðr hljóp þegar upp ok brá Jovisse, er hann var kórónaðr með; sá er þat má ná til er at vísu[13] dauðr. Nú er konungr var á fœti staddr, þá varðist hann svá vaskliga, at engi þorði at honum at ganga, ok snerist þá umhverfis hann meiri maðr ok minni. Bæringr or Markun varð fyrstr víss,[14] at keisarinn var á fœti, ok stefndi þegar þangat ok hjó einn ríkan [höfðingja ok klauf hann ofan í tenn,[15] ok greip jafnskjótt hestinn með gulllögðu beisli, ok þegar kom hann til keisarans ok steig af sínum hesti ok fékk konungi,[16] ok hélt í ístig hans meðan hann sté upp. Síðan ljóp hann á þann hest, er hann drap heiðingja af, ok kómu þá báðir í bardaga ok feldu mykinn fjölda af heiðingjum. Sem Frankis-

1) skyldu *a.* 2) [dirfðust Affrikamenn *a.* 3) [hin harðasta atganga *a.* 4) [í smá hluti sem örfadrif væri *a.* 5) vel *tilf. a.* 6) [œpti Ulien á sína menn 4 sinnum ok mælti *a.* 7) *mgl. a.* 8) ok fóstrsynir *tilf. a.* 9) hörkull *a.* 10) [af blóði heiðingja, ok þeir er honum fylgdu vörðu líf sitt ok líkami sem bezt fengu þeir. *a.* 11) [mælti hárri röddu ástsamligum orðum: Nemit staðar allir, meiri maðr ok minni *a.* 12) [fengu ógn ok hræzlu *a.* 13) sönnu *a.* 14) varr við *a.* 15) [heiðingja ofan í hjálminn ok klauf hann í tenn, ok því næst í öðru höggi skaut hann honum af hestinum *a.* 16) keisaranum *a.*

menn sá konung kominn aptr, þá urðu þeir [harðla fegnir hans kvámu.[1]

114. Heyrit guðs vinir þessa ina dýrligu sögu um Karlamagnús inn góða keisara. Heyrit ok hreysti ok kurteisi kristinna manna, elsku ok ástsemd dugandi manna, hugdirfð hirðmanna, ok um inn harða hertuga Girarð. Hann var son Bovins konungs ins ríka, aldri tók við tignarnafni vildri hertugi. Þá er herra Girarðr sá merki Uliens, þá kallar hann til sín Booz ok Clares, Ernarð ok Riker ok Milun: Dýrligir riddarar, segir hann, þyrmum oss eigi. Séð þann er þar sitr undir inum gula skildi, er í dag hljóp at oss ákafliga, en guð sé lofaðr, er vér gerðum honum góð skil um þá skuld er vér várum honum skyldugir. Nú býð ek yðr, at þér gerið þeim önga atreið með spjótum, nema vér skulum fylkja sem vér megum þykkvast,[2] ok héldu þá allir skjöldum sínum sem fastast fyrir brjóstum, svá búnir skulum vér ríða at þeim, ef þeir þora við taka. Girarðr ríðr nú með fylktu liði, hann hefir við sér þúsund ok fim 100 riddara, Booz ok Clares váru merkismenn þeirra. Ok kom þá Ulien ok við honum fjórar þúsundir, þeir höfðu stinna boga ok góð herklæði, skutu því næst skotum ok broddum ok köstuðu á þá. En þeir fundu eigi hvikara fyrir sér heldr hugdjarfa riddara, svá at aldri hafði einn hertugi vildri, ok þorðu þó öngir atreiðir at gera fyrir hertuga. Sem Ulien fann at Frankismenn vildu ekki at þeim fyrir ópi né heitan né fyrir skotum þeirra, þá stefndu þeir at höfuðmerki Agulandi. En áðr en hann hafði fest merki sitt, þá leit hann á hœgri hönd sér heiðingja undan flýjandi. Aldri kunni Ulien svá mikit at at gera, at þeir riðu or sinni fylking né vildu rjúfa sakir hans, ok var Girarðr ok lið hans svá nær komnir höfuðmerkinu, at tvau örskot máttu vel til ná, ok mælti þá Girarðr, at hans lið skyldi nema staðar. Þá kallar hann til sín sonu sína ok systursonu ok alla höfuðvini: Herrar, segir hann, víst hefir guð nú til vár sét, at vér höfum engan mann látit; kristnir menn hafa nú ráðit til Affrikamanna, ek heyri nú frameggjan þeirra; nú bið ek at vér hjálpim þeim við vaskliga. Þeir svöruðu: Þat viljum vér gera gjarna; vér erum vel herklæddir, en hundar þessir eru búnir margir allilla ok verr en vápnlausir; nú mun þat guð vilja ok inn helgi kross, at vér komim í viðrskipti heiðingja ok at vér gerim þá höfuðlausa. Því næst stigu þau 400 af hestum, allir þeir er hertugi kaus ok vildastir váru ok vaskastir, en hinir aðrir tóku við hestum þeirra, ok géngu þeir með þykkri fylking huldir skjöldum sínum, berandi hvassar hosur, gyrðir góðum sverðum. Sem Affrikar litu þá, þá

[1]) [aldri fegnari síðan þeir kómu í heim *a*; *her mangle 2 Blade i a.*
[2]) þykkiaz *A.*

mælti Agulandus: þessir eru eigi várir menn; ef vér sigrumst eigi á þessum, er framan ganga at oss, þá drepa þeir oss, er nú ganga á bak oss. Agulandus var þá undir höfuðmerkinu, ok með honum tólf heiðnir konungar, en umhverfis hann var svá mikit lið, at engi kunni telja, ok váru þeir þá harðla hræddir um Amustenem ok ætlaðu hann of lengi dveljast. Í því bili kom Girarðr með fjórar þúsundir, þeir váru í fótsíðum brynjum ok skunduðu at heiðingjum höggvandi þá, ok ruddu svá veginn fyrir sér, at þeir áttu eigi örskot til höfuðmerkisins. En Karlamagnús konungr mátti þar lítt sínum hlut hrósa, né Nemes eða Oddgeir ok Rollant, ef eigi væri guð almáttigr, er í sínu valdi hefir alla hlut(i), honum sendandi þrjá sína riddara. En herra Girarð ok synir hans ok systursynir kómu þá at heiðingjum herklæddir af stáli ok járni, svá at ekki má á þeim vinna, hjuggu þeir höfuð ok herðar, brjóst ok búk, ok steyptu hverjum dauðum á annan ofan. Sem þeir fundu skaða sinn, þá flýðu þeir undan ok hinir eptir þeim, alt til þess er þeir kómu undir höfuðmerkit. Þá tóku Affrikar at ræða við Agulandum: Ef þessir menn komast at oss upp, þá mun oss lítit stoða til hjálpar stöðumerkit. Sem Agulandus sá þá, mundi hann or viti sínu hlaupa, því at menn hans flýðu at honum sjánda hverr at öðrum.

115. Affrikamenn fyrirlétu stað sinn görsamliga undan merkinu, síðan námu þeir staðar ok vörðust, ok váru þá höggvin mörg stór högg. En Karlamagnús var inn kurteisasti keisari, ok Rollant systurson hans ok Nemes inn hæverski riddari ok öll konunglig hirð. Frankismenn ljópu á heiðingja svá sem þeir kómu ofan í dalinn, ok gerðist þar þá harðr bardagi. Þeir hinir vasku menn or Orfanie skutu spjótum ok broddum ok gerðu mikinn mannskaða. Nema almáttigr guð sér nú til kristinna manna, þá mœttu þeir aldri svá hörmuligu slagi sem þá. Eliadas ok Pantalas félagi hans or Orphanie námu þá staðar ok vörðust undir berginu, ok hófst þá gnýr ok óp ok frameggjan með svá miklu mannspelli, at aldri sá manna augu meira. Sem þeir or Affrika sá þann inn mikla fjölda falla, feðr ok frændr, syni ok brœðr, þá mæltu þeir: Nú vaxa vandræði vár, ok ef vér hefnum eigi þeirra, þá erum vér svívirðir; sví sé þeim er nú höggr eigi í skjöldu þeirra. Ok gerðu þeir svá, klufu skjöldu þeirra. Sem Frankismenn ráku þá af sér með stórum höggum, þá féll þegar hræzla á þá or Orfanie, svá at bæði hvarf þeim afl ok hreysti, ok héldu undan ræddir ok huglausir, sem mest máttu þeir.

116. Sem Karlamagnús keisari sá Affrikamenn hvika ok Orphaniemenn laupa ok illa láta, þá œpti hann þegar á sína menn: Fylgjum þeim nú, kvað hann, ok höggum stórt, því nú flýja Frankismenn. Lögðu þeir þá ok hjuggu ok brutu spjótin í þeim, ok mátti

nefndr er Dorgant.[1] Ok hann kom fyrir konung ok mælti: Heill herra, segir hann, Maumet gæti yðvar, ver kátr ok glaðr, tíðendi hefi ek at segja yðr bæði góð ok mikil. Rollant er yfirstiginn, ok drepit höfum vér flest alt lið hans, ok hleypt honum út á Rín ok því liði er undan komst með honum. [Þá svarar Guitalin konungr: Segir þú satt, Dorgant, eða lýgr þú? Já, já, segir hann, úvanr var ek at ljúga fyrr. Ok bað svá Maumet hjálpa sér sem hann sagði[2] satt. Ok vér höfum annan[3] vitnisburð, því at vér höfum hér 300 hesta klyfjaðra af höfðum kristinna manna. Ok er konungr nam trúnað á því,[4] þá varð hann[5] svá glaðr, at [mjök svá[6] gékk hann af viti sínu, ok spurði ef þeir hefði nökkut [brotit at[7] borginni.[8] En hann [svaraði: Engan kost léðum[9] vér þeim á því.[10] Nú kallar konungr á Sibilio dróttningu [ok mælti: Nú máttu segja, at flestir allir Frankismenn eru nú fallnir ok yfirstignir ok Frakkland unnit til handa okkr ok sonum okkrum.[11] Þá svaraði dróttning: Trú eigi þú orðum riddara þíns, enn ríki konungr Saxa! Still gleði þinni, ok úgerla[12] veiztu hvat síðast[13] kann verða í [viðrskiptum yðrum Karlamagnús konungs,[14] því at liðsmenn segja opt [vilhalt ok segja[15] þat er þeir vildu at væri, [en vitu eigi þat (er) verða mun,[16] en hvatki[17] er þeir segja, þá er Rollant heill[18] ok páfinn ok erkibyskup ok margir aðrir góðir drengir ok frœknir höfðingjar.[19] En Guitalin konungr reiddist henni mjök ok laust til hennar [svá hart, at hon tók blóð í serk sér,[20] [ok skaut henni út or landtjaldinu.[21] Síðan lét hann söðla[22] hest þann er beztr var í herinum, ok reið til kastala þess, er Karlamagnús konungr var í, ok kallaði hátt, bað konung Frankismanna lýða sér, [ok fékkst þegar hljóð:[23] Þau tíðendi [hefi ek (at) segja, at dauðir eru allir þínir inir beztu riddarar;[24] Rollant hleypti út á Rín ok flest lið[25] er honum fylgdi. [Nú ertu sjálfr yfirkominn, gef upp kastalann ok gakk nú oss til handa ok á vára miskunn, ok þat til jartegna um þetta mál, at vér höfum at sýna þér 300 hesta klyfjaðra af höfðum liðsmanna þinna.[26] En við þessi tíðendi urðu Frankismenn mjök daprir, en Karlamagnús konungr miklu úglaðastr, ok géngu upp allir í kastalann[27] ok leiddu[28]

1) Drogant *B*, *b*. 2) segði *a*. 3) sannan *a*. 4) [*mgl. B*, *b*. 5) Guitelin konungr *B*, *b*. 6) náliga *a*; nær *B*, *b*. 7) af *a*. 8) [at borginni spilt *B*, *b*. 9) létum *a*. 10) [kvað þeim engan kost á því *B*, *b*. 11) [Sibilia, kvað hann, nú máttu vita at Frankismenn eru yfirkomnir *B*, *b*. 12) varla *B*; eigi *b*. 13) síðar *B*, *b*. 14) [várum viðrskiptum *B*. 15) [*mgl. B*, *b*. 16) *fra* Still gleði *o. s. v. tilf. a*, *B*, *b*; *mgl. A*. 17) hvat *a*. 18) undankominn *a*. 19) [*mgl. B*, *b*. 20) [*mgl. B*, *b*. 21) [*tilf. a*, *B*, *b*. 22) sér *tilf. B*, *b*. 23) [*mgl. B*, *b*. 24) [eru (þér *tilf. B*) at segja, at dauðar eru allar hjálpir þínar *a*, *B*, *b*. 25) alt lið hans *a*, *B*, *b*. 26) [*mgl. B*, *b*. 27) vígskörð *B*, *b*. 28) eltu *a*, *B*, *b*.

í brott Guitalin konung [frá kastalanum[1] með örum. Þá mælti Nemes við konung: Ver eigi úglaðr, segir hann, því ekki tjár at syrgja eptir dauðan,[2] maðr skal eptir mann lifa ok rækja sjálfan sik mest en minnast í [bœnum sálna framliðinna manna.[3] En vér skulum veita heiðingjum hefnd í móti, höggva stórt ok skilja höfuð þeirra frá bolum,[4] sem þeir gerðu við várt lið. Ok vel[5] segir mér hugr um skipti vár áðr skamt líði héðan, spyrja munum vér nökkur góð tíðendi frá Rollant.[6]

**11.** Nú er at segja frá Reinir.[7] Hann [er nú aptr kominn or[8] flótta ok hefir á sér mikil merki, ok er hann lagðr í gegnum með sverði. En at móti honum fór[9] Milun páfi ok heilsaði honum, ok sá þá[10] görla á honum, at hann hafði í bardaga verit, [ok öll hans herklæði váru höggvin af honum.[11] Síðan spurði páfinn at tíðendum. En Reinir svarar, at þeir menn er honum fylgdu váru 20 hundrað manna, vér várum farnir yfir Rín, en áðr vér vissim, þá kómu[12] at oss meir en 15 þúsundir heiðinna manna, ok áttum vér saman orrostu ok [vörðumst vér nökkura stund, en svá lauk at þeir feldu af oss fimtán 100 riddara, en vér hleyptum út á Rín, er eptir várum, ok kómumst við trauð ok nauð[13] undan. Oliver svarar: Rytta afgömul, segir hann, hvat skyldir þú hlaupa fyrir skjöldu fram sem þú værir ungr, eða hvat gékk þér til þess, er þú ljópt á vápn fyrir aðra menn? En nú höfum vér fyrir þínar sakir skömm ok skaða, ok [munum vér þikkjast trautt hæfir menn fyrr en vér getum hefnt þessa.[14]

**12.** Nú er at segja frá Rollant, at hann talar[15] við lið sitt: Upp sem harðast ok herklæðit yðr, segir hann, ok sœkit til borgarinnar, [ok dugi nú hverr sem drengr er til,[16] ok legg ek á gæfu ins helga Pétrs postula [ok giptu Karlamagnús konungs á borg þessa.[17] En áðr þeir géngi[18] til borgarinnar, þá stóð upp páfinn ok talaði fyrir herinum ok sagði mörg góð dœmi: Fyrst frá Moysi, hversu hann komst[19] yfir Pharaonem konung með guðs krapti; [hér með sagði hann frá Simone inum helga, er hann kom til lands þess er Kartago[20] heitir, ok hann taldi þat fyrir þeim hversu sú borg var

1) [*mgl. B, b.* 2) andaðan *a.* 3) [bœnahaldi um framliðna menn kristna *a.* 4) bolnum, svá *a.* 5) gott *a.* 6) *fra* Þá mælti Nemes við konung *mgl. B, b.* 7) Remund *a, saal. ogsaa senere.* 8) [komst undan Söxum með *b.* 9) reið *B, b.* 10) þat *a*; hann *B.* 11) [*mgl. B, b.* 12) kom *a.* 13) [varð eígi för vár betri en þeir feldu af oss 15 hundruð manna, en þeir er undan kómust eru allir sárir. En síðan hleyptum vér á brott ok út á Rín ok kómumst við þat *a.* 14) [þikja vera eigi hæfir oss fyrr at hressast fyrr en vér hefnum hans *a*; *fra* En Reinir svarar at þeir *o. s. v. har B, b blot:* En hann segir þau sem váru. 15) mælir *a, B.* 16) [*mgl. B, b.* 17) [*mgl. B, b.* 18) géngu *B, b.* 19) kom *B*; sté *b.* 20) Kartagine *a.*

unnin er Alle hét; ok hann taldi um þat, hversu drómundr einn var unninn, er heiðnir menn áttu, í Grikklands hafi. En nú góðir drengir, látit yðr þat hugkvæmt vera, hversu margar jartegnir guð hefir gerfar yfir vinum sínum,[1] ok [gangit nú úhræddir til orrostu.[2] Allir þeir er hér falla [leysu vér af öllum skriptbornum syndum,[3] en þér skulut ván eiga eilífrar sælu áðr blóð [sé kalt á jörðu.[4] Síðan gengu þeir at borginni blezaðir í nafni föður ok sonar ok anda heilags, ok veittu Frankismenn snarpliga atsókn þann dag [ok höfum (vér eigi) heyrt harðari sókn eins dags en þá,[5] en þó váru þeir Rollant ok Oliver auðkendir í öllum herinum, því at svá var þar sem þeir hjuggu til, sem ekki væri fyrir hvárt sem[6] var skjöldr eða brynja, ok á lítilli stundu brutu þeir borgarvegginn Rollant ok Olifer, svá at þar mátti aka vel inn sjau vögnum senn. En í því bili tóku borgarmenn at flýja ok gáfu upp borgina. En Frankismenn sóttu[7] borgina, en sumir reka flótta. Ok Margamar konungr flýði undan ok lagðr áðr í gegnum með sverði. Ok eru nú allir Saxar yfirkomnir er í borginni váru, ok sá lýðr er Roos[8] heitir, ok sá er nefndr er Komant, ok sá er Normam[9] heitir, þeir váru útlendir menn, ok sá lýðr er nefndr er [Hungro ok Þarbungro,[10] ok þar váru Frísir. En þessi lýðr flýði allr undan. En engi maðr kunni hundruðum at telja þá er dauðir lágu þar eptir af heiðingjum.[11]

13. Nú er at segja frá Margamar, at hann kom[12] á fund Guitalins konungs, ok finnr hann í landtjaldi. En þegar er hann leit þá,[13] þá spurði hann tíðenda. En Margamar segir [mörg ok mikil,[14] Frankismenn hafa unnit Garmasieborg ok drepit fyrir oss útal þúsunda,[15] ok er Rollant í borginni, [ok varð oss at öðru en hann væri drepinn eðr druknaðr í Rín, sem oss var sagt.[16] Ok nú er hann[17] [var fullnumi[18] at tíðendum,[19] þá varð hann svá úglaðr, at nær [varð hann vitlauss,[20] [ok var þat illa er nökkut skorti at.[21]

1) [*mgl. B, b.* 2) [at síðastu í sinni tölu eggjaði hann Frankismenn ok bað þá undir guðs trausti úhrædda fram ganga. *b.* 3) [af váru liði, þá munu þeir leysa þá af öllum syndum, þeim er þeir hafa til skripta borit *a.* 4) [yðvart sé kalt *a.* 5) [*tilf. a.* 6) fyrir *tilf. a.* 7) í *tilf. a.* 8) Ros *a.* 9) Moram *a.* 10) [Hungr ok Þarbungr *a.* 11) *fra* Allir þeir er hér falla *o. s. v. have B og b saal.*: Síðan gengu þeir at borginni ok veittu Frankismenn harða atsókn þann dag, ok á lítilli stundu höfðu þeir brotit borgarvegginn, svá at aka mátti í senn 4 (7 *b*) vögnum. En í því bili tóku heiðnir menn at flýja ok gáfu upp borgina. Margamar konungr flýði undan, ok var áðr lagðr með sverði. Ok nú eru þeir allir yfirkomnir er váru í borginni, kunni ok engi maðr þá hundruðum telja er þar lágu dauðir eptir. 12) fór *a, B.* 13) *mgl. a*; hann *B, b.* 14) [mikil ok hörð *a*; *mgl. B, b.* 15) hundraða *B*; manna *b.* 16) [*mgl. B.* 17) konungr *a.* 18) fullnuminn *a.* 19) [hafði heyrt tíðendi *b.* 20) [gékk hann af vitinu *a, B, b.* 21) á *a*; [*mgl. B, b.*

Nú kallar [Guitalin konungr á Sibilio dróttningu, ok hon svarar honum[1] fögrum orðum, ok gerði hon þat betr en vert var: Þú inn ríki konungr Saxa, ver kátr,[2] segir hon, þótt til annars sé[3] gert. Rollant er nú vaknaðr sem mik grunaði, en menn þínir drepnir ok mikit unnit af landi þínu, ok er þó þat[4] ráð at láta eigi fyrir[5] drífast, því at eptir er enn it flesta lið þitt ok it bezta. Þá mælti við hann[6] höfðingi sá er Klandare[7] hét: Of málug gerist[8] dróttning um þetta mál ok œrit hlutsöm. Ek hefi sent til landa minna eptir liði, ok eigum vér ván þaðan sextigi þúsunda,[9] ok er þat it harðasta fólk[10] er í er veröldinni, ok þarf eigi Guitalin konungr at óttast Frankismenn,[11] ok munum vér aptr vinna[12] öll þau lönd, er nú eru af oss unnin ok mörg önnur af ríki Frakkakonungs. Ok em ek búinn at sœkja borgina til handa þér, ef þú vill, þegar lið mitt kemr. Ok eigi [mun Rollant[13] þora at bíða vár,[14] ok munu þeir[15] dragast í brott, þegar þeir spyrja [at vér erum hingat at leið.[16] Þá svarar Guitalin konungr: Halt vel heit þitt, ok haf fyrir þat vára vináttu[17] ok slíkt af löndum sem þú vilt.[18]

14. Í því bili kom farandi at bróðir Guitalins konungs,[19] ok með honum útal [þúsunda heiðinna manna,[20] ok er hann [góðr konungr ok réð fyrir mörgum stórlöndum.[21] Þessi enn ríki maðr hefir horn þat er Olivant heitir, ok aldri verðr betra [horn, þat[22] var tekit af villidýri því er aldri sefr. [Svá segir ifalaus bók at dýr þat hefir eitt horn, en þat er í miðju enni.[23] En þat fœðist í djúpum dölum á sumrum, en á vetrum á[24] inum hæstum fjöllum. En þat verðr 30 at aldri, ok[25] þá verpr þat horni sínu. En þat dýr heitir á latínu tungu unicornium en á norœnu einhyrningr. En þat hefir undir horninu þann stein er ágætastr er í heiminum, ok af þeim tólf er gör Celestis Jerusalem, [þat þýðist í norœnu himnesk Jerusalem.[26] Sá steinn heitir carbunculus, ok á þeim steini er mörg náttúra. En þess konar horn finnst á Jndialandi inu mikla, ok hitta þar veiðimenn ok þó sjaldan.[27] Nú ríðr Elmidan [at kastalanum[28] er

1) [Sibilia dróttning á konung, ok svarar hann henni blíðum ok *a.* 2) ok glaðr *tilf. a.* 3) um *tilf. B, b.* 4) nú hitt *a.* 5) yfir *a, B, b.* 6) *mgl. a.* 7) Klandore *a.* 8) gerðist þú *a.* 9) ok allir brynjaðir *tilf. a.* 10) lið *a.* 11) þegar er þat kemr *a* 12) sœkja *a.* 13) [ætlum vér Rollant svá djarfan at hann muni *a.* 14) ok þat mun honum fyrir(!) betra *tilf. a.* 15) *tilf. a.* 16) [för vára *a.* 17) þökk *a.* 18) *Slutningen af Capitelet fra* Þá mælti við hann *mgl. B, b.* 19) af landi því er Leutice heitir *tilf. a, B, b.* 20) [hermanna *B, b.* 21) [*saal. a*; ríkr konungr ok ágætr. Si porte vn olifant unkes melur ne clinie bestię saluage qui nat soni de morte. Þetta mál viljum vér eigi villa, ok segir svá: *A.* 22) [, horn þat *a.* 23) [*tilf. a.* 24) í *a.* 25) *tilf. a.* 26) [*tilf a.* 27) *fra* ok er hann góðr konungr ok réð *o. s. v. mgl. B, b.* 28) [til kastala þess *a, B, b.*

Karlamagnús konungr var[1] í, ok hyggr at hvern veg [skjótast mætti unninn verða, ok ríðr um[2] ok þikkir lítils um vert. Síðan blés hann í horn sitt[3] Olifant svá fast, at öll jörð [þótti skjálfa af þyt hornsins.[4] Karlamagnús konungr heyrði [blástr hornsins[5] ok þótti ógurligt sem var. Nú mælir Karlamagnús konungr: [Deus optime adjuva nos semper. Guð[6] almáttigr hjálp oss ávalt. Ek undrumst [hljóð horns þessa,[7] er mikill dvergmáli fylgir ok öll jörð skelfr við, ok þat er horn Elmidans konungs bróður Guitalins konungs. Nemes hertugi svarar: Líkligt þikki[8] mér, at hann man kominn vera fjölmennr, ok munum vér skamt eiga til orrostu, ok man [hon verða lítil af várri hendi.[9]

15. [Nú er at segja frá Guitalin konungi, at hans maðr kemr til hans[10] er Dorgant heitir. Hann hefir farit á njósn, sem [áðr er hans vandi til,[11] ok segir honum þau tíðendi, at Rollant [sé yfir kominn Rín ok allr herr Frankismanna.[12] En er konungr [varð fullnumi at tíðendum þessum,[13] þá kallar hann bróður sinn til sín, ok spurði hann hvat til ráða væri at taka. Hann svarar: Þat þikki[14] mér ráð at fœra[15] yfir Rín alla gripi[16] ok gersimar, konur ok börn. Síðan var þat ráðs[17] tekit, ok því næst blésu þeir í þúsund horna ok lúðra, ok tóku upp landtjöld sín ok búðir, ok váru þá klyfjaðir hestar ok múlar ok [öll tamin dýr, ok fóru síðan.[18] En þeir er vörð héldu yfir kastala þeim, er Karlamagnús konungr var í, urðu brátt[19] varir við [þau tíðendi ok sögðu Karlamagnúsi konungi, at heiðingjar váru í brottu. En þeir vurðu því fegnir, sem ván var, ok vildu þá þegar inir yngstu riddarar fara eptir þeim ok drepa af slíkt er þeir mætti við komast.[20]

16. En [við þessa ráðagerð[21] kom[22] sá sendimaðr, er Karlamagnús konungr hafði sendan til Rollants þá er hann sat um Nobilisborg. [Konungr heilsaði honum fyrr er hann sá hann,[23] ok spurði hversu honum hefði farizt. Þá svarar Ermoen: Vel hefir mér farizt,

[1]) sitr *B*; sat *b*. [2]) [hann skal vinna kastalann (ok ríðr umbergis *tilf. B, b.*) *a*, *B*, *b*. [3]) er þeir kalla *tilf. a*, *B*, *b*. [4]) [skalf 20 mílur hvern veg frá (bæði fjöll ok dalir *tilf. a*) *a*, *B*, *b*. [5]) [hljóð af horni þessu *a*, *B*, *b*. [6]) [Himneskr faðir *a*. [7]) [hornhljóð þetta *a*. [8]) þikir *a*. [9]) [sú vera lítil *a*; *fra* Nú mælir Karlamagnús konungr *o. s. v. mgl. B*. [10]) [Sá maðr kom nú til Guitalin konungs *a*; Nú er sá maðr með Gvitelin konungi *B*, *b*. [11]) [hann hefir fyrr verit vanr *a*, *B*, *b*. [12]) [ok allr herr Frankismanna var þá kominn yfir Rín, ok eru nú búnir til orrostu í móti yðr *a*, *B*, *b*. [13]) [varð þess víss *a*; heyrði þetta *B*, *b*. [14]) þikir *a*. [15]) vér fœrim *B*, *b*. [16]) vára *tilf. B*, *b*. [17]) ráð *a*, *B*. [18]) [fóru þeir leiðar sinnar *B*, *b*. [19]) *tilf. a*, *B*, *b*. [20]) [brottför heiðingja ok sögðu þau tíðendi Karlamagnúsi konungi *B*, *b*. [21]) [í því bili *a*, *B*, *b*. [22]) Hermion *tilf. b*. [23]) [þegar er (jafnskjótt sem *B*, *b*) Karlamagnús konungr sá hann, þá heilsaði hann honum (fyrri *tilf. a*) *a*, *B*, *b*.

segir hann, ok[1] þat einkar bezt er ek sé [yðr heila.[2] Milon páfi ok Rollant frændi yðvarr[3] ok allir höfðingjar [báðu yðr heila vera,[4] ok þat með at engi maðr sá er vápnum má valda[5] er[6] heima [alt frá Mundíufjalli ok til ins skozka sæs,[7] ok [þat er yðr komit[8] til liðs. Í gær snimma dags vann Rollant Garmasieborg yðr til handa, ok þar var ek þá staddr[9] með honum. Þá svarar Karlamagnús konungr: [Góðr drengr ertu, Hermoen, segir konungr, ok[10] með góðum tíðendum ferr þú. En seg mér þat, sem mér er forvitni [í at vita, hvat hefir Rollant unnit síðan?[11] Hermoen svarar: Þat er frá því at segja, at Rollant hefir [unnit Nobilisborg, ok feldi hann[12] höfðingja þann er fyrir réð borginni, ok hér hefi ek höfuð hans [yðr at sýna, er Rollant sendi yðr. Var ok náliga drepit hvert mannsbarn er í var borginni.[13] En er Karlamagnús konungr heyrði þessi tíðendi, þá þakkaði hann guði ok Petro postola ok hélt höndum [til himins[14] ok mælti: Dýrligr[15] drengr er Rollant, segir hann. Þá mælir Hermoen: Á morgin snimma [máttu vænta Rollants at heilum[16] tíðendum, ok hefi ek rekit yður[17] eyrendi, sem ek kunna bezt. [Guð launi þér, segir konungr, ok svá ek ið sama með góðu. Nú heitr hann á lið sitt ok mælir: Upp sem barðast góðir riddarar, segir hann, ok herklæðizt hvatliga ok lúkit upp kastala, ok sækjum eptir heiðingjum, ok vinnum á þeim alt þat ilt[18] er vér megum. Síðan [gerðu þeir svá ok riðu út allir albrynjaðir ok leyptu eptir þeim[19] ok drápu af þeim mikinn fjölda. Þá tók Hermoen til orða: Þat[20] legg ek til, konungr, at reka eigi langt[21] flótta heiðingja, því at þat hendir opt, at þeir [snúast hart við,[22] en vér höfum of lítit lið í mót her heiðingja. Er ok þat satt er mælt er, at heilum vagni er bezt heim at aka. Nú er þat mitt ráð, at [þér gerit lítit at ok hverfit aptr at sinni, ok ríðit[23] í móti páfanum ok Rollant, ok er þat bezt fallit, at þú finnir þá úti heldr en þeir[24] þik inni byrgðan.

[1]) guð þakki yðr þat er þér spyrit af ok *tilf. a.* [2]) [þik (yðr *b*) heilan *a, B, b.* [3]) þinn *a, B.* [4]) [ok allr herr sá er þeim fylgir, sendir yðr kveðju guðs ok sína ok allra heilagra manna *a*; sendu kveðju guðs ok sína *B, b.* [5]) halda *a.* [6]) sitr *B, b.* [7]) *saal. ogsaa a*; [*mgl. B, b.* [8]) [er þat (alt hér *tilf. B*) komit yðr *a, B, b.* [9]) ***Her mgl. 6 Blade i a.*** [10]) [*mgl. B, b.* [11]) [á, hvat hefir Rollant sýst við Nobilis? *B, b.* [12]) [unna borgina þér til handa, ok at várum vér þá er þat var sýst, ok feldum vér *B, b.* [13]) [þér at fœra, er Rollant sendi þér til sýnis *B, b.* [14]) [sínum til himna *B.* [15]) furðuligr *B*; furðu góðr *b.* [16]) [skaltu konungr frétta Rollant at *B, b.* [17]) þín *B*; þitt *b.* [18]) [herklæðit yðr sem hvatligast, ok lúkit upp kastala dyr, ok laupum (hleypum *b*) eptir heiðingjum, ok vinnum af þeim þat *B, b.* [19]) [var þat ráð (ráðs *b*) tekit ok hlupu (hleyptu *b*) eptir heiðingjum *B, b.* [20]) ráð *tilf. B.* [21]) allangt *B.* [22]) [hrökkva hart við er eltir eru *B, b.* [23]) [þú gerist lítilátr ok hverfir aptr at sinni, ok ríð *B.* [24]) finni *tilf. B, b.*

Þá svarar Karlamagnús konungr: Hermoen, segir hann, haf heill ráðit,[1] ok þetta sama skal hafa.[2] Síðan reið konungr í móti Rollant frænda sínum ok mœtti honum á velli nökkurum fögrum í fjallshlíð einni, ok varð þar mikill fagnafundr með þeim,[3] ok [þótti sem hverr hefði[4] annan or helju heimtan. [En allir höfðingjar ok ríkismenn ávítuðu Karlamagnús konung um þat, er hann hafði svá fámennr farit í Saxa veldi. Góðir riddarar, segir hann, guð sé lofaðr, eigi höfum vér týnt af váru fé þat er vert sé eins pennings, heldr hafa várir menn unnit af heiðnum mönnum þat er vert er 100 punda silfrs.[5] Síðan þakkar Karlamagnús konungr Rollant liðveizlu þá er hann hafði veitt honum [ok hans lið,[5] ok kvezt nauðugliga komizt mundu hafa or kastalanum, ef hann [hefði eigi þeirra við notit.[6] Ok þat er yðr at segja, at svá er Rín ill yfirferðar, at hvárki má á henni finna vöð[7] né skip, [þótt farit sé hundrað mílna með henni. En nú vil ek, segir konungr, at vér fáim ina högustu smiði bæði á tré ok stein, ok látum[8] gera brú yfir Rín, þá er vér mættim[9] yfir komast ok lið várt, ok mættim vér muna[10] Guitalin konungi þat er hann kúgaði[11] oss svá lengi í kastalanum. Þá svarar Rollant: Vel hefir þú mælt, ok þetta er mér at skapi, [því at eigi kómum vér til þess hingat at fara við svá búit í brott. heldr skulum vér sitja tólf mánuðr eðr lengr ok freista hvárt heiðingjar fýsast fyrr at leysast eðr vér.[5] Síðan váru smiðirnir til fengnir ok lögðu [ráð á allir inir vitrustu[12] menn, hversu þessa brú skyldi gera, ok ætluðu at [þeir skyldi[5] gera með steini[13] ok lími, ok ofan gera á henni átján kastala ok í hverjum 100 lásboga, ok ætluðu at [þeir skyldi[14] fella með því[15] heiðingja, ef þeir [sœtti at.[16] Þá svarar Rollant: [Látum sem fyrst görfa verða brúna, eðr[17] hversu fjölmennr er Guitalin konungr. Karlamagnús konungr svarar: Hann hefir fjórar þúsundir ok 20, [at útöldu því liði[18] er hefir Elmidan bróðir hans ok aðrir konungar þeir er með honum eru, ok eru þeir inir verstu viðreignar ok hafa átt við mik [fjórar orrostur, ok hefir engi verit lítil.[19] Elmidan hefir ok horn þat er ekki sáttu né heyrðir slíkt fyrr jafngott; en þegar hann kemr til bardagans, þá blæss hann horni sínu [, ok við þat[20] skjálfa fjöll ok brekkur, dalir ok skógar. En við þann blástr herðist mjök lið hans, [en hitt dignar

[1]) ráð *tilf. B.* [2]) nýta *B, b.* [3]) ok hljóp hverr á háls öðrum *tilf. B, b.* [4]) [þóttist hverr hafa *b.* [5]) [*mgl. B, b.* [6]) [nyti eigi þeirra at (hans við *b*) *B, b.* [7]) vað *B, b.* [8]) [ok því vil ek, at vér leitim at smiðum ok látim *B, b.* [9]) auðvelliga *tilf. b.* [10]) launa *b.* [11]) hélt *B, b.* [12]) [til enir ríkustu *B.* [13]) grjóti *b.* [14]) [*mgl. b.* [15]) þeim *B, b.* [16]) [sóttu til brúarinnar *B, b.* [17]) [*mgl. B.* [18]) [fyrir utan þann her *B, b.* [19]) [stórar orrostur ok allar harðar *B*; margar orrostur, *b.* [20]) [svá hátt ok hvelt, at þar af *b.*

mjök er í móti er, ok verða margir felmsfullir,[1] en þat horn kalla þeir Olifant. Því trúi ek, segir Rollant, at þeir eru illir viðfangs.[2] En þá sögu hefir þú sagt mér frá horni þessu, at [sá mikli riddari er þenna grip á, verðr at mæla við mik nökkut, er vér finnumst í bardaga.[3] Ok [segir at honum þikkir betra at deyja en sjá eigi[4] hornit. Síðan þeysa þeir herinn allan upp með Rín, ok fóru svá 20 daga [at þeir géngu, ok eigi váru þeir herklæddir, svá höfðu þeir illar færðir.[5]

17. [Svá barst at einn dag,[6] at Turpin erkibyskup ok Olifer jarl váru fyrstir í för ok riðu með ánni Rín [ok höfðu lið sitt með sér, ok riðu 7 mílum framar en konungr[7] ok fundu í dal einum einsetumann, ok hafði hann vel búit um sik ok átti þar[8] kapellu eina. En heiðnir menn höfðu brotit[9] bygð hans alla, [þá er fyrr hafði verit, ok var honum þat skaði mikill.[10] Nú fór erkibyskup af [baki, ok þat lið er honum fylgdi, ok fóru til kapellunnar ok báðust þar fyrir. En síðan kvaddi erkibyskup heremitann[11] ok mælti svá: Almáttigr guð varðveiti þik. Einsetumaðrinn svarar á mót: Guð fagni yðr,[12] ok sé þér allir vel komnir, ok sýnist mér svá sem [hér sé[13] Frankismenn. En Olifer svarar honum: Vér erum hirðmenn Karlamagnús konungs. Heremita[14] svarar: Satt segir þú, ok þat veit ek, at Karlamagnús konungr vill fara yfir Rín, [en 100 mílna er enn at fara áðr brú megi finna, er yfir megi komast, en ek skal gerast við yðr sannsögull.[15] Ek var risinn upp í óttu í morgin, ok sá ek lítinn flokk rauðdýra fara yfir Rín, ok [eigi vættu þau lær sín né síður.[16] En Frankismenn urðu glaðir við þat ok leituðu síðan vaðanna. Turpin erkibyskup hóf upp höndina hœgri ok [signdi sik[17] ok réð[18] fyrstr[19] út á ána. [Blezuð verði sú stund, er slíkr klerkr ok skörungr var fœddr. En síðan reið Oliver ok alt lið þeirra, ok komast allir yfir Rín ok lofuðu guð. Nú mælir erkibyskup: Vel hefir oss til tekizt, er nú höfum fundit vað þetta, er á ánni er, ok eigi vitu Saxar.[20] Þá sjá þeir Rollant fara til

1) [*tilf.* ***B***, ***b***. 2) viðreignar ***B***, ***b***. 3) [engi er annarr kostr en ek verð at finna þann í bardaganum, er horn þat á. ***B***, ***b***. 4) [segir at honum þikki betri dauði sinn en þat hann geti eigi sótt ***B***; heldr skal ek dauða þola af hans sverði, en ek geta eigi sótt ***b***. 5) [*mgl.* ***B***; at þeir fundu engi vöð ***b***. 6) [Nú var þat þváttdag einn ***B***, ***b***. 7) [*mgl.* ***B***, ***b***. 8) sér ***B***, ***b***. 9) brent upp ***B***, ***b***. 10) [*mgl.* ***B***, ***b***. 11) [hesti sínum ok gengr til kapellunnar, ok biðst þar fyrir, en síðan heilsaði Turpin einsetumanni ***B***, ***b***. 12) þér vel ***B***. ***b***. 13) [þér séð ***B***; þér munut vera ***b***. 14) Einsetumaðr ***B***, ***b***. 15) [ok má eigi komast fyrir því at hon er ill yfirfarar. En ek skal segja þér satt. ***B***, ***b***. 16) [*saal.* ***B***, ***b***; veiztu eigi þau vað í sinni síðan ***A***. 17) [signaði ***B***; signaði vatnit ***b***. 18) reið ***B***. 19) manna *tilf.* ***B***, ***b***. 20) [ok komst vel yfir ok alt lið þeirra ***B***, ***b***.

árinnar með lið sitt, ok [fóru þegar yfir Rín ok þangat er Turpin erkibyskup ok Oliver váru, ok fögnuðu þeir honum vel.[1] Nú mælir erkibyskup við Rollant: Nú viljum vér [senda mann til Karlamagnús konungs ok segja honum þá vöxtu á sem nú eru, ok hann skundi til vár sem fyrst. Þá svarar Rollant: Því ráði munu vér hnekkja, ok eigi höfum vér yðr heyrt mæla jafnmikla fíflsku;[2] vér skulum heldr, segir Rollant, bregða við sem skjótast ok vápnast ok ríða á hendr heiðingjum ok vinna á þeim [alt þat ilt[3] er vér megum, ok skal þat [spyrja, at vér skulum gera þeim harða atsókn. Síðan var þat ráð tekit, ok snerist alt lið þeirra til hœgri handar.[4]

18. Nú er at segja frá heiðingjum, at synir Guitalins konungs risu upp um nótt ok herklæddust, ok lið þeirra, ok fara upp með Rín ok útal [þúsunda með þeim í skóga þá er skamt eru[5] frá Rín, ok leynast þar. Síðan sendu þeir frá sér njósnarmenn. [En þeir fóru á há fjöll ok í þröngva skóga,[6] ok varð þeim litit til hœgri handar,[7] ok sá þar mikinn fjölda manna ok vurðu þegar felmsfullir við bjartleik þann er var[8] af vápnum þeirra, ok [fóru þegar aptr ok sögðu þeim:[9] Vér várum á varðhaldi ok sám lið mikit við[10] Rín ok vel vápnat, ok þikkir oss vænt[11] at þat sé Frankismenn. Þá svarar konungr sá er nefndr er Alfráðr:[12] Þar segi þér frá Rollant ok hans liði. Nú skulum vér dveljast [í skógum þessum,[13] segir hann, ok láta[14] ekki vart verða við oss, því at ek veit ætlan þeirra, at þeir munu stefna it gegnsta[15] til Guitalins konungs, ok [munu þeir eiga[16] orrostu, en vér skulum [þá koma í opna skjöldu ok gera at þeim þat ilt er vér getum.[17] Nú ríða Frankismenn hvatliga [til þess er[18] þeir koma til landtjalda Guitalins konungs, ok koma á þá úvara ok ríða [upp á tjöld þeirra ok troða[19] undir rossa fótum. En er heiðnir menn vöknuðu, þá herklæddust þeir hvatliga ok [áttust við[20] orrostu. En [mikit skildi lið þeirra, ok[21] varð Rollant undan at flýja, en heiðnir menn[22] eptir ok drápu af Frankismönnum mikinn fjölda. En ávalt höfðu Frankismenn 10 fyrir einn. En er þeir

[1]) [fór þegar yfir jafnskjótt. *B*, *b*. [2]) [gera sendimenn til Karlamagnús konungs, segir erkibyskup. Nei *B*, *b*. [3]) [þat *B*, *b*. [4]) [spyrjast á hvert land sókn sú er vér skulum gera heiðingjum. Síðan var þat ráð tekit, ok fóru ofan með Rín á hendr heiðnum mönnum *B*, *b*. [5]) [100 (manna *b*) ok settust í skóg er skamt var *B*, *b*. [6]) [*mgl.* *B*, *b*. [7]) sér *tilf.* *B*, *b*. [8]) skein *b*. [9]) [sneru aptr þegar sem skyndiligast ok sögðu tíðendi sín *B*, *b*. [10]) fara ofan með *B*, *b*. [11]) líkligt *B*, *b*. [12]) Arfarz *B*, *b*. [13]) [skóginum *B*. [14]) látum *B*, *b*. [15]) beinasta *b*. [16]) [eiga þar (við hann *b*) *B*, *b*. [17]) [koma á opna skjöldu þeim *B*; koma þeim í opna skjöldu, *b*. [18]) [ok vita (létta *b*) eigi fyrr en *B*. [19]) [á landtjöld þeirra ok drepa mörg 100 *B*, *b*. [20]) [áttu við þá *B*, *b*. [21]) [með því at liðsmunr var mikill, þá *b*. [22]) sóttu *tilf.* *b*.

vildu vaðanna leita [á ánni,[1] þá höfðu synir Guitalins konungs komizt í millum þeirra ok Rínar.[2] Þá mælir erkibyskup: Betri væri sjá úfarin, segir hann, því at eigi ætla ek oss nú munu sigrast í þessi.[3] [Þá svarar Rollant ok Oliver: Svá mun sýnast þeim er bleyðimenn eru, ok sýnist oss enn einkar vænt um várt ráð, ok gerum af várri hendi sem góðir drengir, því at annattveggja er, at vér munum hér eptir liggja eðr lifa ok í brott komast. En[4] ek skal, segir Rollant, ríða at merkismanni þeirra ok fella niðr merkit, ef [ek kem því við.[5] Ok laust síðan hest sinn með sporum, ok reið þegar at þeim er merkit bar ok hjó [hann sundr í miðju[6] ok feldi hann dauðan [af hestinum.[7] Ok þá sneri Rollant aptr hesti sínum, fyrir því at hann sá Turpin erkibyskup illa staddan [. Ok í þeirri svipan féll af Frankismönnum hertugi sá er Mora hét, hann var ætkaðr af Loerenge. Nú ríðr Rollant[8] at einum höfðingja ok [veitti honum bana[9] með spjóti sínu. En í því bili kómu synir Guitalins konungs ok riðu at Rollant báðir, ok váru í för með þeim þúsund riddara. [Nú er Rollant staddr nauðugliga, en hann varðist svá, at engir kómu sári á hann ok eigi af hesti sínum. Ok þetta sjá höfðingjar Frankismanna, Turpin erkibyskup, Oliver jarl, Hermoen sendimaðr af Turonsborg, ok Morie af Blalenskuborg, ok inn frækni Fremikin höfðingi, ok Guiart af Puer ok Odda hertuga, ok Albra frændi hans, Balduini enn flæmski, Joceram af Dormiens. Nú koma þeir allir saman átján höfðingjar kristinna manna, en at móti þeim átta hundruð heiðinna manna, ok hopa þeir undan á hæl, en lið þeirra ferr fyrir þeim ok verja sik svá ok lið sitt, ok komast nauðuliga yfir Rín at því sinni, ok liggja þó nökkurir af liði þeirra ok svá af heiðingjum it sama.[10]

19. Nú er at segja frá Karlamagnúsi konungi, at hann liggr lengi [á dögum[11] ok sefr. En [skutilsveinn hans kemr at honum ok vildi vekja hann ok mælti:[12] Mál er matar herra, ok rís upp

[1]) [er á váru Rín *B*. [2]) árinnar *B*, *b*. [3]) dag *B*, *b*. [4]) [*mgl*. *B*, *b*. [5]) má *B*; ek má *b*. [6]) [sundr skjöld hans ok brynju *B*, *b*. [7]) [til jarðar, ok náðu í því (ok í þeirri svipan náðu þeir *b*) vaðinu *B*, *b*. [8]) [í herinum. Nú ríðr enn R. *B*; í her heiðingja. Hann ríðr *b*. [9]) [leggr í gegnum hann *B*, *b*. [10]) [en hann varðist svá, at engi kom sári á hann né honum (ok eigi heldr *b*) af hesti. Nú er Rollant nauðugliga staddr, ok heitr á lagsmenn sína, fyrst á Turpin erkibyskup. Nú koma þar 18 höfðingjar Frankismanna, ok aka (fara *b*) þeir nú undan á hæli (ok eigi váru þeir ámælis verðir *tilf*. *b*), eru at móti 700 heiðinna manna. En lið þeirra ferr fyrir þeim, ok verja þeir sik svá ok lið sitt, at engi þeirra kom sári á þá, ok kómust svá yfir Rín. *B*, *b*. [11]) [um daginn *B*; áfram *b*. [12]) [skutilsveinar (skjaldsveinar *b*) ganga til hans ok vekja hann ok segja honum, at *B*, *b*.

[(ok) klæðst. En konungr segir sér vera þungt, ok[1] mart hefir mik dreymt um Rollant frænda minn. Mér þótti sem hann væri í skógi þeim er Ardene heitir, ok með honum fjórir[2] veiðimenn, ok þótti mér sem [honum hefði veizt villigöltr einn, ok hefða ek úsét slíkan áðr, ok svá var honum ok torvelt[3] mjök áðr hann gæti hann veiddan. [Í því bili þótti mér koma Guitalin konungr ok hafa Rollant brott með sér.[4] Síðan þótti mér sem þar kœmi Turpin erkibyskup, ok meðr honum 400 riddara, ok gæti[5] sóttan Rollant ok hest hans. Ok nú kalli þér Rollant til mín þegar, því at ek sá hann eigi síðan í gær.[6] Ok var þá leitat Rollants ok fannst hann eigi, ok var hann þá í brottu ok mart lið meðr honum. En í því bili kom farandi einn ungr riddari, hann var sárr mjök[7] ok af honum váru högnar allar hlífðir,[8] ok kom[9] fyrir Karlamagnús konung ok [sagði þá atburði er gerzt[10] höfðu: [Vér várum farnir yfir Rín í gær aptan, segir hann, ok áttu vér orrostu við Guitalin konung, ok fóru svá viðskipti vár, at vér vurðum at flýja, ok féllu af oss Bouin hertugi ok fjöldi annarra góðra drengja, ok svá er Rollant sárr mjök.[11] En Karlamagnús konungr varð við þetta úglaðr ok lét söðla sér hest ok reið þegar í móti Rollant, ok mart[12] manna með honum. En er þeir höfðu riðit um stund, þá mœttu þeir liði Rollants ok stöðvuðu eigi fyrr hesta[13] sína, en þeir fundu sjálfan Rollant, ok heilsuðu honum vel. Þá mælti Karlamagnús konungr við Rollant: Dramblæti þitt ok hvatskeyti manna[14] þinna hafa[15] nú komit yðr í úfœru, ok opt verðr þat, at sá fellr er fang býðr, eða hvat ætluðu þér, hvárt Saxar mundu eigi þora at berjast við yðr eða gæta lands síns? Ok þat hefi ek spurt, at Guitalin konungr á sonu, ok eru þeir bæði hraustir ok ráðgir[16] ok vel at sér búnir, ok er nú þat á vápnum yðrum sýnt, herklæði yður eru höggvin af yðr, en [eruð sjálfir[17] sárir. Þá svarar Rollant: Herra, segir hann, eigi skaltu gabba oss, þó at nú hafi eigi vel til tekizt at þessu sinni. [Úgörla veiztu nema vér hefnimst,[18] því at opt ríss sá upp er fellr. Nú fara þeir til landtjalda ok binda sár Rollants ok fá til lækni, ok eru þeir[19] mjök hugsjúkir um sár hans, hversu þau[20] skipast.

20. Nú er at segja frá sonum Guitalins konungs, at þeir koma fyrir föður sinn ok segja honum,[21] at þeir hafa drepit alla Frankis-

1) [En hann svarar *B*, *b*. 2) 7 *b*. 3) [hann hefði ósét slíkan áðr, ok svá var honum starfsamt *B*; hann sótti einn hjört, ok varð honum starfsamt *b*. 4) [*tilf*. *B*, *b*. 5) gátu *B*, *b*. 6) í gjár *b*. 7) í gegnum *B*. 8) hlífar *B*, *b*. 9) hann kemr nú *B*. 10) [segir honum alla atburði þá sem vorðit *B*. *b*. 11) [*mgl*. *B*, *b*. 12) fjöldi *B*, *b*. 13) för *B*, *b*. 14) liðsmanna *B*, *b*. 15) hefir nú *B*, *b*. 16) ráðugir *B*, *b*. 17) [þér allir *B*, *b*. 18) [því at vera má at vér hefnim nökkurt sinn (þess í annan tíma *b*) *B*, *b*. 19) nú *B*. 20) muni *tilf*. *B*. 21) þau tíðendi *tilf*. *B*, *b*.

menn, þá er í her váru með Rollant, hann höfum vér særðan sjálfan til úlífis, ok nauðugliga komst[1] hann undan ok hljóp út á Rín, ok eigi þurfum vér hann at hræðast [. Þá svarar Guitalin konungr: Hafit fyrir mikla þökk ykkara hreysti.[2] Nú er Karlamagnús konungr mjök úglaðr.

21. Um morguninn reis [Karlamagnús konungr upp[3] ok gékk til Rollants ok sagði honum ætlan sína: Ek vil nú upp taka landtjöld vár ok fara heim til Frakklands til Reimsborgar eða Parisborgar, ok hafast þar við [nökkura stund,[4] því at mér er leitt at týna liði mínu. Þá svarar Rollant: Jlla lýkr[5] þú þá við mik, frændi. En þess bið ek þik í guðs nafni ok ins helga Petrs postula, at þú dvelist her nökkura stund,[6] ok vit hversu sár mín gróa,[7] ok förum til á morgun ok mælum[8] til brúargerðar, ok þat viljum vér, at þú látir niðr brjóta kastala þann inn forna er þú [vart haldinn[9] í um hríðar sakir, ok [bjóðum öllum höfðingjum kost á ok mönnum þínum ok[10] riddorum, at hverr leggi nökkut til [í starfa sínum til brúargerðar,[11] ok vil ek heita þeim,[12] at brátt mun [snúast áleiðis brúargerðin, ef allir eru vel á viljugir,[13] ok mun hon gör vera áðr mánaðr líði héðan, ok gott segir mér hugr um. Þá kallar Karlamagnús [á Rómverja[14] ok mælti: Þér skulut á morgun upp hefja brúargerð ok [ætla at öllu[15] djúpleik ok breiðleik vatnsins. En ef þér gerit eigi þetta, þá skulu þér týna ríki yðru, því er þér hafit haft.[16] En þeir fóru til ok brutu[17] kastala ok færðu hann ofan til árinnar á[18] vögnum ok tóku til at gera brúna. En heiðnir menn vörðu [ok máttu Frankismenn ekki at vinna fyrir þeim, en sumir váru særðir, en sumir váru drepnir, ok síðan ljópu[19] þeir frá. Þá lét Karlamagnús konungr annat lið til fara, ok var þat[20] kallat Alimans, ok margskonar annat[21] fólk með þeim. En eigi tókst þeim betr[22] en hinum, ok váru þeir bæði særðir ok sumir drepnir, ok fóru síðan á fund Karlamagnús konungs ok sögðu honum þau tíðendi, at þeir [gátu ekki gert,[23] ok báðu sér miskunnar af Karlamagnúsi

[1]) dróst *B*, *b*. [2]) [þessa tólf mánaði *B*, *b*. [3]) [hann upp snimma *B*, *b*. [4]) [*mgl*. *B*, *b*. [5]) skilr *B*, *b*. [6]) hríð *B*, *b*. [7]) skipast *B*, *b*. [8]) merkjum *B*, *b*. [9]) [sazt *B*. *b*. [10]) [bjóð öllum höfðingjum þínum *B*, *b*. [11]) [ok starfi til brúarinnar *B*. [12]) þér því *B*. [13]) [á leið komast, ok eru allir velviljaðir þínum vilja *B*; *fra* [í starfa sínum *o. s v.* brúarinnar, sumir starf, en sumir kostnað, ok er þat líkará, ef allir yðrir menn eru vel á viljaðir *b*. [14]) [til sín liðit (lið sitt *b*) *B*, *b*. [15]) [mæla *B*, *b*. [16]) af mér *B*, *b*. [17]) niðr *tilf*. *B*, *b*. [18]) með *B*, *b*. [19]) [öðrum megin árinnar, ok skutu mjök brúarmennina, ok máttu þeir ekki at vinna, fyrir því at margir váru sárir ok margir drepnir, ok síðan hurfu *B*, *b*. [20]) fólk *tilf*. *B*, *b*. [21]) *mgl*. *B*, *b* [22]) til *tilf*. *B*, *b*. [23]) [máttu ekki at sinni *B*; sögðust ekki fá at gert at sinni *b*.

konungi ok brautferðarleyfis. Ok þá nótt dvöldust þeir þar, en um morguninn eptir snemma fara þeir leiðar sinnar. Einn riddari hét Geyfrey,[1] hann fór til landtjalda Karlamagnús konungs ok sagði honum [at lýðr sá var í brott farinn at úleyfi konungs.[2] En konungi líkaði illa ok bað síðan Geyfrey [ríða eptir þeim ok láta þá fara til vár nauðga, ok haf[3] gullsprota minn til jartegna um þetta, at[4] ef þeir vilja eigi aptr fara, þá [skal hvárki börn né konur þeirra (taka) arf[5] á Frakklandi, ef ek kem aptr. Nú ferr[6] hann eptir þeim ok getr náð þeim í skógi einum fögrum, ok mælti við þá illa ok sýnir þeim jarteinir[7] ok biðr þá [aptr hverfa[8] sem skjótast. En þeir vurðu mjök hræddir við ógnarorð[9] konungs ok fóru aptr þegar. En er þeir kómu fyrir konung, þá báðu þeir sér miskunnar,[10] en konungr veitti þeim þegar, því at hann var inn bezti bœna.[11] Nú kallar konungr á Balduina inn [flæmska mikinn höfðingja, ok Odda höfðingja ok Milun af Valres:[12] Góðir drengir, segir hann, þér skulut veita oss lið at brúargerð[13] með yðru[14] liði. Ok þeir játtuðu því þegar, er Karlamagnús konungr bað,[15] ok létu [þegar jafnskjótt[16] til fara menn sína. Ok jafnskjótt [börðu heiðingjar á þá ok drápu af honum[17] 5 hundruð. En þeir[18] flýðu undan til Karlamagnús konungs ok sögðu honum [deili á för sinni,[19] ok honum líkaði illa ok mælti svá: Mikit [er eins manns[20] gengi, ok þat veit ek víst, [at eigi mundu várir menn svá margir sárir ok drepnir, ef Rollant væri betr fœrr.[21] En nú er þat ráð mitt at létta brúargerðinni,[22] því at vér vinnum verra en ekki, ok eru [hvern dag várir menn[23] drepnir fyrir augum oss, ok komum vér engri hefnd á leið fyrir þat. En við þetta eyrendi glöddust [allar þjóðir þær[24] er váru með Karlamagnúsi konungi,[25] ok ætluðu at þeir mundu fá[26] heimför, því at þeir höfðu þar haft mörg vandræði ok stór.

[1]) Geffreyr *B*; Geofreyr *b*. [2]) [þau tíðendi, at lýðr sá er þú nefndir til brúargerðar er brott farinn at úleyfi þínu. *B*, *b*. [3]) [fara eptir þeim ok hafa (fœra *b*) þá aptr nauðga, ok haf hér *B*, *b*. [4]) en *B*, *b*. [5]) [seg þeim þat, at hvárki þeir né þeirra börn skulu taka arf (né óðal *tilf.* *B*) *B*, *b*. [6]) ríðr *B*, *b*. [7]) jartegnir konungs *B*, *b*. [8]) [dragast aptr *B*, *b*. [9]) ógnir *B*. [10]) enn miskunnar sem fyrr *B*, *b*. [11]) herra *B*. [12]) [frœkna mikinn höfðingja ok hertogann af Burgis ok Milon *B*, *b*. [13]) þessi *tilf.* *B*, *b*. [14]) *saal.* *B*, *b*; öðru *A*. [15]) bauð *B*, *b*. [16]) [*mgl.* *B*, *b*. [17]) [létu heiðingjar á þeim brand (skutu heiðingjar á þá *b*) ok drápu af þeim *B*, *b*. [18]) er eptir váru *tilf.* *B*, *b*. [19]) [hvat fram fór *b*. [20]) [má eins góðs drengs *B*, *b*. [21]) [ef Rollant hefði betr fœrr verit, þá mundi brú sjá fyrr ger hafa verit en nú, ok eigi mundu menn várir svá margir sárir sem nú *B*, *b*. [22]) þessu verki *B*, *b*. [23]) [búmenn várir á hverjum degi *B*. [24]) [allir þeir *B*. [25]) [allir hans menn *b*. [26]) ná þá *B*, *b*.

22. Í því bili kómu þar farandi tveir ungir menn vænir, ok var annarr nefndr Elspalrað[1] en annarr Emalraað,[2] ok váru [ætkaðir af Spáni[3] ok báðir vel kristnir ok[4] félagar. Þeir géngu fyrir Karlamagnús konung ok heilsuðu honum ok mæltu við hann: Vit vitum at þú ert mjök hugsjúkr um brúargerð þessa; en nú viljum vit at þú hlýðir [okkarri ræðu,[5] konungr, því at vit kunnum [meira hagleik en aðrir menn, því at vit megum fara í vatni sem fiskar.[6] En ef vit fám fulla vináttu yðra, þá [munu vit við leita brúargerð þessa,[7] ok munum vit koma á leið, hvárt sem Söxum þikkir vel eða illa. Þá svarar Karlamagnús konungr: Ef svá má vera sem þit segið, þá mun ek gera ykkr svá ríka menn sem þit vilið, ok eigi skal ykkr skorta gull né silfr. Þá svarar Alsparáð:[8] Herra konungr, segir hann, lát leita at trésmiðum þeim er hagastir eru ok lát þá [fella mörk, marga viðu ok stóra,[9] ok lát fœra ofan til árinnar. Konungr lét [búast við eptir því sem þeir lögðu ráð til. Ok er viðirnir váru komnir,[10] þá fóru þeir til ok gerðu skip mikit, svá at þess skips [varð aldri maki gerr síðan Nóa örk var.[11] Þetta skip var fim hundruð feta langt, en 300 álna[12] breitt, ok[13] gerðu[14] fjölda kastala, ok í hverjum kastala settu þeir 100 riddara með öllum hervápnum.[15] Ok nú er þess mest ván, at ger verði brúin, [hvárt er heiðingjum þikkir vel eðr illa.[16] En skip þat var gert á [hálfum mánaði einum[17] ok allr tilbúnaðr, ok var þar 100 lásboga í hverjum kastala er var á skipinu, ok þar menn með er skjóta skulu [á þá.[18] En á hálfum þriðja degi[19] höfðu þeir gert tvá steinboga mikla ok sterka. Síðan gerðu þeir líkneskju[20] or marmarasteini [eptir Karlamagnúsi konungi, ok með inu bezta hans skrúði[21] skrýddu þeir hana, ok hon var hol innan ger, svá at standa mátti maðr í henni ok mæla þaðan slíkt sem hann vildi, ok sú líkneskja var svá lík Karlamagnúsi konungi, at [hvárki mátti[22] kenna frá öðru, [ef eigi vissi áðr skil á.[23] Svá var ok með vélum gert, at sá maðr er í var [líkneskinu mátti[24] taka í skegg sér[25] ok hrista, ok gullsprota hefir

[1]) Espaldar *B*; Espalrat *b*. [2]) Einaldar *B*; Emalrat *b*. [3]) [æzkaðir (ættaðir *b*) af Spanialandi *B*, *b* [4]) váru þeir lagsmenn ok *tilf*. *B*, *b*. [5]) [okkr *B*. [6]) [mikinn hagleik, megum vit fara undir (í *b*) vatni *B*, *b*. [7]) [megum vit taka til brúargerð(ar) þessar *B*; munum við til taka at gera brú þessa *b*. [8]) Espalrað *B*; Espalrat *b*. [9]) [ganga til skógar ok lát fella mörg tré ok stór *B*, *b*. [10]) [svá gera sem þeir báðu (beiddu *b*). En er tréin váru komin, *B*, *b*. [11]) [maki (jafningi *b*) varð aldri fyrr gerr í heiminum nema Nóa örk. *B*, *b*. [12]) feta *B*, *b*. [13]) þeir *tilf*. *B*, *b*. [14]) þar á *tilf*. *b*. [15]) herbúnaði ok skotvápnum *B*, *b*. [16]) [*mgl* *B*, *b*. [17]) [einum hálfum mánaði *B*, *b*. [18]) [af þeim *B*, *b*. [19]) mánaði *B*, *b*. [20]) líkneski *B*. [21]) [ok með inum bezta konungs skrúða *B*, *b*. [22]) [varla mátti hvárt *b*. [23]) [*mgl*. *B*, *b*. [24]) [líkneskjunni sá mátti ok *B*, *b*. [25]) henni *B*, *b*.

hon í hendi sér ok dýr at Söxum ok hœtir[1] þeim. En sá er í líkneskjunni[2] er mælir illa við heiðingja sem vert er, ok kallar þá bikkjur ok pútusonu[3] ok biðr þá upp gefa landit ok á hönd ganga.[4] En líkneskjan var sett ofan á steinboga þann er vissi[5] at Söxum, ok skutu heiðingjar til[6] örum ok allskonar skotvápnum, ok beit ekki á sem ván var at. Þá mæltu heiðingjar: Þetta er eigi maðr heldr[7] djöfull, er eigi bíta vápn.[8] Ok mælir hverr við annan [ok eru felmsfullir ok hræzlu:[9] Á leið mun Karlamagnús konungr koma brúargerð þessi, hvárt sem vér viljum eðr eigi, ok[10] gerir Guitalin konungr [fíflsku mikla,[11] er hann flýr eigi undan,[12] ok væri sá hans kostr beztr, at hann [gerði svá, ok allra vár.[13] Ok gerðu síðan sendimann til Guitalins konungs [með þessum eyrendum, báðu svá segja Guitalin konungi,[14] at eigi máttu þeir þar[15] banna Karlamagnúsi konungi brúargerðina. En [þessa för[16] fór Dorgant ok bar konungi þau tíðendi,[17] en við þetta varð Guitalin konungr mjök dapr.

23. Hann kallar þá til sín konung þann er Alkain hét, hann réð fyrir því landi er Almaric hét. Ok Guitalin konungr spurði hann at,[18] hvat tiltœkiligast væri. Alkain svarar: Lítit er enn [fyrir góðum brögðum,[19] segir hann; þú skalt taka tvá konunga kórónaða, ok skal hvárr þeirra hafa 400 riddara,[20] en ek skal vera inn þriði,[21] ok skal ek einn hafa [svá mikit[22] lið sem þit[23] báðir, ok skulu vér fara til Rínar ok banna Karlamagnúsi konungi brúargerð, ok ef [þeir fara[24] yfir Rín, þá skulum vér fella þá hundruðum. Þá svarar[25] Margamar konungr: Mart heitir þú nú rausat,[26] Alkain, ok eigi mun þat alt vel efnast,[27] er þú heitr nú Guitalin konungi, ok góðr drengr þikkist þú, er[28] þú drepr með [einu sverði 60[29] riddara Karlamagnús konungs. En ek get at þú munir ganga verða [nær en nú ertu, áðr þú getr sóttan[30] einn af riddorum hans, ok[31] með orðum þínum einum saman [þá er sem þú takir[32] þá Rollant ok Olifer ok sœkir borgina[33]

[1]) hótar *b.* [2]) *mgl. B*; henni *b.* [3]) portkonusyni *B*, *b.* [4]) Karlamagnúsi konungi *tilf. B*, *b.* [5]) horfði *B*, *b.* [6]) at henni með *B*; til hennar með *b.* [7]) er þetta *tilf. B*, *b.* [8]) járn *B*, *b.* [9]) [síðan ok váru þá mjök felmsfullir *B.* [10]) [man (manu *b*) hvárki hlífa oss borgir né kastalar ok *tilf. B*, *b.* [11]) [fíflskliga *B*; fíflsliga *b.* [12]) ok leitar fyrir sér *tilf. B*, *b.* [13]) [tœki þat ráð *B*, *b.* [14]) [*mgl. B*; at segja honum *b.* [15]) þá *B*; *mgl. b.* [16]) [þá sendiför *B.* [17]) eyrendi *B.* [18]) ráða *B*, *b.* [19]) [fyrir góðu ráði *B*, *b.* [20]) með sér *tilf. B*, *b.* [21]) *saal. B*, *b*; fimti *A.* [22]) [jafnmargt *B*, *b.* [23]) hinir *B*, *b.* [24]) [nökkurir af Frankismönnum eru svá djarfir at fari *B*, *b.* [25]) honum *tilf. B*; hans máli *b.* [26]) mælt *B*, *b.* [27]) endast *B*, *b.* [28]) ef *B*, *b.* [29]) [þínum vápnum 40 *B*, *b.* [30]) [áðr nær en nú ertu, ef þú skalt drepit fá *B*, *b.* [31]) eigi *tilf. B.* [32]) [tekr þú *B.* [33]) borgir *B*; *fra* ok með orðum *har b:* ok eigi munu þeir bugast fyrir orðum þínum einum saman, eigi muntu taka Rollant né Oliver ok ekki sœkja borgir *o. s. v.*

Orliens ok Kolni ok aðrar stórborgir Karlamagnús konungs, ok þit Sibilia bæði saman þá er þit kyssizt[1] [fastast í[2] apaldrsgörðum, ok [skaltu þá einn öllu[3] ráða, ok meira virðir þú einn koss Sibiliu dróttningar en allan þinn riddaraskap. Þá svarar Alkain: Margamar, segir hann, þat veit trúa mín, at mart hefir þú nú [mælt úsatt ok sagt[4] á hendr mér. En Guitalin konungr setti þik til at gæta Garmasieborgar[5] ok margar þúsundir riddara með þér, ok hélztu[6] henni illa ok úgóðmannliga,[7] ok hugði Guitalin konungr at þú værir[8] konungr ok harðr höfðingi, en þú [reyndist ragr sem geit,[9] ok illa eru þau lönd komin,[10] er þú ert höfðingi yfir skipaðr.[11] En þat var fyrir [fim nóttum er[12] Frankismenn [drápu helming liðs þíns en eltu þik sem geit, ok alt[13] þat er þér fylgdi. En [borg þá[14] er þú rant frá byggja[15] nú kristnir menn,[16] ok aldri síðan [verðr hon[17] undir forráði Guitalins konungs. En nú fyrir sakir illmælis þíns, þá [skorumst ek á hólm við þik ok í móti þér,[18] því at þú hefir logit á mik ok[19] Sibiliu dróttningu, ok aldri [úsœmda ek hana.[20] Ok ef þú kant nökkut í riddaraskap, þá [dragst þú[21] eigi undan boði þessu. Ok þá sök gef ek þér aðra, at þú lézt vera konungr ok ertu [ekki til borinn ríkissins.[22]

24. Síðan [skildust þeir[23] ok ljópu til landtjalda sinna ok fóru í herklæði sín, ok [bjóst hvárrtveggi til hólmgöngu.[24] Þá kom[25] Guitalin konungr ok skildi þá ok bannaði þeim at berjast ok mælti við þá: [Únýtir ok œrir erut[26] þit, ok skemma vili [þit mik er þit[27] vilit sjálfir berjast mínir lagsmenn. En ek ætla at þit munit þurfa alls ykkars hvatleiks áðr hálfr mánuðr líði héðan, ok fyrir því at Karlamagnús inn ríki ok inn mátki gerir nú brú sína.[28] En liðsmenn svara: Eigi viljum vér því trúa, [at Frankismenn muni þora at koma í þitt veldi.[29] Þá mælti Guitalin konungr við Dorgant njósnarmann: Er þat satt, at Karlamagnús konungr gerir brú á[30]

[1]) faðmizt *b*. [2]) [í fögrum *B*. [3]) [þikist þú þá einn öllu mega *B*, *b*. [4]) [sagt úsatt *B*. [5]) Garmaisaborgar *B*, *b*. [6]) hélt þú *B*, *b*. [7]) údyggiliga *B*, *b*. [8]) réttr *tilf. b*. [9]) [ert regimaðr *B*, *b*. [10]) ok skipuð *tilf. B*, *b*. [11]) *mgl. B*, *b*. [12]) [fám dögum at *B*, *b*. [13]) [eltu þik ok drápu flest lið *B*, *b*. [14]) [borgir þær *B*, *b*. [15]) þær *tilf. B*. [16]) ok lið Karlamagnús konungs *tilf. B*. [17]) [verða þær *B*, *b*. [18]) [skora ek þik á hólm við mik, *B*, *b* [19]) á *tilf. B*, *b*. [20]) Gutelin konung né konu hans *B*; [gerða ek Guitelin konungi þá vanvirðing at úsœma konu hans. *b*. [21]) drakstu *B*; dragstu *b*. [22]) [hvergi kominn til ríkis. *B*, *b*. [23]) [skildu þeir reiðir *B*, *b*. [24]) [bjuggust til bardaga *B*, *b*. [25]) þar *tilf. B*, *b*. [26]) [únýtt (illa *b*) gerit *B*, *b*. [27]) [*saal. B*, *b*; þér er þér *A*. [28]) yfir Rin *B*, *b*. [29]) [ok ekki mun hann (at hann mundi *b*) því á leið koma, ok eigi munu hans menn þora (at koma *tilf. b*) í veldi þitt *B*, *b*. [30]) yfir *B*, *b*.

Rín? En þá vann Dorgant eið, [at hann ló[1] ekki orð at konungi, [því hverr er þar kemr, segir hann, þá má[2] sjá bæði dag ok nótt Karlamagnús konung, hann stendr uppi á steinstólpa[3] ok hefir í hendi sér staf einn [ok mælir hart við steinsmiði sína, ok er þat it mesta undr, er vér vitum at öll skotvápn er vér skutum á hann, þá þótti honum enskis vert um, ok vér sám hann taka í skegg sér, ok hristi at oss ok mælti við oss illum orðum, ok hann heyrðum vér vinna eið at skeggi sínu, ok bað sik svá njóta skeggs síns ins hvíta, at þú skyldir eigi hafa af ríki þínu, áðr skamt væri liðit, þat er vert væri eins spora.[4] Þá svarar Guitalin konungr: Vér skulum fara til máls[5] við Karlamagnús konung ok vita [hvárt hann sé svá djarfr, at hann vill setja oss út af erfðalöndum várum en sjálfr setjast í rangliga vár ríki.[6]

25. Nú er at segja frá Guitalin konungi, at hann fór á fund Karlamagnús konungs, ok jafnskjótt sem hann sá[7] hann, þá mælir hann við Karlamagnús konung: [Sjálft guð þitt[8] steypi þér ok felli niðr ofrdramb [manna þinna ok sjálfs þíns.[9] En þess vil ek spyrja þik, Karlamagnús konungr, hví leitar þú [til vár[10] eða hverjar sakir gefr þú oss, [því at ekki ertu[11] borinn til ríkis þessa?[12] Þá svarar Karlamagnús konungr: Þat er satt[13] at segja, Guitalin konungr, at Saxland er mín föðurleifð, ok [á ek þat jafnheimilt[14] sem Kolno, því at Pippin faðir minn átti Saxland. Þá svarar Guitalin konungr: Fyrr en þú fáir[15] þat af mér, þá skaltu týna meira[16] en 10 þúsundum [af liði þínu,[17] ok [annattveggja skaltu týna slíku svá liði[18] áðr [brúin yrði[19] ger eðr fleira. En um annat skaltu svá vera skemdr, at aldri hendi slíkt fyrr [Frankismanna konung[20] sem þik skal henda, áðr lúki okkru viðrskipti. [Sentu mér hingat[21] Rollant frænda þinn til sýnis yfir Rín. En svá greiði Maumet fyrir mér, er mér þikkir mestu varða, ef ek má ná honum, þá skal ek setja hann í myrkvastofu ina verstu, þá er á Saxlandi[22] er, ok skal hann aldri koma[23] þaðan, meðan [ek lifi.[24] Ok ek [hygg þat,[25] at menn mínir hefði [hann mest knokat,[26] ef hann væri allhlutvandr um sik.

[1]) [við Maumet ok bað hann svá hjálpa sér sem hann laug *B*, *b*. [2]) [ok ef þér komit þar, segir hann, þá megi þér *B*, *b*. [3]) steinboga *B*, *b*. [4]) [*mgl.* *B*, *b*. [5]) móts *B*. [6]) [af honum, hví hann sé svá ranglátr, at hann vill sœkja (setjast *b*) á erfðaland várt. *B*, *b*. [7]) leit *B*, *b*. [8]) [þitt guð sjálfs *B*; sjálfs þíns guð *b*. [9]) [þitt *B*, *b*. [10]) [á land várt *b*. [11]) [veiztu ok þat at þú ert ekki *B*, *b*. [12]) ok ekki ætla ek þér þat *tilf.* *B*, *b*. [13]) þér skjótt *B*. [14]) [jafnheimilt er mér þat *B*, *b*. [15]) fær *B*. [16]) *tilf.* *B*, *b*. [17]) [riddara þinna *B*, *b*. [18]) virði *B*; [eigi skaltu minna liði tapa *b*. [19]) [en brú þín sé *B*, *b*. [20]) [Frakka konung *B*, *b*. [21]) [Send oss, segir hann *B*, *b*. [22]) landi váru *B*, *b*. [23]) komast *B*. [24]) [hann lifir *B*, *b*. [25]) [hugða *B*, *b*. [26]) [merkt hann nökkut *B*, *b*.

En ef yðr leiðist eigi[1] vár viðrskipti, þar er ek hefi drepit fjölda[2] manna [af brúargerð þessi,[3] ok mætti [þér þat vera mjök hugkvæmt, ok[4] dýrt skaltu kaupa Saxland áðr þú náir því af mér. [Ok þú inn mikilgjarni konungr, segir Guitalin, þitt guð fyrirfari þér, ok þeir Maumet guð várt báðir samt.[5] Ok þú ert [barn Örnolfs,[6] ok gat hann þik þá er hann [var kominn[7] af veiðum ok [vánum bráð-ara. En er þú vart borinn, þá vartu kastaðr fyrir kirkjudyrr ins helga Sendinis, ok vartu þar fundinn[8] sem ölmösubarn. En nú hafa djöflar svá[9] styrkt þik, at[10] þú ert kallaðr konungr Frankismanna. En nú væri þó,[11] ef illa skyldi,[12] at þú yndir því er þú hefir nú, ok þakkaðir[13] þat guði þínum 100 sinnum á hverjum degi, at þú haldir því, ok [at þú girnist eigi á jarðir várar eða annarra konunga, ok[14] fari sá fyrir níðingi[15] er fleira lætr [laust fyrir þér en[16] nú hefir þú. En þótt svá sé, at mér verði nökkut,[17] þá á ek eptir mik tvá sonu með Sibiliu dróttning, ok er hvárr öðrum frœknari, ok svá ilt sem [við mik er[18] at eiga, þá [skaltu þat sanna, at þeir sé hvárr meiri kappsmenn.[19] Ok eru þeir nú á för til mín með hundrað þúsunda riddara. Ok sá er enn[20] frændi minn, er heitir Estorgant, hann er föðurbróðir minn, hann hefir [þat lið[21] með sér er heitir [Ungres ok þat lið er heitir Almbrundens, en[22] lið þat er fleira en hundrað þúsunda, ok áðr en langt líði,[23] þá munum vér sýna yðr[24] þat.

26. En er Guitalin konungr þagnaði, þá stóð Karlamagnús konungr upp ok mælti: þú[25] inn illi ok inn útrúi, þú hefir [illa mælt við mik[26] í dag ok úþokkat[27] mik mjök á marga vega. En þú veizt þat, ef þú vilt satt segja, at ek em son Pippins konungs ok borinn frá púsaðri[28] konu,[29] þeirri er konungborin var í allar ættir.[30] En Pippin faðir minn drap föður þinn [um sanna sök[31] ok lagði undir sik alt Saxaveldi. En síðan tók hann þik ok hafði með sér til Frakklands, ok tóktu við [trú ok játaðir þik[32] guði ok hafnaðir skurgoðum.[33] Síðan sendi hann þik til Saxlands ok fékk þér[34]

[1]) í seinna lagi *B*; [Ok under þikir mér þat, at yðr leiðist svá seint *b*. [2]) þinna *tilf. B*. [3]) [um brúargerð þessa *B*, *b*. [4]) [þat því vera uggandi, at *B*, *b*. [5]) [*mgl. B*, *b*. [6]) [launbarn Pippins *B*, *b*. [7]) [kom *B*, *b*. [8]) [vartu borinn, vánu skjótara, ok þá vartu tekinn *B*, *b* [9]) síðan *tilf. B*, *b*. [10]) nú *tilf. B*, *b*. [11]) þá *B*; þat *b*. [12]) vera *tilf. B*. [13]) þú *tilf. B*. [14]) [beiðist eigi til eigna várra, en *B*, *b*. [15]) níðing *B*, *b*. [16]) [af við þik en þat er *B*, *b*. [17]) til meins *tilf. b*. [18]) [þér er við mik *B*, *b*. [19]) er þér enn verra við þá. *B*, *b*. [20]) einn *B*. [21]) [þann lýð *B*, *b*. [22]) [Hungres ok þann er Albrundres (Albrondes *b*) heita, ok *B*, *b*. [23]) sé liðit *B*. [24]) þér *B*, *b*. [25]) Gutelin konungr *B*, *b*. [26]) [talat við mik illa *B*, *b*. [27]) lastat *b*. [28]) *saal. b*; pausaðri *A*, *B*. [29]) hans *tilf. B*, *b*. [30]) sínar *tilf. B*. [31]) [*mgl. B*, *b*. [32]) [skírn ok gékkt á hendr *B*, *b*. [33]) öllum *tilf. B*. [34]) þar *tilf. B*; þat *tilf. b*.

konungs ríki fyrir at ráða.[1] En er þú komt þangat,[2] þá hafnaðir þú kristni ok gerðist[3] fjándans maðr, ok hefir þú nú illa [fyrir þér sét.[4] Ok nú skulum vér gera brú vára, hvárt [sem þér þikkir vel eðr illa.[5] Síðan kallaði hann[6] á riddara sína af Sendinis í[7] Franz, ok bað þá búast til bardaga sem skjótast,[8] ok skulum vér nú vinna Saxland[9] ok drepa alla heiðna menn, þá er vér megum ná. En Guitalin konungr svarar: At [keyptu skaltu komast áðr þat verði.[10] En ef ek mœti þér í bardaga, þá skal ek drepa þik með [þeim inum hvítum kömpum,[11] er þú berr eptir, ok gjalda þér svá föðurdráp.[12] Þá svarar Karlamagnús konungr: [Lítt hræðumst ek[13] hót þín ok lítit hefir þú enn til meins af mér hlotit. Á þat ofan vann Karlamagnús konungr eið við Sendinis í Franz, at annattveggja skyldi hann vinna Saxland[14] eðr liggja þar eptir.

27. Nú snýr Guitalin konungr til liðs síns ok lét blása til húsþings. Ok er [þat var sýst,[15] þá stóð hann upp á því þingi ok spurði menn sína ráðs.[16] En þeim þótti þat ráð, at [konungr léti[17] gera kastala mikinn ok sterkan við brúarsporð, ok skulum vér kalla kastala þann Ekvarð,[18] en þat nafn er svá at skilja[19] sem hann gæti alls ríkis Saxa konungs.[20] En er kastalinn var görr, þá setti hann þann mann at gæta kastalans, er Esklandart[21] hét, ok með honum 20 þúsundir hermanna.[22] En [er kastali sá var gerr, þá skutu þeir or honum ok feldu[23] mikinn fjölda af mönnum Karlamagnús konungs ok því liði er at brúargerð var, ok með vélum ok brögðum djöfuls þá léttu þeir eigi fyrr[24] en þeir höfðu [brotit ok klofit at endilöngu skip þat it mikla, ok drápu þar margan lýð í því sinni, ok varð Karlamagnús konungr at létta brúargörð,[25] hvárt sem hann vildi eðr eigi, ok var þá engi annarr á.[26] En Rollant lá [enn þá[27] sjúkr af[28] sárum þeim er hann fékk af heiðingjum, ok heyrði mikit brak ok háreysti til brúarmanna ok vápnagný, ok kallaði skutilsvein sinn ok spurði hví sætti[29] brak þat it mikla er heyra var til brúarmanna.[30]

[1]) mjök úfyrirsynju *tilf. b.* [2]) hér *B*, *b.* [3]) *saal. B*, *b*; gerðir *A.* [4]) [hagat fyrir þér *B*, *b.* [5]) [er þú vill eða eigi *B*, *b.* [6]) Karlamagnús konungr *B*, *b.* [7]) ok af *B*, *b.* [8]) hvatligast *B*, *b.* [9]) Saxa *B.* [10]) hendi *B*; [öðru man þér verða, *b.* [11]) [þá hinu hvítu kampa *b.* [12]) föðurdrápit *B.* [13]) [Allítt mun ek hræðast *B*, *b.* [14]) Saxa *B*, *b.* [15]) [liðit var samankomit *b.* [16]) ráða *B*, *b.* [17]) [*mgl. B*, *b.* [18]) Fereguarð *B*, *b.* [19]) þýða *B*, *b.* [20]) *mgl. B*, *b.* [21]) Esklandrat *B*, *b*, *her og senere.* [22]) albrynjaða *tilf. B*; alvápnaðra *b.* [23]) [þat váru miklir bogmenn, ok or kastala þeim þá feldu þeir *B*; þeir váru miklir bogmenn, ok feldu kastalamenn *b.* [24]) kastalamenn *tilf. B*, *b.* [25]) [klofit sundr drómund þann enn mikla eptir endilöngum, ok bönuðu mörgum manni í þat sinni, ok varð Karlamagnús konungr at leifa brúna *B*, *b.* [26]) til en sá *B.* [27]) [þá enn *B*, *b.* [28]) í *B*, *b.* [29]) gegni *B*; gegndi *b.* [30]) liðsmanna þeirra *B*, *b.*

En hann sagði at þat var af brúarmönnum, ok hon var brotin, ok betri væri hon úger, ok mörgum manni hefir af henni ilt staðit, ok nú flýr Karlamagnús konungr [ok sér nú engan annan[1] til. En er Rollant heyrði þetta, þá varð hann úglaðr við mjök ok kallaði á guð hárri röddu ok mælti svá: Þú guð er [aldri laugt ok inn sami ert, ok þú leystir oss frá helvíti, ok þú guð er[2] skapaðir Evo[3] or rifi Adams, ok þat var satt at þau átu bannat epli. En eptir því [er þat var satt, þá dreptu Guitalin konung með öllu liði sínu, því at hann er hvern dag at at mýgja[4] lögum þínum ok brjóta boðorð þín. En [þú dróttinn er styrkr ok staðfesta öllum þeim[5] er þinn vilja gera ok halda lög þín bæði dag ok nótt. Nú mælir Rollant við menn sína: Nú verð ek upp at standa ok vápnast, ok hefi ek nú alls[6] of lengi sofit. En menn hans svöruðu honum: Ger eigi [þat fyrir guðs sakir,[7] því at þú fékt fyrir skömmu[8] sár þau er vér ætluðum at banasár mundu vera, en nú eru þau komin í allgott efni, ok er þat várt ráð, at þú látir gæta til[9] sem bezt kantu; því ávalt [munu vér nökkurn sigr vinna,[10] meðan vér höldum þér heilum, en þá [er várt ráð alt fyrir borði,[11] ef þér verðr nakkvat.[12] Þá svarar Rollant: Þegit[13] sem skjótast, [ok skal ekki yðar orð hér um nýta, því at ek skal fara ok[14] eigi dveljast, þótt hverr limr minn sé leystr frá öðrum, ok [þat segi ek yðr, at ek skal fara[15] til brúarinnar ok vita [it sanna um gný þenna,[16] ok vita vil ek, hvat lýð þat er er [oss bannar[17] brúargörð þessa. En er Rollant ok hans lagsmenn[18] váru herklæddir [ok gengnir[19] frá landtjöldum sínum til brúarinnar, þá mættu þeir[20] Baldvina bróður Rollants frækum höfðingja ok vel at sér görfum.

28. [Terri er maðr nefndr, hann var ríkr hertugi, hann réð fyrir ríki því er Ardenais heitir. Hann dubbaði til riddara Baldvina unga í páskaviku ok annan Gillimer skozka, hann var kaupmaðr, ok inn þriðja Bova hertuga ok marga aðra með þeim.[21] En er Rollant sá bróður sinn kominn, þá [rann hann á háls honum[22] ok varð feginn mjök kvámu hans, ok sagði at Saxar höfðu átt við hann [orrostu mikla, ok hefi ek orðit sárr mjök ok hafa heiðingjar felt

1) [undan, ok er nú ekki annat *B.* 2) [*mgl. B.* 3) Evam *b.* 4) [at þat er satt, þá drekk þú nú Gutelin konungi ok öllum her hans, því at hann er hvern dag at at drekkja *B*, *b.* 5) [styrk þá *B*, *b.* 6) alt *B.* 7) [svá *B.* 8) [hefir fengit *B*, *b.* 9) þeirra *tilf. B*, *b.* 10) [muntu vega nökkurn sigr *B.* 11) [erum vér uppgefnir *b.* 12) til meins *tilf. b.* 13) Vápnit yðr *B*, *b.* 14) [því at vér skulum *B*, *b.* 15) [lægi þat við, ok fara skal ek *B*, *b.* 16) [hvat it sanna er um þat, hvat veldr óliði (óhljóði *b*) þessu ok vápnagangi *B*, *b.* 17) [bannar várum mönnum *B*, *b.* 18) menn *B*, *b.* 19) [géngu þeir *B*, *b.* 20) þar *tilf. B*, *b.* 21) [*mgl. B*, *b.* 22) [mintist hann við hann *b.*

mart lið várt.[1] Þá svarar sá maðr til[2] er nefndr er Berarð ok mælti: [Um alla oss skal eitt líða,[3] því at til þess erum vér higat komnir at veita yðr slíkt[4] er vér [megum ok vér erum[5] tilfœrir. Þá mælti Baldvini: [6]Fýsir mik at sjá brú þessa, er svá [er mikit af sagt,[7] ok ef svá [berist at[8] vér komumst[9] yfir Rín, þá þœtti mér þat betra en þótt[10] mér væri gefin [byrðr mín[11] af gulli.

29. Nú [herklæðist alt lið þeirra ok fara í brynjur ok setja hjálma á höfuð sér ok gyrða sik sverðum. Því næst hljópu[12] þeir á hesta sína ok kómust yfir Rín. En þeir váru saman [átta hundrað[13] riddara, ok var þá [guð í[14] fulltingi með þeim, því at þeir týndu eigi til[15] eins penings. Síðan fóru þeir eptir[16] fjallshlíð nökkurri ok kómust[17] í skóg einn, en heiðingjar urðu eigi varir við þá fyrr en þeir œptu[18] heróp. Ok því næst reið fram Rollant at höfðingja[19] einum ok hjó af honum skjöld hans ok brynju, ok lagði[20] spjóti í gegnum hann ok [steypti honum dauðum til jarðar. En Baldvini bróðir hans hóf upp sverð sitt ok hjó í sundr annan heiðingja, svá í hjarta nam stað. Berarð drap inn þriðja. Ok í þeirri framreið drápu þeir svá heiðingja, at þeir urðu undan at flýja, en Frankismenn urðu at flýja undan blóði heiðingja alt þar sem viðskipti þeirra höfðu verit.[21] En síðan sótti Rollant til kastala þess er [var við brúarsporðinn, ok átti[22] við þá orrostu ok [feldi fyrir þeim þúsund manna,[23] ok var þá engi annarr til en Esklandart varð at flýja, ok var þó áðr lagðr í gegnum með sverði. En þeir eru í [eptirför Berað ok Bovi, ok með þeim sá maðr er Rigald er nefndr, hann var af því landi er Boillus hét, ok sá er Alimann enn frakneski hét. Svá er at segja, at Baldvini hefir sótt í eptirför Esklandart, ok var hann konungr kallaðr, ok sagði til hans: Þat er nú til, heiðingi, at bíða mín, ok guð verði þér reiðr, ef þú bíðr eigi; ok ef nökkurr

1) [bardaga, ok hafði hann vorðit sárr mjök í þeirri orrostu ok (höfðu þeir *tilf. b*) felt margt af liði hans *B, b.* 2) *mgl. B, b.* 3) [Eitt skal yfir oss ganga *B, b.* 4) svá lið *tilf. B, b.* 5) [erum framast *B.* 6) þess *tilf. B, b.* 7) [miklar sögur ganga frá *B, b.* 8) [berr at, at *B.* 9) komimst *B.* 10) *mgl. B, b.* 11) [byrðingr *B.* 12) [herklæðast þeir, ok því næst hlaupa *B, b.* 13) 7 þúsundir *B, b.* 14) [at vísu guðs *B.* 15) því er (svá miklu at *b*) vert væri *B, b.* 16) fram með *B, b.* 17) kómu *B, b.* 18) á þá *tilf. B, b.* 19) heiðingja *B.* 20) síðan *tilf. B, b.* 21) [feldi hann dauðan af hesti. En Baldvini hjó af öðrum hjálminn, höfuð ok búk, svá at í hjarta nam staðar, ok þurfti sá eigi fleira. Ok í þeirri svipan drap sínn mann hverr þeirra, (ok þá urðu heiðingjar at flýja *tilf. B*). En Frankismenn urðu þá at flýja, er þeir mœttu almúga heiðinna manna. *B. b.* 22) [heiðnir menn höfðu gert við brúarsporð, ok áttu þeir (átti *b*) *B, b.* 23) [feldu (feldi *b*) þar ótal heiðingja *B, b.*

hugr er í þér, þá bíttu nú ok berst[1] við mik, því at mér er sagt, at þú sér konungr kallaðr, ok er mér á fýst mikil at vit [freistim riddaraskaps okkars.[2] En ek vil at þú vitir, at ek em bróðir Rollants ok nafn mitt er Baldvini, ok em ek systurson Karlamagnús konungs, ok ef þú [fellir mik, þá mantu taka mikil metorð[3] af Guitalin konungi. Þá svarar Esklandart konungr: Eigi em ek viðbúinn við þik at berjast at sinni, en þú ert kominn af góðu kyni ok hörðu[4] ok er æfar ilt við yðr at eiga [, ok er mér ekki um at halda í móti þér orrostu,[5] ok vil ek segja þér hvat til þess [kemr. Ek em í gegnum lagðr sverði,[6] en ef ek væra sáralauss, þá sáttu engan þann er á Maumet trúir fúsara til einvígis en mik.[7] En nú mun ek vera úmáttugr, því at ek hefi [týnt blóði mínu því[8] er ek hafða. Esklandart reið hesti þeim er [kominn var af Rabitalis[9] ok var inn fimasti, en Baldvini fór [svá nær at hann mundi særðan geta Esklandart,[10] en þó varð þat eigi. En þeir fóru svá til þess er þeir kómu fyrir Guitalin konung, þá féll Esklandart [fyrir fœtr Guitalin konungi. En þar sátu fyrir með konungi[11] 20 þúsundir. Síðan tók Baldvini hest [hans ok reið í braut með.[12] En eptir honum [sóttu fjöldi[13] heiðinna manna. Þá tók hann at heita á guð föður allrar skepnu ok mælti svá: Þú guð er skapaðir Adam ok Evo, ok þau átu bannat epli, en [bið ek[14] at þú gætir líkama míns í dag,[15] ok gef mér þá gæfu, at ek mega[16] sjá Karlamagnús konung ok Rollant bróður[17] minn. En er hestr hans heyrði vápnagný af liði heiðingja, þá ljóp hann svá snart[18] ok fimliga sem [broddr fljúgi,[19] ok fór síðan [um fjöll ok dali þá er í Saragarie heita, ok vánum bráðara þá komst hann or augsýn, ok sté þar af hesti sínum ok lét hann þar verpa mœði ok hvílast litla stund, ok síðan lagði hann söðul á hestinn ok ljóp á bak. Þá varð honum litit aptr ok sá fjölda heiðinna manna fara eptir sér. En Baldvini blótaði þeim ok bað guð steypa þeim ok svá þeirra feðginum. Ok nú er hann kominn[20] til

1) [eptirsókn brœðr Rollant ok Baldvini. Ok Baldvini kallar á Esklandrat: Þat er nú ráð, segir hann, at þú bíð mín ok bersktu, *B*, *b*. 2) [reynim okkarn riddaraskap *B*, *b*. 3) [feldir mik, þá mundir þú taka mikinn metnað *B*. 4) hörðum mönnum *B*. 5) [annat en gott, ok þér satt at segja, Baldvini, er mer nú ekki um at berjast við þik *B*. 6) [berr. Ek em lagðr í gegnum með spjóti vangann (svangann *b*), ok er útkominn oddrinn at rygginum *B*, *b*. 7) ek em *B*. 8) [látit blóð þat *B*, *b*. 9) [kynjaðr (kominn *b*) var af Arabialandi *B*, *b*. 10) [ávalt svá nær, at búit var (jafnan *tilf.* *b*) við, at hann mundi koma sári á hann *B*, *b*. 11) [af hesti sínum, ok sátu þá alls með honum *B*, *b*. 12) [þann ok ríðr er heiðingi hafði áðr *B*, *b*. 13) [ferr inn mesti herr *B*; sótti fjöldi, *b*. 14) [nú bið ek þik guð *B*; ek bið þik *b*. 15) svá sem þat var satt *tilf.* *B*. 16) mættig enn *B*; mætti *b*. 17) frænda *B*. 18) hart *B*, *b*. 19) [þá er broddr hleypr harðast af lásboga *B*, *b*. 20) [*mgl.* *B*, *b*.

dala þeirra er heita Sorclandes,[1] ok fá þeir nú eigi áhent hann, því at hann hefir hest þann er skjótari[2] er en hjörtr. En síðan hverfa heiðingjar aptr.

30. Nú skal segja frá Sibiliu dróttningu. Hon var gengin [at sjást um,[3] þá mœtti hon unnasta sínum einum, þeim er Alkain hét, hann var son Ammirals jarls[4] af Babilon, ok[5] orti orða á hann vel ok sköruliga: Alkain, segir hon, illa gerðu þér þat, er þér létut einn mann taka hest af yðr, en nú gef ek [þér, ef þú vilt sœkja þar sem kominn er.[6] Alkain svarar: Ef þú vill gera þat er ek [bið þik,[7] dróttning, þá mun ek fœra þér hestinn ok svá þann er tók, [en þér er lítit fyrir því, þat er ást[8] þín ok vili góðr. En dróttning svarar: Verða ek kona in ragasta, ef ek banna þér at gera þat [er þú beiðist, ef[9] þú fœrir mér höfuð þess er[10] tók.[11] Þat mæli ek ok, segir hann, at ek verða allra riddara níðingr, ef ek efni eigi þat er ek hefi[12] heitit. [13]Alkain herklæddist þá hvatliga, [ok síðan var framleiddr hestr, sá er keyptr var af kaupmanni einum fyrir hundrað punda silfrs ok sjau ok 20 guðvefjarpellum ok 700 landspenninga þeirra er budi eru nefndir, ok enn margir hestar ok dýr þau er dromedarii heita klyfjuð með gulli,[14] en beisl var af landi því er Albasam[15] heitir; söðull var fenginn [af landi því er Affrika heitir;[16] söðulklæðit [var or Álfheimum,[17] ok vissi þat engi maðr hvat klæði í var.

31. Nú ljóp Alkain á hest sinn ok studdist hvárki við stigreip né söðul, ok hengdi síðan skjöld sinn á öxl sér, [ferbyrðing þykkan ok þungan.[18] Hann tók í hönd sér langskeptu[19] ok hafði bundit við spjótskapt sitt gullstúku[20] Sibiliu dróttningar ok hafði sér þat

[1]) Desoredlandes *B*; Desorelandes *b*. [2]) fimari *B*. [3]) [út, ok *B*. [4]) konungs *B*, *b*. [5]) hon *tilf. B*. [6]) [þeim er sœkja vill þar sem nú er kominn *B*; hann þeim er sœkja vill, hvar sem hann er kominn *b*. [7]) [beiðumst *B*. [8]) [þat er ást af þér *B*; *fra* [bið þik *o. s. v.* beiðumst af þér, en þat er ást þín ok *b*. [9]) [þá er *B*, *b*. [10]) hestinn *tilf. B*, *b*. [11]) Þá segir Alkain *tilf. B*, *b*. [12]) þér *tilf. B*, *b*. [13]) Ok síðan œpti hann hárri röddu ok bað fœra sér vápn sín. Ok síðan fœrðu honum vápn fjórir jarla synir ok *tilf. B*, *b*. [14]) [ok fór í brynju ok setti hjálm á höfuð sér, þann er mjök lýsti af, ok hann gyrði sik sverði því, er öll umgerðin var gyld. En þá var leiddr fram hestr einn svartr, en sá var keyptr at girskum kaupmanni, ok þenna hafði Sibilia dróttning keypt sér sjálfri til handa fyrir 100 þúsunda punda silfrs ok átta ok 20 guðvefjarpellum ok 700 landspenninga þeirra er bozeraz (bazerar *b*) heita, ok enn var til gefit 50 þeirra penninga er buklus (bukli *b*) heita, ok margir hestar ok dýr þau tvau er dromedarii heita ok klyfjaðir af gulli *B*, *b*. [15]) Albansani *B*. [16]) [or Albheimum *B*, *b*. [17]) [af Affrikalandi *B*, *b*. [18]) [ferbyrðings þykkvan *B*; ferbyrgðan at þykt *b*. [19]) spjót *b*. [20]) gullstauku *B*; gullstykki *b*.

fyrir merki pardueri,[1] ok fór í brott síðan leiðar sinnar litlu seinna en [broddr flýgr af lásboga.[2] En áðr hann hafði farit mílu lengd, þá [leifði hann eptir sik sakir ferðar meir en 20 þúsundir hesta, ok síðan kom hann farandi til dala þeirra er Sorelandes heita, ok fann þar[3] Baldvina. En þegar er Alkain sá hann, œpti hann hárri röddu ok mælti við Baldvina: Snú aptr þú hesti þínum, ef þú ert bróðir Rollants, því at þat heyrum vér nú,[4] at [engi sé jafngóðr riddari sem[5] þú. En Baldvini svarar:[6] Eigi em ek[7] viðbúinn, því at spjótskapt mitt er brotit,[8] segir hann, ok hefi ek ekki til at verja mik[9] nema sverð mitt. En nú bið ek þik [, at þú þoli(r) mér fresta[10] til þess [at ek mega betr við búast,[11] ok eig at mér öðru sinni,[12] ef svá gerast atburðir til. Þá svarar Alkain: Þess er engi ván, segir hann, því at ek skal fœra þik Sibiliu dróttningu yfirkominn annattveggja kvikan eðr dauðan. En svá er sem mælt er, at lítil er líðandi stund, ok meðan þeir rœddust þetta við, þá fór Baldvini undan á hæli, [unz hann kom til[13] þar er lagsmenn hans váru nökkurir. Þá mælti Alkain við Baldvina: [Vilir þú eigi upp gefa[14] vápn þín, þá fara hér nú eptir þér[15] fjórar þúsundir riddara, ok munu þeir skjótt gera um lífdaga þína ok þinna manna, ok aldri síðan skaltu sjá Karlamagnús konung né Rollant bróður þinn. Þá svarar Baldvini: Eigi er þat vel, segir hann, þar er ek bað þik [áðan eirðar,[16] en nú heitr þú mér bana, ok nú skýt ek til guðs mínu máli. Þá svarar Alkain: Ef þú fellr eðr[17] flýr undan, þá týnir þú lofi[18] þínu. Þá svarar Baldvini: Frýr þú mér nú hugar, segir hann, [ek segi þér, at ek ríð nú undan eigi[19] svá langt, at þat sé lengd mín, þó at ek sé verr at vápnum búinn en þú. Ok þess vænti ek [sem mælt er, þrýtrat veganda vápn nema hugr bili,[20] ok þótt ek hafa týnt spjóti mínu, þá er sá ragr er sverð eitt hræðist, ef[21] annat kemr í móti. Í því bili sneri Baldvini[22] hesti sínum, ok riðust at tysvar, ok kom hvárgi öðrum af baki. En í inni þriðju atreið hjó Alkain til Baldvina ok misti hans, ok þá hjó Baldvini til Alkains[23] af honum hjálm hans [ok mikit af skildi[24] hans ok feldi hann af baki til jarðar. Ok áðr hann komst upp hafði Baldvini hest

1) *mgl. B, b.* 2) [ör ferr af stinnum boga *B, b.* 3) [fann (mœtir *b*) hann *B, b.* 4) sagt *tilf. B, b.* 5) [eigi sé betri riddari til en *B, b.* 6) máli hans *tilf. B, b.* 7) nú *tilf. B, b.* 8) í sundr *B, b.* 9) með *tilf. B, b.* 10) [eins hlutar, at þú lér mér fresta á *B*; [at þú ljáir mér frest *b.* 11) [er ek verð betr viðbúinn *B, b.* 12) slíkt svá *tilf. B, b.* 13) [til þess er hann kom *B, b.* 14) [Ef þú gefr nú eigi þegar upp *B, b.* 15) mér *B*; *mgl. b.* 16) [griða áðr *B, b.* 17) í því er þú *B, b.* 18) lífi *B.* 19) [en nú skal þat ok segja þér, at ek renn nú eigi undan þér *B, b.* 20) [at fáist veganda vápn, ef hugr bilar eigi *B, b.* 21) er *B.* 22) aptr *tilf. B, b.* 23) ok hjó *tilf. B, b.* 24) [allan ok vel helming skjaldar *B, b.*

hans ok mælti [ : Svá[1] góðan hest hefi ek nú sóttan, at[2] eigi vil ek hann láta fyrir alt veraldar gull. Ok í því bili reis Alkain [á fœtr[3] ok bað þarfliga, at Baldvini féngi honum [hest sinn[4] fyrir vináttu sakir, ok ef þú vill þat veita mér, þá gef ek þér konungdóm á Spanialandi, því at[5] Sibilia dróttning á hest þenna, kona Guitalins konungs, er allra kvenna er vænst [er í heiminum eru.[6] Ok fyrir sakir ástar við hana, þá vil ek heldr týna lífi mínu en [farit hafa svá úheppiliga at láta þann grip er beztr er í[7] heiminum. Þá svarar Baldvini: Fari sá fyrir níðing er þat [rœkir, ok fyrir[8] því at ek bað þik [eins hlutar, en þú neitaðir mér, ok fyrir því getr þú nú eigi[9] þína bœn, at þú vildir eigi veita mér þat[10] er ek bað þik. Ok ef þú nytir eigi Sibiliu dróttningar, þá skyldir þú nú týna lífi þínu, en ek vil, at þú segir [Sibilio dróttningu þat, at hon er sú kona í heimi, er ek ann mest fyrir sakir vænleiks hennar ok kurteisi.[11] Ok þar skildust þeir nú at sinni.

32. Nú ríðr Baldvini leiðar sinnar, ok hefir með sér hestinn dýra ok gyrðr sverði því er Alkain hefir átt, ok hann hafði gullstúku[12] Sibiliu dróttningar, þá er hon gaf Alkain til merkis sér. Ok reið hann þó lengi áðr hann sæi[13] lagsmenn sína, ok þá kallaði hann[14] ok bað þá bíða, fyrir því, segir hann, at hér ferr herr Saxa eptir oss ok skulum vér snúa[15] í móti þeim, ef þér vilit sem ek, ok væntir mik, at vér munim sigrast á þeim. En ef þér vilit eigi aptr snúa, þá segi ek yðr vísan dauða.[16] Þá svarar sá maðr er Berað[17] hét ok mælti við Baldvina: Eigi skaltu svá mjök frýja oss hugar, þótt þú hafir unnit hest góðan af frœknleik þínum, ok guð gefi þér at njóta hans vel ok lengi. En ek sé þat at þú ætlar mik[18] huglausan, en ek [hygg at öðru skulu verða;[19] þá er ek sný aptr hesti mínum, þá skal ek [skjótt láta[20] hann eðr fá mér[21] annan.[22] Þá svarar ok sá maðr er nefndr er Rigald: Tökum oss hæli ok nemum [við um stundar sakir,[23] þótt[24] [liðsmunr sé várr ok Saxa.[25] En ef ek sé þat, at nökkurr yðvarr flýr,[26] þá skal ek brjóta spjótskapt mitt um lendar[27] þeim, ok þess bið ek guð, ef ek hefni eigi

[1]) [síðan: *B*, *b*. [2]) ok *B*, *b*. [3]) [upp *B*, *b*. [4]) hestinn *B*, *b*. [5]) *tilf.* *B*, *b*. [6]) [þeirra er fœzt hafa í heiminum *B*, *b*. [7]) [ek skula svá heim koma úheppiliga, at ek hafa látit inn bezta hest er í sé *B*, *b*. [8]) [hirðir, *b*. [9]) [griða ok þú neitaðir, ok (fyrir því *b*) skaltu eigi þiggja *B*, *b*. [10]) *mgl.* *B*. [11]) [henni tíðendi *B*, *b*. [12]) stauku *B*; stúku *b*. [13]) sá *B*, *b*. [14]) þegar á þá *tilf.* *B*, *b*. [15]) aptr *tilf.* *B*, *b* [16]) yðvarn *tilf.* *B*, *b*. [17]) Bernarð *B*; Berarð *b*. [18]) heldr *tilf.* *B*, *b*. [19]) [hugða þat at öðru skyldu reynast *B*. [20]) [brátt vinna *B*. [21]) skjótt *B*. [22]) *fra* [hygg at öðru *o. s. v.* ek vil ætla at þat reynist eigi svá, því at þá er ek snýr aptr mínum hesti, skal ek eigi spara heiðingja, *b*. [23]) [stað *B*, *b*. [24]) mikill *tilf.* *B*. [25]) [vér sém færri en Saxar *b*. [26]) undan *tilf.* *B*, *b*. [27]) höfuð *B*, *b*.

þessa,[1] at ek sjá [eigi Karlamagnús konung.[2] Þá svarar Baldvini: Vel mælir þú ok drengiliga, ok látum oss þat [hugkvæmt vera,[3] at eitt sinn skal hverr deyja; en áðr þat hendi,[4] segir hann, þá seli hverr sik sem [dýrst getr hann.[5]

33. Í því bili kómu farandi fimtán kappar[6] vel vápnaðir. En Baldvini ok hans menn váru staddir á hæð nökkurri[7] ok höfðu þar tekit sér hæli, en þeir Baldvini váru sjau saman, en Saxar 15. Þá reið fram Berað[8] af Frankismanna liði ok hjó til manns þess er Lunarð[9] hét, hann var ættaðr[10] af landi því er Folie[11] hét, klauf hann í herðar niðr ok [steypti honum dauðum[12] til jarðar. Þar næst reið fram Rigald af Frankismönnum ok [feldi mikinn höfðingja, en sá er eigi nefndr. Nú reið fram Bovi af Frankismönnum ok[13] lagði spjóti [í gegnum þann mann er Goduel hét ok skaut honum dauðum á jörð, ok þar á ofan hjó hann bróður hans er Adoe hét.[14] En við þetta flýja heiðingjar, en Frankismenn reka flóttann til þess er þeir finna Alkain, ok [höfðu marga góða hesta ok aðra gripi aptr með sér, er þeir höfðu sótta. Nú hrósa Frankismenn[15] ferð sinni, því at þeir hafa mikinn sigr unnit á Söxum.[16]

34. Nú er at segja frá Margamar konungi, at hann kemr at farandi, þar sem Alkain var á fœti staddr, ok [fjöldi liðs[17] með honum. Hann [orti orða[18] á Alkain ok spurði hvar hestr hans væri, sá er Sibilia dróttning fékk [þér pardueri.[19] Alkain svaraði ok sagði it sannasta: Hest minn tók[20] frændi Karlamagnús konungs ok feldi mik til jarðar áðr, ok [tók síðan öll vápn þau[21] er ek hafða. Þá mælti Margamar: Öðru hézt þú Sibiliu dróttning fyrir kossa sína,[22] en því at þú mundir leifa[23] gjöf þá er hon gaf þér. Þá svarar Alkain: Margamar konungr, segir hann, gabba mik ekki, ek ræð þér heilt um þat. Hér er í skógi þessum[24] fjöldi Frankismanna, en þeir eru í[25] njósn ok munu þeir gera þína för enn ljótari en mína,

[1]) *saal. B, b*; þeirra *A.* [2]) [aldri Karlamagnús konung síðan *B, b.* [3]) [í hug koma *b.* [4]) sé *B.* [5]) [dýrast *B, b.* [6]) af Söxum *tilf. b.* [7]) í fjallshlíð einni *tilf. B.* [8]) Berarð *B, b.* [9]) Pinarð *B, b.* [10]) æzkaðr *B.* [11]) Rofolis *B*; Rafalis *b.* [12]) [feldi hann dauðan *B.* [13]) [*mgl. B, b.* [14]) [til manns þess er Dogoel (Godoel *b*) hét ok lagði í gegnum skjöld hans ok sjálfan hann, ok rak hann dauðan ofan af hesti sínum, ok á þat ofan brá hann sverði ok hjó banahögg bróðurson hans er Badak (Baldak *b*) hét. Nú hafa Frankismenn vel við orðit ok drepit nú 10 berserki, en 5 eru eptir *B, b.* [15]) [hurfu þá aptr ok höfðu með sér hesta þá er þeir höfðu sótt ok mörg hervápn ok góða gripi. Nú megu Frankismenn hrósa *B, b.* [16]) heiðingjum *B, b.* [17]) [fjölmenni mikit *B, b.* [18]) [kastar þegar orðum *b.* [19]) [honum *B, b.* [20]) Baldvini *tilf. b.* [21]) [rænti mik öllum hervápnum þeim *B, b.* [22]) þá er hon gaf þér, heldr *B, b.* [23]) láta *B, b.* [24]) mikill *tilf. B, b.* [25]) á *b.*

ok munu þeir drepa [alt lið þitt.[1] Síðan tóku þeir Alkain ok settu hann á múl einn [þeygi góðan[2] ok fóru síðan til landtjalda[3] Guitalins konungs. Ok Sibilia dróttning var úti stödd ok sá för þeirra ok kallaði á Alkain: Alkain af Almarie, segir hon, hvar er nú sá maðr er þú hézt mér eða hestr sá er ek fékk þér. Þá svarar Alkain: Nú skaltu þat heyra. Ek elta hann[4] lengi ok bað ek hann bíða mín, en hann vildi þat eigi. En ek fór þá eptir honum í skógi,[5] ok [viltist hann mér,[6] ok mátti [eigi ek[7] finna hann. En hestr sá er þú fékt mér, [fékk ek skjaldsveini mínum, at hann skyldi brynna honum ok þvá ok kemba, því at hann var sveittr af blóði.[8] Þá svarar Sibilia dróttning: Þú skalt segja annat sannara, hvat þú hefir gert af hesti mínum,[9] ok get ek at hann[10] komi eigi aptr til vár, ok munt þú hafa verit [af baki riðinn,[11] því at sýnt er þat á hjálmi þínum, [hann var vel gyltr er þú fórt heiman, en nú er hann laugaðr í leiri ok moldu.[12] En ek þikkjumst vita at Baldvini hefir sóttan hestinn af þér, ok er nú betr niðr kominn en [í þínu valdi væri,[13] hafi hann nú ok njóti vel. Ok mæltist[14] síðan við ein saman: Ást mína alla [fel ek[15] á hendi þér, Baldvini. Síðan mælti hon við Alkain: Ekki er mér um þik, Alkain, ok únýtan dreng [kalla ek þik héðan af.[16] En Alkain fór þegar í brott, ok þótti, sem var, [sér verra líf en hel[17] fyrir sakir orða hennar[18] er hon mælti við hann.[19]

35. [Nú riðu Frankismenn til herbúða[20] Karlamagnús konungs, ok jafnskjótt sem[21] Rollant leit bróður sinn, þá ávítaði hann Baldvina mjök, ok spurði hvert hann hefði farit [ok hverr fékk þér[22] hest þann er þú ríðr, eðr hefir þú stolit honum? En eigi mun þurfa eptir at leita[23] hvert þú vart, [þú munt hafa sýnt[24] þik Sibiliu dróttningu, ok þat it sama skaltu dýrt kaupa. Þá svarar Baldvini: Ver eigi reiðr, bróðir, því at eigi munum vér optar koma til fundar

1) [(þik ok *tilf. b*) hvert mannsbarn þat er með þér er. *B*, *b*. 2) [*mgl. B*, *b*. 3) *mgl. B*. 4) mann þann *B*, *b*. 5) skóg einn *B*, *b*. 6) [þar hvarf hann mér *b*. 7) [ek þá eigi *B*, *b*. 8) [þá hafði skjaldsveinn minn hann til brunns, ok bað ek hann þvá honum ok kemba, því at hann var alsveitugr *B*, *b*. 9) þeim er ek keypta at manni þeim er þebe heitir *B*. 10) sá hestr *B*, *b*. 11) [cfan feldan af honum *B*, *b*. 12) [ok nú er hann ekki nema leir ok mold, ok er nú laugaðr í sauri er áðr var í gulli *B*; eða hví er hjálmr þinn nú laugaðr í moldu ok saur, er áðr var skínandi af gulli *b*. 13) [áðr *B*. 14) hon *tilf. b*. 15) [vilda ek fela *B*. 16) [tel ek þik vera nú *B*, *b*. 17) [eigi betra líf en dauði *B*, *b*. 18) þeirra *B*, *b*. 19) fyrir nóga verðskyldan *tilf. b*. 20) [Nú fóru Frankismenn heim til *B*. 21) [Eptir þann sigr er Baldvini ok hans kompánar höfðu unnit á Söxum ok nú var fyrir litlu frá sagt, riðu þeir heim til Karlamagnús konungs, ok þegar *b*. 22) [eða hverr á *B*, *b*. 23) spyrja *B*, *b*. 24) [ok hefir þú nú sýndan *B*.

við Sibiliu dróttning, ef yðr [er þat mótsett.[1] En í því bili kom Karlamagnús konungr ok fagnaði Baldvina[2] frænda sínum, ok bað með sér vera svá lengi sem hann [kynni sér þörf,[3] ok spurði hvaðan hann var kominn [eða hverr hann hefði til riddara dubbat. En Baldvini svaraði: Teri af Ardena, segir hann, ok með mér var dubbaðr Berað son hans ok Gillimer inn skozki ok mart annarra manna. Ok hann sendi oss til þín at veita þér lið í mót yðrum úvinum.[4]

36. Nú hefst á nýja leik brúargerðin, ok ferr nú alþýða til at fœra steina meðr[5] vögnum ok geta gert brúna á 20 dögum [í mót vilja heiðinna manna.[6] Ok nú megu þeir fara yfir [Rín med liði sínu, ef þeir vilja.[7] Stólpar allir er undir váru gerfir brúnni váru af inum besta marmarasteini, ok öll var hon með[8] lím hlaðin. Nú býst Karlamagnús konungr yfir brúna at fara með öllu liði sínu. [Ok fara allir Frankismenn á mánadag með öllu liði sínu. Týsdaginn fór þat lið er kallat var Allamagne. Óðinsdag fór[9] af því landi er Gasgon[10] heitir, ok af[11] landi er heitir Equitanie, ok sá lýðr er Eflaman[12] heitir, ok sá lýðr er Efridon[13] hét, ok jarlinn[14] af Bretlandi með sitt lið. En þórsdag frá nóni til dróttinsdags fór [Karlamagnús konungr með lið sitt.[15]

37. Nú er at segja frá Karlamagnúsi konungi, at hann er yfirkominn Rín[16] með alt lið sitt. En Guitalin konungr hetir [hönd at verki ok stefnir[17] til sín öllum konungum í ríki sínu ok hertugum ok jarlum ok frjálslendingum.[18] Ok þar er kominn til hans höfuðkonungr sá er Quinkuennas hét, hann réð fyrir landi því er Sarabla[19] hét. Vápn hans váru með sjau litum, skjöldr hans er rauðr, en brynja blá, hjálmr hans [sem gull,[20] sverð[21] svá skírt sem steinn sá er kristallus heitir, spjót hans var gert af inu bezta stáli, alt smelt[22] með gulli. Hestr hans var ættaðr[23] af Villifríslandi, söðull ok beisl var[24] or Álfheimum,[25] ok söðulklæðit var af inu bezta guðvefjarpelli, ok af slíku svá[26] megu vér vita, at annarr búningr[27] hans mundi

[1]) [fyrir þikkir (þokkast *b*) þat *B*, *b*. [2]) vel *B*, *b*. [3]) [vildi sjálfr *B*, *b*. [4]) [*mgl*. *B*, *b*. [5]) á *B*; í *b*. [6]) [hvárt er heiðnir menn vilja eðr eigi *B*, *b*. [7]) [þegar er þeir vilja með öllu liði sínu. *B*, *b*. [8]) við *B*, *b*. [9]) [Nú fara þeir mánadag yfir brúna frjálslendingar með lagsmönnum sínum. Týsdag ferr lýðr sá er ætkaðr (kominn *b*) er af Heauer (Bealfver *b*) ok (af því landi er Alamargie heitir. Oðinsdag fóru þeir *tilf*. *b*) *B*, *b*. [10]) Gaskunia *b*. [11]) því *tilf*. *B*. [12]) Efflamant *B*; Afflamania *b*. [13]) Effrison *B*, *b*. [14]) Aelin *B*, *b*. [15]) [lið Karlamagnús konungs ok hann sjálfr *B*, *b*. [16]) brúna *B*. [17]) [stefnt *B*, *b*. [18]) riddarum, ok eru þeir nú allir saman komnir *tilf*. *B*, *b*. [19]) Serabba *B*; Sorabla *b*. [20]) [er gulr *B*, *b*. [21]) hans *tilf*. *B*, *b*. [22]) mellt *B*. [23]) ætkaðr *B*. [24]) tekit *tilf*. *B*, *b*. [25]) Albheim *B*. [26]) *mgl*. *B*, *b*. [27]) búnaðr *B*.

vera göfugligr. [En allir undruðust er hann sá.[1] En þessi inn heiðni konungr þóttist vera yfirmaðr allra annarra, ok dró á sik þat ofdramb fyrir sakir ríkis síns ok fjölmennis, ok þó mest[2] fyrir[3] sakir Sibiliu dróttningar.[4] Ok jafnskjótt sem hann kom, þá reið hann[5] á hendr kristnum mönnum ok vildi ekki [ráð leitast[6] við Guitalin konung, [fyrir því at honum[7] þótti enskis um hann vert. En Berað son Teri[8] hélt vörð af[9] Frankismönnum. Ok jafnskjótt sem Quinkuennas sá Berað,[10] œpti hann á hann hárri röddu ok mælti: Son Teri[11] af Ardenai,[12] ef þú ert svá góðr riddari sem sagt er, þá ríð fram í móti mér ok leikum okkr,[13] ok freistum hvárr okkarr beri[14] af öðrum. En Berað heyrði Quinkuennam[15] mæla við sik af [miklum ofsa ok stœrð,[16] ok síðan reið hvárr þeirra [í móti[17] öðrum ok lustu hesta sína sporum, ok lagði Berað til Quinkuennas ok misti[18] er verr var. En Quinkuennas lagði sínu spjóti í skjöld Beraðs ok feldi hann af hesti sínum til jarðar. [En Kuinquennas tók þegar hest hans, ok verr Berað sik nú vel með sverði sínu, ok er nú á fœti staddr. Síðan mælti hann:[19] Ríð nær heiðingi, segir hann, því at [litla stund höfum vit saman átt okkat viðrskipti.[20] En Kuinquennas svarar: Eigi vil ek eiga við þik fleira at sinni, heldr vil ek ríða til landtjalda Guitalins konungs ok sýna Sibiliu dróttningu unnostu minni þenna hest, er ek tók af þér nauðgum, því at hon er [vænst kona í heimi.[21]

38. Nú ríðr Quinkuennas [í brott,[22] en sá maðr kallar á hann er Bovi heitir inn skegglausi, hann biðr Quinkuennas bíða sín. Quinkuennas [sást um,[23] ok á hœgri hönd sér sá hann eitt tré standa hátt, ok sneri þangat til ok festi þar við hest þann er hann hafði sóttan,[24] ok laust hest [sinn sporum[25] ok reið snart at Bova inum skegglausa ok feldi hann af baki til jarðar. Síðan tók hann [þann hest[26] ok reið í braut með. En við þessi tíðendi varð brátt varr Gillimer inn skozki, ok reið þegar[27] eptir heiðingjanum ok kallaði ok bað hann bíða sín. En Quinquennas [beið þegar.[28] Síðan reið

[1]) [Ok þeir undruðust hann allir er þar váru fyrir, ok létust aldri sét hafa slíkan mann at öllu sem sjá var. ***B***, *b*. [2]) gerði hann þat *tilf.* ***B***. [3]) ástar *tilf. b*. [4]) tók hann at dramba *tilf. b*. [5]) *tilf.* ***B***, *b*. [6]) [áðr leita ráðs ***B***, *b*. [7]) [ok ***B***, *b*. [8]) Terius ***B***. [9]) á ***B***. [10]) *tilf.* ***B***; hann *b*. [11]) Teris ***B***; Tari *b*. [12]) Ardenes ***B***; Ardene *b*. [13]) um hríð með vápnum *tilf.* ***B***, *b*. [14]) vápn *tilf.* ***B***; sigr *b*. [15]) hann ***B***, *b*. [16]) [móði miklum ok ofstopa ***B***, *b*. [17]) [at ***B***. [18]) hans *tilf.* ***B***, *b*. [19]) [Síðan tók hann hest hans, en Berarð var þá á fœti, ok brá sverði sínu ok varði sik vel með því (ok fimliga *tilf. b*) ok mælti: ***B***, *b*. [20]) [skamma lotu (hríð *b*) höfum vér (vit *b*) enn saman átt ***B***, *b*. [21]) [kvenna fegrst undir himni ***B***, *b*. [22]) [heimleiðis *b*. [23]) [lítr um sik ***B***, *b*. [24]) nýsóttan ***B***, *b*. [25]) [þann er hann reið með gullsporum ***B***, *b*. [26]) [í beisltauma á hesti Bova ***B***, *b*. [27]) ákafliga *tilf.* ***B***, *b*. [28]) [gerir svá ***B***, *b*.

hvárr þeirra at öðrum ok áttust hart við, ok mundi [Kuinquennas þá yfirstiginn,[1] ef eigi kœmi honum liðveizla,[2] fimtán heiðnir menn þeir er [veittu Quinkuennas. Ok skildi svá[3] með þeim ok reið Kuinquennas í brott. En Gillimer reið [at þeim er ágætastr var af[4] þeim er or skóginum kómu, ok lagði hann í gegnum með spjóti sínu ok skaut[5] honum dauðum [á jörð, ok tók síðan þann sama hest ok fékk Bova hinum skegglausa.[6] En hann tók við ok þakkaði honum vel ok hleypr á bak,[7] ok ríðr þegar at einum heiðingja ok klauf[8] hann í herðar niðr, ok síðan [fékk hann þann hest Berað. En hann[9] ljóp á þann hest, ok riðu nú allir samt til herbúða[10] sinna ok mœttu [fyrst manna[11] Baldvina. En hann orti orða á Berað ok mælti: [Heill svá,[12] seg mér hvar er hestr þinn eða hvar vartu? Þá svarar Gillimer inn skozki: Vér [várum á varðhaldi ok höfum vér nú eigi hestinn, því at hann var[13] drepinn fyrir oss. Þá svarar Berað: Fari sá fyrir níðing er því vill leyna þik; [því at svá ferr þeim mönnum er í bardögum eru, at stundum láta þeir fengi sitt, en stundum fá þeir;[14] ok þér satt at segja, þá hefi ek látit í dag hest minn fyrir einum riddara, en sá heitir Kuinquennas, ok [hann hefir hœlzt[15] mjök ástarþokka Sibiliu dróttningar. Þá[16] varð Baldvini mjök hryggr ok mælti til Gillimers: Seg mér, man ek koma máli við þenna mann? Víst segi ek þér þat, segir Gillimer, at þú munt ná máli hans, þegar þú vilt. Baldvini svarar: Rollant bróðir minn mun verða at freista hans. En síðan [talast hann við:[17] Vili eigi guð þat, segir hann, at Rollant verði fyrr at bragði en ek.[18]

39. Nú er [þó fyrst[19] at segja frá Quinquennas. Hann ríðr nú ákafliga til þess er hann kemr til landtjalda Guitalins konungs. Hann [reið þegar í móti honum[20] ok mælti við hann: Þú góðr riddari, ver [vel kominn með mér[21] svá lengi sem þú vilt, ok þér skal ek gefa marga kastala ok borgir ok öll þau ríki er þar til liggja. Kuinquennas svarar: [Mikla fíflsku mælir þú við mik konungr, ok eigi vil ek,[22] þótt þú bjóðir mér 30 þúsunda[23] sistera fulla[24] af gulli

1) [þá heiðingi fyrir hafa gengit *B*, *b*. 2) en þat váru *tilf*. *B*, *b*. 3) [kómu or skógi, ok þá seig í sundr (þá skildi *b*) *B*, *b*. 4) [síðan at þeim er honum þótti ágætsamligastr af (þótti fyrir *b*) *B*, *b*. 5) hratt *B*, *b*. 6) [af hesti, ok hafði þenna hest með sér ok ríðr til Bova ens skegglausa ok fékk honum þann hest *B*, *b*. 7) þenna hest *B*, *b*. 8) brá sverði ok höggr til hans ok klýfr *B*, *b*. 9) [tók hann hest hans ok fœrði Berarði hertoga, en Berarð *B*, *b*. 10) landtjalda *B*, *b*. 11) [þar fyrst *B*, *b*. 12) [*mgl*. *B*, *b*. 13) [höfum hann nú eigi, því at vér várum á varðhaldi, ok var hestr sá *B*, *b*. 14) [*tilf*. *B*, *b*. 15) [hœldi *B*; hœldist *b*. 16) En við þessi tíðendi *B*, *b*. 17) [mæltist hann við einnsaman *B*, *b*. 18) um þetta mál *tilf* *B*, *b*. 19) [*mgl*. *B*. 20) [reis þegar upp í móti honum ok hvarf til hans (mintist við hann *b*) *B*, *b*. 21) [með oss *B*, *b*. 22) þat *tilf*. *B*. 23) *mgl*. *B*. 24) upp *tilf*. *B*.

at dveljast með þér, nema fyrir eins sakir, ef þú leyfir[1] mér ást Sibiliu dróttningar. Konungr svarar: Skamsamlig bœn er [sú at biðja[2] mik konu minnar, ok þat veit ek víst, ef annarr[3] hefði slíkt [undr mælt,[4] at ek skylda skjótt hann af lífi[5] taka, ok tak heldr þat sem ek bauð þér. Quinquennas svarar [ok kvezt þat með engu móti vilja þiggja.[6] Þá svarar Guitalin konungr: Eigi má ek þér henni heita. Þá stóðu[7] upp 400 manna ok féllu á kné fyrir Guitalin konung, ok[8] báðu þeir[9] allir, at hann skyldi veita Quinkuennas[10] [þessa sína bœn,[11] ok sögðu at því mundi vel ráðit, ok[12] hann er af inu bezta kyni er vér hafim spurt. Guitalin konungr mælti: Mikill skörungr ertu[13] ok góðr konungr, ger nú svá vel, [beið mik eigi[14] konu minnar.[15] Þá svarar Kuinquennas: Eigi fyrir alt [veraldar gull[16] vil ek hér dveljast, nema þú lofir mér ást Sibiliu dróttningar. En þá ljópu upp 400 riddara[17] ok báðu ins sama. En Guitalin konungr hugði at [þessu um stund[18] ok svarar síðan: [Ef þó biði þér svá[19] þrásamliga, þá játi[20] ek nú því, er [þér biðit ok[21] hann beiðist. Ok tók glófa sinn[22] ok fékk[23] honum með,[24] en Kuinquennas tók við[25] ok laut honum.[26]

40. Í því bili kom Sibilia dróttning af fuglaveiði, ok með henni mörg hundrað[27] riddara. En í móti henni géngu fimtán konungar[28] ok leiddu hana til landtjalda Guitalins konungs ok settu hana í [sæti sitt.[29] En Guitalin konungr lagði hendr um háls henni ok kysti hana, ok [leit við henni[30] einkar fagrt ok mælti: Sibilia dróttning, sagði hann, ek hefi fengit þér unnasta,[31] skörung þann er vér vitum eigi annan slíkan í heimi; en sá heitir Kuinkuennas[32] af því landi er Sarabla heitir, ok hann hefir gert í dag hreystibragð mikit[33] á hendr Frankismönnum ok[34] felda[35] tvá höfðingja af hestum sínum, ok [hafði higat báða.[36] Þá mælti Sibilia dróttning: Herra

[1]) játir *B*; [Meðr engu móti vil ek hjá yðr dveljast, nema þú játir *b*. [2]) [þat er þú biðr *B*, *b*. [3]) maðr *tilf. B*, *b*. [4]) [mælt við mik *B*, *b*. [5]) lífdögum *B*, *b*. [6]) [: Þat vil ek með engu móti, ok eigi fyrir alt gull er á landi því er sem Nauin (Naum *b*) heitir. *B*, *b*. [7]) hlupu *B*; hljópu *b*; *her er en stor Lacune i B*. [8]) *Her beg. atter a*. [9]) þess *a*. [10]) Qvinqvenati *b*. [11]) [þat er hann bað *a*. [12]) ger þat konungr, því at *tilf. a*. [13]) Qvinqvennas *tilf. b*. [14]) [at þú beizt eigi *a*. [15]) ok þigg heldr boð mitt *tilf. b*. [16]) [ríki þitt *a*, *b*. [17]) manna *a*. [18]) [um stund at máli sínu *a*. [19]) þess *a*; [Meðr því at þér biðit þessa *b*. [20]) játa *a*. [21]) [*mgl. b*. [22]) gullsettan *tilf. b*. [23]) gaf *a*. [24]) í veð *b*. [25]) þakksamliga *tilf. a*. [26]) konungi ok þakkaði honum vel gjöfina *b*. [27]) hundruð *a*; hundrat *b*. [28]) riddarar *a*; kórónaðir *tilf. b*. [29]) [sess sinn *b*. [30]) [lét við hana *a*, *b*. [31]) unnusta ok góðan *a*. [32]) hann er konungr *tilf. a*, *b*. [33]) hann reið *tilf. b*. [34]) hann hefir *tilf. a*. [35]) feldi *b*. [36]) [hefir haft (flutt *b*) hingat hestana. *a*, *b*.

konungr, segir hon, vel[1] trúi ek at hann er konungr ok góðr[2] drengr, en þó[3] gæti hann sín vel [fyrir vápnum[4] Rollants ok Baldvina bróður hans ins unga riddara, er [þeir (kalla)[5] inn kurteisasta héðan[6] til ins rauða hafs. Þá svarar Quinkuennas: Dróttning, segir hann, mikla fíflsku[7] mælir þú. Ef ek fæ[8] þér eigi þessa tvá menn yfirkomna eða bundna, þá gef ek þér höfuð mitt, ok ger af slíkt sem [þér líkar.[9] Nú hefir Quinkuennas dvalizt með Guitalin konungi í miklu yfirlæti, ok eru þeir nú kátir mjök. En hvárt[10] sem þeir eru, þá er þó Sibilia dróttning úglöð[11] ok heitr á guð kristinna manna [, at hann[12] styrki Baldvina ok Berað,[13] at þeir[14] bani Quinkuennas áðr hann nái henni, en ef þeir komast eigi yfir þenna mann, þá hefir Karlamagnús konungr glatat sigri [sjálfs síns[15] ok alt Frakkland með honum.

41. Nú er at segja frá Rollant ok Baldvina bróður hans ok Berað, at þeir rísa upp [fyrir dag,[16] ok ríða með þeim þeir[17] er bezt váru at sér gerfir ok fara [í skóg einn[18] ok hafast þar við.[19] Nú býst ok Quinquennas í öðrum stað ok með honum 400 þúsunda riddara brynjaðra ok skjaldaðra. En nú er Rollant í skógum þeim er Klerovals heita, ok varð hann brátt varr við för heiðingja, ok vissi at fjöldi varð[20] liðs þeirra, ok kallaði á Baldvina ok Berað: Góðir riddarar, segir hann, [setit[21] ofmetnuð[22] Quinkuennas[23] ok Saxa. En [nú vil ek at þér takit ráð mitt:[24] ek mun fara á njósn með liði [mínu ok[25] sýna heiðingjum merki mitt, [en þér leynizt í skógi þessum.[24] En þat skulu þér vita, at ek gef Sibiliu dróttning Baldvina bróður mínum. En allir hlógu at [máli hans.[26]

42. Nú ríðr Rollant með liði sínu eptir sinni ætlan ok sýnir heiðingjum merki sitt. En þegar Quinkuennas [varð varr við þá, þá mælti hann til sinna[27] manna ok bað þá hvata ferð sinni, [en ef Maumet vill duga oss, þá munum vér nú sigrast í bardaga þessum.[24] Síðan laust hann hest sinn sporum, ok berr brátt saman með þeim. Nú kallar Quinkuennas[28] á Rollant ok mælti við hann: Hverr ertu,

[1]) því *a*, *b*. [2]) hraustr *a*. [3]) hversu (svá *b*) góðr drengr sem hann er, þá *a*, *b*. [4]) [við höggum *a*, *b*. [5]) [menn kalla *a*. [6]) ok alt *tilf*. *a*, *b*. [7]) fólsku *a*. [8]) fœri *b*. [9]) [þú vilt, ok haf leyfi til þess at taka hvern lim frá öðrum *a*, *b*. [10]) svá kátir (glaðir *b*) *a*, *b*. [11]) hrygg *b*. [12]) [ok Pétr postola, at þeir *a*, *b*. [13]) Berarð *a*, *b*, *her og senere*. [14]) *tilf*. *a*, *b*. [15]) [sínum *a*, *b*. [16]) [um morgininn *b*. [17]) þúsund riddara *b*. [18]) [til skógar nökkurs *a*, *b*. [19]) ok senda frá sér njósnarmenn *tilf*. *a*, *b*. [20]) var mikill *a*. [21]) þér *tilf*. *a*. [22]) ofmetnað *a*. [23]) [sjáit þér ofmetnað Qvinqvenatis *b*. [24]) [*tilf*. *a*, *b*. [25]) [því er mér þikir ráð, ok mun ek *a*. [26]) [því máli *a*; orðum hans *b*. [27]) [sá hann ok varð varr við, þá kallaði hann á menn sína, ok mælti at hann kvazt sjá mikit lið kristinna *a*, *b*. [28]) hann *a*.

Karlamagnús konungr. segir hann, hver er ætlan þín við mik, er þér alhugat[1] at drekkja mér í vatni þessu? Ek vil gjarna gerast maðr þinn ok halda ríki af þér ok vera skattgildr undir þik. ok gefa þér alt fé mitt ok [svá gripi, er[2] þú kemr þessum vanda af oss. En Karlamagnús konungr mælti svá: Verðr er hverr miskunnar er hennar beiðist. Síðan bað Karlamagnús konungr guð þeirrar bœnar, at vatn skyldi aptr snúast [í sinn farveg, ok þegar jafnskjótt sem hann bað, þá veitti guð þat. at vatnit snerist aptr[3] til staðar síns, ok gerði þá guð mikla jarteign fyrir sakir Karlamagnús konungs.

17. [Nú er svá var máli komit,[4] þá fór Hugon konungr ofan or vígskörðum ok til Karlamagnús konungs, til trés þess er hann var undir. Hugon konungr mælti þá: Karlamagnús konungr, segir hann, ek veit at guð elskar þik ok heilagr andi er[5] með þér, en nú gerumst ek þinn maðr [til vitnis[6] alls hers, þess er hér er. Viltu sjá fleiri íþróttir várar daglengis?[7] segir Karlamagnús konungr. Nei, nei, segir hann,[8] [áðr skulu þessar 7 nætr[9] líða; ef allar væri þær drýgðar, þá mundi mik [þat æ ok æ[10] hryggja.[11] Karlamagnús konungr mælti þá: Nú hefir þú gerzt maðr minn at ásjándi allri hirð þinni; nú skulum vit gera veizlu okkra í dag ok bera kórónur[12] báðir saman. Hugon konungr svarar: Blíðliga vil ek bera mína kórónu [ok ganga processionem. þá géngu konungar til kirkju.[13] þá bar Karlamagnús konungr [sína hina[14] dýrliga kórónu á höfði sér. Hugon konungr bar sína kórónu miklu lægra, því at Karlamagnús konungr var fœti hærri[15] ok þrimr handargripum. En Frankismenn hugðu at görla, ok mælti hverr við annan: Rangt mælti dróttning vár um hag Karlamagnús konungs, [þá er hon sagði nökkurn konung jafnvel at sér sem hann, fyrir því at[16] engi er honum jafntiguligr á jarðríki, ok aldri komum vér á þat land, [at eigi hafim[17] vér lof af allri[18] þjóð. Dróttningin[19] bar ok þann dag sína kórónu ok leiddi með sér dóttur sína ena vænu mey. [En þar var hugr Olivers optast sem hon var:[20] en mærin vildi hann blíðliga þýðast, [ef hon þœttist mega[21] fyrir feðr sínum.

[1]) alvara *B*, *b*. [2]) [stórgripi ok þjóna til yðvar (þjóna yðr *b*) í öllum hlutum, ef *B*, *b*. [3]) [*tilf.* *B*, *b*. [4]) [*tilf.* *B*; eptir þat fór *b*. [5]) at vísu *tilf.* *B*, *b*. [6]) [at vitni *B*, *b*. [7]) í dag *b*. [8]) Hugon konungr *b*. [9]) [áðr skulu 7 vetr *B*; eigi meðan ek lifa *b*. [10]) [ei ok ei *B*. [11]) hryggvan gera *b*. [12]) okkrar *tilf.* *B*, *b*. [13]) [þér til sœmdar ok virðingar. *B*, *b* [14]) [*mgl.* *B*, *b*. [15]) (at vexti *mgl.* *B*) en Hugon konungr *tilf.* *B*, *b*. [16]) [*tilf.* *B*, *b*. [17]) [er eigi berim *B*, *b*. [18]) hverri *B*, *b*. [19]) dróttning keisara *B*. [20]) [Oliver hafði mikinn hug á henni *b*. [21]) [en hon þóttist eigi mega *B*; en þorði þó varla *b*.

18. [En þá er lokit er processione, þá géngu konungar til kirkju. En Turpin erkibyskup var þar œztr lærðra manna, ok hann söng messu þann dag, en konungar géngu til ofrs ok öll alþýða. En þá er tíðum var lokit, fóru konungar heim til hallar. En þá var matr búinn, ok settist þá alþýða til borða, ok skorti þá ekki þat er þeir beiddust til. Veiðimatr var þar mikill, hirtir ok villigeltir, trönur ok elptr ok páfuglar pipraðir, ok allskonar krásir, ok hinn bezti drykkr, vín, klare ok piment, ok allskonar leikar er tíðir ok tamir váru. Hugon keisari mælti þá við Karlamagnús konung: Taki Frankismenn svá mikit af mínum auðœfum sem þeir vilja mest. Þá svarar Karlamagnús konungr máli hans: Eigi skulu Frankismenn hafa af þínu þat er vert sé eins penings; þeir hafa svá gnógt áðr, at þeir megu eigi meira flytja eptir sér. Ok því næst váru borð ofan tekin.[1] En [hvat er um þat at lengja er[2] þar til kemr, at Karlamagnús konungr tekr[3] leyfi af Hugon konungi sér til heimfarar, en Hugon konungr gaf honum marga góða gripi, ok hvárr þeirra öðrum. En [Hugon konungr hélt í stigreip Karlamagnús konungs, meðan hann upp steig á hest sinn, ok svá héldu hans menn stigreipum Frankismanna, meðan þeir hlaupa[4] á bak, ok hvarf[5] þá hvárr þeirra til annars. Konungsdóttir gékk [til Olivers[6] ok mælti við hann: Ást mín ok góðr vili skal aldri bregðast við þik; en nú vil ek fara með þér til Frakklands. [En bók skilr eigi hvárt hon fœri með honum at því sinni.[7] Síðan fór Karlamagnús konungr leiðar sinnar, ok var glaðr í hug sínum, er hann hafði svá ríkan konung lagt undir sik orrostulaust. [En þeir fóru margar torfœrur ok hættligar brautir, áðr en þeir kœmi heim, ok urðu þeir margs vísir í þeirri för.[8]

19. Þá er Karlamagnús konungr kom til París ennar góðu borgar, þá var þar mikill fagnaðr landsfólki öllu af hans tilkvámu. En síðan gékk hann til kirkju ens helga Sendinis,[9] ok [ofraði þar kórónu dróttins várs ok nagla þeim er dróttinn várr var krossfestr með, ok marga aðra helga dóma, en suma skipti hann í[10] ríki sitt þangat sem honum þótti [ráð at.[11] [En dróttning bað sér miskunnar[12]

[1]) [*mgl. B, b.* [2]) [hvat þurfum vér at lengja þat, *B.* [3]) [sem tími er til, tekr Karlamagnús keisari *b.* [4]) [er Karlamagnús konungr var til ferðar búinn, þá hélt Hugon konungr í stigreip hans, meðan hann steig *B, b.* [5]) mintist *b.* [6]) [at Oliver *b.* [7]) [Unnusta, segir hann, vel hefir þú rœtt, ok at vísu skal ek alt þat halda, sem vit höfum mælt okkar í milli. *B, b.* [8]) [*mgl. B, b.* [9]) Dionisii *b.* [10]) [offraði þar helga dóma, en suma sendi hann víða annarstaðar um *B, b.* [11]) [sœmiligast *b.* [12]) [Þat er ok sagt, at þegar leið er dróttning hans mátti við hann tala, þá bað hon sér miskunnar ok reiði af sér með mikilli blíðu ok lítilæti sem skyldugt var *B, b.*

fyrir mismæli sitt, en konungr var góðr bœna ok fyrirgaf henni [fyrir lof hins helga kross ok heilagra staða, er hann hafði vitjat, ok var síðan heima 4 mánuðr í bili.[1]

[1]) [orð sín ok lét renna reiði sína við hana fyrir lof ins helga kross ok innar helgu grafar ok heilagra staða, er hann hafði sótta í þeirri ferð. Eptir þetta var Karlamagnús konungr heima 7 mánaði, at því sem sagt er. En síðan fór hann til Spanialands á hendr Marsilio konungi, ok varð þar mart tíðenda í þeirri för, sem nökkut mun verða frásagt. En hér fellr nú niðr þessi saga (sem nú skal nökkut af segja. Ok endar svá þenna þátt at sinni. *b*) ***B***, *b*.

# ATTI PARTR KARLAMAGNUS SÖGU AF RUNZIVALS BARDAGA

Eptir þessa hluti liðna bjó Karlamagnús konungr ferð sína til Spanialands, sem hann hafði heitit, þá er hann fór til Jórsala, ok fóru með honum 12 jafningjar ok alt hans et bezta lið, er til var í hans ríki. Karlamagnús konungr var 7 vetr alla samfasta[1] á Spanialandi, ok lagði undir sik alt [með sjá,[2] svá at hvárki borg né kastali var sá, at eigi hefði hann undir sik lagt, né heruð eða tún, nema [Saraguze er[3] stendr á fjalli einu. [Þar réð[4] fyrir Marsilius konungr hinn heiðni, sá er eigi elskaði guð, heldr trúði hann [á Maumet ok Apollin, en þeir munu svíkja hann.[5]

2. Þat var einn dag, at Marsilius konungr var genginn undir [olifutré einu í skugga[6] ok settist á marmarastein upp, ok umhverfis hann[7] 100 þúsunda manna.[8] En hann kallaði hertoga sína ok jarla til sín [ok mælti:[9] Góðir höfðingjar, segir hann, hvat synd hefir oss komit; Karlamagnús konungr er kominn [at fyrirfara oss, ok veit ek at hann vill orrostu við oss halda.[10] [En þér kostit ok gerit svá vel, at þér leggit ráð á með mér sem vitrir menn, ok hjálpit mér frá skemd ok dauða, sem yðr byrjar at gera.[11] En engi heiðingi [svarar honum orði nema Blankandin af kastala Valsundi.[12] Hann var hinn vitrasti maðr, hvítr af hæru, ok er vel lofaðr at riddaraskap ok heilráðr sínum dróttni. Hann mælti við

[1]) Svá er sagt í þessarri bók, at Karlama nús konungr var 7 vetr *B*, *b*. [2]) [*saal.* *B*, *b*; hit næsta, *a*. [3]) [borg sú er Saraguze heitir, hon *B*, *b*. [4]) [Í þeirri borg sat *B*, *b*. [5]) [með skemd á úvizku ok (ok úvizku á *b*) heiðin goð Maumet (Machon ok Terogant *b*) *B*, *b*. [6]) [skugga eins olifotrés *B*, *b*. [7]) meir en *tilf.* *B*, *b*. [8]) hermanna hans *B*, *b*. [9]) [en er þeir kómu þar, þá tók hann til máls á þessa leið *B*. [10]) [til þess at eiga við oss orrostu, ok ætlar at fyrirkoma oss *b*. [11]) [*tilf.* *B*, *b*. [12]) [varð til at svara hans máli Maðr hét Blankandin, hann var mikill höfðingi ok ríkr, hann var or kastala þeim er Valsundi heitir *B*, *b*

konung:[1] Óttast ekki, send orð Karlamagnúsi konungi enum dramb-láta, [dýrt embætti ok fasta vináttu;[2] gef honum leóna,[3] björnu ok hunda stóra ok vali.[4] 7 hundruð úlfalda ok þúsund gáshauka mútaða, ok 4 hundruð[5] múla hlaðna af gulli ok silfri, ok vagna hlaðna með dýrum gripum, ok [má þar[6] þá vera svá mörg bisund, at Karla-magnús konungr má gefa af því fé[7] öllum riddörum sínum mála. Nú hefir hann hér verit 7 vetr í samt, ok átti[8] hann nú at fara til Frakklands, [þar er hann í hóglífi miklu.[9] En þú skalt sœkja á fund hans þangat at Michaels messu ok taka við kristni, ok gerast maðr hans með góðum vilja ok halda af honum Spanialand alt. En ef hann vill hafa gisla af oss, þá skal[10] senda honum 20 [eða 10[11] at festa vináttu vára, son þinn [einnhvern ok svá minn,[12] ok er betr[13] at þeir sé drepnir, en ef[14] vér týnim Spanialandi ok öllu ríki váru ok eign, [fyrir því at nú er at komit.[15] Heiðingjar[16] svöruðu: Þetta er þjóðráð.[17] Þá mælti Blankandin: [Ef svá er gert, þá[18] legg ek höfuð mitt í veð, at Karlamagnús konungr mun fara til Frakklands með allan her sinn, ok mun hverr hans manna fara til síns heimilis. Karlamagnús konungr mun vera at Eis kapellu sinni ok gera veizlu sína. [Stundir munu líða áðr, en Karlamagnús konungr mun eigi spyrja[19] tíðendi af oss, fyrir því at vér skulum eigi þangat sœkja, en Karlamagnús konungr mun þessu reiðast ok láta drepa gisla sína, ok er [betra at þeir týni lífi sínu, en vér týnim hinu góða Spanialandi.[20] Heiðingjar svöruðu: Þetta er þjóðráð. Ok lauk svá þeirri stefnu.[21]

3. [Eptir þessa ráðagerð þá kallaði Marsilius konungr til sín vini sína þá sem nú man ek nefna: Klargis af Balagued, Estomariz ok Eudropiz félaga hans, Priamus, Greland, Batiel[22] ok frænda hans Mattheu. Joel ok Malbriant ok Blankandin.[23] ok mælti við Blankandin formann þeirra, at hefja þat mál er konungr vill láta fram flytja

[1]) er hann sá at engi varð annarr til at svara honum *tilf. B.* [2]) [ok bjóð honum þitt embætti ok þjónostu ok þína fasta vingan *B. b.* [3]) leons *B, b.* [4]) palafrey *B*; *mgl. b.* [5]) 7 hundruð *B, b.* [6]) þat *B.* [7]) *tilf. B*; [má Karlamagnús þar af gefa *b.* [8]) girnist *B, b.* [9]) [því at honum þikir nú mál at taka á sik hóglífi *b.* [10]) at vísu svá vera, ok skal *tilf. B.* [11]) [*mgl. B, b.* [12]) [einnhverr ok svá minn skal fara, *B, b.* [13]) betra *B, b.* [14]) *mgl. B, b.* [15]) [svá sem nú horfir til *b.* [16]) Höfðingjarnir *B, b.* [17]) hit bezta ráð *b.* [18]) [þess sver ek, ef svá er gert, sem nú höfum vér talat vár í milli, ok þar *B, b.* [19]) [Síðan man líða dœgr ok dagr, ok man Karlamagnús spyrja engi *B*; *fra* ok mun hverr hans manna *har b*; ok sitja þar með náðum úm tíma, svá at hann man spyrja engi [20]) [þat lítill skaði hjá því, sem vér týnim váru ríki *b.* [21]) at þetta var afráðit *tilf. B*; at þetta ráð var staðfest *b.* [22]) Batuel *b.* [23]) [*saal. B, b*; Marsilius konungr kallaði þá til sín 10 hina illgjörnustu menn *a.*

[til Karlamagnús konungs.[1] Þessir váru [10 enir illgjörnustu[1] ok mestir undirhyggjumenn af öllu liði hans.[2] Ok síðan mælti Marsilius konungr við þá: Þér skulut fara sendiför mína til Karlamagnús konungs, hann sitr nú um borgina Acordies; þér skulut bera í höndum yðrum[3] kvistu af olifutré, þat táknar frið ok mjúklæti: ok ef þér megit koma [sætt várri[4] á leið, þá skulu þér þiggja af mér gull ok silfr, lönd ok klæði.[5] [Heiðingjar svöruðu: Vel hefir þú mælt, en vér skulum[6] betr gera. Marsilius konungr mælti: Biðit[7] Karlamagnús konung miskunna mér,[8] ok segit honum ifalaust, at ek vil hans maðr gerast, ok á hans fund sækja, áðr en þessi mánuðr líði við þúsund hinna beztu minna manna, ok[9] taka kristin lög ok drýgja hans vilja.[10] [Blankandin svaraði: Gott muntu af því hljóta.[11] Konungr lét þá fram leiða 10 múla hvíta, beislin váru af[12] gulli en söðlar af silfri. En síðan steig hverr þeirra á bak sínum múl,[13] ok fóru leið sína til Karlamagnús konungs, [ok eigi mun hann mega við sjá, svá at eigi blekki þeir hann nökkut.[14]

4. Karlamagnús keisari hafði þann tíð[15] unnit borgina Acordies[16] ok niðr felt[17] borgarveggi, ok tók þar mikla fjárhluti, gull ok silfr ok dýrlig klæði, [ok var engi sá í borginni,[18] at eigi væri drepinn eða kristinn görr.[19] En þann sama dag sem sendimenn Marsili konungs kómu til fundar við Karlamagnús konung, þá sat hann í grasgarði einum ok skemti sér, ok hans [vinir með honum, Rollant ok Oliver, Samson ok Auxiens ok Hotun inn sterki ok Bæringr, Nemes inn góði hertogi ok Rikarðr jarl, Guinelun, Engiler, en hvar er þeir váru var fjöldi annarra manna; þar váru 15 þúsundir Frankismanna,[20] ok sátu allir undir guðvefjarpellum at svala sér ok léku at skáktafli, en sumir at kvátrutafli,[21] bæði ungir ok gamlir; [ok var önnur hver taflan af gulli en önnur hver af brendu silfri, svá hit sama váru ok reitirnir á taflborðinu, at annarr hverr var gyltr en annarr hverr var þaktr af hvítu silfri.[22] Sumir ríða á burt til skemtanar sér, sumir skylmdust. En Karlamagnús keisari

¹) [*tilf. B.* ²) *saal. B*; þeirra *a*; *fra* Blankandin, ok mælti við Blankandin *her til mgl. b.* ³) yðr *B, b.* ⁴) [sendiför minni *B*; þessi ferð *b.* ⁵) ríki *b.* ⁶) þó *tilf. B.* ⁷) *saal. B, b*; bið *a.* ⁸) [þér skulut biðja mér miskunnar af Karlamagnúsi konungi *b.* ⁹) munum vér allir *tilf. B, b.* ¹⁰) í hvern stað *tilf. B, b.* ¹¹) [*mgl. B, b.* ¹²) rauðu *tilf. b.* ¹³) *saal. B, b*; hesti *a.* ¹⁴) [en (með þeim ráðum sem þeir fara þá *tilf. B*) er mikil ván, at hann muni eigi geta við sét, at þeir blekki hann eigi (at hann geti eigi sét við þeirra vélum *b*) *B, b.* ¹⁵) tíma *B.* ¹⁶) Cordes *B, b.* ¹⁷) brotna *B, b.* ¹⁸) borg Sarraguzin né annarstaðar *B.* ¹⁹) [en hverr sá maðr er borgina bygði, varð annathvárt at þola dauða eðr taka kristni *b.* ²⁰) *saal. B, b*; [virktamenn Rollant ok Oliver ok 12 jafningjar með honum ok mikill fjöldi annarra, *a.* ²¹) kvattro *B.* ²²) [*mgl. B, b.*

sat í skugga undir tré einu. Ok því næst kómu þar[1] sendimenn Marsili konungs, ok stigu þegar af múlum[2] sínum ok géngu fyrir Karlamagnús konung, þar sem hann sat. Blankandin tók fyrst til máls ok heilsaði Karlamagnúsi konungi kurteisliga: Herra konungr, segir hann, guð gæti þín, sá er skóp himin ok jörð ok á kross var festr at leysa oss frá kvölum helvítis, honum eigum vér at þjóna en engum öðrum. Þau orð sendi þér Marsilius konungr, at hann vill þinn fund sœkja ok kristinn gerast, ef þú vilt. Hann skal gefa þér gull ok silfr eptir þínum vilja, hann skal gefa þér leóna[3] ok björnu, hunda, hesta skjóta, er mjök er at lofa, [7 hundruð úlfalda, þúsund gáshauka, vagna hlaðna af góðum gripum ok dýrum klæðum, 4 hundruð múla klyfjaðra af gulli ok silfri, ok máttu þar af gefa mála öllum hirðmönnum þínum ok riddörum.[4] Nú hefir þú hér verit 7 vetr, ok er þér nú mál at fara aptr til Frakklands,[5] ok þangat skal konungr várr sœkja yðvarn fund, ok láta skírast ok gerast maðr þinn, ok halda af þér Spanialand alt ok vera þér skattgildr um alla [lífsdaga þína.[6] En er hann [hafði svá ráðit[7] fram sitt erendi, ok er hann[8] lauk sínu máli, þá svaraði Karlamagnús keisari máli hans á þá leið: Guð sé þess lofaðr, segir hann, [at svá sé sem þú segir; ef[9] Marsilius konungr gerir svá sem nú hefir þú tjáð um hríð, þá beiðumst ek enskis[10] framar.[11] Þá hneigði Karlamagnús konungr [höfði sínu[12] litla stund ok hugði at, en síðan [hélt hann upp höfði sínu,[13] ok var einkar tiguligr í andliti, ok var eigi bráðskeyttr[14] til máls, þat var siðr hans at mæla tómliga. Þá andsvaraði hann máli[15] sendimanna á þessa lund: Viti þér, segir hann, at Marsilius konungr yðvarr er [fjándi minn sem mestr má vera,[16] hversu má ek því trúa, at hann muni þat[17] halda, er [þér hafit mér sagt?[18] Blankandin svaraði: Með gislum mínum[19] munum vér þat sanna héðan í frá til Michaels messu, þá kemr Marsilius konungr til þín at taka við kristni. Þá mælti Karlamagnús konungr: [Enn má[20] guð hjálpa honum, ef hann vill þat gera. Nú liðr á kveldit; en er sól hafði sezt, þá lét Karlamagnús konungr fœra til stalls múla þeirra sendimanna. Síðan létu þeir upp reisa landtjöld, ok því næst váru sendimenn þangat leiddir ok 12[21] menn til settir at þjóna þeim, en

[1]) fram farandi *B*. [2]) hestum *B*, *b*. [3]) leons *B*. [4]) [*mgl. B*; *fra* hann skal gefa þér leóna *o. s. v. mgl. b*. [5]) Frans, *B*, *b*. [6]) [lífdaga sína *B*, *b*. [7]) rekit *B*. [8]) [*mgl. b*. [9]) *saal. B*, *b*; en *a*. [10]) *saal. B*; ekki *a*. [11]) [vel er, ef Marsilius svá gerir sem nú hefir þú sagt *b*. [12]) [*saal. ogsaa B*; höfuð sitt *b*. [13]) höfuð sitt, *B*. [14]) bráðskeytr *B*. [15]) [rétti hann sik upp, andsvarandi orðum *b*. [16]) [hinn mesti minn úvinr *b*. [17]) því *B*; þat *b*. [18]) [hann hefir mér játtat *b*. [19]) *mgl. B*, *b*. [20]) [þá man *b*. [21]) *saal. B*, *b*; 4 *a*.

þá skorti enskiskonar mat né drykk. En er þeir váru mettir, þá fóru þeir [í rekkju sína[1] ok sváfu alt til dags.

5. En er nóttin leið, þá reis Karlamagnús keisari upp í dagan ok hlýddi óttusöng ok messu ok öllum tíðum, ok þá kallaði Karlamagnús konungr á göfugmenni sitt, fyrir því at Frankismanna ráði vill hann fylgja. En síðan [um morguninn er Karlamagnús keisari gékk undir borð eitt[2] ok settist í hásæti sitt ok kallaði til sín baróna sína, þá kómu[3] 12 jafningjar, þeir er Karlamagnús konungr hafði mikla elsku á, ok meir en þúsund annarra Frankismanna, Guinelun jarl var ok þar, er svikin hóf; ok þá tóku þeir ætlan sína, en sú laukst illa [er verr var.[4] En [er þeir váru allir saman á þessarri stefnu,[5] þá tók Karlamagnús konungr til máls á þá leið: Góðir höfðingjar, segir hann, [leggit ráð fyrir mik ok sjálfa[6] yðr. Marsilius konungr lét hingat fara sendimenn sína, sem þér vitit, ok býðr hann mér mikla fjárhluti, [mörg león, hesta góða, 400 úlfalda klyfjaða (af gulli) af Arabialandi (ok) 100 múla, vill hann ok gefa mér 50 vagna hlaðna af gersemum,[7] ok hann vill sækja á minn fund til Frakklands, ok hann vill halda af mér Spanialand ok þjóna mér um alla [lífsdaga sína,[8] ok hann vill fá mér til þess gisla, at þetta skal haldast, en eigi veit ek hvat honum er í hug. Karlamagnús lauk rœðu sinni. Frankismenn svöruðu: þar er [at at hyggja.[9] Þá stóð Rollant upp ok mælti svá:[10] [Úsynju trúir þú Marsilio konungi. Nú eru 7 vetr liðnir síðan er vér kómum til þessa lands, ok hefi ek mörg vandræði þolat í þínu embætti. Ek sótta til handa þér Nobilisborg ok Morinde, Valterne ok Pine, Balanigie, Rudile, Sibili, Port ok Aulert er stendr á landamæri. En Marsilius konungr hefir opt sýnt svik ok lausyrði við þik. Þá sendi hann til þín fyrir skömmu 12 baróna sína, at því hófi sem nú sendi hann, ok hafði hverr þeirra í hendi sér kvist af olifutré, ok báru þeir slík tíðendi sem þessir sögðu í gærkveld, at konungr þeirra vildi kristnast, þú áttir þá ráð við Frankismenn, en þeir réðu þér úsnjalt. Þú sendir þá 2 jarla þína til Marsili konungs Basan ok Basilies, en hann gerði sem illr svikari ok lét þá týna lífi sínu. Halt fram hernaði þínum, herra, segir Rollant, ok far með öllu liði þínu til Saragucie, en síðan sitjum vér um borgina, ok léttum eigi fyrr en vér nám borginni, ok hefnum svá várra manna, þeirra er

1) [í rekkjur sínar *B*; at sofa *b*. 2) *mgl. B*. 3) kom Rollant ok Olifer ok *B*; [gékk hann til borðs ok settist í hásæti sitt; þar váru þá með konungi *b*. 4) [sem ván var at *B*; *fra* ok þá tóku *mgl.*, *b*. 5) [sem menn váru mettir ok borð váru ofan tekin *b*. 6) [ráðit mér heil ráð ok svá sjálfum *b*. 7) [*mgl. B*, *b*. 8) [sína daga *B*, *b*. 9) [at hyggjanda *B*, *b*. 10) í móti *B*.

svikarinn lét þá drepa. Karlamagnús keisari hné niðr höfði sínu ok strauk skegg sitt ok kampa, ok svaraði engu orði.[1] Frankismenn þögðu þá allir nema Guinelun jarl, hann reis upp ok gékk fyrir Karlamagnús konung ok tók til orða: Góðr keisari,[2] segir hann, eigi skaltu trúa úvitrs manns ráði, [hvárki mínu né annarra, nema þér sé gagn at. En alls þó[3] hefir Marsilius konungr þér orð sent, at hann vill kristinn gerast ok þinn maðr, en sá maðr er [því neitar, hann hirðir[4] eigi, hvat dauða vér þolim. [En ofgert ráð er eigi rétt at á leið komist, léttum fíflsku ok tökum heil ráð.[5] En eptir þær ræður Guineluns jarls, þá gékk Nemes fram fyrir konung Karlamagnús, [en eigi var betri maðr honum í allri hirð Karlamagnús konungs.[6] Hann tók til máls: [Karlamagnús konungr, segir hann, heyrir þú andsvör Guineluns jarls; þat væri einkar vel, ef haldast mætti þat er hann hefir talat.[7] En nú er Marsilius konungr yfirkominn at ríki sínu, þú hefir nú unnit af honum kastala ok borgir, heruð ok tún, ok mjök svá alt ríki hans undir þik lagt, ok [er hann várkunnigr sér er hann biðr vægðar, ok væri þat mikil úsæmd, ef hann skyldi eigi þjóna til þinnar tignar.[8] Nú skaltu gera fyrir guðs sakir ok yðvarrar tignar at miskunna honum, send nú einn til hans af barónum þínum. Nú [vill hann gera trygð[9] með gislum til þín, sem hann hefir játað til yðvar,[10] þá er þat vel, ok er þat[11] ráð, at [eigi hefist sjá herr. Fleiri[12] Frankismenn svöruðu: Vel hefir þú rœtt, hertogi, segja þeir.

6. Ok þá mælti keisarinn: Hvern munum vér þangat senda? [Nemes svaraði: Ek fer, ef þú vilt, konungr, segir hann, ef þú fær mér glófa ok staf. En keisarinn leit við honum ok mælti: þú ert vitr maðr, en með þetta skegg ok kampa er ek hefi þá segi ek þér svá, at eigi ferr þú svá langt frá mér þessa 12 mánuðr ena næstu, fyrir því at þat er mér ofgeigr, ef þér verðr nökkut til meins. Far ok sitt, segir hann, engi maðr býðr þér til þeirrar sendifarar. En hvat um þat at tala, segir hann, hvern viljum vér nú þangat

¹) [ok hefir Marsilius konungr opt svik ok lausyrði við þik lýst; halt fram hernaði þínum, herra, segir Rollant, ok far með öllu liði þínu til Saraguze *B*; þat megit þér minnast, at Marsilius konungr hefir opt haft svik ok lausyrði við yðr, því haldit fram hernaði yðrum sem þér hafit áðr ætlat, því at Marsilius man enn um svik búa sem fyrr. *b*. ²) herra *B*, *b*. ³) [ok því *B*; því *b*. ⁴) [vill at vér nítim (þér nítit *b*) því, þá hirðir hann *B*, *b*. ⁵) [*mgl.* *B*, *b*. ⁶) [*mgl.* *B*, *b*. ⁷) [þessi orð er Guinelun jarl hefir talat, væri harðla vel haldandi, ef þau mætti standa *b*. ⁸) [því biðr hann yðr nú vægðar, at hann sér hvar hann er at kominn *b*. ⁹) [vili hann þetta gera trygt *B*. ¹⁰) [et hann vill senda yðr gisla ok gera svá trygg sín boð við yðr *b*. ¹¹) þá *B*, *b*. ¹²) [eigi hefist þessi herr meir. *B*; setja aptr her þenna. *b*.

senda? Rollant svaraði máli hans: Búinn em ek þeirrar farar, ef þú vilt konungr. Þá svaraði Oliver máli hans: Eigi skal svá vera, þú ert of bráðskeytr í skapi, ok ætla ek, at þú munir heldr sundr fœra sætt vára; en ef konungr vill, þá em ek búinn at fara þessa för. Þá mælti Karlamagnús konungr: Hvárgi ykkarr skal koma á þá stigu, ok engi yðvarr 12 jafningja. Þá gékk Turpin erkibyskup fyrir konung ok mælti: Fá mér (staf ok glófa ok) jartegnir, ok skal ek fara til Marsili konungs, ok mun ek segja honum nökkut þat sem mér er at skapi, ok mun ek brátt verða varr við hvat honum er í hug. Karlamagnús konungr svaraði honum ok mælti: Eigi kemr þú þar þessa 12 mánuðr ena næstu, ræð ekki um fleira, nema ek beiða þik. Góðir höfðingjar, segir Karlamagnús konungr,[1] kjósit [einn af barónum[2] vel kynjaðan ok vel at sér gervan, þann er gersamliga segi Marsilio konungi mína orðsending ok greiði vel mína sendiför, ok sé vel at sér gerr í bardaga.[3] Rollant svaraði: Þat[4] er Guinelun jarl stjúpfaðir minn. [Frankismenn svöruðu: Engan vitum vér jafnvel tilfallinn né jafnvitran honum, nú sýnist oss þat it vænsta ráð, ef konungr vill, at hann fari.[5] Þá mælti Karlamagnús konungr: Guinelun jarl, segir hann, gakk fram þá ok tak við staf mínum ok glófa, því at þat vilja Frankismenn, at þú farir þessa sendiför. Þá svaraði Guinelun jarl:[6] Því hefir Rollant upp komit, [ok aldri mun ek honum þat fyrirgefa, ok aldri síðan skal hann hafa mína vináttu. En nú segi ek í sundr öllum sættum ok gerðum okkar á milli, ok svá Oliver hit sama ok allra 12 jafningja, fyrir því at þeir halda öllu máli með honum. En ef ek kem aptr af sendiför þessi, þá skal ek hefna minna harma. Þá svaraði Karlamagnús konungr: Til hótsamr ertu, en nú verðr þú víst at fara. Guinelun jarl svaraði: Sé ek nú, herra, segir hann, at þat er yðvarr vili, at ek fara þessa för, en eigi mun ek aptr koma heldr en Basili er fór ok hans bróðir Basan. Karlamagnús konungr mælti: Nú skaltu fara. Guinelun jarl svaraði: Nú verð ek at fara til Saraguze, en eigi mun sá aptr koma, er þangat ferr. Ok enn mælti hann: Jllu heilli sáttu Rollant ok hans dramblæti, fyrir því at (hann) mun fyrirfara öllu þínu ríki. Já, já, segir hann, eða hvárt veiztu at systir þín er eiginkona mín? ok áttu eigi at senda mik forsending sakir barna þeirra er vit eigum. Ek vil nú því lýsa, at ek leifi

[1]) *Fra* [Nemes svaraði *foreg. Side hertil mgl. B.* [2]) [einnhvern barún *B*, [3]) *Fra Begyndelsen af dette Capitel og hertil har b:* Þá mælti konungr: Hvern vilit þér til kjósa at fara þessa sendiferð, þann sem bæði sé vel borinn ok sœmiligr höfðingi ok kunni vel at flytja mitt örindi fyrir Marsilio konungi? [4]) Þar *b*; þar til *B*. [5]) [*mgl. B, b.* [6]) við R. (? reiði) *tilf. a.*

Baldvina syni mínum alla erfð mína. Þá mælti Karlamagnús konungr: Til blauthugaðr ertu, Guinelun, ok œrit svá kvíðinn. Guinelun jarl svaraði engu orði ok varð mjök hugsjúkr, ok þegar gékk hann fram til Rollant stjúpsonar síns ok kastaði skikkju sinni á gólfit niðr ok stóð fyrir honum. En allir 12 jafningjar hugðu at honum sem vandligast, því at maðrinn var hinn vænsti. Hann mælti þá við Rollant: Þú svikarinn, segir hann, hví œrist þú, kvikar meinvættir búa í þér; Frankismenn bera ráð um þat, at þeir hati þik, þú einn veldr því, er þér erut hér svá lengi, ok hvern dag kemr þú at þeim vandræðum ok erfiði, ok upp verða þeir vápn sín at bera at þarflausu fyrir þínar sakir; illu heilli sáttu Karlamagnús konung, fyrir þitt dramb ok ofsa ok þitt úgott hugskot kemr (þú) mér í brott frá mínum herra Karlamagnúsi konungi ok mörgum öðrum góðum manni. Nú hefir þú því upp komit, at ek skal fara til Marsili konungs hins heiðna hunds, ok veit trúa mín, ef ek kem aptr or þessarri ferð, þat er þinn skaði, sá er þér skal vinna til dauðadags.

Þá er hann hafði svá lengi talat hart, þá svaraði Rollant ok mælti svá: Nú seg þú þinn vilja, en ekki tek ek hót þín; en jafnvitr maðr sem þú ert á vel at fara sendiför konunga á milli, ok þat sama segi ek þér, at ek vil gjarna fara þessa sendiför fyrir þik, ef Karlamagnús konungr frændi minn vill lofa mér. Guinelun jarl svaraði: Eigi legg ek þat á þik; alls þó hefir Karlamagnús konungr þat lagt á mik fyrir öndverðu, þá mun ek fara sendiför hans til Saraguze; en sá er ferr mun eigi aptr koma, veit ek at hann mun láta drepa mik, sem hann lét drepa Basan ok Basilides. En ef mér verðr auðit aptr at fara, þá er víst, at (ek) mun gera þeim nökkura fólsku, er mik dœmdu til þessarrar farar. En er Rollant heyrði þessi orð Guineluns jarls, þá þagnaði hann ok hló nökkut at. En er Guinelun jarl sá þat, at Rollant hló at honum, þá þótti honum afburðar illa, svá at mjök svá vissi hann eigi hvat hann gerði, en þó mælti hann við konung: Hér em ek, segir hann, fá mér nú staf ok glófa, en síðan mun ek fara til Saraguze. En ef guð sendir mik aptr hingat, þá skal ek reka harma minna. Karlamagnús svaraði: Helzti ertu hœtinn. Nú ef þú ferr til Saraguze, þá seg þau tíðendi Marsilio konungi hinum heiðna, at hann taki við kristni ok gerist minn maðr at fullu svikalaust, ok sœki á minn fund ok mína miskunn, ok haldi af mér hálft Spanialand, en Rollant skal hafa hálft. En ef hann vill eigi þat, þá seg þú honum, at ek mun bráðliga koma til Saraguze, ok eigi þaðan fara fyrr en ek hefi unnit borgina. En síðan skal hann fara með mér í böndum til Frakklands, þar sem hann skal dœmdr vera ok dauða þola. En, Guinelun

jarl, (þú) skalt fá honum í hendr bréf þetta ok þenna staf ok glófa. er ek sel þér. En (er) Guinelun jarl skyldi taka við ritinu, þá féll þat or hendi honum. En 12 jafningjar hugðu at ok hlógu. En Guinelun jarl laut niðr ok tók upp bréfit, ok þótti æfar illa ok svá mikil skömm at vera, at hann vildi eigi þar víst staddr vera fyrir alt veraldar gull, ok mælti síðan þessum orðum: Guð sjálfr hefni þeim, er þessum vandræðum kómu at mér. Frankismenn svöruðu ok mæltu svá: Dróttinn allsvaldandi guð er veit alla hluti, hverju má þetta gegna? þetta býsnar tjón ok sorg. Guinelun svaraði ok mælti: Þér munut heyra tíðendi, segir hann. En síðan mælti hann við Karlamagnús konung: Herra, segir hann, gef mér leyfi, at ek fara í brott sem skjótast, alls þó em ek nú skyldaðr til þessarar farar, þá vil ek eigi lengr hér dveljast. Karlamagnús konungr svarar honum: Guð greiði ferð þína, ok far sem þú vilt.[1]

7. Nú fór Guinelun jarl til landtjalda sinna, [ok bjuggust[2] með honum 400[3] hans manna, ok vildu honum allir fylgja [ok eigi fyrir mikit gull við hann skiljast. Honum líkaði nú afar illa sem ván var við Frankismenn, ok var hann í œsi miklum fjándskap til þeirra.[4] Hann klæddist[5] síðan með hinum beztum herklæðum [er vera mátti, gullsporar váru bundnir á fœtr honum, ok var hann gyrðr með sverði sínu, því er (hét) Muraglais.[6] En síðan er hann var til ferðar búinn, þá sté hann[7] á bak hesti sínum þeim er hét Taskabrun;[8] [söðull var af silfri, er hann sat í, en söðulklæði var af hinu dýrasta pelli; í stigreip hans hélt sá maðr er Guinimus hét, hann var frændi hans skyldr. Nú er maðrinn einkar tiguligr ok frœknligr at sjá í sínum búnaði, ok eigi úþessligr í yfirbragði at hann muni yfir brögðum búa.[9] Menn hans mæltu við hann: Lát oss fara með þér,[10] Guinelun jarl, sögðu þeir. Guinelun jarl mælti: Eigi vill guð þat, betra er at ek[11] deyja einn, en svá margr góðr

[1]) [at aldri man ek honum þat fyrirgefa, ok sé ek nú herra, at þér vilit at ek fari. Nú ef þú ferr til Saraguze, þá seg Marsilio þau tíðendi, at hann taki við kristni ok gerist minn maðr ok sœki á minn fund ok haldi af mér hálft Spanialand, en hálft Roliant. En ef hann vill þat eigi, þá man ek vinna landit. Guinelun skal fá í hendr honum bréf þetta ok staf ok glófa er ek sel þér. *B*; at ek skal honum jafnan muna. Þá svarar Karlamagnús: Nú skaltu fara til Saraguz, ok seg svá Marsilio konungi, at ek vil þau boð þiggja sem sendimenn hans sögðu mér af honum; en ef hann vill þat eigi halda, þá man ek vinna borg hans, þá er hann sitr í. Tak nú hér bréf þat er ek sendir honum, ok þar með fær ek þér staf minn ok glófa. *b.* [2]) [at búast ok *B*; ok bjóst til ferðar ok *b.* [3]) 7 þúsund *B*, *b.* [4]) [fyrir þessa sök feldi Guinelun mikinn fjándskap til Frankismanna. *b.* [5]) herklæddist *B*, *b.* [6]) *saal. Fragment i Rigsarkivet;* Miragginais *a.* [7]) [ok sté *B*, *b.* [8]) Teskabrun *B*, *b.* [9]) [*mgl. B*, *b.* [10]) *saal. B*, *b*; honum, *a.* [11]) *tilf. B*, *b.*

drengr sé drepinn. [Gerit svá vel, mínir menn, ef þér heyrit sagt í frá, at ek sé drepinn, þá verðit þér at minnast sálu minnar í bænahaldi yðru, ok segit góða kveðju Pinabel frænda mínum ok Baldvina syni mínum, ok verðit honum at liðveizlu sem þér megit. En því næst fór Guinelun jarl leiðar sinnar. ok skildust nú við svá búit. En menn hans urðu við þann skilnað úglaðir mjök ok kunnu forkunnar illa brottför hans, ok mælti hverr þeirra við annan: Jlla hefir oss nú til tekizt, ef vér skulum nú svá týna herra várum ok lánardróttni. Mjök erum vér hér til virðir af Karlamagnúsi konungi fyrir sakir lávarðs várs Guineluns jarls, en við þann eigum vér litla vináttu at lýsa, er skildi vára vináttu, mikla úvináttu gerði hann við várn herra Guinelun jarl, ok er hann svikinn í trygðum.[1]

8. Frá því er nú at segja, at sendimenn hins heiðna konungs váru undir olifutré einu ok bjuggust í brott. Guinelun jarl réðst í ferð með þeim.[2] En [Blankandin er nefndr var foringi þeirra, hann reið síðar, ok Guinelun jarl með honum, ok urðu margtalaðir um daginn. Þar kom þeirra ræðu. at[3] Blankandin mælti við Guinelun jarl á þá leið: Mikill atferðarmaðr er Karlamagnús konungr. hann hefir lagt undir sik alt Rómaríki, Púl ok Calebre, [Constancie ok Nobile,[4] Saxland ok England ok Jrland, hann er nú ok gamall, svá at [ekki má á[5] skorta[6] þrjú hundruð vetra. Guinelun jarl svaraði: Lið hans er svá[7] gott ok frœknt, ok er hann svá dýrligr höfðingi, at slíkr konungr verðr aldri eptir hann hvárki áðr né síðan. Blankandin svaraði: Frankismenn eru[8] vel at sér gervir, [ok virðist mér sem þeir leggi slík ráð fyrir hann, ok þiki[9] mér sem þeir gangi yfir allar þjóðir. Guinelun jarl svaraði: Eigi valda því hinir góðu Frankismenn, en öllu því er ilt er, þá [veldr því Rollant einn,[10] ok [hér máttu nökkut svá marka hans skaplyndi,[11] eptir því sem nú mun ek segja þér.[12] Þat var í gær, segir hann, er Karlamagnús konungr sat undir tré[13] einu ok fjölment um hann harðla mjök, þá kom þar farandi Rollant frændi hans ok hafði í hendi sér afburðar [epli eitt mikit,[14] ok mælti við Karlamagnús konung: Herra keisari, segir hann, tak hér epli þetta. ek heit þér [allar kórónur af[15] konungum þeim er í móti þér standa. Slíkr er ofmetnaðr hans, hvern dag vill hann ilt gera; en ef ilt kœmi[16] at honum, þá myndim vér

1) [Ok því næst fór Guinelun jarl leiðar sinnar. *B*, *b*. 2) ok riðu síðan veg sinn *tilf. b*. 3) [*mgl. B*, *b*. 4) Constantz Nobile *B*; Constantinobile *b*. 5) [ekki man at *B*. 6) [hann man hafa *b*. 7) afburðar *b*. 8) furðu *tilf. b*. 9) [en þeir leggja slík ráð fyrir hann, ok virðist *B*, *b*. 10) [kemr Rollant einn því upp, *B*, *b*. 11) gaplyndi(!) *B*. 12) [þar til marks um vil ek segja þér þann hlut sem til bar. *b*. 13) olifotré *B*, *b* 14) [mikit epli eitt, *B*, *b*. 15) [öllum kórónum af *B*; kórónum af höfði öllum *b*. 16) kemr *B*.

allir í friði [vera. Blankandin mælti: Maðr læzt Rollant vera,[1] en hann vill hvern konung undir sik kúga, ok mun honum eitthvert sinn illa til takast [. Guinelun jarl svaraði þá enn: Þat[2] vildi Rollant, at [eigi kœmist sætt á leið[3] í þessu sinni, ok vildi hann leggja undir sik Spanialand. Síðan vildi[4] hann fara til Babilonar ok drepa Amiral konung, [ef hann vill eigi[5] skírast láta; ok eigi ætlar hann at létta áðr en hann hefir yfirstigit[6] allar þjóðir. [Hvat er um þat at lengja um þeirra rœður, þar kom um síðir, at þeir urðu báðir á eitt sáttir.[7] Nú handsala þeir sín á millum Blankandin ok Guinelun jarl at svíkja Rollant í trygðum, ok [at þeir skyldu honum at bana verða.[8]

9. Eptir þat fóru þeir leiðar sinnar, ok léttu eigi fyrr en þeir kómu til borgarinnar Saraguze, ok fundu þar Marsilium konung. En þegar jafnskjótt sem þeir kómu þar, þá bar Guinelun jarl fram sín erindi, en allir heiðingjar [hlýddu honum ámeðan.[9] Blankandin gékk þá fram fyrir Marsilium konung ok hélt í hönd Guinelun jarls, ok tók til máls á þá leið: Herra konungr, segir hann, Maumet [ok Apollin ok Jubiter[10] gæti þín. Vér[11] bárum sendiboð þín til Karlamagnús konungs, en hann varð þeim tíðendum feginn ok gerði guði þakkir, ok sendi til þín þenna enn góða mann. Hann er [jarl at tign[12] ok vel at sér gerr, ok máttu nú vita sönn tíðendi af honum. Marsilius konungr svaraði: Segi hann nú þá, en vér skulum hlýða. Guinelun jarl hóf þá mál sitt vitrliga mjök: Konungr, segir hann, Karlamagnús keisari sendir þér kveðju ok þau boð, at þú [játir Krists nafni, en neita Makon ok Maumet, en hann vill fá þér fyrir at ráða[13] hálft Spanialand, en Rollant hálft. En ef þú vilt eigi játa þessarri sætt, þá mun hann taka af þér borgina Saraguzie með liði sínu, ok síðan skaltu fara[14] í böndum til Frakklands, ok þar skaltu [bana taka[15] með skömm ok háðung. Marsilius konungr reiddist mjök við[16] orð hans, hann [hélt á staf einum[17] í hendi sér [ok vildi ljósta hann,[18] en því kom hann eigi fram, því at [honum var bannat.[19] En Guinelun jarl brá sverði sínu ok vildi verða fyrr at bragði ok mælti fyrir munni sér: Eigi skal Karlamagnús konungr þat spyrja, at ek [skal[20] einn hér deyja,[21] hafa skal ek hinn hæsta[22] áðr en

1) [sitja *B*, *b*. 2) [ok þat *B*, *b* 3) [engi kœmist sætt á (með konungunum *tilf. b*) *B*, *b*. 4) vill *B*, *b*. 5) [utan hann vili *b*. 6) undir sik okat *b*. 7) [*mgl. B*, *b*. 8) [ráða honum bana *b*. 9) [gáfu honum hljóð meðan *b*. 10) [*mgl. B*, *b*. 11) kompánar *tilf. b*. 12) [jarl ok tiginn *B*; einn tiginn jarl *b*. 13) [látir kristnast ok haldir af honum *B*, *b*. 14) með honum *tilf. B*, *b*. 15) [þola dauða *b*. 16) *tilf. B*, *b*. 17) [hafði staf einn *b*. 18) [ljóp upp ok vildi þegar ljósta Guinelun jarl *B*, *b*. 19) [menn hans stöðvaðu þat *b*. 20) skolag *B*. 21) [deyi einn hér *b*. 22) af þeim fyrir mik *tilf. B*, *b*.

ek falla. En heiðingjar báðu skilja þá. Marsilius konungr varð þá reiðr mjök, [en menn hans ávítuðu hann[1] fyrir þat bráðskeyti[2] er hann sýndi í þessu máli,[3] [ok lét hann at orðum þeirra[4] ok settist aptr í[5] stól sinn.

10. Þá tók sá maðr til máls er Langalif hét, ungr[6] maðr ok vitr ok kærr konungi: Herra konungr, segir hann, illa hefir þú gert, er þú skyldir[7] ljósta hinn frankneska[8] mann, vel máttir þú heyra orð hans. Guinelun jarl svaraði: Hann verðr at þola, [hvárt sem[9] hann vill, en at vísu mun ek eigi af láta fyrir hræzlu dauðans ok eigi fyrir alt veraldar gull[10] [at bera[11] sendiboð Karlamagnús konungs. Hann kastaði þá af sér safalaskinnum, er hann hafði yfir sér, en verit var af guðvefjarpelli af Alexandria. En Blankandin tók upp skikkjuna. Guinelun jarl hélt sverði sínu brugðnu [í hendi[12] sér. Þá mæltu heiðingjar sín á millum: Hann er hvatr riddari, segja þeir. Guinelun jarl þokaði at konungi ok mælti við hann hárri röddu: [Við sannmæli reiðist þú, segir hann, nú ef þér líkar illa, haf þú svá gert.[13] Þau boð sendi þér Karlamagnús konungr, at þú takir við kristni ok gerist hans maðr, hann vill gefa þér Spanialand hálft, en hálft Rollant frænda sínum; [þar hefir þú ramyrkjan ok újafngjarnan lagsmann.[14] En ef þú vilt eigi þessu sáttmáli taka,[15] þá mun Karlamagnús konungr fara til Saraguze ok brjóta alla borgina, en þik sjálfan í bönd fœra, ok [hvárki skaltu hafa palafrey[16] né hest eða múl, heldr skaltu vera settr á einn klyfjahest ok hafðr til Frakklands,[17] ok þar skaltu dóm þola ok týna höfði þínu. [Karlamagnús konungr sendi þér þetta rit ok tak hér við.[18] Marsilius konungr var góðr klerkr ok kunni vel á heiðnar bœkr, hann tók við bréfinu ok braut síðan innsiglit þat er fyrir var. En er hann las ritit, þá feldi hann tár ok [dró skegg sitt, hann reis upp síðan ok kallaði[19] hárri röddu: Heyrit þér, góðir riddarar,[20] hve mikla fjándsemi Karlamagnús konungr hefir[21] við oss. Nú minnist hann á dráp þeirra Basans ok Basilius,[22] er ek lét [drepa fyrir háðungar sakir honum,[23] en ef ek vil sáttr vera við hann, þá á[24] ek senda honum Langalif föðurbróður minn, er [því olli er þeir váru drepnir.[25] En ef ek sendi hann eigi, þá verðr ekki af okkarri

[1]) [*tilf. B*, *b.* [2]) bráðlyndi *b.* [3]) ok lét hann at þeirra máli *tilf. a.* [4]) [hann stöðvaðist fyrir þeirra orð *b.* [5]) á *B*, *b.* [6]) hann var ríkr *B*, *b.* [7]) vildir *B*, *b.* [8]) frœknasta *B*, *b.* [9]) [hversu *B*; sem *b.* [10]) á þessu landi *tilf. B.* [11]) [skal ek niðr fella *b.* [12]) [fyrir *B*, *b.* [13]) [*mgl. B*, *b.* [14]) [*mgl. B*, *b.* [15]) játa *b.* [16]) vala frey *a.* [17]) [hafðr (skaltu ríða *b*) til Frakklands á einum klyfjahesti *B*, *b.* [18]) trú með(!) *B*; [Síðan fékk hann honum bréf þat, er Karlamagnús sendi honum *b.* [19]) [œpti *B*, *b.* [20]) höfðingjar *B*, *b.* [21]) nú lýst *tilf. b*, [22]) Basilii *b.* [23]) [afhöfða honum til háðungar *B*, *b.* [24]) skal *B*, *b.* [25]) [voldi þeirra dauða *b.*

sætt. En engi heiðingi[1] svarar honum[2] orði. Þá mælti Langalif: Herra konungr, segir hann, Guinelun jarl hefir mikla fíflsku[3] mælta við þik, ok er hann dauða verðr; fá mér hann í hendr, ok mun ek refsa honum stórmæli sitt.[4] En er Guinelun jarl heyrði þetta.[5] þá brá hann sverði sínu ok bjóst at verja sik.

11. En Marsilius konungr lét brenna ritit[6] fyrir sakir reiði sinnar, ok mælti síðan við heiðingja: Bíðit hér, segir hann, en ek vil ganga á einmæli[7] við hina beztu menn mína. Langalif fór með honum ok Falsaron bróðir hans, Adalin[8] ok [Nufulun, Malpriant,[9] Valdabrun, Klimberis[10] ok Klargis, Bargis, [ok Blankandin:[11] hann mælti við Marsilium konung: Lát kalla hingat Guinelun jarl, hann hefir handfest[12] mér at fylgja [mér ok[13] váru máli. Langalif[14] svaraði: Far þú eptir honum, ef þá vilt. En hann fór ok kom til hans, ok tók í hönd honum [ok reisti hann upp ok mælti við hann fögrum orðum,[15] ok leiddi hann fyrir konung. Þá mælti Marsilius konungr við Guinelun jarl: Góði vinr, segir hann, ek hefi mjök mælt í móti þér, ok [lýsta ek mikla fíflsku við þik,[16] er ek vilda ljósta þik, en ek skal nú bæta þat við þik með góðan[17] vilja. Ek gef þér skikkju mína, er í gær[18] var ger. hon er verð 100 punda silfrs. Síðan létu þeir um[19] hann skikkjuna. Þá setti [hann Guinelun jarl[20] niðr hjá sér. Þá mælti konungr við Guinelun jarl: [Ek skal yfirbœta minn bráðan vilja, svá at þú skalt sœmdr vera. Guinelun jarl svaraði: Því neita ek eigi. ok guð launi þér góðvilja þinn, yfirbœtr eru hvers beztar. Þá mælti Marsilius konungr við Guinelun jarl:[21] Þat skaltu vita, segir hann, at ek skal sœma þik í öllum hlutum, ok skulum vit bera okkur ráð saman, ok verum vinir þú ok vér. Kynligt þikir mér um hag Karlamagnús konungs, ek ætla, at hann sé vel 200 vetra gamall, ok [hefir hann víðförull gerzt ok[22] mörg konunga ríki undir sik lagt ok þá sjálfa yfirstigit.[23] Guinelun jarl svaraði: Karlamagnús keisari er vel at sér gerr um alla hluti, ok mikit lið hefir guð honum léð at stjórna, ok engi

[1]) höfðingi *B*, *b*. [2]) einu *B*; þar til né einu *b*. [3]) ok úvizku *tilf.* *B*. [4]) [velja honum makligan dauða fyrir sín stóryrði *b*. [5]) þessi orð Langalif *B*, *b*. [6]) í eldi *tilf.* *b*. [7]) eintal *B*, *b*. [8]) Abalin *b*. [9]) [Nufalon, Malbruant *B*, *b*. [10]) Blumboris *B*; Klunboris *b*. [11]) [Blankandin var ok þangat kallaðr *B*, *b*. [12]) þat fest *B*. [13]) [*mgl.* *B*, *b*. [14]) konungr *B*, *b*. [15]) [*mgl.* *B*, *b*. [16]) [heimskan gerða ek mik *b*. [17]) góðum *b*. [18]) dag *B*, *b*. [19]) yfir *B*, *b*. [20]) [konungr hann *B*, *b*. [21]) [*mgl.* *B*. [22]) [*saal.* *B*; er hann víðförull um *a*. [23]) *fra* [Ek skal yfirbœta *har* *b*: Ek vil, at þú sér í ráðagerð með oss, ok skal ek þá gera til þín sómasamliga; mér þikir undarligt um Karlamagnús, svá gamall sem hann er, ok svá víða sem hann hefir farit ok lagt undir sik marga konunga ok þeirra ríki, at hann þikist aldri nógt hafa, viljandi æ ok æ auka sitt vald ok yfirboð *b*.

maðr á honum at hallmæla, ok engi maðr má hans gœzku tjá[1] né tína, ok heldr vil ek dauða þola en missa eða týna hans vináttu. En svá lengi sem Rollant lifir, þá mun Karlamagnús konungr aldri um kyrt sitja, svá at hann mun eigi herja á lönd annarra konunga. En þat er víst at segja, at Rollants jafningja veit ek eigi[2] á jarðríki, ok svá Oliver bit sama. En þeir 12 jafningjar skulu[3] lands gæta, þegar er Karlamagnús konungr ferr[4] til Frakklands, en þeir eru svá miklir atgervimenn, at Karlamagnús konungr [óttast ekki vætta,[5] meðan þeir eru lífs.

12. Marsilius konungr mælti þá við Guinelun jarl: Ek hefi vænt lið ok vel búit, 400 þúsunda riddara; nú spyr ek þik eptir, hvárt ek má halda orrostu [í móti Karlamagnúsi konungi. Guinelun jarl svaraði: Með engu móti at þessu sinni, en ef þú átt orrostu,[6] þá mun þat þinn skaði verða, því at ekki megu heiðnir menn í móti [kristnum mönnum.[7] Gef heldr konungi fjárhluti ok fá honum gisla, ok mun hann fara til Franz,[8] en Rollant mun eptir dveljast lands at gæta. En síðan skaltu fara á hendr þeim ok eiga við þá orrostu, ok er[9] meiri ván, at þú sigrist á þeim. En ef svá ferr, þá mun lægjast ríki Karlamagnús konungs, ok mun hann aldri síðan kórónu bera á höfði sér. Síðan mun Spanialand í friði standa. Marsilius konungr þakkaði honum vel sitt ráð. Hann bað síðan opna féhirzlur sínar, ok svá var gert. Þá gaf hann Guinelun jarli marga góða gripi, þá er eigi [má nú[10] telja. Ok enn spurði hann:[11] Munum vér á [þessa lund yfirstíga[12] Rollant? Já, já, segir hann, ek skal segja þér, hversu þú skalt hátta.[13] Ef Rollant er eptir lands at gæta, sem ek sagða þér, ok með honum 20 þúsundir,[14] þá skaltu senda á hendr þeim 100 þúsunda riddara, en öllum þeim muntu týna. Sentu enn til annarrar orrostu svá[15] marga riddara, [en öllum þeim muntu týna.[16] En í[17] þriðja sinn muntu sjálfr fara með almenning,[18] ok þess[19] meiri ván, at Rollant[20] lúti þá í þeirri atlögu. Marsilius konungr svaraði máli Guineluns jarls ok mælti: Þetta sýnist mér þjóðráð[21] vera. En nú skaltu þess eið sverja, at þú skalt halda þetta,[22] er vit höfum rœtt, en þar í móti skal ek þér trú mína festa [at drepa Rollant, þó at ek falla í bardaga. Guinelun svaraði: Þat skal at þínum vilja vera,[23] segir hann. En síðan

[1]) alla telja *B*, *b*. [2]) engan *b*. [3]) hér eptir vera ok *tilf. b*. [4]) heim *tilf. b*. [5]) [uggir ekki at sér *B*, *b*. [6]) [við hann at þessu sinni. Guinelun jarl svaraði: Víst eigi *B*. [7]) [Frankismönnum *b*. [8]) Frakklands *B*, *b*. [9]) þess *tilf. B*, *b*. [10]) [er auðvelt at *b*. [11]) Marsilius konungr *B*, *b*. [12]) [þessu landi mega yfirstíga (sigra *b*) *B*, *b*. [13]) breyta *b*. [14]) riddara *tilf. b*. [15]) nökkura aðra *tilf. B*. [16]) [*mgl. B*; ok munu þeir flestir falla *b*. [17]) it *B*, *b*. [18]) alt lið þitt *b*. [19]) er *tilf. B*, *b*. [20]) ok 12 jafningjar *tilf. b*. [21]) spakligt ráð *b*. [22]) þat stöðugt *b*. [23]) [*tilf. B*, *b*.

var fram borin bók mikil, en hon var lögð á hvítan skjöld. Á þeirri bók váru lög Maumets ok Terogants. Síðan fór Guinelun jarl at þessi hinni sömu bók, at svíkja Rollant á þessa lund sem þeir höfðu [ráð til sett.[1] En[2] í móti sóru allir heiðnir menn at eiga orrostu við Rollant ok verða honum at bana. [Er þetta hinn mesti harmr, er Rollant skyldi eigi verða varr við þetta, ok at hann varð eigi fyrri at bragði.[3]

13. Valdibrun stóð þá upp ok þakkaði Guinelun jarli ráð sín [ok gaf honum sverð sitt. En á því sverði var merkt ásjóna Makons. Síðan mælti hann við Guinelun jarl: Þetta sverð gef ek þér til vináttu með góðum vilja, ok[4] til þess at þú verðir oss at liðveizlu at drepa Rollant ok hans lið. En síðan [hurfust þeir til.[5] Þá reis upp [Klimboris, hann var[6] höfðingi mikill heiðinna manna:[7] hann mælti: Guinelun jarl, segir hann, ek gef þér hjálm minn, þann er aldri sáttu betra, [til vináttu, ok þar með bið ek þik, at þú kynnir oss til þess, at Rollant (muni) dveljast eptir lands at gæta: ef þat verðr, þá skulum vér lægja ofdramb hans ok ofmetnað. Guinelun jarl svaraði: Ef þat verðr, þá væri vel.[8] Bamundi[9] dróttning mælti við Guinelun jarl: Vel er konungi [við þik,[10] ok gott hyggr hann þér ok öll hirð hans. En ek vil senda konu þinni 2 nisti, [þar er í steinar margir, matistis ok naguntis;[11] þau eru meira verð en alt gull í Rómaborg, ok aldri sá Karlamagnús konungr önnur jafngóð, svá víða sem hann stóð,[12] [ok hverja 12 mánuðr skaltu góða gripu af mér þiggja. Guinelun jarl mælti: Ef vér lifum, þá skulum vér launa þér ok þínum mönnum. En[13] síðan tók hann við nistunum ok lét í hirzlur sínar ok þakkaði dróttningu gjafir sínar. Ok því næst mælti Marsilius konungr við[14] Valdenisis, hann var féhirzlumaðr[15] konungs, hann var hinn ellzti maðr á Spanialandi, Marsilius konungr spurði hann, hvárt búnir væri fjárhlutir, þeir er [senda skyldi[16] Karlamagnúsi konungi. Hann kvað búna vera. Þá lét hann fram bera fjárhluti,[17] ok fékk Marsilius konungr í hendr Guinelun jarli, til þess at fœra Karlamagnúsi konungi til heilla sátta, en [þar bjuggu[18] undir svik reyndar. Þá mælti Marsilius konungr við Guinelun jarl: Nú skaltu heim fara, segir hann, til Karlamagnús konungs ok fœra honum fjárhluti, en ek skal hverja 12 mánuðr gefa þér 10[19] múla hlaðna af gulli ok dýrligum gimsteinum ok góðum

1) [áðr talat *B*, *b*. 2) þar *tilf. B*, *b*. 3) [*mgl. B*, *b*. 4) [ek gef þér sverð mitt til fullrar vináttu með góðan (góðum *b*) vilja *B*, *b*. 5) [mintist hverr við annan *b*. 6) [*mgl. B*, *b*. 7) hann hét Falsaron *tilf. b*. 8) [*mgl. B*, *b*. 9) Haimbunde *B*, *b*. 10) [til þín *b*. 11) [*mgl. B*, *b*. 12) fór *B*, *b*. 13) [*mgl. B*, *b*. 14) einn höfðingja, þann er hét *tilf. B*, *b*. 15) féhirðir *b*. 16) [ek skal senda *B*, *b*. 17) svá mikinn fjárlut sem konungr kvað á *b*. 18) [þó váru *B*. 19) 12 *B*; 20 *b*.

gersimum. Ok enn mælti hann: Tak hér nú, segir hann, við lyklum borgar ok þeim [hinum mikla[1] fjárhlut, ok fœr Karlamagnúsi konungi til vináttu várrar sannrar ok fastrar. Ger svá vel, [at þú komir[2] því á leið, at Rollant sé eptir lands at gæta, [en síðan mun ek eiga við hann orrostu. Guinelun jarl mælti: Þat þiki mér til seint á leið komast, en eigi mun ek afláta fyrr en ek kem því á leið.[3] Nú skiljast þeir við svá búit, ok fór Guinelun jarl leiðar sinnar.

14. En Karlamagnús konungr var þá kominn til borgar þeirrar er Valterne heitir, þar kom Guinelun jarl á fund hans þessu sinni. En sú borg hafði þá 7 vetr eydd verit. Um morguninn eptir fór Karlamagnús konungr til kirkju at hlýða tíðum. Ok er [þeim var lokit,[4] þá gékk hann til matborðs,[5] ok með honum Rollant ok Oliver, Nemes hertogi ok fjöldi annarra höfðingja. Þá kom[6] farandi Guinelun jarl ok bar upp sín mál fyrir Karlamagnús konung. Hann hóf [svá sitt[7] mál: Herra konungr, segir hann, heill sértu ok alt lið yðvart. Nú hefi ek þessarri sendiför á leið komit, sem þér báðut mik at fara, ok hér hefi ek nú at fœra þér mikla fjárhluti, ok hér eru nú komnir lyklar[8] Saraguze, ok Marsilius konungr sendi þér góða kveðju með [ástsemi ok mikilli vingan,[9] ok 20[10] gisla mun hann þér senda, ok láttu [þeirra vel gæta.[11] En þau tíðendi kann ek þér at segja frá Langalif, at hinn fyrra dag flýði hann undan[12] kristni[13] til sjávar með 100 þúsunda manna; hann gékk þar á skip ok [alt lið hans,[14] síðan tók hann stormr[15] í hafi, ok druknaði[16] þar hvert mannsbarn. En ef hann hefði eigi undan flýit, þá mundi hann nú hér kominn. En þau tíðendi kann ek þér at segja frá[17] konungi, at hann vill kristnast ok þínum vilja[18] fylgja í [hvern stað.[19] En er Guinelun jarl lauk sínu máli, þá tók Karlamagnús konungr til máls ok svaraði: Guð sé[20] lofaðr, segir hann, at svá sé; [ef þú hefir vel þínu erendi til lykta leitt, þá[21] skal þér gott af því standa. Síðan váru upptekin landtjöld ok herbúðir Karlamagnús konungs. Síðan fóru þeir leiðar sinnar ok léttu eigi fyrr en þeir kómu til Runzivals ok tóku sér þar[22] náttstað. En nú er [öðru máli fram at fara, heiðingjar[23] bjuggu lið sitt 400 þúsunda ok ætluðu at koma á úvart Frankismönnum, [ok er þat harmr mikill, er Frankismenn vitu eigi at þessi svik bjuggu undir.[24]

1) [mínum *B*. 2) [ok kom *B*. 3) [*tilf.* *B*, *b*. 4) [lokit var at syngja *B*. 5) drykkjuborðs *B*; borðs *b*. 6) þar *tilf.* *B*, *b*. 7) [*saal.* *B*, *b*; upp sín *a*. 8) luklar af *B*, *b*. 9) [ástsemd *B*; *mgl.* *b*. 10) 30 *b*. 11) [vel til þeirra gera *b*. 12) fyrir sakir *tilf.* *B*. 13) kristniboði *b*. 14) [*tilf.* *B*, *b*. 15) storm *B*; storm mikinn *b*. 16) dó *B*. 17) Marsilio *tilf.* *b*. 18) ráðum *B*, *b*. 19) [öllum hlutum *b*. 20) þess *tilf.* *B*, *b*. 21) [en þú hefir vel þinni sendiför til komit, (þetta örindi rekit *b*) ok *B*, *b*. 22) *tilf.* *B*, *b*. 23) [at segja af heiðingjum, þeir *b*. 24) [*mgl.* *B*, *b*.

15. Um morguninn eptir lét Karlamagnús konungr blása til húsþings ok átti [við þá ráð, hverir eptir skyldu vera[1] lands at gæta. Guinelun jarl var [bráðr í andliti ok[2] í andsvörum, ok sagði svá at Rollant væri bezt tilfallinn [bæði fyrir sakir hvatleiks ok atgervi. En Karlamagnús konungr leit til hans reiðuliga ok grimmliga ok kunni honum aufúsu litla[3] sinna orða ok mælti við hann: Af viti þínu ertu genginn ok meinvættir búa í þér. En ef Rollant dvelst eptir,[4] hverr skal þá vera forsjónarmaðr[5] várs liðs? Guinelun jarl svaraði: Þat er Oddgeir danski, segir hann, [engi er hvatari riddari í allri[6] hirð þinni. [En er Rollant heyrði þessi orð, þá varð hann reiðr mjök, ok mælti svá við Guinelun jarl: Mikla vináttu á ek at dœma við þik, því at þú veldr því er ek em eptir lands at gæta; en (ef) svá verðr, þá mun engi svá djarfr, at þora muni á hendr oss at sœkja, ok eigi mun Karlamagnús konungr láta múl né hest ok ekki þat er fémætt sé. Guinelun jarl svaraði: Vitum vér at þat er satt, segir hann.[7] Þá mælti Rollant: Karlamagnús konungr, segir hann, gef mér boga þann er þú hefir í hendi þér, en ek heit því í mót, at eigi skal boginn falla or hendi mér fyrir hræzlu sakir, sem glófinn féll ór hendi Guinelun jarli, þá er hann fór sendiför þína [til Marsili konungs í[8] næsta sinni. En við þat [drap Karlamagnús konungr niðr höfði sínu,[9] ok líkaði honum svá illa þat er Rollant skyldi eptir dveljast, at hann feldi tár. Þá gékk Nemes hertogi fyrir Karlamagnús konung ok mælti við hann: Herra konungr, segir hann, gef Rollant bogann, [er hann beiðist.[10] En Karlamagnús konungr lét at bœn hans, ok fékk Rollant bogann. En hann tók við feginsamliga ok þakkaði konungi gjöf sína. En eigi [heyrða ek[11] þess getit, at boginn félli or hendi honum. Þá mælti Karlamagnús konungr við Rollant: Sé ek nú, at þat er dœmt á hönd[12] þér at vera eptir lands at gæta. Nú skaltu hafa með þér hálft lið várt, [þá erum vér allir óttalausir.[13] Rollant svaraði: Þat skal eigi vera, sagði hann, 20 þúsundir manna skulu eptir vera. Þat skal alt vera valit lið, [ok hverr[14] öðrum frœknari. En þér, herra, skulut heim fara ok óttast ekki vætta um várt lið.[15]

16. Ok því næst gékk Rollant á hól einn ok vápnaði sik, ok fleygði[16] á sik brynju sinni ok setti hjálm á höfuð sér ok gyrði sik með sverði sínu, því er Dýrumdali hét, hann hengdi á öxl[17] sér

[1]) [Þá ráð við sína menn, hvern er eptir skyldi setja (hverir eptir skyldu sitja *b*) ***B***, *b*. [2]) [skjótr ***B***, *b*. [3]) *saal. rettet*; mikla *a*. [4]) [. Karlamagnús konungr sagði: ***B***; Þá svarar Karlamagnús konungr: *b*. [5]) forsjómaðr ***B***, *b*. [6]) [hann er hvatasti riddari í ***B***, *b*. [7]) [*mgl.* ***B***, *b*. [8]) [*mgl.* ***B***, *b*. [9]) [varð konungr hljóðr *b*. [10]) [ef hann beiðir ***B***, *b*. [11]) [er *b*. [12]) hendr ***B***, *b*. [13]) [*mgl.* ***B***, *b*. [14]) [svá at hverr sé ***B***, *b*. [15]) líf ***B***, *b*. [16]) steypti ***B***, *b*. [17]) hlið ***B***.

skjöld sinn ok tók í hönd sér spjót sitt, ok þar við bundit hvítt merki svá sem fönn nýfallin,[1] ok var svá sítt at tók jörð. En er hann var [með þessum búnaði,[2] þá var maðrinn [einkar tiguligr at sjá ok œsi[3] hvatligr. Síðan sté hann á bak hesti sínum, er hét Velantif.[4] ok vill nú reyna vini sína, hverir honum vilja fylgja til liðveizlu. Þá mæla Frankismenn [sem einum munni[5] sín í millum: Fari sá fyrir níðing. segja þeir. er [bregðast vill þér.[6] Þá gékk fram Oliver jarl ok Turpin erkibyskup, Gerin hinn ríki ok Geris,[7] Hatun[8] hinn sterki ok Bæringr,[9] Samson hertogi ok Angsis[10] hinn ágjarni, Jve ok Jvore, ágætir menn báðir. Engiler af [Gaskon hinn frakkneski,[11] Girarð hinn gamli. Valtere[12] jarl. Nú eru þessir allir höfðingjar settir eptir með Rollant [til landgæzlu,[13] ok 20 þúsundir hermanna með þeim. [En þá mælti Rollant við Valtara: Farðu[14] á varðhald. ok með þér þúsund riddara,[15] ok gæt[16] allra vega ok stiga, at heiðingjar komi [eigi at oss[17] á úvart, fyrir því at ilt er at trúa þeim. En hann fór ok mœtti þegar Amalre konungi af Balverne[18] ok barðist við hann. Nú er[19] Rollant ok Oliver ok 12 jafningjar [at Runzival ok lið þeirra.[20] ok man þeim skamt til bardaga. [Ok er eigi lengra frá at segja,[21] en því næst fór Karlamagnús konungr heim til Frakklands.[22]

17. En Karlamagnús konungr reið heim til Frakklands með [her sínum[23] há fjöll ok myrkva dali ok furðuliga þröngva,[24] svá at 15 mílur valskar mátti heyra [vápnagný af liði[25] þeirra. En við skilnað þeirra[26] var engi svá harðr,[27] at vatni mátti[28] halda fyrir sakir elsku, er [þeir höfðu á Rollant.[29] En Karlamagnús konungr [þeirra var allra[30] úglaðastr, fyrir því at hann grunaði, at [Guinelun jarl mundi vera í svikum[31] við Rollant systurson hans ok alla þá er eptir váru.[32] Hertogi Nemes reið [hit næsta honum, ok spurði hann hví hann lét svá úglaðliga. En Karlamagnús konungr

1) væri *tilf. B*, *b*. 2) [herklæddr *B*, *b*. 3) [alltiguligr at sjá ok *B*; bæði tiguligr ok *b*. 4) Velientif (Veliantif *b*) allra hesta beztr *B*, *b*. 5) [*tilf. B*, *b*. 6) [Rollant bregðst *B*, *b*. 7) Gerel *B*; Geres *b*. 8) Hotun *B*. 9) jarl *tilf. B*, *b*. 10) Auxiel *B*; Auxies *b*. 11) [Gaskonia *B*, *b*. 12) Valtari *B*, *b*. 13) [lands at gæta *B*, *b*. 14) Þú skalt fara *b*. 15) hermanna *b*. 16) gætit *b*. 17) [oss eigi *b*. 18) Bealverner *b*. 19) eru *b*. 20) [eptir í Runzival með lið sitt *b*. 21) [*mgl. b*. 22) *Fra* [En þá mælti Rollant *tilf. B*, *b*; *mgl. a*. 23) [allan sinn her, hann reið um *b*. 24) þröngva (þunga *b*) vegu *B*, *b*. 25) [vápnagang, hestagnegg ok lúðraþyt af liði *B*; gný af vápnum þeirra ok gnegg hesta þeirra ok þyt af lúðrum *b*. 26) Karlamagnús Rollants ok allra þeirra 12 jafningja *tilf. B*. 27) harðbrjóstaðr *B*, *b*. 28) mætti *B*, *b*. 29) [hverr (þeirra *tilf. b*) hafði á öðrum *B*, *b*. 30) [var allra þeirra *B*, *b*. 31) [svik mundu brugguð *B*, *b*. 32) með honum *tilf. b*.

svaraði: Rangt gerir sá er þess spyrr; svá mikinn hryggleik hefi ek, at ek má ekki at hafast. Í nótt bar fyrir mik, at engill guðs kom til mín[1] ok braut í sundr spjótskapt mitt í millum handa mér, ok af því veit ek, at svikinn er Rollant systurson minn. En ef ek týni honum, þá fæ[2] ek eigi þess bœtr, meðan ek lifi, því at slík kempa fœðist engi til riddaraskapar[3] í veröld síðan. Nú þikkist ek vita, at þeir Marsilius konungr ok Guinelun jarl hafa ráðit svik við hann sín í milli ok alla aðra þá er eptir sátu með honum lands at gæta, ok til þess hefir Guinelun jarl þegit góðar gjafir í gulli ok silfri, guðvef ok silkiklæðum, [í góðum múlum ok hestum ok stórum kamelum ok leónum ok mörgum dýrum gripum. En eigi þarf at lengja þetta mál framar at umtali keisarans, at hann fór[4] veg sinn sem áðr ok vildi eigi aptr hverfa, fyrir því at hann duldist þó við í öðru lagi, þó at hann grunaði nökkut hjá fram, [ok ætlaði hann eigi,[5] at Guinelun jarl, er verit hafði hinn kærasti vin hans ok námágr mundi sá mannhundr vilja gerast at svíkja hann svá. Nú var Karlamagnús af slíku úglaðr sem ván var [, at honum var ýmist í skapi.[6] En hvat má þat [undra, at guð vildi þeim svá láta[7] skilnaðar auðit verða, Karlamagnúsi ok Rollant frænda hans ok þeim öllum 12 jafningjum ok liði þeirra öllu.[8]

18. Í annan stað er þar til at taka, at Marsilius konungr hinn heiðni samnar saman sínum her, konungum ok jörlum, hertugum, barúnum ok allskonar ríkismönnum, [svá (at) á 3 dögum váru þeir[9] 400 þúsunda manna. Var þá blásit [í trumbur[10] ok tabur, ok þá[11] lét hann upphefja [skurgoð sín[12] á hina hæstu turna, ok var engi svá ágætr riddari [þar, at eigi legði ofr sitt þar til, ok hétu því allir, at þeir skyldi eiga bardaga við Rollant ok hans lið. Systurson hins heiðna konungs gékk fyrstr fram allra manna

[1]) [í þessarri ferð löngum (jafnan *b*) næstr konunginum, ok eitthvert sinn er þeir töluðust með, spurði Nemes (hann *b*) konunginn, hví hann væri svá úglaðr. Konungrinn svaraði heldr stutt: Rangt gerir þú nú, Nemes, at (er *b*) þú spyrr þess, fyrir því at svá mikill er minn hryggleikr, at ek má nær ekki at hafast. Ek segi þér at (þat með *b*) sönnu, at fyrir sakir Guinelun jarls er alt Frakkland erfingjalaust; því at þat bar fyrir mik í nótt, at engill guðs birtist mér í draumi *B*, *b*. [2]) bíð *B*, *b*. [3]) ok alls röskleiks *tilf. b*. [4]) [góða múla ok hesta, stóra kamela ok leónes ok marga aðra góða gripi. En alt eins, hvat sem keisarinn talar hér um, þá ríðr hann *b*. [5]) [*mgl. b*. [6]) [at, því at honum sveif ýmsu í skap *b*. [7]) [undrast, þó at guð vildi þvílíks *b*. [8]) *fra* meðan ek lifi *o. s. v. tilf. B*, *b*; *mgl. a*. [9]) [ok svá kom þar saman mart úgrynni, at varla varð talit, en þó segja þat sumir menn (sumar bœkr *b*) at eigi muni færra vera en *B*, *b*. [10]) [trumbur barðar *b*. [11]) síðan *B*, *b*. [12]) [skurðgoð öll *B*, *b*.

ok[1] kallaði á móðurbróður sinn ok mælti við hann: Herra konungr, segir hann, ek hefi lengi [þjónat þér ok mörg vandræði ok válk þolat fyrir þínar sakir[2] bæði í einvígum ok í orrostum, en nú bið ek [þik einnar gjafar, þat er háls[3] Rollants, því at ek skal drepa hann með hvasseggjuðu sverði mínu, ef Maumet vill duga oss,[4] ok [máttu æ ok æ hafa frið ok grið um alla lífsdaga þína síðan. En konungr þakkaði honum[5] ok fékk honum glófa sinn í veð, at þau orð skyldi standast, sem hann mælti.[6] [Systurson Marsili konungs hafði glófa sinn[7] í hendi sér ok mælti við móðurbróður sinn: Góða gjöf hefir þú gefit mér í dag, frændi. Nú [bið ek þik, at þú selir mér 12 jafningja af liði þínu, þar í móti skal ganga Rollant ok þeir 12 jafningjar.[8] En jafnskjótt stóð upp einn[9] sá er kallaðr var Falsaron at nafni, hann var bróðir Marsili konungs. Hann mælti við [frænda sinn: Vit skulum fara at finna orrostu þessa,[10] fyrir því at ek veit, at þeir eru allir dœmdir til dauða, er fyrir eru.[11]

19. Þá gengr fram konungr einn,[12] sá hét Kossablin, hann var hreystimaðr mikill [at hug ok fullr gerninga. Sá hefir mælt at drengmanns lögum, at fyrir alt veraldar gull vill hann eigi vera kallaðr regimaðr. Meira ferr hann á fœti en hinn fimasti hestr. Hann œpti hárri röddu: Ek skal bera líkam minn í móti Rollant, ok ef ek finn hann, þá skal ek yfirstíga hann.[13] Einn frjáls-

[1]) [í öllum þeim fjölda, at eigi offraði þar til miklum gœðum ok hétu (því með *tilf. b*) at eiga bardaga við Rollant ok hans lið. Nú er þat víst at vita, at í þeim mikla her mundi mörg rösk kempa (margr röskr riddari *b*) vera, ok margr mundi fúss þessar ferðar at skemta sér ok reyna sinn riddaraskap ok afla sér svá frægðar ok ágætis ok fjárluta. En eigi man svá laust fyrir liggja, sem þeir hyggja, áðr en þeir fá (fái *b*) aptr unnit Spanialand ok drepit Rollant ok þá 12 jafningja ok þeirra lið. Svá segist at áðr þeir hófu upp ferð sína, þá gékk fram systurson Marsilii konungs hins heiðna fyrstr allra manna, hann hét Adalroth, hann ***B***, *b*. [2]) [*saal.* ***B***, *b*; þolat vandræði ok embætti af þér *a*. [3]) [þik einnar bœnar, þat er at þú gefir mer höfuð ***B***; yðr, at þér gefit mér eina gjöf, en þat er höfuð *b*. [4]) mér ***B***, *b*. [5]) [mantu þá jafnan í friði vera þaðan af fyrir Frankismönnum um alla lífdaga þína. En er hann hafði svá mælt, þá þakkaði konungr honum mikiliga sín orð ***B***, *b*. [6]) því at þat reiknaðu þeir svá sem handlag *tilf.* ***B***, *b*. [7]) [Adalroth hélt nú glófann ***B***, *b*. [8]) [bið ek með, at þú játtir mér 12 jafningjum (vil ek, at þú fáir mér 12 höfðingja af liði þínu móti 12 jafningjum *b*). Konungr sagði at svá skyldi vera ***B***, *b*. [9]) maðr (höfðingi *b*) mikill *tilf.* ***B***, *b*. [10]) [Adalroth: Vit skulum fremja báðir þessa orrostu, ok duga sem drengir ***B***, *b*. [11]) verða okkrum vápnum (sverðum *b*) ***B***, *b*. [12]) heiðinn ***B***, *b*. [13]) [upp á sinn líkama ok mjök fjölkunnigr, hann mælti hárri röddu svá segjandi: Fyrir alt veraldar gull vil ek eigi regimaðr heita. Ek skal bera minn líkam, segir hann, til Runzivals, ok ef ek finn Rollant jarl, þá skal ek sýna honum dauða sinn ok þeim 12 jafningjum, því at ek em svá fimr ok frœkinn, at sá er engi hestr, at ek taki eigi á skeiði. ***B***, *b*.

lendingr[1] af því landi er heitir Balaguer,[2] hann hefir líkam vel skapaðan, andlit fagrt ok ljóst ok brjóst[3] harðligt, ok sitr á hesti sínum ok [herðir sik mjök at bera[4] vápn sín, ok er mjök lofaðr at[5] hreysti sinni, ok ef hann væri kristinn maðr, þá [ætti hann œrit ríki.[6] Hann [er kominn fyrir Marsilium konung til þess at fara[7] at leita Rollants. En ef ek finn hann, segir hann, þá eru fáir[8] lífdagar hans síðan, ok Olivers ok allra þeirra 12 jafningja. Frankismenn skulu deyja við skömm mikla ok úgleði, en Karlamagnús konungr hinn mikli er œrr[9] ok úviti,[10] ok gefr [oss upp lönd vár af Spanie, ok skulum vit eignast Frakkland.[11] Marsilius konungr stóð upp ok þakkaði honum orð sín. Einn ríkr höfðingi af landi því er heitir Eyirana,[12] [eigi er meiri illskumaðr[13] til á öllu Spanialandi, ok œpti hann[14] hárri röddu ok mælti [mikla fólsku: Til Runzivals vil ek fara með mínu liði, þat er eigi færra en 20 þúsundir manna með skjöldum ok spjótum, en[15] ef ek finn Rollant, þá segi ek honum [örugt bana sinn ok Olivers ok allra 12 jafningja.[16] Frankismenn munu[17] deyja, en Frakkland [mun vera[18] erfingjalaust, ok engi dagr mun sá vera,[19] at eigi mun Karlamagnús konungr harma sik. Nú er á annan veg jarl einn, sá er [kallaðr var Turgis af Turkulus,[20] á kristnum mönnum vill hann ilt vinna, þat er hann má. Hann [hefir mælt við Marsilium konung á þessa lund:[21] Hirð eigi at óttast, konungr, fyrir því at mátkari er Maumet goð várt en Pétr postoli at Rómi;[22] en ef þú trúir vel á hann, þá muntu sigr [vega í orrostu þessarri.[23] En ek skal fara til Runzivals[24] ok bera mitt sverð í móti Dýrumdala sverði [Rollants jarls,[25] ok [skaltu þá spyrja hvárr okkarr beri hærra skjöld.[26] Frankismenn munu deyja. ef þeir bjóðast[27] í móti oss, en Karlamagnús konungr mun lifa með skömm ok úgleði,[28] ok berr aldri síðan kórónu á höfði sér. Nú stendr upp sá höfðingi er kallaðr er Eskrement[29] at nafni, ættaðr af því landi

[1]) gildr (mikill *b*) kappi *B*, *b*. [2]) hann er eigi nefndr *tilf B*; sá er nefndr Malpriant *tilf. b*. [3]) *mgl B*, *b*. [4]) [berr harðmannliga *B*, *b*. [5]) af *B*, *b*. [6]) [fyndist varla hans líki *b*. [7]) [kom enn fyrir Marsilium konung ok mælti til hans: Ek ætla til Runzivals *B*, *b*. [8]) farnir *B*, *b*. [9]) *saal. B*, *b*; aur *a*. [10]) galinn *B*; örviti *b*. [11]) [í várt vald Spaniam (Spanialand *b*) ok Frakkland, ok þar með skulu mér (vér *b*) eignast alt hans ríki *B*, *b*. [12]) Bursana *B*; Burlana, *b*. [13]) höfðingi *B*. [14]) [hann hét Modan, sá œpti *b*. [15]) [*tilf. B*, *b*. [16]) [dauða sinn vísan ok öllum 12 jafningjum *B*, *b*. [17]) skulu *b*. [18]) [verðr *B*, *b*. [19]) koma *B*, *b*. [20]) [Turgilser nefndr, en kallaðr Kurkulus af Turtulasa *B*; er nefndr Kurkulus af Turkulosa *b*. [21]) [gékk fram fyrir M. konung ok mælti *B*, *b*. [22]) Róm *B*, *b*. [23]) [hafa ok af bera Karlamagnúsi *B*, *b*. [24]) *saal. B*, *b*; R. *a*. [25]) [*saal. B*, *b*; hans, *a*. [26]) [man þá sjá mega, hvárr undan öðrum gengr *B*, *b*. [27]) berjast *B*, *b*. [28]) mikinn harm *B*. [29]) Eskarmeth *B*; Eskremet *b*.

er Valterne[1] heitir, ríkr maðr er sá ok heiðinn sem hundr. Sá mælti við Marsilium konung: [Til Runzivals skal ek fara ok steypa niðr ofdrambi[2] Rollants ok Olivers ok þeirra 12 jafningja, því at þeir eru [dœmdir til dauða, er í móti oss standa, ok hefir Karlamagnús konungr þar fengit mikinn brest eptir góðan dreng.[3]

20. [Nú er at segja frá heiðingja þeim er Estorgant heitir. en annarr lagsmaðr hans hét Estormariz, þeir eru hinir verstu menn, svikarar ok undirhyggjumenn.[4] Marsilius konungr mælti við þá: Gangit fram góðir höfðingjar, segir hann, [til Runzivals at mínu boði ok hjálpit við váru liði. Þeir svara báðir senn sem eins munni: Vit skulum at vísu fara eptir yðrum vilja[5] á móti Rollant ok Oliver ok öllum þeim 12 jafningjum. Sverð vár[6] eru [glöð ok blá[7] ok vel bítandi, en vér[8] skulum [lita sverð var[9] í blóði Frankismanna. Þeir skulu deyja,[10] en Karlamagnús konungr [mun úgleðjast,[11] ok land várt, þat er helgat er skurgoðum várum, þat skulum vér sœkja til handa oss.[12] Far þú [konungr, hafa skaltu þat örugt, ok[13] keisarann sjálfan yfirkominn skulum vér fœra þér.[14] Þá [kom rennandi fram sá höfðingi er Margare hét frá Sibiliborg, hann rœðr fyrir því landi er Katamaria heitir. En engi heiðinn maðr er jafngóðr riddari sem hann né fríðari, engi kona sér hann, sú at eigi fýsi til hans, hvárt sem henni er gott í skapi eðr ilt, þá lystir hana at hlæja. En í þeim mikla her þá œpti hann fram um þá alla:[15] [Óttast ekki herra.[16] Ek skal fara [til Runzivals[16] at drepa Rollant ok [Oliver ok[16] alla þá 12 jafningja. Sé hér sverð mitt, er [Amiral höfuðkonungr gaf mér,[17] þat skal rauðlitat verða í blóði Frankismanna.

[1]) Valterna *B*; Malterna *b*. [2]) [*saal. B*, *b*; Ek skal steypa niðr obdramb(!) *a*. [3]) [allir dœmdir til dauða, ok fær Karlamagnús þá mikinn brest eptir góða drengi. *B*, *b*. [4]) [Tveir höfðingjar váru þeir með Marsilio konungi, er annarr hét Estorgant en annarr Estormaris, eigi váru til verri menn í liði konungs en þeir, fullir af undirhyggju ok svikum *B*, *b*. [5]) [*tilf. B*, *b*. [6]) okkur *B*, *b*. [7]) [góð *B*, *b*. [8]) vit (mit *B*) *b*. [9]) [rjóða þau *B*, *b*. [10]) með skömm (svívirðing *b*) *B*, *b*. [11]) [þeirra man fá úgleði *B*, *b*. [12]) þér *B*; yðr *b*; *a tilf. her*: þeir svöruðu. [13]) [frjáls, herra, örugt hefir þú traust af oss, en *B*, *b*. [14]) ok með þessu endaðu þeir sína rœðu *tilf. B*, *b*. [15]) [kemr höfðingi einn sá er Margariz hét fyrir Marsilium konung, hann var af þeirri borg er Sibilia (Sibil *b*) er nefnd, en hann réð fyrir landi því er kallast Katamaria. Engi maðr var honum betri (Engi var honum betri riddari *b*) á öllu Spanialandi, hann var allra manna vænastr ok listuligastr, ok þat til marks um vænleik hans, at allar ríkar (ríkis *b*) konur unnu honum sakir fríðleika hans ok kurteisi, ok engi kona sá hann svá, at eigi fýsti (til hans, ok hvárt sem hon vildi eðr eigi, þá fýsti hana þó *tilf. B*) at liggja hjá honum. Sjá maðr œpti hárri röddu ok mælti við Marsilium konung á þessa lund *B*, *b*. [16]) [*tilf. B*, *b*. [17]) [mér gaf Ammiral konungr á því landi er Danubius heitir *B*, *b*.

svá at Karlamagnús [hinn gamli ok hinn skegghvíti man[1] aldri síðan orrostu halda í móti oss.[2] En áðr en 12 mánaðir líði héðan í frá þessu skulum vér sofna[3] í kastala þeim, er hinn helgi Dionisius hvílir í á Frakklandi. [En konungrinn laut honum ok þakkaði honum orð sín.[4] Gernublus hét einn ágætr maðr or borg þeirri er Valniger[5] heitir, hann má meiri byrði bera[6] en 7 úlfaldar,[7] þá er þeir eru klyfjaðir. Á því landi [er hann er fæddr[8] má eigi sól skína né korn vaxa eða regn ofan koma né blóm springa. Engir eru þar steinar [ok ekki nema svartir, djöflar eru þar margir.[9] Hann mælti við konung:[10] Ek skal fara til [móts við Rollant ok eignast Dýrumdala með[11] sverði mínu. Nú eru hér taldir 12 jafningjar[12] heiðinna manna í móti 12 jafningjum kristinna manna. Alt þat lið er þar var herklæddi sik með allskonar vápnum, ok þeystu úvígan her út af [Spanie á hendr Rollant ok hans liði.[13]

21. Nú [verðr at rœða um þá er fyrir eru staddir. Oliver stóð[14] á hæð einni ok [leit á hœgri hlið sér ok sá ofrfjölda[15] heiðinna manna, ok mælti[16] við Rollant lagsmann sinn: Ek sé, Rollant lagsmaðr, marga drengi fara frá[17] Spanialandi með blám brynjum ok hvítum[18] skjöldum (ok) rauðum[19] merkjum, [ok er þat[20] eptir því sem Guinelun jarl hefir fyriræetlat.[21] En Rollant stöðvaði hann ok lézt eigi vilja heyra slík orð.[22] Ok enn mælti Oliver: Heiðnir menn hafa mikinn styrk, en vér höfum [lítinn her[23] í móti þeim. Nú blás þú horni þínu, ok mun Karlamagnús konungr heyra ok snúa aptr [her sínum.[24] Þá svarar Rollant: Þá gerða ek sem fól, ef Frakkland hit góða [skyldi týna[25] lofi sínu fyrir mínar sakir. heldr skal ek veita stór högg með Dýrumdala sverði mínu ok gera blóðugt alt frá oddinum ok[26] til hjaltanna, ok skulu heiðingjar falla með skömm ok mikla úsœmd, því at þeir eru allir dœmdir til dauða. Ok enn mælti Oliver:[27] Lagsmaðr,[28] blás horni þínu [, er Olivant

[1]) [*saal. B, b*; konungr skal deyja af ok *a*. [2]) þér *B, b*. [3]) sofa *B, b*. [4]) [Ok lauk hann svá sinni rœðu, en Marsilius konungr þakkaði honum fagrliga sín orð. Þá stóð upp sá maðr er *B, b*. [5]) Valterne *b*. [6]) einn *tilf. B, b*. [7]) múlar *B, b*. [8]) [*tilf. B, b*. [9]) [nema svartir, fult or þar af úhreinum öndum *B, b*. [10]) Heyrðu mik herra *tilf. B, b*. [11]) [Runzivals ok eignast sverð Rollants Dýrumdala, en drepa sjálfan hann með þessu *B, b*. [12]) höfðingjar *B. b*. [13]) [Spanialandi til Runzivals, ok fari þeir nú leiðar sinnar (látum þá nú fara leið sína, en tölum nökkut um Rollant ok hans kompána *b*) *B, b*. [14]) [skal víkja rœðunni til Rollants ok hans kumpána. Þat er sagt, at þeir Oliver væri staddir *B*; þat er sagt, at Rollant ok Oliver váru staddir *b*. [15]) [sá á hœgri hönd sér (sá at sér *b*) fara úflýjanda her *B, b*. [16]) Oliver *tilf. b*; hann *B*. [17]) af *B, b*. [18]) rauðum *B, b*. [19]) hvítum *B, b*. [20]) [*tilf. B, b*. [21]) ráð fyrir gert *B, b*. [22]) optar *tilf. B, b*. [23]) [lið lítit *B, b*. [24]) [liði sínu *B, b*. [25]) [týndi *B, b*. [26]) *mgl. B. b*. [27]) í annat sinn *tilf. B*. [28]) félagi *B, b*.

heitir,[1] ok mun Karlamagnús konungr snúa aptr her sínum [ok veita oss lið.[2] Rollant svarar: Aldri skal [frændi minn[3] vera ámæltr fyrir mínar sakir, né engi maðr annarr á Frakklandi, heldr skal ek veita stór högg ok þiggja, fyrir því at [þeir eru allir til dauða dœmdir.[4] Enn mælti Oliver í þriðja sinni: Rollant blás horni þínu, ok mun Karlamagnús konungr snúa aptr her sínum ok [mœta oss á úkunnu landi.[5] En Rollant svarar: Vili eigi guð þat [né sancta Maria móðir hans,[6] at ek skula svá hræddr vera fyrir heiðnum mönnum, at Frakkland [skuli týna[7] lofi sínu fyrir [yðrum sökum.[8] Þá svarar Oliver: Eigi er þat ámælis vert, at maðr ætli [sér hóf ok[9] liði[10] sínu, því at ek sé svá [mikinn fjölda[11] heiðinna manna, at [fjöll öll ok dalir eru þökt, ok allir dalir fullir.[12] Af því vilda ek at þú blésir horni þínu oss til liðveizlu at[13] Karlamagnúsi konungi. [14]Rollant er hraustr, en Oliver er vitr, báðir eru þeir œrit[15] góðir riddarar, ok eigi fyrir dauða sakir vilja þeir flýja orrostu.[16]

22. [Nú rœðast þessir 2 jarlar[17] við.[18] Sér þú, Rollant, segir Oliver, at herr þessi er oss nær kominn, ok máttu nú sjá[19] úgleði á liði váru fyrir sakir ofrfjölda[20] er í móti er. [Rollant svarar hermiliga ok mælti:[21] Heill svá, Oliver, [mæltu eigi slíkt, ilt verði rögu hjarta í drengmanns brjósti.[22] Nú sá Rollant at bardagi mundi verða mikill, ok kallaði [á sína menn af Frakklandi:[23] Góðir vinir, segir hann, Karlamagnús konungr hefir sett oss hér til[24] lands at gæta ok kaus[25] af enu bezta liði sínu, en [maðr skal[26] mikil vandræði þola fyrir [sakir dróttins síns[27] bæði heitt ok kalt, ef vel skal vera, ok týna [bæði af holdi sínu[28] ok blóði. Nú [stingi þér með spjótum yðrum, en ek mun höggva með Dýrumdala sverði mínu, svá at þat skulu allir Frankismenn vita, at ágætr drengr átti þat. Nú er á annan veg Turpin erkibyskup á hesti sínum ok mælti við Frankismenn: Karlamagnús konungr setti yðr hér til lands at gæta með Rollant, ok eigut þér at þola vel dauða fyrir sakir dróttins yðvars bæði (ok) at halda helga kristni. Orrostu skulut þér nú halda,

[1]) [Olivant *B*, *b*. [2]) [higat *b*; *mgl. B*. [3]) [Karlamagnús konungr *B*, *b*. [4]) [ek veit, at heiðnir menn eru dœmdir til dráps *B*, *b*. [5]) [veita oss lið *B*, *b*. [6]) [ok heilög Maria *B*, *b*. [7]) [týni *B*, *b*. [8]) [mik *B*; mínar sakir *b*. [9]) [*saal. B*, *b*; fyrir *a*. [10]) lífi *b*. [11]) [mart (mikit *b*) ofrefli *B*, *b*. [12]) [allir dalir ok öll fjöll eru þökt (ok fullir *mgl. b*) af úvígum her *B*, *b*. [13]) af *B*, *b*. [14]) Nú er svá rétt at mæla, at *tilf. B*; Nú má þat sannliga segja, at *tilf. b*. [15]) hölzti *B*; helzt til *b*. [16]) or orrostu, þó at liðs munr sé mikill *B*, *b*. [17]) félagar *B*. [18]) [*mgl. b*. [19]) mikla *tilf. B*, *b*. [20]) liðsfjölda þess *B*, *b*. [21]) [*tilf. B*, *b*. [22]) [mæl ekki slíkt, hraustr drengr *B*, *b*. [23]) [á sína lagsmenn Frankismenn alla *B*; saman alla Frankismenn *b*. [24]) eptir *b*; *mgl. B*. [25]) oss *tilf. B*, *b*. [26]) [vér munum *B*, *b*. [27]) [guðs sakir *B*; guðs nafni *b*. [28]) [sínu bæði holdi *B*; holdi váru *b*.

fyrir því at þér sjáit mikinn her heiðinna manna fyrir augum yðrum. Nú fallit á kné ok heitit fagrliga á guð, en ek skal hjálpa sálum yðrum, ef þér fallit, at þér skulut vera helgir martiris, ok þér skulut eignast nafn í hinni góðu paradísu. En Frankismenn stigu af hestum sínum ok lögðust til jarðar. En erkibyskup hóf upp hönd sína ok signdi þá ok bauð þeim í réttri skript at þeir skyldu berjast. Nú stóðu upp Frankismenn ok fœrðust á fœtr ok vápnuðust með góðum herklæðum ok váru búnir til bardaga.[1] Nú [rœðir Oliver við Rollant:[2] **Sýnt er nú, segir hann, at Guinelun jarl hefir nú selt oss** með[3] verði [í[4] gulli ok silfri ok góðum gripum.[5] Nú ætti Karlamagnús konungr þess vel at hefna, ef vér megum eigi.[6] [Til borgarhliðs af[7] Spanie er kominn[8] Rollant á [hesti sínum Velantif brynjuðum, með vápnum þeim er honum samir vel at bera,[9] ok mælir hermiliga við alla heiðna menn, en blíðliga ok hœgliga við [sína menn: Vér skulum[10] fram ganga, fyrir því at þessir menn sœkja **bana sinn, er [á oss vilja leita.[11] Blásit í horn yður ok hveti[12]** hverr yðvarr annan til framgöngu. Svá mælir Oliver hit sama, ok við þessi orð gleðjast mjök Frankismenn, ok ríðr hverr sem [mest **má[13] til bardaga.**

23. [Systurson Marsili konungs hins heiðna, sá er kallaðr er af þeim Altoter at nafni, hann ríðr nú fram fyrstr[14] ok mælti illum orðum við Frankismenn: Hví erut þér svá djarfir,[15] at þér þorit at

[1]) [gangit fram sem djarfligast, leggit með spjótum ok höggvit með sverðum, svá at þat tali dúgandi menn, at ágætis (ágætir *b*) drengir áttu þau sverð. Nú þó (at) vér fallim fyrir várs herra náð (ok því *tilf.* ***B***) skolum vér þola vel dauða várn at vér verndum heilaga kristni. Nú sjáit þér her heiðinna manna fyrir augum yðr (nær oss kominn *b*) ok munu vér skjótt eiga orrostu (bardaga við þá *b*), ok föllum nú (því skulum vér falla *b*) á kné ok berjum (berja *b*) á brjóst oss ok biðjum (biðja svá *b*) miskunnar almátkan guð. En ek heit yðr, at guð man frjálsa yðrar sálu(r) (sálir *b*) ok laða til sinnar dyrðar, þá er yðr liggr mest við. En er Rollant lauk rœðu sinni, stigu Frankismenn niðr af hestum sínum fallandi á kné, biðjandi guð lítilátliga miskunnar. Síðan risu þeir upp ok klæddust góðum herklæðum, ok eru nú búnir til bardaga, fylktu þeir síðan liði sínu ok settu upp merki sín fyrir hverju hundraðs liði, ok hvatti (eggjaði *b*) hverr annan til framgöngu ***B***, ***b***. [2]) [mælti Rollant við Oliver ***B***, ***b***. [3]) við ***B***, ***b***. [4]) miklu ***B***. [5]) [ok tekit í móti mikit gull ok silfr ok góð klæði ***b***. [6]) sjálfir *tilf.* ***B***, ***b***. [7]) á ***B***. [8]) [Sat ***b***. [9]) [vel brynjaðum vápnhesti, var hann ok sjálfr svá vel vápnaðr sem honum heyrði ***B***, ***b***. [10]) [Frankismenn: Góðir félagar, segir hann, vér skulum djarfliga ***B***, ***b***. [11]) [á hendr oss vilja ***B***; við oss vilja stríða ***b***. [12]) hreysti ***B***; treysti ***b***. [13]) [ákafast ***B***, ***b***. [14]) [Heiðingjar grimmast nú harðla mjök upp á kristna menn ok ríða fram geysi snart. Var þar fyrstr Adalroth, systurson Marsilii konungs ***B***, ***b***. [15]) vándir þorparar *tilf.* ***B***, ***b***.

berjast við oss? Fífl[1] var Karlamagnús konungr, fyrir því at hann setti yðr hér eptir,[2] fyrir yðrar sakir skal Frakkland týna lofi sínu. En Rollant reiddist mjök við illyrði hans ok reið í móti honum ákafliga ok hjó til hans með sverði sínu ok klauf í sundr skjöld hans ok brynju[3] [ok festi blóðrefil sinn[4] í brjósti honum ok [steypti honum dauðum af hesti sínum, ok mælti við hann síðan: Illr heiðingi, segir hann, fórtu allan dag hœtandi, en eigi er Karlamagnús konungr fífl, ok eigi skal Frakkland týna lofi sínu fyrir várar sakir. Sœkit fram frœknliga, Frankismenn, því at vér eigum höggit. Hertugi einn heiðinna manna er Falsaron hét, hann var bróðir Marsili konungs hins heiðna,[5] hann réð fyrir því landi er þeir áttu Datan ok Abiron, [þeir váru svá illir,[6] at jörð opnaðist undir þeim [ok svalg þá báða,[7] ok fóru þeir[8] til helvítis. [Falsaron var maðr illr kosti, þvers fótar var í milli augna honum[9], hann úgladdist mjök við þat er hann sá fall[10] systursonar síns. Síðan reið hann fram or fylkingu [ok lagði líkam sinn í ábyrgð,[11] en Oliver jarl reið harðliga á móti honum ok hjó til hans með sverði sínu ok feldi hann til jarðar, [svá at aldri síðan sá hann sól,[12] ok mælti við hann síðan: Illr heiðingi, segir hann, lítils váru verð hót þín. [13]Sœkit fram Frankismenn, vér skulum hafa [hinn hærra hlut.[14] En þeir blésu í lúðra sína ok glöddust við orð þau. Einn heiðinn konungr hét [Kossables, hann réð fyrir því landi er Barbare heitir,[15] hann ríðr fram ok mælir við heiðna menn: Sigrast munum vér í orrostu þessi, því at [hér (er) fátt kristinna manna. Turpin erkibyskup heyrði orð hans, ok reið hann í móti honum ok lagði til hans með spjóti sínu, reif í sundr brynju hans ok bar hann spjótskapts lengd dauðan af hesti sínum, ok mælti við hann síðan: Ekki stoðar þér ofryrði, því at Frankismenn hafa drepit þik, ok svá munu þeir alt lið yðvart.[16]

¹) Œrr *B*, *b*. ²) *tilf B*, *b*. ³) slitnaði fyrir því höggi brynja hans *B*. ⁴) [en blóðrefilinn festi *B*, *b*. ⁵) [steyptist hann af hesti sínum dauðr á jörð. Rollant mælti: Eigi týnir Frakkland enn lofi sínu fyrir várar sakir, (illi heiðingi, segir hann *tilf. B*). Rollant eggjar sína menn: Fram röskliga, Frankismenn, segir hann, vér eigum hit fyrsta högg. Þá reið fram Falsaron bróðir Marsilii konungs *B*, *b*. ⁶) [er svá váru illir *B*, *b*. ⁷) [*tilf. B*, *b*. ⁸) svá kvikir *tilf. b*. ⁹) [Sjá maðr var mikill vexti en illr kosti, hann var þvers fótar milli augna *B*, *b*. ¹⁰) Adalroths *tilf. B*, *b*. ¹¹) [ok lagði sjálfan sik í veð *B*; *mgl. b*. ¹²) [*tilf. B*, *b*. ¹³) Síðan eggjar hann herinn ok mælti *tilf. B*, *b*. ¹⁴) [betra lut or orrostu þessi *B*, *b*. ¹⁵) [Kossablin *B*, *b*. ¹⁶) [ek sér fyrir úfarar kristinna manna. Rollant reiddist við orð hans ok reið (rendi *b*) í mót honum ok lagði spjóti sínu í gegnum hann, ok féll hann dauðr á jörð, ekki hjálpaði honum (hjálpaðu honum þá lítt *b*) stóryrði hans síðan (Rollant jarl drap hann *tilf. B*) *B*, *b*.

Nú eru fallnir 3 ⌊höfðingjar enir mestu af liði heiðinna manna, er kurust í móti Rollant ok þeim[1] 12 jafningjum.

24. Nú ríðr fram ⌊Geris hinn frakkneski at höfðingja einum, ok klýfr hann í sundr skjöld hans, ok særði hann til bana sjálfan ok steypti honum dauðum til jarðar, en fjándi tók sál hans sá er heitir Satanas. Nú[2] ríðr fram Gerir[3] af Frankismanna liði í móti frjálslendingi einum heiðinna manna, ok hjó til hans með sverði sínu ok feldi hann dauðan af baki[4] ok kallaði síðan hátt á liðsmenn sína: Sœkit fram frœknliga ok blásit í lúðra yðra, því at vér munum sigrast í bardaga þessum. Samson hertugi reið fram í móti ⌊heiðingja einum[5] ok hjó til hans ⌊ok klauf í sundr skjöld hans ok feldi hann dauðan af hesti sínum. Þá mælti Turpin erkibyskup: Slíkt er drengmanns högg.[6] ⌊Nú ríðr fram Angsis[7] af Frankismanna liði, en at móti ⌊Turgis af Turtuloso,[8] ok hófu í milli sín hart vápnaskipti, ok fór svá viðrskipti þeirra,[9] at ⌊Turgis hafði hinn lægra hlut.[10] Ok því næst reið fram Engiler ⌊af Frankismanna liði, en á móti reið Eskrement af Valternalandi,[11] ok hjó hvárr þeirra til annars, ok ⌊hafði heiðingi hinn lægra hlut í þeirra viðrskipti.[12] Síðan reið fram ⌊Valteri í móti Estorgant[13] heiðingja einum ok hjó til hans ok[14] í sundr brynju hans, ok feldi hann dauðan af hesti sínum ok mælti við hann síðan: Eigi fær þú þann lækni ⌊af Spanie[15] er þik grœði. Bæringr reið fram ok á móti honum Estormant,[16] ok feldi Bæringr hann dauðan af hesti sínum í millum margra þúsunda heiðinna manna. Nú eru fallnir 10 ⌊jarlar af heiðnum mönnum,[17] en 2 lifa eptir, þat er Gernublus ok jarlinn Margariz; ⌊hann var afburðar góðr riddari,

[1]) ⌊kappar af þeim 12 sem ætlaðir váru móti *B*, *b*. [2]) ⌊hinn ríki Gerin af Frankismönnum móti einum heiðingja, sá hét Donreg (Amreg *b*), hann hjó í sundr skjöld ok reif brynju hans, en drap sjálfan hann, (ok því féll hann dauðr til jarðar *tilf. B*). Þar næst *B*, *b*. [3]) Geres jarl *B*, *b*. [4]) hesti sínum á jörð *B*, *b*. [5]) ⌊einum hertuga höfðingja(!) *B*. [6]) ⌊meðr sverði sínu ok feldi hann af hesti sínum, ok dugði honum eigi gullsm(e)ittr (gullbúinn *b*) hjálmr né gullagðr (gullroðinn *b*) skjöldr (ok því festi blóðrefilinn í brjósti, svá at var dauðr *tilf. B*) *B*, *b*. [7]) *saal. rettet;* Engiler *a*; Auxiel (Auxies *b*) hinn ágjarni *B*, *b*, [8]) ⌊Turgils af Turtulosa *B*; Kurkulus af Turkusiola *b*. [9]) sem skyldi *tilf. B*. [10]) ⌊heiðingi fékk bana *b*. [11]) ⌊jarl af Bordal, en í móti honum af heiðingja liði reið Eskremet *B*, *b*. [12]) ⌊særast mjök, en þó lendir svá máli, at Eskremet bar lægra lut or þeirra viðskipti *B*; særast mjök, en þó at síðarstu varð Eskremet dauðr at hníga af sínum hesti *b*. [13]) ⌊*saal. rettet;* Estorgant í móti *a*. [14]) ⌊af Frankismönnum Hatun sterki, ok honum móti Estorgant af heiðingja liði, ok höggr Hatun til hins heiðna með sverði sínu ok klauf í sundr skjöld hans ok reif *B*, *b*. [15]) ⌊á öllu Spania *B*; á Spanialandi *b*. [16]) Estormaris *B*, *b*. [17]) ⌊höfðingjar af þeim 12 er nefndir váru *B*, *b*.

bæði vænn ok sterkr, fimr ok léttlátr.[1] Hann[2] ríðr fram í móti Oliver ok lagði spjóti í gegnum skjöld hans ok brynju, ok barg þá guð er eigi tók brjóst hans, því at þá brast spjótskapt Margariz, ok kom hann þó[3] Oliver eigi af hesti sínum.

25. Nú er [orrosta hörð ok áköf.[4] Rollant jarl ferr sem león, veitir stór högg ok þiggr[5] ok hefir í hendi sér sverð sitt Dýrumdala, ok [hjó til Gernublus jarls ok í sundr[6] hjálm hans gullroðinn ok allan settan gimsteinum, höfuð hans ok búk, svá at í söðli nam staðar, ok mælti [við hann: Slík högg[7] vinna yðr seint sigr. Rollant ferr nú í [miðjum herinum[8] ríðandi ok kastar heiðnum mönnum dauðum hverjum ofan á annan, ok hefir blóðgar hendr alt upp til axlar.[9] En Oliver seinkar[10] eigi at fylgja honum, ok engi þeirra 12 jafningja (er) ámælis verðr. [Þá mælti Turpin erkibyskup: Guð hjálpi váru liði, segir hann, lítit er þat í svá miklum her.[11] Oliver [reið fram ok laust til heiðingja eins, þess er hét Massaron, í höfuð honum með staf, þeim er eptir var af spjótskapti hans, svá[12] at bæði augu flugu or höfði honum, ok svá heilinn út um þunnvangann.[13] Þá mælti Rollant við Oliver: Hvat gerir þú lagsmaðr,[14] segir hann, járn ok stál skal maðr hafa í orrostum en eigi berjast með stöfum.[15] Drag sverð þitt or slíðrum [er Hatukleif heitir ok berst með því.[16] Oliver svarar: Eigi gaf ek mér tóm til at bregða sverðinu, svá var mér títt[17] til at ljósta hann.[18] Ok síðan brá hann[19] sverðinu ok hjó til heiðingja þess er Justin[20] hét, ok klauf hann í sundr[21] hjálm hans höfuð ok búk, alt til þess er í söðli nam staðar.[22] Þá mælti Rollant: [Slík högg vinna yðr lítinn sigr, ok[23] fyrir sakir slíkra höggva [munum fá[24] metnað af Karlamagnúsi konungi. Ok blésu [þeir síðan[25] í lúðra sína ok glöddu svá lið sitt. Jarlinn Gerin[26] ok lagsmaðr hans Geris sátu á hestum sínum ok hjuggu báðir til heiðingja eins er hét Timund,[27] annarr hjó [skjöld hans en annarr í[28] brynju, ok fálu sverð sín í brjósti honum, ok

[1]) *saal. rettet;* réttlátr *a*; lítilátr *B*; [*mgl. b.* [2]) Ok er Margariz sér þat at þeirra menn falla hverr eptir annan (sér fall sinna mann *b*), þá verðr hann harðla reiðr ok *B*, *b.* [3]) *mgl. B*, *b.* [4]) [þeirra (þessi *b*) orrosta bæði hörð ok löng (ok ströng *tilf. B*), ok falla þeir fyrstir er fremstir stóðu *B*, *b.* [5]) bæði *tilf. B.* [6]) [ríðr í móti Gernublo, ok er þeir finnast, þá höggr Rollant til hans ok klauf *B*, *b.* [7]) [síðan við þá heiðingjana: Slíkir *B*, *b.* [8]) [miðjan herinn *B.* [9]) axla *b.* [10]) seinaði *B*; frestaði *b.* [11]) [*mgl. B*, *b.* [12]) [hefir nú í hendi spjótskaptsbrot ok laust til heiðingja eins með þeim stubba, svá hart *B*, *b.* [13]) vangann *B*, *b.* [14]) félagi *B*, *b.* [15]) stöngum *b*; stöfum eða stöngum *B.* [16]) [*tilf. B*, *b.* [17]) ant *B*, *b.* [18]) þenna fjánda *B*, *b.* [19]) Oliver *B*, *b.* [20]) Justinus *B*, *b.* [21]) skjöld hans, ok í öðru höggi *tilf. B*, *b.* [22]) undir honum *tilf. B*, *b.* [23]) [*mgl. B*, *b.* [24]) [höfum (fám *b*) mikinn *B*, *b.* [25]) [*tilf. B*, *b.* [26]) Bæringr *B*, *b.* [27]) Timodes *B*, *b.* [28]) [af honum skjöld, en annarr *B*, *b.*

feldu hann dauðan til jarðar [, en fjándr tóku sál hans. Turpin erkibyskup drap Sikoras, síðan tóku fjándr við honum ok fóru (með) hann til helvítis. Þá mælti erkibyskup: Sjá maðr hefir misgert við oss, ok er honum þat makliga goldit.[1] Nú er orrosta hörð ok áköf, ok ýmsir [höggva ok ýmsir verja,[2] svá ok ávalt eru þeir framast[3] Rollant ok Oliver ok Turpin erkibyskup, ok [allir 12 jafningjar er fylgdu þeim, svá engum þarf at ámæla.[4]

26. [Nú eru miklar jarteignir ok mikill göfugleikr ok margr kynligleikr á Frakklandi, alt frá miðjum degi var svá myrkt sem um nótt, ok ekki má sól skína, ok flestir menn ætla sér bana. En þat er ritat í sögunni af hinum helga Dionisio, at þat væri alt fyrir sakir Rollants, er svá mörg góð verk vann ok svá góðr riddari var, at engi maðr kom honum or söðli sínum. Jarlinn Rollant var svá góðr riddari, at hans er hvervetna getit, ok Oliver ok allra 12 jafningja.[5] Heiðnir menn eru nú svá margir dauðir, at af 100 þúsunda komst eigi undan nema einn, þat var Margariz, eigi var hann ámælis verðr, því at hann hefir miklar jarteignir á sér [sjálfr, til Spanialands hefir hann snúizt ok sagt Marsilio konungi þau tíðendi er váru. Jarlinn einn Margariz er undan kominn,[6] spjótskapt hans er brotit ok brynja í sundr rifin, skjöldr brotinn en hjálmr klofinn, ok 4 sverðum var hann í gegnum lagðr. Góðr drengr væri hann, ef hann væri kristinn.[7]

1) [*mgl. B, b.* 2) [*saal. B, b*; falla er fylgdu þeim *a.* 3) framastir *b.* 4) [12 jafningjar allir eru með þessum í fylgd; svá berjast þeir röskliga, at engi þarf öðrum at ámæla, ok at engu æþrast þeir bibi(!) dauða R. *B*; 12 jafningjar, allir Frankismenn berjast djarfliga, svá at engi má þeim með réttu ámæla, ok engan lut óttast þeir, meðan Rollant er á lífi *b.* 5) [Svá er sagt, at í þeim tíma er Rollant jarl barðist með sínum félögum, þat er at skilja 12 jafningjum ok öðrum liðsmönnum í Runzival, bar þat til á Frakklandi, at eigi gerði minna myrkr (at svá gerði myrkt *b*) um miðjan dag en (sem *b*) um nótt, ok hélzt þat til kvelds, ok eigi gerði sól skína, ok flestir ætluðu sér bana sakir þeirra undra er yfir váru komin, ok svá segist at þat var vitrat af hinum blezaða Dionisio, at þessi undr urðu fyrir framför Rollants ok hans kumpána, er féllu með honum, því at Rollant var svá góðr riddari ok ágætr fyrir mörg hœversku (gœzku *b*) verk, er guð vann fyrir hans hendr, at engi guðs kempa hefir þvílík (kappi hefir þvílíkr *b*) verit til hreysti ok hugar með sverð ok skjöld sem hann, því at engi jarðneskr (jarðligr *b*) maðr kunni svá brandi beita ok í söðli sitja, ok því man hans getit, meðan heimrinn stendr, ok eigi síðr Olivers hans kæra félaga ok allra 12 jafningja *B, b.* 6) sem áðr var getit *tilf. B.* 7) [spjótskapt hans var brotit ok skjöldr hans klofinn, brostinn hjálmr hans en brynja slitin, ok fjórum sverðum var hann í gegnum lagðr, góðr riddari ef kristinn væri. Hann kemr svá búinn fyrir Marsilium konung, ok segir honum þau tíðendi, sem fram höfðu farit í millum kristinna manna ok heiðingja *b.*

27. Nú [er upphaf annarrar orrostu. Marsilíus konungr hefir 10 fylki með sér, en önnur[1] 10 sendir hann til bardaga [í annat sinn.[2] Nú sjá Frankismenn þetta lið. ok mælir þá [Turpin erkibyskup við þá: Góðir riddarar,[3] gangit fram djarfliga, þér skulut bera kórónu í paradísu. Frankismenn svöruðu: Hér skulum vér í sama stað dauða þola heldr en hit góða Frakkland skuli týna lofi[4] sínu. Nú finnast þeir í annat sinn heiðingjar ok kristnir menn. Einn höfðingi[5] sá er kallaðr er Klibanus hann hefir þat mælt, at hann skal fyrir engum manni flýja, hvárki fyrir heiðnum né kristnum. Hann bazt[6] í handsölum við Guinelun jarl, at [þeir skyldu[7] svíkja Rollant ok Oliver ok þá 12 jafningja ok taka kórónu af höfði Karlamagnúsi konungi. Klibanus sitr á hesti sínum, er [hann kallar Amus, hann er fimari en svala, þá er hon flýgr sem skjótast. Hann lagði spjóti til Engiler ok lagði í brjóst honum, ok bar hann dauðan af hesti sínum svá langt sem spjótskapt hans vannst til.[8] Frankismenn mæltu: [Mikill skaði er þar[9] eptir góðan dreng. Þá mælti Rollant við Oliver: [Sér þú, fóstbróðir,[10] fall Engilers jarls, vér höfum engan betra dreng eptir með oss.[11] Oliver svarar: Guð láti mik hefna hans á þeim hinum illa heiðingja. Hann [reið fram[12] ok hafði í hendi sér Hatakle[13] sverð sitt alblóðugt, ok hjó hann til [Klibanus, ok hjó hann sundr í miðju[14] ok hest hans. ok snerist síðan á annan veg ok hjó höfuð af hertuga þeim er Alfien[15] hét. Þá mælti Rollant við hann: Reiðr ertu nú, lagsmaðr, segir hann, fyrir sakir slíkra höggva virðir Karlamagnús konungr oss mikils. Síðan mælti hann við sína menn: Blásit í lúðra yðra ok sœkit fram djarfliga.

28. [Á annan veg var heiðingi einn, sá er kallaðr var Valdebros, hann var vanr at standa upp í móti Marsilio konungi ok binda gullspora[16] á fœtr honum, hann er höfðingi yfir 400 drómunda.

1) [skal svá segja frá Marsilio konungi, at hann (sem Marsilius konungr hefir heyrt þessi tíðendi, verðr hann mjök úglaðr, en ferr þó til ok *b*) skiptir herliði sínu í tvá staði, ok hefir hann sjálfr 10 fylkingar, en aðrar *B*, *b*. 2) [móti Rollant *b*; *mgl. B*. 3) [Rollant: Góðir riddarar, segir hann, hafit örugt hjarta (með yðr *tilf. B*) ok *B*, *b*. 4) *saal. B*, *b*; lífi *a*. 5) Saragiz af landi því er Saraguz heitir *B*; höfðingi í liði heiðinna manna *b*. 6) hafði bundizt *b*. 7) [*mgl. B*, *b*. 8) [kallaðr var Amus (Amer hét *b*), hann var fimari með hestum en trana með fuglum, þá er hon flýgr sem hraðast (snarast *b*). Engiler jarl ríðr fram í móti honum, en Klibanus lagði spjóti í gegnum skjöld hans svá hart, at rifnaði brynja hans, ok því gékk spjótit í gegnum hann, ok féll hann dauðr til jarðar. *B*, *b*. 9) [Mikinn skaða biðu vér nú *B*, *b*. 10) [Sáttu, kumpánn *B*, *b*. 11) en hann var *tilf. B*, *b*. 12) [snerist á annan veg *B*, *b*. 13) Aakleif *B*; Hatukleif *b*. 14) [Klibanum, ok kom í höfuð honum ok klauf hann í tvá hluti *B*, *b*. 15) Alfiter *B*, *b*. 16) [Valdebrun er sá maðr nefndr, er mikinn skaða gerði á kristnum mönnum, hann gékk næst Marsilio konungi ok batt spora *B*, *b*.

Hann eignaðist [Jórsalaborg ok templum Salamonis með svikum[1] ok drap patriarkann inni fyrir altari. Hann [hafði bundizt[2] í handsölum við Guinelun jarl at svíkja Rollant ok Oliver ok alla 12 jafningja. Hann sitr nú á hesti sínum, þeim er heitir [Gradamunt, hann er fimari en valr. Hann leggr spjóti á Samson hertuga á Frakklandi ok bar hann spjótskapts lengd af hesti sínum ok kastar honum dauðum á jörð niðr. Frankismenn mæltu: Mikill skaði er þar eptir góðan dreng. Nú sá Rollant fall Samsons hertuga, ok keyrði hest sinn með sporum ok reið síðan harðliga fram ok hjó til hins heiðna Valdebruns ok klauf í sundr höfuð hans ok hestinn í miðju ok kastaði honum dauðum á jörð niðr. Þá mæltu heiðingjar: Þetta er furðu högg mikit. Rollant jarl svarar: Eigi er mér vel við yðr, fyrir því at vér höfum rétt at mæla, en þér rangt. Af Affrikalandi var einn ríkr konungr, son þess konungs er hét Malkus, klæði hans váru öll búin með gull ok lýsti af sem af sólu. Hann sitr á hesti sínum þeim er hét Salpdunt, ekki dýr er þat at renna mætti í köpp við hann. Hann hjó til Angsæis ok í sundr hans hjálm, ok særði hann banasári ok feldi hann til jarðar ok skildist við hann dauðan.[3]

29. [Nú sér Turpin erkibyskup fall hans, slíkr vígslumaðr söng aldri messur sem hann var. Hann mælti við hinn heiðna:[4] Guð almáttigr verði þér reiðr;[5] þann mann hefir þú hér feldan, er ek vil heldr dauða þola en hefna hans eigi. Ok hjó til [hins heiðna af mikilli reiði ok í sundr í tvá hluti, svá at í söðli nam staðar,[6] ok hratt honum dauðum af hesti sínum. Nú ríðr fram heiðingi einn sá er hét Grandonis,[7] hann var son konungs af Kappadocie, er Kapuel hét, hann sat á hesti sínum þeim er Marmore hét, hann var skjótari[8] en fugl fljúgandi. Hann reið fram ok lagði til Gerins af

1) [Jerusalem með svikum ok saurgaði mustári Salomonis *B*, *b*. 2) [bazt *B*; batt sik *b*. 3) [Gradamund (Gvadamund *b*), hann var jafnskjótr með hestum sem valr með fuglum, ok Valdibrun ríðr fram djarfliga ok leggr spjóti til Samsons hertoga svá snart, at hann kastaði honum dauðum á jörð (dauðum niðr á sandinn *b*) af hestinum. Nú sá Rollant fall hertogans, ok sneri skjótliga þar at sem Valdibrun sat á sínum flugskjóta hesti. Hann hjó þegar til hans ok klauf hans höfuð ok búk ok sundr hest hans í miðju, svá at sér féll hvárr hlutrinn. Af Affrika var einn heiðinn maðr, sá er Affrikanus hét, sonr konungs þess er Malkus hét, hann sat á hesti sínum, er kallaðr var Kapandr, hverju dýri skjótari, hans klæði váru búin við (með *b*) gull ok lýsti af þeim sem af sólu. Sjá ríðr fram hart ok höggr til Anxiel (Anxies *b*), ok klýfr í sundr skjöld hans ok særir hann banasári, ok skilst svá við hann dauðan. *B*, *b*. 4) [Þessu nær var staddr Valtari jarl, ok mælti hann á þessa lund: *B*, *b*. 5) heiðingi *tilf.* *B*, *b*. 6) [heiðingjans ok veitti honum banasár *B*, *b*. 7) Grandonies *B*, *b*. 8) á rás *tilf.* *b*.

miklu afli ok festi sverð sitt í brjósti honum ok feldi hann dauðan af hesti sínum. ok þegar í [sama stað[1] lagsmann hans Geris, ok hinn þriðja Bæring [jarl af Sanitun, ok hinn fjórða jarlinn er hét Ankore, hann réð fyrir borg þeirri er Valenta hét.[2] Nú glöddust mjök heiðnir menn ok blésu allir í lúðra sína. Rollant sat á hesti sínum ok hafði[3] sverð sitt Dýrumdala í hendi sér [blóðgan, ok mælti við hinn heiðna:[4] Guð hefni þér, ok ek skal hefna þér, ef ek má. Grandonis var góðr riddari, sterkr ok fimr ok fullhugi.[5] Nú kemr[6] Rollant í móti honum [með sverði sínu brugðnu, ok váru báðar eggjar blóðgar, en Grand(on)is sneri undan. En í því bili hjó Rollant eptir honum ok klauf höfuð hans,[7] svá at í tönnum nam staðar, ok annat högg hjó hann upp á öxlina, svá at allan [búnaðinn beit ok búk hans[8] niðr í gegnum ok hestinn brynjaðan sundr í miðju, svá at sér féll hvárr hlutrinn.[9] Nú úglöddust mjök heiðingjar. Frankismenn mæltu: Vel[10] höggr höfðingi várr. Nú er orrosta hörð ok áköf, ok falla [höfðingjar ok[11] heiðingjar hundruðum. Rollant reið í gegnum lið þeirra ok hjó á báðar hendr, svá at ekki mátti[12] við standa, ok mælti við þá síðan: Nú [skulum vér freista, hversu mikit fjándi á eða má í móti Pétri postula.[13] Sækit nú fram Frankismenn, ok veitit stór högg. Þar mátti nú sjá [skjöldu klofna, brynjur höggnar, branda blóðga ok[14] spjótsköpt brotin. Nú mæltu heiðingjar: Frankismenn eru harðir ok illir viðreignar, ok verðum vér nú undan at [leita ok flýja[15] heim til Spanialands at segja Marsilio konungi tíðendi. Nú féllu heiðingjar hverr at öðrum. Nú hefir Rollant ok Oliver ok þeir 12 jafningjar ok þeirra lið sigrazt[16] í 2 orrostum þeim er 10 fylki[17] heiðinna manna váru í hvárri.[18]

30. [Marsilius konungr[19] eflir nú til hinnar þriðju orrostu ok ríðr nú af Spania með mikinn her bæði spanskra ok blámanna. Nú koma saman kristnir menn ok heiðnir, ok hefr nú [Turpin erkibyskup[20] fyrstr orrostu þessa: Hann ríðr fram hesti þeim er [sendr

[1]) [öðru feldi hann *B*, *b*. [2]) [ok hinn fjórða jarlinn af Satiri, ok hinn fimta (fjórða *B*) jarlinn Anchora af borginni Valencia *B*, *b*. [3]) *tilf.* *B*, *b*. [4]) [alblóðugt. Hann mælti þá af miklum móði *B*, *b*. [5]) hugsnjallr *B*, *b*. [6]) snýr *B*, *b*. [7]) [ok höggr til hans með sverði sínu. Ok þá hugði Grandonies undan at leita (snúa *b*), en Rollant hjó eptir honum, ok kom höggit í höfuðit ok klofnaði haussinn *B*, *b*. [8]) [beit búkinn *B*, *b*. [9]) til jarðar, er betr var *tilf.* *B*, *b*. [10]) Stórt *B*, *b*. [11]) [*mgl.* *B*, *b*. [12]) nam *B*; má *b*. [13]) [skulu þér reyna, hvat er yðr má Maumet ok önnur skurgoð (skurðgoð *b*) móti guði ok mönnum hans (hans postulum *b*). Ok enn mælti hann: *B*, *b*. [14]) [*tilf.* *B*, *b*. [15]) [flýja at hinum bezta kosti ok *B*. [16]) sigr *B*; borit sigr *b*. [17]) fylkingar *B*, *b*. [18]) hvárritveggjum *B*. [19]) [Flóttamenn, þeir er flýðu or Runzival, kómu fyrir Marsilium konung ok sögðu honum sínar úfarar, hann *b*. [20]) [Valtari jarl *B*, *b*.

var (or)[1] Danmörk. hann er skjótari hverju dýri. [Hann reið at þeim manni er Ambles hét, ok hjó til hans ok klauf[2] í sundr skjöld hans gullsmeltan[3] ok gimsteinum settan ok í sundr búk hans [undir herðarblaðit ok út at öðru, ok hratt hann honum or söðlinum.[4] Nú mæltu Frankismenn: Hér er drengs högg mikit. [vel er sá staðr kominn er erkibyskup hefir. Ok blésu í lúðr sinn þann er Karlamagnús konungr átti, er kallaðr var Mundide,[5] ok eggjast síðan til framgöngu. Nú mælti Rollant við Oliver: [Afburðar góðr riddari er erkibyskup, hann berst vel með spjóti ok sverði, segir hann. vildi guð at margir væri slíkir: förum nú ok dugum honum. En í þeirri framgöngu falla mjök kristnir menn, svá at eigi var eptir af þeim meir en 7 hundruð[6] vígra manna. Þá mælir Marsilius konungr ok heitr á skurgoð sín Makon ok Maumet ok bað þá [duga sér:[7] Karlamagnús konungr við skegg hit hvíta ok hans menn hafa [mikit unnit á hendr[8] oss ok várum mönnum. En ef[9] Rollant fellr, þá eignumst vér lönd ok ríki, en ef þat er eigi, þá höfum vér týnt löndum ok ríki.[10] Allir heiðingjar [taka nú á nýja leik at berjast,[11] leggja með spjótum, höggva með sverðum, kljúfa hjálma, en höggva brynjur. [Þar mátti sjá marga góða drengi ok týna lífi sínu.[12] En Rollant sá úfarir sinna manna, ok reið þá[13] (í) miðjan her heiðinna manna, [ok hjó á báðar hendr sér ok drap í þeirri framreið 40 manna.[14] En Oliver snerist á annan veg ok [vann á heiðnum mönnum þat alt sem hann mátti.[15] Nú kallaði Rollant á Oliver: [Far hingat ok ver með mér,[16] því at nú er sá dagr kominn at okkr skortir liðveizlu Karlamagnús konungs. Þá mælti hann við Turpin erkibyskup: Þat hefir fundit verit á fornum bókum, at vér skulum falla undir veldi heiðinna manna. Þá mælti (Rollant við) Oliver: Nú með því at vér höfum eigi meira lið en hálft hundrað manna, þá látum heiðna menn at keyptu komast áðr en þeir nái

1) [honum var sendr or *B*, *b*. 2) [Jarl höggr til heiðingja eins, þess er Abison hét, hann hjó *B*, *b*. 3) gullsmeittan *B*, *b*. 4) [ok skildist við hann dauðan *B*, *b*. 5) [vildu guð, at slíkir væri margir. Ok blésu fast í lúðra sína *B*, *b*. 6) [Röskr riddari er Valtari, svá at varla fæðist fimari maðr með spjót (skjöld *b*) ok sverð, ok dugum honum drengiliga. Ok svá gera þeir. En þó falla nú (þá falla *b*) mjök Frankismenn, svá at eigi er meir eptir en 100 *B*, *b*. 7) [dugnaðar, því at *B*, *b*. 8) [mikinn sigr unnit jafnan á *B*, *b*. 9) svá vel verðr at *tilf*. *B*, *b*. 10) þegnum *B*, *b*. 11) [eggjast nú á fast at berjast af kappi *B*, *b*. 12) [svá at margr góðr riddari kristinna manna týnir bæði lífi ok limum *B*, *b*. 13) fram hvatliga *B*, *b*. 14) [*mgl*. *B*, *b*. 15) (hafði sverð sitt Hatukleif brugðit í hendi ok *tilf*. *B*) feldi nú margan heiðingja. *B*, *b*. 16) [Góði félagi, segir hann, far hingat ok verjumst hér báðir saman *B*, *b*.

oss.[1] Nú vil ek blása horni mínu, ok mun Karlamagnús konungr heyra ok sœkja til vár með liði sínu. Þá svarar Oliver:[2] Ámæli muntu fá mikit; þá er ek bað þik blása,[3] vildir þú eigi, en nú hefir þú báðar hendr blóðgar. Þá svarar Rollant: Því valda ⌊stór högg ok þó mörg[4] högg. Nú er orrosta hörð ok vil ek því blása horni mínu. Oliver svarar: Eigi skal þat at mínu ráði, ok þat ⌊veit ek víst, ef ek fynda Auðu systur mína, at þú skyldir aldri síðan hvíla á millum armleggja henni.[5] Þá mælti Rollant: Mjök ertu reiðr, lagsmaðr. Oliver svarar: Þat er ⌊sakir sjálfs þíns; drengmannligt hjarta með vizku þat er eigi fíflsligt; meira er verðr mundangleikr en ofmetnaðr:[6] ok eru Frankismenn dauðir fyrir þínar sakir, ok mun Karlamagnús konungr aldri hafa ⌊af þér þjónun[7] síðan. En ef ek hefða ráðit, þá[8] mundi Karlamagnús konungr hér kominn, ok mundi Marsilius konungr annat tveggja drepinn eða höndum tekinn. ⌊Nú hefir einræði þitt valdit þessu, því at slíkr maðr[9] mun aldri fœðast héðan til dómadags. Ok snerist þá hvárr frá öðrum ok kómust við mjök.

31. Nú ⌊heyrir Turpin erkibyskup viðrrœðu[10] þeirra ok mælir við þá á þessa lund: Góðir vinir mínir, hirðit eigi þit reiðir at vera, fyrir því at nú er sá dagr kominn, at vér skulum dauða þola,[11] ok mun oss ekki hornblástr stoða, fyrir því at þat var ofseint gert, en þó er ⌊hinn betri[12] at þú blásir, ok mun Karlamagnús konungr heyra ok ⌊koma at[13] hefna vár[14] á Marsilio konungi ok hans liði. Síðan mun hann samna saman líkum várum ok láta ⌊þau fara til[15] heilagra staða, at eigi eti oss vargar eða ⌊hundar eða villidýr.[16] Þá svarar Rollant: Vel hefir þú mælt, ⌊byskup, ok vitrliga rœtt.[17]

[1]) ⌊okkr vantar (vit missum *b*) liðveizlu af Karlamagnúsi konungi; heitum nú á guð ok hans helga menn, at sjá fjándaflokkr stígi eigi yfir sœmd keisarans. Ok enn mælti Rollant (við Oliver *mgl. b*): Þat er fundit á fornum bókum, at vér munum falla á (undir *b*) valdi heiðinna manna, en nú er eigi meira lið eptir en hálft hundrað manna, en heiðnir menn kringja um oss, ok þó skulu þeir enn at keyptu komast *B*, *b*. [2]) *saal. B*, *b*; Turpin erkibyskup *a*. [3]) í fyrstu *tilf. B*, *b*. [4]) ⌊mörg stór högg *B*, *b*. [5]) ⌊vil ek satt segja (segja þér með sannindum *b*), at ef ek finn Auðu systur mína, at aldri síðan skaltu sofa milli hennar armleggja *B*, *b*. [6]) ⌊fyrir sakir þín(s) sjálfs ok drengmanligs hjarta, er þú hefir lengi borit með vizku ok frœknleika, en þó hefir nú ofmjök kapp þitt fyrirkomit oss *B*; eigi fyrir sakleysi, segir hann, því at sjálfs þíns ofrkapp ok drengmannligt hjarta hefir oss fyrirkomit *b*. [7]) ⌊tœnað (liðveizlu *b*) af þeim *B*, *b*. [8]) skyldir þú blásit hafa þegar í fyrstu ok áðr vér hófum þetta stríð, ok *tilf. B*, *b*. [9]) ⌊Slíkr maðr sem þú ert *B*, *b*. [10]) ⌊fríðr Valtari jarl til *B*, *b*. [11]) fyrir guðs skyld *tilf. B*, *b*. [12]) ⌊betr *B*, *b*. [13]) ⌊man *B*; snúa aptr ok *b*. [14]) ef hann kemr *tilf. B*. [15]) ⌊fœra til kirkju ok *B*, *b*. [16]) ⌊ill kvikindi *b*. [17]) ⌊herra *B*, *b*.

Nú setti Rollant horn[1] á munn sér ok [lét í rödd sína ok blés harðliga, svá at 15 frakkneskar[2] mílur mátti heyra. Ok þegar heyrði Karlamagnús konungr ok lið hans alt, ok [segir svá:[3] Bardaga eiga[4] várir menn nú. En Guinelun jarl mælti í móti: [Fíflsku mælir þú nú, konungr, segir hann.[5] Rollant blæss í hornit í annat sinn svá ákafliga, at blóð flaut[6] af munni honum [ok heili brast út af þunnvanga honum. Þá mælti Karlamagnús konungr: Eigi mundi Rollant svá opt blása nema nauðsyn ylli. En þá er hann heyrði, þá fór hann út af borgarveggnum. Nemes hertugi fylgdi honum. Þá mælti konungr: Eigi mundi Rollant blása, ef hann væri eigi[7] í bardaga. Þá svarar Guinelun jarl: Auðtryggr ertu. [Þótt þú sér gamall ok hvítr af hærum, þá mælir þú sem börn, fyrir því at þú veizt hreysti Rollants ok ofmetnað,[8] ok er þat [furða mikil,[9] at guð vill þola honum þat er hann tók Nobilisborg fyrir utan leyfi þitt ok elti [út alla heiðna menn er í váru borginni,[10] lét suma blinda,[11] suma [hengja, suma lét hann til höggs leiða,[12] ok [var engi sá maðr, at þyrði at berjast á móti honum, ok[13] allan dag mun hann fara ríðandi ok blásandi [at sinni skemtan eptir einum hera heldr en sakir nökkurs ótta.[14] Nú setr Rollant hornit á munn sér blóðgan allan hit þriðja sinni, ok blés þá ákafligast.[15] Þá mælti Karlamagnús konungr: Langa rödd hefir horn þetta. Nemes hertugi svarar: Þat veldr því at drengr blæss. Nú [máttu víst vita, konungr, at þeir eru í bardaga ok á Rollant þá skamt eptir úlifat. Nú hefir Karlamagnús konungr látit blása í lúðra sína ok lætr sína menn búast. Þeir gerðu sem hann bauð. Síðan lét Karlamagnús konungr taka Guinelun jarl ok fékk (í) hendr höfuðsteikara sínum, ok bað hann svá varðveita hann sem illan dróttins svikara. Hann tók við honum ok lét setja hann á klyfjahesta sína ok hverfa höfuð til hala, ok lét berja hann með svipum ok hnefum, með stöngum ok stöfum, ok lét svá fœra hann til myrkvastofu. Síðan reið hann frá borg ok

1) hornit Olivant *B*, *b*. 2) [blés svá hátt ok hvelt, at 12 valskar *B*, *b*. 3) [mæla sín á milli *B*. *b*. 4) heyja *B*. *b*. 5) [Undarliga tali þér. (ok þvert frá því sem er *tilf*. *b*) *B*, *b*. 6) féll *B*, *b*. 7) [En jafnskjótt heyrði (þat *tilf*. *b*) Karlamagnús konungr ok þeir Nemes hertogi. Þá mælti keisarinn: Eigi mundi Rollant frændi várr (minn *b*) blása, nema hann þyrfti liðs við, ok man hann vera nauðuliga staddr *B*, *b*. 8) [herra, segir hann, ok er þess ván, þú ert maðr gamall, en kunnig má þér vera (mætti yðr þó vera kunnig *b*) hreysti Rollants ok ofmetnaðr. *B*, *b*. 9) [*saal*. *B*, *b*; fyrir þá sök *a*. 10) [brott þaðan alla heiðingja *B*, *b*. 11) brenna *B*, *b*. 12) [höggva *B*. *b*. 13) [*mgl*. *b*. 14) [*tilf*. *B*, *b*. 15) svá ákaft ok langt, at menn undraðust svá langan hornblástr *B*, *b*.

á brott með miklum her, ok ætlaði at verða Rollant at liðveizlu ef hann mætti, ef Rollant lifði þá er þeir fyndist.[1]

32. Nú verðr at ræða um þá at Runzival. Rollant mælti [til Olivers:[2] Sýnt er þat nú, segir hann, at kristnir menn eru fallnir,[3] ok samir oss[4] at láta hér líf hjá þeim. Nú ríðr Rollant fram í [millum margra[5] heiðinna manna, ok drap einn ágætan mann af þeim, sá hét Fabrin, ok fjóra menn ok 20 aðra, ok feldi hann hvern ofan á annan, ok mælti við þá síðan: Flýit undan, illir hundar, ella skulut þér allir hér dauða þola. Nú sá Marsilius konungr mikit fall heiðinna manna ok reið síðan fram ákalliga á hesti sínum þeim er hét Guenun[6] ok lagði spjóti sínu til þess manns er hét [Begun, ágæts manns,[7] ok klauf í sundr skjöld hans ok brynju,[8] ok bar hann dauðan af hesti sínum svá langt sem spjótskapt hans vannst til, ok kastaði honum dauðum á jörð. Rollant jarl var eigi fjarri staddr ok mælti við konung hinn heiðna: Guð verði þér reiðr, heiðingi, þann hefir þú hér drepit, er þú skalt dýrt kaupa, ok högg skaltu þola [með sverði því er þú kant at nefna.[9] Ok hjó af honum hina hœgri hönd hans, en í því bili veik Marsilius konungr undan, ella þurfti hann eigi fleiri. En síðan hjó hann[10] höfuð af syni hans þeim er nefndr er Jursalon.[11] Þá œptu heiðingjar allir í senn ok hét á goð sín, ok mælti hverr við annan: Flýjum undan, sögðu þeir, flýjum undan, Rollant hefir yfirkomit oss alla. Nú [hefir Marsilius konungr týnt hœgri hendi sinni ok syni sínum, ok snýr nú undan[12] heim til Spanialands, ok með honum þúsund manna, ok var engi sá er eigi hefði eitt sár eða tvau.

33. Nú hefir [Marsilio konungi þungt veitt, hann hefir[13] látit hœgri hönd sína ok alla sœmdina, drepinn son hans, ok mikinn mannskaða hefir hann allskonar[14] fengit. En nú var eptir[15] af heiðinna manna liði sá höfðingi er Langalif hét, hann réð fyrir [60 þúsunda[16] blámanna, hann réð fyrir þeim löndum er Kartagia heita ok

[1]) [megum vér víst vita, at Rollant er í bardaga. Keisarinn lét þá blása í lúðra sína, ok búast menn (bað menn búast *b*) ok herklæðast fljótt ok fimliga. En Guinelun jarl var settr eptir undir geymslu höfuðsteikara keisarans, svá sem vándr dróttins svikari, því at Karlamagnús konungr gerði svá ráð fyrir. En hann reið nú brott (með alt meginliðit *tilf. b*) ok ætlaði nú til liðveizlu við Rollant ok hans kumpána *B*, *b*. [2]) [við Oliver *B*, *b*. [3]) fyrir várar sakir *tilf. B. b*. [4]) okkr vel *B*, *b*. [5]) [í miðjan her *B*, *b*. [6]) Burmon *B*; Benion *b*. [7]) Gesson, hann var hertogi af Blasma ok Begon *B*, *b*. [8]) spilti brynju hans *B*, *b*. [9]) [af sverði mínu ok þú kant nefna, er Dýrumdali heitir *B*; af sverði mínu Durumdala *b*. [10]) Rollant *B*, *b*. [11]) Mezalun *B*; Virzalin *b*. [12]) [flýr Marsilius konungr *B*. *b*. [13]) [hann makliga kaupferð rekit *b*. [14]) allskostar *B*, *b*. [15]) í Runzival *tilf. b*. [16]) [þúsund *B*, *b*.

Affrika, Etiopia ok Gamaria. Þau eru bannsett lönd ok alt þat er á þeim er. Þeir hafa stór andlit ok leiðiligar brýnn: þeir ríða fram harðliga ok blása í lúðra sína. Þá mælti Rollant við Oliver: Nú veit ek þat, segir hann, at hér [fara banar várir:[1] [nú verði sá ragr er eigi selr[2] sik sem dýrast, ok látum þat segja blámenn, þá er þeir koma [til Spanialands.[3] at þeir mættu Rollant ok hans liði. Nú sá Rollant þetta lið blámanna, [ok var hundrað hlutum svartara en aðrir menn.[4] Langalif [sat á hesti sínum ok reið[5] at Oliver ok lagði spjóti sínu í millum herða honum, svá at [inn gékk í brjóst honum,[6] ok mælti við hann síðan: Úsynju [komtu hingat[7] lands at gæta, ok aldri síðan hefir hann af þér hjálp. Nú vissi Oliver at hann hafði banasár fengit. hann hafði í hendi sér Atakle[8] sverð sitt. hann hjó til Langalifs ok í sundr hjálm hans ok höfuð, svá at í tönnum nam staðar, ok steypti honum dauðum af hesti sínum. ok mælti[9] við hann: Aldri skaltu bera heim tíðendi til þíns lands, hvat þú hefir hér gert. Oliver reið fram á millum heiðinna manna sem dýrit úarga [ferr ólmligast millum annarra dýra,[10] ok hjó sem ákafligast á báðar hendr. Nú [ríðr Rollant fram í móti Oliver, en Oliver á móti,[11] ok var[12] svá blindr [fyrir blóðrás[13] at hann sá ekki,[14] ok hjó til Rollants með sverði sínu ok klauf í sundr hjálm hans, en særði hann eigi. Rollant spurði: [Góði vin ok félagi, hví gerðir þú þetta?[15] Oliver svarar: Guð sjái þik, góðr vin, en eigi sá ek þik: nú fyrirgef þú mér. Rollant svarar: Ek skal gjarna fyrirgefa þér, ok guð fyrirgefi þér. Nú [veit Oliver at hann mun eigi lengi lifa, þá sté hann af baki[16] hesti sínum ok snerist í austr, ok féll á kné ok [barði á brjóst sér ok bað guð miskunnar ok mælti: Guð himneskr, hjálpa þú mér ok fyrirgef mér mínar syndir. Ok enn mælti hann: Blezaðr vertu[17] Karlamagnús konungr ok Frakkland it góða ok Rollant jarl félagi minn [fyrir alla menn í[18] veröldu. Ok lagðist síðan til jarðar ok andaðist. [En er Rollant sá þat, at andaðr var vinr hans góðr, ok þegar er hann sá þat, þá[19]

1) [ferr bani várr *B*, *b*. 2) [ok því gerum svá vel, at hverr seli *b*. 3) [heim *B*, *b*. 4) [er 100 lutum er svartara en aðrir menn *B*; er mörgum hlutum var svartara en annat fólk *b*. 5) [keyrir hest sinn sporum ok ríðr fram *b*. 6) [út kom um brjóstit *B*, *b*. 7) [setti Karlamagnús konungr þik hér *B*, *b*. 8) Hatukleif *B*, *b*. 9) Oliver *tilf*. *B*, *b*. 10) [*saal*. *B*, *b*; er olmligat(!) *a*. 11) [reið Rollant móti Oliver, en Oliver móti Rollant *B*; ríðust þeir móti Rollant ok Oliver *b*. 12) hann *tilf*. *B*, *b*. 13) [*tilf*. *B*, *b*. 14) vætta *tilf*. *B*, *b*. 15) [*saal*. *B*, *b*; því hann gerði svá *a*. 16) [sér (finnr *b*) Oliver at dauði sígr at honum, ok sté hann niðr af *B*, *b*. 17) [*saal*. *B*, *b*; bað fyrir sér til guðs ok mælti: Blezaðr sértu guð ok *a*. 18) [*saal*. *B*, *b*; Ok mæltist við einn saman: Engi er þinn jafningi, Rollant, í allri *a*. 19) [Rollant sá nú, at andaðr var Oliver hans góði félagi, ok af því *B*, *b*.

féll á hann úmáttr, en hann var svá [fast bundinn[1] í stigreipum, at hann mátti eigi ofan falla af hestinum.

34. Nú eru allir Frankismenn fallnir nema Rollant ok [Turpin ok Valteri systurson hans ok son þess manns er Dragon hét, er kallaðr var Dragon gamli ok hinn skegghvíti.[2] Hann kallaði á Rollant: Far hingat, segir hann, ok dugi mér, ek varð enn aldri [hræddr í bardaga, þar sem þú vart hjá mér.[3] Nú er spjótskapt mitt í sundr brotit ok skjöldr minn klofinn, mörgum spjótum em ek í gegnum lagðr, ok þat skulu heiðnir menn segja, at þeir hafa[4] mik dýrt keypt. Nú tekr Rollant af nýju at berjast,[5] ok þá mæltu heiðnir menn: Látum þá eigi undan komast, segja þeir, Rollant er yfirkominn,[6] en [Turpin erkibyskup er vitr,[7] Valteri er frœkn ok lítilátr.[8] [Þessir 3[9] feldu á lítilli stundu þúsund riddara.[10] [Nú er Valteri fallinn, ok er Turpin erkibyskup sá þat, þá sótti hann til Rollants, ok váru þeir þá báðir saman. Þá mælti Turpin erkibyskup: Bíðum Karlamagnús konungs, ef vér megum. Litlu síðar[11] heyrðu þeir blásit í þúsund lúðra, ok kendu at þar var Karlamagnús konungr ok Frankismenn. Nú mæltu heiðingjar: Karlamagnús konungr er á för, ok heyrum vér nú lúðra þeirra, ok flýjum undan sem skjótast. Nú ef Rollant lifir, þá mun hann af nýju taka til at berjast, ok höfum vér þá týnt öllu liði váru ok landinu Spanie. Síðan riðu [400 enna[12] frœknustu manna af liði heiðingja í móti Rollant. Hann sat fyrir[13] á hesti sínum ok hafði þá œrit at vinna, þótt hann sæi við einum þeirra. Hann hafði í hendi sér sverð sitt Dýrumdala. [Turpin erkibyskup[14] fylgdi honum, ok mælti þá hvárr við annan: Höfumst hér við báðir saman, segja þeir, ok bíðum Karlamagnús konungs. [En ef þat verðr eigi ok vit deyjum, segja þeir, þá munum vit laun af guði taka.[15] Nú hafa þeir tekit sér stað ok vilja eigi skiljast, [nema dauði skili þá. Nú hjuggu þeir á báðar hendr sér Rollant ok Turpin erkibyskup með sverðum sínum ok drápu þá 20 heiðingja. Þá mælti Turpin: Verði sá níðingr er nú flýr frá öðrum.[16] Þá mæltu heiðnir menn: Úsynju kómum vér hér,[17] segja þeir; nú heyrum vér lúðra Karlamagnús konungs, ok ef vér bíðum þeirra, þá komumst vér eigi í brott. Rollant er svá hraustr ok sterkr, at [engi maðr kemst yfir hann á jarðríki, ok flýjum undan, segja þeir.[18] Í þess-

[1]) [fastr *B*, *b*. [2]) [Valtari jarl *B*, *b*. [3]) [óttafullr (óttandi *b*) þar sem þú vart (staddr *tilf. B*) í bardaga *B*, *b*. [4]) hafi *B*, *b*. [5]) ok þeir (svá *b*) Valtari *tilf. B*, *b*. [6]) óvanfœrr *B*. [7]) [*mgl. B*. [8]) *fra* Rollant er yfirkominn *mgl. b*. [9]) [Ok nu(!) *B*; Rollant ok Valtari *b*. [10]) manna *b*. [11]) [Ok eptir þat *B*, *b*. [12]) 700 hinna *B*, *b*. [13]) *mgl. B*, *b*. [14]) [En Valtari *B*, *b*. [15]) [*mgl. B*, *b*. [16]) [*mgl. B*, *b*. [17]) í þenna stað *b*. [18]) [vér fám hann aldri yfirkomit, því skulum vér nú undan flýja *b*.

arri sókn hafa þeir klofit skjöld [hans ok brynju[1] ok feldan hest hans, ok flýja heiðingjar undan ok mæla svá: Rollant hefir yfirkomit oss alla.

35. Rollant er nú á fœti staddr, ok er nú úglaðr. En [Turpin erkibyskup[2] rann til hans sem skjótast ok tók af honum skjöld hans ok brynju ok hjálm ok skar af honum silkikyrtil, ok sneri honum í móti vindi at kœla hann, ok mælti síðan: Heilagr guð himneskr sé lofaðr í því, er vér höfum sigr í orrostu þessi, þú Rollant ok vér með þér. Úglaðliga[3] má ek þess biðja þik, góðr félagi, segir Rollant, at þú leyfir mér at ganga í valinn at leita félaga minna,[4] er ek hafða mikla[5] elsku á, [ok þú leysir þá, sem guð hefir þér vald til gefit.[6] Nú fór Rollant at leita félaga sinna, ok fann [þá alla jafningja nema Oliver. Hann lagði þá fyrir erkibyskup.[7] Ok enn ferr hann at leita Olivers, ok fann hann [um (síðir)[8] undir bakka einum ok tók hann upp í fang sér ok kysti hann dauðan ok mælti: Oliver minn góði vinr, [þú vart son ens ríka hertuga Reiners er réð fyrir sjau löndum.[9] Spjótskapt kunnir þú at brjóta ok skjöldu í sundr at kljúfa, brynjur sundr at rífa ok ofmetnaði niðr at steypa, góðum manni fylgd at veita ok góð[10] ráð at ráða. Fyrir þær sakir vartu borinn[11] í heim þenna. Nú verðr þér engi betri riddari lifandi á jarðríki. Nú sá [erkibyskup, at Rollant hafði svá mikla úgleði at hann lá í úmætti,[12] þá tók hann hornit Olivant ok fór[13] til vatns rennanda er þar var, en hann var svá ústyrkr[14] af sárum ok blóðrás, at hann mátti hvergi komast,[15] ok féll niðr, ok [lét þá líf sitt ok fór til guðs.[16] Nú réttir Rollant við ok [sá Turpin erkibyskup liggja á vellinum fyrir[17] sér. Rollant hélt upp höndum sínum til himins ok bað honum[18] miskunnar ok mælti [svá: Þú hefir nú verit lengi berserkr góðr í móti heiðnum mönnum. Ok enn mælti Rollant:[19] Koma skyldi Karlamagnús konungr ok sjá skaða sinn,[20] er heiðnir menn hafa gert [honum. Marsilius konungr hefir sent á móti oss 30 sinnum[21] 9 heiðingja í móti hverjum várum.[22] Þá sá Rollant [Turpin erkibyskup[23] liggja fyrir[24] sér á vellinum. Hann mælti

1) [hans (Rollants *b*) ok rifit brynju hans *B*, *b*. 2) [Valtari jarl *B*, *b*. 3) Úglaðr *B*, *b*. 4) 12 *tilf.* *B*, *b*. 5) mesta *B*, *b*. 6) [*mgl.* *B*, *b*. 7) [þá í valnum ok lagsmann Jvora, hann fann Gerel ok Gerin, Bæring ok Hatun, Engiler ok Geirarð af Roseleun, ok fœrir lík þeirra öll saman i einn stað *B*; alla 12 jafningja nema Oliver, ok fœrir lík þeirra allra saman í einn stað *b*. 8) [liggjanda *B*, *b*. 9) [*mgl.* *B*, *b*. 10) heil *b*. 11) fœddr *B*, *b*. 12) [Valtari, at Rollant lá í úmætti (hné í úmátt *b*) *B*, *b*. 13) vildi fara *B*, *b*. 14) ústerkr *b*. 15) fara *B*; ganga *b*. 16) [andaðist *B*, *b*. 17) [fœrist á fœtr ok sá Valtara liggja dauðan á vellinum hjá *B*, *b*. 18) guð *B*; sér guð *b*. 19) [*mgl.* *B*, *b*. 20) þann *B*, *b*. 21) sinna *B*. 22) manni *tilf.* *B*. 23) [Valtara jarl *B*. 24) dauðan hjá *B*.

þá: Göfugr höfðingi ertu erkibyskup,[1] segir hann, ok góðr drengr ok lítilátr [í móti guði.[2] ok síðan er postular dróttins váru, þá var engi maðr ákafari at halda guðs lögum en þú. Nú bið ek [þess guð, at hann láti opit himiríki fyrir þér á dómsdegi.[3] Nú fann Rollant, at honum var nær andláti, [heilinn rann út um þunnvanga honum,[4] hann bað þá guð [senda sér Gabriel engil sinn.[5] ok snerist til Spaníalands ok gékk á hæð eina, þar sem lágu 4[6] marmarasteinar ok viðr var vaxinn, ok settist niðr, ok sé[7] á hann úmáttr.

36. Frá því er at segja, at einn heiðingi lá í valnum, hann sá Rollant ok lét sem hann væri dauðr, ok þó var hann heill. Hann hugði at um för Rollants, ok sá at hann lá í úviti. Hann stóð upp ok rann[8] sem skjótast ok mælti við Rollant: Yfir er stiginn systursonr Karlamagnús konungs. Hann tók sverðit Dýrumdala í hönd sér, ok mælti: Þetta sverð skal ek bera til Arabia. Ok tók horn hans í hönd sér ok skók skegg hans. Nú rétti Rollant við[9] af úmætti þeim ok lauk upp augu sín ok sá til hans ok mælti: Þat ætla ek, segir hann, at þú sér eigi af várum mönnum. Ok tók Olivant hornit or hendi honum ok laust til hans sem harðast mátti hann ok rak í höfuð honum, svá at bæði augu flugu út [um hausinn,[10] ok feldi hann dauðan til jarðar. Illr heiðingi, segir hann, hví vartu svá djarfr, at þú þorðir at ráða á mik [kvikan hvárki með réttu né með röngu, ok engi maðr er sá, er þat spyrr til þín, at eigi mun þik fól kalla.[11] Nú kennir Rollant [at dauði ferr at honum,[12] þá gékk hann til bergs þess er næri honum var ok hjó sverðinu[13] í bergit, ok vildi brjóta í sundr, ef hann mætti, [en hann mátti eigi.[14] Þá mælti hann: Gott sverð ertu Dýrumdali, [ok í mörgum orrostum hefi ek þik hafðan,[15] en nú er mér skamt til dauða, ok verðr mér nú at þér héðan af ekki gagn, ok nú vilda ek at guð veitti mér, at engi bæri sá þik í hendi, at einn yrði hræddr fyrir einum. Ok enn hjó hann í bergit ok fékk eigi brotit, ok mælti enn síðan: Gott sverð ertu Dýrumdali,[16] ok mörg lönd hefi ek unnit, þau er Karlamagnús (er) keisari[17] yfir. [Guð af himni sendi honum

1) Valtari *B*, *b*. 2) [ok góðrar siðsemdar fyrir guði ok mönnum *B*; *fra* [honum Marsilius konungr hefir sent *har b*: á liði hans, en þó höfum vér margan mann drepit af Marsilio konungi. Eptir þat snörist Rollant til Valtara, þar sem hann lá hjá honum dauðr á jörðunni, ok mælti svá til hans: Góðr höfðingi vartu ok sœmiligs siðferðis bæði fyrir guði ok mönnum. 3) [at guð fagni þinni sál, þá er þér liggr mest við *B*, *b*. 4) [*mgl. B. b*. 5) [allsvaldanda senda heilaga engla móti sálu sinni *B*, *b*. 6) 3 *B*, *b*. 7) seig *b*. 8) þangat *tilf. B*, *b*. 9) *tilf. B*, *b*. 10) [or hausinum *B*, *b*. 11) [ok allir munu þik fól kalla, þeir sem spyrja til þinna gerða *B*, *b*. 12) [dauða fara at sér *B*, *b*. 13) Dýrumdala niðr *tilf. B*, *b*. 14) [en þat gékk honum eigi *b*; *mgl. B*. 15) reyndan *b*. 16) [*tilf. B*, *b*. 17) konungr *B*, *b*.

sverð þetta með englum sínum, ok bað at hann skyldi senda jarlinum af Katanie.[1] En ek hefi fengit síðan með þér þessi ríki: Miklagarð, [Angio, Livonie, Peitu, Bretanie, Provenz, Montanie, Lumbardie, Romanie, Bealvarie, Flasanie.[2] Jrland ok England [er Karlamagnús konungr kallar búr sitt,[3] ok hefi ek fyrir því mikla úgleði, ef illr maðr skal bera þik. því at þú ert bæði góðr ok heilagr, í hjöltum þínum er tönn Pétrs postula, ok af blóði hins helga Blasi byskups, ok af hári hins helga Dionisi byskups. þat væri [eigi rétt,[4] at þú værir á millum heiðinna manna, heldr [skyldir þú vera í millum góðra manna ok kristinna manna ok skynsamra.[5] Rollant mintist nú á marga stóra hluti ok ágæta, þá er hann hafði aflat til handa Karlamagnúsi konungi frænda sínum, en þó vildi hann eigi gleyma [sik sjálfan.[6] Hann iðraðist synda[7] sinna ok bað [sér miskunnar til almáttigs guðs,[8] ok mælti á þessa lund: þú sannr faðir himneskr, er aldri laugt[9] ok Lazarum reistir af dauða, ok þú er leystir Danielem spámann af mörgum dýrum hinum úörgum or[10] Babilon, leystu sál mína or kvölum helvítis ok af syndum mínum, þeim er ek[11] gerða frá[12] œskualdri mínum alt til þessa dags. [Hann hélt upp hœgri hendi sinni til himna ok glófa sínum með til jarteigna, ok á þeirri sömu stundu (lét hann) önd sína. En jafnskjótt sendi guð engla sína Michael, Gabriel, Raphael, ok leiddu þeir sál hans til paradísar.[13]

[1]) [*mgl. B, b.* [2]) [ok Rómaríki, Angiam, Provinciam ok Alemaniam, Peitu ok Brittaniam, Eqvitaniam, Lungbardi ok Bealver *B, b.* [3]) [*tilf. B, b.* [4]) [rangt *B, b.* [5]) [skyldu þik geyma góðir kristnir menn ok skynsamir *b.* [6]) [sjálfum sér *B, b.* [7]) misverka *B, b.* [8]) [guð sér miskunnar *B, b.* [9]) né ljúga mant *tilf. B, b.* [10]) í *B, b.* [11]) *tilf. b*; *mgl. a, B.* [12]) af *B, b.* [13]) [Hann tók þá hendinni niðr á brjóstit ok hélt hörundit með þvílíkum orðum þrysvar hinum sömum: Jn ista carne videbo deum salvatorem meum, þat norrœnast svá, í þessu sama holdi man ek sjá guð grœðara minn. Eptir þat tekr hann upp báðum höndunum til augnanna svá mælandi: Et isti oculi conspecturi, ok þessi augu munu fagnaðinn fá með guði. Ok þat fyldist skjótt sem hann vænti. Ok í annan tíma talar hann svá: Meðr þinni (miskunnar *tilf. b*) gjöf, dróttinn minn (Jesu *tilf. b*) lít ek nú þegar þá luti, er eigi sá (manns *tilf. b*) auga, ok eigi heyrði eyra, ok eigi sté (upp *tilf. b*) í manns hjarta. En síðan gerir hann bœn til guðs fyrir öllum sínum brœðrum, er fallit höfðu í Runzival, ok sofnar í friði guðs (af þessum heimi *tilf. b*) á Kalendis dag Julii. En meðr því at vér höfum grein gert á lífláti Rollants jarls, skolu vér sýna þessu næst, hversu satt at hann segir psalmista (satt David segir *b*) í sinni bók af dauða heilagra (manna *tilf. b*) ok ranglátra, mjök úlíkt sem hvárum heyrir (úlíkt ok þó hvárum tilheyriligt *b*). J fyrra stað segir hann svá til valdra manna: Preciosa est in conspectu domini mors sanctorum eius, þat þýðist svá, í dróttins augliti er dýrligr dauði hans heilagra manna. Í síðari grein (síðara stað *b*) segir

37. [Litlu síðar[1] kom Karlamagnús konungr til Runzivals, ok reið [aldrigi svá alnar langt eða þvers fótar, at eigi fyndi hann dauðan heiðinn mann eða kristinn. Nú œpti hann hárri röddu: Hvar ertu Rollant ok Oliver eða Turpin erkibyskup? Hvar eru þeir 12 jafningjar, er ek setta hér eptir til lands at gæta, ok ek unna þeim öllum vel.[2] Karlamagnús konungr sleit klæði sín [ok skók skegg sitt[3] ok féll af hesti sínum fyrir úgleði sakir. Nú var þar engi maðr sá er [eigi feldi tár fyrir sakir sinna vina.[4] Nemes hertugi

svá Daviþ til vándra manna (segir hann svá *b*): Mors peccatorum pessima, syndugra manna dauði er hinn versti, segir hann. Fyrir þenna spámanns orskurð (þetta spámannsins orð *b*) verðr ljóst, at andlát Rollants jarls er dýrligt í augliti dróttins, því at hann öðlaðist fagnað ljóssins; en dauði heiðingja verðr hinn versti, því at þeir eru leiddir herteknir með taumum djöfulsins, sem enn verðr ljósara, ef (þessi *tilf. b*) frásögn fylgir.

Sú bók er heitir Speculum historiale váttar þat, at virðuligr herra Turpin erkibyskup Reinsborgar var eigi í þeim bardaga, sem gerðist í Runzival, heldr með Karlamagnúsi konungi, þó at sumar norrœnubœkr segi öðruvís af þvísa (þessu *b*) efni. Því váttar þat fyrr nefnd bók, at á sama dag, sem orrostan var í Runzival, söng Turpin erkibyskup sálumessu á þeirri fegrstu eng, er Karlamagnús hafði sett sín landtjöld, úvitandi með öllu hvat háskasamligt fram fór móti hans frændum ok ástvinum. Ok sem erkibyskup stendr í messuembættinu er hann upptekinn (upphafinn *b*) í andarsýn, ok lítr í loptinu hvar fara stórir flokkar háleitra hersveita (hirðsveita *b*) meðr söng ok sœtum hljóðum, meðr birti ok blóma miklum, svá at byskupinum gefr á at sjá ok heyra, þar til at sú himneska hirð firrist svá mjök jarðríki, at honum hverfr at sýn (hverfr sýnin *b*) upp í loptit. Hann hugleiðir með sér, hvat þessi sýn man (hafa *tilf. B*) merkja, ok litlu síðar sér hann ferð (sýn *b*) aðra mjök úlíka hinni fyrri. Í þessarri ferð eru svartir dólgar harðleitir ok helvízkir ásýndum, þeir eru margir saman ok hafa nökkut (mikit *b*) meðferðar; þat er þeir þysja at öllum megum sem djöflar (eru vanir *tilf. b*) at agni dauðans. Turpin erkibyskup verpr orðum á þá ok segir svá: Hvat dragi þér eðr starfit? Þeir svara: Vér flytjum félaga várn konung inn heiðna til ættleifðar sinnar í helvítis herað, en Michael stýrir þeirri ferð, er leiðir lúðrþeytara yðvarn upp í himnana. Af þessarri birting vissi erkibyskupinn sönn tíðendi (or Runzival *tilf. b*) ok sagði keisaranum hvat guð hafði sýnt honum. Ok litlu síðar kemr (þar *tilf. b*) Baldvini bróðir Rollants á mœddum hesti, váttandi sömu tíðendi sem fyrr váru greind, hvaðan af vér munum frá venda, því at nú er vitni borit, at englar guðs fylgja völdum mönnum guðs til eilífra fagnaða. *B*, *b*.

¹) Þegar eptir andlát Rollants *B*, *b*. ²) [eigi svá þvers fótar lengd, at eigi væri dauðir menn, annathvárt kristnir eðr heiðnir. (Nú œpti konungr hárri röddu ok kallar á Rollant ok Oliver ok alla 12 jafningja *tilf. B*) *B*, *b*. ³) [*tilf. B*, *b*. ⁴) [vatni mætti halda sakir frændaláts eðr vina, sumir sakir sona sinna, sumir fyrir missu höfðingja ok annarra ríkismanna *B*, *b*.

hafði af því máli vel sem öllum öðrum, ok hann gékk nær konungi ok mælti: Statt upp, segir hann, ok sjá fram fyrir þik 2 mílna lengd, ok muntu sjá[1] jóreyk af heiðinna manna liði, þeirra er hér eru.[2] Nú væri þat drengiligra[3] at [hefna frænda sinna[4] en at syrgja eptir dauða. Karlamagnús konungr svarar svá: Fjarri eru þeir nú. En þó vil ek biðja yðr at þér [séð í fylgd með mér.[5] Síðan setti hann 3 jarla at gæta valsins, þá er svá hétu Begun ok Hatun ok Melun,[6] ok [10 hundruð[7] riddara með þeim. Síðan lét konungr blása í lúðra sína ok reið ákafliga eptir heiðnum mönnum ok nálgast[8] brátt. En þá er [aptnaði at þeim,[9] þá sté Karlamagnús konungr af hesti sínum ok féll til jarðar, ok bað guð,[10] at dagr skyldi lengjast en nótt skemmast. En jafnskjótt sem hann bað, þá kom engill guðs af himni ok [mælti við hann: Guð hefir játat þér bœn þína,[11] ok mun hann gefa þér œrit [sólarljós ok daga.[12] Ríð þú nú ákafliga eptir heiðnum mönnum [ok hefn þinna manna á þessu hinu illa fólki.[13] Þá er Karlamagnús konungr heyrði þessi orð, þá gladdist hann ok hljóp á hest sinn. Nú flýja heiðingjar [til Spanialands.[14] en Frankismenn ríða eptir þeim harðliga ok feldu heiðingja á báðar hendr sér. Nú koma þeir at vatni einu [miklu enir heiðnu menn, ok hétu[15] á guð sín til hjálpar sér, þann er Terogant hét ok Apollo ok Maumet, ok hlupu síðan á vatnit ok sukku til grunna, ok sumir[16] flutu dauðir til lands, en sumir[17] váru drepnir er eptir váru. Nú œptu Frankismenn ok [kváðu þá dýrt hafa keypt Rollant ok lið hans.[18] Nú [kemr Karlamagnús konungr at (ok sér)[19] at drepnir eru allir heiðnir menn, ok mælir við sína menn: Stígit af hestum yðrum, [oflangt er oss aptr í nótt,[20] tökum nú herbergi [náttlangt ok hvílumst allir samt til dags. Frankismenn svara: Vel tali þér herra. Þeir gerðu svá, ok váru þeir þar þá nótt.[21]

38. Konungr fór eigi af herklæðum sínum, hann setti skjöld sinn at höfði sér ok var í brynju ok gyrðr sverði því hinu góða er Jouis heitir, þat var með 30 litum[22] á hverjum degi, [ok hann hefir einn nagla er dróttinn var krossfestr með í hjöltum sverðsins, var

1) mikinn *tilf.* ***B***, *b.* 2) hafa verit ***B***, *b.* 3) *saal.* ***B***, *b*; drengiligt *a.* 4) [sœkja eptir þeim ok hefna sinna manna, er þeir hafa drepit *b.* 5) [veitit mér fullting (til at reka minna harma á þeim *tilf. b*) ***B***, *b.* 6) Milun ***B***, *b.* 7) [þúsund ***B***, *b.* 8) þá *tilf.* ***B***, *b.* 9) [tók at kvelda ***B***, *b.* 10) (bœn sína *tilf.* ***B***) til guðs ***B***, *b.* 11) [sagði, at guð hefði (hafði *b*) heyrða bœn hans ***B***, *b.* 12) [dags ljós ***B***, *b.* 13) [*tilf.* ***B***, *b.* 14) [undan ***B***, *b.* 15) [hétu nú heiðnir menn ***B***, *b.* 16) *tilf.* ***B***, *b.* 17) þeir ***B***, *b.* 18) [mæltu: Dýrt hafi þér keypt (keyptan *b*) Rollant ok hans félaga ***B***; *b.* 19) [sér Karlamagnús ***B***, *b.* 20) [*mgl.* ***B***, *b.* 21) [*tilf.* ***B***, *b.* 22) lita ***B***, *b.*

hinn efsti hlutr af spjóti dróttins er hann var særðr með.[1] Eptir þat [fór hann at sofa við mikla úgleði sem þreyttr maðr.[2] En engill guðs kom til hans ok sat undir höfði honum alla nótt. Síðan dreymdi hann, at hann þóttist sjá [ókyrrleik mikinn[3] í lopti, hvassviðri mikit, [regn ok snjó ok ákafligr logi.[4] Ok því næst [féll sú furða á hans menn, svá at þeir hræddust ok œptu allir hárri röddu ok kalla[5] á Karlamagnús konung sér til hjálpar, ok í ofanfalli[6] því lömdust vápn þeirra. Ok því næst sýndist[7] Karlamagnúsi konungi margir vargar ok dýrin úörgu, ok margr fugl sá er gammr[8] heitir ok allskonar dýr ógurlig, ok þótti honum sem þeir[9] vildi eta hans menn, en hann þóttist vilja duga liði sínu. Jafnskjótt kom hit úarga dýr [eitt, hljóp at honum[10] ok fékk báða leggi hans í munn sér ok lét sem þat vildi [fást með hann eða eta hans menn.[11] ok vissi hann eigi hvárt[12] þeirra féll. Ok vaknaði konungr enn eigi. Nú berr fyrir hann hinn þriðja draum. Hann þóttist heima vera á Frakklandi í höll sinni, honum þótti svá sem hann hefði fjötra á [fótum sér,[13] ok hann sá fara[14] 30 manna til [borgar þeirrar er Ardena heitir,[15] ok rœddi hverr þeirra við annan, ok sögðu svá: Karlamagnús konungr er yfirkominn ok er aldri síðan verðr at bera kórónu á Frakklandi.

39. Nú eptir þetta þá vaknaði konungr ok hugði at draumum sínum ok þóttu[16] vera ógurligir sem var.[17] Síðan búa þeir hesta sína menn hans, ok er þeir váru búnir, þá riðu þeir til Runzivals, ok er þeir kómu þar, þá kanna þeir valinn ok fundu Rollant liggja í millum fagra steina 4.[18] ok lá sverð hans undir höfði honum, ok hélt hann hœgri hendi sinni um meðalkafla en (í) hinni vinstri hendi hafði hann horn sitt Olivant. En er Karlamagnús konungr sá þessi tíðendi, þá sté hann [af baki[19] ok gékk til systursonar[20] síns með miklum hryggleik ok kysti hann dauðan, ok féll til jarðar ok mælti síðan: Blezaðr sértu[21] Rollant, dauðr sem lifandi [ok kvikr,[22] yfir alla riddara jarðliga,[23] því at þinn jafningi mun aldri fást[24] á jarð-

[1]) [nagli sá er dróttinn várr var krossfestr með var undir hjöltum sverðsins, ok af spjóti því er guð var særðr með, ok af þessum guðs krapti (ok fyrir þessu háleitu píslarteikn grœðarans *b*) hafði Karlamagnús sigr í hverjum bardaga. *B, b.* [2]) [sofnar keisarinn (Karlamagnús *b*) við ofmikinn harm *B, b.* [3]) [mjök kynliga luti *B, b.* [4]) [meðr eldingum stórum ok áköfum loga. *B, b.* [5]) [sýndist keisaranum, sem eldingarnar félli yfir menn hans, ok heyrðist honum svá sem þeir œpti hárri röddu ok kallaði *B, b.* [6]) *saal. B, b*; fannfalli *a.* [7]) syndust *B, b.* [8]) gamr *B.* [9]) þau *B, b.* [10]) [*tilf. B, b.* [11]) [eta hann *B, b.* [12]) hvárr *B, b.* [13]) [báðum fótum *B, b.* [14]) *tilf. B, b.* [15]) [borgarinnar *B, b.* [16]) honum *tilf. B.* [17]) váru *B, b.* [18]) þriggja *b.* [19]) [niðr af hesti *B, b.* [20]) frænda *B, b.* [21]) sérðu *B*; vertu *b.* [22]) [*mgl. B, b.* [23]) þá er verit hafa frá fyrsta degi heims ok hingat til *tilf. B, b.* [24]) finnast (fœðast *b*) síðan *B, b.*

ríki, því at þú ert bæði vinr guðs ok[1] manna. Nú féll konungr í úmátt, ok ætluðu hans menn, at hann væri dauðr, en hann var lifandi. En Nemes hertugi var nær staddr ok [sá, hann rann til vatns rennanda skyndiliga ok tók vatnit[2] ok kastaði í andlit konunginum ok mælti við hann síðan: Statt upp, herra konungr, segir hann. engi ann öðrum svá vel dauðum, at eigi skuli hann[3] sjálfan sik mest rœkja lifanda. Þá [er Nemes mælti þetta. þá lét konungr at orðum hans ok reistist upp á fœtr,[4] ok mælti við hinn sterkasta riddara sinn, at hann skyldi taka sverð Rollants ok fœra honum. Riddarinn fór ok fékk eigi náð. Þá sendi hann annan riddara, ok var þá eigi lausara.[5] Síðan sendi hann 5 riddara, at sínum fingri skyldi halda hverr þeirra, ok [var þá eigi lausara.[6] Þá mælti Karlamagnús konungr, at [engi maðr mundi þat skjótt gert fá at ná sverði af Rollant, þá er hann lifði, ef nú fáit þér eigi náð af honum dauðum.[7] Ok eptir þat féll [á hann úmáttr.[8] Nemes hertugi bað hann [hafa hreysti við ok mælti svá: Maðr skal æ eptir mann lifa ok rœkja sjálfan sik mest, því at svá hefir guð boðit at vera skyldi. Karlamagnús konungr[9] hlýddi ráði hans ok varp af sér úgleði, ok spurði hversu þeir mundu ná sverðinu af Rollant. Þat sýnist mér nú ráð [at biðja almátkan guð, at hann verði við þeim um þetta mál, en þat þikkjumst ek vita fyrir, at eigi verðr sverðit Rollants laust, nema jafngóðr drengr (taki til hjaltanna) sem hann var.[10] Þá tók Karlamagnús konungr at biðja fyrir sér langa stund. En er hann lauk bœn sinni, þá reis hann upp ok gékk þangat sem Rollant lá ok tók til sverðsins, ok [lá þá laust fyrir[11] honum. Nú vissi konungr, at þat var satt er Nemes hertugi hafði sagt honum. Hann tók hjöltin af sverðinu [fyrir sakir helgra dóma þeirra er í váru,[12] en hann kastaði brandinum út á vatn fjarri landi, því at hann vissi at engum sómdi[13] at bera síðan eptir Rollant. Síðan gékk hann í valinn ok [leitaði kristinna manna ok fann þá 12 jafningja, ok var hverr lagðr hjá öðrum, ok þat vissi hann at Rollant hafði þat gert.[14]

1) góðra *tilf.* *B*, *b*. 2) [tók kalt *b*. 3) maðr *B*, *b*. 4) [reis konungr upp *B*, *b*. 5) en áðr *tilf.* *B*, *b*. 6) [hugðu at vísu, at þá mundi laust (hugðust fyrir víst þá mundu ná *b*), en þat var (varð *b*) þó eigi *B*, *b*. 7) [eigi mundi sverðit nást af Rollant lifanda, er nú fæst eigi af dauðum, mikit er at missa slíks (slíkan *b*) frænda. *B*, *b*. 8) [konungrinn enn í úmátt *B*, *b*. 9) [hreysta sik. Hann *B*, *b*. 10) [segir hertoginn, at vér heitum á almátkan guð, at sverðit náist, því at eigi man jafnröskr maðr taka til hjaltanna sem Rollant var. *B*, *b*. 11) [lá (lék þat *b*) þá laust í hendi *B*, *b*. 12) [sakir þess at helgir dómar váru þar í *B*, *b*. 13) samdi *B*; stóð *b*. 14) [kannaði ok fann hvar þeir lágu 12 jafningjar, hverr (fann lík þeirra 12 jafningja, hvern *b*) hjá öðrum, ok þóttist vita at Rollant mundi þat sýst hafa *B*, *b*.

40. Síðan lét Karlamagnús konungr taka lík þeirra 12 jafningja ok [sveipa með góðum líkblæjum,[1] ok þá er þat var gert með mikilli vegsemd, þá var [hann íhuga[2] mjök um aðra sína menn, þá er fallnir váru, ok þótti honum [ævar illa,[3] er hann mátti eigi [skilt geta[4] lík sinna manna frá heiðinna manna líkum. [Síðan rœðir Karlamagnús um við Nemes hertoga ok alla menn sína, hversu hann skyldi sinna manna lík kent fá í valnum.[5] Nemes hertugi svarar [honum vel ok vitrliga ok vegmannliga, ok mælti á þessa leið:[6] Þar er til ráða at taka [nú sem optar, er mikill vandi er á, sem er guð allsvaldandi, er bezt kann ok vill. Nú er þat várt ráð þetta sinni, at heita á guð almátkan af öllum hug,[7] at hann gefi oss skilning [á þessum hlut.[8] Þetta þótti Karlamagnúsi konungi þjóðráð[9] vera, sem var, ok vakti hann þar þá alla nótt, [ok alt lið hans með honum, ok lágu á bœnum[10] ok báðu þess almátkan guð, at hann [skuli lýsa fyrir þeim, hverir hvárir væri, kristnir menn þeir er fallnir eru, eða þeir hinir illu heiðingjar er hér hafa barizt í móti þeim.[11] En um morguninn eptir, þá er þeir [váru í öðru sinni tilkomnir at kanna[12] valinn, þá hafði almáttigr guð svá heyrða[13] bœn þeirra, at sú grein var þá ger í millum kristinna manna ok heiðinna,[14] at runnar váru vaxnir yfir líkum heiðingja, en kristinna manna lík [váru öll[15] úhulin, svá sem [þá er þeir váru[16] nýfallnir. Síðan lét Karlamagnús konungr gera margar grafir ok stórar í þeim sama stað er valrinn [hafði fallit,[17] ok lét þar síðan hylja lík sinna manna með moldu, ok lét þar náliga leiða[18] hvern sem var,[19] nema Rollant ok þá 12 jafningja. Ok hina næstu nótt eptir sögðu þeir konunginum guðs englar í draumi, at hverr þeirra var hólpinn er fallit hafði af liði Karlamagnús konungs. Síðan lét konungr gera barir[20] stórar ok vel búnar ok [lét leggja á[21] lík þeirra Rollants, ok 12 jafningja ok höfðingja þá er þar féllu, ok lét hann leggja þeirra lík 12 á börur, ok fór hann síðan ok alt lið hans með honum með mikilli prýði ok vegsemd, ok höfðu á brott með sér þessi 12 lík, ok fóru til þess er þeir kómu[22]

1) [klæða líkklæðum *B*, *b*. 2) [keisarinn íhugafullr *B*, *b*. 3) [afar illa *B*; þat móti skapi *b* 4) [skilja *b*. 5) [*tilf.* *B*, *b*. 6) [svá *B*, *b*. 7) [sem þér erut, herra; en þat er mitt ráð, at heita á allsvaldanda guð (þann er bezt vill *tilf.* *B*) *B*, *b*. 8) [þessa hlutar *B*, *b*. 9) gott ráð *B*, *b*. 10) [*tilf.* *B*, *b*. 11) [skyldi (vildi *b*) þeim birta, hvárir væri kristnir menn eðr heiðnir, þeir sem fallnir váru *B*, *b*. 12) [könnuðu *B*; kannaðu *b*. 13) birta *B*, *b*. 14) í valnum *tilf.* *B*, *b*. 15) [lágu þá enn *B*, *b*. 16) [þeir væri *B*, *b*. 17) [var fallinn *B*, *b*. 18) grafa *b*. 19) lá *B*, *b*. 20) barar *B*; 12 barir *b*. 21) *tilf.* *B*, *b*. 22) [leggja lík Rollants á ok þeirra 12 höfðingja, sem þar höfðu fallit, barar váru 12. Keisarinn hafði sik nú í veg með öllu liði sínu með miklum veg ok prýði, ok fóru nú með líkamina *B*; leggja þar á lík Rollants ok annarra 12 jafningja. Hann hefir sik nú í veg með öllu liði sínu með mikinn veg ok sóma, fór nú með líkamina *b*.

til borgar þeirrar er Arsis[1] heitir. Sú er höfuðborg á landi því er Proventa[2] heitir. Þar váru kennimenn margir ok góðir ok göfgir, ok géngu í móti þessum líkum með mikilli dýrð ok vegsemd. Þar váru [sungnar sálumessur[3] at öllum musterum í borginni. Þar lét Karlamagnús konungr offra at þeim messum er þar váru sungnar [með raust mikilli ok stórmenzku; þat er sagt, at þar var offrat 12 hundruð[4] marka vegins silfrs áðr en lík þeirra væri hulin moldu. [ok svá lét hann moldskeyta[5] miklar jarðir til þess staðar, er þeir hvíla at 12 jafningjar, ok proventur stórar lagði hann þar til, þær er þar fylgja ávalt[6] síðan. Eptir þat fór Karlamagnús konungr heim til[7] sinnar góðu borgar Paris með öllu liði sínu, ok [hafði mikinn hryggleik í hug sínum,[8] þó at fáir fyndi þat á honum.

41. Þá er Karlamagnús konungr hafði heima [verit um hríðar sakir,[9] ok er hann var hvíldr af þessarri ferð, þá lét hann skera upp herör um öll sín lönd ok ríki, ok [lét saman stefna öllum höfðingjum í sínu ríki, ok hverjum manni þeim er vígr var ok vápn mátti bera, þá skyldi til hans koma til heilla ráða hvat er gera skyldi af Guinelun jarli, er sveik Rollant ok þær 20 þúsundir manna er féllu með honum at Runzival. En er þetta lið var saman komit í einn stað, þá var þetta tjáð ok talat af vitrum mönnum ok síðan upp borit fyrir alla alþýðu. Þá þótti öllum mönnum vant at dœma um slíka hluti, ok váru engir orskurðir þessu máli veittir, ok þar kemr enn sem jafnan, at Nemes hertugi verðr upp at standa á þessu móti enu fjölmennu, ok talaði síðan langt erendi ok einkar snjalt. Hann lýkr svá sínu máli, at þat var hans ráð, at Guinelun jarl skyldi deyja hinum leiðiligstum dauða ok hinum versta, þeim er til mátti fást. Þetta sama ráð sýndist Karlamagnúsi konungi þjóðráð ok allri alþýðu. Síðan var Guinelun jarl tekinn or myrkvastofu, þar sem hann hafði áðr varðveittr verit í fjötrum, síðan er Rollant ok lagsmenn hans höfðu farit til Runzivals. Síðan var Guinelun jarl[10]

[1]) Arsers *b*. [2]) Provincia *B*, *b*. [3]) [veittar (gervar *b*) sœmiligar sálutíðir ok fagrar messúr (sálumessur *b*) *B*, *b*. [4]) [12 hundruðum *B*, *b*. [5]) [keisarinn (hann *b*) lagði ok *B*, *b*. [6]) jafnan *B*, *b*. [7]) Frakklands ok kom til *tilf.* *B*, *b*. [8]) [bar mikinn harm í sínu brjósti eptir sinn frænda Rollant *B*, *b*. [9]) [dvalizt nökkura hríð. *B*, *b*. [10]) [boðaði til sín öllum höfðingjum sínum ok vinum, ok hverr sá maðr er vápn mátti bera (vápnum mátti valda *b*) skyldi til hans koma. Ok er þessi lýðr var saman kominn, spurði keisarinn alla vitrastu menn ráða (ráðs *b*) um hvat gera skyldi við Guenelun jarl, er sveik Rollant ok 12 jafningja ok 20 þúsundir riddara með þeim, er féllu at Runzival. En mönnum sýndist vant at dœma um slíka luti, ok varð af því engi orskurðr veittr (þar um *tilf.* *b*). Þá stóð upp Nemes hertogi ok talaði langt eyrendi ok snjalt, en svá lauk hann sínu máli, at hann sagði at þat var hans (at hann kallaði þat sitt *b*) ráð, at Guenelun jarli væri dœmdr hinn

bundinn í millum tveggja hrossa útamra, ok drógu þau hann víða um Frakkland, [til þess er svá lauk hans æfi[1] at ekki bein var fast við annat á líkama hans, ok [váru þau eigi harðari en makligt var.[2] Eptir þat [lét Karlamagnús konungr frelsa sitt ríki ok styrkja ok setja í sín lönd menn til stjórnar ok forráða, en ryðja[3] í brott sínum fjándmönnum[4] ok andskotum.[5] Svá segist at Karlamagnús keisari ætti[6] síðan margar orrostur ok sigraðist í fám, en hélt þó ríki sínu [öllu til dauðadags.[7] Ok lýkr [svá þessum[8] þætti.

leiðiligsti dauði ok hinn versti. Ok þetta sýndist keisaranum (Karlamagnúsi konungi *b*) ráð ok öllum öðrum þeim sem þar váru. Var síðan Guenelun jarl tekinn or myrkvastofu, þeirri sem hann var varðveittr í, meðan keisarinn fór til Runzivals eptir líkama Rollants ok þeirra kumpána ok *B. b.*

[1]) [þar til *b*. [2]) [var þvílíkr hans dauði, sem nú mátti heyra ok makligt var *B*; var hans dauði þvílíkr, sem nú mátti heyra, háðuligr ok honum makligr *b*. [3]) [friðaði konungr (keisarinn *b*) ríki sitt ok skipaði höfðingjum sínum til stjórnar ok forráða, en ruddi *B*, *b*. [4]) *Her ender a.* [5]) úvinum *b*. [6]) átti *b*. [7]) [alt til ellidaga *b*. [8]) [hér Runzivals *b*.

---

# NÍUNDI PARTR KARLAMAGNÚS SÖGU. AF VILHJÁLMI KORNEIS.

Þat er [sagt, þá er Karlamagnús konungr hafði drepit einn ríkan konung ok unnit eina ríka borg ok sterka (at)[1] þessi konungr átti eptir unga konu ok fríða ok[2] tvá sonu unga ok vænliga. Þá var með Karlamagnúsi sá maðr er Vilhjálmr [korneiss hét,[3] hann var hinn ágætasti maðr ok af hinum beztum ættum.[4] Er þat af honum sagt, at engi kappi hafi verit meiri með Karlamagnúsi keisara,[5] nema Rollant frændi hans. Vilhjálmr var svá mikill ok sterkr ok góðr riddari, at [aldri varð hans maki.[6] Karlamagnús elskaði hann mjök, ok nú[7] skipaði hann honum þetta ríki, er hann hafði[8] nýliga fengit, hann gaf honum [konuna þá er áðr var frá sagt, ok alt ríki[9] ok konungs nafn með. Ok eptir þat fór hann heim til Frakklands með sœmd ok sigri. En Vilhjálmr stýrði sínu ríki með mikilli tign ok vinsæld.[10] Nú er þat einn dag, at Vilhjálmr hefir lagt höfuð sitt í kné [sinni frú,[11] ok seig á hann úmegins höfgi. En hon hafði hendr at ok greiddi lokka hans, ok sá hon í höfði hans[12] eina hæru, ok hratt hon höfði hans frá sér ok mælti [eigi vitrliga:[13] Hussun þér gömlum, segir hon. En hann vaknaði við, ok heyrði þat er hon hafði mælt ok sagði: Þat má vera, at [þú hrindir því nú[14] frá þér, er þú mant brátt grátandi aptr biðja. Ok spratt upp. Þá mælti hon: Herra minn, segir hon, þetta var gamanmál. Vilhjálmr mælti: Á þessi sömu stundu skal ek fyrirláta þik

[1]) [nú at segja þessu næst af Karlamagnúsi keisara, at í einni orrostu, þeirri sem hann átti, hafði hann drepit einn ríkan konung ok unnit þá hina sterku borg ok ágætu, sem hann stýrði. *b.* [2]) með henni *tilf. b.* [3]) [hét ok kallaðr korneis *b.* [4]) mönnum *b.* [5]) konungi *b.* [6]) [varla var hans jafningi *b.* [7]) því *b.* [8]) þá *tilf. b.* [9]) [dróttningina þá er konungrinn hafði átta *b.* [10]) sómasemd *b.* [11]) [dróttninginni *b* [12]) honum *b.* [13]) [úvitrliga *b.* [14]) [þar hrindir þú nú því höfði *b.*

ok þína sonu ok alt þetta ríki, því at ek skal héðan af guði þjóna. Þá mælti hon: Ger eigi svá, herra minn. Hann bað fá sér vápn sín ok setti hjálm á höfuð sér ok gyrði sik sverði. Þá tók frúin at gráta. Vilhjálmr mælti: Grát eigi nú, segir hann, uni þér við sonu þína ok sit í ríki þínu; send orð Karlamagnúsi keisara,[1] at hann sendi hingat Reinald bróður þinn at gæta ríkis með þér, enga ván áttu mín til ríkis héðan af. Hann bað taka hest sinn, kysti hann[2] síðan konu sína ok skuldalið, ok [síðan sté hann á bak[3] ok bað engan um sik forvitnast. Ok sátu nú allir með hrygð eptir, ok nú spyrst ekki til hans lengi.[4] Hann kom um síðir til klaustrs suðr í lönd við skóg einn, ok var honum [herbergi búit[5] af forráðsmönnum staðarins. Ábótinn spyrr [hann at nafni, ok segist hann[6] vera útlendr maðr. [Ok er nótt var liðin,[7] segir hann ábóta, at hann vildi[8] þar staðfestast. Ábóti kvaðst hyggja, at hann mundi vera kappi mikill, [ok nú sömdu þeir þetta,[9] at hann mundi þar staðfestast. Váru vápn hans fest upp í mustari,[10] en hann tók munkaklæði. Meðr því, segir Vilhjálmr, at ek hefir mart móti gört guði, þá bjóðumst ek til allrar þjónustu staðarins.[11] Ábóti kvaðst[12] þiggja mundu. [Var Vilhjálmr þar at[13] umsýslu, ok er hann hafði verit þar um hríð, fann hann at þeir[14] höfðu meira hug á veraldar plóg[15] en á réttri regluskipan. Ok Vilhjálmr rœddi[16] þetta við ábóta, en hann reiddist[17] ok kvað hann djarfan vera. Ok fór svá fram [nökkura vetr.[18] En jafnan er gestir kómu, var Vilhjálmr einn saman, fátt rœddu brœðr um [þat, ok ætluðu þeir at vera mundi fyrir illgerða sakir[19] hans.

2. Einn vetr er dró at jólum mælti ábóti til brœðra, at vistafátt væri at staðnum. Tvær leiðir váru til kaupstaðar, önnur löng, en önnur [stutt ok góð,[20] ok lágu á þeirri illvirkjar, en stundin var lítil. Þá mælti Vilhjálmr: Búinn em ek, ef þér vilit mik senda. Brœðr sögðu þat vel fallit. Ábóti svarar: Hví er[21] þat eigi vel, at þú farir? Vilhjálmr mælti: Lofa munu þér, at ek fari leið hvára sem [mér líkar?[22] Ábóti kvaðst þat lofa munu. Lofi þér, segir Vilhjálmr, at ek ver[23] eign staðarins? Þat lofag[24] eigi, segir ábóti. Vilhjálmr mælti: Skal ek[25] standa hjá, ef ek er rændr? Eigi skaltu vígi verja, segir ábóti. Þá mælti Vilhjálmr: Lofar þú mér,[26] ef á

[1]) konungi *b.* [2]) *mgl. b.* [3]) [sté á hest eptir þat *b.* [4]) langa hríð *b.* [5]) [þar fengit herbergi nökkut *b.* [6]) [hvaðan hann væri, en hann segist *b.* [7]) [Um morgininn eptir *b.* [8]) vill *b.* [9]) [þeir sömdu þetta með sér *b.* [10]) musteri *b.* [11]) við staðinn *b.* [12]) þat *tilf. b.* [13]) [Tók Vilhjálmr þá við *b.* [14]) munkar *b.* [15]) plógi *b.* [16]) talaði *b.* [17]) við *tilf. b.* [18]) [nökkur ár *b.* [19]) [þetta, ok ætluðu þat vera fyrir sakir illgerða *b.* [20]) [skemri ok betri *b.* [21]) man *b.* [22]) [ek vil *b* [23]) verja *b.* [24]) lofa ek *b.* [25]) þá *tilf. b.* [26]) at taka í móti *tilf. b.*

mik er ráðit ok dreginn or klæðum, eða[1] skal ek fatlauss á brott ganga? Ábóti svarar: Auðsét er þat á þessi [orð ok[2] eptirleitan þinni, at þú hefir verit ofsamaðr. Lofa ek, at þú lát[3] eigi rænast skyrtunni, en öðrum klæðum skaltu rænast láta. Vilhjálmr mælti: Bið gullsmið þinn gera mér brókabelti ok búa gulli. Ok svá var gert. Síðan var honum fenginn leiðtogi. Þeir höfðu tvá asna ok fara hina lengri leið, þeir kómu til kaupstaðarins ok kaupa[4] malt ok hveiti; en er þeir váru búnir, þá var skamt til jóla, svá at þeir máttu eigi heim komast at jólum, ef þeir fœri [hina lengri leið.[5] Ok er þeir kómu þar sem leiðir skildust, þá mælti Vilhjálmr: Nú munu vit fara hina skemri leið. Leiðtoginn svarar: Nú finn ek, at þú ert œrr, er þú vill [bæði tapa þér ok mér ok öllu því er vit förum með.[6] Vilhjálmr mælti: Þat frá ek í kaupstaðnum, at illvirkjar eru á brottu. Þeir snöru hina skemri leið ok fóru um nóttina ok um daginn, ok urðu við ekki varir, ok fóru svá alt þar til at atfangadag[7] jóla sjá[8] þeir til klaustrans, ok þóttust or háska komnir. Vilhjálmr gékk fyrir ok var í kufli [ok uppi hattrinn,[9] ok hafði staf í hendi sér, en sá er honum fylgdi gékk eptir ok keyrði asnana. Ok er Vilhjálm varði sízt,[10] hleypr sjá er eptir fór upp á hann, ok segir at illvirkjar hlaupa eptir þeim. Vilhjálmr mælti: Gakk fyrir til klaustrans, en ek man bíða þeirra. Þar koma 12 menn albrynjaðir, ok spurðu hverr sá væri hrottinn? Hann nefnir sik ok spyrr, hverr formaðr [þeirra var?[11] Hann nefndist Dartiburt:[12] Ok vilju vér hafa fé þat, er þú ferr með. Vilhjálmr mælti: Þat er staðar eign, ok gefit [fyrir guðs skyld frið,[13] þá man yðr vel takast, ella man yðr skamt til ills.[14] Þá hljóp einn þeirra at honum ok laust með flötu sverði um herðar honum. Þá mælti Vilhjálmr: Hin dýra dróttning María, gæt mín [við freistni, at ek megi standast.[15] Síðan taka þeir af honum alt þat fé sem hann fór með, ok snúa brott síðan.[16] Ábóti stóð úti ok brœðr hans[17] ok sá á. En er illvirkjar ætluðu brott at hverfa, þá mælti Vilhjálmr: Þér erut kynligir menn, takit vistir, er fær hvervetna, en takit eigi dýra gripi, sem þér megit hér sjá. Þeir mæltu: Þú ert víst fól, ok mjök toga tröll tungu or höfði þér. Snúa þeir[18] at honum síðan ok ráða á hann. Vilhjálmr mælti: Gerit [nú eigi svá illa við mik,[19] kneppit mik eigi, kippit heldr upp kuflinum ok takit þar góðan grip. Brókabeltit var spent utan at brókunum. Tekr þá einn[20] ok slítr af honum

[1]) *tilf. b.* [2]) [*mgl. b.* [3]) látir *b.* [4]) þar *tilf. b.* [5]) [hinn lengra veginn. *b.* [6]) [*saal. b*; tapa þér *B.* [7]) atfangsdag *b.* [8]) sá *b.* [9]) [*mgl. b.* [10]) minnst *b.* [11]) [*tilf. b.* [12]) Darziburt *b.* [13]) [því frið fyrir guðs skyld *b.* [14]) *tilf. b.* [15]) [svá at ek megi standast þessa freistni *b.* [16]) eptir þat *b.* [17]) *mgl. b.* [18]) nú *b.* [19]) [vel ok *b.* [20]) til einn þeirra *b.*

brókabeltit, ok mælti: Satt er þat, at þetta er hin mesta gersimi. Ok síðan rak hann um höfuð honum. Þá varð Vilhjálmr reiðr; hann hafði ekki vápn, hann hleypr þá at öðrum asnanum ok sparn á fœti sínum, svá at [þegar féll.[1] Vilhjálmr rífr af[2] bóginn ok hleypr at þeim sem næstr honum var ok laust hann til heljar, ok þegar annan. Þeir snúa[3] undan sem eptir eru ok þegar[4] í skóginn. Þá gengr Vilhjálmr at asnanum ok mælti: Mikla illsku hefir ek drýgt við þessa guðs skepnu, er kvalin er fyrir mínar sakir. Hann leggr þá við bóginn, þar sem verit hafði, ok biðr til guðs. En er hann lauk[5] bœninni, reis asninn heill upp. Hann fór nú heim til klaustrs, ok var þá mið nótt, [þá váru[6] byrgðar dyrr, ok brýtr hann upp hurðir ok sá engan mann. Ábóti ok munkar höfðu byrgt sik ok hugðu, at þessi maðr mundi vera tröll. Vilhjálmr biðr þá sýna sik, en er hann finnr þá, hýðir hann hvern þar sem [hann finnr.[7] Hann fann ábóta í kirkju fyrir altari ok hýddi hann þar, ok mælti: Aumr maðr er sá, er yðr þjónar, þér erut dáðlausir[8] ok ástlausir við guð, ok fœrit[9] þessa ráðning til nytja yðr. Síðan hvarf hann í brott,[10] ok spurði engi maðr til hans.[11]

3. Þá er Karlamagnús konungr spurði brautreið Vilhjálms, varð hann úglaðr, ok setti til [gisla, at hann féngi upp spurt, ok verðr[12] engi víss, [dofnar yfir. Síð ok snemma spyrr hann eptir, ef hann féngi hann upp spurt, ok verðr þat eigi.[13] Harmar [hann þat[14] nú mjök, er kappar hans eru frá honum, Rollant fallinn ok þeir 12 jafningjar, Oddgeir danski á brott ok Othuel, [en hann sjálfr afgamall, Vilhjálmr horfinn. Þá[15] samnast saman úvinir hans ok ætla at hefna sín [ok sinna frænda.[16] Fyrir þessum her gerðist höfðingi Madul konungr, hann var bróðir Marsili konungs, er barðist við Rollant at Runzival; hann dregr saman her mikinn ok fór sunnan of[17] lönd, hann braut borgir en brendi kastala, ok drap menn[18] fyrir Karlamagnúsi konungi.[19] Karlamagnús var þá orðinn svá ríkr, at þessum megin hafs hnigu til hans allir konungar. Ok nú er hann heyrir þessa hersögu, þá sendir hann orð öllum konungum ok hertugum ok jörlum, [ok öllum[20] þeim er ríki héldu af honum. En í annan stað sendir hann menn at leita Vilhjálms bæði á sjó ok á landi, ok geta þeir hann aldri[21] uppspurt hvárki lífs né liðinn. Samnast nú at konungi lið mart, ok stefnir hann her sínum[22] í móti heiðingjum, ok hefir þó miklu minna lið [en þeir.[23]

1) [hann féll þegar *b.* 2) honum *tilf. b.* 3) *saal. b*; sneru *B.* 4) hlaupa *b.* 5) hafði lokit *b.* 6) [váru þar *b.* 7) [kominn var *b.* 8) við menn *tilf. b.* 9) því fœrit nú *b.* 10) þaðan *tilf. b.* 11) langa hríð *tilf. b.* 12) [gislingar, ef hann féngi hann upp spurt, ok verðr þess *b.* 13) [*mgl. b.* 14) konungrinn *b.* 15) [Vilhjálmr horfinn, en hann sjálfr mjök gamall. Fyrir þessa sök *b.* 16) [*mgl. b.* 17) um *b.* 18) mart fólk *b.* 19) keisara *b.* 20) [*mgl. b.* 21) hvergi *b.* 22) þessum *b.* 23) [*mgl. b.*

4. [Þat er upphaf at minni sögu,[1] at karl bjó ok átti sér konu, [þat var suðr í löndum,[2] hann hét Grimaldus, þat var við skóg [eigi langt[3] frá öðrum mönnum. Hann var meiri vexti en aðrir menn, skeggjaðr mjök ok kallaðr heldr blauthugaðr. Hann var vellauðigr at fé, hann átti [mart góðra[4] hesta ok gnótt vápna, hann var vanr sjálfr at halda hjörð sinni til skógar. Ok einn dag er hann var á skóginum, kom at honum maðr, sá var í kufli, ok var höfði hærri en Grimaldus. [Sá maðr[5] mælti: Hverjum er hér at heilsa, segir hann, svá virðuligum? Grimaldus vatt upp[6] skeggi ok sagði nafn sitt, ok spurði móti, hverr hann kveddi.[7] Hann svarar: Víss mantu þess verða síðar, en eigi er mér lofat í dag at segja,[8] en ek er nágranni þinn, ok er skamt í milli bygða okkarra, en[9] hvat er tíðenda í landi? segir kuflmaðr. [Jll eru tíðendi, segir Grimaldus, hræzla[10] á öllu fólki, Karlamagnús konungr er með miklum ótta,[11] bregðast honum höfðingjar, ok þikkir líkligt, at hann muni fara[12] úsigr, ok er[13] falls ván á fornu tré. Hann þreyr eptir Vilhjálm korneis [ok spyrr hann aldri upp,[14] en vér erum kvaddir í flokk þenna, ok þikkir mönnum nú ekki gott at fara. Kuflmaðr mælti: Nauðsyn er á at fara, en þó sé ek, at þér er mjök afhent at fara, en sœmd munu þeir hljóta [er fara.[15] Grimaldus mælti: Þat mæla[16] sumir menn, at konungr[17] þori eigi at berjast, ok þat veit ek, at mér vex mjök í augu at berjast ok skilja[18] við konu mína. Þá mælti kuflmaðr: [Þat skipti megu vit gera; bú[19] mik at berjast fyrir þik, en þú ger mér góðar búsifjar: [ok fúss em ek til þessar farar, svá[20] at varla má ek sofa fyrir. Grimaldus mælti: [Þat vil[21] ek gjarna, því at ek vil[22] lifa lengr. Kuflmaðr mælti: Hefir þú góða hesta ]? Hann svarar: Góða, segir hann. Kuflmaðr mælti: Hefir þú[23] góð vápn? Góð[24] þikki mér, segir Grimaldus. Kuflmaðr mælti: Al nú hestinn á korni hálfan mánað, ok hittumst í ákveðinn dag. Ok svá gerði Grimaldus, ok í ákveðinn[25] tíma hittast[26] þeir. Þá mælti kuflmaðr: Nú man ek leysa líf þitt, en þú seg þetta engum manni. Síðan hleypr hann at honum ok bregðr honum á lopt, ok [nú spyrr hann,[27] hvat er[28] títt um konunginn? Grimaldus svarar: Nú ætlar hann til bardaga. Þá sagði kuflmaðr: Viltu hit

1) [Nú er þat greinanda þessu næst *b*. 2) [*mgl. b*. 3) [einn langt í brott *b*. 4) [marga góða *b*. 5) [Kuflmaðr *b*. 6) við *tilf. b*. 7) svá vegliga *tilf. b*. 8) þér nafn mitt *tilf. b*. 9) eða *b*. 10) [Hræzla mikil er *b*. 11) því at *tilf. b*. 12) fá *b*. 13) þar *tilf. b*. 14) [því at hann getr hann hvergi upp spurt *b*. 15) [sem í þessarri ferð eru. *b*. 16) tala *b*. 17) Karlamagnús *b*. 18) skiljast *b*. 19) [Vit megum gera skipti með okkr, bú þú *b*. 20) [því at svá fúss em ek til þeirrar ferðar *b*. 21) [þau skipti tek *b*. 22) enn *tilf. b*. 23) [eða *b*. 24) Svá *b*. 25) nefndan *b*. 26) finnast *b*. 27) [mælti *b*. 28) nú *tilf. b*.

sama kaup okkart? Já, já, segir hann.[1] Hann gengr þá at hestinum, ok spyrndi á fœti sínum, ok stakaði hann ekki.[2] Síðan kippir hann söðlinum, ok hélt söðulreiðit. Ok þá mælti hann: Þetta er góðr hestr. Síðan lét hann á sik[3] svart skegg, hann setti [hjálm á höfuð sér,[4] ok var ekki bert [á hans andliti[5] nema augun, hann gyrði sik sverði ok tók spjót í hönd sér ok steig á bak, ok var maðr hinn vígligsti. Þá mælti Grimaldus: Vel væri fengit, ef slíkir fœri allir til konungs. Hann kemr[6] nú til hers Karlamagnús konungs, ok ferr í þá fylking, sem Grimaldo var skipat. Keisarinn á þá þing við lið sitt, ok stóð upp á þinginu ok mælti:[7] Kunnigr er góðum mönnum skaði sá ok manna missir, er vér höfum fengit af heiðingjum, ok hefir guð því svá vel skipat, at annarr hefir jafnan upp risit í stað annars, en Rollant höfum vér svá mist, at vér munum aldri bœtr bíða. Nú er ok[8] Vilhjálmr á brottu, er gildastr var[9] af mínum köppum, ok nú er sú ván þrotin, at hann muni aptr koma, því at hans er hvervetna leitat ok spyrst ekki til hans. Nú munu vér [berjast við heiðingja, ok snúm móti þeim sem harðast,[10] ok minnumst[11] á þat, at Kristr lér [oss jafnan hærra lut.[12] Ok ef nökkurr er [sá, at[13] mér kunni at segja til Vilhjálms,[14] sá skal bera af mínum fundi byrði [sína gulls,[15] ok sá er skaða veitir Madul konungi, sá skal þiggja af mér jarls nafn ok dóttur mína, en ef hann er áðr jarl eða hertogi, þá skal hann vera konungr. Dugit[16] drengiliga, ok[17] bíðit annathvárt bót eðr bana. Ok þá fékk konunginum [mikils ok[18] feldi tár. Sleit nú þingit ok var blásit í lúðra, ok bjó hverr sik [sem bezt mátti.[19] Grimaldus var fremstr á hesti ok eggjaði mjök sína sveit til framgöngu. Þat undraðust menn, at[20] hann lét svá framgjarnliga, því at hann var [ekki kallaðr framgjarn maðr.[21] Hann snaraði fram[22] sína sveit í þá fylking, er sjálfr konungrinn var fyrir. Þriðjungi meira höfðu heiðingjar lið. Grimaldus var miklu[23] meiri en aðrir menn, ok[24] hjálm hans bar upp or[25] flokkinum. En í móti merki Karlamagnús konungs lét heiðni konungr bera[26] sitt merki; fyrir [Karlamagnúsi konungi[27] fóru 9 kappar, þeir sem ruddu stig fyrir honum. Grimaldus var í öndverðri fylkingu, ok er saman kómu fylkingar, þá varð orrosta mikil; ok þá laust Grimaldus hest sinn sporum, [en hann hljóp við ok[28] fram, svá at tvegg'a vegna hrökk

[1]) Grimaldus *b.* [2]) við *tilf. b.* [3]) *saal. b*; líma *B.* [4]) [á sik góðan hjálm *b.* [5]) [*tilf. b.* [6]) ríðr *b.* [7]) svá *tilf. b.* [8]) *tilf. b.* [9]) einn *tilf. b.* [10]) [fara til móts við heiðingja ok berjast við þá *b.* [11]) enn *tilf. b.* [12]) [hefir oss hærra hlut gefit *b.* [13]) maðr hér er *b.* [14]) með sannindum *tilf. b.* [15]) [*tilf. b.* [16]) því dugit nú *b.* [17]) *tilf. b.* [18]) [svá mikils, at hann *b.* [19]) [*tilf. b.* [20]) er *b.* [21]) [kallaðr ekki fullhugi *b.* [22]) með *tilf. b.* [23]) því *b.* [24]) at *b.* [25]) öllum *tilf. b.* [26]) fram *tilf. b.* [27]) [keisaranum *b.* [28]) [ok hleypti *b.*

undan. Hann reið fram hjá konungi svá hart ok nær, at hestrinn stakaði,[1] en konungrinn hallaðist[2] á baki ok leit til hans, ok sá hvárr í augu öðrum. Grimaldus nam ekki staðar ok reið svá fram í fylking heiðingja, ok konungrinn brosti. Grimaldus hjó á tvær hendr ok gékk alt fram[3] undir merki hins heiðna konungs ok drap merkismann[4] ok 7[5] riddara aðra, þá er beztir[6] váru.[7] Ok síðan átti hann vápnaskipti við konunginn heiðna, ok lagði þá hvárr til annars, konungrinn lagði til Grimaldum sterkliga, ok[8] brast í sundr spjótskaptit, [ok þá lagði Grimaldus til konungs ok gegnum skjöldinn ok tvöfalda brynjuna, ok gékk utan rifja, er verr var, en spjótskaptit brast í sundr. En svá sátu þeir fast í sínum söðlum, at hvárgi gékk af sínum hesti.[9] Ok þá víkr konungrinn frá ok höggr riddara einn,[10] ok felr sverðit í brjósti honum ok höggr[11] hestinn í sundr. En Grimaldus hafði riðit fram lengra ok drepit tvá riddara, ok nú ríðr hverr móti öðrum. [Ok er Grimaldus sér skaða sinna manna, víkr hann aptr ok þar at, sem heiðni konungr var fyrir, ok höggr þegar til hans á háls honum,[12] svá at af tók höfuðit, ok hendi á lopti, ok kallar[13] at þeir sé yfirkomnir hinir heiðnu. Ok því næst taka þeir at flýja, en konungr[14] rekr flóttann. Síðan víkr hann aptr, ok er hann kemr til valsins, þá er á brott höfuð [þess heiðna konungs,[15] en bolrinn[16] eptir. Hann lætr bera bolinn í landtjald sitt ok segist enda munu orð sín. Margir riddarar kómu þar [ok fœrðu[17] konungi höfuð, ok sögðu þat fylgt hafa þeima bol, en konungr hlýðir ekki á þeirra orð ok kveðst[18] munu kenna þann mann er drap konunginn.

5. En nú er [frá því at segja,[19] at þeir finnast kuflmaðr ok Grimaldus. En er hann sér höfuðit, [þá spurði hann:[20] Hví hafðir þú þetta höfuð hingat. Kuflmaðr mælti: Hér fyrir skaltu fá mikinn sóma. Tak nú vápn þín ok ríð á konungs fund ok bið hann gera þik jarl, ok[21] unn konu þinni, ok ver búinn at fylgja mér, þá er ek kem [út eptir þér.[22] Nú stígr hann á hestinn[23] ok ríðr [í herinn ok til konungs[24] ok mælti: Guð signi yðr, herra: kenni þér höfuð þetta, er átt hefir Madul konungr. Karlamagnús konungr leit á

[1]) undir honum *tilf. b.* [2]) við *tilf. b.* [3]) *saal. b*; undan *B.* [4]) hans *tilf. b.* [5]) 6 *b.* [6]) frœknastir *b.* [7]) af liði heiðingja *tilf. b.* [8]) svá at *b.* [9]) [en svá sátu þeir í sínum söðlum fast, at hvárgi gékk af baki. Þá lagði Grimaldus til konungs gegnum skjöldinn ok tvífalda brynjuna, ok gékk utan rifja, er verr var. *b.* [10]) af Frankismmönnum *tilf. b.* [11]) tók *b.* [12]) [Grimaldus höggr þegar, sem þeir mœttust, á háls hins heiðna konungs *b.* [13]) hátt *tilf. b.* [14]) Karlamagnús *b.* [15]) [konungsins heiðna *b.* [16]) búkrinn lá *b.* [17]) [fœrandi *b.* [18]) segist *b.* [19]) [þar til at taka *b.* [20]) [bliknar hann fast ok mælti *b.* [21]) en *b.* [22]) [til þín; haf með þér höfuð þetta. *b.* [23]) hest sinn *b.* [24]) [á konungs fund *b.*

höfuðit ok setti við bolinn ok mælti: Þetta höfuð á hér at fylgja, eðr hverr er þessi riddari? Ek heitir Grimaldus, segir hann, ok drap niðr höfði. Konungr mælti: Eitt sinn sá ek hest þenna[1] ok góðan riddara á baki, en[2] hvar er sá nú? Grimaldus svarar: Aldri settist annarr riddari[3] á þenna hest en ek, ok engi kom annarr[4] í þenna söðul. En ek beiðumst þess af yðr, sem þér hétuð. Konungr mælti: Vitu þér nú at ek eldumst,[5] ok mjök[6] sígr elli í augu mér, ef þú ert sá,[7] er ek stakaði fyrir, [ok laust tvá kappa.[8] Ok fyrir lygi þína skaltu ríða á brott viðr riddara minn einn, eðr segja mér ella, hverr þetta þrekvirki vann. Þat hugðag[9] um hríð, at ek mundi kenna Vilhjálm. Þá svarar Grimaldus: Sama beiðumst ek, en eigi dóttur þinnar, því at ek er kvángaðr áðr. Konungr bað hann ganga fyrir sik ok leit á hann[10] ok mælti: Hræddr var ek, þá er mér litust[11] þessi augu augu Vilhjálms. Seg nú,[12] hverr þér fékk höfuðit. Hann svarar: Ek tók á lopti, þá er [af fauk[13] bolnum. Konungr þagnaði um stund[14] ok mælti síðan: Verða[15] má at sá þikkist verðr [at ráða,[16] er þér seldi[17] höfuðit, eða hvers beiðist þú af mér. Grimaldus mælti: Jarls nafns ok þeirrar tignar er þar[18] á at fylgja. Konungr svarar: [Ek skal gera þik jarl[19] yfir einni borg. Síðan lét konungr taka upp landtjöld sín, ok ferr nú heim með ágætum sigri. Hann gaf Grimaldo jarls nafn, ok var úríkastr[20] jarla hans.

6. Nökkurum vetrum síðar bar þat til eina nótt, at Grimaldum dreymir, at maðr kom at honum, ok þóttist hann kenna kuflmann. Sá biðr jarlinn upp standa ok fara til konungs[21] ok segja honum, at þit skulut fara í þann sama skóg, er mit[22] fundumst, ok í landsuðr, þar sem þykkastr er skógrinn, þar munu þér[23] finna lítinn stíg, ok er þú kemr[24] or skóginum, þá man vera slétta grœn undir fjallshlíð ok skógr umhverfis, ok gnípa mikil gengr[25] af fjallgarðinum ok dalr undir ok [í dalnum einn[26] hellisskúti, þar munu þér[27] finna lík mitt undir,[28] þar hefig[29] búit hálfan þriðja tug vetra. En ek vil, at Karlamagnús láti gera kirkju,[30] ok fái þar til menn at þjóna, þá ertu frjáls allra skulda við mik. Síðan hvarf hann á brott, en Grimaldus vaknaði ok segir konu sinni drauminn. Hon mælti: Rís upp skyndiliga ok seg konungi, úhæft er at dvelja, segir hon. Þú

[1]) fyrr *tilf. b.* [2]) eðr *b.* [3]) maðr *b.* [4]) *tilf. b.* [5]) mjök *tilf. b.* [6]) fast *b.* [7]) maðr *tilf. b.* [8]) [*mgl. b.* [9]) hugða ek *b.* [10]) um stund *tilf. b.* [11]) sýndust *b.* [12]) mér *b.* [13]) [þat fauk af *b.* [14]) tíma *b.* [15]) vera *b.* [16]) því at ráða, sem ek hefir þar um heitit *b.* [17]) fékk *b.* [18]) því *b.* [19]) [Gera man ek þik jarl víst *b.* [20]) minzt háttar *b.* [21]) Karlamagnús *tilf. b.* [22]) vit *b.* [23]) þit *b.* [24]) fram *tilf. b.* [25]) *saal. b*; gékk *B.* [26]) [*tilf. b.* [27]) þit *b.* [28]) *mgl. b.* [29]) hefir ek *b.* [30]) í þeim stað *tilf. b.*

eggjar úvarliga, ef ek ber rangt upp fyrir konung,[1] segir hann. [ok man ek þá[2] rekinn af ríki. Hann sofnar í annat sinn, ok kemr at honum hinn sami maðr mjök reiðuligr ok mælti: Lítt minnist þú þess, at ek hefi þér gott gört, ok hér fyrir týnir þú lífinu, ef þú ferr eigi. Hann vaknar ok segir konu sinni. Hon biðr hann eigi dyljast við. Hann reiddist orðum[3] hennar, ok sofnar it þriðja sinn, ok sýndist honum þessi maðr þegar,[4] ok var þá allreiðuligr, [ok laust[5] með sprota sínum í höfuð honum, ok mælti: Rís upp nú, vesæll maðr, ok er nú verra en fyrr, skaltu nú ok hafa nökkut fyrir þitt þrálæti, auga þitt annat skal út springa. Síðan hvarf hann í brott. [Ok síðan ríss hann[6] upp skyndiliga ok ríðr með sína menn á konungs fund, ok segir honum greiniliga allan þenna fyrirburð.[7] En konungr bregðr við skjótt, ok fara þeir eptir fyrirsögn[8] jarls, ok fundu þar sem [til var[9] vísat einn mann nýandaðan, ok horfði í austr. Þar var ilmr dýrligr, svá at hverr er þar var hugðist kominn[10] í paradisum. Keisarinn kendi þar sinn kæra vin Vilhjálm korneis ok varð harðla feginn, lét hann þar grafa líkama hans í jörð með miklum veg. Hann lét þar kirkju reisa ok lagði [þar til[11] jarðir miklar ok mörg önnur gœði. Síðan tók hann af Grimaldo jarls nafn ok setti hann ráðsmann[12] at þessum stað, ok þjónaði hann þar guði ok hans kona, meðan þau lifðu,[13] ok margir aðrir. En Karlamagnús konungr[14] fór heim í Frakkland meðr sínum mönnum.[15]

[1]) konunginum *b*. [2]) [þá man ek vera *b*. [3]) við orð *b*. [4]) enn b. [5]) [hann sló *b*. [6]) [En jarl ríss *b*. [7]) atburð *b*. [8]) forsögn *b*. [9]) [þeim var til *b*. [10]) vera *tilf. b*. [11]) [til þeirrar kirkju *b*. [12]) ráðamann *b*. [13]) bæði *tilf. b*. [14]) keisari *b*. [15]) ok stýrði sínu ríki með mikilli virðing ok sómasemd. Hann settist þá í þeim hálfum Frakklands, er Lotháringia heitir. *tilf. b*.

# TÍUNDI PARTR KARLAMAGNÚS SÖGU UM KRAPTAVERK OK JARTEGNIR.

Meðr engu móti er þat gleymanda eðr niðrfellanda, sem skrifat finnst í sannligum letrum af þeirri sœmd ok virðing, sem várr dróttinn Jesus Kristr veitti þessum frægðarfulla keisara Karlamagnúsi þegar hér í heimi fyrir þá armœðu sem hann þoldi fyrir hans kristni alla sína daga, heldr er þat skrifanda ok senniliga[1] segjanda, þó at þat sé eigi glöggliga greint, á hverjum tímum keisarans ríkis þessa hluti hefir til borit sem nú skal segja. Þann tíma sem stýrði guðs kristni herra Leo pávi hinn mikli á dögum Constantini Miklagarðs konungs, föður Leonis, ok á tímum Johannis patriarche í Jórsölum, tók virðuligr herra Karolus keisara nafn yfir Romania. Sturlaðist mjök þar fyrir konungrinn í Miklagarði, at Romani höfðu tekit sér nýjan keisara, því at ævinliga þar til hafði hvergi verit í kristninni[2] keisaradóms sæti[3] nema í Constantinopoli, þar til er Romani fœrðu sik undan oki Grekorum ok gáfu Karlamagnúsi Frakka konungi fyrstum keisara nafn. En alla þá sturlan sem Karolo [fluttist eða veittist af[4] Miklagarðs konungi bar hann með heilagri þolinmœði, ok þat lagði[5] hann yfir, at síðan er honum var sagt, at Miklagarðs konungr óttaðist nökkut at nývorðinn keisari mundi vilja leggja undir sik hans ríki, gerir Karlamagnús sína sendiboða með blíðum bréfum ok stöddum friði, svá at alla þá hrœring, sem áðr var, læknaði hann með sinni góðvild, setti sætt millim londanna [með sönnum friði.[6] En hversu guði líkaði,[7] at Karlamagnús hafði keisari gerzt má lýsast[8] í því sem eptir ferr. Nærri þeim tíma, sem þetta fór fram í Roma, géngu heiðnir menn [enir vestu[9] með stórum herskap á várs dróttins jörð í Jórsölum með svá

[1]) sannliga *b.* [2]) í kristnum sið *b.* [3]) stöðugt *tilf. b.* [4]) [*saal. b*; flutt er eptir *B.* [5]) *saal. b*; sagði *B.* [6]) [*saal. b*; ok var þat öllum friðum *B.* [7]) virðist *b.* [8]) *saal. b*; þar saz *B.* [9]) [enn um sinn *b.*

[miklu megni[1] framar en fyrr, at þeir höfðu náliga fangat[2] landit ok jafnvel Jerusalem, svá at Johannes patriarcha mátti eigi viðhaldast ok flýði hingat yfir hafit til Miklagarðs. Fylgdu honum margir ágætir menn, en tveir af þeim eru nefndir, Johannes prestr af Neopoli ok David erchiprestr af Jórsölum. En því leitar patriarcha til Constantinopolin, at sá Constantinus. er þá ríkti hafði þá[3] 7 sinnum frelsat Jórsalaland af heiðnum mönnum,[4] ok því þikkir herra Jóni þar[5] enn vænast til uppreistar. Er hann tekinn ágæta vel af Garðskonunginum, en þá[6] minkar því[7] mjök þeirra fagnað, hversu hörmulig tíðendi váru at tala, því at svá sem konungrinn veit framar hvat fram hefir farit, skilr hann görla, at heiðingjar hafa þrífaldan styrk um þat fram sem fyrr, bæði [af fjölda manna[8] ok vígvélum, því fær honum mikils áhuga, hvat[9] líkast er fram at fara. Víkr hann nú þangat til trausts sem bezt sœmdi,[10] biðjandi várn dróttin fulltings ok tillögu. Því berr fyrir hann, eina nátt sem hann sefr, at frammi fyrir sænginni stendr[11] maðr ágætliga fagr, hann klappar á sængr[12] pílárinn, sem í þat mark, at konungr skyldi vaka ok heyra hvat er hann segir: því næst kastar hann blíðum orðum á konunginn svá talandi:[13] Constantine, vel gerðir þú, leitar[14] guðs fulltings í þinni þjáning;[15] er ek nú ok sendr at segja guðs[16] vilja. Þú skalt kalla Karolum Frakkakonung með þér at frelsa jörðina. því at hann er umfram aðra menn vígðr ok valinn af guði brjóst ok brynja fyrir heilagri kristni. Eptir svá talat leiðir hann fram fyrir konunginn einn forkunnlegan riddara, hann er með hnígamda yfirbragði ok þó yfirbæriliga ljóss á sitt hörund, augu hafði hann svá fögr sem þá er leiptrar af bjartri stjörnu, skegg hefir hann hvítt ok sítt á bringu niðri,[17] hár á höfði hans glóar fagrt með skínandi hæru, dubbaðr er hann bæði til handa ok fóta, uppi er hann skrýddr með snjóhvítri hringabrynju, en niðr með björtum brynhosum, skjöld hefir hann rauðan á hlið, ok gyrðr sverði með hjölt[18] ok meðalkafla svá vænan, sem þat bæri purpuralit; stórliga sterkligr var þessi maðr, með miklum vexti til hæðar ok allra lima, því var hans spjótskapt bæði hátt ok digrt, ok út af spjótsoddinum sér konungr optar en um sinn at flýgr bjartr eldslogi; annarri hendi heldr hann á[19] gullroðnum hjálmi, en stendr fyrir konunginum með beru höfði. Hinn ungi maðr talar þá til konungsins: Sé hérna, þenna valdi guð ok vígði, ok virð með sjálfum þér, hvat hann man mega

1) [*saal. b*; miklum megin *B*. 2) fangit *b*. 3) *mgl. b*. 4) *tilf. b*. 5) *saal. b*; þat *B*. 6) þó *b*. 7) þat *b*. 8) [at fjölmenni *b*. 9) *saal. b*; hvar *B*. 10) samdi *b*. 11) ungr *tilf. b*. 12) sængar *b*. 13) *tilf. b*. 14) er þú leitaðir *b*. 15) þröng *b*. 16) þér hans *b*. 17) niðr *b*. 18) hjalt *b*. 19) *saal. b*; at *B*.

með síns herra fulltingi. Ok án dvöl er sýnin brott tekin, en konungrinn vaknaði ok veit gerla hvat hann skal gera; því þakkar hann guði þessa vitran ok kynnir hana herra Jóni. Því eru[1] nú samin öll ráð, at þeir skuli[2] skrifa til Karlamagnúsi keisara.[3] Biðr fyrst[4] herra Jón, at konungrinn sjálfr muni samsetja bréfit ok skrifa sinni hendi upp á þann málshátt, sem hann vissi vel gagna Romanis. Konungrinn gerir svá, setr í fyrstu alt í[5] fögrum skilningi ok samblandinni hrygð, hversu gröf lausnara várs ok hin heilaga borg Hierusalem er haldin af heiðnum dómi, ok sjálfr patriarchinn á flótta kominn. Sem þess háttar efni er alt úti undir kveðjusending ok nafni Johannis, leggr konungr með undir sínu nafni við enda bréfsins alla þá vitran, sem áðr er lesin, ok eptir þat leggr hann til eina klausu ok fim versa með latínu:[6] Fagna þú í dróttni ok staðfestz í hans lofi, haf þik frammi eptir hans boði, því at jartegnir orðum æðri hefir hann sett fram fyrir þik; veri guð með þér ok sœmi þik makligri tign, gyrðandi lendar þínar með réttlætis linda, ok prýði höfuð þitt með eilífri kórónu. Svá er lyktat bréfit ok innsiglat, valdir síðan legatar til at bera þat Karolo konungi. Eru þeir legatar fyrrnefndir sira Jón Neopolites ok David Jerosolimites ok aðrir tveir með þeim Jsaach ok Samuel, báðir ebreskir. Þeir verða vel reiðfara, létta eigi fyrr en þeir finna Karolum konung í sjálfri Paris á Frakklandi. Ok sem hann hefir þat[7] uppbrotit ok yfirlesit, tárast hans háleit góðfýsi einkanliga fyrir gröf dróttins ok aðra merkisstaði hans hérvistar. Ferr hann svá með bréfit, at hann býðr Turpin erchibyskupi at skýra þat fyrir öllum lýð, á þá[8] tungu sem hverjum [má verða[9] skiljanligust. En er Franzeisa fólk heyrir þá hörmung, stendr alt um konunginn óp ok kall með einni bœn, at hann rétti sína hönd ok steypi guðs óvinum. Þurfti þar ok eigi mikils við, því at [konunginum var viljugra en nökkurum öðrum[10] gott at gera.

2. Síðan sendir hann boð um alt sitt ríki með almenning, at hverr skal sik búa, sá er vápn má bera, en sá er sik dregr undan þessarri herferð, skal vera með sonum sínum sem þrælborinn maðr,[11] ok verða sekr við krúnuna fjórum skærum[12] peningum á hverju ári. Svá mikill herr kom hér saman með riddaraligri mekt ok almúga, at þvílíkan styrk hafði Karolus aldri fengit fyrr í nökkurri för. Svá mikil guðs miskunn gengr með þeim um torbreytan[13] veg lands ok lagar, at engrar mótbáru getr bókin, fyrr en þeir koma yfir hafit ok upp í Jórsalaland. Verðr þá fyrir þeim skógr mikill, var

1) *saal. b*; er *B*. 2) skulu *b*. 3) konungi *b*. 4) *mgl. b*. 5) með *b*. 6) þat alt saman má svá norrœna *tilf. b*. 7) bréfit *b*. 8) *saal. b*; hverja *B*. 9) [yrði *b*. 10) [konungrinn var viljugri en nökkurr annarr *b*. 11) *saal. b*; væri *B*. 12) *saal. b*; sketum *B*. 13) torbreyttan *b*.

þat meinlig mörk með mörgum dýrum grimmum, sem eru gammar ok birnir, leones ok tigres ok önnur fleiri. Herrinn hefir engan vissan leiðsagara um skóginn, [ok hugsar konungr,[1] at þeim muni af taka sama dags. En þat ferr eigi svá, því at yfir mörkina er eigi miðr[2] en tvær dagleiðir. Náttar nú at þeim ok villast myrkrum,[3] ok býðr konungr at setja [landtjöld sín,[4] segir þá at hann vill eigi rekast í myrkrum. En herrinn liggr umbergis undir berum himni. Konungr vakir um náttina ok syngr psalma sína. Ok þann tíma sem hann las[5] capitulum: Legem pone, ok þenna versa: Deduc me in semita mandatorum tuorum, klakar einn fugl undir tjaldstrénu,[6] þar rétt upp[7] yfir sem konungr liggr undir niðri. Hans rödd er svá hvell, at heyrir um allan herinn, ok hverr maðr vaknar við. Konungr heldr fram lestri sínum alt þar til sem[8] líðandi psalmabókinni segir hann þenna versa: Educ de custodia [mandatorum tuorum[9] animam meam ad confitendum nomini tuo. Sem hér [er komit, stendr[10] mjök lýst af degi, tekr nú fuglinn til annat sinn ok œpir hátt, sem hann veki allan herinn; heyrist nú hans rödd með skýrum orðum móti fugla náttúru. Hann segir svá tvisvar til konungs: Franseis, hvat segir[11] þú. Við þetta klæðist konungrinn. Ok sem herrinn er búinn, sjá þeir allir, at sjá[12] litli fugl, sem klakat hafði, býðr sik til leiðsögu, flöktir hann fyrir forntroðinn stig, ok þar eptir ferr allr herrinn at boði konungs, þar til er þeir kómu[13] á skýran þjóðveg. Eru þeir þá greiddir sem þurfti. En svá segja pílagrímar, at eptir þessa umferð Karlamagnús konungs sé fuglasöngr á þeirri mörk með skiljanligum orðum. Eigi greinir bókin hvílíkan styrk Grikkja[14] konungr hafði[15] til með honum at frjálsa Jórsalaland, en þat er vitat, at svá harðan herskjöld bar Karlamagnús yfir landit, at hann hratt heiðingjum[16] frá herfangi til helvítis, drap ok deyddi þann auma lýð, svá at erfðajörð[17] almáttigs guðs skipar hann aptr í bezta punct er verit hafði. Í þeirri ferð vitjar hann Hierusalem með [lítilæti dýrkandi[18] guð, þaðan snýr hann norðr um haf til Miklagarðs. Í[19] því má þat vel skiljast, at Grikkir[20] hafi verit í sömu herferð,[21] því at eigi mundi Karlamagnús konungr úboðinn fara til Miklagarðs; var þar herra patriarchinn[22] fyrir. Leggjum vér þat fyrir lið at greina, hversu borgin þaut með hátiðligri gleði í þvílíks manns tilkvámu ok öllum fagnaði. Ok eptir nökkura daga sýnir sá blezaðr herra sína

[1]) [því konungr hugsar *b.* [2]) minnr *b.* [3]) vegarins *b.* [4]) landtjald sitt *b.* [5]) les *b.* [6]) *saal. b*; tjaldstreen *B.* [7]) uppi *b.* [8]) í *tilf. b.* [9]) [*mgl. b.* [10]) [stendr, er *b.* [11]) sefir (!) *b.* [12]) sá *b.* [13]) koma *b.* [14]) Girkja *b.* [15]) lagði *b.* [16]) *saal. b*; höfðingjum *B.* [17]) erfðarjörð *b.* [18]) [lítillætis dýrkan við *b.* [19]) Ok *b.* [20]) Girkir *her og senere b.* [21]) herför *b.* [22]) patriarcha *b.*

hœversku, biðjandi herra patriarchann gefa sér orlof til heimferðar. Sem þat er gert, hefir Grikkja konungr stóran viðbúnað at leiða konunginn út, því at fram á eitt pláz er sett[1] fyrir hann svá mikil þessa heims dýrð, með gull ok dýra steina, klæðakyn ok allra handa hluta, sem elskarar[2] þessarrar veraldar [mundu vilja[3] girnast lífi framar. En því [gerði hann[4] svá, at Grikkjum var [hann úkunnigr,[5] sem brátt prófast; því at þegar í stað sem gjafirnar váru[6] framlátnar, víkr keisarinn[7] frá þegjandi ok kallar sitt stórmenni sem á ráðagerð, svá til orðs[8] takandi: Hvat leggi þér til ráða, góðir höfðingjar, hvárt mér[9] skulum þiggja þessar gjafir? Þeir váru fljótir í andsvörum, því at þeir kunnu vel konungs skaplyndi, þó at hann spyrði þá at: Þat er várt ráð, segja þeir, at mœða sú er vér frömdum fyrir guðs ást at eins, bíði hans sjálfs en eigi dauðligs manns. Við þessa tillögu varð keisarinn harðla feginn, fyrirbjóðandi sínum mönnum at sjá þetta glys. Hér af angrast Grikkja konungr ok öll hans hirð, ef útleiðsla keisarans vill ekki þiggja, ok hér kemr með ráði stöddu, at hann verðr þröngdr til með sœring[10] í nafni dróttins, at hann þiggi einshverja gratiam. Velr þá konungr þat sem honum sómdi bezt, at honum veittist heilagr dómr nökkurr af píningartáknum dróttins. Sem þat er játat með fagnaði, skipar patriarca þriggja daga föstu öllum Franzeisum; þar í móti eru[11] kosnir 12 virðuligir menn af Grikkjum at standa ok styrkja þjónostuna, ok þeir skyldu fasta með Franzeisum.

3. Á þriðja degi föstunnar gerir Karolus játning sína fyrir heimoligum skriptafeðr sínum Ebrono[12] byskupi. Ok sem dagrinn kemr, skriptast allir virðingamenn í höfuðkirkju staðarins. Eru þá settir tvennir kórar at syngja letanias, svá at aldri falli lofit, meðan þjónostan gerist. Höfuðsmaðr fyrir embættinu, at taka út helgan dóm af sinni hirðslu, var dýrligr faðir Daniel byskup Neapolitanus,[13] ok sem hann lýkr upp þá techam,[14] sem þyrnikrúna[15] dróttins várs var geymd í, gengr svá mikill ilmr um musterit, at allir nærverandis menn hugðu sik vera í paradiso; þar með fór þat ljós, at allir þóttust hafa fengit himneskan klæðnað fyrir þá birti er á stóð. Sem lausnari várr hefir svá byrjat sér til sœmdar, fellr Karlamagnús flatr til jarðar, biðjandi várn herra at hann muni endrnýja stórmerki sinnar pínu, ok án dvöl eptir hans bœn kemr dögg af himni niðr yfir þyrnitréit, svá at þat vöknar alt ok klöknar í augabragði til nývorðins ávaxtar, svá at þegar í stað blómgast þat með fögrum

[1]) fram *tilf. b.* [2]) elskari *b.* [3]) [mundi *b.* [4]) [gerðist hér *b.* [5]) [úkunnr Karlamagnús keisari *b.* [6]) eru *b.* [7]) hann *b.* [8]) orða *b.* [9]) vér *b.* [10]) sœringum *b.* [11]) váru *b.* [12]) Ebroino *b.* [13]) Neopolitanus *b.* [14]) thecam *b.* [15]) þyrnikóróna *b.*

flúrum. Tók þá byskup Daniel tilsamdan tesaur ok sníðr þau nýu flúrin[1] niðr í þat tréker, fagrliga fóðrat innan, sem Karlamagnús hafði látit til búa. En meðan byskupinn fremr[2] þat blezaða verk, er þat greinanda, hversu dróttins dýrð fór þá æ ok æ vaxandi. Sem blómin spruttu, kom sá ilmr at nýju, at allir sjúkir menn urðu heilir í kirkjunni; var sá[3] millum annarra, at um 20 ár[4] ok fjóra mánaði var mállauss blindr ok daufr, en nú grœðir dróttinn hann svá at heilu, at við fyrsta ilm, sem krúnan tókst út, fékk hann [fagra sýn; en þá er blómin spruttu, fékk hann[5] málit; en þá er byskupinn bar járn á, þá hann glöggva heyrn. Því er dásamanda eigi lítt, hverr paradisus þá var[6] á jarðríki, er svá geislaði guðs miskunn. Ok er byskupinn hefir sniðit flúrin niðr í kerit, fær hann þat sama Karolo konungi; hann hefir til reiðu drifhvítan dúk eðr glófa ok lætr flúrin[7] þar í koma; fær hann byskupinum aptr kerit, því at nú skal hann þiggja af snið[8] þyrnisins. En hann heldr meðan á öðrum glófanum með flúrunum, góðfúss í guði sem tárin váttuðu. Ok sem þyrnigjöfin réttist at keisaranum, hefir hann til reiðu annan glófann, en vill þann rýma láta undan, sem með flúrunum var, ok hyggst at fá hann Ebrono[9] byskupi skriptafeðr sínum. Nú ferr svá í millum þeirra, at hvárgi sér annars gerð fyrir tárum; konungr lætr lausan glófann, en erchibyskupinn tekr eigi með, ok eigi því heldr fellr hann til jarðar, heldr stendr hann í lopti um eina stund dags. Prófast þat vel þann tíma sem konungr réttir annan glófann at erchibyskupinum, því at nú sér hann ok báðir þeir fyrra glófann, hversu [guð almáttigr[10] heldr hann[11] upp. Þessu næst er þat greinanda,[12] at svá sem konungr lætr flúrin or glófanum niðr í þá hirðslu, sem fyrir[13] var búin, snúast þau með himneskri dýrð ok blezan upp í mannam, þat köllum vér himnamjöl. Dýrð sé várum herra Jesu Kristo, er fyrir manna augum sýnir svá miklar jartegnir í lífligum ávexti; því at í fyrra stað greinir bókin, at þá er byskup sneið flúrin, blómguðust þau meir ok meir í staðinn, en nú þetta annat með allskyns heilsugjöfum, at þau snörust í mannam, sem áðr var[14] sagt. Sem hér stendr, kemr gnýr mikill [yfir fólkit ok[15] musterit, því at almúgi staðarins er á ferð kominn sem með herópi fram at kirkjunni ok þessu orðtaki: Hér er nú páskadagrinn, hér er upprisa dróttins, því at sá ilmr er héðan gengr út, hefir inn leitat í hvert hús ok hreysi um allan staðinn, með þeirri heilsugjöf at 300 manna sjúkra renna nú kátir at lofa guð. Enn þiggr Karla-

1) flúr *b.* 2) framdi *b.* 3) einn *tilf. b.* 4) ok 3 ár *b.* 5) [*tilf. b.* 6) varð hér *b.* 7) flúrit *b.* 8) sjálfs *tilf. b.* 9) Ebroino *b.* 10) [guðs almætti *b.* 11) honum *b.* 12) dýrðarverk dróttins segjanda *b.* 13) *tilf. b.* 14) er *b.* 15) [undir *b.*

magnús blezaðr fleiri gjafir dróttins, því at nú lýkr Daniel upp þat alabastrum, er í geymdist nagli dróttinligrar pínu,[1] þann sama offrar hann keisaranum, þar með part af krossi dróttins, reifalinda hans, [þar til sveitadúk hans[2] ok serk várrar frú[3] guðs móður Marie, ok handlegg Simeonis er bar várn dróttin. Nú kann vera, at nökkurum skýrum manni þikki ísjávert, hví bókin setr, at hin dýrustu tákn lausnara várs herra[4] væri geymd í Miklagarði, en eigi í Jórsalalandi. En þar er opinber skynsemi til, at heilagir dómar dróttins væri fluttir undan ágangi ok úfriði heiðinna þjóða. Leystist[5] svá Karolus af Grecia, at margr mátti guð lofa fyrir hans þarkvámu, því at sá drakk nú kátr, er áðr syrgði í kör. En hversu margar jartegnir urðu í hans veg, er eigi várt at rita, því at í einum kastala er hann dvaldist um 6 mánaði urðu heilir 50 manna, ok einn reistr af dauða. En er hann kemr heim í Frans, veir hann sem optar til frábærra sœmda þann stað er heitir Aqvisgranum, þat kalla sumir menn Achis eðr Tachin. Í þenna stað flytr hann helga dóma.[6] Urðu þá enn at nýju svá miklar heilsugjafir þar í staðnum, sem bókin greinir nökkut af, en sumt segir hon útalit, blindir menn ok riðusjúkir váru í sínum fjölda úreiknaðir, óðir menn 12, líkþráir menn 8, kararmenn 15, haltir menn 14, handlami 50, hryggknýttir 50 ok tveir, brotfeldir 20,[7] at frátöldum þeim er umbergis sátu af nálægum stöðum. Nú með því at várr dróttinn[8] lýsti svá kristni sína fyrir þessa helga dóma, skipaði svá heilagr faðir Leo pávi með vild[9] Karoli konungs ok samþykt Achillei Alexandrini byskups ok Theophili Antioceni, ok margra annarra byskupa, ábóta ok lærðra manna, at á síðasta Jdus dag Junii mánaðar á hverju ári skyldi [einkanliga ok hátíðliga[10] sœmd veitast þessum helgum dómum. Styrkti svá dróttinn þessa setning, at á sama byskupaþingi reis maðr af dauða. Víkja svá bœkr til, at Karolus konungr miðlaði ríki sínu af þessum guðs ástgjöfum, sem segir í Maríu jartegnum, at hann gaf serk várrar frú[11] í Carnotum, en himnamjölit er mér[12] gátum, gaf hann vin sínum Dionisio í Sendenis, ok hyggja margir þat vera tilkomit af því manna, er dróttinn gaf Jsraelitis. Í Achis reisti Karlamagnús virðuliga Maríu kirkju, er hann kallaði Mariam rotundam, þat musteri er [undarliga með frábærum hætti[13] smíðat, kringlótt í sínum vexti með forkunnligum[14] hagleik.

4. Svá segir Speculum Historiale, at á dögum þessa Karoli blómgaðist [í kristninni[15] virðuligr byskup Sallinus at nafni, þeirrar

[1]) píningar *b.* [2]) [*tilf. b.* [3]) frúr *b.* [4]) *mgl. b.* [5]) Leysti *b.* [6]) dómana *b.* [7]) 60 *b.* [8]) Jesus *tilf. b.* [9]) ráði *b.* [10]) [einkanlig ok hátíðlig *b.* [11]) frúr *b.* [12]) vér *b.* [13]) [frábærliga *b.* [14]) undarligum *b.* [15]) [*mgl. b.*

borgar er Ambianis[1] heitir. Þá borg reisti forðum Antonius keisari, öðru nafni Pius, ok gaf henni[2] nafn af þeirri móðu er féll í nánd, ok kallaði hana Lambon. En síðan sem Gracianus son Valentiniani tók ríki, setti hann sitt öndvegi í þeirri borg, gefandi henni nafn annat af þeirri grein at rennandi vötn umkringdu staðinn, ok því kallaði hann hana Ambianis. Í þessarri borg var Sallinus byskup, kraptamaðr mikill, svá at hann gaf blindum sjón,[3] heyrn daufum, en tungu mállausum. Honum samtíða var í Ambianis sá konungr er hét Hisperich, hann lézt vera kristinn maðr, en var einn Arianita reyndar, sem í því prófaðist, at hann tók upp eina nýjung, er hann hugði kristna menn eigi skyldu við sjá, at maðr skyldi játast at[4] trúa á guð einn, en þat kvað hann þarfleysu at játa þrjár persónur [vera guð[5] í heilagri þrenningu, föður ok son ok heilagan anda, ok þetta segir hann Sallino byskupi [sínum munni munu[6] samþykkja. En er þat flyzt af orðum hans,[7] segir byskupinn[8] því síðr samþykkja skulu, at ef hann náir því letri, sem þar er um gert, skal hann skera þat í sundr ok brenna í eldi, því at guðs maðr sá, at fundning[9] þessi reis af gömlu grunni[10] villunnar, því at Arianite starfa þat at minka várn grœðara Jesum, ok kalla hann lægra í náttúru en guð föður ok helgan anda, ok[11] vildi hann vansignaðr konungr, at úgreindar væri þrjár persónur, at eigi sýndist guðs son makligr jafnri sœmd sem faðir ok heilagr andi.

En hversu afskaplig villa þat er, gerði ljóst byskup einn Amphilotus at nafni Jconiensis kristni, hann var á dögum þeirra feðga Theodosii ok Archadii konunga. Þessi byskup var skörungr mikill ok klerkr geysi[12] góðr, því at hann samsetti með latínu líf ok jartegnir hins heilaga Basilii Cesariensis episcopi. Mikit hatr ok heilagt hafði hann til Arianitas,[13] svá at þeirra uppgang vildi hann mýgja eptir megni, ok þess eyrendis er lesit at hann fœri á fund Theodosii keisara, at hann lögtœki fyrir alt Rómverja vald, at engi stórþing né breiðar stefnur héldi þess háttar villumenn, því at byskupinn flytr, at þeirra samkvámur eru eigi annat en meingerðir við guð. En sakir þess at með konunginum var þat í tvennu lagi, rétt trúa ok mikil hyggendi,[14] sýndist honum í fyrstu sem þetta væri grimdarkyn at bægja[15] þeim svá mjök, veittist eigi þat er beðit var, ok því snýr byskupinn brott þegjandi ok býst þegar til brottreiðar[16] af hans[17] garði. Sem hann er búinn, gengr hann í þat herbergi sem báðir samt konungarnir eru fyrir, ok þar kominn hneigir hann Theo-

[1]) Ambionis *her og senere b*, [2]) *saal. b*; hans *B*. [3]) sýn *b*. [4]) *mgl. b*. [5]) [*mgl. b*. [6]) [muni [ljúft] at *b*. [7]) konungs *b*. [8]) hann *b*. [9]) funding *b*. [10]) föður *tilf. b*. [11]) því *tilf. b*. [12]) *mgl. b*. [13]) Arianita *b*. [14]) hógværð *b*. [15]) *saal. b*; hegia *B*. [16]) brottferðar *b*. [17]) konungs *b*.

dosio konungi með allri hœversku, en lætr eigi sem hann sjái Archadium, snúandi svá til ferðar. Theodosius hugsar þat vorðit fyrir vangeymni byskupsins, ok kallar eptir honum, hví hann gengr svá. Byskupinn víkr aptr í sömu[1] sporum, ok spyrr hvat honum mislíkar. Konungr segir þá, at hann heilsaði eigi né kysti son hans. Byskupinn svarar: Ek sœmdi yðr, ok þat vinnr honum þörf, því at [þú ert[2] faðir hans. Konungr kvað[3] þann engan sœma sik, sem eigi virðir Archadium [konung með verðugri[4] tign eptir hans skipan. Byskupinn lætr nú upp ganga hljóðin: Já, já, segir hann, [ef þér[5] dauðligum manni þikkir minkan í, at son þinn er eigi tignaðr konungligri tign sem sjálfr þú, hversu man þá [fara eðr[6] líka eilífum guði feðr, ef hans eingetinn son, honum samjafn í allri dýrð, skal missa sinnar virðingar í vantrú Arianorum. Við svá háleita skynsemd þagnar keisarinn,[7] því at í eigit brjóst skildi hann, hversu röksemdin var rétt: gerir síðan boð um alt sitt ríki, at guðs úvinir Ariani skulu engar vegtyllur hafa, ok hvat annat í hverri grein sem byskupinn hafði flutt þeim til minkanar.

En nú þessu næst skal aptr snúa til Sallinum byskups, því at honum stóð á aðra hönd Amphilotus byskup at fyrirlíta ok fóttroða Arianos með sínum góðum lifnaði. Hafði Sallinus byskup heita góðfýsi at lýsa andir kristinna manna með sínu predicanarembætti, ok því fór hann víða lands um heruð at afla guði almátkum fagran ávöxt. Hvar af svá er lesit, at[8] fyrsta páskadag var hann í þeim stað er Valent heitir, þat er konungsgarðr ok eign Karlamagnús konungs. Ok fyrir þá sök at konungr sat þar eigi utan á vísum[9] tímum, skipar hann staðarins vald þeim riddara er Abbon hét. Þessi Abbon gerir aðra skipan út af sér, ok fær þeim manni forráð staðarins er Geirarð hét. Í þessum konungsgarði var vegligt musteri hins heilaga Martini, ok þar söng Sallinus messu á sjálfan páskadaginn. En af honum er þat einkanliga segjanda, at þann skrúða sem [hann bar í[10] guðs embætti, fágaði hann umfram aðra hluti,[11] því at hann var bæði drithvítr ok dreginn með gull, einkanliga þat cingulum sem byskupsins tign heyrir til at bera var alt ofit með rautt gull ok sett dýrum gimsteinum. Svá dýran skrúða bar hann með sér í hverja ferð, ok með þeim syngr hann á páskadaginn. En þó at þar kœmi saman margir í einn stað, váru eigi allir með einum hug, sem [síðar prófaðist;[12] því at optliga berr svá til, at af því sem góðr batnar til betra, spillist vándr til áfellis hins verra. Sem úti er messan ok byskup afskrýðist, gengr til hans ræðismaðr

[1]) sömum *b.* [2]) [þér erut *b.* [3]) segir *b.* [4]) [með konungligri *b.* [5]) [af því *b.* [6]) [*mgl. b.* [7]) konungrinn *b.* [8]) á *tilf. b.* [9]) vissum *b.* [10]) *saal. b*; herberge *B.* [11]) byskupa *b.* [12]) [síðan prófast *b.*

